Mag. Joons Þorkels Sonar Widalins
(Fyrrum Biskups i Skal-hollts Stifti),

# Huss-Postilla,

Innihalldande
Gudrækelegar

# Predikanir

yfir øll Hatijda og Suñu-daga
Gudspiøll.

---

## Fyrre Parturen,

Fra Fyrsta Suñudege i Adventu, til Trinitatis.

Editio IX.

Baader Partarner til samans Innbundnir seliast 105. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hiallta-Dal,
Af Petre Joons Syne, 1776.

HINNE

# Dijrkeyptu JEsu Christi Brwde
# Christilegre Kyrkiu
GUDS J JSLANDE,

## Minne Hiartkiærre Moodur, Oska eg Fridar og
Heilla af sijnum Uñusta.

## Elskulega Mooder!



ÞAD er bæde Guds Bod og vidteked hia øllum Þioodum, ad Børn eru skylldug ad ala Forelldra sijna, ej þau gete a. Enn fatækur er eg og vanburda til þess, Mooder, ad ala þig, jafnvel þoott ad eingum af Sonum þijnum sie þad skylldara eñ mier; Þu ert og ecke i þvi mijns Lids Þurfe, þvi Fader þijns Elskuga og allra hañs Brædra, hefur Enda bunded a sijn Heit, er ritud standa hia Esaiam i Fertugasta og Nijunda Capitula: Konungarner skulu vera þijner Fooster-Fedur, og þeirra Høfdings Kvinur þijnar Fooster-Mædur: Hvors Naaduga Fyrirheitis ad þu ert ordeñ Hluttakande, eins vel og hver Þiood i CHRJSTiñdoominum, og i Krapte þessa Fyrirheitis hefur hann giefed þier, epter Raadstøfun Konunga vorra, marga Gudhrædda og Vijsa Kieñendur og Forstiooara, sem vaka yfir Saalum Barna þiña: Eñ þoott eg sie þeirra veikastur, og kuñe ecke miklu vid þeirra Verk ad bæta, samt veit eg Skylldu mijna ad þocknast þier i þvi eg kann og maa, epter þeirre Naad sem Gud hefur gefed mier. Eg les i Exodi Bookar Þrijtugasta og Fiñta Capitula; Ad þegar Gud baud Moysi ad laata giora Vitnisburdar Tialldbwdena, þa hafe hann skipad, ad til heñar skyllde leggia hver eirn epter þvi sem þeir sialfkrafa villdu, sumer Gull, sumer Sylfur, sumer Kopar og dijrmæt Klæde og Steina, eñ adrer Geita Ull og

Hrwta Skiñ, med odru fleyra sem þar uñgietur og var i miña Gillde. Medal þeirra Sijdurstu reikna eg mig, og mæ vel reikna, Søkum Fafrædis mijns og Oœrdugleika; Eñ fyrer þvi ad eg veit, ad þinn HErra allijtur meir Viliañ eñ Mætteñ, þæ voga eg ad biooda þier epterfylgiande Predikaner i Packlætes Miñing, ad eg hafe leiged, og ligg eñ nu æ Brioostum þier. Þigg þvi, Mooder, þeñañ lijteñ Skeink af hinum aumasta Þienara þijns Brwdguma, og þijnum Miñsta Syne, sem eil æstuuda ad fiñast

Skaalhollte,
Þañ 7. Augusti,
Anno 1717.

Honum Trwr, og þig
Af Hiarta elskande allt
til Daudans.

Jon Thorkelsson
Widalin.

## Til Lesarans.

Epter þvi ad Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Herra Biskupenum, Hr. Steine Jonssyne, hefur Naudsynlegrar Ordsakar vegna þocknast, ad laata setia þær Citatiur, sem æ Spatiuñe stoodu i þeirre skrifudu Book, sem þesse er prentud epter, iñ i Predikanernar, þa vil eg hafa Lesarañ hier med advaradañ, ad nær þessar Predikaner Openberlega Lesnar eru, þa skule hlaupa yfer Citatiurnar, so þær ecke lesnar sieu. Citatiur eru ei giordar til þess, ad þær skule lesast i eirnre Predikun, þvi þær uppehallda Lesaranum og giora Lestureñ Laangsamañ, helldur til þess, ad hver sem vill, kuñe ad siæ epter þvi sem Citerad er af Ritninguñe, og bera þad samañ, þegar hañ les wt af fyrer sialfañ sig. Þetta sijnest mier Naudsynlegt ad gieta uñ vid þa sem lesa þessa Book. Befalande alla Lesendur og Heyrendur hier med, Guds Heilags Anda Adstod og Upplijsingu.

Og vil alltijd fiñast, epter Skylldu miñe,

Skaalhollte,
Dag 9. Martii,
Anno 1718.

Þeirra Viliugur Þienare
J ollu þvi sem mier er af
Guds Alfu tiltrwad
Jon Widalin.

## Bæn fyrir Predikun.

Þu Stoore Konungur allrar Veralldareñar, sem bijr i þvi Lioose er eingeñ fær tilkomest: Vier synduger Ormar skrijdum æ þessare Blessadre Stundu upp wr voru Dupte fram æ Skor þiña Foota, til ad Fridmælast vid þijna

Guddoomlega Hatign, er vier med saurugum Verkum og Illgiordum vorum so þrælega moodgad hofum, allt i fra Barnæsku vorre. Eñ æ oss, O Rotteñ! vier erum so vanmegna under Byrde Syndaña, ad þegar vier gyrnunst ad lypta oss upp i Hæðernar til þijn, þa draga vor eigeñ Saurende oss nidur aftur. Þu hefur ad sonu fyrergiefed oss margar Synder, og sparad oss midt i þeim allt a þeñañ Dag; Eñ vort Hiarta skielfur i oss og kvijder vid þijnu stranga Riettlæte, nær vier til þess hugsum, ad vier, þverbrotnar Mañeskiur, hofum so langsamlega forsmaad þijna Myskunseme og sialfer Ontijtt so marga Kvittun vorra Synda, er vier þeiged hofum, med þverwdarsamlegre Idkun somu Glæpa og Illgiorda. Hvert skulum vier þa flya undañ þiñe Hende? Þu uppfyller bæde Himen og Jord; Eñ þijn Myskunseme er eins stoor og þu sialfur, hun hefur ollum þeim vel giefest, sem heñar med bliwgu Hiarta og sundurknosudum Anda leitad hafa: Og ef vier, sem erum Hey-Stra, meigum ecke snerta þig, sem ert eirn fortærande Elldur, þa leif oss ad skrijda ad Sonarens Footum, sem er Hollo af voru Hollde, og þvo þær i Taarum vorrar Idranar. Eñ æ, vor Gud! Vier vitum ad hañ er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem kramed er: Hvad kañ þad oss ad gagna, ef vort Hiarta er heillt? ef þad er hardara eñ nockur Steirn? Þvi Graatbænum vier þig fyrer hañs dijru Kvol og Bloodugar Under: Sla þu, O HErra! a þeññañ harda Klett med Moysis Sprota; so ad Vatns Straumarner, Ja, eitt breñande Vatns-Flood, meige spretta þar wt af, til ad þvo vorar Ohreinar Samvitskur: Laat eirn glooande Anda breña upp allt Sorp añarlegra Þanka wr voru Hiarta, sem er þitt Mustere, so þijn Ord fae Rwm þar iñe. Laat oss ecke heyra þad so i Dag, ad þad fordæme oss a sijdarsta Dege, helldur gief ad þad verde Epterlæte Saalna vorra: Laat þess Sætleika burtdrijfa allt Toomlæte og Galeyse fra oss, so vier vardveitum þad i goodu og Sidsomu Hiarta. Þess bidium vier þig fyrer JEsum Christum þiñ Son med hañs eigeñ Bæn, Seigande: Fader vor, etc.

# Bæn epter Predikun.

Þu Haleita Guddoomsins Preñing, Eirn Gud og sañur fra Eilijfd til Eilijfdar. Vier aumer Syndarar liggium hier flater fyrer Auglite þiñar Hatignar, til ad offra þier Packlæte vors Muñs, fyrer þijnar Owtsegiañlegar Velgiorder, er þijn milda Orlætis Hond oss Opacklatum og Pverbrotnum Mañeskium audsynt hefur, bædi i Andlegañ og Lijkamlegañ Mata: Eñ æ oss, O Rotteñ! Vier erum so kallder i Bæniñi, ad vier Ottast meigum, ad þu vilier skirpa oss wt af þijnum Muñi, nema þu vermir vor Hiortu. O Vor Gud! Laat þiñ gooda Anda, bidia asamt vorum Anda, med Ouñræ dilegum

legum Andvørpunum, so ad þier lijka mætti Foorn Vara vorra, fyrer JEsum Christum. Vier þøckum þinī Guddoomlegri Elsku, fyrer þitt H: Ord og þau haleitu Sacramenta, æ hverium þu fooſtrad hefur og nært vorar Sæler, ad ei ſkylldum vier wt af ſoſna i Daudanum. O vor Gud! Læt vorar illar Athafner, Vort Gæleyſe og Oþacklæte, alldrei þvi vallda, ad þu ſvipter oſs þeſſare Himneſku Gaafu.

Gief ad þitt Ord, ſem vier i Dag høſum heyrt og nūmid, meige bloomgaſt i Hiørtum vorum, ſo ad þad fære þañ Avøxt er ſyne ſig, bædi i Ordum og Verkum; So þitt Haleita Nafn vegſamiſt i oſs, hveria þu virdiſt ad nefna þitt Foolk og Eigindoom. O DRottiñ! Vort Hiarta er þitt epter Rietti Skøpunariñar, Endurlauſnariñar og Helgunariñar; Pad er þijn Kyrkia, eñ Heimuriñ, vort Holld, og Diøfulliñ gyrnaſt ad feſta ſiñ Foot þar iñi, og, æ þvi verr! ad þad tekſt þeim framar, eñ vier giarnañ villdum: O vor Gud! yfirfall þau med þiñi Magt, og tak þijna Eign af þeirra Hendi, ſo ad þijner Oviner brijrle ecke þijnum Her-Flockum. Pu volldugi Konungur ſem ert Sterkur og Mattugur i Strijde! Læt þiñ Guddoomlega Krapt þiña Heiløgu Orda verda ſo rijkañ i Hiørtum vorum, ad oſs velgi vid Syndiñi ſo ſem añari Oþeckt. Gief þu ad Miñing hiña fornu Glæpaña verdi oſs ſo ſkielfileg, ad oſs hrille vid þeim, ſo ſem añari Ofreſkiu. Gief oſs ad temia vor Hiørtu, vora Tungu og Eyru æ þad, ſem æ ad vera ſijdañ vor ædſta Gledi og Eptirlæti i Dijrd Himnaña, ſem er þijn Elſka, þijn Ihugan, þijn Lofgiord og Packlæti fyrir þijnar Guddoomlegar Daſemder æ medal vor, og veit ad vier leggium hid meſta Kapp æ, ad framkvæma þad i Verkunum, ſem vier þenktum i Hiartanu, tølum med Muñenum og heyrum med Eyrunum, ad ei gaungum vier i þeirre Blindne, ad hafa Skyn Gudhrædſluñar, eñ afneyta heñar Krapte.

O þu Stoore Konungur Himens og Jardar! Vardveittu þiñ Smurda, vorn Allra-Nadugaſta Arfa Herra og Konung, hañs Hæbornu Drottningu, og vorn Naduga Arfa-Printz, og allt þad Konunglega Hws. Vertu Konungſins Skiølldur og Sool, og eitt øruggt Vijge æ mooti øllum hañs Ovinum. Læt hañs Rijkisſtioorn farſæla verda, og gief honum lang a Lijfdaga: Umgyrd hañs Tignar-Stool med Herſveitum þiña Volldugu Engla: Gief Konunginum Hlijdna,

Trwa, Druggg og Rꜳdholla Undirsꜳta: Lꜳt hañ so stioorna i þijnu Umbodi, hier a Jordunni, ad hañ megi eilijflega med þier rijkia i Himnenum. O HErra JEsu Christe, þu sem ert hiñ mikle Hyrder Sauðaña, fyrir Blood þess Eilijfa Testamentis! Vardveittu Kieñendur Ordsins, þijna Þienara, lꜳt þa alldrei gleyma þvi, ad þeir eige þier Reikning ad standa, fyrir þitt dijra Blood, med hveriu ad endurkeyptar eru þær Hiarder, er þu hefur sett þa yfir, eñ vert þeirra Vernd og Forsvar a mooti Ogudlegum og Ohlutvøndum Moñum, nær þeir giøra Verk siñar Kallanar trwlega: Og trod Andskotan undir þeirra Fætur. Vor Gud! Stioorna þu Valldstiettiñi, og þeim eri Doomunum sitia, upplijs Hiortu þeirra, ad þeir skilie Riettiñ, og gief þeim Vitsku til ad dæma þitt Foolk med Vilia og Astundan ad giora þar eptir. Tak ad þier, O Gud! Hwsstioornar Stiettina: Lꜳt øll Egta-Hioon elskast innbyrdis i Falslausum Kiærleika, og uppala sijn Børn og Hiw i Aga og Umvøndun til DRottins, eñ Børnum og Hiwum hlijdiñ og audsveip Hiortu, ad þau sieu Forelldrum og Hwsbændum undirgiefiñ i ollu þvi, er þeim eptir Guds Ordi og Lagaña Skylldu tilsagt verdur.

O DRottiñ! añast þu alla þa sem Naudstadder eru, og bera þijns Sonar Kross a Herdum sier; Væg þeim vor Gud, fyrir hañs Skulld sem lided hefur, uppa þad, hañ kyñi ad hialpa þeim sem freistadur er. Uñ alla Hluti fram grætbænum vier þig, himneske Fader, forlꜳt oss vorar bloodugar Illgiorder og Synder, fyrer JEsu Christi sꜳru Kvøl og Pijnu. Mlūst þess, ad hañ fyrir oss i Daudañ er wtgiefiñ af þiñi Guddoomlegri Elsku, þegar vier eñ þa vorum þijner Oviner. Virdstu þar fyrer ad gleyma vorum Yfirtrodslum, fyrer hveriar hañ Fullnægiu giort hefur, þar vier fyrer hañ og i honum erum Børn ordner: Og nær vor Æfe er ad Protum komiñ, vor Gud, og vier liggium fyrir Daudans Porti, horfande fram a Veg allrar Veralldar, riett oss þa þijna milldu Hønd, vor Gud, og lꜳt oss deyá med vorn Endurlausnara i Fadminum, so vier megum eilijflega med þier og honum lifa.
Bænheyr þetta, næduge Gud og Fader, fyrir JEsum Christum, i hverium allar vorar Bæner eru
JA og AMEN.

Fyrsta

# Fyrsta Suñudag i Ad-
ventu, Gudspialled skrifar Matthæus
i 21. Capitula.

I Þañ Tijma. Og þa er þeir tooku ad nælgast Jerusalem, og komu til Betphage vid Fialled Oliveti, Utsende JESUS Tvo sijna Lærisveina, og sagde til þeirra: Fared þid i þad Kauptun, sem gagnvart ydur er, og snart munud þid fiña Osnu bundna og Folañ hiæ heñi, leysed hana og leided til mijn. Og ef einhver segier nockud til yckar, þa segied, þad HErrañ hafe þeirra Þörf, og jafnsnart mun hañ láta þau laus: Eñ þad skiede svo, ad uppfylltist hvad sagt er fyrer Spámañeñ, er so seger: Seged Dootturiñe Zion: Siæ, Þiñ Kongur kiemur til þijn hoogvær, sitiande æ Osnu, og æ Fola Klifbærrar Osnu. Eñ Læresveinarner geingu i burtu, og giørdu so sem JEsus baud þeim, og leiddu med sier Osnuna og Folañ, og løgdu sijn Klæde yfer þau, og settu hañ þaruppæ. Eñ margt Foolk breidde sijn Klæde æ Veigeñ. Og adrer hiuggu Kvistu af Triænum og dreifdu þeim æ Vegiñ. Eñ þad Foolked sem fyrer þeim gieck, og eptersylgde, kallade og sagde: Hosiaña Syne Davids, Blessadur sie sæ sem kiemur i Nafne DRottins, Hosiaña i Hæstum Hædum!

## Exordium.

I Pistlenum til Phil. 2. kiemst Heilagur Paulus þañeñ ad Orde: Vered eins lynder og JEsus Christus, hvor þoott hañ være Guds Mynd, hiellt hann þad ecke fyrer Herfang ad hann Gudi jafn var, helldur lijtilæckade hann sialfañ sig, takande æ sig Þræls Mynd, og ordenn Monnum lijkur. Postulenn segier, hann hafe þad ecke fyrer Herfang reiknad, þoott hann Gudi jafn være. Þeir ed Herfang teked hafa, stæra sig þar af, brwka þad til Yferlætis, giøra þar af forkostuleg Sigurmerke, og breita vid þæ Herleiddu, sem þeim lijkar; So þad var Mælshaattur hiæ Grickium, ad hallda þann Hlut fyrer Herfang, er einhvør brwkade Rijkmannlega. JEsus brwkade ecke þannveg Guds Mynd; þoott hann være allsrædande, bæde æ Himne og Jordu, Matth. 28. Samt hafde hann ecke Valld sitt vid yfer aumum Manneskium, hveriar hann var komenn ad endurleysa af Myrkranna Vallde, helldur giordest þeim lijkur, Jæ, þeim Undergiefenn, þolde Mootlæte og allskonar Hæd-

ung-

ungar af Syndurunum, er hann med Audvirdingu þessare endurkeypte wr Synd-arennar Prældoome, og hielt ecke Guds Mynd Herfaang ad vera, so hann med sinne Þioons Mynd, feinge Herleidinguna ad Herfaange teked, Psal. 68. Enn afklædt hinn sterka Hervopnada Dioful sinne Hardneskiu, Luc. 11. Og med Hleckium Myrkranna fiotrad, 2. Pet. 2. Þegar Satan took vora fyrstu Forelldra til Faanga i Paradijs, og i þeim alla þeirra Epterkomendur, þa talde hann þeim Trw um þad, ad ef þau æte af Eplenu, mundu þau Gudi lijk verda, Gen. 3. Enn þau hlijdduſt aa hanns Slægdarfullar Fortolur, tapudu þvi Guds Mynd, enn giordust Fiandanum lijk, hverium þau framar hlijddu enn Gudi, og fyrer þetta Raan Guds Myndar took JEsus uppaa sig Þioons Mynd, og hiellt þad ecke so sem Raan, edur Herfaang, þoott hann Gudi jafn være. Enn þoott ad vor Frelsare ecke brwkade sijna Almættis Tign i Manndoominum, medann hanns Lægingar Tijme yferstood hier aa Jordunne, þa hefur hann samt eitt annad Rijke af Gude og Fodur, sem er hanns voldug Stioornan i Christelegre Kyrkiu med Ordenu og Sacramentunum: Þar um talar so David under Guds Persoonu: Eg hefe smurt minn Konung og sett hann yfer mitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Enn þoott ad Guds Rijke kome ecke þannveg, ad þad adgiætt verde, so sem Herrann seiger, Luc. 17. Þa sioum vier þo nockra Lijking þess edur Skugga i þessa H. Dags Evangelio, þar ed JEsus rijdur inn til Jerusalem, so sem eirn Konungur, ecke einasta til ad uppfylla Spaadoom Zachariæ, hvors hier gieted verdur i Gudspiallenu, og þannenn hlioodar, Zach. 9. Seiged Dootturinni Zion: Sioa Þinn Kongur Kiemur Til Þijn Hoogvær, Sitiande aa Asnu, Og aa Fola Klifbærrar Asnu: Helldur til þess ad afreka og wtvega sijna Christelega Kyrkiu, sem er eirn Konunglegur Kiennimannskapur, og þad med sijnu eigenn Bloode, hvar um Esaias spaaer, Cap. 62. aa þennann Haatt; Sioaed! DRottenn hroopar allt til Enda Jardarinnar, Seiged Dootturinne Zion, Sioa þitt Hiaalpræde kiemur. Og sokum þess, Born mijn, ad þetta Hroop hefur og heyrst til vor, sem ad bwum aa Enda Veralldarinnar, og oss verdur aasamt ødrum þetta Hiaalpræde bodad, þa laatum oss af þessu heilaga Evangelio yfervega i þetta Sinn, hvilijkum ad þessa Konungs Undersaatum byrie ad vera. Gud Fader Myskunsemdanna giefe oss Naad sijna þar til, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

HEir munu ecki aller, sem til mijn segia, HErra, HErra! inngaanga i Guds Rijke, seger JEsus, Matth. 7. helldur þeir sem giora Vilia mijns Fodurs, sem aa Himnum er. Marger munu þeir verda i Safnade Christs hier aa Jorduñe, sem eins eru lynder og Judar fordum Daga, er sogdu: Vier vilium ecke laata þennann drottna yfer oss, Luc. 19. Þo er Christur allra þessara Konungur, þvi aller vill hañ ad hoolpner verde, og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Enn so sem þad, ad eiñ Konungur, hañ er Konungur bæde þess, er hann lætur under Exe draga, vegna

na Glæpa sinna, so sem hinn, er hann setur sier a hægra Veg; So eru og bæde Vonder og Gooder i Christi Rijke, og hann drottnar eins vel yfer þeim, til hverra hann vill segia a Efsta Dege, Fared fra mier aller Illgiorda Menn, Matth. 7. So vel sem hinum, er hann kvedur þessum Ordum. Komed blessader mijns Fodurs, og eignest þad Rijke, sem ydur er fyrirbwed i fra Upphafe Veralldar, Matth. 25. Jafnvel þott ecke late þesser hvorutveggiu sier eins stioorna af Anda DRottins. Hvad byriar oss þa hier um ad þeinkia, Guds Born? Eg meina, ad lata oss umhugad vera, ad liwka þessum Konunge Skylldur þær, sem hann af oss heimtar, og er sw hellsta, ein audmiwk Hlijdne. JEsus baud sijnum Lærisveinum, ad fara i þad Kauptun, sem gagnvart þeim var, þar mundu þeir finna Osnu bundna og Fola hia henni, þau skipade hann ad leisa og leida til sijn. Þeim hefde matt til Hugar koma, ad ei være Skipun þesse svarleg; þeir mundu Arasum mæta, ef þeir tæke so annara Manna Eignr O-adspurt: Enn þeir fast ecke um þad, helldur giora sem þeim boded var. Gior slijkt hid sama, Christenn Madur! lat einskis Bod edur Bann vera þier jafnskyldt, sem þijns Guds. Hlijdne er betri enn Offur, seger Ande DRottens, 1. Sam. 15. Heyr hvad hinn Eingietne Sonur Guds seger, þegar hann innkiemur i Heiminn, Psalm. 40. Offur og Fornfæringar þocknast þier ecke, enn mijn Eyru hefur þu i giegnum stwnged, Brennefoorner og Synda-Offur villtu ecke: Þa sagde eg: Sia! eg kiem, i Bookinne er skrifad af mier, þinn Vilia, minn Gud, giori eg giarna. Hvor Davids Ord St. Pall, til Hebr. 10. heimfærer uppa vorn Endurlausnara. Hafe nu hinn Eingietne Sonur Fodursins, vered honum so hlijdenn, hver þo med sinne Forþienustu hefur sialfum sier eckert forþienad, hvad miklu framar ætter þu Gudi ad hlijdnast, sem honum ecke einasta Sal og Lijf skylldugur ert, helldur og þar ad auke Otal Tiju Þusund Punda, Matth. 18. og þau so morg, ad þu alldrei fær honum loked þann sijdarsta Pening, ef hinn Stoore Konungur Himins og Jardar vill Reikning hallda? Hvad þa Christenn Madur; Muntu ecke um alla Hlute framm skylldur honum ad hlijdnast, sem fyrer þig hefur allt þetta golded, so Gud hefur uppgiefed alla Skulldena, ad ecke yrde þier kastad i hin ytstu Myrkur, enn straffad hann, sem var hreinn og heilagur, og fraskilenn Syndurunum? Hebr. 7. Ja, hann hefur hans Eyru i giegnum grafed, eins og Præls þess, er ecke villde laus verda a Fagnadar Arenu, Exod. 21. hvorn hans Hwsbonde matte festa a Eyranu vid sinn Dyrastaf, ad hann være hans Præll upp þadann æfenlega. Muntu neita honum þinnar Þienustu, er þvilijka Sma hefur lided þier til Frelsis, þar þo Christi Præll ad vera, er eintoomis Frelse, og hans Þienusta er ollu Herradæme ædre. So þad er sannkvedid, er sa Guds Madur orkte fordum: Kong minn JEsu eg kalla þig, kalla þu Præl þinn aptur mig, Herra-Tign aungva ad Heimsins Sid, helld eg þar meige jafnast vid. Þvi seger og Paulus: Þier hafed og ecke medteked Prælkunar Anda aptur til Hrædslu, helldur hafed þier medteked Arfleidslunnar Anda, fyrer hvern vier kollum Abba Fader, Rom. 8. Enn ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, Ja, Erf-
ing-

ingiar Guds og Samarfar Christi, Rom. 8. Eñ seiged mier: Hvad munu øll Rijke Veralldareñar vera ad reikna vid þad, ad eiga Arfskifte vid hañ, sem Gud ecke alleina hefur giefed Endimørk Veralldareñar til Arfleifdar, Psalm. 2. helldur og sett hañ sier til Hægre Handar, Psalm. 110. og mun leggia alla Ovine hañs til Footskarar hønum? 1. Cor. 15. O hversu blind er þaa Mañeskiañ! Meñ leggia allt Kapp aa, ad komast i Tigeña Maña Þienustu, hvar þo Tiju þioona fyrer eins Lucku Stundum, so margur maa þioona leinge aadur eñ hañ kiemst til þess, sem þo er i siaalfu sier ecke añad eñ Þrældoomur, og i giegnum mikeñ Þrældoom brijtst Faavitska Mañsins til añars meira, hvar þad geingur oftlega miøg Andhæles til, so ad þeir sem dyggvaster vered hafa og Drottiñ-hollaster, þeir faa hina verstu Utreid aa Stundum, eñ þeir eru i Haavegum, er aa Svikraadum sitia; eñ ad gioraſt Hyrdmadur Christi, skeyta faaer um, jafnvel þoott hañs Þioonusta stande øllum til Boda: Þar er ei Gydingur nie Grickur, ecke Þræll nie Frelsinge, ei Rijkur nie Faatækur, ei Vijs nie Vankuñande fraaskileñ, helldur eru þar aller eitt i Christo JEsu, Gal. 3. Eñ þess er ad giæta, Børn mijn, ad sa sem vill gaanga Christo til Handa, hann skal ecke Tvijskifta Hiarta sijnu, helldur giefa hønum þad allt. Ecke seige eg þad, ad hver eirn skule ei þioona i þeirre Kallan, hvar til hañ er kalladur, eda Undirgiefeñ skule ei Undirgiefeñ vera, þvi sa sem giorer Verk sinnar Kallanar, hañ þioonar Christo, sem þad hefur boded; hañ sem Yfervalldenu hlijdnast, hañ giorer og Christi Skipan, er sagt hefur: Giefed Keysaranum hvad Keysarans er, Matth. 22. Og hañ sem leitar Næringar siñar med ærlegu Erfide, hañ hlijder hønum, er þad Bodord gaf, i Sveita þijns Andlitis skalltu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Hitt seige eg, ad sa sem vill þessa Konungs Þegn vera, hañ leite fyrst Guds Rijkis og hanns Riettlætis, Matth. 6. og mete eckert af þessu jafnframt hønum, miklu sijdur hlijde annara Bode edur Fortølum meir eñ hanns. Seiged mier: Hefur ei Gud bodid ad Forelldrana skyllde heidra hvad mest af Mønnum, og lagt Bølvañ vid, ef nockur þaa vanheidrar? Devt. 27. Eñ þo seiger JEsus: Sa sem elskar Fodur edur Moodur, framar mier, hann er mijn ecke verdugur, Matth. 10. Gud hefur skipad, ad Madureñ skyllde yfirgiefa Fodur og Moodur, og samteingiast sinne Egta-Kviñu, Gen. 2. Enn hvad seiger Moyses hier um? Devt. 13. Ef þinn Brooder, Sonur Moodur þinnar, edur Sonur þiñ, edur Doottur þijn, edur þijn Eigiñ Kona, sem hvijler i þijnu Skaute, edur Vinur þinn, sa sem er eins og þu, vilia locka þig, seigiande: Laatum oss fara og dijrka annarlega Gude, þaa skalltu drepa hañ, þijn Hønd skal vera fyrst aa moote hønum, til ad deyda hann, og sijdañ alls Jsraels. Nu kyñe einhverium i Hug ad fliwga: Hvilijker skulu þaa Christs Þegnar vera? Meiga hønum ecke þioona nema Syndlauser og Heilager Meñ? Þad em eg ecke, og giet ecke vered, aa medañ eg lifi i Holldinu, þvi eg em Daudlegur Madur, under Syndena selldur, Rom. 7. Og þegar eg vil giøra hid Gooda, þa loder þad Vonda vid mig: Hvad skal eg hier til segia? Þo eg sie skylldur Christo ad þioona af øllu Hiarta, þa giet eg þad ecke, þvi þad

Gooda sem eg vil giora, þad giore eg ecke, eñ þad Vonda sem eg vil ecke giora þad giore eg. Heyr Christen Madur! Guds Sonur er i Heimeñ komeñ til þess, ad kalla Syndvga, eñ ecke Riettlæta til Yðranar, Matth. 9. Være Von æ þvi, ad vier giætum fullnægt Guds Logmaale, þa være Christs Forþienusta oss Onaudsynleg. Enn ecke hefur Gud sendt hañ i Heimeñ til þess, ad vier mættum þess Ohultar syndga, ecke yfirgnæfir hañs Nad i Christo þar til, ad vier skulum i Syndunum lifa, Rom. 6. helldur hefur hañ þar fyrer lided Kvol og Dauda, ad hañ visse, ad vier mundum med Syndeñi Guds Nad og Vingan oftlega af oss briota. Þar fyrer seiger Johañes, 1. Pistl. 2. Born mijn, þetta skrifa eg ydur til, ad þier syndgest ecke, eñ ef nockur syndgar, þa hofum vier Tals-Mañiñ hia Fodurnum, JEsum Christum hiñ Riettlæta. Eñ giæted þess, Christner Meñ, ad Syndeñ er marghættud: Þar eru Synder sem verda af Ovilia, og af Favitsku, uñ hvoriar Guds Logmaal so talar: Num. 15. Ef nockur Saala syndgast Ovitande, þa skal hun Foornfæra Ars-gamalli Geit fyrer Syndena. Þvilijk var Synd Pauls, er hañ Offookte Guds Sofnud: Fyrir þvi seiger hañ, eg hefe Myskun hloted, af þvi eg giorde þad Ovitande i Vantru, 1. Tim. 1. Item, Abimelechs, er hugde ad taka Saram Abrahams Hustru Frillu-Take, og vissi ecke, ad hun var hañs Eigeñ-Kona, Gen. 26. Adrar skie af Brædræde einu, þa Mañeskiañ, sem er hneigd til hins Vonda, giefur sier ecke Stunder til ad læta Guds Anda edur Skynsemina vid sig ræda, so sem þegar Moyses sloo Helluna Tvisvar, Num. 20. Þegar David hiet ad farga Nabal, og ollu Kallkyns i hañs Hwse, 1. Sam. 25. Þegar hañ Foolked talde, 2. Sam. 24. Og þad er þad sem Paulus kallar, Gal. 6. ad verda yfersttijgeñ af einhvorre Hrosun. Nockrar verda og af Mañlegum Breiskleika, hvor ed jafnvel Guds Bornum filger, æ so leinge þau bera epter sier þeñañ daudlega Lijkama, og þad eru þeir Giorningar syndugs Mañs, sem Hollded og Andeñ eru ad glijma uñ, og gieta alldrei sættst þar uppæ, þviad hvort strijder æ moote odru, Gal. 5. Og þær fædast, þegar Andeñ lætur sigrast af Holldinu, og verda hier Imser under, þvi verr, ad su Synd sem i oss bijr, hvoria Postuleñ Holld nefner, Gal. 5. hun verdur oftlega sterkare. Þetta verda æ Stundum þrongar Synder, og sierdeilis Guds Bornum nærre Obærelegar, eñ þo reiknar Gud þær ecke Endurfæddum Mañe til Dauda, þegar þær med hreinnre og alvarlegre Yðran fyrer Lausnarans Forþienustu bættar verda. Hvar fyrer? Þvi þar er eingen Fordæming hiæ þeim, sem eru i Christo JEsu, þeim sem ecke efter Holdenu gæanga, helldur efter Andanum, Rom. 8. Eñ þeir kallast ecke ad gæanga efter Holldenu, sem med Andanum leitast vid ad deyda Holldsins Gyrnder, jafnvel þoott tilbere ad þad fæe Yfir-Hond, allt so leinge Meñ giefa þvi ecke Taum, þad Meñ þioone þvi i þess Gyrndum. Og þvi seiger David, Psalm. 19. Hvor skilur hvad oft hañ villist? afleys mig af mijnum heimuglegum Syndum, og hallt Præle þijnum aftur fræ Þvermoodskuni, ad þær drottne ecke i mier, þa mun eg heill verda.

Nu

Nu eru þar adrar Synder, sem Madureñ ecke einasta giörer med fullum Ásetninge, um̃ hveriar DRottenñ talar, Num. 15. Su Saal, er drijger Syndena med uppriettre Hende, (þad er, med ásettu Raade) hun vanvirder DRottenñ, þvi hun foraktade hanns Ord, og Onijtte hañs Bod; helldur og laata þeir Syndena drottna i sijnum daudlegum Lijkama, fyrer utañ alla Varaattu aa moote henne, og liaa Limu sijna heñe til Vopna, hveria hún brwkar med Sialfskylldu Andskotanum til Pioonustu, eñ DRottne til Stygdar, so sem eirn Handverks Madur sitt Verkfære. Þesser eru þeir, er JEsus kallar Præla Syndareñar, Joh. 8. Og þañveg eiga ad skiliast Ord Johañis, 1. Pist. 3. er hañ seiger, ad sa sem drijger Syndena, hañ sie af Dioflenum. Hiñ agiarne þeinker ecke um̃ añad, enn hvernig hañ meige fylla sitt Hws af annara Sveita med Riettu og Raungu. Pioofureñ, sem er hanns Stall-Brooder, hyggur ad, Vakenn og Sofeñ, hvernig hann stela meige. Hiñ Dramblaate þenur sig wt sem añad Laarberia Trie, Psalm. 37. Hanu nijtur ei Svefns nie Matar, ef einhvor hann virder miña, eñ hanns Pootte bijdur. Hiñ Metordagiarne sparar aungva Illmeñsku til þess, ad tilla sier upp i Vyrdingarnar. Joab svijfst ecke ad taka Lijfid af Abner og Amasa, og þo med Flærd og Svikum, til þess ad hann sie Ohulltur um̃ Nafnbætur sijnar. Hinn Ofundsiwke etur sitt eiged Hiarta, hanns Ormur sofnar ecke, ef hañ sier ad nockrum geingur vel, hañ eyrer aungvu nema einhver steite sig, og hefur eingva Skiemtan nema af añarra Olucku. Hiñ Bakmaaluge siskar i añarra Avirdingum, hann leitar smaasmuglega epter þvi sem ödrum yfirsiest, hann þeinker sig um̃, hvorneñ hann faae einhveriu þar lijklega vidauked, og giörer Tiju Pund af Einu þvi sem Andskotiñ hefur honum i Hendur feinged. Ligariñ spiñur sitt Verk af sijnum eigeñ Ydrum, eins og Koongulooeñ, og brijtur Heilañ til ad lioosta þvi upp, sem alldrei er Tilhasid. Hiñ Flaaraade grefur eina Grof, Vake brotnu, til ad steipa hinum Einfallda þar i. Allt þetta viña þeir, ed so eru lynder, med Ástundan, fyrir utañ allann Guds Otta, edur nockra Mootstödu i giegn Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum. Þesser laata Syndena drottna i sijnum daudlegum Lijkama. Og þetta er su Pvermoodskan, er David bidur Gud ad hallda sier aftur fraa, Ps. 19. Ad soñu er þad satt, ad Guds Sonur er fyrer þessar Synder daaenn, þvi hañ er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Hvad og audsied er af Dæme Manassis Konungs, 2. Kron. 33. Hinnar Bersyndugu, Luc. 7. Ræningians, Luc. 23. Og añarra laangtum fleire: Þo er nærsta hætt vid þvi, Brædur mijner, ad slijk Ydne Syndaña, sem Madureñ temur sier aan allrar Ydranar, aan alls Otta fyrer Guds straungu Hootunum, aan alls Ásetnings til Afturhvarfs, edur og, med Hiegoomlegre Raadagiörd, ad ætla sier þaa ad ydrast, þegar oss gott þyker, sem kannskie seint þyke, edur þegar oss Syndenn leid verdur, er maaskie alldrei verde, ad þesse Ydia og inndruckeñ Vane til Syndsamlegs Athæfis, meige snwast uppi fraaleitt Sinne, Rom. 1. upp i forbrenda Samvitsku, 1. Tim. 4. Um̃ hveria Paulus talar, Eph. 4. ad þeir

gaange i Hiegooma sijns Hugskots formyrkvader i Hugsunum, fraaskilder Lijfe Guds, fyrer þad Þeckingarleyse sem i þeim er, sokum Hardwdar þeirra Hiarta, hverier þaa þeir hofdu mist alla Tilfiñing, gaafu þeir sig til Lausungar, ad fremia allañ Ohreinleik med Agyrne, so sem voru Pharao, Judas, Achitophel, og þeir adrer sem Postuleñ kallar Sialfdæmda, Tit. 3. Eñ þad seige eg i Guds Stad, og i Umbode hañs Eingietins Sonar JEsu Christi mijns HErra, hvert eg aa Hende hefi, ad jafnvel þott ad Naadeñ yfirgnæfi Syndena, þa er saa aungvannveigeñ Konungsins Christi riettur Þegn, nie sañur Limur hañs Kyrkiu, er vijsvitande og Ydrunarlaust framfer i Syndum og Glæpum, med þvi Moote sem aadur hefe eg sagt: Þvi Guds Sonur er til þess i Heimeñ komeñ, ad kalla Synduga til Ydranar, Matth. 9. Eñ ecke til þess, ad þeir skule syndga uppaa Naadena; Til þess ad Meñ skijrest i hañs Nafne til Ydranar, Act. 2. eñ ecke til Athugaleisis nie Undandraattar; til þess ad þioona hønum i Endurnijungu Lijfdagaña, eñ ecke til þess ad giefa Dioflenum hiñ mesta Hluta þeirra, eñ ætla Gude hiñ sijdarsta Part Æfeñar, sem eingeñ veit nær þrijtur. Eg veit, ad þeir sem komu uñ Elleftu Stund i Vijngardeñ, feingu jafnt vid hina, sem bored hofdu Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. eñ þu hefur kalladur vered uñ Siottu og Nijundu Stund, hvad veltstu af þvi ad þu muner naa hiñe Elleftu, muntu kuña Gud fyrer þad, þoott hañ laate þig hafa jafnañ Hlut med þeim, til hverra sagt var: Eingeñ þeirra Maña, sem bodner voru, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd? Luc. 14. Villtu heimta þad af Konunge Himens og Jardar, þu sem ecke ert einasta Molld og Aska, helldur Landraadum sekur vid hiñ lifanda Gud, ad hañ liete kvelia siñ Eingieteñ Son til þess, ad þu þess Tryggvar mættir i allre Ohæfu þioona Fiandanum, hvor ad er Guds svareñ Ovinur. Er þad ecke noog, ad hañ hefur laated greftra þig fyrer Skijrnena med Christo til Daudans, (þad er, til ad deya Syndeñi) so ad lijka sem Christur er uppvakeñ fraa Daudum fyrer Dijrd Fodursins, so kuñer þu ad gaanga i Endurnijungu Lijfdagaña? Reinid þar fyrir Christner Meñ, hvort þier erud i Trwñe, 2. Cor. 13. Hvada Lyst þier hafed til goodra Verka, hvorn Leida aa Syndeñi? og ef þier fiñed Brest aa slijku, þaa giæted ad ydur i JEsu Nafne; forsmaaed ecke Rijkdoom hañs Þoleñmædis og Laanglundargieds, helldur giæted þar ad, ad hañs Giædska leider til Ydranar, so ad þier ecke safned ydur Reide aa Dag Reideñar, og Guds Riettlætes Dooms, Rom. 2. Hver Eyru hefur ad heyra hañ heyre þad, og bidie Fodur Liooosaña, fraa hverium ad kiemur øll good Giøf, og øll fullkomeñ Giøf, Jac. 1. ad giefa sier Ydran til Sannleiksins Þeckingar! JEsu Lærisveinar logdu Klæde sijn yfir Øsnuna, og settu hañ þar uppaa, þeirra Dæme fylgde Foolked, er breidde sijn Klæde aa Veigiñ. An alls Efa hefur þessum til Hugar komed, ad Jesus munde i þad Siñ ætla ad upprietta hid Jardneska Israels Rijke, þvi þad var Haattur Gydinga ad breita þanneñ vid þa, sem nijlega hofdu Stioorn teked, hvad siaa maa af 2. K.B. 9. Þegar Spaamañsins Þienari hafde smurt Jehu til Konungs, þaa breidde hvor af hañs Herra Þienurum sitt Klæde undir hañ aa þad hædsta af Troppunum

unum, og sogdu: Jehu rijker. Og þo nu ad bæde Lærisveinarner og Foolked villtust i þessu, þa er þad samt skied af DRottne, til ad teikna þar med hanns Konungs Tign, hvorn Gud Fader hefur smurt yfer sitt heilaga Fiall, Psalm. 2. Eñ giæt ad þvi, Christenn Madur, ad þesse Konungur Dijrdareñar rijdur hvern Dag inn til siñar Borgar, sem er Christileg Kyrkia, og so sem hañ er eitt Andlegur Kongur, so er og hañs Rijke Andlegt, þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke Lijkamleg, seger Paulus, 2. Cor. 10. helldur Kraptur Guds til ad nidurbriota Gyrdingarnar. Hañ kiemur til vor i Ordenu og Sacramentunum, i Krapte sijns Heilaga Anda, sem straffar i Mannenum Syndena, uppvekur Ydranena, efler Trwna, kveiker Elskuna til Guds, innræter Kiærleikann til Nauungans, verkar Þolinmædina. Þegar þu, Christeñ Madur, fiñur i Hiarta þijnu nockrar þesshaattar Hræringar, þa vit þad, ad sa DRottnarenn er þar komeñ til sijns Musteris, sem Malachias uñ spaaer, Cap. 3. Þegar Phariseí spurdu DRotteñ ad, fordum Daga, hvenær Guds Rijke kiæme? svarade hañ þeim: Guds Rijke kiemur ecke so þess giætt verde, þeir skulu ecke seigia: Sia! þad er þar, edur sia! þad er hier, þvi siaed, Guds Rijke er inne hia ydur, Luc. 17. Gud kiemur ecke i Hiortu Mañanna, eins og Herodes og Bernice fordum, med stooru Yferlæte, P. G. 25. Sia Þinn Konungur Kiemur Til Þijn Hoogvær, seiger Gudspialled. Þoott Christur bwe i Mannenum, þa bijr hann under eins i sundurknosudum Hiortum, Esa. 57. JEsus sagde fordum vid Nicodemum: Vindurenn blæs, og þu heyrer hañs Þit, eñ þu veitst ecke hvadann hañ kiemur, edur hvert hañ fer, so eru og aller þeir sem af Andanum fædder eru, Joh. 3.

Nu er Endurnyungenn Dootter Endurfædingariñar, bæadar koma af Anda Guds, sem verkar i Manninum fyrer Orded: Eñ ecke veit hañ edur skilur med hveriu mooti hiñ Alvitri Gud þad verkar; Verkanena finnur hañ, eñ Verkunariñar Maata skilur hann ecke. JEsus reid einum Asna iñ til Jerusalem, og so þocknast Gudi a stundum margañ fyrer skafrooda Predikun hoolpiñ ad giora, 1. Cor. 1. Enn þegar hann so vitiar þiju, syndugur Madur, þa breit epter þessu Foolke: Þeir breiddu sijn Klæde a Vegiñ. Enn hvernig fær þu þad epter þeim giort? Þad kienner St. Paall, Eph. 4. Aflegged þann gamla Mannenn, epter hinne fyrre Umgeingne, sem fordiarfast i Gyrndum Villudoomsins, enn endurnijest i Anda ydar Hugskots. Afklædunst þessum Ilskuñar Ham, og kostum honum frañ fyrer Fætur JEsu: Honum byriar þo med ollum odrum hanns Ovinum ad leggiast til Footskarar honum, þvi ecke er þvilijkur Ovinur Christs, nærst Fiandanum, so sem Holdded, hvers Þeankar ad eru Reide og Fiandskapur i giegn Gudi: Enn Iklædunst einum nijum Manni, sem epter Gudi er skapadur, i Riettlæti og Heilagleika Sannleikans, Eph. 4. Miñunst Elskannleger a þad, ad JEsus Christur Konungur Dijrdarinnar, hann var flettur sijnum Klædum, og hañs blessadur Lijkami var allsnakinn reyrdur vid Stoolpann i Þijng-Hwse Pilati, hvar hann var Hwdstryktur, til þess, ad vier yrdum frelsader fra eilijfum Hwdstrokum i ytstu

Myrk-

Myrkrum, enn Iklædder nijum hvijtum Skrwda med Pᴂlmavidum i vorum Hondum, Apoc. 7. Jᴂ, þetta allt hefur hañ þolad til þess, ad vier mættum honum Iklædast, so sem Paulus segier, Gal. 3. Skylldum vier þa ecke leitast vid, ad deida vora jardneska Limu, sem er, Saurlifnadur, Ohreinleike, Gyrnd, Illfyse og Agyrne, hver ad er Afguda-Dijrkan, Col. 3. Sierdeilis þar Gud hefur oss siᴂlfur Vopnenn i Hendur feinged, hver Paulus kallar Liooßens Vopn, Rom. 13. og Guds Alvepne, Eph. 6. Þad ætlar Heimur þesse, ad hann hafe eingenn Not Lijffins, nema hañ life ad Munudum sijnum, svo sem væru Meñ alleina þar til i Heiminn borner, eins og Petur seiger, 2. Pistl. 2. Ad þeir sieu eins og Skynlaus Dijr, sem ana fram epter þvi sem Nᴂtturann bijdur, alleina til þess skopud, ad þau slᴂtrud verde, nær þau faungud eru: Og er Lijking þesse ᴂgiæt: þvi so sem Villudijreñ ecke um̃ añad hyrda, eñ ad fylla Magann, og verda þar fyrer ᴂ stundum tæld og lockud, med adskilianlegum Veidebrellum, þar til þau eckert afvita, fyrr eñ þau hafa Foot siñ i Snoruñe: So eru og þeir, er um̃ eckert skeita, nema um̃ Lijkamans Epterlæte, Fijsn Augnaña, og drambsamlegt Lijferne, 1. Joh. 2. Þeir giæta ecke ad fyrr eñ Sᴂlenn uppvaknar i Helvijte og Kvolunum. Hvad Postulenn greinelega um̃ þa seger, er rijker vilia verda, ad þeir falle i adskiliannlegar Freistingar og Snorur og Gyrnder, heimskulegar og skadlegar, er steypa Manninum i Topun og Olucku, 1. Tim. 6. Enn þeir sem Christo tilheyra, þad eru þeir sem eru hañs Trwfaster Hyrd-Meñ og Lærisveinar, þeir Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. og hroosa sier ecke nema af Christi Krosse, fyrer hvorn þeim er Heimurenn Krossfestur, og þeir Heimenum, Gal. 5. Þegar Menn rᴂda eirn Þienara til Vistar, þa giora Menn Skilmᴂla vid hann, hvad hñ viña eige, og hvad hañ fᴂ skule i sijn Verka-Laun. So hefur JEsus giort, Luc. 9. Hañ sagde fyrer øllum Monnum, seiger Gudspiallamadurinn: Hver sem mier vill epterfylgia, hann afneyte siᴂlfum sier, og take Daglega sinn Kross uppᴂ sig og fylge mier epter. Hañ sagde þad øllum, so aller vita meige, hvers þeir vænta eige i hañs Þienustu. Hañ seiger Daglega, so ad þeir sem Gud hefur eingvann wtvortis Kross ᴂ Herdar lagt, skuli þo vera vidbwner ad Krossfesta sitt eiged Holld, og deyda sijna jardneska Limu, Gal. 5. So ad þann vanti eingann Christi Kross, sem vill under Christs Merke strijda, edur gᴂnga ᴂ Mᴂla med þessum Konunge, þvi þad stendur þo O-raskañlegt um̃ Alldur og Æfe, ad i giegnum margar Hørmungar byriar oss inn ad gᴂnga i Guds Rijke, Act. 14. og er hañs Þienusta þo þvi betre, enn allra añarra, ad þoott hun þyke hørd Adgaungu, þa er hañs Ok sætt og hañs Byrde liett, Matth. 11. þvi hañ hiᴂlpar siᴂlfur til ad bera, hann er Trwr og freistar einkis yfer Megn fram̃, 2. Cor. 1. Sætleike Guds Nᴂdar, og Smeckur epterkomande Farsældar, deiser so Reñu Krossens fyrer Guds Bornum, ad heñar giæter ecke. Eg heyre ad Paulus og Silas eru glader i Fᴂngelsenu, Act. 16. Postularner geingu fagnande wt frᴂ Rᴂdenu i Jerusalem, þegar þeir Hwdstrykter voru. Act. 5. Eg heyre ad Paulus Oskar, ad Festus Lands-

Doom-

Doomare og Agrippa Konungur væru eins Meñ og hañ, ad þeim Hleckiunum undañteknum, er hañ var bundiñ med, G. B. 26. hveria hañ hefde e. e [illegible] ated fyrer alla Dijrd Veralldareñar, hefdi hañ ꜵtt añarshvers ꜵ mis ad fara. Þess Sinnis var Pijslarvotturinn Babylas, er beidde ad grafa sig med þeim Hleckium, er hann var leiddur til Aftokustadarins med, so ad ecke vantade hañ sitt Brwdar-Skart i Upprisunni, Evseb. Lib. 6. Cap. 36. et 40. So lijted akta þeir, sem vel hafa smackad hvad sætur ad Drottenn er, Ps. 34. So lijted akta þeir, hverssu med þeñañ forgeingelega Lijkama er höndlad. Eñ vilie Meñ epter spyria, hvor ad Launeñ sieu i Christi Dijrdar-Rijke? þa seger hañ sialfur, Matth. 5. Sæler eru þier, nær Meñerner hallmæla ydur og Offsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo liwgande, Fagned þier og vered glader, þvi ydar Verdkaup er nooglegt ꜵ Himnum. Eñ hvada Verdkaup, Brædur mijner? Hvilijkt ecke hefur Auga sied, og ecke hefur Eyra heyrt, og ecki hefur i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komid, 1. Cor. 2. Þad er þad Verdkaup, er DRottenn hefur tilbwed þeim er hann elska. Hvor sem nu samannber þa litlu Hormung, er vier þola meigum i Christi Nꜵdar-Rijki, og þa Oumrædilegu Sælu, er hann mun launa oss med i sijnu Dijrdar-Rijke; Hann mun jꜵta med Postulanum, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ei verdar þeirrar Dijrdar, sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfe, Rom. 8. O JEsu! uñ oss þessarar farsælu Vistar med þier eilijflega. O JEsu! lꜵt oss vera þar sem þu ert, Joh. 17. O JEsu! virdstu ad þurka oll Tꜵar af þinna Barna Augum, Apoc. 7. O JEsu! Lꜵt vora Hrygd snwast i Gledi, Joh 16. O JEsu! gief ad hverke Lijf nie Daude, hverki Englar nie Hofdingia-Dæmi, hverki Hæd nie Dypt, nie nockur Skiepna, kuñi ad skilia oss vid þann Kiærleika, sem er i þier, Rom. 8. Og lꜵt oss þier alldrei sleppa, þar til þu blessar oss med eilijfre Blessan, og vier þig aptur med eilijfu Hosianna i hærstum Hædum. Bænheyr þad O HErra JEsu! Þier med Fodur og Heilögum Anda, sie Lof, Prijs, Magt og Velldi, uñ Allder Allda, AMEN.

# Annann Sunnudag i Adventu.

Gudspialled, Luc. 21. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus sagde til siña Lærisveina: Þar munu skie Teikn ꜵ Soolu, Tungle og Stiörnum, og ꜵ Jördu Kvalning Piooda og Örvinglan, Sioor og Bilgiur munu hliooda, og Meñ munu fyrer Hrædslu uppþorna, og af Efterbijdingu þeirra Hluta, sem ad koma skulu yfir allañ Heimiñ. Þviad Kraptar Himnaña munu hræraſt: Og þa munu þeir siꜵ Mañsins Son komanda i Skijum med Magt og miklu Vellde: Eñ nær þetta tekur ad skie, þa lijted upp og upphefied ydar Hofud, af

C þv

Þvi ad ydar Endurlausn tekur ad nalægiast. Og hañ sagde þeim þessa Epterlijking; Skoded þier Fijkiu-Tried, og øll oñur Trie, nær þeirra Alldin tekur w ad sprijnga; þa vitid þier ad Sumarid er nalægt. So lijka, nær þier siaid þetta skie, þa vitid, ad Guds Rijke er nalægt. Sañleza seige eg ydur: Þad þesse Kynslood mun ei forganga, þangad til ad allt þetta skier. Himin og Jørd munu forganga, enn mijn Ord forganga eige.

Exordium.

Eg dæme aungvann seiger JEsus, Joh. 8. Hvad er þa þad hann seger, Joh. 5. Fadirenn dæmer aungvann, helldur hefur hann Syninum allañ Doom i Hendur seinged. Tveñt bar til þess, Brædur mijner, ad DRottenn talade þesse Ord fyrer Gydingum, þad eina, ad þeir dæmdu uñ hann epter Ytre Asynd, þar þeir sogdu skoñu adur: Þu ber sialfur Vitni uñ þig, þinn Vitnisburdur er ecke gylldur; enn hann svarade þessu medal annara: Þier dæmid epter Holldinu, eg dæme aungvann, hann meinti, eptir Holldinu. Sw var og Oñur, ad hann i þad Sinn ecke var komeñ til ad lata Doom ganga yfer illar Athafner Mannanna, þvi Illgresenu byriade ad vaxa allt til Kornskieru Tijmans. Matth. 13. Enn ei ad sijdur var þo DRottenn komenn til Dooms a Jordu, so sem hann sialfur vottar, Joh. 9. til þess, ad þeir Siaande yrdu, er ecke sau, og þeir ed sau, skylldu Blinder verda: Og er þad audvitad hvor ad sie þesse Doomur, og yfer hverium hann gieck, sem voru þverbrotner Gydingar, hverier ei villdu JEsum þeckia fyrer Guds Son, af þvi Kraptaverkinu, er hann giorde a honum, sem Blindur var borenn, Joh. 9. Enn Doomurinn var þesse; Ef þier værud Blinder, þa hefdud þier ecke Synd, enn nu seiged þier: Vier siaum; þar fyrer blijfur ydar Synd; Og þoott Doomurenn sie so Riettvijs, ad eckert sie Riettvijsara, þa er hann þo nærsta þungur og hrædelegur, þvi hann er Undannfare hinns Ognarlega Dooms, er a hinum mikla Dege alls Holldz mun an Miskunar ganga yfer alla þa, sem ecke hafa trwad a DRottenn JEsum. Þvi so seiger Guds Sonur: Joh. 3. Hvor sem ecke trwer, hann er þegar dæmdur, af þvi hann trwde ecke a Nafn Eingietens Sonar Guds. Þesse hinn strange, eñ þo Riettferduge Guds Doomur, gieck yfer hinn vesæla Gydinga Lijd ad miklu Leite, þegar þeir hofdu uppfyllt Mæling Syndarennar. Þess gietur Paulus, P.G. 28. er hann straffar Þvermoodsku þeirra, seigiande: Þar fyrer sie ydur Vitannlegt, ad Hialpræde þetta er Heidingium giefid, og þeir munu þad heyra. Þessarar miklu Guds Naadar erum vier og Hluttakande ordner, er buum under hinu Ytsta Heims Skaute; Þeñañ skielfilega Doom, yfer Guds eigenn Foolke, hofum vier og heyrt: Enn gietum ad þvi, er Paall seiger til Heidingianna, þeirra er vid Christne tekid hofdu: Vel, þeir eru fyrer Vantrwna afbrotner, seiger hann, enn þu stendur fyrer Trwna:

Stær

Stær þig ecke, helldur vert Ottasleigeñ, Rom. 11. Satt er þad sem DRotteñ seg-
ier, ad hañ sem ecke trwer, sie þegar dæmdur, Joh. 3. Eñ þvi trwa Meñ ecke? Þvi
Meñ koma ecke til Liooſſens. Þvi koma Meñ ecke til Liooſſens? Þvi Meñ elſka meir
Myrkrid eñ Liooſed, af þvi ad þeirra Verk eru Vond, Joh. 3. Þad þyker Jñdællt
ad ſofa oc Kodda Athugaleyſiſins, ſem Andſkotiñ dillar ſijnum Bornum oc, med
hañs gamla Voggu-Kvæde, er þañeñ lætur: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu? 2.
Pet. 3. So hefur þad geinged i frꝏ Upphafe Veralldar, og þar fyrer eru Menn ſo
treger ad vakna vid Guds Orda Baſunu, þar til Daudans edur Doomſins Ba-
ſunu Hliood tekur yfer, og ecke er vært ad ſofa leingur. Enn Gud vekur ſijdann med
Eilijfu Ope og Taña Gnijſtran i Helvijte. Hver þad heyrer, hañ hygge þar ad, og
giæte þeſs, er Paall ſagde til þeirra i Athenu Borg, P.G.17. Gud hefur tilſett eirn
Dag, oc hverium hañ dæma mun alla Jardarkrijngluna med Riettlæte, fyrer þann
Mañ, er hañ hefur fyrerhugad. Þar fyrer vil eg lꝏta mitt Tal vera i þetta Siñ, hv-
ad oſs eige ad leida til þeſs, ad bwa oſs under hiñ Sijdarſta Dag, ſem vær ecke vitum,
nema ad Morgne uppreñe. Hialpa hier til, O þu Allsheriar Doomare, fyrer JE-
ſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAr Munu Skie Teikn oc Soolu Og Tungle Og oc Stiornum. Þad ſijneſt
audrꝏded vera, Brædur mijner, ad ecke mune Endurlauſnareñ hafa talad þetta
ſo, vegna Læreſveinaña edur Foolkſins, er honum i þad Siñ nꝏlægt var, þvi
jafnvel þoott ad þeir til ſamans hafe i þeirre Meiningu vered, ad hiñ Sijdarſte Dagur
munde vera ſkamt i burtu, ſo ſem ſiꝏ mꝏ af ſumu þvi, er þeir hafa ſkrifad epter ſig lꝏt-
ed, þa hafa ſijdañ morg Hundrud Ar lided allt til þeſſa Dags; helldur er þad ſagt veg-
na vor, yfer hveria lijklegt er, ad Heims Endereñ ſie komeñ; Fyrer þvi ættum vier,
ecke ſijdſt, med Ugg og Andvara ad vænta Tilkomu DRotteñs, þvi ef HErrañs Poſtul-
ar ætludu oc þeim Dogum, ad hun munde ſo nꝏlæg vera, hvorſu miklu nær mun hun
þa vera oſs, er ſo miklu ſijdar lifum? Eg hygg ad Teikn þeſſe fleſt, er Lucas gietur uñ i
Evangelio, mune ecke fiarlæg Doomenum verda, helldur nærre i ſama Vetfꝏnge: þvi
HErrañ ſeiger hier, ad vier munum Þa Siꝏ Mañſins Son Komanda J Skijum
Himens, og er audſært, ad þeſs mune ecke lꝏngt ad bijda wr þvi ad allt þetta ſkiedur
ſem mꝏſkie ei añad verde, eñ Fiorbrot Veralldareñar, þegar Himnarner munu med
Stoor-Breſtum forgꝏnga, og Hofud-Skiepnurnar af Hita brꝏdna, 2. Pet. 3.
Hvad medal añara mꝏ þar af rꝏda, ad JEſus ſegier, Marc. 13. Ad uñ þañ Dag
vite eingeñ Madur, og ei jafnvel Englar oc Himnum. Eñ ef Teikn þeſſe ſkiedu rwm-
um Tijma fyrr eñ Himen og Jord forgꝏnga, þa kyñu þeir, ed oc Jordu bwa, ad vita
nockud hier uñ, hvad St. Petur fortekur, 2. Piſt. 3. er hañ ſeiger: Ad Dagur DRott-
eñs mune koma ſem Pioofur oc Noottu: Eñ Pioofureñ giorer aungva Vitneſkiu und-
añ ſier, añars være hañ ecke Pioofur: So er og Dagur DRotteñs, þvi eins og Tꝏl-

Snara mun hañ koma yfer alla þaa, sem aa Jordu bwa, Luc. 21. Drage þvi eingeñ sialfañ sig aa Taalar, edur meine, ad af þvi ad þesse Teikn, sem Lucas skrifar uñ i Gudspiallenu, eru eñ nu ecke øll framkomeñ, og vier merkium aungva Umbreiting aa Soolu, Tungle og Stiørnum, adra eñ hun vered hefur i fraa Upphafe Veralldar, epter Venjulegu Naatturuñar Hlaupe, ad DRotteñ mune þar fyrer seinka, so sem nockrer kalla þad Seinlæte, seiger Petur, 2. Pist. 3. Helldur er hañ þoleñmoodur vid oss, viliande ei ad nockur fyrerfarest, helldur ad aller snwest til Yðrunar.

Laatum oss ei þvilijkt i Hug koma, Bræður mijner, þvi þad eru Spottaraña Þaankar, er hañ seger ad upp mune rijsa aa Sijdurstu Døgum, þeir ed gaanga i sijnum eigeñ Gyrndum, seigiande: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu; 2. Pet. 3. Þvi sijdañ Fedurner sofnudu, þa er allt hid sama so sem fraa Upphafe Skepunareñar. Og hañ dylur ecke, hvar fyrer ad syndugum Moñum, (sem alla Hlute mæla epter Faafræde Spillingareñar og Smaamunum vorum, sem þiootum upp eins og Gufa, eñ lijdum i burt aptur aa Augnabragde) Hvar fyrer, seige eg, ad oss þyke so laangt wr verda, er hañ talar uñ þetta sama Efne, seigiande: Eñ eitt sie ydur vitañlegt, Elskañleger, ad Eirn Dagur er fyrer DRottne so sem Þusund Ar, og Þusund Ar so sem Eirn Dagur. Eñ þeir ed þetta ecke samañbera vid Guds Fyrerheit; þeim þyker so sem ad hañ tefie og sie brygdmaall ordeñ; So er þad og vijst, ad jafnvel þoott ad bæde St. Paall og adrer lijse þvi, ad Heims Endereñ være yfir þa komeñ, 1. Cor. 10. Þa hefur ecke Postuleñ vænt hañs so braadlega, þar hañ seiger, 2. Tess. 2. Þier skulud ecke skielfast fliootlega i Hugskotum ydar, nie trublast, hvørke af Anda nie Orde, nie af Sendebriefe, sem vier hefdum skrifad, Eins og Dagur DRotteñs være nær þvi komeñ: Kañ skie þess vegna, ad einhver hafe teked sier Ordsok af hañs Fyrra Pistle til þeirra, ad skielfa veikar og Istodulitlar Samvitskur, þar ed hañ skrifar: Eg hef ei Þorf ad skrifa ydur uñ Tijma og Hentugleika, þvi þier giørla vited, ad saa Dagur DRotteñs mun koma, sem Þioofur a Noottu, þegar þeir seigia: Þar er Fridur og Tryggleike, þa er þeim skyndeleg Foreydsla nærre, so sem Joodsoott þwngadre Konu, 1. Thess. 5.

Laatum oss þvi ecke Andvaralaust lifa, Bræður mijner, þoott DRotteñ dvelie, þvi Komande mun hañ koma og ecke seinka, Heb. 10. Eñ vier vitum ecke, aa hverium Tijma ad hañ kiemur, ad Kvølldе Dags edur uñ Midnætte, edur þa Hanen galar, edur sneña Morguns, so ad þegar hañ kiemur hastarlega, ad hañ fiñe ydur ecke sofande. Þad eg seige ydur, þad seige eg øllum, seiger DRotteñ, Vaked þier, Marc. 13. Laatum ecke vora Ydran bijda epter Soolareñar Formyrkvan, þvi þegar hun allra sijdarst tekur ad sortna, mun Ydranar Tijmeñ wte vera: hun hefur so leinge þioonad oss i Heime þessum, so leinge afmarkad tilsetta Tijma af Gude, og bored Vitnisburd uñ hanns Vitsku, hañs Dijrd, hañs Giædsku og hañs Almætte; So leinge hefur hun skyned yfir Ogudlegañ Heim þeña, So leinge uppruñed yfir Raanglaata og Riettlaata, ad aller hafa haft nooggañ Tijma til ad ydrast, og leita Guds, aadur eñ þad Sijdarsta Myrkur

byrg-

byrger heñar fagra Lioos, So hun mun upp þadañ alldrei ad Eilijfu skijna. Hun hefur alldrei fraa Veralldareñar Upphafe formyrkvast/ taa moote Náátturuñar Edle, nema øllu Einu Sinne, þegar Himen og Jord byrgdu fyrer Augu sier, og so sem skielfdust vid ad horfa þar aa, ad þeirra Skapare var eins og ein Bølvan aa Krossen uppheingdur. Matth. 27. Eñ ef hin náátturlega Sooleñ miste sijna Byrtu af þvi, ad Sool Riettlætesins formyrkvadest um Stundarsaker; Hvad er þa ad undra, þoott hun alldeilis blind verde, þegar hañ kiemur i Skyum Himens med hañs Heiløgu Þusundum, Judæ Pist. v. 14. Jaa, þegar þeir munu fyrer hiñ Hærsta og Sijdasta Riett kallader verda, sem Konung Dijrdareñar hafa ad niju Krossfestañ, og Saattmaalans Blood Almeñelegt hallded, med hveriu þeir helgader eru, Hebr. 10. Laat þier þetta jafnañ fyrer Augum vera, Syndugur Madur! þegar þu sier hid blessada Heimsins Lioos, sem alla Verølldena upplijser. Þu sier hana i Dag uppreña: Þacka Gude þar fyrer, eñ þu veitst ei hvort hun naa mune sijnu venielega Takmarke ad Kvøllde Dags; þu sier hana i Ægeñ gaanga, og ad Tungled og Stiørnurnar taka aftur ad lijsa, eñ þu veitst ecke nema aa þeirre sømu Noottu reñe upp Jacobs Stiarna Christur, Num. 24. añad Siñ, sem bæde Sool og Tungl mun formyrkva og ad aungvu giøra, og Stiørnunum af Himni ofañ steipa, so sem þa eitt Fijkiu-Trie kastar sijnum Avoxtum fra sier, nær þad hristest af Storminum. Laat þar fyrer Soolena ecke undergaanga yfer þijna Vondsku: Trw ecke so Nætur Myrkrunum fyrer þier, ad þu miñest ei vid Soneñ, aa medann þu ert enn aa Veige med hønum, so ad hann verde þier ecke reidur, Psalm. 2. ef kañ skie hann byrtest i Skijum Himens aa þeirre sømu Noottu. Haf þiñ Lampa tendradann, sem er Lioos Trwar þiñar, ad ei verder þu wtelokadur, þegar Brwdgumeñ kiemur um Midnætte, Matth. 25. Hlijd Bode Peturs, er hann seiger: 2. Pist. 3. Þar fyrir, Elskañleger, þar þier bijded efter øllu þessu þaa kostgiæfid ad þier hreiner og Ostraffañleiger af hønum fundner verded med Fride, og hallded Seinlæte DRottens til Reidennar, ad vera Hiaalpræde. Eñ hyggium ad þvi, hvorsu ad hañ mun Obærelega Straangur og Hardraadur verda øllum Gudlausum og Þverbrotnum, er sier hafa aa Naadar-Tijmanum Reide safnad. Hañ mun ei koma, so sem fordum Daga, liggiande i einum Stalle, ecke, so sem þier heyrdud Fyrra Suñudag, sitiande aa Ósnu, og aa Fola klifbærrar Ósnu, Matth. 21. Ecke so sem hañ var wtleiddur af Þijng-Hwse Pilati, berande eina Purpura Kaapu og Þyrne-Koronu, Joh. 19. Eñ þeir ed allt þetta hafa ad aungvu haft, þeir munu siaa hañ, so sem eirn straangañ Doomara. Elldureñ breñur fyrer hañs Auglite allt til nedsta Helvijtes, Devt. 32. J hønum munu Himnarner sundurglidna, og Høfud-Skepnurnar smelltast, 2. Pet. 3. Krijngum hañ mun geysa Eitt hrædelegt Stormvidre, aller hañs megtuger Englar munu hønum fylgia, og hañs Heiløgu Þusunder umhverfis hañ skijna; med skielfilegre Høfud-Engelsins Baasunu mun hañ kalla Lifendur og Dauda i Lopted, upp til moots vid sig, 1. Thess. 4. Og eingeñ Skepna mun standast hañs Tilkomu, Mal. 3. Þaa mun Sooleñ formyrkvast

vast, af þvi ad Guds Forsmaanarar geingu formyrkvader i Huxunum, sokum þeirra Þeckingarleysis, vegna Hardwdar þeirra Hiarta, 2. Tim. 3. Þaa munu Kraptar Himnaña hræraſt, af þvi þeir hafa so tijtt syndgad i Himeneñ, og forsmaad hañ sem i Himnenum bijr, þaa mun verda aa Jordu Angiſt og Raadleysa Þioodaña, so sem þa Sioor og Bylgiur hliooda, sem vite þ.er ecke hvar þær eige ad falla, edur hvad af sier ad giora. Þanneñ mun allt Holld verda i Tilkomu DRotteñs. Þegar Jeremias spaaer uñ Babylons Eydelegg'ngu, þa dunar hann so sem eitt Reidar-Slag aa þeñañ Haatt: Þeirra Bylgiur munu dynia, þeirra Raddar-Hliood mun verda so sem mikella Vatna, Jer. 51. Eñ hvad miklu meira mun verda Oskur hiñar stooru Babylon, Veralldareñar, þegar hun hrapar i Dijked þad, sem vellur af Ellde og Breñesteine, Opiñb. 21. med ollum þeim sem druckner eru af Vijne hennar Hoorunar, Opiñb. 17. O! hversu feigner munu þa þeir, ed smaad hafa hiñ Faatæka JEsum og hañs Limu i Velmagt siñe hier aa Jorduñe, hvorsu giarna munu þeir þa vilia hafa sadt hañ, þegar hañ hwngradur var, svalad honum, er hann þyrstur var, hijst hann, þegar hañ Giestur var, klædt hañ, þegar hann Nakeñ var, Vitiad hanns, þegar hañ var Siwkur og i Myrkva-Stofu? Matth. 25. Hvorsu lijted munu þeim gagna Metord þau, er þeir keyptu fyrer Guds Vinaattu? Epterlæte Heims þessa, er þeir mottu framar eñ DRotteñs Kross? Eigner og Bwgardar, fyrer hveria þeir felldu Saaler sijnar? Sveite Daglaunarans, er þeir hafa innehallded? Hws Eckiuñar og hiñs Fodurlausa, er þeir hafa wtsogied? Braud hiñs Einfallda og Naudstadda, er þeir hafa sviked under sig med Okre og Raangsleitne? Hvad lijted mun allt þetta duga þeim, nær Verollldeñ og oll heñar Dijrd og Hoffrakt stendur i biortu Baale, enn hinn Riettlaate Himens og Jardar Konungur vill seigia upp Doomeñ med þessu skielfelega Atkvæde: Fared fraa mier Bolvader i Eilijfañ Elld, sem fyrerbwenn er Dioflenum og ollum hanns Arum, Matth. 25. O DRotteñ vor Gud! hversu mun hañ þaa Ognarlegur verda i Augum fordæmdra Maña, er ecke eiga framar neirnrar Naadar Von? Manoha og hanns Kviña saau Guds Son, er hañ stie upp i Foornar-Elldinum, og hañ meinte þau mundu þar fyrer deya, D. b. 13. Esajas saa Gud sitiande aa haaum Stoole, og honum fiellst Hugur, so hañ sagde: Vei mier, eg mun upprættur verda, þvi eg hefe saurugar Varer, og bij aa medal þess Foolks, er saurugar Varer hefur, þar eg hefe sied DRottenn Allsheriar Konung, Esa. 6. Israels Syner beiddu Moysen ad gaanga uppaa Fialled og tala siña vegna vid DRottenn, Exod. 10. Þegar Guds Reider sloou i Horeb, og sogdust eige framar gieta heyrt Raustena DRottens Guds sijns. Daniel saa Christum vid Flooted Hidekel, og þar var ecke Maattur i honum, oll hanns Fegurd umbreitteſt, so hañ hafde aungva Krapta, Dan. 10. Læresveinarner urdu Ottasleigner, er hañ kom til þeirra ad lycktum Dyrum, Luc. 24. Þesser voru þo aller Guds Viner, þeim byrte hañ sig i Naad siñe og Giædsku, þo kuñe ecke Breyskleike Holldsins ad standast Nalægd Guddoomsins: Hvad mun þaa vid Ovine DRottens skie i Doomenum? Þegar hañ wthêller

þeirre

þeirre Reidenne i eimu Augnablike, sem þeir hafa safnad sier a Reidennar Dag, Mañ epter Mañ, uñ alla Æfe. Þegar Josua hiñ ypparste Kiennimadur, stood fyrer Engle þess mikla Raads, og Andskoteñ honum til hægre Handar, til ad mootstanda honum i Jerusalems Byggingu, þa stood hañ i saurugum Klædum, þar til DRottiñ took hañs Ranglæte fra honum, Zach. 3. og var þa Guds Sonur hañs Tals-Madur. Eñ hvørniñ munu aller Gudlauser verda, þegar þeir standa fyrer Doomara alls Hollds, þegar Gud sialfur aklagar, eñ eingiñ assakar, þegar Ranglæted ei framar verdur burt teked, helldur tilreiknad? Þeir munu standa Skomiñe iklædder, Psalm. 109. og uñ Allder Allda wtrekner fra hiñi himnesku Jerusalem, Op.b. 3. Johañes seger, Þeir drecka af Vijne Guds breñande Reide, og kveliast med Ellde og Brennesteine i Augliti heilagra Engla og Lambsins, Op.b. 14. og þeir munu aungva Roo hafa Nott nie Dag, þeir munu eta Tongur sijnar wt af Ofraun, og lasta Gud Himinsins wt af Kvol og Saarendum sijnum, og þeir munu Daudans Oska, og hañ mun fra þeim flya, Op.b. 9. J ollu þessu fa þeir ecke eirn Dropa til ad kiæla med Tongu sijna, Luc. 16. Þetta er ad soñu Ognarlegt ad heyra, Brædur mijner, enn þad er þo Guds Ord sem ecke kañ ad liuga: Eñ ef þad kañ ad ofbiooda nockrum ad heyra alleina, hvad mun þad þa vera ad sia og reina? Ecke hefur Guds Ande forgiefins talad þetta, og so skijrlega uppteikna laated: Eckert af Guds Ordum mun a Jordu falla, Himin og Jord forganga, eñ hañs Ord forganga alldrei, Luc. 21. Laat þau þvi duga þier til þess, ad þu verker þijna Saaluhialp med Ugg og Otta, Phil. 2. ad ei komer þu i þeñañ Kvala-Stad, edur siert varbwiñ vid hinum sijdarsta Deige, sem þu ecke veitst, nær ad þier uppreñur. Hugleid, Christeñ Madur, hvad JEsus seger: Joh. 12. Hvor sem forsmaaer mig, og medtekur ecke mijn Ord, hañ hefur þañ sem hann dæmer, þad Orded, sem eg talade, þad mun dæma hann a siidarsta Deige. Vert þvi ecke Ugglaus edur Ohræddur, Barn Guds, þegar þu situr under Heyrn hañs Orda, þvi þar er þiñ Doomare, þad mun a hinum Efsta Dege uppskaatt verda, hverniñ þu hafer epter þvi teked, hvorneñ þu hafer epter þvi lifad, hvorsu fws þu hafer verid a ad heyra þad, hvad vandlega þu hafer med þad hondlad, i hvad goodu og sidsomu Hiarta þu hafer geimt þad, hvort þu hafer fært þar af Avoxt i Poliñmæde, Luc. 8. Allt þvilijkt verdur bert, þegar Bækurnar verda upplaatnar i Doominum, Op.b. 20. og epter þvi muntu dæmdur verda.; Þvi so segier Paulus: Ad DRotteñ mune dæma leynda Hlute epter sijnu Evangelio a Sijdarsta Dege fyrer Christum JEsum, Rom. 2. Seig mier, Barn Drottins! Munder þu þora ad forsma þañ, er ætte ad dæma uñ Lijf þitt edur Æru, edur svara honum fullum Haalse, sierdeilis ef þu þig sekañ visser, og þier uggvænt þætte, ad þu munder falla a Maalinu? Þad þorer eingeñ ad giora. Ecke eru Dæme til þess, ad nockur hafe so bited Hofuded af Skomiñe. Eñ þad þora Meñ ad segia, ad Prestar segie so margt, þad sie ecke allt satt, jafnvel þott þeirra Embætte sie DRottiñs, og þeirra Verk, þeirra Guds, Esa. 49. Þetta voga Meñ ad segia og hugsa under

er Heyrn Guds Orda, sem eiga ad dæma þa a sijdarsta Dege. Veitstu ecke sagde Pilatus, ad eg hefe Vald til ad krossfesta þig, og Valld til ad lætu þig lausañ? Enn hañ laug, þvi hañ hafdi eckert Valld yfer hinum Alvallda Konunge, nema honum hefde vered giefed þad af Himnum ofañ. Eñ Christur hefur til þess Valld i hañs heilaga Orde, syndugur Madur, ad fordæma þig, ef þu kastar þvi a Bak þier aptur, og so til ad læta þig lausañ, ef þu hlijder þvi. Hvar fyrer læta Menn þa hid gooda Ord Guds, so sem Vind um Eyruñ þioota? Meñ hrædast allañ Voda, eñ Guds Ord ecki, þier þikir þeim Tijma vel varid, er þu gietur skoted þier undañ þess Heyrn, og mundir þar kañskie alldrei koma, nema þu meir Ottadest Meñena eñ Gud. Eñ muntu og gieta skotid þier undañ hinum sijdarsta Doomi, hvar þu skallt þo af þessu sama Guds Ordi dæmdur verda? Og fyrst þu villt ecki heyra Christ, þar ed hañ segier: Komed til mijn aller þier, sem erfided og Þwnga erud þiader, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Þa skalltu þo heyra hañ a sijdarsta Dege, hvort þu villt edur ecke, er hañ segier: Fared fra mier aller Illgiorda Meñ. I einu Ordi ad segia; Þar er eingiñ Hlutur, sem meir ætti ad hvetia upp syndugañ Mañ til ad bwast vid Dandanum, eñ sialfst Guds Ord, hvort hañ mun dæma, epter hvoriu hañ mun dæmast, og fyrer hvørs Forsoktun hann mun dæmdur verda. Sie þier þad kieñt og predikad af hinum aumasta og vesælasta, af einum fatækum og lijttkunnande, hvør halldinn er fyrir Afrak og Hreinsun Veralldar, forsmaa þad ei ad helldur, ef þad eru Guds Ord sem hañ hefur i Munni, og hañs Evangelium, er sagde til siña Postula og allra þeirra er leitast vid, ad feta i þeirra Footspor og hañs Umbod a Hendi hafa: Hver sem forsmaer ydur, hañ forsmaer mig, eñ hver hañ mig forsmaer, hañ forsmaer þañ er mig sende, Luc. 10. Ja, þoott þad sie frambored af einhverium, sem eckert giorer af þvi hañ kieñer, þa kañast þo þar vid, ad JEsus sagde til siña Læriśveina: A Moysis Stoole sitia Skriftlærder og Phariśæi, allt hvad þeir segia ydur ad vardveita, þad vardveited og giored, enn epter þeirra Verkum skulud þier ecke giora, þvi þeir tala og giora ecke, Matth. 23. Hver sem nu uñ þetta vandlega hugsar, hañ mun þess betur læra ad bwast vid þessum hrædilega Deige, med daglegre Ydran og Apturhvarfe fra Syndum og Glæpum, og þad þess helldur, sem lijklegra er, ad DRottens Tilkomu sie ei all-langt ad bijda, þvi þoott þau Teiknenn, er Lucas i þessu Gudspialle umtalar, sieu eñ þa ecke øll framkomeñ, og lijkast sie, ad ei framkoma muni fyrr eñ under sialfañ Doomeñ, þa geingur þad eins til hier, so sem fyrer daudlegum Mañe, ad Hel-Sootteñ er leinge ad bwaum sig i hañs Lijkama, adur eñ hun slijtur Lijfed af honum. So hefur og Gud opiñberad oss i sijnu H. Orde nockur Teikn, þau er a siijdurstu Døgum skie munu, og eru Vite hiñs Efsta Dooms, er vier vel meigum þeckia og vidkañast a vorum Døgum. Christur segier, Matth. 24. Ad Evangelium Rijkisins skule predikast uñ allañ Heim, til Vitnisburdar øllum Þioodum, og þa mun Enderiñ koma. Sieæd hversu Guds Orda Doomur skal yfer alla Meñ gaanga, þar eru og miøg faar Þiooder nu i Heiminum, a

medal

medal hverra ei hefur skined Lioos Evangelii, þoott aller hafe ecke vid þvi teked: Hañ gietur uñ, þar muni verda Hwngur, Drepsootter og Jardskialftar i øllum Stødum, Matth. 24. og kallar þad Upphaf Hormungaña: Þetta høfum vid sialfer reynt, Brædur mijner, og er ecke laangt aa ad miñast: Gud giæfe vier værum þess so miñuger, sem vera byriade! Ef Meñ vilia ecke ønnur Teikn þeckia, þa mættu Meñ þau vidkañast er Almeñust er, og JEsus umgietur, Luc. 18. Þegar Mañsins Sonur kiemur, meinar þu hann finni Trw aa Jordu? Noog er af Guds Ordi, noog af Evangelii Lærdomi, til Vitnisburdar yfir øllum Mønnum, Matth. 24. Enn hvert hinn sanna Guds Otta er svo vijda ad finna, maa stoorlega efast uñ; edur segied mier: Hvada Hyrtni er þad, ad Almenningur hefur aa ad læra Christilega Trw, edur kienna hana þeim, er vidþurfa? Enn þo allra sijdst epter henni ad lifa? Eg hygg þad gaangi til eins og aa Noe Døgum, hvad og er Teikn Mañsins Sonar Tilkomu, Matth. 24. Þeir aatu og drucku, þeir giptust og sig gipta lietu, allt til þess Dags, ad Noe gieck inn i Ørkina, og þecktu ecki Flooded, fyrr enn þad kom og took þa alla i burtu. Jaa, nu aa þessum Døgum, aadur enn þeir vita hvad Hioonaband er, edur kunna meir enn eitt Afni ad uppfræda Børn sijn i christilegre Trw og ærlegum Lifnade; gieta þeir þau epter sinne Mynd, og ala þau upp epter sinne Mynd, Andskotanum til Þioonustu aa Stundum, enn ecke Gude. Enn fyrst Trwin er þañeñ, þa er ei Von ad Kiærleikureñ sie betre, so ad rætist eitt inn þad, er Frelsarinn seiger ad fram muni koma fyrir hinn sijdarsta Dag, ad af þvi Raanglæted vex, mune margra Kiærleike kolna. Matth. 24.

Þetta er so vijst frañkomid, ad mig undrar þad Menn ecki hafa gleymt Nafninu, þar Hlutinn sialfann er varla hiaa nockrum ad finna. J einu Ordi ad seigia: Menn þreifa aa þvi sem Paulus skrifar, 2. Tim. 3. segiande: Vited, ad aa sijdurstu Tijmum munu verda skarlegar Tijder, þar munu verda Menn siergooder, Agiarner, Hoolsamer, Dramblaater, Gudlastarar, Foreldrunum Ohlijdnger, Oþacklaater, Glæpafuller, Hardbriooftader, Heiptrækner, Laussinnader, Oþijder, Gott hatande, Svikarar, Þverbrotner, Uppblaasner, elskande meir Sælgiæte enn Gud, hafande Skyn Gudhrædslunnar, enn afneyta hennar Krapte. Allt þetta hygg eg ad Noe þeckia munde, ef hann nu lijta mætte upp af Grøf sinne, og þad þecker hver og einn, sem ed giører nockurn Greinar-Mun aa millum Dygda og Odygda. A Døgum Noa slockte hiñ Riettlaate Gud Baal Oleifilegrar Elsku og Losta-Gyrndar med Vatns-Floodinu, fyrr enn þeir nockud af vissu, enn nu tekur Kiærleikurenn so ad koolna, ad Hiortu sumra Maña mæe stockfredeñ kalla, jaa, hardare enn Kopar og Staal. Hvad er lijklegra eñ ad hiñ Alvitri Heimsins Smidur muni bræda þau og smellta med hinu sijdarsta Baale, fyrr eñ nockurn varer? Þetta vil eg nu sagt hafa, Brædur mijner, Ydrunar og Athugalausum til Vidvørunar, enn ecke Sturludum edur Angraadum Samvitskum til Skielfingar, øllum til Sid-Boota og Leidriettingar Lifnadarins, enn eingum til Ørvæntingar, þvi so sem Tilkoma hins mikla Guds og DRottins vors JEsu Christi mun hrædileg

verda øllum Ogudlegum Mønnum; so mun hun gledileg verda øllum þeim, er a hañ vo- nä, og heñar med Þolinnmædi bijda. Þad kienner oss St. Paall, 2. Theff. 1. segiandi: Þad er Rettvijst fyrer Gudi, ad endurgiallda þeim Þiaaninguna, er ydur þiaa, enn ydur, sem þiaaest, Endurnæringu medur oss, þegar DRotteñ JEsus opiñberast af Him- ne med sijnum megtugum Englum. Ad sonnu byriar oss øllum ad mæta fyrer Doom- Stoole DRottens, 2. Cor. 5. og þar Reikning ad standa, jafnvel af hveriu Onytiu Orde, i Doominum, Matth. 12. Enn þad er Ohult ad mæta fyrer hauns Doome, sem siaalfur er Tals-Madur sinna Barna. Saa fer ecke sekur af Þijnginu, sem siaalfur aa ad dæma: Enn nu eru aller Trwader eitt med honum, so sem hañ og Faderiñ eru eitt, Joh. 17. Og hann er Høfud Lijkamans, sem er Christileg Kyrkia, Eph. 1. Þad er og inndælt ad standa honum Reikning, sem siaalfur hefur betalad fyrer alla Skulldena; Þar fyrer segier JEsus, Joh. 3. Saa sem trwer aa Soninn, saa dæmist ecke. (hvar Doomsins Ord merker Fordæming): Og aptur segier hann: Saa sem heyrer mijn Ord, og trwer honum, er mig sende, hann hefur eilijft Lijf, og hann kiemur ecke i Doom (þad er i Fyrerdæming), helldur fer hañ fraa Daudanum til Lijfsins, Joh. 5. Þvi skyll- du Guds Børn fælast hiñ sijdarsta Dag? Mun ein Brwdur ottast sijns Brwdgu:na Tilkomu, og ecki helldur aa allar Lundir bwa sig til ad fagna honum? Mun eitt Barn fela sig fyrer sijnum Fodur? Enn so sem Fadirinn er Børnunum Lijknsamur, Ps. 103. so vill hinn eilijfe Fader og Fridar Høfdinge, Es. 9. vera oss naadugur aa þeim Dege. Þar fyrer seger hann og i þessa heilaga Dags Evangelio: Enn Nær Þetta Tekur Ad Skie, Þa Lijted Upp, Og Upphefied Ydar Høfud, Af Þvi Ad Ydar Endurlausn Er Naalæg. Þad er sem hann segde: Þier skulud ecke leingur nidurlwter gaanga, af þeirre Sorg er þier hafed i Heiminum, þvi þa skulud þier i mier Glede hafa, Joh. 16. Þier skulud ecke leingur stynia med siaalfum ydur, bijdande epter Arfleidsluñi, sem er Endurlausn ydar Lijkama, Rom. 8. þvi hun er þa naalæg. Þier skulud ei leingur kvel- iast i Fangelsi þessa daudlega Lijkama, þvi þetta er Dagur Endurnæringariñar, P. G. 3. Dagur Endurfædingarinnar, Matth. 19. Dagur Endurlausnareñar, Eph. 4. Dagur Endurnijunar allra Hluta; þa munud þier ecke framar syrgia þa Guds Mynd, er þier i Adam topudud, þvi þier munud siaa i Skijum Himins hiñ añañ Adam, sem er DRottiñ af Himne; 1. Cor. 15. og þo Holld af ydar Hollde, hver ad er ydar Brood- er, og þo ydar Doomare, ydur ad øllu samlijkur, Ebr. 2. ad Syndiñe fraa tekinne, enn þo Jmynd sijns Fodurs Dijrdarfullrar Persoonu, Ebr. 1. Hver ydar forgeingilega Lijkami mun forklaara og samlijka giora sijnum Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Lijted upp, þier sem leinge hafed leitad ad þvi sem þar uppe er, Col. 3. þa skulud þier þad finna. Upphefied ydar Høfud, sem aasamt allre Skiepnunne hafed med wtriettu Høfde beded epter ydar Endurlausn, Rom. 8. og siaaed ydar Høfud komanda i Skijum Himens. Lijted upp þier, sem med Ahyggiu hafed leinge þraad epter hinne himnesku Jerusalem, Gal. 4. sem þar uppi er, og gaanged nu inn i hana: Þa mun DRottenn segia: Kom-

ed þier sem nakter erud, eg mun giefa ydur hvijtañ Skrwda og fa Paalmavid i Hendur ydar. Komed þier sem þyrster erud, eg mun dryckia ydur af Straumum lifanda Vatns, Joh. 4. Komed þier sem Hungrader erud, eg mun metta ydur af Nægdar Giædum Guds Hwss, Ps. 36. Komed þier sem erfided og þwnga erud þiader, eg mun endurnæra ydur, Matth. 11. Komed þier sem syted og grated, eg mun þerra øll Tær af ydar Augum, Op.B. 7. Komed þier, sem bored hafed mitt sæta Ok, og mijna lietta Byrde, eg vil ydur endurgiallda med eilijfre Þijngd Dijrdareñar, 2. Cor. 4. Komed þier, sem reiknader erud fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar, eg vil setia ydur til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Ja, Komed blessud Born mijns Fodurs, og eignest þad Rijked, sem ydur er fyrerbued fra Upphafe Veralldar, Matth. 25. Kom O HErra JEsu! Kom og iñleid oss i þetta Fagnadarsæla Lambsens Brwdkaup og þijna Dijrd, þu sem lifer og rijker ad Eilijfu, AMEN.

# Pridia Suñudag i Adventu.

Gudspialled, Matth. 11.

I Þañ Tijma. Eñ þa ed Johañes heyrde i Bondunum Verkeñ Christi, sende hañ wt Tvo af sijnum Læresveinum, og liet seigia honum: Ertu sa sem koma skal, eda eigum vier ad vænta eins añars? JEsus svarade og sagde til þeirra: Fared aptur og kuñgiored Johañi hvad þier sied og heyred. Blinder fa Syn, Hallter ganga, Lijkþraer hreinsast, Daufer heyra, Dauder upprijsa, og Fatækum verda Gudspiolleñ bodud, og sæll er sa, sem ecke hneixlar sig a mier. Eñ ad þeim i burtu geingnum, hoof JEsus ad seigia til Foolksins af Johañe: Hvad fooru þier wt a Eydemorku ad sia? Reyr þañ sem af Vinde er skiekeñ? Eda hvad foorud þier ad sia? Mañ Miwk-klæddañ? Sied, ad þeir sem miwkañ Klædnad bera, eru i Kongaña Hwsum: Eda hvad foorud þier ad sia? Eirn Spamañ? Eg seigie ydur fyrer Sañ, þañ meire er eñ nockur Spamañ, þviad þesse er sa, af hverium skrifad er: Sia þu! ad eg sende miñ Engel fyrer þiñe Augsyn, sa er þiñ Veg skal tilreida fyrer þier.

Exordium.

Hversu stoor ad sie Myndugleike Heilagrar Ritningar, þad kieñer oss best allra DRotteñ JEsus, er hañ sagde vid Gydinga, sem ecke villdu Trwa honum fyrer Kraftaverkenn, er hañ giorde: Rannsaked Ritningarnar, þvi þier meined ydur i þeim ad hafa Eilijft Lijf, og þær eru þad, sem bera Vitne af mier. Joh. 5. Vel hefur JEsus þetta hvorutveggia samañteked, ad hondla um Eilijft

Lijf, og ad bera Vitne af sier, þvi þad er eilijft Lijf, ad þeir þecke þig sañañ Gud ad vera, og þañ þu sender JEsum Christum, sagde hañ, Joh. 17. An JEsu Vitnisburdar, verdur eingeñ hoolpeñ, og hvor sem hann hefur og medtekur, hañ hefur Lijfid i sier blijfanda, og kañ ecki ad fara a Mis vid Saaluhiaalpena; þar um̃ vitnar St. Petur, G. B. 4. Ad ei siei ødrum Hiaalpræded, og ad þar sie eckert añad Nafn Moñunum giefid under Himnenum, i hvoriu oss byrie Saaluhoolpnum ad verda, enn Nafned JEsu Christi. Nu, þar ed heiløg Ritning høndlar um̃ so mikla og veglega Hlute, hvad kañ henne þa jafnt edur samlijkiande ad kallast, af øllu þvi, er syndugir Menn hafa Mætur a. JEsus sagde vid Kvinnuna i Samaria: Ef þu visser Guds Giof, og hvør sa være, er vid þig seiger: Gief mier ad drecka; þa munder þu bidia hann ad giefa þier Lifande Vatn, Joh. 4. Enn eg vil seigia: Gud giæfe, Meñ þecktu Gud vid sig talande i heilagre Ritningu, þa mundum vier fwsare vera ad drecka af hanns Naadar Straumum, er þar wt af flioota. Hvor hefur kiennt oss ad þeckia Gud vorn Skapara? Hver hefur Opennberad oss hanns Vilia? Hver hefur vijsad oss Vegenn hønum efter ad fylgia? Hvor hefur upploked vorum Augum ad vier þeckium̃ Syndena? Hvor hefur synt oss, hvørnenn vier ættum ad blijdka Gud, nær hann Reidur er, og faa heñar Kvittan? Hvor hefur Opennberad oss Leyndardoom Heilagrar Guddoomsins Þrenningar, Dijrd Fødursins, Elsku Sonarens, Astgiafer Heilags Anda? Hvor hefur synt oss þad, sem marger Kongar og Spaamenn gyrntust ad sia, og sau þad ecke? Luc. 10. Þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum, enn nu er Opennberad Smælingium? Matth. 11. Hefur ecke hiñ Naaduge Gud oss allt þetta auglijst og fyrer eckert giefid i heilagre Ritningu? fyrir sinn Eingietenn Son sem er i hanns Skaute, Joh. 1. Af þessare Andlegu Fie-Hyrdslu, audgade JEsus Læresveina Johannis, þegar þeirra Meistare sende þaa til hanns, ad frietta hann ad, Hvort Hann Være Saa Sem Koma Skyllde, Edur Ættu Þeir Eins Annars Ad Vænta; Ecke i þeirre Meiningu, ad Johannes visse þad ecke sialfur, þvi hann hafde adur vid hann talad, Matth. 3. Helldur til þess, ad þeim hiaalpad yrde i þeirra Andlegu Faafræde, hvad hinn goode Meistare JESUS giorde, med þvi Moote, ad hann vijsar þeim til Verkanna, sem af hønum giorduft, og under eins til Ritninganna, sem um̃ Messiam spaadu: Og þo ad hvørt eitt af þeim Kraftaverkum sem hier standa i Gudspiallenu, sie noog til ad vitna þar um̃, ad hann Guds Sonur være, þar Gud er alleina saa sem Daasemdar Verkenn giører, Ps. 72. Þa er þo eckert þeirra, sem so berlega vitne um̃ Embætte Messiæ, so sem þad Sijdarsta er hier stendur: Faatækum Verda Gudspiollenn Bodud. Hvor blessud Ord vier vilium i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka, og af þeim sierdeilis Tvennt hugleida. Sem er: 1. Um̃ þaa Faatæku er hier nefnast. 2. Um̃ þad Evangelium er þeim bodad verdur, med þeim Lærdoomum er þar af leida.

Þu Myskunsame goode Gud, sem oss hefur med Lioose þijns Sonar Evangelij, vijsad

viijsad hinn rietta Veg Sæluhiælparennar, vertu i Verke med oss, ad vier þetta fram̃kvæmt gietum, þijnu Nafne til Dijrdar, enn oss til Eilijfrar Velferdar, Amen.

## Utleggingenn.

Fatæklir, sem hier nefnast, eru ecke alleinasta þeir, sem vantar Audlegd Heims þessa, helldur og aller þeir, sem æ einhvern Hætt eiga vid bæga Kost ad bwa. David var rijkur Konungur, og hafde Aura Nægter, þo seiger hann, Ps. 9. Myskuna mier, og lijt æ Fatækt mijna. Nu kuña Meñ þo eige ad mootseigia þvi, ad vor Frelsare, æ medañ hañ um̃gieckst hier æ Jorduñe, hefur sier i Lage wtvaled hina Fatæku og Audvyrdelegu fyrer Heiminum. Siælfur var hañ i Fatækt aleñ, hañs blessud Mooder fieck eckert annad Rwm i Giesta-Herberginu, eñ eirn Stall til ad fæda hann i Heimenn, Luc. 2. sem æ allra Valld, bæde æ Himne og Jordu. Hanns Fooster-Fader var eirn Trie-Smidur, Matth. 13. sem nærde sig af Hand-Biorg siñe. Hañs Læresveinar voru fatæker Fiskemenn. Flestaller þeir, er hañ um̃gieckst med hier a Jordunne, voru fatæker og um̃konulitler. Skamast þijn ecke þess vegna Fatæktarennar, Christenn Madur! fyrst hañ hefur hana wtvaled, sem æ þo allt Sylfur og Gull, og øll Dijrenn i Skoogenum, Ps. 50. Ærleg Fatækt er heilagur Hlutur, þar hann hefur vijgt hana, sem eirn er Heilagur, og þo alleina Rijkur. Fyrerlijt og ecke Fatækañ, þu sem Audugur ert, þvi þad er ad forsmaa hañs Skapara, sem giordist Øreigi þiña vegna. Edur þvi skylldu Menn hañ Ovirda, er Gud hefur so mikils virdt, ad hañ hefur fyrir hann pijnst, og læted hønum sitt Evangelium opennbera? Eñ hvar fyrer mun vor Frelsare seigia hier, Ad Evangelium Sie Fatækum Bodad? Sannlega, fyrst þess vegna, ad Johañis Læresveinar þeckia mættu, ad Spaadoomur Esajæ C. 61. uppfylldur være. Eñ Guds Ande, sem fyrer Esajam talade, hefur giørla fyrersied, ad ei mundu þeir marger verda, er Christum medtæke, sem lifdu i Velgeingne Heims þessa, so sem Raun gaf Vitne. Skule Meñ og Sañleikañ seigia, þa kiemur Fatækteñ betur samañ vid Christs Evangelium, eñ Rijkdoomureñ. Hañs Rijke var ecke af þessum Heime, Joh. 18. Og þvi er ecke Von til, ad þeir mune vel skipast under hanns Stioornan, sem hafa Gull-Hnøtteñ fyrer sitt Athvarf, og ei vita af annarre Sælu ad seigia, eñ Audæfum Heims þessa. Þar fyrer sagde JEsus fordum Daga, um̃ hinn Rijka Yngis-Mañ, ad hægra være Ulfalldanum ad ganga i giegnum Naalar-Augad, eñ Rijkum Mañe inn i Himnarijke, Matth. 19. Ecke þessvegna, ad hann rijkur var, helldur af þvi hañ angradest, þegar DRottenn sagde, ad hañ skyllde giefa Eigur sijnar Fatækum og fylgia sier epter. Ja, Sannlega æ Fatækt og Armoodur betur vid Guds Evangelium, enn Rijkdoomur mikell. Þvi seiger og Jacob Postule, Cap. 2. Heyred, Brædur mijner Elskuleger, hefur ei Gud wtvaled Fatæka Heims þessa, ad þeir verde Auduger i Trwnne og Erfingiar þess Rijkes, er hann heited hefur þeim, er hann elska. Enn þar er næsta hætt vid, ad þeir mune ecke hafa mikla Ast æ Gude, sem æstunda miked Aura-Safn. Hvar fyrer Paulus seger, ad þeir sem Rijker vilie verda, þeir falle i Freistingar og

Snorur, og margar Gyrnder ſkadlegar og Heimſkulegar, ſem ſteipa Mannenum i Forz diorfum og Olucku, 1. Tim. 6. Og hier kvedur ſo ramt ad, ad Endurlauſnarenn ſegz er: Þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mam̃ona, Matth. 6. Og, þvi verr, hvad mørg eru þau Dæmenn, ad Men̄ elſka meir Akneyte ſiſn og Bwgarda, en̄ Drottz ein̄s Kvølldmaaltijd, ſem þo er øllum tilboded: Þar fyrer lætur han̄ Blindum, Holltum og Vonudum ſamannſafna, Luc. 14. Vier erum Ahiggiuſamer eins og Martha, og mædun̄ſt i mørgu, enn ſæer hyggia ad þvi, ad eitt er Naudſynlegt, ad wtvelia þad Gooda Hlutſkipted, eins og Maria, Luc. 10. edur ad hafa Þlaaning med Guds Foolz ke, helldur en̄ Egyptalands Audæfe, eins og Moyſes, Hebr. 11. Enn þoott ad þeſſu ſie nu ſo vared, munu þa aller wtelokader fraa Evangelio, þeir ed Rijker eru, en̄ hiner aller innteknir? Fiærre ſer þvi. Abraham hafde Gud giefed Gull og Silfur, Þræla og Ambaatter, Ulfallda og Aſna, Naut og Saude, Gen. 24. Og þo kallaſt hann Fader Trwadra, Rom. 4. Og þad var honum til Riettlætes reiknad, ad hann Gude trwde, Rom. 4. Og þvi Evangelio er Gud honum ſiaalfur bodade, ad i hanns Sæde ſkylldu bleſſaſt allar Þiooder, Gen. 22. Job var Rijkes-Madur, og var hann þo Guds Vinz ur, Job. 1. og 42. David, Joſaphat, Ezechias og Otal fleire, i Gamla Teſtamentz enu, voru Maktar-Menn, og þo eru aller þeir, fyrer Evangelium Trwarennar, holpner ordner. Og ad Menn vite, ad þad ecke odruvijs er i Nija Teſtamentenu, þa er þad alz kunnugt, ad Nicodemus var eirn Hofdinge Gydinga, þo kom han̄ til JEſum aa Naattz arþele, og þaade Underviijſun af honum, Joh. 3. Jairus var Samkundu Hofdinge þo leitade hann Chriſti Hiaalpar, Marc. 5. Um̃ Hundrads-Hofdingiann ſagde JEz ſus ſiaalfur, ad hann hefde ecke funded þvilijka Trw i Iſrael, Matth. 8. Og hefur han̄ aan Efa, eingen̄ Smælinge vered, þar hann uppbygde Gydinganna Samkundu, Luc. 7. Johan̄a Huſtru Chuſæ, er var Raads-Madur Herodis, Luc. 8. hefur vered rijk Kona, þo trwde hun aa DRottenn. Joſeph af Arimathia var eirn Raad-herra og Audugur, þo var hann Læreſveirn Chriſti, Matth. 27. Cornelius var rijkur, þo vottar Einz gellenn um̃ han̄, ad han̄s Bæner og Olmuſugiorder ſie uppſtignar fyrer Gud, G. B. 10. Dionyſius Areopagita, var Raads-Herra i Athenu Borg, G. B. 17. Paulus Sergz ius var Hyrdſtioore, og þo lietu baader þeſſer ſkijraſt, og tooku Chriſtne af Paulo, G. B. 13. Og hvor kann øll þvilijk Dæme upp ad telia? Og ſo ſem ad ecke eru aller Ryker þeſſare Guds Naad ſraaſkillder, ſo verda og ecke heldur aller Faatæker hen̄ar hluttakz ande. JEſus læknade ecke alla Hallta edur Blinda, ſo hefur hann ecke helldur giort alla Faatæka Saaluhoolpna, jafnvel þoott hann fyrer alla lided hafe. Fiærre ſie þvi, ad Faatæktenn kunne nockrum ad afreka Himnarijke, fyrer ſiaalfa ſig. So ſem Gud hefur bølvad þeim, er Riettlæter þan̄ Faatæka fyrer han̄s Faatæktar Saker, og aafellz er hin̄ Rijka fyrer han̄s Rijkdooms Skulld; ſo giører hann og ſiaalfur hvorugt i ſijnum Riettlaata Doome, þvi hiaa honum er eckert Manngreinar Alit, helldur aa øllu Foolke ſem giører han̄s Villa þefur han̄ Þocknan, G. B. 10. Ad ſon̄u er Rijkdoomenum hættz

ara

ar a eñ Fatæktiñi; Eñ so sem margur, þvi verr, brwkar Audæfiñ til Ohoofs og Dramb-seme, til ad underþryckia hiñ Volada og Lijtilmagnañ, So er og Fatæktinne ei helldur alltijd Ohætt, og þvi afbad Agur hana, ad ei neyddist hañ til ad stela, Ordsk. 30. Hvorttveggia þetta er epter þvi sem med þad er hondlad. Olmusugiorder Cornelii voru Gudi eins þeckar, P. G. 10. og sma-Peningar Eckiuñar, sem lagdi meira i Guds Kistuna af sijnum Fatæktvoom, enn aller hiner Rijku, Luc. 21. Þar eru Fatæker, sem ecke vilia erfida med Hondunum, og læra þvi ad stela. Þar eru Fatæker, sem ofunda hina Rijku, formæla þeim fyrer eingva adra Sok enn þa, ad Gud hefur þeim meira laanad, hver þo giorer bæde Fatækañ og Rijkañ epter Velþocknan siñe, Ordsk. 22. Sviijkia þa i allre Hondlan, meina ad þeir so giora meige ad Saklausu, hælast þar uñ i sinn Hoop, hiaalpa odrum til ad breita þanniñ, kalla þvilijkt ad giora Kiærleikans Verk, so sem hinn Rijke eige eingann Riett a sier, nema þañ er hann nær med Ofbellde. Þeir una Fatæktinne illa, og stunda med ollum Hætte, med Riettu og Raungu, ad drijfa hana fra sier. Munu þetta vera þeir Fatæker, er JEsus hier uñ talar i Gudspiallinu, Brædur mijner? Laangt er fra þvi, helldur þeir, ed Fatæktena og allañ annañ Guds Kross med Þolinnmædi lijda, sa ed lætur sier nægia med sinn deildañ Verd. Gud telur ecke Peninga þijna, Christenn Madur, helldur mælir hañ þitt Hugarfar. Hann er eingvann veigenn riettilega Fatækur, sem giarnañ villde taka allt fra ollum ef hañ mætte, jafnvel þo eckert hafi hañ; Eins og sa er ecke rijkur, sem vill meira hafa, þoott hann hafe all Nægter: So er og hiñ ecke fatækur fyrer Gudi, er med Hiartanu gaper yfer ollu þvi hiñ Rijki a: Hiñ Rijka kañ og ecki ad skada hañs Rijkdoomur, ef hañ brwkar hañ til Guds Dijrdar, og Naunganum til Gagnsmuna, sa ed ecke treyster uppa Oriettindenn edur Raanglæted, edur helldur sig til þess, sem ad eingvu er neitt: Vilie honum Rijkdoomur til, þa fester hañ ecki Hiarta sitt vid hañ, Ps. 62. Hann reiser hiñ fallna, styrker Maal Eckiuñar og hiñs Fodurlausa, upphefur sig ecki i Hiarta sijnu, helldur fellst a Jacobs Raad, er hañ seger: Cap. 1. Sa sem Rijkur er, hroose sier i Læging siñi. Og fyrer þvi ad Gudi hefur þocknast margañ audugañ ad giora, til ad audsijna i þvi, so sem ollu odru, sijna Giædsku vid Mañaña Sonu; Enn añars Vegar er nærsta hætt vid, ad Audurinn, sem er fagur, meige blinda Mañsins Hiarta; Þa giorer St. Paall Raad fyrer þeim sem Rijker eru i Christilegre Kyrkiu, 1. Tim. 6. (so laangt er fra þvi, ad þeir sieu fra Evangelio wtilokader) segiande; Þeim sem rijker eru i Olld þessare, predika þu, ad þeir ecke metnest i Hiortum, og treyste ecke a Audæfeñ, helldur a þiñ lifanda Gud, sem oss alla Hlute ranægianlega giefur til Notkunar, ad þeir sieu Goodgiarner, ad þeir sieu rijker i goodum Verkum, sieu giafmillder og fwser a ad medbijta, safnande sialfum sier goodum Grundvelle til hiñs Epterkomanda, so ad þeir hreppe eijlijft Lijf. Fare nu nockur þessum Postulans Raadum fram, þa er so laangt fra þvi, ad hann fare Hlutlaus af Guds Velgiorningum i Evangelio, ad hann hefur meiri Ordsok og Efni til ad giora þad Gud hefur i Evangelio boded, helldur enn hinn sem snaudur

er

er: Edur hvad er þad, ad Christur segier, ad ei skule Vatns-Dryckur Olaunadur vera i Lærisveins Nafni giefinn? Matth. 10. Hvad er hitt er hañ bijdur: Ad Meñ skule giöra sier Vine af hinum rangláta Mammona, so ad þeir medtake oss i eilijfar Tialldbwder? Luc. 16. Allt er þetta til þess sagt, ad Madurenn lockest med Guds Nádar Fyrerheitum, til ad vijrka hann med hanns Gáfum, og Náunganum ad gagna: Enn ef ödruvijse er, þa klijnger þar og önnur Bialla; Hun lætur á þennann Hátt, hiá Luc. 6. Vei ydur sem rijker erud, þier hafed ydar Huggun wtteked. Og Jacob talar nockud skorennordt þar uñ, Cap. 5. segiande: Nu vel! þier Audiger, grated og veined yfer Hörmungum ydar, sem yfer ydur koma munu, ydar Audæfe eru fweñ, ydar Klæde eru uppeteñ af Mol, ydar Gull og Silfur er ridgad, og þeirra Rid vitnar á mooti ydur, og mun uppeta ydar Holld so sem Elldur, þier hafed geymt Fesioodenn til hiña sijdurstu Daganna: sieed, Laun Verka-Mannaña, sem hafa sleiged ydar Land, er þier hafed iñihallded, þau hroopa, Hroop þeirra er yrkt hafa, er iñgeinged i Eyru DRottinns Allsheriar. Þann Veg hef eg nu sijnt, Brædur mijner, ad Rijkdoomur og Fátækt eru Gudi jafnkiær, þegar med hverttveggia er riettilega farid. Þvi vil eg þess ei dylia, ad eg hygg ad Frelsarenn i þessa Dags Evangelio iñibindi þa i þessu Orde, sem hann talar uñ, Matth. 5. seigiande; Sæler eru Andlega Volader, þviad þeirra er Guds Rijke. Þetta sijnestráda meiga af siálfum Spádoome Esaiæ C. 61. Til hvers ad Frelsareñ vijsar Johañi i Andsvari sijnu. Hver Spádoomur so hlioodar: Ande DRottins er yfer mier, af þvi hañ hefur smurt mig, hañ hefur sendt mig ad boda Evangelium þeim Hoogværu, og ad binda vid þa sem i Hiörtum eru sundurknosader. Þetta skilst mier ad vera sama og Andlega Volader, Matth. 5. Þad eru þeir, sem ad til þess fiña, ad i þeim, þad er i þeirra Hollde, bijr eckert Gott, Rom. 7. Þeir ed þeckia, ad þeir hafa Skort á þeirre Hroosuneñe, sem fyrer Gudi gyllder, Rom. 3. Þeir ed med hinum Fortapada Syne audmijkia sig fyrer sijnum Fødur, Luc. 15. Þeir ed med Tollheimtu-Mañinum voga ecke ad upplypta sijnum Augum til Himens, helldur beria sier á Brioost og segia; Gud vertu mier Syndugum Lyknsamur, Luc. 18. Þeim er so eru Andlega Volader, og reikna sig so Ör-fátæka, af öllu þvi sem fyrir Gudi gyllda kann, ad þeim mislijkar allt á siálfum sier, þeim hygg eg ad bædi fyrst og sijdarst tilheyre Evangelium, hvert helldur þeir Rijker eru edur Fátæker, þvi so seger DRottenn, Esa. 66. A þann lijt eg, sem Fátækur er, og sundurkramenn i Anda, og skielfest fyrer Ordum mijnum. Þegar Guds Sonur kom i Heimiñ, þa villdu Meñ af Verkunum Riettlater verda: Eñ hvad segier JEsus þar uñ? Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir eñ hinna Skriftlærdu og Phariseanna, þa kunnid þier ecki inn ad gánga i Guds Rijke, Matth. 5. Þa Tijundudu þeir Mintu Anis og Cumen, þad var þeirra Guds Þioonusta, eñ gleymdu þvi sem mest var i Lögmálinu, Doominum, Miskunseminni og Trwnni, Matth. 23. Þa færdu þeir stoorar Foorner, Marc. 7. á HErranns Altare, og ætludu þar fyrer hoolpner ad verda. Enn DRottenn segier þar uñ, Esa. 66. Hver ed slát-

slaatrar Naute, þad er, sem hann slæe Mann i Hel, hver sem offrar nockrum Smaa-Fie-nade, þad er, sem hañ hꝍlsbrite Hund: So mikid gylldte su wtvortis Guds Pioonust-añ i hañs Augum. Þar fundust ecke marger, sem giørdu soddañ Jꝍtning fyrir Gudi, sem David, helldur hiet þad so: Eg þacka þier Gud, þad eg em ecke eins og adrer Meñ, Luc. 18. Þesser þoottust rijker vera af goodum Verkum, og jafnvel ødrum laana kunna. Eñ hvad seger JEsus vid Biskupiñ i Laodicea? þu seger: Eg em fullrijkur og hefe ein-skis Þorf, eñ þu veitst ecke, ad þu ert aumur og vesæll, blindur og nakeñ, Op. B. 3. Og þad hygg eg segia mætte um̃ Mwga Mañs aa þeim Døgum. Þar fyrer var Evangeli-um Fꝍtækum bodad: Þar fyrer flycktust Tollheimtumenn og Bersynduger til JEsum, Luc. 15. Þar fyrer komu jafnvel heidner Menn aa hañs Fund. Þar fyrer sagde hann til þessa Foolks, Matth. 21. Sannlega segie eg ydur: Ad Tollheimtumenn og Pwt-ur munu gaanga framar ydur inn i Guds Rijki; Þvi Johannes kom til ydar med Riettlætisins Veg, og þier trwdud honum ecke, eñ Tollheimtumenn og Pwtur trwdu honum, enn þier, sem ad saaud þetta, ydrudust ecki epter aa, so ad þier trydud honum. Og høfum vier so nockud heyrt þar um̃, hvilijker ad þesser Fꝍtæker sieu, sem vor Frel-sare talar um̃ i Andsvare sijnu til Johannem.

Nu vilium vier hier epter nockud um̃ siaalft Evangelium tala, sem þeim bodad verdur. Menn kynnu ad efast um̃ hvorneñ þad skilia eige, ad JEsus segier hier alleina: Ad Fꝍ-tækum Sieu Gudspiøllen Bodud, þar þo St. Paall vottar, Tit. 3. Ad heilsusamleg Guds Naad sie opiñber ordinn øllum Mønnum. Hier byriar oss þad ad athuga, ad jafnvel þoott Christi Evangelium sie ecke nema eitt, þa verdur þo eitt og hid sama Evan-gelium med Tvøfølldum Hætti predikad, saa eini hefur nockud af Løgmaalenu alltijd med sier, og fram̃bijdur Guds Naad giefins veitta med Fororde: ef Meñ ydrast Syndaña og af þeim laata. Þvilijk var sw Predikun Christi, er Marcus um̃gietur, Cap. 1. JE-sus kom i Galilæam, predikande Evangelium Guds Rijkis, segiande: Tijmenn er uppfylldur, Guds Rijke er komed, giøred Ydran, og trwed Evangelio. Þess hꝍttar var Predikun Johannis Baptistæ, er hañ sagde: Giøred Ydran, þvi Guds Rijke er naalægt. Øxeñ er sett til Rootar Triaanna, hvert þad Trie sem ecke ber goodañ Avoxt, skal upphøggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Hier er Oleum Evangelii blandad med sterku Løgmaalsins Vijne, til Lækningar þeim, sem medal Ræningia hrasader voru, Luc. 10. Med þessum Hætte aa Evangelium enn nu ad kiennast i Guds Søfnudum, hvar inni ad bædi eru Vonder og Gooder, Matth. 13. Og þannveg byriar Guds Fi-aarsioodum wt ad skipta i hentugann Tijma, so hver eirn faae þad honum ber, þvi ei kom JEsus til ad uppleysa edur afmaa, helldur til ad uppfylla Løgmaaled, Matth. 5. Guds Naad i Evangelio hrijn ecki aa Mañinum fyrer utann eina lifande Trw: Undann einne lifande Trw verdur ad gaanga sönn Ydran: Sønn Ydran er alldrei nema med soñu Angre og Hiartans Trega: Trege Hiartans kañ ecki i Manninum ad uppvekiast fyrir utann Þeckingu Syndarinnar; Þecking Syndarinnar fram̃kiemur af Løgmaalinu,

E Rom,

Rom. 7. Hvar fyrir þoott ad Logmalid giere eingvañ hoolpiñ af sialfu sier, sannt þioonar þad under Evangelium, trwudum Manni til Saaluhialpar, so þegar Bookstafurinn hefur deydt, þa lijfgar Andiñ, 2. Cor. 3. Þegar Logmaaled hefur sundur mared, þa læknar Evangelium; Þegar Mañeskiañ af Logmalinu þeckir, ad hun hefur eckert añad forþienad eñ Helvijte, Guds Reide og eilijfañ Dauda, þa tekur Trwiñ vid hønum, og giorer hañ lifande aptur fyrer JEsu Dauda, og endurnijar hañ til ad giora framveigis Guds Vilia: Þessa Adferd brwkade hiñ ædste Biskup og mikle Hyrder Saudanna optast, til ad leida synduga Meñ til Guds Rijkis; þa somu brwkudu og aller hañs Þienarar uñ alla Æfe. Noe var Riettlætisins Predikare, 2. Pet. 2. Nathan straffade David, aadur eñ hañ huggade hañ, 2. Sam. 12. Atferd Johannis Baptistæ er øllum kuñug, Matth. 3. So er nu þesse hinn almennilege Haattur og Maate til ad predika Evangelium, sem aller Guds Ords Þienarar eiga ad vita og brwka. Añar er saa, sem tilhlijder Angraadum og Sturludum Mañeskium, þeim sem allareidu hafa þeckt Syndina, og so eru af heñar Umþeinkingu sundurmarder, ad þeir reikna sig Overduga Guds Naadar; og so Faaraader, ad þeir vita ecke hvad þeir eiga af sier ad giora: Þeckia ad soñu Guds Naad, enn ofbijdur þo Stærd Syndaña: Þeir vita ad Sool Riettlætisins JEsus Christur er þeim uppruñiñ, Mal. 4. Enn fyrer þvi ad þeir treystast ecke til ad lypta sijnum Augum til Himens upp, Luc. 18. og ad Þoka Syndaña skilur aa millum Guds og þeirra, Esa. 59. Þa saa þeir ecke i giegnum hana sied (fyrr enn Heilagur Ande ridur Trwareñar Smyrslum aa þeirra Hiartans Augu) hvad fagurt hun skijn, þeir þeinkia helldur aa Stærd Syndaña, eñ til Fiollda Guds Myskunsemda, og, i einu Orde ad segia, þad eru þeir Faatæker, er sier i Lagi umtalad er hier i Gudspiallinu, þeim tilheyrir Evangelium eintoomis aan Logmalsins straungu Hootana. Hvar fyrer? Þviad Guds Ande hefur alla-reidu verkad allt þad, sem Logmaaled aatti ad verka, sem er Þeckingu Syndaña og sanna Ydran, er af henni kiemur. Þeim verdur bodad, ad hvar sem Syndeñ yfergnæfe, þar yfergnæfe Naadenn miklu framar, Rom. 5. Þeim verdur sagt, ad Mannsins Sonur kom til ad kalla Synduga, eñ ecke Riettlaata, til Ydrunar, Matth. 9. Þeim aa ad predika, ad Blooded JEsu hreinse þaa af øllum Syndum, 1. Joh. 1. Og þo ad þeirra Synder sieu raudar sem Blood, skule þær eins hvijtar og Snioor verda, Esa. 1. Þeim segier David, Ps. 34. Naalægur er DRotteñ þeim sem sundurkramder eru i Hiortum og Harmþrwngner i Anda. Til þeirra segier Esaias, Cap. 55. Heyred þier sem þyrster erud, komid til þessara Vatna, og saa ed eingvann Pening hefur, komed, medtaked og snæded. Komed, segie eg, og saaed Okeypis og fyrer eckert, bæde Vijn og Mioolk. Til þeirra hroopar sialfur JEsus, sem bored hefur Synder Veralldarennar, Matth. 11. Komid til mijn aller þier sem erfided og Þwnga þiaader erud, eg vil ydur endurnæra; Til alls þessa segier oll hellog Guddoomsins Þreñing, Amen. Ezech. 33. Þier segied, af þvi ad vorar Yfertroslur og Synder liggia aa oss, þar fyrer visnum vier upp i þeim, hverniñ skylldum vier

nœiga

meiga lifa? Þa seig þeim: So Sannarlega sem eg lifi, seiger DRottenn, þa vil eg ecke Dauda hinns Ogudlega, helldur ad hann snwe sier og lifi. Ecke eru þess Dæme, ad Fader Myskunsemdanna hafe nockurn þann frꜳ sier reked, sem til hanns komed hefur, Joh. 6. Þetta er Evangelium Fridarens, sem hier bodad verdur, Es. 52. Lꜳt þvi ei, syndugur Madur, þijna Sꜳlu vera Oroolega i þier, þvi þu hefur Frid vid hañ feinged, hvors Ovinur þu varst, þegar hañ gaf siñ Son i Daudann fyrer þig, Rom. 5. Þad skiedur hiꜳ goodum Konungum, nær þeim fædest eirn Sonur, ad þeir giefa einhvorn Bandingia lausañ; Eñ Gud Fader liet hroopa til allrar Veralldar i sijns Sonar Fædingu: Fridur ꜳ Jordu og Moñum goodur Vilie! Luc. 2. Þetta er Evangelium Fagnadarens, Luc. 2. Þvi Englarner sungu: Eg boda ydur mikeñ Fognud, þañ er skier ollu Foolke. Lꜳt þier þvi ecke so Ogna Synder þijnar, þoott þær ysred margar sieu og stoorar, ad þu ecke under eins gledieſt i Gude Heilsugiafara þiinum, Luc. 1. Meire Glede er i Himnenum, seiger JEsus, yfer einum Syndara, sem Ydran giører, helldur eñ yfer Niju og Nijutiju Riettlꜳtum, Luc. 15. Nu fyrst ad siꜳlfur Gud og hañs heilager, fagna so miøg þijnu Afturhvarfe, þvi skyllder þu þa hryggur vera? Þetta er Evangelium Guds Nꜳdar, G. B. 20. og Embætte Forlijkunareñar, 2. Cor. 5. Eñ þu hrædest oll þijn Verk, eins og Job, og veitst, ad jafnvel þitt Riettlæte, er so sem Nidlags Fat, Esa. 64. Nu er þetta Nꜳdarennar Evangelium, i hvoriu Syndaranum verdur framboden Nꜳd wt af Nꜳd, enn ef þad er af Nꜳd, þa er þad ecke af Verkunum, seiger Postuleñ, Rom. 11. Þijn Verk eru vond, eñ þetta er þo Evangelium goodra Hluta, Rom. 10. Þitt Hiarta fordæmer þig, enn Johañes seiger þo, ad Gud sie meire þijnu Hiarta, og vite alla Hlute, 1. Joh. 3. Veit hann alla Hlute, þꜳ veit hann og þad, ad þu ert Andlega Voladur, þvi vill hann þier Himnarijked giefa, Matth. 5. Engenn er sꜳ snaudur, er hañ ꜳ heillt Kongs Rijke, þo er Syndareñ rijkare, þegar hañ ꜳ Guds Rijke, og verdur þa rijkastur, þegar hann er sem fꜳtækastur, og mꜳttugur, þegar hañ veikur er, eins og St. Pꜳll, 2. Cor. 12. Veit Gud alla Hlute, þa veit hañ og þad, ad þig hwngrar og þyrster efter Riettlætenu, Matth. 5. Eñ ef þu, sem Vondur ert, kañt ad giefa Bornum þijnum goodar Gꜳfur, ef þu sem ert aleñ i Synd, munder ei neita daud-þyrstum Mañe Vatns-Dryckiar; mun þa Gud, sem er alleina goodur, tefia leinge ad svala þier med Heilogum Anda, þa þig lꜳngar efter honum, so sem Hiørtenn efter fersku Vatne, Ps. 42. Þu fellur i þær Synder, er Gud hefur þier ꜳdur fyrergiefed, og þad optar enn Einusinne; þad er illa giort: Lꜳt þig þad af Hiarta ꜳngra, og syndga ei þanneñ framar, ad þu ecke uppauser Bruñ Myskunareñar; Eñ giæt þo þess, ad þetta er Evangelium Forlijkunareñar, 2. Cor. 5. Christur er Kiennemadur ad eilijfu, Heb. 7. Og situr til Fodursins hægre Handar, til ad bidia fyrer oss O-aflꜳtañlega. JEsus skipade Petre ad fyrergiefa sijnum Broodur Siøtijusinnum Siøsiñum, Matth. 18. Hugsa ecke ad Fader Myskunsemdaña mune vera sijdur nꜳdugur, eñ hañ ætlar til ad þu skuler vera, sierdeilis þar hann segier: Vered Myskunsamer, so sem ydar

Fader er myskunsamur, Luc. 6. eñ brwka samt ecke þessa Guds Nаad til Hyrduleysis, edur til ad giefa Holldenu Taum. Hæd ecke ad honum, sem Augad hefur skapad, og Eyrad hefur plantad, Ps. 94. og er Hiartnaña og Nijrnaña Rannsakare, Opb. B. 2. Þvi hañ lætur ecke ad sier hæda, Gal. 6. Hafi Gud fyrergiefid þier margar Synder, þaa vit, ad þier er þess vandara. Þeink aa þañ Tijma, hvorsu ad Syndeñ var þier Obæreleg, aadur eñ Gud huggade þig med Evangelio; hun mun þo betur bijta, ef þar kyñe ad koma, ad hañ yrde fyrer Alvoru reidur. Slöckved ecke Heilagañ Anda, seiger Paall Postule, 1. Tess. 5. Giæt ad þvi, syndugur Madur, þvi kañskie, hann verde ecke so hægt aftur ad kveikia. Siaa! nu ertu heilbryгdur, sagde JEsus vid hañ, sem hañ læknade vid Dijked Bethesda, syndga nu ei framar, ad ei hende þig annad verra, Joh. 5. Þu hefur eitt Sinn leiged vid Dijke Guds Naadar, og Engell hinns mikla Raads hefur so hrært þad, ad þier vard til Andlegrar Heilsu-Bootar: Siaa til, ad þu ei aftur misser Heilsuna og verder so ad kvarta um, med þessum Mañe, þad þu aungvann hefer, sem ad kaste þier i Dijked, þegar JEsus er fraageingenn. Hafi hañ eitt Siñ wtreked Diofulenn fraa þier, þa giald Varhuga vid, ad ei hverfe Sathan aftur, og take Sio Anda sier verre, og verde so þitt hid Sijdara, argara hinu Fyrra, Luc. 11. Nu hef eg so med faam Ordum sagt, Brædur mijner, hvilijkt ad sie þad Evangelium, sem Faatækum bodad verdur. Þeñañ Veg gieck JEsus til ad leita ad þeim, sem añadhvert Harmþrwngner voru, og sundurkramder i Mootlætenu, edur særder og lemstrader af Tilfiñingu Syndanna. Hann hafde ecke mörg Ord vid hina Bersyndugu i Simons Hwse, hann took Ordalaust hennar Forsvar aa Hendur, og sagde: Ad henne fyrergiæfust hennar mörgu Synder, af þvi hun elskade miked, Luc. 7. Hañ skipte ecke mörgum Ordum vid hina Bloodfallssiwku, er gieck Bak til vid hann og snerte Falld hanns Klæda, hann sagde alleina: Vertu Hughraust mijn Dootter, þijn Trwa giörde þig heilbrygda, Matth. 9. Hann hafde og ecke laangordt vid hinn Limafallssiwka, er þeir lietu sijga ofann af Þakinu nidur fyrer hanns blessadar Fætur, hann reiste hann strax upp med þessu Huggunar Orde: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Hann aatalde ei stoorum Hoor-Konuna, til hvorrar hann sagde: Kona, Hefur nockur fordæmt þig? Enn hun kvad Nei vid; Þa sagde hin eilijfa Giædska: So fordæme eg þig ecke helldur, far burt og syndga nu ei framar, Joh. 8. Eingenn er þvilijkur Guds Velgiorningur, af öllum þeim Fiölda, sem hañs Födurleg Naad hefur tiaad syndugum Moñum, sem þesse: Engeñ Hwngradur verdur so fegeñ ad eta, engeñ Þyrstur ad drecka, engeñ Nakeñ ad klædast, engeñ Þreittur ad hvijlast, engeñ Utlægur ad naa Lands-Vist aftur, engeñ Sioohrakeñ Landenu, engenn Siwkur Batanum, engeñ Þræll Frelsenu, engeñ Fiötradur Lausnenne, so sem Faatækur verdur Evangelio, og eirn Syndare, sem einskis Von aa, nema eilijfra Helvijtes Pijsla, so sem hann verdur þvi feigeñ, seige eg, ad Guds Naadar-Lioos skijn i hañs Hiarta, so ad hañ sier med Trwarinnar Augum, ad hanns Synder kvittar eru. O HErra JEsu Christe, þu saklausa

Lamb

Lamb Guds, sem burtu ber allar Veralldarennar Synder; Kieñ þu oss ad þeckia vorn Overdugleik; Drag þu Skijluna fra vorum dopru Augum, so ad vier mættum sia vora Blygdan; straffa þu Syndena i oss, med sannre Ydran og Angre Hiartans fyrer allt þad illa, sem vier fra Barnæsku vorre høfum drygt a moote þier, og þa vier erum so nidurslegner i vorum Hiortum, og þijn vollduga Hond er oss so sterk ordenn, þa riett oss aftur þijna Naadar Hond, ad vier ei sockvum i Diwp Orvæntingareñar, helldur forlæatum oss þar uppa, ad þu siert oss af Gude giefenn til Riettlætes, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Bænheyr þad, HErra, fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Sunnudag i Adventu.

Gudspialled, Joh. 1. Cap.

N Þeim Tijma. Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita, ad þeir skylldu spyria hañ ad, hvør ert þu? Og hañ medkiendest og neitade þvi ecke. Og hañ medkiendest, segiande: Eige em eg Christur. Og þeir spurdu hañ eñ þa ad, Hvad þa? Ert þu Elias? Hañ sagde: Ei em eg. Ert þu þa Spamadur? Og hañ svarade: Nei, ecke. Þa søgdu þeir vid hañ: Hvør ert þu þa? So ad vier meigum Andsvar giefa þeim er oss wtsendu. Hvad segier þu af sialfsum þier? Hañ sagde; Eg em hroopanda Rødd i Eydemørku, greided þier Gøtu DRottens, so sem sagde Esajas Spamadur. Og þeir sem wt voru sender, voru af Phariseis. Og þeir spurdu hañ ad, og søgdu til hañs; Þvi skijrer þu þa, fyrst þu ert ecke Christur, eige Elias, og eige Spamadur? Johañes svarade þeim og sagde: Eg skijre i Vatne, eñ sa stood i Mided hia ydur, hvørn þier þecktud eige. Hañ er sa sem epter mig mun koma, hvør ed var fyrer mig, hvørs Skoo-Þveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Þetta skiede i Bethabara, hinumeigeñ Jordanar, þar sem Johañes skijrde.

## Exordium.

I Þessu Heilaga Evangelio er Tveñt, sem þarf ad athuga. Þad eina, ad Johannes segiest ecke Elias vera, enn JEsus segier þo um hann, Matth. 11. Ef þier vilied þad medtaka, þa er hann Elias, sa ed koma skal; Og hia Matthæum segier hann, ad Elias komenn sie, Matth. 17. Þad er annad, ad hann neitar þvi, ad hann sie Spamadur, enn hanns Fader Zacharias segier þo um hann, Luc. 1. Og þu Sveirn munt kallast Spamadur hinns Hæsta. Þetta synest hvort ødru gagnstædt

vera; Enn þess byriar ad gæta, sem St. Petur segier: Ad Spaadoomarner eiga ecke utad leggiast epter eigen̄ Þootta, þui þeir eru ecke ad Mannlegum Vilia til vor komner, helldur hafa Guds Heilager Men̄, tilknwder af Heiløgum Anda, talad, 2. Pet. 1. Og þui er engenn Vegur betre edur beirne til ad leggia þaa wt, helldur en̄ sialf Ritningen̄. Hiaa Malachiam, Cap. 4. segier Ande Guds: Siaa! eg mun senda Eliam Spaamann til ydar, aadur en̄ kiemur saa mikle og hrædelege Dagur DRottens. Saa Elias er nu Johannes i Raun og San̄leika, han̄ gieck undan̄ Guds Foolke i Anda og Krafte Eliæ, so sem Engellenn spaade, Luc. 1. Elias var eirn straangur Vandlætare i Guds Stad. Johannes var og Ydrunar Predikare. Elias sagde hinum Ogudlega Achab Konunge til Synda sinna, 1. Kong. B. 21. Johan̄es aatalde Herodem Konung, Matth. 14. Elias uoprætte ad miklu Leite Afgudadyrkanena wr Israel, 1. Kong. B. 18. Um̄ Johan̄em seiger Frelsarenn, Matth. 17. Ad han̄ mune vidrietta alla Hlute. Elias bodade hinn sanna Guds Veg, 1. Kong. B. 19. Johan̄es kom med Veg Riettlætesins, Matth. 21. Um̄ Eliam er spaad, Malach. 4. ad hann mune snwa Hiortum Fedranna til Barnanna, og Barnanna til Fedran̄a; Og þan̄ sama Spaadoom þijder Engell DRottenns uppaa Johan̄em, Luc. 1. Og ad Menn ecke efist um̄ þad, ad Johan̄es sie Elias, saa ed koma aatte, þa skrifar Matth. C. 17. Ad þegar Læresveinarner saau aa Fiallenu Eliam og Moysen tala vid JEsum, er han̄ Forklaaradest, þa hafe han̄ bannad þeim ad seigia þaa Syn nockrum, fyrr enn hann være upprisenn: Enn þeir svørudu: Pharisæi seigia ad Elias eige aadur ad koma; Enn hann sagde: Elias aa ad sön̄u aadur ad koma og lagfæra alla Hlute. Enn eg seige ydur: Ad Elias er allareidu komen̄, en̄ þeir þecktu han̄ ecke, helldur giordu vid han̄, hvad þeim lijkade. So mun og Mannsins Sonur verda pijndur af þeim. Þa skyldu Læresveinarner, ad hann talade vid þaa um̄ Johannem, seiger Matthæus. So er nu Johannes saa riette Elias sem koma aatte; En̄ þo ecke eirn og hinn same Elias Tesbiter; Og so sem Guds Ande seiger, Hos. 3. Ad þeir mune leita sijns Konungs Davids, sem þo er ei annad enn Christur; So heiter Johannes hier Elias, jafnvel þoott hann ecke Elias være. J ødru Lageneitar Johannes þui, ad hann Spaamadur sie. Hier byriar ad athuga, ad Gydingar hafa, aan Efa, vered i þeirre Villu, ad Gud munde ecke einasta senda Eliam Thesbiter i eigen̄ Persoonu til þeirra, helldur og eirn annan̄ Spaaman̄, lijkan̄ Moysi, hvad þeir dreiged hafa af sialfs Moysis Ordum, Devt. 18. Er hann sagde: Spaamann mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lijkan̄ mier, hønum skulud þier heyra. Hvør Ord alleina eiga um̄ DRotten̄ JEsum ad skiliast: So sem St. Petur þad wtleggur, G. B. 3. Þad maa og raada af Ordum Foolksins, er sagde um̄ JEsum, Joh. 6. Þesse er sannarlega saa Spaamadur, sem i Heiminn koma skal; Edur hvad er þad annad, sem stendur 1. Maccab. 14. Ad Gydingum og Kiennemønnum syndest, ad Simon skyllde vera þeirra Hertoge Æfinnlega, þar til saa visse Spaamadur kiæme? Vilie Menn og Grandvarlega athuga Spurn Gydinga, þaa er hun

þan̄

þann Veg: Ertu Sa Spamadurinn? Hvad talad synist um einhvern vissann Spamann, sem þeir væntu epter; Enn so sem Johannes þvi riettilega neitade, ad hann væri Elias epter þeirra Meiningu; So kvad hann og Nei vid hinu med øllum Rietti, ad hann sa Spamadur væri, sem þeir epter væntu, jafnvel þoott hann væri Spamadur hins Hærsta, so sem hans Fader Zacharias ædur sagt hafde, og meiri enn nockur Spamann, ad Christi Vitni, Matth. 11. Og er þetta ad segia um Persoonu Johannis. Enn af hanns Andsvorum eigum vier Christilega Hoogværd ad læra. Hvar um eg framveigis tala vil. Þar til styrke Guds goodur Ande fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingenn.

Hid Fyrsta Andsvar Johannis, er hann gaf Sendimønnum Gydinga, er þetta: Eige Em Eg CHristur. Spurn þeirra var þann Veg: Hver Ert Þu? Og synist so sem hann hafi ei viliad bijda epter þvi, ad þeir spyrde hann ad: Hvert hann Christur være, þvi hann hefur æn Efa vitad, ad þess-hattar mundi Eyrended vera; Þar fyrer fortekur hann þad strax, og segier: Eige Em Eg CHristur; Og mā þar af sia, hversu annt hønum hefur þar um vered, ad eingenn skyllde so mikla Hlute um sig þenkia, hvar fyrer hann gietur og ecke bundist siidar i Gudspiallinu, ad tala so Skorinnordt hier um, ad aller skilia mættu, er hann segier: Sa Stood i Mided Hia Ydur, hvern þier þecktud eige, Hann er sa, sem epter mig mun koma, hver og fyrer mig var, hvers Skoo-Þveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspiallamadurinn, sem þetta ritar, hann hefur so mørg Ord hier um, segiande: Hann Medkiendist Og Neitade Þvi Ecki, Og Hann Medkiendist, og sagde: Ei Em Eg CHristur. Og er þad audsiært þar af, ad hann hefur æ allar Lunder viliad gyrda fyrer þad, ad eingenn skyllde þvilijkar Ofgar i Hug sier leida. Þann Veg hafa aller Guds Elskendur Lynder vered, ad þeir hafa fyrerorded sig, þa þeir æ einhvorn Hatt hafa orded annadhvort ad nalægiast Gud, edur og ad þeirra hefur under eins gieted vered og hinns Stoora Konungs, sem øllu rædur bædi æ Himni og Jordu. Heiløgum Johanni var þetta Mersta Ættgeingt ad blygdast fyrir siinum Gudi og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimsookte Moodur hanns Elisabeth Frænd-Konu siina, er hun var Oliett ad hønum, þa fagnade hun henni æ þennan Hatt: Hvadan kiemur mier þad, ad Mooder DRottens mijns kiemur til mijn? Luc. 1. Eins var sialf Maria Skapi farinn, er hun sagde til Engelsins: Eg em Ambatt DRottenns, verdi mier epter Ordi þijnu. Abraham visse ei hvad hann atte af sier ad giora, þegar DRottenn vyrdte hann Vidtals; þvi sagdi hann: Eg villde nu giarnann tala vid DRottinn Gud, þoott eg sie Dupt og Aska. Gen. 18. Eg vil ei þar um tala, hversu Postular DRottens vorduft allri þeirri Lotningu, er adrer synduger Menn villdu veita þeim, þa þeir kiendu JEsum, edur giordu Kraptaverk i hanns Nafni. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs, þa reiste Postulenn hann jafnskiott æ Fætur, og sagde: Statt upp, eg er eirninn Madur, P.G. 10. Þegar Foolked i Lystris sagde ad Guderner væru Mønnum lijker ordner, og til þeirra

ofannkomner, P.G. 14. af þvi ad Paall reiste þañ aa Fætur med einu Orde, er Footbrumur var fraa Moodur-Lijfe, og villdu hafa fært hønum og Barnabæ Foorner, þa sundurrifu þeir sijn Klæde, stucku iñ i Mañ-Praungena, hroopudu og søgdu: Þier Meñ, hvar fyrer giored þier þetta? vid erum Menn, sama Breiskleika og þier underorpner. Jaa, ecke einasta Guds heilager Meñ og Astviner, hafa þañ Veg blygdast fyrir Gude, sem meir eñ skylldugt er, helldur og hafa hanns vollduga Englar hid sama giort. Þad maa medal añars lesa, Op. B. 19. Þegar Engilleñ talade vid Johannem, þa skrifar hañ aa þennann Haatt: Og eg fiell fram fyrer hanns Fætur ad tilbidia hañ, og hann sagde vid mig: Siaa! ad þu giorer ei þetta, eg em þiñ Med-Þienare og Brædra þiña, þeirra er hafa Vitnisburdinn JEsu, tilbid þu Gud. Hafi nu Guds heilager Meñ og Postular; hafe Johañes Baptista, um hvern Sannleiks Munnuriñ vitnar, ad einginn sie meiri af Kviñuñi fæddur, Matth. 11. Hafe hañs blessud Mooder, sem hina mestu Tign hefur af Gudi þeiged allra syndugra Maña, sem borner eru i þeñañ Heim: Hafe Guds heilager Englar, sem eru alldeilis aan Syndar: Hafe þesser, sege eg, so audmykt sig fyrer hanns Haatign og Vellde; hvad miklu framar byriar þier þa, syndugur Ormur, ad audmykia þig under vollduga Guds Hond, sem allur ert i Synd, og ecke eitt Augnablik lifer aan Syndar i hañs Auglite? Hafe Sonureñ giorst Fodurnum hlijdiñ allt til Daudañs, jaa, allt til Krosseñs Dauda, Phil. 2. Ef St. Paall, 1. Cor. 15. seger: Ad aa sijdarsta Dege, þegar hañ afhender Rijked Gude og Fodur, þa muni hañ (þo epter Mañdoominum) undergiefeñ verda honum, sem alla Hlute giorde hønum undirgiefna: Etter þu þa ecke ad skamast þijn, ad standa uppriettur i hañs Auglite, þu sem optsiñis ert Ohlijdugur, Þverbroteñ, Toomlaatur, og forsmaaer hañs mykla Myskunseme, sem Daglega er nij og fersk yfer þier aa hvørium Morgne? Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmijkt sig fyrer Gude? Þvi þeir elskudu hann. Þvi hafa þeir hann elskad? Þvi þeir þecktu hann. Þvi þecktu þeir hann? Þvi þeir lærdu fyrst ad þeckia sialfa sig. Hvad þecktu þeir hiaa sialfum sier? Eckert nema Eymd og Volæde. Hvad hiaa Gudi? Eckert nema Dijrd og Vegsemd. Gior slijkt hid sama og muntu finna, hversu ad þu ert miña eñ eckert i Guds Auglite. Ber þig samañ vid hañ, þoott nockud Olijkt sie samann ad bera, og nærsta sundurleitt, gior þad þo, þvi slijkur Samburdur mislijkar hønum ecki, ef hañ mætti duga þier til ad kannast vid Eymd þijna og hañs Dijrdarfulla Haatign, hveria þo daudlegur Madur alldrei kann ad þeckia so sem hun er. Judar spurdu Johannem ad, HVor Ert Þu? Ef þu spyr ad, hvør Gud sie, þa verdur ei svarad, nema med hanns eiginn Ordum: Gud er eirn Ande, Joh. 4. þo ecke so sem adrer Andar, helldur Fader Andaña, Hebr. 12. Og svo Dijrdlegur, ad hønum maa vid engann Hlut samlijkia, Esa. 40. Um hann verdur ei nær komist ad tala, eñ med þeim Ordum, er under eins medkienna Faafræde vora til ad wtmaala hañs Dijrd, sem er, ad hun sie Omælannleg, Oendañleg, Orañsakañleg og Owtsegiañleg. Eñ spyr sialfañ þig ad, hvad ert þu? J Fyrstuñi eckert, og sijdañ Leyr

Jard-

Jardar, sem Gud skoop hiñ Fyrsta Mañ af, Gen. 2. Gud er Eilijfur, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, Op. B. 1. Eñ hvor ert þu? Nockurskonar Gufa, er sieſt um̃ Hrijd, eñ hverfur sijdañ, Jac. 4. Gud er Omælañlegur, hañ uppfyller bæde Hiinen og Jord. Þad vottar Zophar af Naema, segiande: Job. 21. Muntu med Huganum gieta komeſt ad Stærd hiñs Almaattuga, hann er hærre enn Himininn, og diwpari enn Helvijte. Enn hver ert þu? Mæl sialfann þig, sem ert faarra Foota Lengd, og megnar ecke, med allre þiñe Ahyggiu, ad auka eirnre Alleñ þar vid, Matth. 6. Gud er Alvitur, aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum, Hebr. 4. Enn hver ertu? Þu veitſt ecke hvad a Morgun muni skie, Jac. 4. Gud er Almaattugur, hia honum er einginn Hlutur Omaattugur, Luc. 1. Eñ hver ert þu? Þu formaatt ecki ad giøra hvijtt Haar eda Svart a þijnu Hofdi, Matth. 5. DRotteñ er Riettlaatur og goodur, segier David, Psalm. 25. Og so sem hañ er i sialfum sier, so er hañ i sijnum Verkum. Enn hver ert þu? Þijner Þankar eru vonder i fra Upphafe, Gen. 8. og so eru þijn Verk, þvi þar er eingiñ sa ed gott giøre, og ecke eirn, Psalm. 14. Gud er Sañordur, øll hañs Bodord eru Sañleike, segier David, Ps. 119. Ef vier Otrwer erum, þa er hañ trwr, sialfum sier kañ hañ ecki ad neita, segier Paall, 2. Tim. 2. Enn hvor ert þu? Spur Sr. Paal ad, hañ mun svara þier, Rom. 3. Verde Gud Sañordur, eñ aller Meñ Ligarar: Hvad virdeſt þier nu, syndugur Madur? Muntu ecke, þegar þu so helldur Reikning mille Guds og þijn, munt þu ecke (segie eg) fulla Ordsok hafa til ad skamaſt þijn fyrer hañs Auglite, sem þier so miklu Maattkari, miklu Ædri, miklu Betri, miklu Riettlaatari er, og i einu Ordi ad segia, hia hverium þu ert miña eñ ecki neitt ad reikna; Og fyrer utañ allt þetta, þa hefur hann þig so Aumañ, so Faaraadañ, so Vondañ, og Onoogañ sialfum þier um̃ alla Hlute, upp wr Þrecknum hafed, og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Eñ lijtillæckad hañ, og giort þier ad øllu samlijkañ, Heb. 2. ad þvi einu undañteknu, er hañ var straffadur fyrer, eñ þu ert frelsadur fra, sem er Syndeñ, Heb. 5. Fyrer hveria hañ er deyddur, eñ þu fieckſt Lijfgiøf fyrer hanns Dauda. Þvi skyllder þu þa Aumaſtur allra skapadra Hluta Guds a Jordunni, skyllder þu (segie eg) stæra þig edur metnaſt i Hiarta þijnu, so sem værir þu nockud, fyrer utañ Gud, og ei miklu helldur, med Audmijkt þijns Hiarta, þacka honum þess innilegar, sem hann hefur giefid þier meira Vit a ad þeckia þad, og meira til þijn lagt eñ allra añarra! Eiñ Guds Engill hefur honum meira ad þacka fyrir hiñ minnſta Dropa hañs Giædsku, er hann hefur til hañs lagt, helldur eñ allar skynlausar Skiepnur, fyrer øll Naatturunnar Giædi og Skøpun allra Hluta. Eñ þu, syndug Mañeskia, hefur meira af honum þeiged i hinum minſta Naadar-Mola Andlegra Giæda, helldur eñ allar Englaña Hersveiter i øllu þvi, sem øllum þeim er tillagt. Hvar fyrer? Þviad til þess, ad þu lifa skyllder fyrer Naad Guds, hefur hañ laated Son sinn ecke Englana, helldur Abrahams Sædi uppa sig taka, Heb. 2. og giørt þitt Holld, sem hann uppa sig took, Englunum so miklu ædra, sem hann hefur framar þeim ædra Nafn ødlaſt, Heb. 1. og laatid hiñ lif-

F andi

anda Gud i Mañlegu Holldi deya Mañlegum Dauda, so þu mættir Gudlegu Lijfi lifa, þvi hefur hann so miklu meira til þiñar Upphefdar uñid eñ til Englanna, sem JEsum hañs Son hefur meira kostad ad endurskapa þig, helldur eñ alla Englana ad skapa; fyrer þvi ættu hönum so miklu meir ad þacka, eñ þeir, sem hann hefur meira uppæ þig kostad: Eñ hvar med villtu hönum þacka? Ecke etur hann Kiöt Hafranna, edur dreckur Blood hiña feitu Uxaña, Psalm. 50.. Offra hönum Lofgiördinne, og gialdt hönum þijn Heit, þad er audmiwkur Ande og sundurkramed Hiarta, hvert hañ mun ecke fyrerlijta, Psalm. 51. Þu kañt ad segia: Eg jafna mier ei samañ vid Gud, ei hef eg mig upp æ mooti hönum, eg veit, eg æ hönum allt gott ad þacka, og ef hañ vill Doom hallda vid mig, þa hefur hañ Valld til ad kasta Lijfi og Saalu i eilijfann Elld, Matth. 10. Þu segier vel, þvi ad þetta er meir eñ satt; Eñ rañsaka Hiarta þitt vel, hvert Hugur hefur alltijd fylgt Mæli; Hefur þu audmykt þig so fyrer þijnum Gudi sem byriad hefur, bædi med Ordi og Verki? Ef hann er þinn Fader, hvar er þa hanns Heidur? Giæt ad þvi JEsus segier, Matth. 21. um þann Son, er Faderenn skipade ad erfida i Vijngardinum, og hann kvad jæ vid, enn foor þo hvergi; Þad er ecki noog ad nalægiast hann med Vörunum, ef Hiartad er langt þar fræ. Vier segiunst aller eiga ad elska Gud fram yfer alla Hlute, og þad er þad sanna Audmyktar Merki ad elska hann, enn Gud næde, hvorninn þad efnt er, þar vier lætum oss æ Stundum alla Hluti skylldari vera eñ hañs Dijrd. Þegar Hollded og Andskoteñ freista þijn til Syndariñar, eñ þier kiemur þa i Hug, ad Gud hafe þad bannad, samt hlijdir þu Holldinu i þess Gyrndum, og lætur Syndina i þvi drottna, Rom. 6. Er þad ecki ad upphefia sig æ mooti Gudi, og meta framar þess Munad enn hanns Bodord? Hverier erum vid þa æ medann? Ecki Guds Þioonar, helldur Þrælar Syndarinnar; Þvi hver hañ Syndena giörer hañ er Þræll Syndarinnar, seiger JEsus, Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skielfast hañs Ogurlega Nafn, eñ Menn vanbrwka þad æ Stundum, til ad liwga, stela og svijkia. Hverier erum vier þa? Þeir, ad vijsu, fyrer hverra Skulld Guds Nafn lastad verdur medal Heidingianna, Rom. 2. Vier segiunst vera skyllduger ad hlijda hanns Ordi, og giöra þar epter, eñ Meñ daufheyrast þar vid, sitia under eirni Predikun hyrdulauser, og ganga þadann Avaxtarlauser, og sumum mæ varla þangad koma, sem þad er um Hönd haft. Hvad erum vier þa? Forgleimañleger Tilheyrendur, enn ei Giörendur Ordsins, Jac. 1. J Krosse og Mootgange siest allra best Audmyktenn fyrer Gude. Sæ audmyker sig riettilega under hañs vollduga Hönd, er kysser æ Vönd DRottenns med Þacklæte, þvi hann er hanns sannur Lærisveirn; Enn þar vill æ stundum nærsta mwg afbera, þar Meñ eru Oþolinnmooder under DRottiñs Krosse. Sumir skioota sier undañ hañs sæta Oki æ allar Lundir med Oleifelegu Moote, og leita þeirra Bragda, er Gud bannad hefur. Er slijkt ad audmykia sig fyrer Gudi? Fiærri fer þvi. Hverier erum vier þa? Lijker þeim er lijda so sem Þioofar og Mordingiar, edur þeir, sem falla iñ i añars Embætte, 1. Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmykt fyrer Gudi,

ef

ef vier vilium eckert þola hanns vegna? Og so sem vier erum nu skyllduger að allar Lunder ad andmijkia oss fyrer Gude, vorum Skapara, so vill hann og ei helldur, ad vier skulum forsmaa vora Brædur i Heimenum; Þvi hvor hann segiest elska Gud, enn hatar sin Broodur, han er Liwgare, segier Johannes, þvi ef hann ecke elskar sinn Broodur hvorn hann sier, hvornenn maa hann Gud elska, þann hann sier ecke? 1. Joh. 4. Nu er eckert Verkfære Kiærleikans handhægra en Lijtelæted, þvi þad verdur af øllum elskad, og med þvi dregur Kiærleikurenn alla til sijn, þa sem ecke Kiærleikan hata; Þess vegna segier Paulus um Dygd þessa: Kiærleikuren er ecke mikellaatur, hann þijtur ei upp, han leitar ecke epter þvi sem hans er, 1. Cor. 13. Og Søkum þess ad hann visse, ad Lijtelæted var Band Kiærleikans, þa bijdur hann Christnum Mønum, ad þeir hafe hvor annan sier i Virdingum ædra, Phil. 2. So hefur og JEsus læted øllum sijnum Læresveinum þad Bodord epter: Hvor sem vill stoor vera ydar a mille, hann sie hinna Þienare, Matth. 20. Hefde Johannes vered agiarn Hiegooma Dijrdar, þa hefde han ecke neitad þvi, ad hann Elias edur Spaamadur være, þar han mætte þo hvorutveggia um sig jaata, þviad þad eina vitnar Christur, Matth. 11. um han, en annad hanns Fader Zacharias, Luc. 1. sem adur er sagt, og allt Foolked hiellt hann fyrer Spaamann, Matth. 21. Enn han villde a moote hvorugu taka, so han giæfe Gude einum Dijrdena: Ecke Olijkur i þessu sijnum HErra, hvors Engell hann var, Mal. 3. Hvor þa han var af hinum Skriftlærda kalladur goode Meistare, svarade hann: Hvad kallar þu mig goodann? Engenn er goodur nema Gud eirn, Marc. 10. Ecke neitade HErrann þvi ad hann goodur være, villde þo ecke þiggia þann Titil af hanns Munne, er han so kallade epter sijnum Þanka, þad er, eins goodann og Pharisæi voru, hvoria Foolked kallade gooda af þvi þeir gaafu so miklar Olmusur, enn Sadduceos riettlaata, af þvi þeir gaafu eckert epter, tooku ei helldur neitt rangleg a fra neinum. Hvar til St. Paall sijnest lijta, Rom. 5. er hann segier: ad valla mune finast nockur sa, ed fyrer riettlaatan deyr, þvi kann skie einhvor findest sa, ed dæe fyrer hinn gooda. Þann Veg forsmade Christur og hanns Engell Johannes faanijta Virdingu Heims þessa, og ei var St. Paall odruwijs Lyndur, er hann segier, 2. Cor. 12. Ef eg hroosade mier, þa være eg þo engenn Daare, þvi eg skal satt segia, enn eg hlijfest vid þad, so ad engenn þeinke um mig fram yfir þad, sem hann sier mig vera, edur heyrer af mier.

Johannes segier hier i Gudspiallenu: GReided ÞJer GOtu DROttens. Ord þau eru tekenn af Esajæ Spaadooms Bookar 40. Cap. þar ed so stendur: Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemørku, Greided þier Gotu DRottens, og giored slietta Vegu Gude vorum i Obygdenne. Þegar Men ridia eirn Veg og giora han færan, taka Men i burtu Stoor-Grijte og allar Ojøfnur, so greidt verde um ad fara. Osse og Hroke Veralldar þessarar eru Torfærur þær, sem Guds Veg hindra i Manssens Hiarta. Hvadann kiemur Strijd og Baraatta Mana a medal? Hvadann kiemur Ofund og Ulfwwd, hvadan vex Agg, Reide og Þræta? Hvadan uppstijgur Agyrne og Fiedraattur,

 hvad

Hvadañ framkiemur Mord og Mañslag? Hvadann er þad, ad Meñ Toñlast og Tiggiast Innbyrdes, þar til þeir um̃ siider mættu verda uppetner? Zach. 11. Kiemur ecke allt þvilijkt af hiñe bolvudu Drambseme, er Sathan iñræter i Mañaña Hiortu? Hvorneñ ꝏ Zions Konungur ad rijda um̃ slijkann Veg, þegar sꝏ DRottnareñ kiemur til sijns Musteres? Mal. 3. sem er Mannsins Hiarta. Þeir breiddu sijn Klæde ꝏ Vegenn fyrer hann, þegar hañ siidarst iñreid til Jerusalem, og dreifdu Kvistum Triꝏña ꝏ hañs Gøtu; þad var Audmijktar og Fridar-Merke: Þvi ꝏ og i burtu ad ridia Stoor-Grijte Drambsemeñar og Offstopans af hañs Leid, ecke med Lijkamlegum Verkfærum, helldur med Guds Orde, um̃ hvort Pꝏll skrifar, 2. Cor. 10. Ad Vopn Herfarar vorrar sieu ei Lijkamleg, helldur kroptug fyrer Gude, nidurbriootande Hugrenningarnar, og allar Hæder, sem ad upphefiast ꝏ moote Guds Þeckingu: Eñ hveriar munu þær Hæder vera? Þad eru, medal añara, Fioll Drambsemeñar; Þvi eckert mootstrijder sannre Guds Þeckingu meir, eñ Þeckingarleyse sijns eigeñ Overdugleika, sem er Mooder Drambsemeñar. Þvi segier Rodd Hroopandans, ad aller Daler skule upphefiast og oll Fioll og Hꝏlsar nidurþrickiast. Hvad er þad añad eñ þad, sem Guds Mooder sijngur i Lof-Kvædenu, Luc. 1. Dramblꝏtum hrinder hann af Stoole, eñ upphoof Lijtelꝏta: Og þoott ad þesse Hroopandans Rodd spꝏe sier i lage um̃ Guds Nꝏd i Evangelio, og Lagfæring allra Hluta fyrer Christum, hvorrar Frumkvodull Johannes var, þꝏ mꝏ eg þad vel heimfæra uppꝏ þetta Efne, þvi Fꝏtækum, þad er, Andlega Voludum, og audmiwkum i Hiarta, verda Gudspiølleñ bodud, og þad ecke siidst vegna þeirra Orda, er hier standa skom̃u siidar i þessum 40. Cap. Esajæ, ꝏ þeñann Hꝏtt: Þar er ein Rodd sem segier: Predika þu! Og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey, og allt þess Agiæte so sem Bloom Akursins: Grased uppþornar og Bloomstred fellur af, þa Ande DRotteñs blæs ꝏ þad: Jꝏ, Foolked er Hey. Hvar er þa, segied mier, hvar er þa allt vort Atgiorfe? og allt þad Menn dramba af i Heimenum? Er þad Audur og Rijkdoomur? Fallvallt er þad, og giorer margañ vondañ, þad aflast med Ahyggiu, enn tapast med Sorg. Og nema Meñ giore, so sem Jacob biidur þeim Rijku, Cap. 1. ad hroosa sier i sinne Lægingu, þa er þad Volædenu verra. Er þad Metord og Virdingar? Eñ David segier, Maduren blijfe þo ecke leinge i Heidrenum, Ps. 49. og Þrældoomur eru þau Reyndar. Er þad gofugt Forelldre og Affspreinge? Enn vier erum þo aller af Adam komner: Hann var Utlage Guds wr Paradijs: Fyrer hvoria Sok, er oss alkunnugt, Gen. 3. Fegurd og Prijde Lijkamans? Þad er fallvallt, þvi Bloomstrid fellur af, segier Esajas, 40. Cap. Eirn Siwkdoomur fær þvi ollu umbreitt: Þvi þegar þu typtar, DRotteñ, þa folnar oll þeirra Fegurd, Ps. 39. Fagur Bwnadur og skrautleg Klæde? Þad sagde eirn af þeim gomlu, ad være eins og ef Piioofurenn stærde sig af Snorunne. Þroottur og Styrkleike Lijkamans? Enn Hesturenn er enn þꝏ sterkare, þvi skylldu Meñ þa ecke hañ virda? Enn hinn Almꝏttuge hefur ei Lyst ꝏ Styrkleika Hestsins, edur ꝏ Footleggium Mañsins. Hiꝏ DRottne eru þeir aller velþockader, sem

hann ottast og til hañs Myskunar vona, Ps. 147. Hvad er þa framar, sem Madurenn kuñe so ad metnast af? Kunnaatta og Vijsdoomur er mest tignad i Heimenum, og er hin agiætasta Guds Giøf, eñ so er hann bestur, ad hañ sie med Guds Otta kriddadur; Þad vottar S. Jacob, segiande: Ef nockur er vijs, edur med Skynseme gaafadur medal ydar, þa auglijse hañ Verk sijn, i goodre Umgeingne, med skynsamlegu Hooglæte, Cap. 3. Og, hvad eru aller vorer Vitsmuner fyrer utann þetta? Paall segier, ad þeir sieu Haalfverk, 1. Cor. 13. Og hvad meira er, ad þeir eru einskis verder, og jafnvel skadleger, nema þeim Guds Otte og Kiærleikureñ fylge. Þvi segier Postuleñ enn aftur: 1. Cor. 8. Ef einhvør þykest nockud vita, þa veit hañ þo eñ nu eckert, so sem vita byriar, Enn ef nockur Gud elskar, hañ er fæddur af honum. Og þoott ad Skynsemenn og Vitsmunernir sieu ein sw hin besta Guds Gaafa, er hañs Giædska hefur sæmt oss med, þa verdur heñe med Drambsemenne so spillt, ad hun verdur Ovite argare; Þvi segier Paulus, 1. Cor. 3. Engeñ ville sialfañ sig, ef nockur þykest vitur vera medal ydar i Olld þessare, hann verde heimskur, so hañ vitur verde. Þar skilst mier Postuleñ meine, ad hañ skule giæta ad, hvad lijted hann veit, so hañ stære sig ecke, þvi Skynseme Veralldar þessarar, segier hañ, er Heimska hiaa Gude, 1. Cor. 3. Nu þo ad allar þessar Guds Gaafur sieu harla goodar, ef þær eru riett brwkadar, þa er samt þess ad giæta, ad þad er ecke vort eiged, og hann aa frialst, sem þad allt liente, ad taka þad fraa oss, aa hvorium Tijma, sem vier þad vanbrwkum. Af øllu þessu siaaum vier, hvad liited að þad sie, er daudleger Meñ brwka til Stærelætes, giætande ecke þess, ad Virdingeñ elltær þañ, sem hana flijr, enn flijr fyrer þeim hana ellter, ef ei annarstadar, þa hiaa Gude. Postuleñ segier, Gal. 6. Ef nockur þykest vera nockud, þar hann er þo eckert, hañ viller sitt Hiarta: Eñ ef vier eckert erum, þvi vilia Meñ þa krefia þess, so sem annarrar Vita Skulldar, ad vier sieum virdter af Moñum. Eige segie eg þad, ad þeim skule ei Heidur veita, er Heidur heyrer, Rom. 13. Þvi þad er Guds Bod. Hitt segie eg, ad þeir sem vid eiga ad taka, skule ecke una þvi illa, þoott af slijku meige bera aa stundum, þvi svo sem jaatar fyrer Gude, þad hann eckert sie i hañs Auglite, og þad af Alvøru og Hræsneslaust, þa sie eg ecke ad hañ þurfi meir ad syrgia fyrer Virdingu siñe, helldur eñ hiñ, sem ecke er eñ nu fæddur. Hiaa oss er eckert gott, þvi skylldum vier stæra oss? Hiaa oss er margt illt, þvi skylldum vier ei skamast vor? Oss kañ margt illt til ad falla, þvi skylldum vier ecke jafnann hrædder vera? Oss kañ sialfa margt illt ad henda, þvi skylldum vier ecke jafnvel hrædast oss sialfa, og leggia af ad forlaata oss uppaa þad sem eckert er? Ef vier jaatum þad fyrer odrum, ad vier eckert sieum, og meinum þad ecke, þa svijkium vier adra. Eñ ef vier meinum þad og þeckium þad, sem vier vel meigum meina og þeckia, eñ hegdum oss ecke þar epter, þa svijkium vier sialfa oss. Gud, svo sem er allt i øllu, 1. Cor. 15. hañ lijtelæckade sig þinna vegna, syndugur Madur, og þu sem ecke ert neitt i neinu, villt ecke briota Odd af Oflæte þijnu hañs vegna; Gud, sege eg enn nu, lijtelæckade sig til ad verda Madur, enn Madureñ vill þo ecke lijtelæcka sig til þess, ad verda eirn Ande

 med

med Gude. Þess meir sem þu audvyrder þig fyrer Gude, þess meire verdur hañ i þier, og þess stærre sem hañ i þier verdur, þess verdur þu stærre i honum, þvi Gud mootstendur Dramblætum, eñ Liitelætum giefur hañ Naad, segier Jacob, Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur ægiætt kallast, þad er alleina stoort og ægiætt i Gude, og, fyrer utann hann, alldeilis eckert: Hvar fyrer Paall segier: Hvør hañ hroosar sier, hañ hroosi sier i DRottne, 2. Cor. 11. Þar fyrer, nærsæ Guds Madur hefur upptaled allt þad, er adrer reiknudu sier til Gylldes, sem er, ad hann være Hebreskur eins og þeir, Israels Madur eins og þeir, Abrahams Sæde eins og þeir, Christs Þienare eñ framar eñ þeir, hañ hafe erfidad meir eñ þeir, optar i Hæska vered eñ þeir, þa endar hañ med þessu Atkvæde: Ef hroosa skal, þa vil eg hroosa mier af þeim Hlutum, er Veikleika mijnum vidkoma, 2. Cor. 11. Og eñ framar segier hann. Cap. 12. Eg mun miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanum, so ad Mættur DRottenns bwe i mier, þar fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmæanenne, i Naudunum, i Offooknunum, i Angistenne fyrer Christum, þvi þa eg er veikur, þæ er eg mættugur. So er þar nu engenn Rijkdoomur, engenn Styrkleike, engenn Heidur, engenn Fegurd, engenn Skynseme, engenn Mættur, engenn Dijrd, engenn Prijde nema i Gude alleina, og eckert þad Meñ kuñe ad vegsamast fyrer, nema einsømul og hræsneslaus Audmijkt fyrer honum. Þvi vil eg enda þetta mitt Tal til ydar, Guds Born, med Pæls Ordum, af Pistlinum til Gal. 6. Þad verde mier ecke, ad eg hroose mier, nema af Krosse DRottens vors JEsu Christi, fyrer hvørn mier er Heimurenn Krossfestur, og eg Heimenum. Honum DRottne JEsu, med Fodur og Heiløgum Anda, Einum og Þrennum Odaudlegum Konunge, og alleina Rijkum, sie Lof og Heidur, Kraftur og Styrkleike, Æra og Vegsemd, søgd og sungeñ, af øllum Tungum Engla og Manna, nu hiedann i fræ og ad Eilijfu, AMEN.

# A Joola-Dagenn.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

Þañ Tijma. Og þad bar til æ þeim Døgum, ad þad Bod gieck wt fræ Keysaranum Augusto, þad Heimureñ allur skyllde Skattskrifast. (Þesse Skattskrift hoofst fyrst upp þa Cyrenius var Landstioornare i Syria). Og þeir fooru aller ad læta Skattskrifa sig, hvør til siñar Borgar. Þæ foor og Joseph af Galilæa, wr Borgeñe Nazareth, upp i Judæam til Davids Borgar Bethlehem, af þvi ad hañ var af Hwsi og Kyne Davids, so ad hañ liete Skattskrifa sig þar, med Mariu siñe Festar-Konu Oliettri. Eñ þad skiede so, þa er þau voru þar, ad þeir Dagar fullnudust, ad hun skyllde fæda, og hun fædde siñ Frumgietenn Son, og vafde hañ i

Reif-

Reifum, og lagde hañ nidur i Jøtuna, þviad hun fieck eckert añad Rwm i Giesta-Herberginu. Og Fiaar-Hyrdarar voru þar i sama Bygdarlage uñ Grandana vid Fiaar-Hwsiñ, sem geymdu og vøktu yfer Hiord siñe uñ Noottina. Og siaa þu! Þad Engill DRotteñs stood hiaa þeim, og Guds Byrte lioomadi i krijngum þaa, og þeir urdu miøg Ottasleguer. Og Engilliñ sagde til þeirra; Hyrded þier ecki adhrædast. Siaaed, Eg boda ydur mikliñ Fognud, þañ er skier øllu Foolke, þviad i Dag er ydur Lausnariñ fæddur, sa ad er Christur DRotteñ i Borgiñe Davids. Og hafid þad til Merkis, ad þier munud fiña Barnid i Reifum vafed, og lagt vera i Jøtuna. Og jafnsnart þa var þar hiaa Englinum mikill Fiøllde himneskra Hersveita, sem lofudu Gud og søgdu: Dijrd sie Gudi i Uppħædum, og Fridur aa Jordu, og Møñum goodur Ville!

## Exordium.

Skelfileg Ognan mundi vesøln Mannkyni hafa stadid af þvi hrædilega Straffe, med hveriu hinn Riettlaate Gud fargade hinne Vantrwudu Verølld aa Dogum Noe, nema hanns Giædska hefde giort Saattmaala vid Mannkyned, ad hann framar ecki villdi eydeleggia Jordina med Vatns-Floodenu, og, þessu til Merkis, sett Bogann i Skijenn, segiande: Þegar þesse Boge verdur i Skijenu, þa vil eg minnast aa Saattmaalann aa mille Guds og allra lifandi Skiepna, af øllu Hollde aa Jordunne, Gen. 9. Med þessum Hætte lijste hinn Naaduge Gud Fride yfer Jorduñe og þeim þar inne bwa. Og er þad vijst, ad hann hefur lited under eins til þeirra, sem aa hanns Eingietins Sonar Nafn trwa mundu. Fiærre sie þvi, ad Regnbogenn kyñi þvi ad vallda, ad Gud yrdi Manninum Naadugur, ei helldur þurfte hann ad laata minna sig aa þad hann giora villde, jafnvel þoott Ritningenn so tale ad Mañá Plagsid; Aller Hluter eru opner og nakter fyrer hønum, Heb. 4. Enn þar JEsus situr til hanns hægri Handar, og hann sier þar Lioома sinnar Dijrdar og Jmynd sinnar Guddomlegrar Persoonu, Hebr. 1. voru Hollde Jklædda, og bidiande fyrer oss, þa maa hann ei annars eñ minnast sinna miklu Myskunsemda, sem verid hafa i fraa Upphafi, sijdañ hann lofade ad Kviñunnar Sæde skyllde sundur mola Høggormsins Høfud; Gen. 3. Bid þier eins Teikns af DRottne þijnum Gude, sagde DRottenn til Achas, hvort helldur þad er nidre i Underdiwpunum edur aa Hædum uppe; Enn hann sagde; Ei vil eg þess bidia, so eg freiste ecke DRotteñs: Þa sagde Spaamadurenn; So heyred þier þa af Hwse Davids: Hvort er þad oflijted, ad þier þiaaed Mennena, þad þier eirninn vilied aangra minn Gud? Fyrer þvi mun DRottenn sialfur giefa ydur eitt Teikn: Siaa þu! Ein Jomfrw mun Barn gieta, og eirn Son fæda, og hann mun

hun

hun kalla Immanuel, Esa. 7. Þetta er Teikn hinns mikla Guds og DRottens vors JEsu Christi, hvør ad er Engill Saattmaalans a millum Guds og Manna, Mal. 3. Hann er øllum til Merkis settur, ecki i Skijum Himins, helldur fæddur af eirni Jomfrw, a medal vor hier a Jordunni; til Stadfestu þar um, ad þeir faae aller Kvittun Syndaña, sem a hañs Nafn trwa, P. G. 10. Sæl eru þau Augu, er sia hvad þier siaed, sagde Endurlausnarenn vid sijna Lærisveina, Luc. 10. Enn ecke talade hañ alleina um þad, ad lijta sig og heyra med wtvortis Skilningarvitum; Marger saau hañ og hneixludust a hønum, þeir saau hann, og þar var eckert gyrnilegt a hønum, Esa. 53. Þeir saau hann og byrgdu fyrer Siooner hønum, Luc. 22. Þeir saau hann og hræktu i hanns Andlit, Matth. 26. Þeir saau hañ, og saau under eins sijna Villd a hønum. Enn so sem Gud setti sinn Boga i Skijenn til þess, ad hann væri Naadar-Teikn øllum Mønnum; og hefur hann þo sialfum sier geimt ad straffa þeirra Ogudlegt Framferde, sem hanns Naad forsmaadu; So hafa þeir marger sied Christi Þioons Mynd hier i Naadeñi, er sia munu hañ reidañ og Ognarlegañ, þegar hann kiemur i Skijum Himens med Makt og miklu Velldi, Luc. 21. Eñ ef vier vilium vita, um hveria Sioon hann talar, þa heyrum hvad hann sagdi vid Thomas Postula, Joh. 20. Af þvi þu saast mig Thoma, þa trwdir þu; Enn Sælir eru þeir sem ecki sia, og trwa þo. Þad er ad sia JEsum Christum Guds og Mariu Son, voru Holldi klæddann, med Augum hinns innra Manns, oss til Riettlætis, til Helgunar og Eilijfrar Saaluhiaalpar giefinn, 1. Cor. 1. Oss, segi eg, sem ad i Syndinni erum gietner, og i Syndinni fædder, Ps. 51. Reidinnar Børn, Eph. 2. Og Guds Ovinir af Naatturunni, Rom. 5. Þessi dijrdarfulla Sioon verdur ydur og øllu Mañkyni frambodinn i Lof-Saung heilagra Guds Engla, þar þeir syngia: FRidur A Jordu Og Mønnum Goodur Vilie.

Og vilium vier a þessum Hatijdis Dege, þesse H. Ord nockud gior yfervega, og af þeim hugleida, hversu gledelegur ad þesse Fridur sie, og hverninn vier eigum hønum ad taka.

Til þessa Eyrindis Framkvæmdar virdist ad hialpa oss hiñ nijfædde Immanuel, fyrer Krapt sinnar Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

HVad mun þvi vallda, Brædur mijner, ad hiner himnesku Andar eru so glader a Fædingar-Noottu Mañkynsins Endurlausnara? Ecki þurftu þeir Frelsis vid, þvi þeir høfdu ecki syndgad. JEsus hafdi Abrahams, og ecki Englaña Sæde uppa sig teked, Heb. 2. Hvad mun þa vallda Gladværd þessare? Guds Sonur er ad sõnu þeirra HErra, eirniñ epter Mañdoominum: Hefdi hañ bedid sinn Fodur, þegar hañ var i siñi mestu Angist staddur vor vegna, þa mundi hañ hafa giefid hønum meir eñ Toolf Legion Engla, Matth. 26. Englar konu og þioonudu hønum, þa hañ var hart nær yfirgiefiñ, og, so ad segia, Andskotanum Ofurselldur, þad hann freistadur yrdi Matth. 4. Fyrer þvi var þad ecki ad undra, þoott þeir gladst hefdu, ef hinum nijfædda

Syni

Syne Guds hefde nockur Heidur edur Upphefd hlotnast enn þad mætte ecke so kalla. Þvi Paulus talar so hier um̃, Phil. 2. ad hann hafe lijtilæckad sialfann sig, takande a sig Þioons Mynd, og ordinn Moñum lijkur. Þad fyrsta hañ sa þessa vesæla Heims Lioos, var hañ lagdur i eirn Stall, Luc. 2. Og skomu þar epter vard hañ Landflootta, Matth. 2. Og um̃ allar sijnar Æfe-Stunder hafdi hañ ecke, þar hann kyñi Hofde sijnu ad halla ad, Matth. 8. Þvi sijnist so sem ad hanns Kiorum væri ecke so miøg ad fagna i þetta Siñ. Hvad þa, Brædur mijner? Vier vitum, epter St. Pals Muñi, ad Englarner eru þioonustusamer Andar, wtsender þeim til Þioonkunar, er Sæluhialpena erfa skulu, Hebr, 1. Og þoott ad vier sieum vesæler og synduger, þa er þo meire Glede hia þeim i Himnenum, yfer einum Syndugum, sem Ydran giører, helldur eñ yfer Niju og Nijutiju Riettlaatum, Luc. 15. Þar af er audsært, ad þessar Guds Hersveiter hafa so teked Astfoostre vid oss auma Meñ, þoott vier sieum ad ollum þeirra Edlishaattum Olijker, ad þeir glediast yfer sierhverju þvi Happe, er nockur af oss hlijtur; Eñ ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre, þvi mundu þeir þa ecki, Veniu framar, lijsa þessum Fognudi, þegar oss a Nætur-Tijma uppràñ su Sool, er alldrei hefur nockur fegri yfir Heimiñ skinid, og þegar oss su Heill ad Hondum kom, af hverre allra Guds Barna, Rijkra og Fatækra, Hærri og Lægri Stiettar, Nalægra og Fiarlægra, Fæddra og Ofæddra, Tijmanleg og eilijf Heill og Hamingia uppsprettur og framflijtur. Þess gietur Johañes, Cap. 1. er þann segier: Ad af hañs Fyllingu hofum vier aller medteked Naad fyrer Naad: Þar fyrer lioomar hin Guddoomlega Byrte i krijngum Hyrdarana, so sem vitnande þar um̃, ad hann væri i Heiminn fæddur, sem ad er Lioomi Fodursins Dijrdar, og Jmind hanns Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Fra hverium Lioosanna Fodur ad oll good Giof og oll fullkominn Giof kiemur. Jac. 1. Hverium þocknast hefur, ad i sijnum Syni skuli oll Fylling bwa, Col. 1. Ja, sialf Guddoomsins Fylling, hver ed bygger i honum Lijkamlega, Col. 2. Þad er i hanns Blessudum Manndoome, er hann af voru Hollde og Bloode hefur uppa sig teked, og giort Hluttakande Guddoomlegrar Natturu. Æ! oss auma og synduga Menn! Vier siaum ecke, fyrer Blindu Hollds sins, hvad miked oss veitt er i JEsu Holldtekiu, Myrkur vors Skilnings fa þad ecke hondlad, so sem þad er. Enn Guds heilogum Englum, er jafnann standa frame fyrer honum, Matth. 18. þeim er alkunnug Sæla su, er ollum Guds Bornum er tilbwiñ, hverri vier tapad hofdum i Adams Falli: þeim eru og ecki Okuñugar Pijsler Fordæmdra, er kveliast munu i Augsyn Heilagra Engla, segier Johannes i hanns Opinnberunum, Cap. 14 Þvi er ecki ad undra, þo Englarner fagne, þar hinn annar Adam, sem er DRotteñ af Himnum, 1. Cor. 15. var i Heimiñ boriñ, til ad frelsa oss fra ollum þeim Oskopum, þvi þeir elska Mannkyned, eñ vissu, ad i JEsu Fædingu var Monnunum giefiñ sa Kostur, ad forlijkast vid Gud, og setter verda i hañs Sonar Rijke, Col. 1. Nu er þad vijst ad sonnu, ad vier ecki ad fullu þeckium hvad vier mist hofum, edur hvor Olucka oss bwinn væri, nema Guds

Sonur væri i Heiminn komeñ synduga Menn Sæluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Eñ þo mættum vier ad so miklu Leite þeckia vort Andlegt Volæde, og so miked hefur oss sagt vered af hiñe eilijfu Dijrdar-Vist i Himnarijke, ad ef vier legdum nockurn Hug a vort Mæl, þa mundum vier Allshugar fegner verda, ad vier hofum hana aptur feinged, og rooa ollum Arum ad þvi, ad vier sleppum heñe ecke aptur ad niju. Eg hefe noog sagt hier uñ, þegar eg segie þad med Ordum Esaiæ, hveriu Synder vorar til Leidar koma: Ydar Synder, segier hann, skilia a mille Guds og ydar, og ydar Ranglætingar ualda þvi, ad hann byrger sitt Andlit fyrer ydur, og vill ydur ecki Bænheyra, Esa. 59. Nu vitum vier þad, ad vier lifum ecki eina Stund aan Syndar. Heyred hvad David Konungur talar uñ allt Holld, Ps. 14. Ps. 5. og 10. og 36. Salomon, Ordsk. 1. Esa. 59. Þar er eingiñ Riettlaatur, og ecke Eirn, þar er eingiñ Skynlande, og eingiñ saa ad Gude leite: Aller hafa þeir afviked, aller til samans eru þeir Onijter ordner, þar er eingenn saa ed Gott giore, og ecke Eirn.

Nu segier Paall, er hañ færer þesse Ord til sijns Mæls, Rom. 3. Nu vitum vier ad hvad sem Logmaaled segier, þad segier þad þeim, sem under Logmaalinu eru, so ad aller Muñar verde tilbyrgder, og allur Heimuriñ Sakfalliñ vid Gud. Eñ ef Guds Sonur væri ecki i Heimiñ komiñ til ad frida fyrer oss, þa værum vier aller under Logmaalinu, og eñ þa i vorum Syndum: Þviad Logmaaled er fyrer Moysen wtgiefid, enn Naad og Sañleiki er skien fyrer JEsum Christum, sagdi Baptista, þegar hañ hoof Christne-Boded, Joh. 1. So adskilia nu Synder vorar a mille Guds og vor. Segid mier þa, er þad ecki mikillrar Gledi og Fagnadar vert, ad hañ er oss i Heimiñ borinn, sem heiter Imanuel, Esa. 7. þad er, Gud med oss? J hvors Nafni hiñ naadugi Gud hefur til siñar Christne talad, þad er, til allra þeirra, sem a hañs Nafn trwa, Esa. 54. Þoott ad Fioll þessi hverfi a Bak aptur, og þesser Hælsar wr Stad hræreft, þa skal mijn Giædska ecki fraa þier vijkia, og Saattmaale mijns Fridar ecke vid þig skilia, segier DRotteñ þiñ Myskunare. O hversu gledilegt er þetta, þegar eiñ saaraadur Syndare, hvers Samvitska vitnar a mooti honum, ad hañ hafi eckert añad eñ Daudañ forþienad, þegar hañ, segie eg, hugsar til þeirrar Ognarlegu Tijdar, nær Konungar Jardariñar og Hofdingiarner, og hiner Rijku og hiner Volldugu, segia til Fiallaña og til Biargaña, falled yfer oss og hylied oss fyrir Auglite hañs sem i Hæsætinu situr, og fyrer Reide Lambsins, Op. B. 6. Þess er og ad giæta, Brædur mijner, hver hañ er, sem ad vier vorum missaatter vid. Ofridureñ er ad þvi leite hrædilegur, sem hañ er Volldugur til, sem heriar a Landid. Hvor er saa Konungur, er hañ færir Hernad mooti odrum Kongi, ad hañ eige setie sig nidur og raadslage, hvert hañ giete med Tiju Þusundum mætt honum, sem med Tuttugu Þusund kiemur a mooti honum? sagde DRotteñ vid Lærisveinana, Luc. 14 til ad sijna þeim hvor ad være Munur Guds og Maña. Munum vier gieta svarad hinum Riettlaata Gude Einu a moote Þusund, ef hañ vill i Doom vid oss gaanga? Job. 9. Hañ er HErrañ, vier erum Þrælarner, hañ hefur skapad oss,

vier

vier vanskopum oss daglega, hann hefur oss allt gott giört, vier giörum allt illt a moote honum. Hann vegur Fiöllenn a Vigt, og Hälsana med sijnum minnsta Fijngre, Esa. 40. Vier megnum ecke ad giora svart Haar eda hvijtt a voru Hofde, Matth. 5. Hia honum er engenn Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar, Jac. 1. Vier erum ein Vatns-Boola, vier megnum ecke hinum minnsta Vesælinge hid minnsta Mein ad vinna, an hanns Vilia; Hann hefur Valld til ad kasta Lijfi og Saalu i eilijfann Elld, Matth. 10. Hvor vill faa stadest, nær slijkur HErra er reidur? Hvorsu Fagnadarsæll er þa Bodskapur þesse, ad vier Fridkeypter erum, og i Saatt komner vid hann, sem allt Valld hefur bæde a Himne og Jordu? Matth. 28. Og ef vier vilium gaanga nær og skoda, hvor ad sie Mismunur Logmaalsins, sem fyrer Moysen er giefed, Joh. 1. og Evangelii, sem Christur hefur fært oss wr Skaute Fodursins, þa er þad i mörgum Hlutum audsied: Logmaaled var med stoorre Ognan og Reidarþrumum wtgiefed: Ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerter Fialls-Ræturnar, sagde Gud, Exod. 19. þa skal þad Dauda deya. Hid fyrsta Nija Testamentesins Evangelium, er med Lof-Saung heilagra Engla bodad, og almennelegu Fridar-Bode yferlijst. Allt Fialled Sinai skalf og titrade af Guds Ognan, þar saaust Leiptraner og Elldingar, so ad Moyses, sem var hinn meste Fullhuge, og so var kunnugur Gude, ad hann talade vid hann eins og Madur vid Mann talar, Exod. 33. Hann sagde: Eg em hræddur og skialfande, hvad Paulus tiltekur til Dæmes um þesse stooru Undur, Ebr. 12. Enn hier lioomar Guds Byrte i kringum Hyrdarana. Og Engellenn segier vid þessa Vesælings Smala Menn: Otteſt Ecke, Þviad J Dag Er Ydur Lausnarenn Fæddur, Saa Ad Er Christur DRottenn J Borgenne Davids. Menn hallda ad Englarner hafe geinged a mille Guds og Moysen, til ad af-henda honum Logmaaled, eda ad vijsu a einhvorn Haatt þioonad ad þessu: þad segier Stephanus, hinn fyrste Pijslarvottur Guds, nærre med berum Ordum Tvisvar sinnum, P. G. 7. Þad stadfester St. Paall, Gal. 3. og Hebr. 2. Enn ei heyrest ad þeir hafe þa blijdlega til hanns talad, sem ei var Von, þvi Logmaaled verkar Reide, Rom. 4. Og er vegna Yfertrodslunnar wtgiefed, Gal. 3. Eg vil ecke faa mier til Orda þær grimmu Hootaner, er Logmaalenu fylgia. Ef þu hlijder ecke Raustenne DRottens Guds þijns, segier Moyses, Devt. 28. Þaa skulu allar þessar Bolvaner koma yfer þig og höndla þig: Bolvadur skalltu i Borgenne vera, bolvadur a Akrenum, bolvud skal þijn Hyrdsla vera, hvar þijnar Afgaangs Leifar eru, og bolvadur skal þinn Lijffens Avoxtur vera, þinn Jardar Avoxtur og þinna Sauda, bolvadur skalltu vera nær þu geingur inn, bolvadur nær þu utgeingur; med odru fleyra, og allre þeirre Olucku er Logmaalsins Yfirtrodsla steiper yfir syndugar Manneskiur og hrædelegt er upp ad telia. O! hvorsu er þad Olijkt honum, er sagde: Komed til mijn aller þier sem Erfide driged og Þwnga erud þiader, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Hann medtook Tollheimtu-Menn og Bersynduga, at og drack med þeim, Luc. 15. til ad avinna þaa til Guds Rijkes, þolde Brygsle og Ameæle vondra Manna, þeirra vegna. Hann ed sagde vid hina Bersyndugu Hoor-Konu:

Hafe engenn fordæmt þig, so fordæme eg þig ecke helldur, gack burt og syndga ecke framar, Joh. 8. So ad þad maa satt jaata, ad hinn Naaduge Gud hefur ecke um̃ Skort fram̃ spaad um̃ sinn Engieteñ Son, Es. 42. Sioa miñ Þioon, þañ er eg añast, og miñ hinn Utvallde, aa hvorium eg hefe Velþocknan, eg hefe honum miñ Anda giefid, hañ mun Doomeñ wtflytia medal heideña Þiooda, hann mun hverke kalla nie hroopa, og hanns Raust mun ecke heyrast aa Strætunum, þañ brakada Reyr-Legg mun hañ ecke i sundur briota, og þañ Lijtt-logande Hor-Kveik mun hañ ecke wtslockva, hañ mun kienna ad hallda Doomenn med Sannleikanum, hann mun ecke Moglunarsamur nie hrædelegur vera, so ad hann aa Jordu Doomeñ uppbyrie, og Eyarnar munu efter hañs Logmaale vænta. Þegar þier nu þetta hvorutveggia samañ bered, Brædur mijner, og ef þier þykest nockru vid Gud seker vera, þa er lijklegt ad þier munud fiña til i Hiarta ydar, hvorsu gledeleg ad sie JEsu Fæding. Gydingum var Fognudur þesse allra fyrst bodadur, so sem Von var til, so ad Spaadoomarner yrdu uppfyllder: Þess gieta þeir St. Paall og Barnabas, P. G. 13. er þeir sogdu vid þaa; Til ydar byriade fyrst ad tala Guds Ord: Eñ vær adrer hofum þess sijdañ noted: Þar fyrer spaaer Esajas so um̃ Jerusalem: Myrkred mun hylia Jordena, og Dimañ Þioodernar, Esa. 60. Eñ D Rotteñ mun upprenna yfer þier, og hañs Dijrd mun siaast yfir þier, og Heidingiarner munu gaanga i þijnu Lioose. Þvi lijser Engelleñ i Samtalenu vid Hyrdarana, þar hann segier: Eg Boda Jdur Mikenn Fognud, Þann Er Skier Ollu Foolke. Hier er ecke Gydingur nie Grijkur edur Schyta, ecke Þræll edur Frelsinge, Gal. 3. Helldur aller eitt i Christo JEsu, Col. 3. Epter hañs Logmaale munu Eyarnar vona, segier Esajas, C. 42. Þad eru, heidnar Þiooder; So plagar Ritningeñ þær optlega ad kalla. Þetta meigum vier bæde ad Raun og Nafne tileinka oss, sem byggium Hoolma þeñann: Ad sonnu hefur Guds eilijf Fyrerhyggia skoted oss wt under hid ytsta Heimsins Skaut, kannskie og ad morgum þykia meige, ad vier hofum Var-Hluta fared af margre Fullsælu Heimsins, eñ þar aa moote hofum vier ecke ad segia af margre þeirre Olucku og Andstreyme, sem añarstadar i Heimenum plaagar syndugа Meñ, svo vier erum skyllduger ad vidurkienna, ad Gud hefur vel til vor giort, ef vier kyñum med ad fara. Enn hvorneñ sem þessu er vared, þa hefur hañ ecke giort oss Afskipta af Andlegum Hlutum, sem mest aa rijdur.

Stutt Stund er þad, ad vier eigum vid þetta Tijmannlega ad bwa, hvort helldur oss geingur med edur moot, enn eins vel er oss JEsu blessud Tilkoma i Hollded bodud og odrum, eins vel hanns Pijna og Daude, eins vel hanns Upprisa, eins vel hanns Uppstigning, eins vel Utsending hinns Heilaga Anda, aa eingu af þessu hofum vier nockurn Skort, helldur eñ hvor onnur Þiood i Heimenum, og, ef eg maa segia, þaa erum vier betur hier med forsorgader, eñ marger, þvi hofum vier eingvu sijdur Ordsok til ad fagna og Lof syngia hinum gooda Gude i Hiortum vorum, Col. 3. helldur enn allur Heimureñ: Jaa, oll Guds Christne, hvar hellst sem hun er i Heimenum, hun maa jaata þad satt ad vera, er Paulus segier, Eph. 2. um̃ Heidingiana: Nueru þier i

JEsu Christo, sem ædur fiærre vorud nælæger ordner, fyrer Blooded Christi, Þvi hann er vor Fridur, hann sem giører eitt af bædum, og Gyrdingu Midveggiarens hef- ur nidurbroted. J kriijngum Jerusalems Mustere var eirn Stein-Veggur, Þæng- ad leifdest Heidingium ad koma, enn ecke leingra, so ad Þioonustugiørdeñ ecke saurg- ud yrde af Oumskornum Mønnum, og til Þessa lijtur Postuleñ i Þessum Ordum. Enn sijdañ Guds Sonur er i Heimeñ boreñ, Þa er i Christo hvørke Umskurn nie Yferhwd, Gal. 5. Þvi segier og Paulus aftur: Ad hañ afmæd hafe Løgmæl Bodordaña, sem var iñefaled i Setningunum, fyrer sitt Holld, so hañ giørde i siælfum sier Tvo ad Ein- um nijum Manne, og giørde Frid, Eph. 2. Þetta er, medal añars, sæ Fridur, er Eng- larner boda, Fridur millum Guds og Manna, Þvi Gud er Madur ordenn, Fridur millum Himens og Jardar, Þvi Gud hefur i Christo alla Hlute forlijkad vid sig, (sem- iande Frid fyrer Blooded hañs Kross) hvort helldur Þeir eru æ Jordu edur æ Himne, Col. 1. Fridur vid heilaga Guds Engla, hvørra Samneyte vier høfdum af oss brot- ed: Þvi segier Paulus, ad vier sieum komner til Fiallsins Zion, og til Borgar Guds lifanda, Jerusalem hinnar Himnesku, og til margra Þusunda Englanna, Hebr. 12. Fridur æ millum Gydinga og Heidingia, Þvi Þad er i JEsu blessadre Hijngadkomu framkomed sem DRottenn spæer, Zach. 8. Segiande: A Þeim Døgum skulu Tiju Menn (Þad eru marger) af øllum Þioodum og Tungumælum, Þrijfa i Klædafalld Gydingsins, segiande: Vier viliuni med ydur fara, Þvi vier heyrum Gud er med ydur. Þesse er Immanuel, hvør ed fyrst var sendur til Fortapadra Sauda af Hwse Jsraels, Matth. 15. enn hafde Þo adra Saude, er ecke voru af Þvi Sauda-Hwse, er hønum byriade og Þængad ad leida, Joh. 10. so Þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder. O hvilijk Diipt Audæfanna og Guds Speke! Hier mæ Þad satt iæta, er Petur med stoorre Undran sagde fordum, P. G. 10. er Gud sende hañ til ad skijra Cor- nelium og hañs Heima-Foolk; Nu reyne eg i Sannleika, sagde hañ, ad Þar er eckert Manngreinar Alit hiæ Gude, helldur ad sierhvør eirn, af hvørre Þiood sem hann er, sem hann ottast, og fremur Riettvijsena, hañ er hønum Þocknañlegur, P. G. 10. Þar fyrer syngia Guds Englar hier i Lofkvædenu: OG MØNNum GOODur VJL- ie; Þad kallar Textenn, Velþocknan. Hvar munde Þessa Velþocknan vera ad finna, Brædur mijner? Ecke hiæ vesælu Mannkyne, allra sijdst æ Þeim Døgum, Þegar DRotteñ kom til siñar Eignar, og hun Þeckte hañ ecke: og kiemur Þad hier fram sem Jo- hañes segier, 1. Pist. 4. Cap. J Þvi er Kiærleikureñ foolgeñ, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hañ elskade oss, og sende siñ Son, ad hann yrde Forlijkun fyrer vorar Synd- er. Þetta er ecke af Mañlegum Tilverknade skied, Þvi æn Christs er Madurenn And- stigd fyrer Gude, helldur fyrer hañs Skulld, sem er hanns elskulegur Sonur, i hvør- ium hønum alleina velþocknast, Matth. 3. Þess hafa hiner ad noted, hvørra Holld og Blood hañ hefur uppæ sig teked, Þvi engeñ hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, Eph. 5. Þar fyrer er ecke ad undra, Þoott Gud hafe Velþocknan æ Þeim, hvøria hanns

Sonur skamast siin ecke Brædur ad kalla, Heb. 2. Og þar ad auke, fyrer Trwna ꝏ hann, eru ordner eirn Ande med Gude, 1. Cor. 6. Fyrer þvi samfagna nu Guds heilager Englar syndugu Mannkyne, er so bræadlega høfdu þesse gledelegu Umskipte feinged, ad verda Guds Børn af Sathans Børnum, Leysingiar Christi af Syndarēnar Prælum, Guds Riikes Erfingiar af Ørfum Fordæmingarennar, Englunum samliiker og þeirra Samlags-Menn, af Lags-Mōnum Dioflanna: Eñ so sem ad þeir Himneskn Andar fagna þessu so miøg, sem ꝏdur er sagt, ad þeir boda Frid og Velþocknan Guds yfer Jorduñe, so fagna og Christi Læresveinar, og þad Foolked er hønum fylgde inn til Jerusalem, þar af, ad Fridur er i Himnenum ordeñ: þar um skrifar so Lucas: C. 19. Og allur Fiollde Læresveinaña toku til ad lofa Gud med Føgnude og hꝏrre Rødðu, fyrer allar þær Jardteikner er þeir sied høfdu, segiande: Blessadur sie sꝏ sem kiemur i Nafne DRottenns, Fridur ꝏ Himne og Dijrd i Upphædum. Merk þetta vel, christenn Madur! Hiñ nꝏduge Gud hefur lꝏted Fridar-Bod gꝏnga um alla Verølldena, og lagt siinum Postulum uppꝏ, ad augliisa Forlijkun þessa, 1. Cor. 15. Hvar fyrer þeirra Hlioomur er wtgeingeñ um alla Heims-Bygdena, Rom. 10. Enn Gud nꝏde! hvad fꝏer þeir eru sem vilia fallast ꝏ þau Rꝏd, ad miñast vid Soneñ, so hañ verde oss ecke reidur, Ps. 2. Gud hefur lꝏted boda Frid ꝏ Jordu; Lꝏt þier vera añt um, Christeñ Madur, ad verda þess fulløruggur, ad þar sie og Fridur fyrer þig i Himnenum. Aller JEsu Christi Velgiørningar eru i hañs Fædingu øllum bodner, eirneñ þeim sem Foot-troda Guds Son, og Sꝏttmꝏlans Blood almennelegt hallda, med hvøriu Syndarenn er þo helgadur, Hebr. 10. Gud er ad sonnu Frelsare allra Maña, (þvi hañs Sonur hefur fyrer alla lided) þo eirna mest Trwadra, 1. Tim. 4. Þvi þeir einer meiga Frelsesins nioota, sem trwa ꝏ Nafn Eingietens Sonar Guds. Gief þvi ecke upp ꝏ Vege þiñar Sꝏluhiꝏlpar, fyrr eñ ad Heilagur Ande ber Vitne þiinum Anda þar um, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Eñ hvorneñ mꝏttu þad ødlast? Þad skiedur: ef þu giører eingva Sꝏtt vid hanns Ovine. Ecke vid Dioflenn, þvi hann er Guds svareñ Ovinur, vier høfum afneitad øllu hañs Athæfe i Skiirnenne, hvøria Petur kallar Sꝏttmꝏla goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. (Ecke einunges þess vegna, ad vier i heñe Endurfædder erum, og høfum Styrk Samvitskunnar þar af, ad vier erum sꝏtter vid Gud, og kvitter um Sekt Uppruna-Syndarennar, helldur og hiñs añars, ad hun miñer oss ꝏ, um alla vora Æfe, ad hallda vort Loford af fremsta Megne, og ad flecka ei Samvitskuna med þeim Verkum, sem Andskotanum eru til Þioonustu, eñ Gude til Stygdar). Ecke vid Hollded, þviad þess Þꝏnkar eru Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Engenn kann Tveimur Herrum ad þioona, Matth. 6. Enn Christur og Belial eiga eckert Hlutskifte samann, 2. Cor. 6. Nu eru Holldsins Verk augliòos, þad eru Hoordoomur, Saurliifi, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda Dijrkun, Fiolkiinge, Fiandskapur, Prætur, Kappgyrne, Reide, Prꝏttaner, Sundurþyckia, Flockadrꝏttur, Ofund, Manndrꝏp, Ofdryckia, Ofneytsla, og þessum lijkt, Gal. 5. Ef vier

þessar Synder æfum, og lætum þær drottna i voru Hollde, þa erum vier ecki Guds Viner, og ecki er hans Fridur i oss, ecki kuñnm vier helldur vid Samvitskuna Frid ad hafa nema hun sofi, og mun hun þo sijdar af illum Draum vakna þegar vest giegner, þegar Andskoteñ kipper Svæflinum undañ Hosdinu, og vier erum sijst buner til Mootgaungu honum i Daudans harda Strijd, og er þa hætt vid, ad heñar Ormur verdi ad þeim Ormi, sem alldrei deyr, Esa. 66. Jæ, nema vier daglega tokum uppæ oss Guds Herskrwda, og leggium allt Kapp æ ad stockva þessum Oalldar-Flocke, epter þvi sem hver eiñ verdur æsooktur, þa kuñum vier ecki Frid vid Gud ad hafa, ecki Guds Born ad heita, og i eingri Vissu um Guds Rijki, edur Arf Himnaña ad vera; þvi þeir er Christo tilheyra, krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tillneigingum, Gal. 5. Giorid ei helldur Samdræatt vid Heim þeñañ, ef þier vilied Guds Viner heita, þvi Johañes f. ger, 1. Pist. 1. Elsked ecke Heimeñ nie þad sem i honum er, ef nockur elskar Heimiñ, þa er ecki Guds Elska i honum. Ecke segie eg, ad Meñ skule ei hafa Umgeingne vid Heimsins Born, añars mættu þeir fara wt wr Heiminum, 1. Cor. 5. segier Pæll: Hitt er og Riettvijst, ad umgæangast Fridsamlega vid þa, sem eru af Heiminum, verde þvi æakomed, þvi Pæll seger eñ aptur, Rom. 12. Ef þad skie kann, ad svo miklu Leite sem i ydar Vallde er, þa hafed Frid vid alla Meñ. Og David hæler þvi, ad hañ hafe Fridsamur vered, Ps. 120. jafnvel vid þæ sem Fridenn hotudu, Ps. 119. Hitt segie eg, ad Meñ skule eckert Samblende edur Samtok hafa vid þa i Jllskuñi og Prettvijsiñi, þvi þad er ad færa Hernad æ mooti Gudi; Og verdi einhver af oss til þess kvaddur, þa eiga Meñ ad briota þennañ Frid, og Ottast eige Mennena, so vier kuñum ad hafa Frid vid hañ, er Sæal og Lijf gietur drepid eilijfum Dauda, Matth. 10. Riettvijseñ og Frideñ kysse hvert añad, segier David, Ps. 84. Þar segiest vel eingeñ vera sem ecke Frideñ kioose, eñ aller vilia þo ecke Riettlæted æfa, eins og hvert kuñi añars æñ ad vera. Þar sem ecki er Riettvijse, þar er alldrei Fridur, þar sem ecki er hiñ sañi Fridur, þar er alldrei Riettvijse. Þad er hinn sañe Fridur, ad hallda Eindrægne med Gudrækne og goodri Skickun, eñ hata Skamer og Klæke. Þegar Veralldareñar Syner eru mektuger ordner, og hafa broted under sig adra, so ad eingiñ vogar ad stijga æ þad Stræ, er þeim mislijkar, þa hyggia Meñ ad þeir sieu i Fride, eñ þad er vijst, ad þeir ed odrum hafa rææglega tilgiort, hafa þa hvad miñstañ Frid, er þeim sijnist einkis Ofridar Von vera; Þvi Fridur þessi helldur jafnañ Strijd vid Samvitskuna. Og nær þeir hafa eingañ ad beriast vid, þa beriast þeir vid sicalfa sig. Soddañ Fride eiga oll Guds Born ad hafna, jafnvel þoott þad sie nu um Stunder Fridseme kollud, ad lijda og samþyckia, edur, ad miñsta Koste, lætast ecke siæ hinar verstu Skamer og Odygder; Og Hlutseme kollud, ef nockur vandlæter þar um, eñ þad mætti þañ einu gillda, sem hefur Frid vid Gud og Samvitsku sijna, þvi þoott hañ jafnvel Fridlaus yrdi og rækur fræ Moñum, þa hefur hañ alltijd Frid-Land i Guds Rijki. Og þoott Gud take hañ ei so fliott wr Heiminum, þa vardveiter hañ þann hinn sama fyrir Heiminum, Joh. 17.

Þad

Pad er gott ad vera Hlutsamur med sama Hætte og Noe, Loth, Moyses, Samuel, David, Elias, Esajas, Micheas, Jeremias, Johannes Baptista, St. Paall og adrer Guds Meñ, er hielldu BriJrli Christi stærri Virdingu ad vera, enn Heidur Veralldar þessarar, Heb. 11. Esaias, Cap. 9, nefner vorn Jm̃anuel Fridar-Hofdingia. Eñ þo segier þesse Fridar-Hofdinge, Matth. 10. Meined ecke þad eg sie komeñ til ad senda Frid a Jordu, eg er ei komiñ til ad senda Frid, helldur Sverd, þvi eg er kominn til ad setia Manneñ upp i mooti Fodurnum, og Mooдurena upp i mooti Dootturiñi, og Sonar Konuna a mooti Moodur Bonda sijns, og Mañsins Heima Meñ verda hañs Oviner. Hver er þa Fridur sa, er DRotteñ hefur fært oss af Himnum? Pad er Fridur millum Guds og Maña, enn ecki Fridur millum Guds Barna og hanns Ovina, Fridur vid Samvitskuna, eñ ecki vid Syndena, Fridur vid Guds Løgmaal, enn ecki vid Holldid: Eñ ef nockur af þeim, er hann talar um̃, Matth. 10. samþycker ecke þessa Fridar Koste, þa er sa hañs Ovinur, og a eingann Frid vid þañ sama ad giøra, þvi sa sem ecki hatar Fodur og Moodur, Brædur og Systur, fyrer hañs Skulld, hañ er hañs ecki verdugur, Matth. 10. Ad sijdurstu er þetta sa Fridur Guds, sem ædri er øllum Skilninge, Phil. 4. Minn Frid gief eg ydur, miñ Frid læt eg hia ydur, ecki so sem Heimuriñ giefur þa gief eg ydur, segier JEsus vid sijna Lærisveina, Joh. 14. Pad er soddañ Fridur sem giorer oss rijka i Faatæktinni, frialsa i Prælдoominum, glada i Sorginni, metta i Hungrinu, innlenda i Utlegdinni, og um̃ alla Hluti oss sialfum fullnooga, þa vier eckert hofum. Pesse Fridur giorde Job heilbrigdann i Krøminne, David riettlaatann midt i Syndinni, hann diktade Lofsaungeñ fyrer Paal og Silas i Myrkvastofunni, P. G. 16. Han gladdi Christi Postula, þa þeir geingu fagnande, og þo hydstrijkter wt fra Raadinu, P. G. 5. Hañ huggadi Mariu under sijns Sonar Krosse, og eñ nu i Dag alla þa, er hañ bera med heñi. Og fyrer þvi, Brædur mijner, ad þesse Fridur er so mikill og so dijr, ad aan hanns er eingiñ Fridur, og þeir ed þeinkia a hinneska Hluti, kunna eingañ Frid ad hafa, þegar þeir hanns sakna, þoott øll Veralldiñ hlæe a mooti þeim; Pa grаatbæne eg ydur fyrer ydar Velferdar Saker, ad Endingu med Ordum Paals, er hann segier: Vier erum Sendeboдar vegna Christi, 2. Cor. 5. og so sem Gud beidde fyrer oss, þa bidium vier i Christi Nafni, sættist vid Gud. Enn þu Raadarfulle Himneske Fader, sem med dijrmætu Bloode þijns Eingietins Sonar, hefur endurkeypt Velferd Saalna vorra, gief þu þijnum Bornum ad elska þig, elskast Innbyrdis, og hallda Eindrægni i Andanum, so aller þeckia mættu, ad þeir sieu þijns Sonar Lærisveinar, Joh. 13. Gief þeim ad hlaupa so Skeid Lijfdaga þessara, ad þeir faae yferunned fyrer hañ, sem Heimeñ hefur sigrad, so ad þijner Pioonar mættu med Simeone i Fride fara epter Orde þijnu, Luc. 2. nær þier þocknast ad þeir gаnga skuli Veg allrar Veralldar. Bænheyr þad HErra Himneske Fader, fyrer JEsum Christum, Amen.

Annur

# Aun̄ur Predikun a Joola Dagenn.

Gudspialled Johann. 1. Cap.

I Upphafe var Ord. Og þad Ord var hia Gude, og Gud var þad Ord, þad sama var i Upphafe hia Gude. Aller Hluter eru fyrer þad giørder, og an þess er eckert giørt, hvad giørt er. J þvi var Lijfed, og Lijfed var Lioos Man̄an̄a. Og Lioosid lijser i Myrkrunum, og Myrkuren̄ hafa þad ecke høndlad, Þar var eirn Madur af Gude sendur, sa hiet Johan̄es. Han̄ kom til Vitnisburdar, ad han̄ bæri Vitnisburd af Lioosinu, so ad aller skylldu fyrer han̄ trwa. Eige var han̄ þad Lioos, helldur ad han̄ bære Vitnisburd af Lioosinu. Þad var satt Lioos, hvørt ed upplijser alla Men̄ komande i þen̄an̄ Heim. Þad var i Heiminum og Heimurin̄ var fyrer þad giørdur, og Heimurin̄ þeckti þad eige. Han̄ kom til sin̄ar Eignar, og han̄s sialfer medtooku han̄ eige. En̄ so marger sem han̄ medtooku, þa gaf han̄ þeim Makt Guds Børnum ad verda, þeim sem a han̄s Nafn trwa. Eige þeim sem af Bloodinu, eda þeim sem af Holldsins Villd, edur af Man̄sins Vilia, helldur þeim sem af Gude eru fædder. Og Orded vard Holld, og bygde med oss, og vier saaum þess Dijrd, Dijrd so sem Eingietins Sonar af Fødurnum, fullan̄ Nadar og San̄leika.

## Exordium.

DAniel Spamadur, i sinnar Bookar ødrum Capitula, segier fra þvi, ad Nebucadnezar Konunge hafe giefist Syn nockur i Draume, er han̄ kvad sijdann ad væri horfinn wr Minni sier, og beidde Fiolkingis-Menn sijna og Spaasagnara, ad þeir segdu hønum Drauminn, en̄ þeir tolduſt undan̄ Bodi Kongsins, og svorudu þann Veg: Þar er einginn Madur a Jørdun̄e, er meige giøra þessa Konungsins Skipan, hvar fyrer eingenn Høfdinge edur Drotten̄ hefur nockru Sin̄i þvilijks krafist af nockrum Spamān̄e edur Caldæo, þvi sa Hlutur, er Konungurin̄ æsker epter, er so Dijrmætur, ad eingin̄ ma han̄ segia Konunginum nema Godenn, hver ed ecke byggia med Holldinu. Nu jafnvel þoott ad Spamen̄ þesser væru Satans Pioonar, þa ma þo ecki þvi a mooti segia, ad þesse þeirra Assøkun var gylld a alla Vegu. Enn þess meira sem Heidingiar þesser høfdu til Maals sijns, þess meira høfum vier Christner Menn Gudi ad þacka, ad hann hefur oss þann i Heiminn sendt, er þad hefur giørt, er einginn Manna giøra kunne. Caldæa Lands Vitringum þoottu þad Nijungar, ad Kongurinn skyllde leggia þeim uppa þennan̄ Hlut; Enn hinn Alvitre Gud hefur giørt

eirn nijann Hlut a Jordu, ad Konann hefur umkriingt Manninn, Jer. 31. Hvert Spaadoomur þesse eige ad skilast um Holldtekiu DRottens edur ei, er eg ecke alldeilis viss um, samt slijgur mier i Hug af þessu, ad þad hefur alldrei um Æfi heyrst, ad nockur hafe under eins Mey og Mooder vered, ad hañ sem uppfyller Himen og Jørd kreppteſt i einum Stalle, ad Gud er Madur ordenn. Margvijslega og a marga Vegu hefur Gud talad vid Fedurnar i Fyrndenne; Enn þad er nijr Hlutur, ad hann talar vid þaa fyrer Sonenn, Hebr. 1. Og ad Gud, Jklæddur mannlegu Hollde, sa Eingietni Sonur Fodursins, sem er i hañs Skaute, hann i eiginn Persoonu opinnberar syndugum Mønnum allann hanns Vilia og Veg Saaluhiaalparinnar. Spaasagnararner fortooku þad, ad Gud mundi byggia med Holldinu; Enn hvad vilium vier þar um tala, Ad ORDed er HOlld orded, Og Bygde Med Oss: Vier heyrdum þad, saum med Augum vorum og skodudum, og Hendur vorar þreifudu a þvi, segier Johannes, 1. Pist. Cap. 1. Godenn eru Mønnunum lijk ordenn, og ofann komenn til vor, søgdu fordum þeir Menn i Lystris, er Paulus læknade þann er halltur var borenn, og villdu hafa veitt þeim Barnabæ Gudlega Lotning, P. G. 14. Eñ þeir voru þo ecki nema Menn, og hvad hellst þeir giørdu undrunarlegt, þad giørdu þeir i Nafni JEsu Christi. Enn i Mañdoom DRottens er hiñ lifandi Gud ofañ stijgeñ, og hefur Bygd sest a medal Mannaña, ja, þvilijkur Gud, af hvers Krapte og fyrer hvers Almætte ad øll Furdu-Verk a Himne og Jordu giord eru. Um þetta allra helgasta og Daasamlegasta Efne giefur oss Ordsok ad tala vor upplesinn Texte, hverium vier vilium gaanga nockud nær, og þoott ad ei meige hinum gooda Gude fullþacka þar fyrer, ad einginn er sa medal vor, sem efe um Guddoomenn Christi nie hañs Holldtekiu; Pa samt af þvi, ad þetta heilaga Evangelium færer oss a þaa Leid, sem liggur til ad tala hier um; Pa vilium vier af þvi alleina hugleida þad, ad Gud sie Madur ordinn.

Hier til styrke oss goodur Gud med Krapte sijns Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

I Upphafe var ORD, segier Gudspiallamadurinn. Eg vil ecki i þetta Sinn faa mier til Orda, edur upptelia Meiningar Mañia, hvar fyrer hin Øñur Guddoomsins Persona verdur ORd kollud, þo er þad vijst, ad Gydingar nefndu so Messiam a þeim Døgum, og hefur þad øllum kuñugt vered, maaskie, þess vegna, ad Ord Fyrerheitisins uppaa hañ hlijdde; Ad eg ei tale þar um, ad hiñ Maattuge Gud skapade fyrer hann alla Hlute, þegar hañ baud þeim ad verda med Einu Ordi, Gen. 1. edur og hitt, ad hañ, Holldinu Jklæddur, hefur med Sannleiksins Ordi opiñberad oss Fødursins Vilia, Joh. 1. Enn hverninn sem þessu varid er, þa segier Johañes ad þetta ORD, edur Guds Sonur, hafe vered i Upphafe hia Gude; Hvert sem vier nu tokum þetta Ord, UPPhaf, fyrer Upphaf Eilijfdariñar, sem Raunar er eckert annad eñ sialf Eilijfdenn, i hvørri ad ei er Fyrr edur Sijdar, helldur eru Pusund Ar hia Gude, so sem einn Dagur, og einn Dagur so sem Pusund Ar, segier Petur, 2. Pistl. 3.

Edur vier tokum þad fyrer Upphaf Skopunar allra Hluta, Gen. 1. Þaa er þad audsært, ad Sonur Guds er honum Sameilijfur. Paulus segier, 1. Cor. 15. Ad þegar sagt verdur, ad aller Hluter sieu Christo underlagder, þaa er þad bert, ad sa er undanntekenn, er honum hefur alla Hlute underlagt. Alijka vil eg hier um̃ segia, nær sagt verdur, ad Guds Sonur hafe vered i Upphafe Skøpunar allra Hluta, þaa er audvitad, ad hann siaalfur hefur alldrei skapadur vered, og er, þess vegna, og hefur vered, fyrer alla Eilijfd. Paulus tekur af Tvijmælenn hier um̃, er hann segier: Ad hann hafi vered aadur enn ad aller Hluter vorú, Col. 1. Og uppaa þad, ad engenn leide sier þad i Hug, ad hann ecke sie Gude Fodur sameilijfur, þaa segier David Konungur, Ps. 45. Þiñ Velldis-Stooll, O! Gud, er um̃ Alldur og ad eilijfu. Engeñ Efi er aa þvi, ad þetta er um̃ JEsum Guds Son talad, þvi strax epter segier David: Þu hefur Riettlæted elskad, enn hatad Raanglæted, þar fyrer hefur, O! Gud, þiñ Gud smurt þig med Oleo Fagnadarens fram̃ yfir þijna Hluttakendur, Ps. 45. Og þesse hin sömu Ord þijder Paulus, til Hebræos C. 1. uppaa JEsum, hvør ed epter Mañdoomenum smurdur er med H. Anda; Og hvad meira er, ad DRottenn siaalfur er þvi samhlioода, er hann heimfærer uppaa sig þau Ord, er standa, Es. 61. (Ande DRotteñs er yfir mier, af þvi hañ hefur smurt mig), segiande: Þesse Ritning er i Dag uppfylld, ad ydur Aheyrendum, Luc. 4. Og so engeñ meine, ad þetta sie talad alleina um̃ hina Efterkomande Eilijfd, þa segier Micheas, Cap. 5. Þu Bethlehem Ephrata, ert engvannveigenn hin miñsta aa medal Hertoga Juda, þvi af þier mun fram̃koma saa Drottnareñ i Israel, hvers Utgaangur er i fraa Upphafe, og fyrer allar Allder. Þegar David bidur Guds Son ad spara sijn faau Ar, þaa finnur hañ eckert dijrmætara til ad hræra hañs bleßudu Myskunar-Ydur, sier til Medaumkunar, helldur eñ hanns eilijfa Gietnad, þar hañ segier, Ps. 102. Minn Sterke Gud, svipt mier ei burt midt aa mijnum Døgum, af eilijfum Gietnade eru Ar þijn, aadur enn þu Jordena Grundvallader, og Himnarner eru þijn Handaverk, þau munu forgaanga, enn þu blijfur, allt mun þad so sem Fat fyrnast, og so sem ødru Klæde muntu um̃breita þeim, eñ þu blijfur hiñ same, og þijn Ar þrotna ecke. Hvør Davids Ord Paulus til Hebreos, Cap. 1. eñ aptur þijder uppaa Drotteñ JEsum og hañs Guddoomlega Naatturu; edur þvi munde Esajas, Cap. 9. kalla hañ Fodur Eilijfdariñar, edur eilijfañ Fodur, nema Guds Ande hefde skoted honum þvi i Briooſt, ad hañ hefde, aasamt Gude Fodur, vered fraa eilijfu? Ecke hefur Esajas talad þetta af siaalfum sier, þvi hañ spaaer so Greinelega, ad aa maa þreifa, um̃ þaa Hlute, er engeñ Madur vita kuñe, nema Gud være med honum. Enn eg em viß um̃, ad ef hann er Fader Eilijfdareñar, þa er hann ecke yngre eñ Eilijfdeñ, enn fyrst hañ eilijfur er, þaa er lioost þar af, ad hann er sannur Gud; Þess gietur og Johañes hier i Gudspiallenu, er hann segier: OG GUD VAR ÞAD ORD. Hvør Grein ad epter Ords hætte Ritningareñar merker sama og hañ sagt hefde; Þad ORD var Gud, so sem þegar hañ segier i ødrum Stad: Andeñ er Gud, þad merker, Gud er eirn Ande, Joh. 4. Þetta

 ta

ta vottar Gudspiallamadureñ med þeim Verkum, er engeñ kañ ad giora, nema Gud eirn, er hann segier: Aller Hluter Eru Fyrer Þad GJorder. Hvor vill þa þeinkia uñ Christ añad, eñ hañ sañur Gud sie? Mier koma i Hug þau Ord, er sagde Heideñ Madur Pytagoras, ad Efa til þess ad hæda ad Metnade og Ærugyrnd daudlegra Maña, sem þo ecke kuña ad skapa eina Mijflugu, og vilia þo, so sem Gud er, Tignader vera: Ef nockur þeinker, sagde hañ, þad hañ mune Gud vera, þa skape hañ eina Verolld lijka þessare, og nun eg hann strax tilbidia. Johannes itrekar þetta aftur, so ad aller meige vr Skugga ganga hier uñ, segiande: An Hañs Er Eckert Giort Hvad Giort Er. Sie nu engeñ Hlutur ad hañs giordur, þa er þad audsært, ad hañ sialfur Ogiordur er og Oskapadur, þvi ad millum Skaparans og allrar Skiepnu kañ engeñ Madur ad hugsa edur Iminda sier nockurn Hlut, þar engeñ hefur sig sialfañ skapad, og Skiepna engenn hefur giort siñ Skapara; Og so ad vier ei meinum, ad Guds Sonur hafe vered alleina nockurskonar Verkfære i Skopunar-Verkenu, þa segier David med lioosum Ordum i þeirre Grein, er eg strax las, af Psalm. 102. ad hañ hafi Verolldena Grundvallad, og ad Himnarner sieu hañs Handa-Verk, og ecke einasta hefur hann þessa sijnelegu Verolld skapad, helldur segier og Paulus, Col. 1. Fortakslaust; ad fyrer hann, þad er, af honum, sieu aller Hluter skapader, sem eru a Himne og Jordu, hvad Sijnelegt og hvad Osijnelegt er, hvort helldur þad eru Troonarner edur Herradæmenn, edur Yfervolldenn, edur Valldstioornernar, allt er þad fyrer hañ, og hanns vegna skapad. Med þessum hinum sijdurstu Ordum vill Paulus merkiast lata Engla Guds og hinar andlegu Verur, fyrer utann Gud einn, allra Hluta Skapara, sem einn af ollu Oskaptur er. Nu være þad ad sonnu noog, til ad vitna uñ Guddoom Frelsarans, ad hann er eilijfur og allra Hluta Skapare, eñ Johannes lætur ecke kyrt þar med, helldur segier hann: J ÞVJ VAR LJJFed, Og LJJFed Var LJoos Mannanna. Med hvoriu hann teikna vill, ad allt hvad Lijfs-Anda hefur, andlegann edur lijkamlegañ, þad life af þvi sama Lijfe, og af hañs Fyllingu hofum vier aller medteked. Hvorneñ vtmæalar Paulus hiñ saña Gud fyrer Athenu Borgar-Moñum, er hañ foor til þeirra med Christne-Boded? J honum lifum vier, erum vier og hrærunst vier, P. G. 17. Eñ hvad er þad añad eñ þad, sem hiñ same Postule vitnar uñ Christ? Col. 1. Ad i honum stande til samans, edur standest, aller Hluter (þad er vardveitest og stioornest af honum). Þvi segier og Postuleñ, Heb. 1. Ad hañ bere alla Hlute med Orde sijns Kraftar. Eg giet ecke bored allt þetta Foolk, sagde Moyses vid Gud, Num. 11. Þegar hañ villde hafa sig undañ þeigeñ, ad stijra einsamall Israels Foolke, af hvoriu Ordtæke Ritningareñar eg þad fyllelega alykta, ad sa sem ber alla Hlute med sijnu kroftuga Orde, hann stioornar ollum Hlutum med Gude Fodur og Heilogum Anda bæde a Himne og Jordu, hvad sialfur DRotteñ samþycker, er hañ segier: Þad sem Fadireñ gioer, þad gioer Sonureñ eirnenn med, Joh. 5. sem Von er til, þvi hañ segier berlega, ad Fadereñ sie i sier og hann i Fodurnum, Joh. 15. Jo-

hannes segier, ad LJFFed hafe vered i DRDenu, enn hvilijkt þad LJFF sie, greiner hann sialfur, Joh. 5. So sem Fadereñ uppvekur og lijfgar þa daudu, so lijfgar og Sonureñ þa hann vill. Og þott hañ hafe þad med mørgum Dæmum sañad, þa er þad samt af hanns sialfs Upprisu allra kunnugast orded. Adrer Guds Menn hafa fyrer hañs Krapt uppvaked hina daudu, enn engenn hefur sialfann sig af Daudum vaked, nema hann eirn. Þetta vottar hañ sialfur: Þvi sagde hañ vid Gydinga: Briooted þier þetta Mustere, enn eg skal þad a þrem Døgum upp aptur byggia, enn hañ talade um̃ Mustere sijns Lijkama, segier Joh. Cap. 2. Og um̃ Saalena segier hañ: Þar fyrer elskar Fadereñ mig, ad eg læt mijna Saal fra mier so eg hana aptur take, engeñ tekur hana fra mier, enn eg legg hana fra mier sialfur; Eg hefe Valld til ad leggia hana fra mier, og Valld til hana aptur ad taka: Og þessara Ordsaka vegna hafa heilager Guds Meñ i Ritninguñe ynduglega kallad hañ GUD, þvi Gud er alleina sa ed Dasemdarverkeñ giører, Ps. 72. Eg hefe allareidu nockur Vitne þar til leidt af hinu Gamla Testamentenu, og mætte þo enn fleyre telia. Enn Læresveinar hañs og Postular, sem voru uppfrædder af hønum, sau hann og skodudu, 1. Joh. 1. atu og drucku med hønum, uppa hverra Lærdoom hañs Kyrkia bygd er, þeir ed hañs Vitnesburd hafa med sijnu eigenn Bloode underskrifad, og lated Lijfed fyrer þennañ Sañleika, þeir lwka aller einum Muñe upp um̃ þetta. Hañs Vitne hafed þier heyrt, er JEsus elskade, sem var Johañes, er Gudspialled ritad hefur. Enn hann talar enn þa framar, 1. Pist. 5. segiande: Vier vitum ad Guds Sonur er komenn, og ad hañ hefur giefed oss Hiarta til ad þeckia hinn sannarlega, og ad vier sieum i hinum sannarlega, þad er i Guds Syne, hann er sannur Gud og þad eilijfa Lijf. Rom. 1. giefur St. Paall Gude, allra Hluta Skapara, þañ Titel, ad hann sie blessadur um̃ allar Allder: Enn i sama Pistle Cap. 9. segier hann um̃ JEsum Christ; af hvorium (hann meinar Fedurnar) ad Christur er epter Holldenu, hvor ad er Gud yfer øllum Hlutum, blessadur ad eilijfu. Amen. Judas Postule DRottens, hann endar sinn Pistil med þessum Ordum: Gude alleina vijsum, Frelsara vorum, sie Dijrd og Makt, Kraptur og Vellde, bæde nu og um̃ allar Allder. Þeim sømu Ordum, sem Guds Eingieteñ Sonur hefur skipad oss syndugum Møñum ad kvedia Gud vorn Fødur i Drotteñlegre Bæn, Matth. 6. Med þeim sømu avarpar hañ hier vorn Frelsara, hvad hann munde ecke giort hafa, nema hann villde hafa hønum Gudlegañ Heidur veittann. DRottenn Gud þiñ skalltu tilbidia og hønum einum þioona, segier Moyses, Devt. 6. og 10. Og med þessum sømu Ordum rak JEsus Diøfuleñ burt fra sier, er hañ freistade hañs, og sagdest munde giefa hønum øll Rijke Veralldar, ef hañ fielle fram̃ og tilbæde sig, Matth. 4. Hvar af audsært er, ad einsømlum Gude, enn engvum ødrum, tilheyrer soddañ Lotning. Enn hvad segier St. Paall um̃ JEsum? Hañ segier ad i hañs Nafne skule øll Knie sig beigia, bæde a Himnum og Jørduñe, og under Jørduñe, Phil. 2. Og so Meñ vite ad hier er engeñ undanteken̄, þa segier Postuleñ, Hebr. 1. i Davids Orda Stad, ad aller Englar Guds

skule hañ tilbidia. Eñ ef þad skulu Englarner giora, hvorier ed sia ydugleg a Guds Fodurs Auglit a Himnum, Matth. 18. Þvi munu þa ecke skylldar til þess hinar Ødre Skiepnur? Þegar Johañes villde hafa tilbeded Engelenn, þann er talade vid hann, Openb. B. 19. Þa varnade hañ honum þess, og sagde: Sia til, ad ei giorer þu þetta, tilbid þu Gud. Enn er hañ fiell til Foota Guds Syne, þa aptrade hañ honum ecke, helldur lagde siina hægre Hond yfer hañ, segiande: Ottast ecke, eg em hinn Fyrste og Siidarste, Openb. B. 1. og hvad opt var Drotteñ vor tilbedeñ, jafnvel i siñe Anaud hier a Jordunne? Hin Canaaniska, Matth. 15. Maria Syster Lazari, Joh. 11. Hundrads Hofdingenn, Matth. 8. og adrer miklu fleire tilbædu hann; og hañ audsiinde þar med ad honum Guddoomlegur Heidur tilheyrde, ad hañ vard vid øllum þessum jafnskioott og þeir beiddu. Ræningenn, sem med honum Krossfestur var, tilbad hann Daudvona, sialfann komeñ ad Dauda, Luc. 23. þa synde Jesus fyrer Alvøru ad hann Gud var, þvi hvorsu mætte hañ einum Stoorbrota Mañe Himnariiked giefa, nema hañ sialfur ætte þess Valld a Himnum. St. Stephanus, Frumburdur hañs Piisslarvotta, hañ tilbad hañ midt i Andarslitrunum, og var hañ þa fullur af H. Anda, sem Lucas vottar, P. G. 7. Heyrt hafde hañ med hvilijku Kalle ad JEsus lietst a Krossenum, er hañ sagde: Fader i þijnar Hendur fel eg miñ Anda, Luc. 23. Enn hann giorde þess eingann Mun og hinns er hañ sagde: HErra JEsu medtaktu miñ Anda. Hvar fyrer? þvi hañ visse ad Fader og Sonur voru eitt, og Sonureñ Fodurnum ad allre Tign, Diird og Mætte samjafn epter Guddoomenum. Heidingiar, þeir ed af Gude eckert vissu, og voru an hañs i Heimenum, Eph. 2. þeir skopudu sier adskiliañlegar Meiningar uñ God siin, er þa hofdu þo ecke skapad, og meintu ad eirn være odrum undergiefeñ; eñ þvilijkt er eckert uñ JEsum ad þeinkia. So Eilijfur, so Almattugur, so Alvitur sem Faderenn er, so er og Sonureñ, so sem hinn heilage Athanasius Lærefader hefur oss þad kiendt i siñe Trwarjatningu. Jehova vor Gud, Jehova hann er eirn, segier Moyses, Devt. 4. Eñ ef ecke er nema eirn Gud i Veruñe, og þad er adur vottad ad JEsus sie Gud, hvernig ma hañ þa honum miñe vera? Og þvi segier Postuleñ, Hebr. 1. Ad hann sie wtþrickeleg Mynd hañs Persoonu. Eg er Jehova, þad er mitt Nafn, og mijna Diird vil eg eingum giefa, segier DRottenn, Esa. 42. Være nu ecke Guds Sonur Fodurnum ad ollu jafn, og være þetta Nafn ecke Guddoomlegrar Veru, i hvoriu ad eru þriar adgreindar Persoonur, þvi munde Gud þa sialfur Giædskuñar Bruñur, hafa opeñberad siina Diird med þessu Nafne þeim, sem oll Sealareñar Velferd a þvi rijdur ad vita a hvorn þeir eiga ad trwa, og hallda engañ honum jafnañ? Enn hann hefur skipad oss ad trwa a Soneñ. Hvi munde hañ segia vid Moysen? Exod. 3. Eg mun vera sa eg vera mun, og þad skalltu segia Sonum Israels: Sa ed vera mun, sende mig til ydar: þvi mundi hann segia fyrer Muñ Esajæ? Eg er Jehova, og fyrer utann mig, er eingeñ Gud, Cap. 45. Munde nockud Guds Eingieteñ Sonur, sa ed er i Fodursins Skaute, vanheidra siñ Fodur þar med, ad giora sialfañ sig honum jafnañ, nema hañ visse þad

være so? Þvi segier hann þa, Op. B. 1. Eg em Alpha og Omega, Upphaf og Ender, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, hiñ Almaattuge; Þvi mundi hañ segia vid Philippum, er hañ beiddest epter ad meiga sia Fodureñ? Philippe, sa sem sier mig, hañ sier Fodureñ, trwir þu ecki ad eg em i Fodurnum, og Faderiñ i mier? Joh. 14. Þvi munde sialfur Fadiriñ kalla hañ siinu Nafne? Edur mun hañ siina Diird odrum giefa? Þvi seger hann þa, Jer. 23. Eg vil uppvekia David eitt Riettlaatt Sæde, sa ed mun rijkia sem Konungur, og þad skal honum vel-luckast, og hañ skal fremia Løg og Riettinde a Jordu, a hanns Døgum mun Juda hoolpinn verda, og Jsrael Ugglaus bwa: Þad mun vera Nafn hañs er hañ mun nefna hann med, Jehova vort Riettlæte; Þvi mun hañ aptur itreka þetta i 33. Cap. segiande; A þeim Døgum mun Juda hoolpeñ verda, og Jsrael tryggilega bwa, og sa ed kallar, hañ mun vera Jehova vort Riettlæti? Mun ei þetta vera hañ, sem oss er af Gudi giørdur til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar? 1. Cor. 1. Hvar fyrer mun Gud Allsheriar enn framar segia uñ sinn Son, Hos. 1. Enn eg skal myskuna Hwsinu Juda, og frelsa þa fyrer Jehova þeirra Gud, og ei vil eg frelsa þa med Boga edur Sverde edur Strijdi, Hestum edur Riddara Lide. Menn þreifa a þvi, ad þetta er i JEsu af Nazareth fullkomnad og framkomed. Hann var alinn i Faatækt, Luc. 2. Hann uppolst i Armood, hañ hafdi ei, þar hann mætti Hofdi siinu ad halla, Matth. 8. Hañs Rijke var ecke af þessum Heimi. Ecki strijddu hañs Þienarar fyrer hann, Joh. 18. Hann skipadi Petri ad slijdra Sverdid, Matth. 26. J siinu mesta Yferlæte reid hann einni Øsnu inn til Jerusalem, Matth. 21. hvadann hann var eins og Oboota-Madur til Gaalgans wtleiddur, og hañs bestu Viner og Villdar-Menn eru deydder hañs vegna allann Dageñ. Eñ þo er i øllu þessu Volædi, Rijki Guds Sonar i hañs Barna Hiørtum stærra orded, eñ nockurt Konungs Rijki hefur uñ Æfi verid. So eg maa þad satt iaata, er Severus Sulpitius segier, (Lib. 2. Historiæ Sacræ) uñ Draap Guds Barna under Diocletiano Keysara. Vier høfum alldrei fraegari Sigur unnid, eñ þa vier ecke urdum med Tiju Ara Offsooknum sigrader. Mundi nu øllu þessu vera spaad uñ JEsum, edur hañ nefndur þvi Nafni, sem Gudi einum er eigiñlegt, og eingum ødrum maa aan Syndar til-leggiast, nema hann være eirnrar Veru med Gudi Fodur, og honum samiafn ad øllu? Zacharias, ecki af sialfum sier, ecki af eigiñ Hugbodi siinu, helldur fullur af heiløgum Anda, segier uñ Johañem, Luc. 1. Og þu Sveinn munt nefnast Spaamadur hiñs Hæsta, eñ þad er kuñugt ad Johañes var Fyrerreñare JEsu, og Engill undañ hañs Auglite sendur, Mal. 3. Eñ ef hañ er hiñ allra Hæste, hverninn maa þa nockur honum hærri vera? Ef hañ segier sialfur: Eg em hiñ Fyrste og Siidarste, Op. B. 1. Hver kañ honum þa fyrre ad vera? Og hvad hallded hefur vered uñ Messiam a Hiervistar Døgum DRottins, þad kieñer Johañes Cap. 5. segiande: Þess meir sooktu þeir epter ad deyda hañ, ad hañ ecki einasta braut Hviildar Dagiñ, helldur sagde Gud ad vera siñ eigiñ Fodur, giørande sig iafnañ Gudi; Hvad hañ med þessum Ordum giørde:

Miñ

Miñ Fader erfidar, allt hijngad til, og eg erfida: Sem villdi hañ sagt hafa: Miñ Fader er ei bundiñ vid Sabbatz Dagiñ, ad hañ ei stioorni øllum Hlutum bædi á Himni og Jordu, epter Villd siñi, so lækna eg þá Siwku, epter þvi Valldi sem eg hefi: Og má þvi ecki á mooti segia, ad þesser ránglaatu Meñ toludu riett i þessu. Paulus er skoreñordur um þetta Efne, þegar hañ eggiar Christna Meñ á Hoogværd og Lijtilæti, segiande: Vered eins lynder og JEsus Christus var, hver þoott hañ Guds Mind være, hiellt hañ þad ecki fyrer Herfaang Gudi jafn ad vera. Og hefi eg so med nockrum Rokum vitnad fyrer ydur, ad JEsus er Gud eilijfur, Almáttugur, alls Heidurs verdugur, og Fodurnum ad øllu jafn epter Guddoominum; ecki þess vegna, Brædur mijner, ad eg þurfe nockrum i þessum Safnade ad telia Trw hier um, þvi þad játa aller med Hiarta og Muñi, helldur ad eg i stuttu Máli audsyne wt af þessu H. Evangelio, hvilijkur hañ sie, er vort auma Holld og Blood hefur uppá sig tekid, hvar um Johañes framar talar med þessum Ordum: Og ORDed Vard Holld Og Bygde Med Oss. Hvor Ord ecki eiga þañ Veg ad skiliast, so sem ad Guddoomuriñ sie i Mañdoom umbreittur. Hiá Fodur Lioosaña er eingiñ Umbreiting edur Mynd til Umbreitingar: segier Jacob Postule, Cap. 1. Eñ þar hann nefnir Fodur Lioosaña, þa meinar hañ Gud: Eñ þad er ádur vottad, ad JEsus Christus sie sañur Gud, þar fyrer er þvi laangt fiærri, ad hañ kuñi hiñi miñstu Umbreitingu underorpiñ ad verda, og þoott ei væri añad til Vitnis hier um, þa eru Johañis eigiñ Ord, er hier standa skomu sijdar i Evangelio: Vier Saaum Hañs Dijrd, Dijrd so sem Eingietins Sonar Af Fodurnum. Eñ nær saau þeir hava? Ad soñu i Kienninguñi, i Kraptaverkunum, i Skijrninni, enn ecki sijdst, þa hann forklaaradist á Fiallinu, Matth. 17. og var þad hinn sami er þeir høfdu eted og drucked med, Joh. 1. So er þa ecki Guddoomurinn umbreittur i Manndoom, helldur hefur Guds Sonur Manndoomlega Naatturu uppá sig tekid, so sem Paulus til Hebræos Cap. 2. ad Ordi kiemst: Ad hann hafi ecki Englana, helldur Abrahams Sædi á sig teked: teiknande þar med, ad hañ hafe Mañdoomeñ teked i Samsielag og Einingu siñar Guddoomlegu Persoonu; Og i þessum Ordum: ORDed Vard Holld: Er veniulegur Ordsh attur Ritningariñar: So segier i Gen. 2. C. Adam vard ad lifande Saalu, þegar Gud blies lifandi Anda i Mañsins Naser, ecki þad ad Lijkamiñ umbreittest i Saal, helldur teiknast med þessu Orda Tiltæke, hin allra naakvæmasta Eining á millum Saalar og Lijkama, hvor miog so er þessari lijk, þvi so sem Saal og Lijkami verda ad eirni Persoonu, so urdu og Tvær Naatturur i Christo, eirn Gud og Madur, þegar hann Holld og Blood uppá sig took; Þetta vitnar allvijda H. Ritning, bædi i Spaadoomunum i gamla Testamentinu, sem og i Medkieñingu þeirra er saau og skodudu hañ, og hverra Hendur á honum þreifudu, 1. Joh. 1. og saau þo hañs Dijrd, so sem Eingietins Sonar af Fodurnum. Hinn fyrste Vottur i gamla Testamentinu er siálfur Gud, er hañ sagde, ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Høfud, Gen. 3. Hvilijkt ad sie þetta Kviñuñar Sæde, þad vitnar Esajas, Cap. 5. med þessum

Ordum;

Ordum: Eitt Barn er oss fædt, og eiñ Sonur er oss giefiñ, hvers Hofdingia Doomur er a hañs Herdum, og hañs Nafn er Undrunarlegur, Raad, Hetia, Kraptur, eilijfur Fader og Fridar Hofdinge. Siaaed hier, Brædur mijner! Hañ sem fæddur er, hañ sem Spaamadurinn Barn kallar, hañ nefner hañ under eins Fodur Eilijfdariñar, af hveriu lioost er, ad hañ er bædi Gud og Madur. Og ad þetta sie meint uṁ JEsum af Nazareth, og ecki añad Barn, vottar Esajas, Cap. 7. Siaa þu, ad ein Jomfrw mun Oliett verda, og mun Son fæda, og hañ mun hun kalla Immanuel, þad er, Gud med oss. Þetta segier Lucas, Cap. 1. framkomed ad vera. Morg oñur Vitni mætti hier til leida ef þad Tijmiñ leifdi, eñ i hinu Nija Testamentinu eru ecki færri. Hiñ sterkaste Vottur er Thomas Postule, hver ed ecki villdi trwa fyrr enn hañ took a, eñ þegar hann liet sijna Fijngur i Naglaforenn, og sijna Hond i hañs Sijdu, þa æpte hañ upp af Fagnade, og sagde: O Drottenn miñ og Gud minn, Joh. 20. St. Paall, sem var i Þridia Himen uppnumeñ, og heyrde þar Ouṁrædileg Ord, 2. Cor. 12. Hañ kallar hañ hinn mikla Gud, og Frelsara JEsum Christum, Tit. 2. og hiñ sami segier: Ad hañ sie giordur af Sæde Davids epter Holldinu, Rom. 1. Mañsins Sonur, sem talade vid Nicodemum, segiest vera a Himne, Joh. 3. Og aptur segier hañ vid Gydinga, Joh. 8. Þier leitest vid ad deyda mig, eiñ Mañ sem segie ydur Sañleikañ: Og sialfur segier hann, þegar hañ hafde sialfur aptur teked Saalu sijna; Ande hefur ei Holld nie Bein, so sem þier siaaed mig hafa, Luc. 24. Vier vitum ad ecki fædist af Manne nema Madur, eñ Lucas segier, ad Maria hafe fædt sinn Eingietinn Son, hvar fyrer ad Postuleñ til Hebræos skrifar, ad hann sie Hluttakare Hollds og Bloods eins og Smaa-Bornenn, Heb. 2. Paall segier enn aptur, Col. 2. Ad i honum bwe oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, þad er, Reyndar, fullkomlega og sannarlega.

J Foornum Gamla Testamentisins bioo Gud, so sem i Skugga epterkomande Giæda, Hebr. 10. J Christo hofum vier sialfann Lijkamann, Col. 2. og hann bijr i honum eins og Saal Mañsins bijr i hañs Lijkama. Kraptur Guds bioo i hañs Spaamoñum, og odrum Heilogum, eñ ecki vard hañ ein Persoona med þeim, hvad lioost er þar af, ad Guds Ande veik fraa þeim a Stundum, eñ Guddoomurinn Christi hefur alldrei Mañdoomeñ vidskilia orded, fraa þvi fyrsta Augnablike Gietnadarins, og mun helldur alldrei verda uṁ alla Eilijfd. Þvi Engilleñ, er hañ bodade Moodur hañs Gietnadiñ, Luc. 1. segier, ad hañ muni drottna yfer Hwse Jacobs ad Eilijfu; Þad er, ad hann skule alldrei hañs Konungs Tign afleggia, hvor honum þo ecki er odruvijse meddeild, enn fyrer Ibwd Guddoomsins. Jaa, þoott hiñ griṁe Daude sundurslite Saal og Lijkama i Pijnunni, þa mætti hann þo ecki leysa þad Band Einingariñar, sem var mille Guddooms og Mañdooms, þvi hversu mætti hann af sialfum sier, og af eiginn Kroptum uppriijsa ella? Eige veit eg hvert nockurt Vitne er sterkara edur lioosara uṁ Guddoom og Manndoom Christi i eirni Persoonu, helldur eñ St. Paals, 1. Tim. 3. er hann segier: Þad er mikill Leyndardoomur Gudhrædslunnar (þad er, Christiñdoomsins,

sins) ad Gud er Opinnberadur i Holldinu, Riettlættur i Andanum, er siedur af Englunum, er Predikadur Heidingiunum, er trwad i Heiminum, er uppnuminn i Dijrdenne. Hvad er þetta, Br. M. ad Gud sie Riettlættur i Andanum? Kann nockur ad riettlæta þann Riettlaata i Israel? Enn þess er ad giæta, ad þetta Ord, þad er ad vidurkienna Sannañ og Riettlaatann ad vera. So skrifar Luc. 7. Ad allt Foolked og Tollheimtumennerner hafe riettlætt Gud, þad er, prijsad hann og medkient sañañ Gud ad vera: J Andanum, segier Postulenn, þad er, epter Guddoominum; so segier Petur, 1. Pist. Cap. 3. um̃ Christ, ad hañ sie deyddur epter Holldinu, enn lijfgadur, þad er, Lifande, epter Andanum, þad er Guddoominum; Og med sama Hætte segier Paulus, Rom. 1. ad hann sie auglijstur Guds Sonur i Mætti, epter Anda Heilagleikans; So er þa Meiningenñ, ad i Christi Holldi hafi Guddoomurinn so auglijst sig, ad Menn hafe jaatad og þeckt, ad Gud hafi i hønum bwid: Er siedur af Englunnm; hvert helldur þad eru Postular DRottins, sem opt verda Englar kallader, Mal. 2. Op. B. 1. edur og Guds Englar, sem gyrnast ad skignast inn i þennann Leyndardoom, 1. Pet. 1. Þa eru hverutveggiu þesser fullnooger til Sanninda: Er predikadur Heidingium, er trwad i Heiminum; Þesse Ord sijna oss, hvad hiner Fyrstu Christner Menn hafe hier um̃ hallded, og hvorninn DRottins eigiñ Postular hafa Christum predikad: Uppnumiun i Dijrdiñi; Hañ sem þeir vissu doo aa Krossinum, af Daudum upprisenn, hann sem aat og drack med þeim, aa hverium þeirra Hendur þreifudu, 1. Joh. 1. Hann saau þeir til Himins faranda, med Guddoomlegre Dijrd; Og Skijed took hann i burt fraa þeirra Augum, Post. G 1. O! hvilijk Dypt Audæfanna og Guds Vitsku! Hier maa allur Engla og Mañа Skilningur i hina mestu Undran falla. Þetta er saa Leindardoomuriñ, sem huliñ er fyrer Vitringum, eñ nu er opiñberadur Smælingium, Matth. 11. Hver vill wtsegia hañs Gietnad? Esa. 53. Hann er fæddur af Fødurnum fyrer allar Allder; Hver vill þad wtsegia? Hann er gietinn af heiløgum Anda i Tijmanum. Hver vill þad wtsegia? Hann er fæddur af Meyu eirni: Hver vill þad wtsegia? Oss fallast Hendur af Forundran, þegar vier heyrum ad Moysis Stafur verdur ad Høggormi, Exod. 7. Þegar Arons Vøndur bloomgast, Num. 17. Þegar Soolenn stendur kyrr, Jos. 10. Þegar hun geingur um̃ nockur Strik til Baka aptur, 2. K. B. 20. Þa Biorgeñ klofna i sundur, Matth. 27. Þa Vatned skiptest i Tvo Hlute, og stendur eins og Mwr-Veggur, Jos. 3. Þegar Elldúriñ breñir ecki og giorir eingañ Skada þvi sem i hañ er kastad, Dan. 3. Og er þad þo Ender allrar vorrar Undrunar, ad vier segium þad sie ecki undarlegt, þoott hañ, sem Naatturuna skapad hefur, giete um̃breitt Naatturuñar Haattum. Enn hvad skulum vier um̃ þad segia, ad Gud Naatturuñar Madur verdur? Og hann, sem var fyrer allar Allder, hlijder Tijmans Løgmaale? Ad Skaparinn fædist af Skiepnunni? Og hañ, sem Himin og Jørd taka ecki, verdur i Moodur Lijfe inneluktur? Þesse Gietnadur, þesse Fæding, eru so furdañlig, ad þegar Kraptur hins Hæsta yferskygger riett-trwada Saalu, þa gietur hann slijka Hluti vid

heñi,

heñe, ad Muñureñ fær þeim ecke wtklaked, og lætur sier ecke nægia þar med, ad allt Tilefni þessa Stoorundrunarlega Furdu-Verks, er iñefaled i hanns Almætte, hañs Giædsku, hanns Vitsku og Omælañlegre Myskunseme, er þad giort hefur. Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, um Allder Allda, AMEN.

# Annann Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 23. Cap.

I Þañ Tijma sagde JEsus til Gydinga Foolkſins og Høfdingia Kieñemañaña: Siaid! Eg sendi til ydar Spameñ, Spekinga og skriftlærda, og nockra af þeim munud þier Aflijfa og Krossfesta, og suma munud þier Hwdstrijkia i Samkundu Hwsum ydar, og af añare Borg i adra munud þier þa ofsækia, so ad yfir ydur kome allt riettlatt Blood, sem a Jordena wthellt er, i fra Bloodi Abels Riettlata, allt til Bloods Sachariæ, Sonar Barachiæ, hvørn þier dræpud a millum Musteris og Altaris. Sañlega seige eg ydur: Ad allt þetta mun koma yfer þessa Kynslood. Jerusalem, Jerusalem, þu sem aflijfar Spameñina, og grijter þa, er til þijn eru sender! hvørsu oft hefi eg viliad samañsafna Sonum þijnum, lijka sem Hænañ samañsafnar Ungum sijnum under Vænge sier? Og þier hafed ecke viliad. Siaed! Ydar Hws skal ydur i Eyde lated verda. Þviad eg segie ydur: Ad þier munud eige sia mig upp fra þessu, þangad til þier seigid; Blessadur sie sa, sem kiemur i Nafne DROTTINS!

## Exordium.

Hegar Meñ athuga a eina Sijdu Guds Owtseigiañlegañ Heilagleik, hañs Riettlæte og hanns Almætte: Og so añars Vegar, ad Heimureñ er nidursocktur i hid Vonda, 1. Joh. 5. hvar ed sialf Giædskañ lijted añad sier, helldur eñ þad sem heñe er Gagnstædelegast, sem er Illskañ og Ogudlegar Athafnir syndudra Mañа; þa meigum vier med Blygdun vors Andlitis medkiena þad satt ad vera, sem Moyses segier, Num. 14. DRotteñ er þolennmoodur og miøg myskunsamur, fyrergiefande Synder og Misgiorder. Nu þoott ad øll Verollden ætte i einu Hlioode ad prijsa þessa Guds Giædsku, þa mætte þo sijnast, ad hañ hefde hvad mest auglijst hana sijnu Foolke a Gamla Testamentesins Døgum, þvi um þa ma jata þad satt ad vera, sem David segier: Ad Gud hafe ecke so giort øllu Foolke, Ps. 147. Enn hvøriu launade sw þverbrotna Kynslood sijnum Gude? Hann klagar sialfur yfer þeim fyrer Moyse,

Num. 14. Ad þeir hafe Tijusiñum møglad æ moote sier i Eydemørkuñe. Hann sette Miñing sijns Nafns æ medal þeirra, Exod. 20. Þar var hañs Elld-Stoo og hañs Bwstadur, Esa. 31. Enn þeir tooku vid Tialldbwd Molochs, og vid Stiornu Guds þeirra Remphan, P. G. 7. Þeir umvelltu hañs Skickan, og yfergæfu Guds Bodord fyrer Maña Setninga, Matth. 15. Enn aflijfudu hañs Spaameñ, sem til þeirra voru sender. Allra sijdarst sende hann þeim Soneñ, og sagde, so sem JEsus kieñer i Efterlijkinguñe, Matth. 21. Þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum; eñ þad villde ecke so tilgaanga; Þeir søgdu: Þesse er Erfingeñ, laatum oss raada hann af Døgum; Jaa, vier vilium ecke laata þennañ drottna yfir oss. So hafa þeir og sialfañ Guds Eingieteñ Son æ Kroßeñ uppheingt, hanns Þienara og Postula af Lijfe teked; Forsmaad þeirra Kieñingar, og eckert Ogiort laated, þad Gude kuñe til Stygdar ad verda; Hvar um JEsus þeim brixlar hier i Evangelio, og under eins fyrersegier, hvad stoorkostleg Hefnd ad fylgia mune æ efter so laangvaranlega Forsmaan Guds og hanns Heiløgu Orda, þegar þeir høfdu uppaused Bruñ Myskunareñar og uppfyllt Mælingu Syndanna: Þvi DRotteñ er eirn Hegnare, eirn vandlætande Gud, Jaa, eirn Hegnare er DRotteñ æ sijnum Mootstødu Moñum, og saa ed ei mun gleyma þvi æ sijnum Ovinum, segier Nahum Spaamadur. So er nu øll sw Olucka komeñ yfir þessa vesælu Þiood, sem Gud og hanns Spaameñ hafa fyrersagt, af þvi ad þeir ecke þecktu siñ Vitiunar Tijma, Luc. 19. Og þeirra Hws er þeim i Eyde laated (so sem DRotteñ spaaer hier i Gudspiallenu); Eñ þeir wtrekner um alla Verølld, hafa hvørge blijfanlegañ Samastad, nema þad, er þeir þyggia verda af þeim, er þeir sijst villdu. Nu høfum vier sied þeirra Ofarer, Brædur mijner: Eñ giætum ad þvi, ad hvad sem skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Ei sijdur þetta Heilaga Gudspiall, enn hvort annad; So ad vier wt af Gydinganna hrædelegu Dæme laatum oss umhugad vera ad leita DRotteñs medann hann er nalægur, Es. 55. ad ei føllum vier i nockurt syndsamlegt Andvaraleyse; Þvi ef Gud þyrmde ecke hinum natturlegu Kvistunum, þaa er Uggvænt ad hann oss ei þyrme, Rom. 11. Eg hefe i Guds Nafne æsett, i þetta sinn, ad tala um þaa Hlute wt af Gudspiallenu, sem oss kunna ad hvetia til ad rækia Guds Heilaga Ord, og laga vorn Lifnad þar epter, so ei kome yfir oss þær straungu Hootaner, sem rætst hafa allt of-miøg æ hanns Foolke Gydingum.

O DRotteñ hialpa hier til i Nafne JEsu Christi, þijns Eingietens Sonar, og gief þijnum Børnum Naad Heilags Anda þar til, Amen, i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þad er vidteked hiaa øllum Gudhræddum Moñum, ad Meñ hallda þad fyrer stoora Synd, ad fara illa med Guds Gaafur, sem hañ hefur giefed oss til Notkunar og Lijfs Upphelldes, og sa er ei þeirra verdugur, sem ecke hyrder þær og medtekur med stærsta Þacklæte og Lofgiørd vid Skaparañ; Eñ Ord DRotteñs er engeñ almeñeleg Guds Giøf; þad kostade hiñ eilijfa Vijsdoom ecke nema faa Ord ad skapa Himen og

Jord af engu Efne, Gen. 1. Af hvorium hañ allt til þessarar nælægrar Stundar giefs-
ur allre Skiepnu sitt Foodur. Eñ i Synda-Fallenu giørdest Vanmæattureñ so mætt-
ugur, ad hiñ Goode Gud vard ad taka til Almættes siins so þad Endurskapad yrde, sem
Syndenn og Diøfulleñ høfdu vanskapad, og þad kostade hann so mikid, ad opeñbera
oss siñ Vilia og Veg Sæluhiælpareñar, ad þad eilijfa ORD Fødursins, Joh. 1. hiñ
Eingietne Sonur Guds, sem er i hañs Skaute, hlaut Þioons Mynd aa sig ad taka og gi-
erast oss ad øllu lijkur, Phil. 2. ad Syndeñe fratekeñe, jaa, ad þola hier i Eymdum vo-
rs Hollds allskonar Volæde og Vesælld. Hvad virdest ydur þa? Børn DROttens!
Hvilijk Skom er þad einum Synda Þræl, ad troda under Fætur sier hina dijrmætu
Perlu, Matth. 13. sem DROtteñ Dijrdareñar hefur kostad so mikid uppaa, ecke siælf-
um sier til nockurra Nota, helldur hønum til Lækningar, til Myskunar og Syndalausnar
sem var hañs Ovinur og Barn Reideñar? Rom. 5. Eg vil ecke faa mier til Orda, uñ
Postula DROtteñs JEsu, hvorier ed uppfyllt hafa Leifar Christi Harmkvæla aa sijnu
Hollde, fyrer hañs Lijkama, sem er Søfnudurenn, so sem Paall uñ sig ritar, Col. 1.
Ecke i þeirre Meiningu, ad hid allra miñsta vante aa Christi Pijsler, til ad frida fyrer
syndugt Mañkyn hiaa Gude, so ad þeir edur nockur añar þyrfte ad bæta hañs Forþien-
ustu upp, helldur hiñs vegna, ad Guds Sonur hefur ecke einasta lided oss til Forlijkun-
ar, helldur og til Epterdæmes, so sem Postuleñ til Hebreos, C. 12. vottar. Þa hafa þess-
er Guds Menn, ad Dæme siins Herra, lided allskonar Hørmungar, og ad siidurstu
Daudañ, til ad byrta Guds Søfnud (hvørn Paulus hier nefner Christi Lijkama) hañs
Evangelium, og ad siina þeim bæde med Orde og Efterdæme hina riettu Leid til Himna-
rijkes. Nu fyrst hin eilijfa Myskunseme hefur audsynt oss so stoora Giædsku, oss, sem bw-
um aa Torfu þessare, so ad segia wtlæger fraa allre Verølldu, ad vier og meigum reik-
nast aa medal hanns Safnada; þa verum ecke so Opacklaater edur Ræmulauser, ad vier
forsmaaum þennañ dijra Doom, sem Guds Astviner hafa vared bæde Fie og Fiøre til
ad wtbreida uñ Verølldena, so ad þesse Jesu Christi Sendefør hefur og naad til vor, hvo-
oria þeir ecke þecktu, edur vissu, hvort vier mundum nockurn Tijma Manneskiur verda,
edur ei, helldur giørdu þeir þad alleina wt af Hlijdne og Elsku vid siñ HErra, og heitum
Kiærleika vid alla þaa, sem aa hañs Nafn trwa mundu; þvi søkum þess, ad þeir høfdu
Vitnesburd H. Anda i Hiarta siinu uñ þad, ad þeir væru Guds Børn, og elskudu hañ,
og þecktu ad Mootlæte þessara Tijma var ei verdt þeirrar Dijrdar, sem Gud hefur siin-
um tilbwed i eilijfu Lijfe, Rom. 8. þa villdu þeir kosta Liife og Velferd til þess, ad sem fle-
ster kiñu heñar niootande verda. Epterdæme hiñs H. Stephani, hvørs signadre Minn-
ing ad þesse blessade Dagur helgadur er, þad heyrdum vier af Pistlenum, sem nijlega var
sungeñ fyrer Altarenu. O HErra Gud! hvilijk var hanns Roggseme, hanns Vandlæ-
te, hañs Þoleñmæde, þar ed hañ, ad Dæme siins Frelsara, Luc. 23. beidde fyrer þeim
sem hañ villde hafa aa Guds Veg snued; þegar hann stood fyrer Daudans Dyrum, va-
rd hønum þad fyrst ad Vege, ad bidia Ovinum siinum Myskunar, og siidann ad fela

siñ Anda siinum Frelsara i Hendur: So kiæra hafde þesse Guds Astvinur, bæde siina og þeirra Velferd. Þad er og kunnugt af St. Pæls Pistle til Romveria Cap. 9. ad hann segier: Eg æskte sialfur ad vera wtrekenn fra JEsu Christo fyrer Brædur mijna epter Holldenu; og ad Postulenn hafe ecke talad þetta fyrer Sidgsaker, helldur af fullre Alvoru, og (ef eg mæ segia) af nockurskonar Elskunnar Ofbode, lijku þvi sem Christo þrijste til þess ad læta heingia sig fyrer Syndarann, þad votta þau Ord er hañ skrifar strax ædur æ þennañ Hætt: Eg segie Sañleika i Christo og lijg ecke, ad samvitnande mier Samvitsku miñe fyrer H. Anda; Af hvoriu audsært er, hvad lijtels hañ meted hefur siina Velferd hiæ annarra, uppæ þad hañ fenge Vitnisburdenn JEsu Christi wtbreidt, þeim til Syndalausnar og Sæluhiælpar, er hann bundu, ofsooktu og hroktu fræ eirnre Borg i adra, fræ einum Ræanglætum Doomara til annars: Og mætte hier uppæ mørg oñur Dæme fiña, ef þad Tijmeñ leifde. Enn þu, sem ætlar þier med þessum Guds Englum somu Vist ad hafa i eilijfre Himnarijkes Dijrd, giæt ad sialfum þier, ad þu ecke ad litlu hafer þann dijrmæta Hlut, er þeir hafa so mikels meted. Og þegar þu heyrer Johañem Hæalshoggveñ, Matth. 14. Jacob med sama Hætte Lijflæteñ, P. G. 12. Petur Krossfestañ, og allar Guds Hetiur med smæanarlegum Dauda af Døgum teknar, fyrer þetta Sannleiksins Ord, og hina mestu Goodgiørd, sem eingvann Maka hefur; þa ber samann hvad fræleitt ad sie þessu, Toomlæte og Hiæræna sumra Manna, þeir ed lifa æ vorum Døgum, og allar Stunder þykia iñdælle eñ þær, er þeir eiga Guds Eyrende og Verk sinnar Sæluhiælpar ad giøra. So længt er fræ þvi, ad þeir hafe sig epter nockud gott ad nema af þeim, sem til þess eru setter, edur læte sier umhugad vera, ad Born þeirra edur Hiw lære þad er þeim kann til Sid-Boota og Sælar-nota ad gagna, jafnvel þoott þvi sie nærre æ hvorium Helgum Dege yfirlijst, ad æan Guds Heilogu Orda Þeckingar, kann Madurenn sijdur ad lifa andlegu Lijfe, helldur enn lijkamlegu, fyrer utann Fædsluna. Þad vottar JEsus, er hann sannfærde Andskotann fordum Daga med Moysis Ordum, segiande: Madurenn lifer ecke af einsamann Braude, Devt. 8. helldur af sierhvoriu Orde þvi er framgeingur af Guds Munne, Matth. 4. Hvad vill hier af verda, Born mijn? Nema ad sa er andlega daudur, sem ecke hefur Fooſtur Sæalu sinne i Guds Orde, jafnvel þoott hann life fullur og feitur i Lijkamanum. O Jerusalem! Jerusalem, Þu Sem Aflijfar Spæamennena Og Grijter Þæ Sem Til Þijn Eru Sender! Segier JEsus. Ad sonnu giorer þad engenn medal vor; enn hvad giora þeir, ed forakta Spæadoomana og þær Kienningar sem þar wt af eru? Þa vantar eckert nema Tækefæred til ad giora hid sama. JEsus griet yfer Borgenne er hann sæ hana og sagde: Ef þu visser hvad til þijns Fridar heyrde, þa muuder þu æ þessum þijnum Tijma þar Vaktan æ hafa, enn nu er þad huled fyrer þijnum Augum, Luc. 19. Mun hann enn nu ecke i Dag segia hid sama i siinu heilaga Orde, vid alla Hyrdulausa, sem ecke vita ad giøra Grein æ Trw sinne, edur skynia meir hvad Christenndoomur er, eñ blindur Madur kañ um Lite ad dæma? Þetta munu Ofgar þikia: Enn eg mæ spyria: Ef Meñ vita þad almeñelega,

þvi

Þvi haga þeir sier ecki þar epter? Og ef Meñ þad ecki vita, þvi leggia þeir ecki allañ Hug a, ad naa þvi, ann hvers þeir kuña ecki Guds Børn ad heita, ecki Himnarijki erfa, og ecki eilijfar Helvijtis Pijsler ad umflya? Eg vil ei tala um þad, hversu hyrdulauser ad marger eru i þvi, ad laata Børn og Ungdoom læra ad lesa Guds Ord, sem þo er eitt agiætt Medal til ad naa Grundvellinum i hinum saña Christindoomi og so miklum Froodleik i Guds Ordi, sem næger til Saaluhiaalpar; Ecki er ad dyliast vid þad, ad marger Unglingar eru so Tornæmer, ad þeir faa ecki teked allt þad af einum Predikunar-Stool, sem þeir þurfa til Andlegs Uppheldis. Sædid ber ecki Avoxt þoott þvi sie kastad i Jordina, nema þad rotni, 1. Cor. 15. ei helldur Guds Ord i Mannsins Hiarta, nema Menn smellte þad med yduglegre Umþeinkingu: Ad þessu giæta Meñ ecki, og ætla þad sie noog, ef Guds Ord þijtur um Eyruñ i Kyrkiuñi, og jafnvel þoott sumer medtake þad med Fagnade, um Stundarsaker, Luc. 8. þa hefur þad ecki alltijd so mikla Root, ad þad fære Avoxt, nema þad sie nært og vokvad med sijfelldri Astundan.

Gud skipadi Israel, ad þeir skylldu brijna sitt H. Logmaal fyrer Bornum sijnum, þa þeir sætu i sijnu Hwsi, Devt. 6. Eñ ef so þootti miked varda um Logmaalid, sem er nockurskonar deydande Bookstafur, 2. Cor. 3. og eingañ kann af sialfu sier hoolpenn ad giora: Hvad skal eg þa segia um Ord Evangelii, sem er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar øllum þeim sem trwa, Rom. 1. Skyllde þad ecki med allri Astundan kostgiæfa? Edur, segied mier, Brædur mijner, er þad so lijted, ad vier meigum þessarar Guds Gaafu med Fridi og Frelsi nioota, fyrer hveria Guds Eingietinn Sonur hefur Lijf sitt laated, og hañs heilager Pijslarvottar epter hann, til ad stadfesta hañs Vitnisburd hia Mannaña Sonum æfinnlega, inn til þess hann kiemur? So er nu Guds heilagt Ord dijrmætt, so er þad til Saaluhiaalpar naudsynlegt, edur, riettara ad segia, Omissandi. Nu vil eg þess hier gieta, ad þetta tijmañlega Lijf, þad er Eymdum og Andstreymi vafid. Madurinn, af Kvinnuñi fæddur, er fullur Eymda og faarra Lijfsdaga, segier H. Job, C. 14. og jafnvel þeir, sem Heimurenn lætur vel, ad þeir una þo ecki a allann Haatt vel vid Hag sinn; hvar skulum vier faa annad betra Raad vid slijku, enn i Guds heilaga Ordi? Morg eru Maña Mein. Eirn hefur Fullsælu Fiaar, eñ er þo Oheill ad Lijkamans Burdum: Ecki gietur Gotz edur Gardar bætt honum þad, Guds Ord verdur ad hugga hann i hañs Veikleika, so ad þoott Saal og Lijf vanmegnest, þa lære hañ samt af þvi ad vona a DRotteñ, Ps. 73. Maaskie hañ sie og heilbrigdur, eñ a Ofundar-Meñ, þa epter honum sitia, og laata hann ecke i Fride, hverke Noott nie Dag; Eckert stodugt Raad fiñur hañ vid þvi i veralldlegum Munum, edur hiaa siñe Skynseme, þoott hañ sie allvitur, þvi vorer Vitsmuner eru Haalfverk, 1. Cor. 13. Guds Ord skal kienna honum ad varpa allre sinne Ahyggiu uppaa Gud, hañ mun þvi vel til Vegar koma. Kannskie hañ vante og hverke Heilsu, Metord nie Vinsællder, enn þa er honum næsta hætt, ad ecki falli hann i Andvaraleyse, nema hañ læri ad þeckia sig af Guds Ordi. Verda maa hañ gyrnest meira enn hañ a, so sem þad giarnann

fylger

fylger Audlegdinni, þad er verra eñ Vanheilsa Lijkamans, þvi þad er nockurskonar Sinnisveikia: Vid þvi giefur Guds Ord hønum Rood, ad eckert hafi hann iñ i Heiminn bored, mune þvi eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Læri þvi ad vera rijkur af goodum Verkum, og medbijta hinum Naudþurftuga, ef hann vill riettilega Aud sinn brwka. Kannskie og hann sæki Tijmannlegann Munad i Audlegd sinni, og segi med hinum Rijka: Et og dreck Sooala mijn, þu hefur til margra Ara samannsafnad, Luc. 12. Eñ Guds Ord minnir hann oo ad hafa sijna Unadsemd i DRottni, hann mun giefa hønum þad hanns Hiarta gyrnist, Ps. 37. Annar er heill Heilsu sinnar, Enn hefur Skort oo lijkamlegri Atvinnu og Verälldar Munum, hønum segier Guds Ord, ad þegar hañ hafi þad hañ kuñe ad eta og drecka og klædast med, skule hann ecki framar umsorga edur fyrer Morgun-deigenum Umhyggiu bera, Matth. 6. So ad hvern Kost mannlegs Lifnadar sem vier tokum, þa er Guds heilagt Ord Boot vid øllum Meinum, so sem Paulus vottar, ad Gudhrædslañ sie til allra Hluta nytsamleg, 1. Tim. 4. Þetta vil eg nu ecki sagt hafa i þeirri Meiningu, ad þad sie noog ad heyra Guds Ord og læra þad, so ad Menn kunne Greiner Ritningarinnar og adra Fræde utanad, þvi Guds Rijke er ecke foolged i Ordum, helldur i Krapte, 1. Cor. 4. Þad er ecke noog ad hroosa Guds heilogum Pijslarvottum, enn lifa þo ecke epter þeirra Dæmi edur Kienningu, þad geingur nærst þvi ad uppbyggia Leide Spaamannaña, og prijda Grafer Riettlaatra, og segia: Hefdum vier verid oo Dogum Fedra vorra, villdum vier ecki hafa verid þeirra Stallbrædur i Lijflaati Spaamañaña, Matth. 23. Þvi so sem ad Paall segier, Rom. 2. ad ecke Heyrendur Logmaalsins eru Riettlaater, helldur þess Giorendur mune Riettlaater verda; So kallar og Christur þaa Sæla, sem ecki alleina heyra Orded, helldur þa sem vardveita þad, Luc. 11. Eñ ad vardveita Orded, þad er, ad lifa þar epter. Forgiefins vardveita Menn Ordid i Hiartanu, nema þeir laati þad siaa i Lijferninu; Þvi af þeirra Avøxtum skulud þier þeckia þaa, segier HErrann, Matth. 7. Gud lætur rigna hid sama Regn yfer Korn-Akurenn og Þyrnebwskeñ, enn yfer Korned til þess ad þvi verdi samañsafnad i Hlóduna, eñ Þyrnereñ verdur uppbrendur, Matth. 13. Og þo er Doggeñ hin sama; Siaae hver eirn til, hvøria Root hann hefur i Hiarta sijnu, til ad taka oo mooti hinne himnesku Dogg, sem ad er Guds Ord; Giæte sierhver ad, hvad laangt ad þesse Vokve sijgur, og i hvada Jord hann fellur. Doggeñ er good, Orded er gott, allt þaangad til þad kiemur i vondt Hiarta, og verdur þar Ilmur Daudans til Daudans, 2. Cor, 2. og þeim til Fordæmingar sem eingañ Avoxt færa, nema Þyrna og Þystla, sem til einskis annars duga, enn ad wtkastast og i Elldi brennast, Hebr. 6. Enn eg veit ecki hvert hun hefur i gooda Jord fallid, nema Avexterner þad auglijse, Matth. 5. So lijse ydar Lioos fyrer Mønnum, ad þeir siaae ydar Goodverk, og dijrke ydvarn Fodur sem oo Himnum er. Ecki var ad oolasa Gydingum fyrer þad, ad þeir ecki kynnu Ritningarnar. Paulus segier um þaa, ad þeir hafe haft ad sounu Vandlætingu Guds, enn ecki epter Skynsemi, Rom. 10. Þeir voru bædi Skriftlærdir og

Løgvitringar, enn þo kallar JEsus Phariſæos Blinda, Blindra Leidtogara, og ad þeir gleymi þvi ſem meſt er i Løgmaalinu, Doomenum, Trwnni og Myſkunſeminni, Matth. 23. Saducæi þoottuſt og Spekingar vera, og villdu þreyta Spurningar vid Chriſt, enn DRottenn ſagde vid þaa: Þier villeſt og vited ecke Ritningarnar, Matth. 22. Spekingar Gydinga, ſem lifdu aa Chriſti Døgum, voru i þeirri Meiningu, ad þeir alldrei kynnu ad forgaanga edur illa fara, þvi þeir være Abrahams Syner, Joh. 8. Enn Johannes kiendi þeim þad laangtum odruvijs, þegar þeſſer hveruteggiu komu til hanns Skijrnar, þa ſagde hann, Matth. 3. Þier Nødru Kyn, hver hefur kiennt ydur ad umflya tilkomande Reide? Þar fyrer giøred verduga Avøxtu Ydraneñe, og ſegied ecke med ſiaalfum ydur, Vier høfum Abraham fyrer Fødur, þvi maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinum þeſſum. Forfedur þeſſa Lyds hielldu miked uppaa hid fyrra Muſterid, er Salomon Kongur liet byggia, og meintu ad þad alldrei ſkylldi falla, af þvi ad þeir ecki riett ſkilldu Guds Fyrerheit, þvi ſegier DRottenn Gud fyrer Munn Jeremiæ Cap. 7. Setied ecke ydar Trauſt aa falſka Hlute, ſegiande: Muſtere DRottenns, Muſtere DRottenns, helldur vanded Vegu ydar og Giørder ydar, og giøred riett aa mille eins Manns og annars: Þegar þier ſteled, myrded, drijged Hoor, ſveried falſklega og dijrked Baal, ſkylldu þier þa koma og ſtanda fyrir mier i þeſſu Hwſe, ſem kallad er epter mijna Nafne, og ſegied: Vier erum Ohulter; So ad þier giøred allrahanda Svivirdingar? Þeſſa Mæling ſinna Fedra uppfylltu Jſraels Syner aa Chriſti Døgum: Þad er alkuñugt af Joſepho, þeirra eigiñ Sagna-Meiſtara, hverſu kappſamlega þeir hielldu uppaa Muſterid, og ſo leinge þad ſtood, villdu þeir ecki þijdaſt under hid Romverſka Valld. Þar fyrer var þad ein Høfud-Søk hiaa þeim, ad tala hid minnſta i giegn þeſſu Guds Hwſe: Þad ſijner oſs Dæmi Chriſti, Matth. 26. Dæmi Stephani, P. G. 6. Dæmi Pauli, P. G. 21. Hverier allerworu fyrer þetta hardlega aaklagader; Eñ ecki ad ſijdur ſegier JEſus hier i Gudſpiallinu: Ydar Hws ſkal ydur i Eydi laatid verda. Þad er; ad hiñ vollduge Gud villde þar ecke leingur iñi bwa. Þad took til ſneña ad rætaſt, þegar Fortialldeð mille Muſteriſins og hins Allra Helgaſta rifnade i ſundur i Pijnunni Chriſti, Luc. 23. Voru og ecke miøg morg Ar til þeſs, ad Joſephus ſkrifar, ad nockru fyrer Eydeleggingunna hafe Rødd heyrſt i Muſterinu, ſegiande: Forum burt hiedañ. Nu vil eg miñaſt aa þad DRotteñ ſeger vid Juda, Jer. 7. Fared þier til mijns Stadar, ſem var i Silo, hvar eg liet mitt Nafn fyrſt bwa, og ſiaed hvad eg hefe giørt vid hann fyrer Jllſku mijns Foolks Jſrael. Þar fyrer, af þvi ad þier giøred nu øll þeſſe Verk, ſeger DRotten, og ad þier heyrid ecki þa eg tala til ydar fraa Morgne til Kvollds, þier giegnid mier ecki þegar eg kalla, þa vil eg giøra vid þettta Hws, ſem kallad er epter mijnu Nafni, uppaa hvert þier treyſted, og þennañ Stad, hvern eg hefe giefed ydur og ydar Forfedrum, ſo ſem eg hefe giørt Silo.

Nu vil eg ſegia i Guds Stad, Brædur mijner, gaanged þier til hinnar ſijdari Jeruſalem, og ſkoded alla þa Olucku ſem yfer hana er komeñ, og hverſu Spaadoomur HErr-

aũs Christi er rættur ꝏ heñe, ad ei munde þar Steirn yfer Steine vera, Luc. 19. Christur seger: Ydar Hws Mun Ydur i Eydi Laatid Verda. Hvar fyrer? Þvi þad ecke var framar Guds Hws; þad vottar hañ sialfur komu sijdar, er hañ sagde: Skrifad er; mitt Hws er Bæna-Hws, eñ þier hafed giort þad ad Ræningia Bæle. Christeñs Mañs Hiarta er i Endurfædingunni uppbyggt til þess ad vera Guds Mustere: Vitid þier ecke, segier Paall, 1. Cor. 3. ad þier erud Mustere Guds; Og eñ aptur segier hann: Ydar Lijkamer eru Musteri H. Anda, Cap. 6. Hvad verdur þa, Br. M. Þegar Guds Musteri verdur saurgad? Þad verdur Ræningia-Bæle, þegar þad, med illum Hugreñingum Ordum og Giordum, sem af Hiartanu framkoma, verdur giort ad Satans Herberge; Mun þad þa framar vera Guds Kyrkia? Þess væri Oskande, ad ecki hendte Christna Menn þad sama og Gydinga, ad þeir reiddu sig ofmiog uppꝏ þad, ad þeir væru skijrder, geinge til Altaris, heyrdu Guds Ord i Kyrkiuñi: Allt þetta giordu Gydingar epter þeirre Þioonustu, sem ꝏ Gamla Testamentisins Dogum tijdkud var. Þad er ad soñu Gudi ad þacka, ad færster ꝏ medal vor adhafast þær Skañer, sem þeim er brijxlad uñ: Faaer slꝏ Menn i Hel, Færster leggiast med Konu sijns Naaunga, þeir eru nu ecki helldur so marger miog, sem fundner verda i opinberum Þioofnade, eñ verda mꝏ ad margur laate sierhvad af þessu Ogiort, annadhvort af þvi, ad hann er ecki so Skapi fariñ, meir helldur eñ af Trwnni og Elskunni til Guds, og Kiærleikanum til Naaungans, edur og ad vær Ottunst Mennena, og annadhvert Straff edur Amæli af þeim, og er slijkt einginn Dygd fyrer Gudi. Jseñ brenner ecki, af þvi hann er kalldur, og Vatned reñur ei ꝏfram þa þad er stijblad upp; so og hefur sꝏ eckert Hroos fyrer Gudi, sem af Naatturuñe er sidsamur, og ecki hneigdur til Stoor-Glæpa, og hefur þo sierhvor eiñ so miked Jllt i sier, ad hann gietur med þess Aflaate Gud dijrkad, þad munde sierhvor eirn finna, ef hañ geinge nockud skarplega i Riett vid sialfann sig, og lieti sier ecki nægia Skriftargaang Phariseærans; Eg þacka þier Gud, þad eg em ecki so sem adrer Menn, Luc. 18. Þeir voru Sidprwder Menn i wtvortis Haattsemi, og lifdu Hardlijfe, enn þo heyrum vier þeirra Vitnisburd, Matth. 23. af honum, sem visse hvad med Mañinum bioo, Joh. 2. Og so sem þeir þoottust ecki þurfa Christs Forþienustu vid, so Ottast eg ad Menn ydrest nu ecki nema stoorra Klækia, eñ giore smꝏ Syndernar ad hinum stærstu Syndum, og kasti þeim ydrunarlaust uppꝏ Guds Sonar Hrygg, þvi hann hafe noogu breidt Baked ad bera þær. Þad hafde sꝏ goode HErra, er hañ var Hwdstrijktur fyrer mijna Skulld, sem veit mijns HErra Vilia, enn giori hañ ecki, og hefi þvi morg Slog forskulldad, Luc. 12. Þad hafdi hañ, þegar hañ bar siñ Kross wt af Jerusalem minna vegna; sem læt so illa vid, ad taka hañs Kross uppꝏ mig og filgia honum epter, er hañs þvi ecke verdugur, Matth. 10. Þad hafde hann, þegar hann bar mijnar Synder uppꝏ Tried, og liet sitt Lijf fyrer þær ꝏ hinum smaanarlega Krossins Gaalga fyrir mig, sem ad so tregt veiter ad krossfesta mitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Eñ ad hañ vilie taka i mooti þeim Syndunum og kasta þeim i Hafsins Diwp,

sem

sem eirn helldur ecki fyrir Synd, og ecke þeckir hann það fyrer Synd, jafnvel þoott hañ meige það vel þeckia af Guds heilogu Orde, ef hann giæfe sier Stunder til ad rannsaka Guds Vilia og sitt Framferde, þvi hefur hann ecke lofad, og eingvu umheited, ad þær kvittast skule fyrer hanns Dauda, nema Menn þeirra af Hiarta ydrest. Eg tala um þær, sem eirn veit og man, þvi um hinar Ovitañlegu, hvorra Fiollda engenn veit, Ps. 19. vil eg ei ødruvijse tala, eñ ad eirn Syndare læte sig af Hiarta angra það, ad hann gietur ecke i þessu Hollde eitt Augnablik Syndlaust lifad. O HErra Gud, þu hinn Heilage og Riettlæte! hvor kann ad vita, hvad oft hann syndgar? Aller heilager hliooti þig Fyrergiefningar ad bidia, Ps. 32. A þeim Dege, nær Reikningsskapureñ skal halldast, hvad munum vier þa ecke Ohreiner Ormar? Gud vertu oss syndugum Lijknsamur, og hiælpa oss, O HErra! fyrer þijna Giædsku, sem ecke villt Syndarans Dauda, ad vier lærum ad þeckia vorn Saurugleik, og sporna vid Syndunum, so vier mættum med alvarlegre Ydran og þijns Sonar Bloode afþvegner, vera visser um Fyrergiefning vorra Afbrota, ædur enn vier forum burt hiedann. Það veite goodur Gud fyrer JEsu Blessadar Under og Forþienustu, Amen.

# Pridia Dag Joola

Gudspialled, St. Joh. 21. Cap.

Nañ Tijma, sagde JEsus til Peturs: Fylg þu mier epter. Petur snere sier vid, og leit þañ Læresvein eftersylgianda, sem ad JEsus elskade; Sa er og um Kvølldmaltijdena hafde a hañs Briooste leiged, og sagt: HErra, hvør er sa er þig Forrædur? Þa ed Petur leit nu þeñañ, segier hann til JEsu: HErra, hvad skal þesse? JEsus segier til hañs: Ef eg vil hañ blijfe til þess eg kiem; Hvad kiemur það vid þig? Fylg þu mier epter. Þa giekk sw Ordræda a medal Brædraña; Þesse Læresveirn deyr ecke. Og JEsus sagde eige til hañs: hañ deyr eige; helldur: ef eg vil hañ blijfi til þess eg kiem, hvad kiemur það vid þig? Þesse er sa Lærefveirn, er um þetta ber Vitne, og þetta skrifade, og vier vitum ad hañs Vitnisburdur er sañur.

## Exordium.

Aerst sialfum DRottne JEsu Christo, og þeim Astgiosum sem hinn Goode Gud hefur i hønum giefed vondre Manneskiu, þa er engenn þvilijk, so sem Raad og Skilningur, er hann hefur Sæler vorar prijddar med: Þau adgreina oss fra Villu-Dijrunum, Grosunum, Eykunum og ødrum Skepnum a Jordunne. Eg veit ecke i hvoriu Madurenn være betre enn Hesturenn, nema ad hañ stioornadest af Skynsemenne, og hvad meira er, ad ein Vitstola Manneskia, hvoria Gud hefur med

Faaſiñu ſtraffad, hun er øllum ødrum Skiepnum midur aa ſig komenn, hvad oſs ſem Heilvita erum, fyrer Guds Þolennmæde, ætte ad þrijſta til þeſs ad brwka Dijrgrip þennann til Lofs og Dijrdar honum, er hann oſs giefed hefur. Enn Gud naade! ad þar vill vera ſtoor Breſtur aa hiaa all-mørgum og hiaa fleſtum, og, eg maa ſegia, hiaa øllum nockur; So ad David hefur nooga Ordſøk til ad taka ſyndugum Moñum Vara fyrer, ad ecke lijkeſt þeir Heſtum og Mwlum, hvørium Menn verda Beitſle og Bitil i Munn ad leggia, Pſalm. 32. Og ſamt þykiunſt vier aller noogu Vitrer, og erum noogu framvijgder i þvi Skada ad giøra, i þvi ad dæma uñ adra, enn ecke uñ ſiaalfa oſs, i þvi ad leita efter þvi ſem vort er, enn ecke annars, þvert aa moote Poſtulans Bode, 1. Cor. 10. So þad geingur Olijkt þvi er hann i ødrum Stad ſegier; ad Menn eru Børn i Skynſemeñe, enn ecke i Hreckvijſenne, 1. Cor. 14. Eg meina i hinne riettu Vitſku, ſem Ritningenn ſo kallar, og þar i er foolgenn, ad þeckia Gud og ſiaalfann ſig, og velldur þad þvi, ad Menn laata ſier vera ſo añt uñ þad, ad hnijſa uñ annarra Manna Haattu, ad Meñ giefa ſier ecke Stunder til ad rañſaka ſijna eigenn, hvøriu þo eckert er þarfara i voru Saaluhiaalpar Verke; og er þeſſe Spilling Naatturunnar ſo rijk i Mannlegu Hollde, ad Grein af henne hefur ſtwnged ſier wt, jafnvel hiaa Guds Aſtvinum. Dæme høfum vier aa hinum Heilaga Petre i upplesnu Gudſpialle; Enn uppaa þad ad Menn vita ſkyllde ad þvilijkt er Synd, jaa, ein Synd ſem margt Illt af ſier leider, ſem ſijdar mun ſagt verda; Þa aatalde DRottenn þennañ ſinn Læreſvein nærſta hardlega og roggſamlega fyrer þetta. Nu þoott ad Skap-Loſtur þeſſe ſie ecke hinn minnſte Avøxtur Spillingarennar, þaa vite Menn þo, ad Gud er ſo vijs, og ſo maattugur i Breiſkleikanum, ad þar er eckert i Naatturu Mannſins ſo illt, ad hann kuñe ecke gott af ad giøra, þvi ad Tilhneigingarnar voru i Ondverdu goodar og af Gude ſkapadar, Vanbrwkunenn giører þær ſkadlegar; Enn þegar þær verda hreinſadar fyrer Endurnijungu H. Anda, þa kunna þær enn nu allar Gude ad þioona til Vegſemdar, og Endurgietnum Manne til Saaluhiaalpar. Þar fyrer, ad ſo ſem Forvitnenn er ſkadleg og haaſkaſamleg, ef henne er beitt i þeim Hlutum, ſem Gud hefur bannad, ſo er hun þorſ og gagnleg, ſie hun brwkud til þeirra, er hann boded hefur. Eg vil uñ hvørttveggia tala med faaum Ordum, efter þvi ſem Gud giefur Naad til.

Hvar til hann ſtyrkia vyrdeſt med Krafte ſijns Anda i JEſu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAa leider gott af Forvitneñe, ſegier Ords-Haattur gamall: Vier høfum nockrum ſiñum heyrt, ad þær Syndernar, er vier miñſtar holldum, þær kuña ad verda ad þeim ſtærſtu; velld ur þad þvi, ad Meñ bidia Gud ecke miøg rækelega Fyrergiefningar aa þeim, eins og ad ha ñ ſie ſkylldugur til ad hallda oſs þad til gooda, ſem vier ecke mis-virdum aa ſiaalfum oſs, og geingur þad eins til uñ þetta, og uñ litla Skeinu aa Lijkamanum, þa er vier forſmaaum, ad hun verdur oftlega ad Lijfs og Lima Tione, ſie ecke

vid

vid giort; Enn þad maa kuñugt vera, ad þesse Okostur er ecke halldenn fyrer neina Synd af morgum, og þo kannske fyrer Dygd, fyrer Adgiætne, fyrer Kostgiæfne, fyrer Framsyne, og hiner, sem hana ecke æsa, fyrer Oþocka og Raadleysingia. Være nu þetta engenn Stoor-Synd i odru, þa er hun þo i þvi, ad hun ecke er halldeñ fyrer Synd, þvi eins kañ ein lijtel Synd ad fordæma Mañenn fyrer Guds straanga Doome, so sem ein stoor, og verda þær þo þijngstar sem alldrei verda þecktar nie med alvarlegre Ydran afþvegnar: Þad syner oss Dæme Phariseæarans og Tollheimtumannsins hvor ed foor Riettlætare hinum aptur i sitt Hws, Luc. 18. Nu er þessu þo ecke so vared um Forvitnena, ad hun sie lijtel Synd; og hafe Meñ ecke annad til Dæmes, þa skignunst efter þvi, hvernenn Syndenn fyrst inn-kom i Heimenn. Paall segier oss, þad hafe skied fyrer eirn Mann, i hvorium aller syndgudu, Rom. 5. Med hvoriu moote var þad? Ritningenn greiner uñ þad noogu skijrlega, hvornenn Diofullenn sveik vora fyrstu Forelldra, sem er, ad þau skylldu faa Gyrnd til ad þeckia hid Illa, og forsmaa Guds Bodord i þvi ad vita hvornenn Epled smackade, og ad verda Gude lijk, Gen. 3. Segied mier, Br. M. er ecke af þessare Forvitne komenn oll Synd, og Daudeñ, sem er hennar Verdlaun, iñruñeñ til allra Manna? Rom. 5. Bid eg ydur þvi ad athuga, sem Christner heita vilied, ad ef Agg, Reide, Þræta, Ofund, Agyrne, Drambseme, Mañdraap, Hoordoomur, Frillulifnadur, Afgudadyrkan, Gudlastan, Gal. 5. og adrar Skamer, sem steipa Syndaranum i eilijfa Glotun, ef þetta (segie eg) eru Okoster halldner ydar aa medal, hvort ad Forvitnenn (sem eg hefe synt og enn þa framar skal syna, ad sie Mooder alls þessa), sie goodur Kostur, edur so lijtel Synd sem hun af Almeñinge halldeñ er. Ad soñu er þad satt, ad vier i eingvann Maata eigum vorum Fyrstu Forelldrum ad aalasa, þvi þau brwkade Gud til þess Medals, ad vier sem nu lifum, kiñum ad verda hluttakande hañs Giædsku. Þo verdur þvi ecke motsagt, ad þesse þeirra Forvitnes Synd, hun var hin stærsta Synd, sem af Mañkynenu hefur framenn vered; allar Synder sem sijdann giorst hafa, þær eru ad sonnu aa moote Gude giordar, þo Meñ fremie þær vid Naungann, enn þesse stefnde Riettlijnes aa Guds Dijrdarfullu Haatign; Allt hvad Menn nu j... oga, þad syndga Menn af Breiskleika edur Illsku Naatturunnar, hvorrar Þaankar eru vonder i fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ þau voru Heilog skopud, og þar þau voru so Dijrdleg skopud, þa gaatu þau audvelldlega hallded Guds Bodord. Eg maa ei faa mier þad til Orda, ad þau steiptu ollum sijnum Epterkomendum i Tijmannlega og eilijfa Ogiæfu hier med, þvi Guds Oumrædeleg Giædska, sem hefur fyrergiefed þeim, hefur giefed mier og ollum odrum Stoor-Syndurum noog Medal i sijns Eingietens Sonar dyrmætum og saklausum Dauda, til ad faa þetta endurbætt oss til Saaluhiaalpar og Mykunar. Enn hitt vil eg bidia ydur ad hugleida, hvort ad Gud, sem vegna sijns Riettlætes straffade so hardlega þessa Synd, Forvitnena, aa vorum Fyrstu Forelldrum, hvort hañ, segie eg, mune kalla hana gooda aa oss, sem valla kollum hana Synd ad vera. Nu so sem ad þesse Synd var i Upphafe Ordsok til allrar Mannsins Olucku, so er hun enn nu til hvorrar

Syndar, ef Menn riett adgæ; Af henne sprettur allt Ranglæte moote Gude, moote sialfum oss, og moote Naunganum. Andskotenn sagde i Fyrstu vid Konuna: Gud veit, ad nær sem þid eted af Eplenu þa munu upplwkast Augu yckar, ad þid verded so sem Guder, skyniande Gott og Illt, Gen. 3. Hier af kiemur Forvitne sw, ad Menn vilia ecke læta sier nægiast med þad sem Gud hefur opeñberad oss i sijnu H. Orde til Sæluhiælpar, hvorneñ vier eigum ad trwa, hvorneñ vier eigum christelega ad lifa, helldur giora sier adskiliañlegar Grillur um̃ Guds Fyrerhyggiu, um̃ hanns Veru, um̃ þær Priær Persoonur, um̃ þau Heilogu Sacramenta og margt annad, sem Guds Speke hefur eiuñt syndugum Moñum grant ad þeckia, og hefur þo allt þetta so berlega auglijst hverium Heilvita Mañe, sem ecke forsmæer Uppfrædinguna, ad hañ mæ þar vid vel una og hoolpeñ verda; eñ þeir sem þa vilia Forvitrer vera, þeir hafa lært þad af Fiandanum, ad læta sier ecke nægiast med Guds Giof, helldur eyda goodum Gæsum og Tijmanum, sem Gud hefur giefed til ad rækia sijna Sæluhiælp, og ad kienna odrum, til þess ad skignast iñ i Guds Leyndardooma, og hid Orannsakañlega Diwp hañs Guddoomlegrar Speke, lijker Bethsemitum, hvorier af Forvitne skigndust inn i Orkena, og urdu þar fyrer af Gude slegner morg Þusund Manna, 1. Sam. 6. So eru og marger af hinum med Blindne slegner, þvi O Rottenn hefur hondlad þa i þeirra Slægvitsku, og hañ veit ad Prætur Vitringaña eru Hiegoome, 1. Cor. 3. Eins og Gud, sæ sem vill ad aller Meñ verde Sæluhoolpner, 1. Tim. 2. hefde ecke giort þetta lioosara, hefde hañ vitad, þad munde Manneskiunne vera hagannlegra til Sælar-Nota. Og þañeñ er nu Forvitneñ þeim skadleg, er sig hyggna og lærdasta kalla; hvar af oll Vantrw, oll Hiætrw, Afgudadyrdkan, Mañasetningar, Jæ allar Trwar-Villur, og Andskotans Evangelium er innkomed i Heimeñ; og hvor vill þa segia ad Forvitneñ sie ein lijtel Synd? Og þanneñ vanvirda Meñ nu Gud med þessu, er vier Speke kollum, og syndgar so Forvitneñ einmidt æ moote honum: Eñ ei giorer hun þad miña æ moote sialfum oss og Naunganum, þoott ecke eigum vier so Sok þar æ, þar vier erum ecke vorer eigeñ Herrar: Gud æ alla Sokena, samt lender Skadenn hiæ oss, honum kuñum vier eckert Illt ad giora med Forvitneñe. Vær komustum ei leingra þar med, eñ hiner, er ætludu ad byggia sier Turn upp under Himenenn, Gen. 11. Sialfum oss er hun vest og so Naunganum.

Þegar Diofulleñ hafde smeigt þvi iñ hiæ Konunne, ad Ovirda Gud, þa flaug heñe þad strax i Hug ad vita hvornenn Epled smackade, og ad locka Mañeñ til Syndareñar, Gen. 3. So giorer hann enn i Dag, þegar hañ fær þvi skoted i Hug Mañsins ad akta Gud lijtels, af þvi hann skilur ecke allt hañs Ræd, og þar kiemur ei strax Hefnd yfir vondar Athafner, þa hefur hañ bwed sier Rwm i hañs Hiarta, til ad forvitnast um̃ þad, er hañ skilia kañ, sem er, um̃ Hage Naungans. Engenn æ meire Plægu eñ sæ, er þessum Siwkdoome er underorpeñ. Hvor er vesælle eñ sæ, hvors Hiarta ad Diofulleñ hefur med Agyrne iñteked? Eñ mun nockud hiñ Agiarne gieta vered æn Forvitne. Hañ spyr alla Vegana epter þvi, hvorneñ odrum gange, hvad um̃ þeirra Eigur lijde, hvor-

lar

ar Utriettingar þeir hafi, ecki til þess ad samfagna þeim, ef þad er vel, edur ad sampijnast, ef þad er illa, helldur ad hañ meige svæla under sig ꝏ einhvern Hꝏtt Eigur þeirra, edur hindra þeirra Utvegu sier til Abata; Takest honum þad ecki, þa leggst hann uppꝏ Sængina, eins og Achab, 1. K.B. 21. og uner ecke vid, nema hann sꝏe Nabot i Hel kominn. Ofundina gietur Forvitnenn af sier, og hun fooſtrar hana. Eingeñ ofundar añann fyrer þꝏ Hluti sem hañ ecki af veit; Enn þad er Plꝏga hiñs Ofundsiwka, ad hañ gietur ei lifad ꝏn þess, ad forvitnast uñ Hage sijns Nꝏunga, jafnvel þoott eingiñ Drepsoott sie honum þvilijk, so sem ef honum lijdur vel, og lijde honum illa, þa er honum þad ad soñu ein Stundar-Glede, enn helldur þo jafnañ Spurnum fyrer, hvert þad mune ecke midur vera; Og sie þad ei, lijkar honum illa. Eins er hann og Andskotinn, honum þyker vænt uñ Mootgꝏng Manneskiunnar, enn samt er hann þo eins Vesæll. Hiñ Dramblꝏte er Forvitenn, þvi hann er Ærugijrugur, hañ spyrst fyrer, hvort nockrum sie meire Lotning veitt eñ sier? Og finne hañ Brest þar ꝏ, þa eyrer hañ þvi ecki betur, eñ Haman, þa Mardocheus ei villde heidra hann eins og adrer, Esth. 5. Og er þetta ein stoor Olucka, ecki einasta þeim, sem verda fyrer Skadanum og Ofbelldinu, helldur og hinum, er ala þessa Ovætti i Hiarta sijnu: Og mꝏ hañ med riettu Dioful-Odann kalla, sem af þessum Þremur Andskotans Englum er plꝏgadur, þvi hver þeirra hefur heila Sveit Diofla, þad er, Skaña og Lasta, og er Forvitnenn þeim so handgeingenn, ad þeir verda ad brwka hana til allra sinna Utriettinga i Satans Eyrendum. Hver er sw Olucka Manna ꝏ medal, sem Reidenn og Heiptræknenn ecke af Stad kome? Sundurþyckia, Tvijdrægne, Mord, Mannslag, Strijd og Bloods Uthellingar, mun þad ecki allt af henni koma? Enn hvad segier hinn vijse Seneca hier uñ? Vilier þu ecki Heiptrækur vera, þa vert ei Hnijsenn. Þad er margra Manna Hꝏttur, ad þeim er mikel Forvitne ꝏ ad vita, hvad uñ þꝏ er talad og rꝏdslagad; Eñ slijkt er stoor Þrældoomur og sꝏvijsleg Ordsijke, þviad soddann Menn skal alldrei vanta einn Hræsnara, einn Ligara, sꝏ ed bere i Eyru þeirra falskar Søgur, Roog og Bakmælge, hvort ad aflar stoors Orooa i Hiartanu, enn hiꝏlpar eckert til Eyrindanna Framkvæmdar, og lætur optlega hañ, er giefinn er fyrer slijku, taka uppꝏ sig Oþarsa Mædu og Uñhyggiu; og þoott Meñ forsvare slijkt med þvi, ad Meñ hlioote ad forvitnast uñ Rꝏdagiorder Ovina siña, þa er þad einkis vert, þvi Forvitneñ, hversu forviteñ sem hun er, skal alldrei fꝏ ad vita Helmingeñ af þvi sem satt er, og þoott hun feinge, þa vill þad afla Mañinum lꝏngtum meire Okyrrleika i Hiartanu, helldur eñ Vareygdar edur Framsyne; Og er Þusundsinnum betra, ad kosta þeim Tijma, er Meñ brwka til hiegoomlegrar Forvitni, og til ad vita hvad hver Her-Kerlingenn uñ hañ talar, ad brwka hañ, segie eg, til Kostgiæfne og Astundunar i sijnu Kalle og Embætte, og ad varpa sinne Ahyggiu uppꝏ DRottenn, Ps. 55. Þvi hitt mætti æra, ecki einungis Ostodugann, helldur og þann, sem añars være noogu Rꝏdsettur, þar Verollden er full af Hreckvijse, Otrw og Oþacklæte, og er einginn Vijsdoomur lakare, jꝏ, einginn Heimska heimskari enn sw, ad vilia

allt

allt þetta vita: Þad er eins og ef nockur hefde Ynde af þvi, ad hafa Mok vid Ofresk-iur og ecki Manneskiur. Hvad giorum vier oss i Lund? Munum vier ætla þad, vier munum med Englunum bwa, edur heilögum Mönnum, og vitum vier ecki ad þeir eru flester, sem uña sialfum sier best? Torsookt mun þad, ad venia Illskuna og Varmeñsk-una af þvi aldeilis. Þar fyrer, þoott ad nockur være so Fiölkuñugur, so sem i Skrok-Soguñi segier, ad hañ kyñi ad giora sier eirn Speigil, i hverium hañ sæe alla Bakmæl-gi, Roog, Lijge, Aaustur, Rædagiörder, vondar Offer, Vanþacker, Imislega Doo-ma um vorar Athafner og Lijfernisþættu, suma Saña suma Logna af þeim, sem þo eru jafnvel miklu verri enn vier villdum vera; Ef einhver, segie eg, sæe þetta i einum Speig-le, og horfde þar i litla Stund, þa mundi honum ofbiooda, sierdeilis þeim, er miklu æ vid adra ad skipta, og kasta Speiglinum i burt, ef hann heilvita være, og yrdi þvi hvad fegnastur, ad hann alldrei optar i hann liti, nema hann villdi verda eins og Ismael, ad hañs Hond være æ mooti hverium Mañi, og hvors Mañs Hond æ mooti honum, Gen. 16. Ulfur af Mañi, og, eins og Nebuchadnezar, Stallbrooder Vargaña, Dan. 4. Og þesser Hluter, er Meñ leitast so epter ad vita, eru þo optast eins og Pytur i Skooge, hañ varer ei leinge; Eins reñur Lijgenn aptur þegar sönnu mæter, og være þa betur heima seted enn fared, til ad Mannspilla sier og hefna æ ödrum þeirra Hluta, sem dodna af sialfum sier, eins og Sveppurinn þegar hann er fullvaxinn, og breite Menn odruvijse, þa ala Meñ Illgyrne añarra med Forvitnenne og Grunsemeñe, er heñi ævallt fylger, so sem Skuggeñ Lijkamanum; þvi þad er Hæske ad erta Illt Skap og Samvitsku vond-ra Maña, hverier ed læta opt af, ef þeir meina ad Strækskapuriñ sie duliñ, eñ ætle þeir ad hañ uppvijs sie, þa drijfa þeir Illt wt med Illu, so framt þeir megna, þar þeir vita ad þeir eiga ecki til Goods ad giora. O! Hvad miklu betra er Raad Salomonis i þvi, ad læta sem Meñ siæe ecki Oriettinn, og safna so Gloodum Ellds yfer Hofud O-vin sijnum, til ad færa hann æ rietta Leid. Tvær Dætur hefur Forvitneñ, sem Menn leika vid eins og Smæa-Börn edur Hvelpa, medañ þær ungar eru, enn þegar þær vaxa upp i Manusins Hiarta, og hafa leinge soged Mooderena, þa verda þær skæder Grip-er, þad er Grunsemeñ og Trwgyrneñ, so lijkar Systur, sem þær eru skilldar til. Sæ ed misgrunar hvern Mañ, gietur alldrei nockurn Trwañ ætt; Þviad þess trwrre og dyggvare ad eirn er, þess helldur gremst honum þad, ad honum sie illa trwad, þar ed hann ecki til þess vinnur: Medal añars sijnir oss þad Dæmi Isboseths Israels Kon-ungs, 2. Sam. 4. Hver ed miste bæde Rijked og Lijfed fyrer þad, ad hann misgrun-ade Abner um Legord med Rispa, Frillu Sauls Konungs Fodur sijns, 2. Sam. 3. Þegar Mæagur Samsons tortryggde hañ um, ad hañ munde ætla Doottur siñi Einlæ-te, þa olli hañ þvi, ad Samson uppbrende Philisteaña Akur-Lond, med Refunum, Dom. B. 15. Og so skiedur þad tijdt, ad nær eiñ ærlegur Madur er misgrunadur, tek-ur hann sier uppæ Ress-Ham, og gioríst ad þeim sem hann er ætladur ad vera. Þu-sund mæ finna Dæmi til þess bædi i Ritningunni og annarstadar, og þar ad auke er

hun

hun Jlls Hugar Vite, þvi segier Plautus Skælld uñ Moodurina, ad þar sie eingiñ Forvitinn, nema ad hañ sie under eins Jllgiarn: Enn Chrysostomus; Ad eirn goodur Madur ætli skialldañ ødrum Jllt, og skialldañ ætli sca Goods af ødrum, sem er Vondur sicalfur; Þetta er hveriu Ordi sannara, og sannast hier hid Fornkvedna, ad margur ætlar mig sig, og mœtulega dyggvañ. Og so sem ad hann, ed hefur Scar eda Orkuml a Lijkamanum, hañ hryller vid ef nockur kiemur þar nærre, þoott alldrei snerti hañ þad; so ætlar hiñ Grunsami alls Jlls til allra, jafnvel þeirra, sem honum eckert Jllt giora vilia, edur giora kuña, af þvi hañ er sicalfur sier Jlls medvitandi. J einu Ordi ad segia: Hun giorir eiñ Konung ad Tyranna, eiñ Hwsboonda ad Bødle, einn Þienara ad Drottenns Svikara; Hun er Scattarspiller millum Hioona, millum Fedgina, millum Brædra, millum goodra Vina, og eru til þess Opriootande Dæmi; og dagleg Reynsla kiennir þad, og er þo Trwgyrnenn hœlfu verri. So þad er sem i Forn-Vijsunni stendur: Aungvum ad trwa ecke er gott, ollum hœlfu verra. Eg veit ecki hvort ad Andskotenn a nockurt scarbeittara Pijslarfæri, enn Trwgyrnina; Hun er tvijeggiad Sverd, og skadar beggia vegna, bædi þann sem trwir ollu, og hinn sem logid er a. Rœnka ma vid þvi, ad Eva trwdi Hoggorminum, og Adam heñi. Fyrer Talhlijdne Potiphars mœtti hinn saklause Joseph i Vardhallde gista i morg Ar, Gen. 39. Fyrer Talhlijdne Davids tapade Mephibozet hœlfum Akrinum, 2. Sam. 19. og var hañ þo Sonur hañs besta Vinar. Fyrer Trwgyrne Assveri Konungs hafde allur Jsrael nærri þvi Lijfed mist, Est. 3. Og auk þessa, þa gietur ecki hiñ Talhlijdni hia þvi sneidt, ad vera allra þeirra Narri sem ad honum liwga, hversu vitur sem hann añars er, þvi eingiñ er Trwgiarn nema hañ sie og Mœlugur, eñ Mælgeñ er Teikn Heimskuñar; þess gietur Salomon, Ordsk. 29. segiande: Scaftu mœlugañ Mañ, betri Von er a einum Vitfyrring eñ a honum: Og aptur, Cap. 17. ad jafnvel eirn Heimskinge, ef hañ þeiger, sie vitur halldiñ. Allt þetta kiemur nu af Forvitneñe, sem adur er sagt; Og hefi eg nu so wtmœlad þetta Skrimsle ad nockru Leite, enn þo hvergi nærri, so sem hun Reyndar er.

Enn nu vilium vier i hinni sijdari Greiniñe skoda, hverniñ vier kuñum ad giora þennañ Okost ad hinum besta Mañkoste fyrer Nad Guds og Adstod H. Anda. Þad er vitañlegt, Brædur mijner, ad hiñ fyrsti og beinaste Vegur til allra Dygda og Mannkosta er sa, ad þeckia sicalfann sig; Eñ sca sem Forvitnena brwkar til þess ad rañsaka sitt eigid Hiarta, sijn Ord og Athafner, hañ mun sijdur skignast uñ añarra Efne, og er þa lijkast ad hañ kvittur verdi vid alla þa Okoste og Orooa, er eg upptalde i hinum Fyrra Partinum. So sem Madur ecki fær siedañ sinn Yferlit i þvi Vatni, sem er af Vindinum uppblœsed, helldur nær þad lygnt er; So er og Omøgulegt, ad sca kuñi sicalfur sig ad þeckia, edur rañsaka, sem eckert añad giorer, eñ ad forvitnast uñ añarra Hage. Þad eru dijrmæt Ord, sem Frelsariñ talade Fordum, Matth. 7. Þu Hræsnare, drag fyrst wt Biœlkañ wr þijnu Auga, og sia til sijdañ, ad þu fœer wtdreiged Flijsena wr þijns

Broodurs Auga. Þar er i mañlegri Nattúru nockurskonar Þootti, ad vier metum sialfa oss meir eñ adra, hañ kiemur af eingu meir eñ þvi, ad vier rañsøkum añarra Hattalag meir eñ vort eigid; maa þad þo vita sierhver eiñ, ad hversu sem hañ vera þykist Kostum bwiñ, þa er hañ þo ecki øllum betri, og hendir oss i þessu þad sama og Stiørnumeistarañ Fordum, ad a medañ hañ var ad sia epter Himen-Tunglunum og gøndi upp i Lopted, fiell hañ i Grifiu eina, sem vard fyrer Footum hañs. Eñ vited þad, Br. M. ad allur Vijsdoomur, so sem ad þeckia Stiarnaña Gang, Nattúru Grasaña, Steinaña, Fuglaña, Fiskaña, þad er Faavitska hia þvi ad þeckia sialfañ sig, og þess er øllum þeim unt, sem Gud hefur giefid heila Ræṅu; Þad er ecki i ødru foolgid, eñ ad bera siñ Lifnad samañ vid Guds Vilia, sem bædi er iñskrifadur i vor Hiørtu, Rom. 1. og oss Christnum Mønnum Praalega openberadur i hanns heilaga Ordi, eñ þvi gleymum vier, og teljum oss þad til Agiætis sem lijtils edur einkis er verdt, edur vanbrwkum þad sem mikils er verdt. Eñ hvad er þad þo, er vier kuñum ad virda so mikils a oss, ad vier forsmaaum adra? Þad eru añadhvert Luckunnar Giæde, edur Nattúrunnar, edur Naadarinnar. Eg vil eiñ Formaala hafa fyrer øllu þessu, og þañ sem Paall, 1. Cor. 3. hefur fyrer þeim, er stærdu sig af Andans Gaafum. Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer, og fyrst þu hefur þad þeiged, þvi stærer þu þig þa, so sem þu hefder þad ecke þeiged? Um Luckuñar Giædi, Aud og Metord vil eg faatt tala: Þad er Almeñinge kuñugt, ad eingiñ verdur af þeim agiætare, marger verre, og er daarlegt ad hrokast upp af þvi, sem hlotnast kañ hinum versta Manni, og hid sama maa segia um Nattúruñar Gaafur, þoott þær sieu goodar; Þær eru wtvortis eda innvortis. Utvortes er Afl og Frijdleike, eñ um Hreistina er þad ad segia, ad Asnenn og Uxeñ eru eñ þa sterkare, og sieu þeir betri fyrer þad, þa mætti sa øsunda þaa, sem ødrum fremur þykest, fyrer Aflsmuna Saker. Enn hvad Frijdleikanum vidvijkur, þa eru Rooseñ og Liliañ miklu fegre, enn hin vænsta Jomfrw, þvi Lausnarinn segier, Matth. 6. ad Salomon i allri siñi Dijrd hafi ecki so skrijddur verid sem þær, og er þo vitañlegt, ad Gud hefur meira lagt til hiñs liootasta Mañs; og hverninn sem þvi er varid, þa er þad Ovíturlegt, ad þeckia ecki sialfann sig af Metnadi þess Hlutar, sem eirn Kville gietur i burt fraa oss teked, og Elliñ ad vijsu rænir allaþaa, er heñar bijda, enn Daudiñ añars. Iñvortis Giædinn, er Gud hefur prijdt oss med, eru Vitsmunerner: Þeir eru hiñ agiætaste Hlutur, ef þeir eru til Goods brwkader, og þo allra hellst til ad þeckia Gud og sialfañ sig; Enn sa er þad giorer, honum er ecki hætt vid ad forvitnast um annarra Mañа Raadslag edur Hattsemi, hañ hefur noog ad giora, ad rannsaka hvad hañ hafi hvern Dag Gudi amooti broted, og þeinkia sig um, hverniñ hañ meige sa þad kvitt hia honum, og leidriett frañveigis. I þessu og ødru þvilijku skylldu Meñ æfa Forvitnena, Br. M. i Stadeñ þess, ad hnijsa epter Naungans Hattum, honum til Meins, eñ sialfum oss til einkis Frama, og verdur hun þa ad hinni bestu Mannprijde og Vegur til allra goodra Dygda. Naadarinnar Giæde er hinar Andlegu Dygder, Trwenn, Voneñ, Þoliñmædeñ og Kiærleikureñ, sem er mestur af þessum, segier

segier Paall, 1. Cor. 13. Og so þeir Averter sem hier af spretta. Menn vilia vel segia, ad slijkt giete Meñ ecke vanbrwkad, þvi þad sie Guds Anda Verkan i oss. Eñ giætum þess, ad so sem Gud kañ ad giora gott af illu, so kann Andskotenn ad giora Illt af Good-du. Eg heyre ad Paulus, i hinum Fyrra Pistle til Corinthios og hinum Þrettar Fyrstu Capitulum, deiler aa þa Christnu i Corintho, vegna þess, ad þeir stærdu sig af Andlegum Giædum; Eg heyre ad Phariseanum var þad til Rangslætes reiknad, ad hañ sagdest ei vera so sem adrer Meñ, Luc. 18. Hvad olle þvi? Br. M. Vanþecking aa sialfum sier, eñ Forvitnenn um Tollheimtumañeñ, er hañ þoktest vita syndugre sier ad vera, sem þo foor Riettlaatur framar hønum i sitt Hws. Þad er ad soñu meste Daaraskapur, ad vilia stæra sig af Luckuñar og Naatturuñar Giædum, so sem aadur er sagt, enn þo er sa eñ meire, ad hroka sier upp af þvi sem Naatturleger Kraptar ecke i oss verka, helldur kiemur, aan þeirra, Riettlijnes fraa Gude; og er su vijsust Von, ad hañ svipte hañ sijnum Gaafum, er so illa med þær hondlar. Þu segier; Hañ tekur ecke þad Gooda fraa Mañenum, þvi þad er hønum þocknanlegt: Eg jaata þad satt ad vera, eñ þad sem Guds Naad hefur verkad gott med oss, þad er ecke leingur gott, þegar Madureñ tilreiknar sier Guds Giorning; Eñ þad giora aller þeir, ed ødrum betre þykiast, og ecke forvitnast um sialfa sig, hvad miked þaa vante aa þa Skylldu, er þeir eiga hønum ad giallda, og kalla sig gooda af þvi, ad adrer verre eru, ad þeirra Hyggiu. Mun nu ecke Gud reidast slijku, þegar hañs Gaafur eru þañveg til Metnadar brwkadar? Jw, meir eñ hinum, er vier kollum Stoor-Syndara. Vier siaum i Epterlijkinguñe, Matth. 25. Ad Pund-ed var teked fraa hønum sem ecke villde leggia þad aa Maangarans Bord. Hvad eigum vier þa ad ætla um hañ, sem fer so illa þar med, ad i Stadeñ þess, ad hañ aatte ad þioona Gude med þvi i Audmijkt sijns Hiarta, þa slæst hañ i Lid med Fiandanum, er var i Ønd verdu hinum bestu Gaafum prijddur, eñ þess gielldur hañ eñ i Dag, og mun ad eilijfu giallda, ad hañ upphoof sig aa moote hønum, er hañ hafde so Dijrdlegañ skapad, so mu-nu og aller þeir ed hønum i þessu epterfylgia. Hver hefur meire Guds Dijrkare vered enn Salomon? 1. Kong. B. 11. og þo vard hann straffadur med Faasiñu. Var ecke Jehu hiñ meste Vandlætare vegna Guds yfer Achabs Hwse? 2. Kong. B. 9. Þo vard hañ of-urselldur i fraaleitt Siñe, 2. Kong. B. 10. Giorde ecke Judas Kraptaverk med hinum Læresveinunum? Matth. 10. og þo eru hañs Afdrif Møñum kuñug. Og kañ þad eckert þvilijkum Møñum ad gagna, hvad leinge og hvørsu vel sem þeir hafa Gude þioonad, þvi nær þeir hvad bester vera þykiast, og ætla sier einskis Aboota vant, þa verda þeir eins og Smaa-Børn, þau er rijfa þad sialf i sundur, er þeim vænst um þyker; So verdur fyrer hinum, ad þeir hafa þess engeñ Not, er þeir hafa þo maa-skie kostad miklu Erfide til, þegar þad skijn of-fagurt i þeirra Augum, af þvi þeir ecke forvitnast um sialfa sig, edur hugleida, ad þoott þeir giordu allt þad þeir aattu ad giora, þa ættu þeir samt ad kalla sig Onijta Þioona, Luc. 17. Og ecke einasta missa Meñ Launeñ hier fyrer, (so sem Endurlausnareñ segier um þa ed giora Goodverkeñ sier til Hroosunar, ad þeir hafe sijn Laun

vtteked, Matth. 6.) Helldur verda Meñ og þar fyrer eilijflega straffader, þvi engeñ mun þvilijkur Reikningskapur mæta oss i Doomenum, so sem Misbrwkun Guds Naadar. Enn i Sañleika, þa er engeñ heñar Misbrwkan stærre enn sw, ad brwka hana þvert aa moote þvi, sem hun er oss giefeñ til; þad er, til ad audmijkia oss og lijtelæcka, eñ ad prijsa Fodur Liosanna, fraa hvorium ad øll good Giof og øll fullkomeñ Giof kiemur Jac. 1. Um allt þetta talar DRotteñ Gud med skielfelegum Ordum, Ezech. 18. segiande: Ef hiñ Riettlaate i burtu snijr sier fraa sijnu Riettlæte og breiter vondslega, og lifer epter øllum þeim Svijvirdingum, sem hiñ Ogudlege giører, skyllde hann lifa? Jaa, allt hanns Riettlæte, sem hann giort hefur, skal ecke i Miñe leggiast, helldur skal hann deya i øllum hanns Misgiørdum og Syndum, sem hañ giort hefur. Eñ engeñ er meire Synd, eckert Raanglæte meira, eñ ad ræna Gud þvi, sem er alleina hanns, (Þad er hid gooda, sem hañ hefur verkad med oss) eñ brwka þad til ad forsmaa adra. Sjaaum þvi til, ad Andskoteñ ræne oss ecke, 2. Cor. 2. og forvitnunst um Hage vora, hvert ad vier fiñum i Hiarta voru Þootta nockurn, þad vier sieum betre i vorum Augum, enn adrer þeir ed vier køllum verre, þvi þoott þad vera kuñe, þa er þad ecke oss ad þacka, helldur þeirre Guds Naad, sem med oss er, 1. Cor. 15. Og ef vier fiñum soddañ Hugreñing, þa drepum hana strax med Jhugan vors eigeñ Overdugleika, og laatum so þeñañ Veikleika Naatturuñar verda Ordsøk til ad blygdast fyrer Gude, af hvers Naad vier erum þad vier erum, 1. Cor. 15. Og þad er ecke oss ad þacka, þoott ei sie hun ydiulaus i oss. Og þegar vier nu hølldum Reikning vid sialfa oss, þaa berum oss ei samañ vid hina, sem vonder eru. Mun þad nockud Boot fyrer þig, þoott annar sie verre? Þad heiter so sem hinn Latinske Ordshaattur segier: Ad hiñ Glaamskigne drottne aa medal hinna blindu. Helldur, vilier þu i Mann-Jøfnud fara, þa ber þig samañ vid Enoch, sem var uppnumenn, Gen. 5. Vid Noa, Riettlætesins Predikara, 2. Pet. 2. Vid Abraham, Fodur Trwadra, Rom. 4. Vid Moysen, er var hiñ þoleñmoodaste Madur aa Jørdunne, Num. 12. Vid Eliam, 2. Kong. B. 2. Vid Johañem Baptistam, Matth. 11. Vid St. Paal, hvor þo er so miøg Ahyggiusamur um Velferd sijna, og eckert treister sijnu Riettlæte, Phil. 3. O HErra Gud! Hier kiemur mier i Hug þad, er Petur segier, 1. Pist. 4. Ef hiñ Riettlaate verdur naumlega hoolpenn, hvar mun þa byrtast hiñ Ogudlege og Syndareñ? Ef St. Paall þoottest vidþurfa, ad verka sijna Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Pil. 3. O hvad hrædder og skiaalfande mættum vier þa vera, sem daglega inndreckum Raanglæted, so sem Jordeñ Vatned! Job. 15. Og þvi kalla eg þad Ofka-Raad ad vera, sem hañ giefur Corinthu Borgar Møñum, 2. Cor. 13. Rañsaked sialfa ydur, segier hañ, hvert þier erud i Trwñe, proofed sialfa ydur, þecked þier ydur ecke, ad JEsus Christus bijr i ydur, nema þier sieud ræker ordner? O hvad stoor Þørf er syndugre Mañeskiu aa slijku Utlegd þessare! Vited þier ecke, Brædur mijner, ad Daudeñ stendur jafnañ fyrer Dyrunum, og ad hvers eins Dauda Dagur, er hañs Dooms-Dagur? Jaa, þad vited þier; Þvi eru Meñ þa so Oforvitner um sitt Heattalag i Andlegum Efnum?

Marg-

Margur ætlar þad, kañskie, ad ef Samvitskann ecke nagar hañ eda klagar um̃ neina Stoor-Glæpe; ad hañ hafe Vitnes-burd Andans um̃ þad, ad hann sie Guds Barn, Rom. 8. Eñ þvi er ecke so vared alltijd, þvi engeñ er so heilagur, ad hañ ecke hafe nooga Ordsøk til ad afbidia Synder sijnar og græta þær fyrer Gude. Þeckingarleysed á Syndunum og Toomlæted i þvi, ad ransaka sitt Hiarta, þad velldur þvi, ad Samvitskann fiñur so lijtt til þeirra, og sefur hun þa, og má þad engvañvegeñ gooda Samvitsku kalla. Eirn Stoorbrota-Madur, sem af Hiarta angrar sijnar Illgiorder, er miklu betur á sig komeñ eñ hinn, sem hvorke er Heitur nie Kalldur, þvi Gud vill skirpa honum wt af sijnum Muñe, Openb. B. 3. Og hvad miklu betur var fared hiñe Bersyndugu, sem ad laut bak til ad Footum JEsu, og þvode þær i sijnum Taarum, og þerrade med Haar-Lockum sijnum, kyste þær og smurde med dijrmætu Salve; helldur enn Hræsnaranum, er sagde i Hiarta sijnu: Ef þesse være Spaamadur, þá munde hañ vita, hvør su Kona være, er snerter hann, ad hun Bersyndug er: Mun ecke þesse Siaalfbyrgingur hafa skamast sijn, þegar DRottenn sagde: Heñe fyrergiefst miked, af þvi hun elskade miked, og hann sagde til hennar, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, þijn Trw giorde þig hoolpna, far i Fride. Eg kann ecke annad ad segia, enn ad þetta var stoor Skeinkur, og þesse Smirslenn voru betur launud, helldur enn þoott hann hefde giefed henne øll Rijke Veralldarennar. Eñ eg vil hier um̃ segia, so sem Páll um̃ sig talar: Þess vegna hefur hann mier myskunad, (segier hañ) ad hann synde á mier alla Stærd Myskunar sinnar, þeim til Dæmes, er á hann trwa mundu, 1. Tim. 1. Aller eigum vier hins sama Von og Kvinna þesse, ef vier laatum oss af Hiarta angra Syndernar, enn þad kann ecke ad skie, nema vier smaasmuglega ransokum hin iñstu Fylsne vors Hiarta, og er þesse Forvitne, sem eg ádur sagt hefe, hin fyrsta Trappa til Himnarijkes, þvi af Ransoknenne kiemur Þeckingeñ, af Þeckingunne Idranenn, af Idranenne Fyrergiefningenn, af Fyrergiefningunne Elskann, sem er hin einasta Root allra Digda og Mannkosta, er i Guds Augum kunna ad skarta. Hristed wt, hristed wt, ydar Hiørtu, O þier hin Astlausa Þiood! segier DRotteñ Gud hiá Zophoniam. Cap. 2. Þad er ecke nøog, ad Menn játe almennelega Synder sijnar fyrer Gude med Munnenum, segiande: Eg hefe allskins Synder giort, til Orda og Verka og vondra Hugrenninga; og kannskie ad Hugur fylge þo lijtt Maale á stundum, enn vier eigum ad leita grandgiæfelega epter þeim, og rekia upp allann vorn Alldur, þad frekast vier tilmunum, allt i fraa Ungmennis Arum, allra hellst, nær vier gaungum til Altaris, hvar vier eigum ad fridmælast vid Gud, i hanns Sonar Kvølldmaaltijd. Ecke er þad helldur noog ad vier hofum einusinne ydrast Syndañā, og sierdeilis þeirra, er oss mætte hellst Minne til reka, helldur eigum vier ad laata oss þær angra, so opt sem þær oss i Hug koma, so opt sem vier heyrum þær i Guds Orde straffadar, so opt sem vier heyrum þær af ødrum drijgdar; Og þa munum vier sijdur þykiast upp yfir þeim i Hiarta voru. Vier eigum ecke ad gleyma þvi so fliott, ad Gud hefur teked oss i Sátt aptur, þvi þad heiter ad

vilia ecke aptur snwa med Utlendingenum og giefa Gude Dijrdena, Luc. 17. Ef vier gleymum ecke drygdum Syndum, þa vill Gud þeim gleyma, enn gleymum vier þeim, þa er hætt vid ad hann minnest þeirra, sierdeiles þar ecke er trwtt um ad oss kunne optar ad verda hiner somu Glæper, edur, ad minnsta koste, ad oss lange aptur til Katlanna i Egypta-Lande, Num. 11. Og þott alldrei være, þa vitum vier þad, ad Petur afneitade Christo einusinne, enn alldrei optar; Þo segia Christenndooms Sogurnar, ad so opt sem hann epter þad heyrde Hanann gala, hafe hann beisklega grœted. Enn Gud næde oss auma Menn! Hvad opt hofum vier nu afneitad vorum Skapara med Petre? Er þad ecke ad afneita Gude, ad elska Skiepnurnar? Jæ, Syndena framar enn hann, ad vilia eckert lijda hans vegna, ad vilia ecke læta æ moote sier hina minstu Hollds Lyst hanns vegna, ad leggia ecke ad eins hans Ogurlega og Dijrdarfulla Nafn vid Hiegooma, helldur hafa þad ad Hæde, ef eg mætte so segia, ad vanbrwka ecke einasta Hvijldar-Dagana til ad Filiannlegra Synda og Lasta, helldur hafa Leida æ Guds Orde, hafa þad i Fijfl-skapar-Mœalum, hugsa allt annad nær þad er kient og predikad, og fylla Hiartad, sinn vera æ Guds Mustere, 1. Cor. 3. med sauruga Þœnka, þa sem þad er vant til, so Guds Ord hefur ecke Rwm þar inne? Er ecke þetta ad afneita Christo miklu verr enn St. Petur? Þvi hann giorde þad af Otta, enn vær giorum þad ad Naunarlausu, enn faa heyre eg gæanga wt og grœata med honum, faa tœrast þegar Hanenn galar i Guds H. Orde, so vier meigum jæta, ad jafnvel vor Ydran hefur stoor Synd vered, þvi hun hefur enn nu ecke þraungad oss til ad krossfesta Hollded edur læta af Syndunum. O vei! O vei! Hvorsu langt erum vier þa fra Guds Vege, enn vitum þo ecke nær sagt verdur: Gior Reikningskap þinar Rœadsmensku, Luc. 16. Og kiemur allt þetta af Forvitnesleisenu um vora eigenn Hage. Þu segier vel, ef engenn yrde Sæluhoolpenn, nema sæ sem være eins og Petur og Pæll, þa yrdu fæer hoolpner; Þu segier satt, þvi Endurlausnarenn svarade þeim, er spurde hann ad, hvort þeir mundu ei fæer verda, sem hoolpner yrdu? æ þennan Hœatt: Kieppest vid ad gæanga inn um hid þraungva Hlided, þvi þeir eru marger sem þar vilia inngæanga og komast þad ecke, Luc. 13. Enn hvad um þad? Sieu þeir nu fæer, sem satt mun vera, ad reikna hiæ hinum sem tapast, er þad Gagn fyrer þig, muntu hafa nockra Skiemtan af þeirra Selskap i Helvijte? Jeg jæta þad, ad þeir munu og marger Sæluhoolpner verda, sem ecke eru Peturs edur Pæals Lijkar. Þad syner oss Epterlijkingenn um Penings Giallded, Matth. 20. Enn trw mier til, ad eins miked heimtar Gud af þier, epter þeirre Næad sem þier er giefinn, so sem af Petre edur Pæale. DRottenn er goodur Reiknings-Madur, hann heimtar eins miked af þeim, sem hann hefur Eitt Pund i Hendur feinged, so sem Tiju, epter þvi sem Tala rennur til, Matth. 25. Þad kiener oss Epterlijkingenn um Sæded er fiell i gooda Jord, ad sumt færde Hundradfalldann, sumt Sextugfalldann og sumt Þrijtugfalldann Avoxt, Matth. 13. Þar fyrer mættu Ohætt hallda þad fyrer vijst, ad þott ecke siertu so heilagur sem Enoch, Gen. 5. so Fulltrwa sem Abraham, Gen. 15. so þolennmoodur sem Job, Job. 2.

so heitur i Bæniñi sem Elias, Jac. 5. so hreirn i Lijferninu sem Baptista, Matth. 11. so breñandi i Elskuñi sem Petur, Joh. 21. so alvarlegur og røggsamlegur i Gudrækniñi sem Paall, þa samt ef þu leggur alla Astundan æ, ad þioona Gudi (eptir þeirri Nææd, sem þier er giefiñ) i Heilagleikanum, i Trwñi, i Polinmædiñi, i Bæniñi, i Elskunni, i Alvorugiefninni, i Kiærleikanum, þa ertu Guds Barn: Enn hier um byriar þier yduglega ad forvitnast Kvolld og Morgna, og ad mæla þijnar Athafner med þeirri Nææd, sem Gud hefur þier lient, hvert ecki gietur þu meira afkastad, og þar sem þu Brest fiñur, ad ydrast þess af Hiarta, og bidia Gud ad fylla þad æbrestur; giører þu so, þa muntu finna Vitnisburd Andans um þad, þu siert Guds Barn, Rom. 8. þa ertu innsigladur med Anda Fyrerheitisins, Eph. 1. til Dags Endurlausnarinnar, Eph. 4. og hvert helldur þu lifir eda deyr, og med hveriu Mooti hinum Næduga Gudi þocknast ad læta þig giallda hina sijdurstu Skulld, æ Sioo edur Landi, i Elldi edur Vatni, i Svefni edur Voku, þa ertu DRottins, Rom. 14. og einginn fær þig tekid af hañs Hendi, Joh 10. helldur, þo þu deyer, muntu samt lifa og med honum eilijflega rijkia, þar sem er Gnoogt Fagnadarins og gledilegt Lijferni til Fodursins hægri Handar, Ps. 16. Þad veiti oss goodur Gud i Nafni sijns Eingietins Sonar JEsu Christi, og giefi oss þar til Styrk Heilags Anda, AMEN.

# Sunnudagenn milli Joola og Attadags.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

OG hañs Fader og Mooder undrudust þad, hvad af honum sagdist; Og Simeon blessade þau, og sagde til Mariu Moodur hañs: Siæ þu, þessi er settur til Falls og Uppriisu margra i Israel; Og til Merkis, hveriu i mooti mun mælast. Og sialfrar þiñar Ønd mun Sverd i giegnum smiwga, so ad auglioos verdi Hugskots Hiørtu margra. Og þar var þa Aña Spæ-Kona, Dotter Phanuelis af Kyni Aser, hun var og komiñ til siña Ara, og hafdi lifad i Sio Ar med sijnum Eignar-Mañi fra Meydoomi sijnum. Og þessi Eckia hafdi nær Fioora Vetur um Attrædt, hvør ed eige gieck wr Musterinu, þioonandi Gudi Noott og Dag, med Føstum og Bæna-Hallde. Þesse gieck Samstundis þangad ad, og priisade DRottiñ, og sagde af honum til allra þeirra, sem Endurlausnariñar bidu til Jerusalem. Og er þau høfdu allt fullgiort efter Løgmæli DRottiñs, snern þau aftur i Galilæam til Borgar siñar Nazareth. Eñ Sveirniñ vox upp og styrktist i Anda, fullur Vijsdooms, og Guds Nææd var med honum.

Expos-

## Exordium.

Hud leit yfer allt þad hann hafde skapad, segier Ritningen, og sia, þad var allt harla gott, Gen. 1. Stoort er þad Volædi Mannesklunnar, er Andskoten hefur fært yfer hana med Syndinni, ad hinar bestu Guds Skiepnur snwást henni til hinns mesta Mootgangs opt og tijdum. Elldurinn er hinn þarfaste Hlutur, enn hversu opt verdur hann oss ad Skada? Vatnid i sama Maata, og þo hliootum vier optlega Tioon af þvi: Jafnvel þær Guds Gaafur, sem i sialfum sier ecki eru Skadvænar, þær snwast oss til hinns mesta Ohagnadar, fyrer Misbrwkun vora. Jll Medferd aa Gotze og Peningum hefur steipt morgum Saara i Olucku, Metorden hafa margann blindad, og sialfa Skynsemina hefur margt Verålldar Som so vanbrwkad, ad honum hefdi þarfara verid, ad hafa Sinnings Boonda Vit, enn ad falla so hraparlega aa sijnu eiginn Bragde, so sem þeir giora, er Paulus segier, 1. Cor. 3. ad Gud hondli i þeirra Slægvitsku: Umm allt þetta kiennum vier Fiandanum og Uppruna Syndinnar, ad vijsu ecki umm Skor framm; Af þeirri Root er oll sw Olucka sprottin, er synduga Menn daglega plaagar, bædi i Andlegann og Lijkamlegann Maata. Enn samt er oss þad vitannlegt, ad hinn mystunsame Gud hefur so bætt Raad vort i Sendingu sijns Eingietins Sonar, ad oss mâ jafngooda kalla, nema vier spillum þvi aptur ad niju; Þvi Guds Sonur er i Heiminn kominn til ad nidurbriota Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. Enn hier er grætlegt til ad vita, ad þad Hialpræðid, sem hinn gamle Simeon so miog fagnade, og sagde: Ad Gud hefdi tilreidt fyrer Auglite allra Þiooda, Luc. 2. Þad vill so fæaum gagna, og so faaer af hverri Þiood hafa Þess Not, og sw Frelsan, er Gud giordi sijnu Foolke, Luc. 1. verdur morgum ad enn stærra Þrældoomi, Lækningen ad Eytre, og sialf Heilsu-Giofenn ad Vanheilsu, fyrer Vanræktar og Þvermoodsku þeirra Saker, er ecki þeckia sinn Vitiunar Tijma. Þess gietur St. Paall, er hann segier umm sig, 2. Cor. 2. Vier erum Christi sætur Jlmur i Gudi, bædi þeim sem hoolpner verda, og hinum sem tapast, þessum ad sonnu Jlmur Daudans til Daudans, enn hinum Jlmur Lijfsins til Lijfsins. Og hvad er þad annad er Simeon hier talar i Gudspiallinu: Ad Christur Sie Settur Til Falls Og Upprisu Margra i Jsrael? Eg vil þesse heilogu Ord nockud gior hugleida, og af þeim yfirvega. 1. Hverium DRottenn sie settur til Falls. 2. Hverium hann sie settur til Upprisu.

Hier til styrke hinn Naaduge Gud med Naad sijns Anda i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingen.

Þesse Er Settur Til Falls, segier Textenn. Hver er þesse? Þad er hann, sem Esajas umspaaer, Cap. 28. med þessum Ordum: Sia, eg set Grundvoll i Zion, einn Stein, einn wtvalinn Stein, (so sem Petur þad wtleggur, 1. Pet. 2.) Einn dijrmætann Hyrningaar-Stein, einn fastann Grundvoll, sa sem trwer hann mun ecki flijta sier; þad er einn og hinn sami, sem David kvedur umm, Ps. 118. segiande: Sa Steirninn sem

Upp-

Uppbyggendur hafa forsmaad, hañ er ordiñ ad Hofde Hyrningar, af DRottne er þad, og er undarlegt fyrer vorum Augum. Ad þessu sie so hꜳttad, vottar sialfur DRotteñ, Matth. 21. er hañ heimfærer þeñañ Davids Spaadoom, uppaa sialfañ sig, og þar sem ad lijflietu Soneñ, er Fadiriñ sendi, þegar þeir hofdu aadur lijflaated hañs Þioona, þvi hañ segier strax eptir i sama Capitula vid Gydinga: Þar fyrer mun Guds Rijki fraa ydur tekid verda, og giefid Þiood þeirri, er færir Avoxt þar af; Er þvi audraaded hverier þeir sieu, sem ad Guds Sonur er til Falls settur, sem eru fyrst Gydingar, þeir Mordingiar, er Konung Dijrdariñar af Dogum riedu, 1. Cor. 2. og ei skipudust vid Kienningar hañs heilagra Maña og Pijslarvotta epter hañs Himnafor, jafnvel þoott þeir sææu Teikn og Stoormerke, med hverium DRotteñ styrkte Christne-Boded; So og eru þad aller þeir, sem eñ nu i Dag gaanga i þeirra Footspor, og krossfesta Guds Son ad nyju, Hebr. 6. med Vantrw og gudlausu Framferdi; Þessum er Zions Hyrningar Steirn til Falls settur; Enn med hveriu Moote er hann þa settur? Villde Gud nockud, ad þeir skylldu detta um̃ hann, sem falla? Laangt er fraa þvi, hann vill ad aller Meñ hoolpnir verde og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Kom nockud Sonurinn i Heiminn til ad fordæma Heiminn? Aungvañvegiñ, helldur til þess, ad Heimuriñ hefde Lijfed fyrer hann, Joh. 3. Var ecke Steirn þesse so audsær, ad nockur þyrfte ad detta um̃ hann? Ad sonnu var hañ so audsær, ad eingiñ þurfte um̃ hañ ad rasa. Borg sw er aa Fialle stendur, gietur ecki dulist, Matth. 5. Villdu þeir ei trwa sialfum honum, þa maattu þeir samt Verkunum trwa, er hann giordi, Joh. 10. Hvorniñ er hañ þa til Falls settur? Þar til svara eg: Ecki til þess, ad neirn skyllde falla, helldur aller upprijsa; David kiennir oss þad i þeim Ordum er eg strax um̃gat, þar hann segier, Ps. 118. Ad Uppbyggendur hafe forsmaad þennañ Stein, og þesse somu Ord Davids brwkade St. Petur, til ad sannfæra med hiñ gudlausa Hofudprestanna Flock, er fordæmde JEsum, P. G. 4. segiande: Þesse er sa Steirn, er þier Uppbyggendur hafed ad eingu haft, hvor ordenn er ad Hofdi Hyrningar, og ecke er i neinum odrum Hiaalpræde. Og þeir skipudust þo ecki meir vid þesse Sanninde, enn so, ad þeir hootudu þeim, ad ei skylldu þeir kenna edur tala i þessu Nafni framar, jafnvel þoott þeim alkunnugt være, ad þeir Petur og Johañes hefdu skom̃u aadur i JEsu Nafne giort þann heilbrigdañ sem halltur var borinn, P. G. 3. Og er ecki ad undra, þoott Guds Sonur være þess-hꜳttar Monnum til Falls settur, fyrer þeirra Hardwdar og Þvermoodsku Saker.

Laatum nu Juda fara, Brædur mijner, þeir hafa sinn Doom med sier, og sijn Laun wttekid; Enn giætum ad sialfum oss, ad ei verdi JEsus oss til Falls edur til Asteitingar. Vier vitum hveriu Christur svaradi Johañis Lærisveinum, er hann giorde þa fraa sier, til ad spyria DRotteñ ad, hvor hann være? Farid og segied Johanni (sagdi hañ) hvad þier heyred og siaed; Blinder faa Syn, Hallter gaanga, Lijkþraaer hreinsast, Dauser heyra, Dauder upprijsa, og Faatækum verda Gudspiolliñ bodud, og Sæll er sa, sem ecki hneixlar sig aa mier, Matth. 11. Þetta hofum vier alltsamañ heyrt, og eing-

eñ efar uñ DRottins Kraptaverk, med hverium hañ auglijste þad hañ sañur Gud være. Enn hvert ad vier samt og ædur ecki hneixlunst æ honum sumer hverier, þad þyrfte nockud framar ad ransaka. Einhver mun spyria: J hveriu hneixlunst vier æ honum? So spurdu og Judar fordum Daga, Mal. 1. J hveriu forsmæum vier þitt Nafn? DRottinn svarade: Þier offrid Ohreinum Mat æ mijnu Altare, þo spyried þier, hvar med saurgum vier þig? Hann svarar: J þvi ad þier segied, DRottins Bord er foraktanlegt, þvi nær þier offred hinu blinda, er þad ecki Illt, og nær þier komid frañ med þad Hallta og Siwka, er þad ecki Jllt: Ber þetta Hertoga þijnum, muntu hiæ honuñ vel þockadur verda? Seger DRottenn Zebaoth. Sama er æ Brefenu, gooder Viner; Foorner gamla Testamentisins eru afmædar med þeirri einu Foorn, er hiñ ædste Prestur hefur einusiñi innbored i þad Allra Helgasta, Heb. 9. samt eigum vier Gudi lifanda Foorner ad færa, þad er sicalfa oss, og vora skinsamlega Þioonustu, Rom. 12. Eñ þegar vier iñgaungum i Musteri Guds, dauder i hinum verstu Syndum og Glæpum ydrunarlaust; Forsmæum vier þa ecki Guds hæleita Nafn? Hneixlunst vier þa ecki æ Christo? Þegar Meñ gæanga Oforhugsader til Guds Bords, ecki reyna og proofa sicalfa sig, ecki giora Greinarmun æ millum Lijkama DRottins og añarar Fædu, 1. Cor, 11. Ecki rañsaka siñ Lifnad, so þeir meige ydrast, ecki reina hvert þeir eru i Trwñi, 2. Cor. 13. Ecki hafa fullañ Asetning til ad betra siñ Lifnad; Halda Meñ þa ecki Bord DRottens foraktanlegt, saurga Meñ þad þa ecke? Segied mier i DRottins Nafne, segied mier, er ecki þvilijkt ad hneixlast æ Christo? edur segier ecki Paulus, ad sæ ed þvilijkt giorer, hann sie sekur vid Holld og Blood hanns? 1. Cor. 11. Hvad er ad hneixlast æ Christo, ef ei er þetta? Þegar Menn ecki hyrda uñ ad læra hinn sanna Christiñdoom, so þeir fæe kieñt hañ Børnum sijnum og Hiwum, og eru so blinder Blindra Leidtogarar, Matth. 15. Og þo reka Menn þetta blinda Fe iñ fyrer DRotteñs Altare, til ad eta og drecka sicalfum sier Doom, miklu lijklegre til ad verda þar Satans Foorner, enn Guds Offur, nema hañ vilie meire Myskun æ giora: Segied mier: Offra Menn þa ecki hinu blinda? Er ecki þad ad hneixlast æ Christo? Þegar Menn vilia under eins þioona Gudi og Mañona, Matth. 6. Sitia i Kyrkiunni, enn Hiartad er wti æ Bwgardinum, edur hiæ Akneytunum, Luc. 14. Halltra Menn þa ecki æ bædar Sijdur med Prestum Baals? 1. K. B. 18. er þad ecki ad offra þvi hallta og veika? Er þad ecki ad hneixlast æ Christo, er segier: Eingiñ kañ Tveimur Herrum ad þioona? Matth. 6. Biodum þetta einhverium Veralldar Hofdingia, komum med Opvegnum Hondum fyrer hañs Bord, giolldum honum einhvern Vanmeta Grip i Skylldur sijnar, svo vium honum wt af, nær vier eigum Tal vid hañ, reynum til hvert hañ þyggur þad vel af oss, og þo vilium vier heimta slijkt af hinum stoora Konunge Himins og Jardar. Þetta er ad vijsu ad hneixlast æ Christo, ad ottast þañ, sem ecki kañ nema Lijkamanum ad granda, enn hyrda ei hvad vier giorum vid Gud, sem Lijfe og Sæalu giætur kastad i Eilijfann Elld, Matth. 10. Eg spyr, hvar fyrer hneixludust Judar æ Christo? Þvi

hañ

hann var Faatækur. Guds Faatæker eru enn nu hiaa oss: Þeir eru JEsu Limer, ef þeir under eins eru Andlega volader. Enn hvad er tijdara i Heimenum, enn ad Ovirda Faatækann, og ecke einasta Ovirda hann, helldur og ad taka fraa honum þad lijted sem hann aa og ad brwka hanns Sveita til Ohoofs og Metnadar? J Lofum Klæda þinna er Blood hinna þurfande Saalna, segier DRottenn, Jer. 2. vid Juda. Þad maa eg heimfæra til þeirra, er selia hinn Volada fyrer eirn Skoo, Amos. 2. so ad þeir sialfer, þeirra Syner og Dætur, gaanga so sem velbwnar Haller og utskorner Pijlaarar, Ps. 144. Er ecke slijkt ad hneixlast aa JEsu? Hvør ed kallar hina Faatæku sijna minnstu Brædur, Matth. 25. Og vill reikna þad vid sig giørt ad vera, sem þeim er giørt. Hvad bar fleira til þess, ad Gydingar hneixludust aa DRottne? Þad, ad hann ecke hroopade nie hafde miked umm sig, og engenn heyrde Rødd hanns aa Strætunum, Es. 42. So aasælest og Heimurenn hina spøku og kyrrlaatu og forsmaaer þa, hæder ad þeim, kallar þaa Oþocka og Heimota, þeir ed ecke bera Mannskap edur Vitsmune til ad hallda Virdingu sinne, og brioota Ok hins Dramblaata af Haalse sier; Er ecke þetta ad hneixlast aa Christo? Hvør ed ecke kom i Heiminn til ad laata sier þioona, helldur til ad þioona ødrum, Matth. 20. Hvad er þad enn þa framar, sem kom Gydingum til ad hneixlast aa Guds Syni? Þad, ad hann rak Eyrinde sijns Fødurs so skøruglega, og vandlætti umm Glæpi og Van-Trw Ogudlegra Manna. Ecki mun Diøfulinn vanta þa enn i Dag, sem ad fylge þeirra Foot-Sporum i þessu. Hver vandar so umm illar Athafner Mannanna, ad ei sie hønum aa Haalse leigid? Hver er saa, er hann þycker vegna Guds og hanns Dijrdar, ad ei sie hann Hlutsamur kalladur og sturle Jsrael? 1. K. B. 18. Ef nockur vill styrkia Maalefni Eckiunnar og hins Fødurlausa, þa giøra þeir Samdraatt aa mooti hønum, sem eingenn Fæda þyker Lostæt, utann hun sie tekinn fraa Munni hins Volada og Underþryckta. Hver er saa, ef hann vill hallda gooda Skickun i Hwsi sijnu, ad ecki lasti hann Illkvittner Menn og hate? Og jafnvel þoott ad þeir, sem vilia hlijda Gudi i þessu og vardveita Samvitsku sijna Oflecka da, þoott þeir, segie eg, giøri allt þetta epter Skylldu sijns Embættis, þa uppvekur þo Diøfullinn þeim Andskota epter sijnu eiginn Nafni, so þeim tekst ecki Guds Verk ad giøra. Simeon spaaer umm Christ, ad hann muni settur verda so sem Teikn, þad er mooti mælist; þad er, epter mijnum Skilninge, so sem eitt uppsett Teikn, er Menn plaga ad skioota aa. So var og DRottenn, wr þvi hann inngieck þad Kiennimannlega Embætti. Øll Satans Børn giørdu sier ad skylldu, ad vega ad hønum, hvar sem þeir kunnu med Ordum og Verkum, so sem lioost er af Æfi-Søgu hanns, er Gudspiallamennerner hafa oss ritada epterlaated. Soddann eitt Teikn eru aller hanns Lærisveinar, aller hanns Epterfylgiendur i Lærdoominum og Vandlætinu: Þess gietur sialfur Christur; Esa. 8. (þegar Spaamadurinn beid epter hvad Gud villdi segia, er hann bafde byrgt sitt Andlit fyrer Hwse Jacobs), Siaa, hier er eg og þau Børn, er DRottenn hefur giefid mier, so sem nockurskonar Teikn og Merke hiaa Jsraels Foolke Hvern Spaadoom ad St. Paall, til Hebræos, 2. Cap. heimfærer til Christum og

hans Barna; Og er viist, ad ecki er Lærisveirninn framar enn Meistarenn: Hafe þeir Hwsbondañ kallad Belzebub, hvad munu þeir ei giora vid hañs Heimameñ? Matth. 10. Nu er þad ad sonnu Gledilegt ad þola fyrer hanns Saker, er lofad hefur noogum Launum a Himnum, Matth. 5. Enn hitt er þeim Bol, sem Christi eru, ad þeir erfida til Onijtis, jafnvel þoott ad þeirra Embætti sie DRottins, og þeirra Mælefni þeirra Guds, Esa. 49. fyrer hinna Prioostsku Saker, er hneixlast a Christo, og lijkast er ad hann muni til Falls verda. Sialfrar Pinnar Ond Mun Eitt Sverd i Giegnum Ganga, sagde Simeon vid Guds Moodur, teiknande an Esa þar med, Harma þa, er henni mundu til Handa bera wt af Mootmælum þeim, Ossooknum og Pijslum, er hann i Anda sa, ad DRotteun mundi þola verda, adur enn hann feingeoss synduga leyst fra eilijfum Pijslum. Ein Riett-trwud Saal, er Christi Andleg Mooder, þad vottar St. Paall til Gal. 4. Sonakorn mijn, med hveria eg þwngbwinn er, þar til Christur myndast i ydur aptur ad niju. Mun ecki þessi JEsu Mooder kieña i Brioostе, nær hun sier DRottenn aptur ad niju Krossfestañ, Ebr. 6. fyrer Augum sier, af Bornum Veralldarinnar, med hinum verstu Syndum og Glæpum, þeim til Olucku, sem, eins vel og hun, eru med Guds Bloodi endurkeypter, og fær þo ecke vid þvi giort, helldur enn Maria vid Pijslum Sonar sijns, Illsku þeirra vegna, sem ad hneixlast a honum: Enn þeir hlæa þar ad, og þad Angur, sem Guds Born kvelur fyrer þeirra Ogæfu Saker, hafa þeir ad Skimpe og Athlætre; þad liggur þeim liett i Skape, þoott ad Menn fræst uñ þetta, og segia: Ad þeir siae ecke meira Bann a sier enn þeim, er læta sier þeirra Olucku til Hiarta ganga. Segied mier i Guds Nafne, segied mier: Er ecke þvilijkt ad hneixlast a Christo? Og er nu so nockud hier uñ talad, hverium hann sie til Falls settur.

Nu viljum vier i Sijdari Partinum læra, hverniñ hann sie til UpPrisu settur. Til UpPrisu margra, seger Texteñ: Oss er kunnugt med hveriu Moote ad Johañes Skijrare hoof siñ Lærdoom: Giored Ydran, sagde hañ, þviad Guds Rijke er nalægt, Matth. 3. Vidlijkañ Formaala hafde St. Petur fyrer Judum, er hañ i fyrstu bodadi þeim Heilsugioss þessa; þa þeir spurdu ad, hvad þeir giora skylldu? svarade hañ þeim: Giored Ydran, og sierhver ydar læte skijrast i Nafne DRottins JEsu Christi til Fyrergiefningar Syndaña, P.G. 2. So er þa Christur þeim til UpPrisu settur, sem ydrast Syndanna, og trwa ad þær verde sier i hañs Nafne tilgiefnar. Ein alvarleg Ydran er hin fyrsta Trappa til þessarar Upprisu, epter þad ad Meñ hafa þeckt Veg Sañleikans; Eñ fyrer þvi ad Ydraneñ verkar ecki i Mañsins Hiarta, nema vier þeckium Syndina, þa er einsætt ad læra Guds Vilia af hañs Logmaale og Orde, ecke alleina til ad laga siñ Lifnad þar epter, helldur og til ad þeckia hvad oss er Abboota vañt, sem vier fyrer viist vita meigum ad all-miked er, og fleira, eñ vier þeckia kunnum edur upp ad reikna. Enn þoott ad eingiñ vita kunni hvad opt hañ fellur, Ps. 19. samt eigum vier med hinu mesta Athygle ad halld'a Daglegt Rañsak uñ sialfa oss og vora Lijfernis Hattu,

til þess, ad vier þeckium Syndina og hennar Liootleik, so þar af vaxi Angur og Tregi i Hiarta voru: Enn fyrer þvi ad þetta Hiartalag tekur eingenn af siaalfum sier, þa vill þar til ydugleg og alvarleg Bæn, ef Ydraneñ aa so heit ad vera, ad hun Gudi liki, þvi hañ nægist ecki med Hiegooma nockurn; Hiartad aa ad breadna og klockna fyrir Gudi, ef hañ aa Syndina burt ad taka: Ecki dugir soddañ Ydran mikid sem hann uñtalar hiaa Jeremiam, Cap. 3. segiande: J ollu þessu sneriſt ecki til mijn hin fraafallna Syſtir Juda af ollu Hiarta, helldur voru þad ei nema Læti hennar, seger D Rotteñ. Eckert kann þad ad duga hiaa Gudi, sem hañ ecki siaalfur verkar, þvi af siaalfum oss til megnum vier eckert Gott ad framkvæma; Nema vor Hrygd sie epter Gudi, so sem Paall ad Ordi kiemſt, 2. Cor. 3. þa er hun Onijt; Soddañ Ydran vill hañ skyrpa wt af sijnum Muñi, þvi hun er volg, Op. B. 3. Þad er aagiætt, sem Nicephorus Calliſtus skrifar epter hinum gooda Keysara Theodosio, er hañ sagde, ad þad væri eingiñ Undur, þoott nockur dæi, þar hañ væri Madur, eñ þad væri eins Guds, ad kalla þañ aptur til Lijfsins med Ydraninne, sem eitt Siñ daudur væri; Þvi er hier af audsied, ad Meñ skulu þyggia Ydranena med Bæn af Gudi, so vel sem allt annad, ef hun aa honum ad þocknaſt, og maa þad ecki hindra nockurs Mañs Alvorugiefne i Ydraniñe, þoott ei sie hañ sier hiña verſtu Klækia og Bodorda Brota medvitande. Noog er þad til ad koma wt Taarunum aa einu Guds Barne, ad þad gietur ecki eitt Augnablik Syndlauſt lifad, ef Giordir vorar ættu ad stikaſt aa Guds Riettlætis Mæli-Snwru. Eitt Hiarta, sem elskar siñ Gud, er hægt ad bleita, þad aangraſt meir af sijnum Ofullkomlegleika, helldur enn hiñ Gudlauſi af Myñingu allra siña Skaña og Odaada. So ad David, i ollum sijnum Heilagleika, hañ vætir sijna Sæng i Taarum alla Noottina, Ps. 6. vegna siña Afvyrdinga, þar hiñ Ogudlegi Manasses fiñur eckert til siña Stoor-Glæpa, fyrr eñ hañ er beygdur i þrongum Jaarn-Vidium, 2. Kron. 33. Nu þoott ad saa hafi miklu aflokid, sem hefur straffad siaalfañ sig, med alvarlegum Trega fyrer Syndina, þvi þad aa heima hiaa þeim, er Poſtuliñ segier: Ef vier dæmum siaalfa oss, þa verdum vier ecki dæmdir, 1. Cor. 11. Samt er þad ecki noog ad laata sig ydra Syndaña, nema Meñ treyſti þvi fullkomlega, ad hiñ naadugi Gud muni sier uppgiefa alla Skulldina, fyrer JEsu blessada Forþienuſtu; Ydraniñ kaſtar Syndaranum nidur fyrer Guds Fætur, til ad audmykia sig under hañs vollduga Hond, eñ Trweñ reyser hañ upp aptur, og giorer hañ þess fullvruggann, ad hañ hafi frijañ Tilgaang til Naadar-Stoolsins, Hebr. 5. hversu sem hañ sie hinum verſtu Syndum hladiñ, og þad ecki fyrer nockurs Mañs eigiñ Verdugleik, Ætt edur Atgiorfi, þvi Gud er Heilagre, Vollduge, og Riettlaatare eñ so, ad nockurt af þessu edur einhver añar veralldlegur Hlutur meigi faa hañ kreinkt edur yfertalad, helldur skiedur þad alleina af hanns skiærri og einsamalli Goodgyrne og Myskun, fyrer þad Lausnar-Gialld, er hañs Eingietinn Sonur hefur ad sonnu wtlagt fyrer alla Verolldina, eñ þeir einir munu Not af hafa, sem aa hañs Nafn trwa, P. G. 10. Af Ydraniñe og Trwñi framkiemur Elskann til Guds, ef þær eru añars so sem þeim vera

byriar. Ydraniñ sijnir oss vorn Overdugleik, og hverniñ vier hofum med Glæpunum unnid til hinna bitru Helvijtis Pijsla: Eñ Trwiñ, Guds Giædsku og Orannsakanleg Myskunar Ydur, i þvi ad uppgiefa þau morgu Tiju Þusund Punda, sem vier ecki einasta einusinne, helldur Ar epter Ar, verdum hinum gooda Gudi skyllduger uñ, hvad ef vier yduglega hugleidum og samannberum i Hiarta voru, þa kuñum vier ei ad fara a Mis vid þad, ad þar af kvikne ein brennande Elska til hañs, er so vel giorer til vor Overdugra, og fyrergiefur oss margar Synder, og hun er hin einasta Root allra Dygda og Mannkosta, og jafnvel Logmaalsins Uppfylling, so sem Paulus uñ Kiærleikann vottar, Rom. 13. Þvi þad er vijst, ad saa sem elskar nockurn, hann skirrest vid ad styggia hann, og verdi honum þad Ovart, þa angrar hann þad af Hiarta, og unir illa Hag sijnum, neima hann sæe komed sier aptur i samt Lag og naa i hanns Vinaattu, er honum þyker inndællt ad elska. So eru og Guds Born lynd: Verdi þau yferstijgenn af nockurri Hrosun, þa standa þau braatt upp aptur til ad fridmælast vid Gud: Þad sie eg a David, Psalm. 38. Þad sie eg a Petre, Matth. 26. og odrum fleyrum, hverier, er þeir hafa ratad i nockurn Glæp, hafa þeir ecki Frid edur Roo haft, fyrr enn þeir hafa sættst vid Gud, hvern þeir af Hiarta elskudu. Enn ecke er þess ad dylia, Born mijn goo'), ad þeir sem eru i miklum Kiærleika vid Gud, og ordner eru einn Andi med honum, 1. Cor. 6. Þeim er miklu vandara enn odrum i slijku. Fadirinn heimtar meire Elsku af Syninum enn af Þrælnum, jafnvel þoott sijdur giore hann Barnid Arflaust, helldur enn Þrælenn wtlægann wr Hwsenu: Þad mætti ætla, ad margur hefde meira tilunnid vid Gud enn Moyses, þegar hann sloo Tvisvar a Klettinn, Num. 20. Enn fyrer þvi ad hann var Gudi so Handgeinginn framar odrum, þa vard hann straffadur. Margur Konungur hefur læted telia Lands-Foolked, til ad vita hvor hanns Makt væri, og hvad hann mætti reida sig uppa. Þo vard þad David til Syndar reiknad, 2. Sam. 24. Jaa, stoorrar Syndar, af þvi hann i þad Siñ hafdi meira Traust a Mañ-Aflanum eñ a Gudi, er þo so optlega hafdi barist fyrer hañ, og lagt hañs Fiand-Meñ ad Velli. So skulum vier og meina uñ þañ, sem Gud hefur eitt Sinn ad sier tekid: honum veiter hægra ad bera Avoxt, enn hinum, sem eñ þa hefur ecki notid þeirrar Naadar, og viñur hann þvi til meiri Hegningar, Luc. 12. ef hann afbregdur. So er þesse Elskann til Guds, sem af Ydraniñi og Trwñi framkiemur, nockurskonar Sædi, hvar af allar goodar Dygder spretta, sem adur er sagt: Og af henni kiemur hin nija Hlijdne og Umboot Lijfdaganna, aan hverrar bædi Ydraniñ og Trwiñ daudar eru og Maktarlausar, þvi þad er eingin Ydran sem losar Mañinum aptur ad gaanga til somu Synda, og þad er ecki hin saña Trw, sem ei verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Hvar uñ St. Jacob noogu skoriñordt talar i sijns Pistils 2. Cap. Og þessi er hin Andlega Upprisa, hin Fyrri Upprisa. Sæll er saa sem hefur Hlutdeild i henni, seger Guds Andi i Opinberingar Bookinni, 20. Cap. Og hefi eg nu med nockrum Rokum sagt, hverium Christur sie til Falls settur, og hverium til Upprisu. Gud giefi ad hinns sijdara

megi

megie sem flester niootande verda. Gioreſt þvi eige Stallbrædur Gydinga, er þennañ Hyrningar Stein forsmaadu, hver sem yfer hañ fellur, þann mun hañ sundurbriota, og yfer hvern sem hann fellur, þann mun hann sundurmola, Matth. 21. O þier saavijsu Born Veralldariñar! O þier Paafuglar þessa vonda Heims! Torvelldara mun ydur verda ad beria Hofdinu vid þennañ Stein, enn St. Paale ad spyrna aa moote Broddunum, P.G. 9. Hann hefur, fyrer ydur og allra Maña Skulld, Hoggormsins, þad er, Diofulsins Haus i sundur molad, Gen. 3. Munud þier vera sterkare enn ydar Hofdinge, sem er Gud Veralldar þessarar, og drottnar i ydur Bornum Vantrwariñar? Eph. 2. Ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerter Fialls-Næturnar, þa skal þad Dauda deya, sagde Gud vid Moysen, Exod. 19. under þad hañ wtgaf sitt heilaga Logmaal: Eñ þegar sa Steirniñ, sem einusiñe er af Fiallinu wtskoreñ og sundurbraut Jaarned og Leyrenn, Gulled og Silfred, Dan. 2. Þegar hann, segie eg, i annad siñ dettur yfer Gudlausann Heim þennañ i hañs sijdari Tilkomu, munu þa Fiolliñ hylia ydur fyrer hañs Reide? Opinb. 6. Munud þier fa stadeſt i hañs Auglite, sem jafnvel hin mektugu Konga-Rijke hefur i sundurbroted? Edur vited þier ecki, ad þier Leyr og Aska erud? Jaa, breisk Leyr-Kier, sem optlega detta sundur af sialfum sier, auk helldur ad þier kuñed ad bwa vid þeñañ fortærande Elld. Gud er eirn mektugur Konungur, Himiniñ er hanns Haasæte, Jordenn Skor hañs Foota, P.G. 7. og nær hañ drepur Fætinum vid Þwfu þessare, vid þessare Madkaveitu, hvar iñi vier synduger Ormar skrijdum hver um añañ þverañ, þa titrar hun og skielfur, eins og Lauf-Blad fyrer Vinde: Munud þier þa stadeſt gieta hañs Tilkomu Dag? Mal. 3. nær hañs Reidi tekur til ad breña allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Þvi forsmaaed þier þa hañs Riettinde, þvi hallded þier hañs Sendiboda fyrer eina Skoo-Þurku, og þvi hafa hañs Ord ecki Rwm i ydur? Þvi jafnvel þoott ydur megi hitna i Brioosteum Stundarsaker, þegar Guds Reidarþruma slær um Eyru ydar af einum Predikunar-Stool, þa er þo Snioorrñ leingur a Steinunum, þegar Regnid ofañ klemur, Jer. 18. helldur eñ Myñing hañs Ognarlega Nafns hia ydur. Þvi vanvirded þier hañs Sacramenta, þvi hneixled þier hañs Vesælinga, þvi forsmaaed þier hañs Volada, þvi rænid þier hañs Faatæka, þvi hamlid þier Rettinum ad hafa siñ Frañgaang, þvi hefied þier hiñ Raanglaata, eg nidurdrepid hinum Saklausa, þvi halldid þier iñi Sveita Daglaunarans, þvi giorid þier allt þetta, og ætled Gud muni ecki fæRa ydur under siñ Doom fyrer þessar bloodugu Skamer og Illgiorder, ef þier segieſt ecke hneixlast a JEsu? O þier Eitur Ormar og Nodru Kyn! Vered þo ecki argare eñ Phariſæi og Skriftlærder, sem komu til Johañis Skijrnar, Matth. 3. og siaaed til, ad þier faaed umflwed tilkomande Reide. Gioreð Ydran, medann Guds Rijki er naalægt. Leited DRottens medann hann er ad finna, Esa. 55. og miñist vid Soniñ, ad þier eige fyrerfareſt a Veiginum, þegar hañs Reide tekur til ad brenna! Sæler eru aller þeir ed leita Athvarfs hia honum, seger David; Jaa, Sæler erud þier, sem eckert Athvarf hafed i Heime þessum, þvi DRotteñ er ydar Hlutskipte. Sæler

erud

erud þier, sem alla Hlute hafed yfergiefid, og jafnvel sialfsa ydur, þvi þier skulud faa Hundradfallt aptur, og erfa eilijft Lijf, Matth. 19. Sæler erud þier, sem forsmaaed allt Ysferlæte og Skarkala Veralldarinnar, þvi þier leited ad þvi sem þar uppi er, Col. 3. Sæler erud þier, nær þier alla Hlute þola vilied fyrer Guds Saker, þvi ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum, Matth. 5. Sæler erud þier midt i Hormungunum, midt i Armæsunum, midt i øllum þeim Raunum sem ydur til Handa bera, þvi Guds Kraptur fullkomnast i ydar Breiskleika, og þa þier veiker erud, þa erud þier mmatuger, 2. Cor. 12. Sæler erud þier, nær Heimuren kallar ydur Afrak og Hreinsun Veralldar, þvi þa erud þier dijrmæter i DRottins Augum, þier skulud siaa ydar Glede nær þeir munu til Skammar verda, segier DRottenn, Esa. 66. Þad sem Heimsins Born troda under Footunum, þad er Guds Hæsæte aa medal vor. Eins Idrande Syndara Hiarta, Esa. 57. Eins Guds Vesælings Saala, er hanns Himin aa Jordunne. Morg Skwr rignir þadann ad sonnu yfer þennan Taaranna Dal, en aller þeir Dropar falla i Guds Siood, Ps. 56. Hann telur þaa og geymir so sem annad Fwlgu-Fie, hann grefur ecki þetta Pund i Jordu, helldur skilar þvi aptur med yfermaata miklum Avexti, þegar þad verdur uppskored med Gledi, sem hier var i Taarunum nidursaad, Ps. 126. Hid naatturlega Regnid kiemur fraa Himnum ofan, og frioofgar Jordina, so hun ber Avoxt. Taar hinna Andlega Voludu i Heimi þessum koma fraa Gudi, þau færa þann Avoxt er safnadur verdur i Bindini Guds Barna, i hinni stooru Endurfædingu, sem Lausnaren umgietur, Matth. 19. Ef eg leige nockurs Mans Jord undir Bw mitt, þa krefur hann mig Landskulldar hvert Ar, og þad þess vegna, ad hann ætlar mig ecki fullvedia, edur maa ecki sialfur missa. Enn þvi er ecki so varid fyrir hinum stoora Akur-Manni, Gudi Allsheriar, Joh. 15. Eg vil allshugar feiginn byggia honum Hiarta mitt, laate hann Ploog Logmaalsins, Ploog Ydrunarinnar, Ploog Hormunganna ganga um þennan Stoorgrijtis Akur, so sem hann vill, laate hann Gudlaus Villu-Dyr Heims þessa spora hann i sundur og Footum troda, so sem honum Blessudum lijkar, þad er mier fyrer minstu, þegar eg veit hann er mier nadugur, og eg maa alltijd missa so mikid, sem hann vill laata mig missa, þvi einkis freistar hann yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Og þoott mier þykia mege, so sem hann svare mier ecki hvers Ars Rentu, sem þo ecki er, þa maa eg þo vita, ad hann er bædi trwr og Fullvedia, og er eg þess fulloruggur, ad hann muni um sijder endurgiallda mier hina liettu Byrde Hormungarennar, sem varer um Augnablik, med yfergnæfannlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4.

Hverrar niootandi ad verda, unni og veiti øllum Guds Bornum hin Haaleita Guddoomsins Þrenning, hverri ad sie Lof og Dijrd, Velldi og Kraptur um Allder Allda, AMEN.

## A Nijaars Dag.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

I Þann

I Þañ Tijma. Epter þad ad Atta Dagar voru lidner, og þad Barned skyllde umskieraſt, var hans Nafn kallad JESUS. Hvad er kallad var af Englinum, ꜳdur eñ þad hañ var Gietiñ i Moodur Kvide.

## Exordium.

KOmid og ſkodid Verkiñ DRottins, ſegier Skꜳlldid, Pſ. 66. hvad Vyrduglegur hañ er i Verkum ſijnum vid Mañaña Sonu. Til þeſſa vil eg eirniñ hafa kvadt ydur, Brædur mijner, ꜳ þeſſum Hꜳtijdis Dege. Hvornenn Guds Dijrdarfulla Almætti Dꜳſamlega ſtioornar Arinu oſs til Nota; Þad heyrum vier i hinum 74. Pſalme, þar David ſegier: Þinn er Dagurinn, þijn er eirninn Noottinn, Liooſid og Soolina hefur þu tilbwed, Jardarennar Enda hefur þu afmarkad, Sumar og Vetur hefur þu ſkapad. Hier yfer lꜳtum vier nærſta lijted, Børn mijn. Gud giæfe, ei finduſt þeir, ed møgla, þegar hanns Rꜳdſtofun er ecke epter vorum ſyndugum Vilia. Hvar fyrer? Þvi þad ſkiedur Daglega, og vier høfum þeſs Not ꜳ hverre Stundu, og þiker þad Skyllda Guds, ad ſvipta oſs ecki þvi hann eitt Sinn gaf. Jeg heyri ecki ad Jonas hafi þackad Gudi fyrer Lundenn, ꜳ medann hann ſtood, enn reidur vard hann, þa hañ viſnadi, Jon. 4. Mundi ecki hinn Blindi verda allshugar feiginn, mætti hann hid Bleſſada Lioos Soolarinnar Augum lijta? Enn hinum Heilſkigna þyker þad lijtis verdt. Hverſu lꜳngar þann, er Omæder, epter Vatninu? Þad ſie eg ꜳ Konunginum Dario, er hann drack hinn ſætaſta Dryck Æfi ſinnar wr Heſt-Farinu; Enn þo ecki ſijdur af Epterlijkingunni, um hinn Rijka Mann, er hann æſkte eins Vatns Dropa af Fingri Lazari, þa hann vaknade upp i Helvijti og Kvolunum, Luc. 16. hvern hann mun þo lijtils metid hafa, þegar hann liek ſier ad allri Fullſælu Veralldar. Jeg tek hina Almennileguſtu Hluti, ſem minnſt eru af Mønnum virdter, til ad ſijna vort Oþacklæti vid Gud, i Stadenn þeirra Hluta, er hanns Millde øllum jafnt veiter, Vondum og Goodum, Rijkum og Fꜳtækum, Stund epter Stund, Dag eptir Dag, Ar epter Ar. O minn Gud! Hveriu ſkulum vier þier giallda? Eckert hefur Snaudur fyrer ad giefa. Hveriu ſkulum vier ſvara? Ecki Einu ꜳ mooti Þuſund, Job. 9. Hvad ſkulum vier af oſs giøra? Bꜳgt er þꜳngad ad flija, ſem Hond þijn næe oſs ecke, Pſ. 139. Vier villdum ad ſonnu giefa þier alla oſs med Sꜳlu og Lijkama, enn þad er allt þitt, þu hefur oſs þad ꜳdur giefid. Gud nꜳdi þad vier høfum teked þijna Limu, og giort þꜳ ad Satans Limum; Lied þꜳ til Verkfæra Rꜳnglætinu, og Syndinni til Jbwdar, Rom. 6. So vier mættum kvijda þvi, ad hinn Heilage i Iſrael mundi lꜳta þvilijkum Saurendum wtkaſta edur þau i Ellde brenna. Eitt høfum vier til Rꜳds epter, ſem er Forþienuſta þijns Eingietins Sonar. Vier høfum Ohlijduger vered, Dan. 9. Hann var hlijdugur allt til Daudans, Phil. 2. Vier

Vier hofum Logmaalid brotid, hañ er kominn til ad uppfylla Logmaalid, Matth. 5. Vier erum Oumſkorner i Hiortum og Eyrum, P.G. 7. Hann hefur umſkeraſt laated, ſo hann umſkieri Iſraels Hiarta og hañs Sædis Hiarta, Devt. 30. Logmaaled lijſer Bolvan yfer þeim, ſem ecki helldur allt þad ſem ſkrifad ſtendur i Logmaalinu, Devt. 27. Enn Guds Eingietinn Sonur hefur Bolvan Logmaalſins uppaa ſig teked i ſinne Umſkurn, þvi Paulus ſegier: Ad ſaa ſem umſkieraſt lætur, hann ſie Skulldunautur alls Logmaalſins, Gal. 5. Enn þo hann Logmaaled uppfyllte, þa hefur hann ſamt Logmaalſins Bolvan þolad: Hann eirn, ſem giordi allt þad i Logmaalinu ſkrifad er, hann einſamall er aa mooti Logmaalinu ad ſiaalfs ſijns Vilia daaenn. Hann eiñ, ſem aatti alla Hluti; Hann betalade þad hann rænti ecki, Pſ. 69. Og hañ, ſem er Gud bleſſadur um Allder, Rom. 9. Hann er ſo ſem annur Bolvan uppheingdur. Laated þvi lijkann Guddoomſins Kiærleika upprickia ydar Hiortum i Himininn um Stundarſaker fraa jardneſkum Hiegooma, til ad umſkieraſt med Chriſto: Af hvers Allra Helguſtu Umſkurn, er oſs bodud verdur i þeſſu Evangelio, vier vilium læra, ad umſkieraſt i Andlegann Maata, Eph. 4. Vil eg þvi laata Tal mitt vera þar um i þetta Sinn; Hverninn hiñe Andlegu Umſkurn haattad ſie. O Drotteñ umſkier þu Hiortu vor med Sverdi Andans, So þetta vel luckeſt fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

EF þu vardveiter ecki Logmaalid, þa er þijn Umſkurn ordinn ad Yferhwd, ſegier Paall, Rom. 2. Ad ſonnu talade hañ þad Gydingum til Blygdunar. Eñ þo maa hier af ſiaa, ad hin ytri Umſkurn muni ecki hafa einhlijt verid til Saaluhiaalpar. So ſem þad var nu fyrer Gydingum, ſo er þad og fyrer oſs, Brædur mijner; þvi ecki meigum vier vænta oſs betri Koſta eñ hiner naatturlegu Kviſterner, Rom. 11. Ecke eru aller þeir full-Chriſtner, ſem opinnberlega eru ſkijrder, helldur þeir ſem fyrer Skijrnina eru med Chriſto greftrader til Daudans, og lifa i Endurnijungu Lijfdagaña, Rom. 6. Packer og Lof ſie eilijfum Gudi, ſem fyrir Vatns-Saaeñ i Ordinu hefur endurgietid oſs i Chriſto til lifandi Vonar, 1. Pet. 1. Eñ þar fyrer hefur hañ endurgietid oſs, ad vier ſkylldum Gudi lifa, enn Syndinni deya. Þar ſkal koma eirn Dagur, ſeger O Drotteñ, fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 9. ad eg ſkal heimſækia alla Oumſkorna, ſem eru i Umſkurneñe. Þar af ræd eg, ad margur muni hafa bored þetta Teikn aa ſijnum Lijkama, ſem ecke hefur haft þeſs mikel Not i ſijnu Hiarta, ecke ſijdur enn nu. Munu ecke allmarger giefaſt þeir, er hrooſa ſier af Gudhrædſluñi, eñ afneita þo heñar Krapti, 1. Tim. 3. Margur mun ſkijrdur med Vatni og Anda i fyrſtu, ſem illa lijdur ad laata ſig med Chriſto fyrer Holldſins Deydingu umſkiera. Aller Heidingiar eru Oumſkorner, ſeger O Drotteñ, Jer. 9. Enn Iſraels Hws er Oumſkored i Hiarta. Þar er ad Ottaſt fyrer, ad Gud hafe eñ nu i Dag Ordſok til ad ſegia: Ad Tyrkiar og Tartarar ſieu Oſkijrder, enn marger þeir ed ſig Chriſtna nefna, ſieu Oſkijrder i Anda, edur ecke umſkorner þeirre Umſkurn, er Paulus um-talar, er hañ ſegier: Þier erud umſkorner þeirre Umſkurn

Umſkurn, ſem ecke er med Hondum gior, hvor ad er Umſkurn Chriſti, Col. 2. Þad er, Deyding Holldlegra Gyrnda, fyrer Chriſti Dauda, Chriſti Uppriſu og Chriſti Anda. Nu verdur i Skriſteñe ſierdeilis gieted um Andlega Umſkurn aa Tveimur Lijkamans Portum: Baada nefner Stephanus Pijſlar-Vottur O Rottens, ſegiande; Þier Hardſvijrader og Oumſkorner i Hiortum og Eyrum, þier mootſtanded jafnann Heilogum Anda, P. G. 7. Hiartad kallar Ritningenn Mañſins Hugſkot og Krapta Saalarennar, er þvi fylgia; þad vill Gud laata umſkiera ſier til Ibwdar. Af Hiartanu wtgaanga vondar Hugſaner, Mañdraap, Hoordoomur, Frillulijfe, Þioofnadur, Liwgvitne, Laſt-Mælge, Matth. 15. Þetta Illyrme ber ad wthreinſa ur Hiartanu, ef Gud ſkal þar innebwa fyrer H. Anda. Synder og Glæper eru Dioſulſins Fooſtur, hvor hann gieted hefur vid ſpilltre Mannſins Naatturu, fyrer Samþycke Vilians; enn hvorſu maa Guds Eingieteñ Sonur, ſem er Lioome hañs Dijrdar og Imynd hanns Guddoomlegrar Perſoonu, Ebr. 1. eiga Seſs vid Dioſulſins Dætur? Hann hefur Trwlofad ſier hreina Brwde, þa ed hvorke Fleckane Hrucku hefde, Eph. 5. þvi er ei Von ad hann vilie i ſama Herberge lijda þeſſar Helvijtes Ambaatter. Rek wt Ambaattena med hennar Syne, þvi Sonur Ambaattarennar ſkal ecke erfa med Syne hiñar Frialſu, ſegier Ritningeñ, Gal. 4. Syner Ambaattarennar eru Holldſins Verk, þau byriar wt ad reka i Eydemorku, aaſamt Moodurenne, eda ad miñſta Koſte, ad temia hana, ſo ad Agar drottne ecke yfer Sara, nie Iſmael offæke Iſaac, Gen. 21. Ef þijn Hond eda þinn Footur hneixlar þig, ſegier JEſus, Matth. 18. þa ſniid hann burt og ſnara honum fraa þier; Þad heiter ad umſkieraſt i Andlegañ Maata. Ecke hefur Gud Þocknan aa þvi, ad nockur meide edur hamle Lijkama ſinn, eins og Baals Preſtar, 1. Kong. B. 18. Og þoott hann hefde, þa være ſaa Footur edur Hond betur af-hoggveñ, ſem ætlar ad draga Mañeñ til Helvijtes; betra er þau rotne hier aa Jorduñe, eñ ſvijde eilijflega i Helvijte. Enn þeſs þarf ei vid: Þar er Sverd Andans, Hebr. 4. ſem affniijdur ſo ecke aa ſier, þad giorer Svida um Hriijd, eñ þad bæter eilijflega, þad verkar Hrigd um Stundarſaker, eñ epter aa giefur þad Fridſamlegañ Avoxt Riettlæteſins, Hebr. 12. Þier gieted ecke under eins drucked Chriſti Kaleik og Dioſulſins, ſegier Paall, 1. Cor. 10. Hefde Guds Heilagleike gietad lided Andſkotans Saurende, munde hann ecke hafa vered Utſnaradur af Himne; Gud villde ecke lijda Satans Naalægd i Himnarijke, eige helldur i ſijnu Riike hier aa Jorduñe, ſem er, i Guds Barna Hiortum. Guds Rijke er iñe hiaa ydur, ſegier Frelſarinn, Luc. 17. Enn hvor hann Syndenne þioonar, þad er, hvor hana lætur drottna i ſijnum daudlegum Lijkama, hann hefur giorſt Andſkotans Madur, eñ raaded Þegn undañ Gude. Þvi ſegier Paulus, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hvorium þier liaaeſt i Þrældoom til Hlijdnes, þeſs Þrælar erud þier, er þier hlijded, hvert helldur Syndeñe til Dauda, edur Hlijdneñe til Riettlætes? Laated ei villa ydur! Eg vil þioona Gude i Verkunum, eñ hvad mier flijgur i Skap, fæ eg ei vidgiort. Þad er ad vijſu ſatt: Fuglarner verda ad ſoñu ad fliuga yfer Hofuded, þad er baagt ad banna,

enn ecke þurfa þeir ad hreidra sig i Hœrenu. Eg vil þioona Gude i Verkunum, segier þu; Hvad þa? Ætlar þu ad þioona Syndenne i Hiartanu? Sicq þœ til, ad þu faer ei sama Vitnisburd og Pharisæi, ad hid Ytra siertu fagur, eins og daudra Maña Grafer, enn Innvortes fullur med allskonar Oþeckt, Matth. 23. Þegar Hiartad er gott, þa er meire Von œ ad allt sie gott, þvi Gud œlijtur Hiartad, 1. Sam. 16. Goodur Madur, af goodum Fiesiood sijns Hiarta, fram̃ber Gott, segier Hiartnanna Rannsakare, Matth. 12. Engenn kann ad segia: Mitt Hiarta er hreint, eg em klœr af Syndenne, Ordsk. B. 20. hitt kañ eg af Alvoru ad giora, ad bidia Gud ad skapa i mier hreint Hiarta, Ps. 51. Hvad ef ecke tekst ad ollu leite, vegna þeirrar Syndar sem i mier bijr, Rom. 7. þa tekst þad fyrer JEsu Blood, sem hreinsar mig af ollum Syndum, 1. Joh. 1. Þvi hann er komeñ ad kalla Synduga enn ecke Riettlœta til Ydranar, Matth. 9.

Eg hafde nærre þvi sagt, ad Davids Synder hefde betre vered enn Phariscæanna Riettlæte. David drygde ecke Syndena med þvi Hiartalage, ad hun skyllde Velgiordheita, helldur af Mannlegum Veikleika; Enn allt Pharisæanna Riettlæte var ecke nema Synd, þvi Goodverk þeirra fram̃komu ecke af Hiarta, helldur til þess ad byrtast fyrer Monnum, Matth. 6. og þo villdu þeir þad skyllde fyrer Gude gillda. Sœ Gud, sem lætur þeim alla Hlute þiena til Gooda, er hann elska, Rom. 8. Hann liet Davids Synd honum fyrer bestu verda, 2. Sam. 12. Eñ Pharisæanna Riettlæte snerest þeim jafnañ i Synd, so sem allt þad, er ecke fram̃kiemur af Trwnne, Rom. 14. œn hvorrar Omogulegt er Gude ad þocknast, Hebr. 11. Engeñ segier oss betur enn Moyses, hvorneñ Mannsins Hiarta um̃skored verdur, Devt. 30. O Rottenn mun um̃skiera þitt Hiarta, so ad þu elsker O Rottenn Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þinne, ad þu lifer. Elskañ til Guds er þad Verkfære, sem best afsnijdur Synder og Leste. Hinn œgiarne vinnur alla Hlute fyrer Rijkdoom. Hvad sparar sœ Heiptrækne til þess, ad hañ fœe sijnum Ovin fyrerkomed? Lijtels hefur margur Daudañ aktad fyrer Metorda Saker; og þvi skyllde þa ecke Gud vera so sterkur i þeim, er hann elska, so sem Andskotenn i Bornum Vantrwareñar? Eph. 2. Sœ sem elskar Vin siñ, hann kostar Kapps um̃, ad giora sem mest epter Giede hañs. Aller Hluter eru sameiginleger Vina œ millum, ef þad er Falslaus Elska. Elskann samteinger alla Hlute, so ad Skinlauser og jafnvel dauder Hluter teingiast sijn œ mille, þess vegna, ad hvors Náttura œ vid annañ. Ef þetta Elskunnar Logmœl er nu so rijkt i Natturu Hlutaña, þvi skyllde þad ecke hvorium Mun framar œ millum Guds og Mannsins, sem epter hañs Mynd er skapadur? Engeñ Efe er œ þvi, ad sœ sem fyrst være komenn i fullkomeñ Kiærleika vid Gud, hañ telde eingañ Hlut epter sier ad giora hañs vegna, hann giæfe sig og allt sitt alleina Gude, so hañ mætte hañ eirn œvinna, og hañ yrde eitt med honum, og allt hvad Gud bijdur, og odrum vyrdest þungt ad vera, þad yrde honum sæt Byrde, og þvi segier Pœll, Rom. 13. Ad sœ sem elskar, hafe Logmœlid uppfyllt. Gud er Kiærleikurenn, segier Johannes, 1. Pist. 4. Cap. Og sœ sem er i Kiærleikanum hann

er

er i Gude og Gud i honum. O HErra Gud! Hvilijkt er þetta? Hvorneñ maa sa sko-
ra sig undañ nockrum Hlut, ad þola Guds vegna, i hvorium Gud bijr? Kann sa um̃
Æfi illa ad fara sem er i Gude? Fellur hañ i Synd nockra, þa er Guds styrkve Arm-
Leggur næalægur ad reisa hañ, Ps. 145. Ef hanns Hiarta fordæmer hann, þa er Gud
maattugre hanns Hiarta, 1. Joh. 3. Ef Vondskufull Heimsins Efterdæme ætla ad
villa hañ, þa er ei Guds Fijngur honum fiarlægur til ad benda honum aa hiñ rietta Veg:
Og ef Satan fer aa Hendur einum med Her Freistingaña, þa hefur hañ þañ ad Vist-
um med sier, sem ad er Trwr, og engañ lætur freistast yfir Megn fram̃, 1. Cor. 10.
Þvi aalikta eg so; ad eckert sie kroptugra, eckert aagiætara og eckert heilnæmara Med-
al, til ad um̃skiera Mannsins Hiarta, enn Elskann til þess eilijfa Gooda, sem er hiñ lif-
ande Gud. Eg gat og þess fyrer skom̃u, Bræður mijner, ad Meñ ættu sijn Eyru i And-
legann Maata ad um̃skiera. Eyrunn eru Dyr Hiartans, i giegnum hvør margt gein-
gur, bæde Illt og Gott; Sæll er sa sem þessu fast helldur, enn wtskwfar hinu. Paulus
varar oss vid, ad engenn fwl Ræda wtgaange af Muñe vorum, Eph. 4. Hun aa ecke
helldur ad gaanga inn um̃ Eyrunn. Þad er gomul Assokun þeirra, sem tamt er ad
heyra Lijte og Skam̃er um̃ sinn Naunga: Eg giet ei byrgt fyrer Eyru mier; enn kann-
skie færre mundu illa tala, nema þig fijste ad heyra. Eg vil vera faataladur hier um̃,
þvi baagt mun vera ad temia Munn hiñar prettvijsu Kynsloodar, er Hoggorma Eytur
foolged hefur under Tunguroottum sier, hvar hiñ gamle Dreke, er kallast Diosfull og And-
skote, Openb. B. 12. hefur sier Hreidur bwed, og lagt þar Eggium þeim, wr hvorium um̃
sijder mun kvikna saa Ormur er alldrei deyr, Esa. 66. nema Tungann aadur um̃skor-
enn verde. Alleina vil eg tala um̃ þad fyrer Guds Bornum, hvort ad sie hid hellsta
Medal til ad um̃skiera Eyrunn i Andlegann Maata: Þad er Guds lifanda Ord, sem er
Haar-hvast Sverd, wtgaangande af hañs Muñe, sem ad skrijddur er Bloodlitudu Klæ-
de, Konungur Konungaña og DRotteñ DRottnaña, Open. B. 19. David kallar þad
Lystelegañ Gras-Haga, Ps. 23. Enn Gud næde! hvad tregt er Moñum þo þaangad
komed? Paulus nefner þad Kraft Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, Rom.
1. Eñ þar er ad ottast fyrer, ad þad verde hinum Vantrwudu, Guds Kraftur til
Fordæmingar: Þvi Endurlausnareñ segier, Joh. 12. Þad Orded sem eg tala, mun
fordæma þaa; Og sannast hier ecke sijdst, ad þad er eins og Tvijeggiad Sverd, er skier aa
baadar Slijdur, þaa ed hiaalpast til Ydrunar, hina til eilijfrar Refsingar. Matur er
Mannsins Meigenn, segium vier; eñ hvad er Saalenn ef hun misser Guds Ord? Eins
og St. Paall talar um̃ Eckiuna þaa ed i Syrndum lifer, hun er lifande daud, 1. Tim. 5.
Frilla Diosfulsins er hun og Helvijtes Elldsneyti. Hvad velldur nu þessum Leida,
Born mijn? Þad sama, er eg talade i Ondverdu um̃ hinar Almeñelegu Guds Gaaf-
ur, af þvi Guds Ord er so nægt i Heimenum nu orded, þa vegnar þvi eins og Elemen-
tunum, ad þad er foraktad. Eg sie, aa medann Menn urdu ad fara med Christ-
ne-Boded i giegnum Hwdstrokur og Krossfestingar, þegar Paulus var Haals-

hoggvenn, Petur krossfestur, Jacobus med Beinbrote lijflaatenn, Laurentius steiktur a Rist, þa urdu þeir glader, ad þeir maattu lijda nockud fyrir JEsu Nafns Skulld, þa vard Guds Ord Monnum sætara eñ Hunaang og Hunaangs Seimur, Ps. 119. Þa fañst margur sa, er keypti þaa dijrmætu Perluna, sem Endurlausnariñ talar uñ, Matth. 13. fyrir alla Aleigu sijna. Enn nu þyker þvi ollu illa varid, sem Gudi er giefid. Þu villt kannskie segia: Þa væri Raad ad giefa upp ad predika Christum uñ Hrijd, og mundi Menn þa eptir honum laanga, eins og a fyrri Dogunum; Eg villdi ad eg giæti Oriett til sumra Manna Þaanka, enn, þvi er verr! ad eg hygg ad nockrer muni fiñast þeir, ed giarna mundu hafa Uñskipti a Svijnunum og Christo, med Gergesenis, Matth. 8. Þvi heyrt hafa Menn Skrijtni þeirra, er laata sier uñ Munn fara, ad eigi sie þeim Matur i Messunni. Þu talar vel, væri Guds Ord i burtu tekid, þa mundu Menn leita þess med Angist: Mundi þad og ecki goott Raad, ad Gud tæki Soolina af Himninum uñ nockra Daga, so feingi Menn Vit a, ad þacka Gudi fyrer hennar Gagnsemi? Þad maa eige, seger þu, þvi þa mundu aller Menn wtaf deya, og eiginn lifdi til ad giora Gudi þacker, þar David segier, Ps. 6. Þeir þacka ecki Gudi, sem i Grofina eru ofañfarner. Eg jaata þad satt ad vera; Enn mundir þu leingi lifa i Gudi, ef hanns Ord væru i burt tekinn? Eigi hygg eg þad, þvi Frelsarinn seger, þau sieu Lijf og Andi, Joh. 6. Hvar fyrer? Af þvi ad Saalenn hefur eckert Lijf fyrer utann þau. Enn trw mier til, þu sem snerer Bakinu vid Guds Myskunar Fadmi a medann þu maattir niota hanns Orda, þu mundir verda illur Apturhvarfs til ad leita hanns, þa hann er ecki leingur ad finna. Þu seger: Soolinn maa eigi burtu hverfa, so Mennerner mættu lifa: Eñ ef þu mætter sofa a medann, þa hygg eg þad litlu skipta. So þykir þier og nu, sem i Syndunum sefur, a eingu rijda, þoott Sool Riettlætisins burtu lijdi og ætti alldrei afturkvæmt, enn þad mundi annad heita, þa þu uppvaknar i Sal Myrkranna, hvar þeir ellda Saalum Ogudlegra Manna. Þeck þvi Giædsku Guds, aumur Madur, og kannast þar vid, ad eins og hann lætur hid fagra Lioos Heimsins renna upp yfir Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. til þess ad Mannkynid mege lifa, jafnvel þoott sumir þar eckert i þyggia vilie, so vill hann eirninn ad hin fagra Byrti Evangelii, sem er Lioos a Vegum vorum. Ps. 119. skijni i Christilegri Kyrkiu, þoott þad verdi af morgum forsmaad, uppa þad, ad eingvunn tape hann af þeim hann aadur þeckti. Og þesse er Ordsokiñ, hvar fyrir hann ecki sendir Hwngur sinna Orda i Landid, Amos. 8. Ord Christi bwi rijkuglega a medal ydar, ad þier kieñid med allri Vitsku, og aamiñed sialfa ydur med andlegum Diktum, Psalmum og Kvædum, sijngiandi Drottni i ydar Hiortum, segier Paall, Col. 4. Þessi var Iþroott hiña fyrstu Christinna Maña, i Stadinn hvers ad Diofulliñ hefur innfært i Heimiñ, Brijxli, Haad, Kieskni, skañarleg Ord og fiblslegt Hial, sem Christnum soomir ecki, Eph. 5.

So er eg hræddur uñ, Brædur mijner, ad ef St. Paall mætti lijta upp af Grof siñi og siaa sig uñ i henni, sem nu Christne nefnist, þa mundi hann ecki vijda fiña JEsu

Christi

Christi Trygda-Pant, Eph. 1. sem hann hefur hen̄i epterlæted, og kallast H. Ande, og hann mundi snarara þeckia hana fyrer Andskotans Frillu, helldur enn Brwdi hinns Krossfesta. Edur hvar finna Men̄ nu þad, sem han̄ vottar um̄ sig og sijna Samchristna? 2. Cor. 4. Þegar oss er formælt, þa blessum vier, þegar vier ofsookter erum, kijdum vier þad. Langt mun vera ad leita epter Dæmi Stephani, P. G. 7. og Jacobs Postula, hverier ed beiddu fyrer þeim, er þa aftooku. Mig ugger og, ef Jacob mætti hversa aptur i Heimin̄, þa mundi hann kalla sumra Christenndoom Diofla Trw, þvi so seger hann i sijns Pistils Cap. 2. Þu trwer ad Gud sie einn, þvi trwa og Dioflarner og skielfast þar af. Og Gud giæfe þar findust ei þeir, sem ad nockru leite eru verre enn Dioflarner: Þeir giora ecki epter þeirra Trw, þvi þeir hafa ecki Von Fyrergiefningarin̄ar, þar þeir eru wtrekner fra Asioonu Guds eilijflega, og med Myrkran̄a Hleckium fiotrader, 2. Pet. 2. Enn þoott Gud wtbreide bædar Hendur, Esa. 65. Þoott han̄ hroope: Þu hefur drygt Hooraner med morgum Elskhuga, kom samt aptur til mijn, segier DRotten̄ Gud, Jer. 3. Þoott hann læti Dogum optar heyra: Eg vil ecki syndugs Manns Dauda, helldur ad hann snwi sier og lifi, Ezech. 33. Þoott han̄ læti almennilega wtberast: Þvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar Illsku-Breitne fra Auglite mijnu, komid sijdann og eigunst Log vid; Þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær Snioohvijtar verda, og þo þær sieu eins og Purpuri raudar, skulu þær verda hvijtar sem Ull, Esa. 1. Þoott vier meigum so tijtt heyra, ad þegar hinn Ogudlegi snijr sier fra ollum sijnum Syndum, er hann giort hefur, og vardveiter Guds Bodord, og giorer Doomenn og Riettvijsena, þa skule hann lifa og ecke deya, Ezech. 18. allra han̄s Misgiorda skuli ecke min̄st verda; Samt lætur ecke Illvirkin̄ af, og Foolked snijr sier ecke til hanns, er þad typtar, Jer. 8. So þad ma satt jaata, er David talar um̄ hinn Ogudlega, Ps. 14. Ad hann sege i Hiarta sijnu, þar er eingenn Gud. Þvi hræddust Menn, ad Gudi mislijkadi Ogudlegt Athæfe, þa munde ecke so mikill Offe, Ranglæte, Hardydge, Lygar, Bakmælge, Roogur, Agg, Reide, Præta, Agyrne, Þioofnadur, og allra handa Andskotans Þioonusta drottna so freklega i Heiminum, ad jafnvel sumt af þessu væri fyrer Dygder hallded. Hvad mun nu þessu valda? Born mijn! Annad enn þad, ad Men̄ tilbyrgia Eyrunn fyrer H. Guds Ordi, Paulus kallar Ord Guds: Sverd Andans, Eph. 6. Þad er sa beitte Knijfur, med hverium vor Eyru eiga ad um̄skierast, enn þesse Benen̄ svijda miog so hinum gamla Adam, og þoott han̄ mege þau a Stundum þola, þa hafast þau so illa, ad þar svellur um̄ til eilijfs Dauda. Han̄ hallar sier aptur a Kodda Syndan̄a, til ad samannhrwga sier Lærendum, epter þvi sem Eyrun̄ klæa, 2. Tim. 4. Hann er eins og Ziphora var Fordum, er hun mætti Naudug um̄skiera sin̄ Son, Exod. 4. Þegar Moyses kiemur med Knijfenn, þa kalla Menn hann Blood-Brwdguma, edur Bloodgijrugann Man̄, giætande ecki ad þvi, ad Gud er wtfaren̄ i Brædi sinni til ad deyda, ef ecki er vidgiort. Gud baud sijnu Foolke, ad a Siounda hveriu Are, skyldu þeir hallda eitt Hvijldar-Ar,

og

og a medal annarra Bodorda sette hañ, ad a þvi Are skyllde Anaudugu Foolke Lausn giefast; Enn sa er ei villdi Frelsi þyggia, þañ maatti hañs Herra taka, og setia All i giegnum Eyru honum, og festa vid Dyr edur Dyrastaf, og skylldi hañ vera hañs Þræll upp þadann Æfinnlega. Exod. 21. Ecki einasta a hveriu Siounda Are, helldur a hverium Siounda Dege eigum vier þann Kost, ad leysast af Andskotans og Syndarinnar Þrældoome, þvi þad er Meining alls Evangelii, sem oss predikad er, ad vier sieum frialser vid Syndena, ecki til þess ad lifa i heñi, helldur verdum Gude Handgeingner, til þess ad deya fra Syndunum, so sem Paall seger, Rom. 6. Þier erud frelster af Syndenne, og ordner Þioonar Riettlætisins. Eñ ef nockur vill ei Lausn þyggia, og lætur sig festa a Eyrunum vid Port Helviitanna, Andskotanum til eilijfs Þrældooms, þa er audsært, ad hañs Siidara verdur argara þvi hinu Fyrra, 2. Pet. 2. O Herra Gud! Mier kiemur i Hug, hverniñ Guds Eingietiñ Sonur vijkur þessari Logmaals Grein til siin; Ps. 40. Er hann segier til siins himneska Fodur: Offur og Fornfæringar villder þu ecke, eñ Eyru mijn hefur þu i giegnum stinged; Teiknande med þessare Þrældooms Mynd hina allra herfilegustu Anaud, er hañ þoldi fyrer Þræl Syndariñar, þar hann, sem allt Valld er giefid, bædi a Himne og Jordu, Matth. 28. kom i Heiminn, ecki til ad laata sier þioona, helldur ad hañ odrum þioonadi, Matth. 20. þar hann hafde verri Kior enn Hræ-Kvikindi Jardariñar, og Fuglarner under Himninum, Matth. 8. Hver þo ecki lætur eirn Titling a Jordu detta, an siins Vilia, Matth. 10. þar hañ fieck eckert Rwm i Giesta-Herberginu, Luc. 2. sem uppfyller bædi Himin og Jord; Þar hañ vard Maña-Þurfi, sem uppfyller alla vora Naudþurft epter, Rijkdoomi siñar Dijrdar, Phil. 4. og hañ bar siñ Kross, sem ad ber alla Hlute med Orde siins Kraptar, Ebr. 1. Þetta giordi hañ, seger Paall, þegar hañ maatti vel Sælu hafa: Og þo vill Syndarinn ecki lia honum Eyru siin til þess, ad hann mege eilijflega med honum rijkia, eñ a þo añars Vegar eingañ annañ Kost, nema pijnast eilijflega. Gud naadi þad, ad vier erum ecki Olijkt a oss komnir, og Cicero skrifar uñ Catadupos, hverier ad bwa vid Fossana i Anni Nilo, þad þeir heyre verr enn adrer Meñ. So giorir Nidur Veralldar þessarar oss dausa, so vier gietum ecki giætt ad DRottins Raustu. Johannes segier i hanns Opinberana Cap. 1. Ad Rodd Mañsins Sonar, er til hañs talade, hafe vered so sem Lwdurs Hlioomur. Nærsta fagurt maa Gledskapur Veralldarinnar laata i Eyrum syndugra Maña, ad vier faaum ecki fyrer honum adgiætt Raustu Brwdgumans er hann so haatt kallar. Hvad velldur þessu? Þvi Eyrun eru so tom a hitt, ad Meñ þeckia ecki hvort fra odru. Mijner Sauder þeckia mijna Raust, segier hiñ gode Hyrder, Joh. 10. Hvad vill hier a epterfylgia? Born mijn! Þeir sem ecki þeckia hanns Roddu, þeir eru ecki hañs Sauder. Hvad mun fyrer þeim liggia? Hvad vill Doomarinn segia a hinum mikla og straanga Dege? Ecki þecki eg ydur, fared fra mier aller Illgiorda-Meñ, Matth. 7. Þa mun Saudunum skipad verda a Hægre Hlid, eñ Hofrunum a hina Vinstre, Matth. 25. Aller vilia ad sonnu i Sauda-Flock-

num vera, eñ þeir sem ecki villdu þeckia Hyrdersins Raust i Nꝍadinni, þeir munu verda med Hosfrunum Arf ad taka i Kvølinni. Hver sem elskar mig og vardveiter mijn Ord, til hañs mun eg koma og minn Fader, og Vistar-Veru hiꝍa honum giøra, segier Endurlausnarenn, Joh. 14. Hvad ꝍagiæt ad sie þesse Sambwd, veit eingiñ, nema sꝍa ed smackad hefur, hvad sætur ad Gud er. Eñ hvar eiga Menn ad fꝍa þeñañ Smeck, nema i hanns Orde? Þar verdur JEsus Christus framreiddur til Andlegrar Nautnar, uñ hveria hann siꝍalfur þann Veg talar, Joh. 6. Hver sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hañ skal ecki Daudann smacka ad eilijfu. Lꝍked þvi upp Dyrum ydar Eyrna, Guds Elskuleg Børn, so Konungur Dijrdarinnar meige inngꝍanga i ydar Hiortu, Ps. 24. Lꝍated þær ecke læstar honum, so hann læse ecke aptur fyrer ydur Himninum, dreped ei Hende ꝍa moote fraṁbodeñe Nꝍad, og bægist ecki til Vandræda vid hañ, sem ydur elskade ad fyrra Bragde. Hañ hefur sitt Lijf i Daudañ giefid til þess, ad þier fꝍai kyñud hañs gledilegu Raust ad heyra, þvi eingiñ hefur uñ Alldur Gud sienañ, sꝍa Eingietni Sonur Fødursins hefur oss þad opiñberad, Joh. 1. O hvad Vitstola er þꝍa Mañeskiañ, sem tredur þañ Dijrgrip under Footum, er wtvegadur er med Guds eigiñ Bloode! Þeinked til þess, ad hañ lꝍangade epter ad lijda Helvijtis Pijsler ydar vegna, lꝍated ydur eirniñ lꝍanga epter honum, so þier kuñed þær somu ad uṁflija, eñ eilijflega med honum lifa. O þu eilijfa Ord Fødursins, Herra JEsu Christe, þu sem ert Sætare enn Hwnang, Frijdare eñ Soolenn, Gledelegre eñ Englaña Saungur! Ahrær þu vor dofeñ Eyru, Uppliwk voru Hiarta, Endurnija vorn Anda, so oss leidest uñ sijder Endeme þessa vonda Heims, eñ giøri fwsa ad reña epter þier; Þu eilijfa Glede! Lꝍat þijn Fagnadarrijku Ord vera Epterlæte Sꝍalna vorra, so ad vier høfum vora Lifting i Løgmꝍale þijnu Dag og Noott, Ps. 1. Og þegar vor Augu siꝍa ecki leingur, vor Eyru heyra ecki leingur, og vor Twnga gietur ecki talad leingur, ad vier þa verduger ꝍaliktast mættum hiñ fagra Saung, Heilagur, Heilagur, Heilagur ertu Drottiñ Gud Zebaoth, Esa. 6. eilijflega ad heyra i þijnu Rijki, hvar eingiñ Noott er, Op. B. 22. og eingiñ Uṁskipte Liossins og Myrkursins; Þad Bænheyre Gud Fader Myskunseindanna, fyrer hid dijrmæta Blood sijns Eingietins Sonar, og sendi oss þar til Nꝍad sijns Anda, AMEN.

# Suñudagenn mille Attadags og Prettanda.

Gudspialled Matth. 2. Cap.

OG er Herodes sꝍa þad, ad hañ var gabbadur af Vitringunum, vard hañ reidur, og sendi wt, og liet drepa øll Sveinbørn til Bethlehem, og i øllum heñar Endemørkum, Tvævetur og þadañ af Yngre, epter þeim Tijma, sem hañ hafde wtspurt af Vitringunum. Þa uppfylltest hvad sagt er fyrer

**er Jeremiam Spamann, sem segier: A Hædum hefur heyrst Kall mikillrar Kveinunar, Ops og Ylfrunar: Rachel æpte Sonu sijna, og villdi ecki huggast lꜳta; Þviad þad var med þeim wti.**

## Exordium.

NU Eidest, enn Syndged ecke, seger Paulus, Eph. 4. Lꜳted eige Soolena undergꜳnga ydar Reide. Mun nockud Postulenn giefa Monnum Leifi til ad reidast med þessum Ordum? Edur er þar nockur riettferdug Reidi til? Þvi mꜳ ei neita ad þad sie riett, ad hata þꜳ sem Gud hata og hanns Riettinde; So segiest David hata Samkundu hinna Illgiornu, Ps. 26. Og Ps. 139. seger hann enn aptur: Mun eg ei hata þꜳ, O Drottenn, er þig hata, og hafa Leida ꜳ þeim, er reisa sig upp ꜳ moote þier? Med fullu Hatre hata eg þꜳ, og þeir eru ordner mier ad Ovinum. Þa sijnir Madurinn ad hann elske Gud af Alvoru, ef hann giarnann stendur af sijnum Riette, enn þycker Guds vegna; Og þad er ad vijsu sw Reide, er fylgia ꜳ hverium Christnum Manni, enn þo eirna mest þeim, sem yfer adra eru i Guds Stad setter. Ritningin giefur Moysi þann Vitnisburd, ad hann hafi verid hinn þolinmoodasti Madur ꜳ Jordunni, Num. 12. Og eige finst þad, ad honum hafi runnid i Skap, þoott Israels Born so optlega settu sig upp i mooti honum. Miklu helldur beiddi hann Gud fyrer þeim, nær þeir hofdu syndgast, jꜳ, hann villdi hafa mist sijna Velferd, fyrer þeirra, er hann sagde vid Gud, Exod. 32. Munt þu fyrergiefa þeim sijna Synd? Annars drag mitt Nafn wt wr þeirre Book, er þu skrifad hefur; Og er þad þo alkunnugt, hversu ꜳkaflega hann reiddist, er hann kom ofann af Fiallinu, og sꜳ Afgudadijrkun Foolksins. Vidlijkt er Dæmi St. Pꜳls, er hann æskte sier ad vera wtrekinn frꜳ Christo fyrer Brædur sijna eptir Holldinu, Rom. 9. Og er þo kunnugt af Giorninga Book Postulanna, hversu hann vandlætti vegna Guds umm þꜳ somu. So og eru kunnug Dæmi Phineæ, Num. 25. Samuelis, 1. Sam. 15. Jonathans, 1. Sam. 14. Davids, 1. Sam. 17. Ezechiæ Konungs, 2. K.B. 18. Nehemiæ, Nehem. 13. Og annarra Guds Manna, sem hafa tekid sier þad nærri, er þeir hafa heyrt edur sied Gud Dijrdarinnar vanvirdtann af nockrum, hanns heilaga Nafn lastad, edur hanns Bodord under Footumm trodenn; Og er Gude valla nockur Hlutur þægare, sem audrꜳded er af þeirra Straffe, sem i þvilijku hafa Toomlꜳter vered, ad þeir hafa mꜳtt bera þeirra Synder, er þeir hafa sied i giegnum Fijngur vid; So sem lioost er af Dæmi Eli Kiennimanns, er hann stie framm yfer Glæpi Sonu sinna, 1. Sam. 3. Sauls Konungs, er hann þyrmdi Amalechita Konunge, 1. Sam: 15. Og Achabs, þa hann vægde Konunginum af Syria, 1. K.B. 20. Nu þoott ad þessu sie so vared, þa hygg eg ad eige sie Postulans Meining i þessu, ad hann epterlꜳte Manninum ad reidast, edur tale umm þess hꜳttar Reide, er eg Samstundis umgat; Þvi hann bijdur i þessum Ordum: Ad Soolenn eige skule undergꜳnga Mannsins Reide; Hvad so er ad skilia, ad Madur skule ei erfa leingur enn til Kvollds

ollds þad honum er œ moote giort. Enn Gudlegt Vandlæte og Hatur œ Løstum og Odygdum œ alldrei vid oss ad skilia; Þvi meinar Postuleñ hier, ad Menn skule temia Reidena, þoott hun kunne ad fliwga i Mañsins Hiarta, og hvorke lœta hana nœ so mikelle Yfer=Hond, ad hun framkome i Orde nie Verke, og enn þa sijdur ali Foolskuna i Hiartanu, so hun verde ad Hatre: Hvad þvi velldur, ad Mañeskiañ verdur Ulfur af Mañe, Þræll Syndarennar af Christi Læresveine, og Dioƒulsins Barn af Guds Barne. Dœme uppœ þess hœttar Reide hofum vier œ hinum grima Herode i uppleſnu Evangelio, wt af hvoriu vier hugleida vilium i þetta Sinn: 1. Hvad Skadlegur og Dœrlegur Løstur ad Reidenn sie. 2. Hvorneñ vier eigum ad stilla hanâ.

Hinn Goode Gud virdest Nœdarsamlega ad framkvæma þetta Eyrende hiœ oss, med Adstod sijns H. Anda i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

NOG Er Herodes Sœ Ad Hann Var Gabbadur Af Vitringunum, Vard Hañ Reidur; Segier Textenn. Hvor var hin fyrsta Ordsok til hañs Reide? Þad var Metorda Gyrndeñ. Strax sem hañ fieck ad heyra af Kieñimaña Hofdingiunum og Skrifftlærdum Lijdsins, hvar Christur munde fædast, skaut Dioƒulleñ honum i Briooſt ad Lijflœta þad Nijfædda Konungs Efne JEsum; þad syner oss Samtal hanns vid Vitringana, og so Avijsan sw, er þeir feingu af Guds Alfu i Svefne, ad hverfa aptur til Baka i sitt Fodur=Land um annañ Veg. Meiningenn var sw, ad hann kyñe ad stadfesta sinn Tignar=Stool og siña Nidia epter sig. Hvornenn Metorda Gyrndeñ sie i Fyrstu til komeñ, er audsœrt af Falle Satans, og Falle vorra Fyrstu Forelldra, af hveriu oll Olucka er iñruñeñ til allra Maña, og, œ medal añarra, Reideñ. Og fyrst Moodur iñ hefur giort oss Adams Nidium so stooran Skada, þa er audvitad, ad Dootturiñ er heñe lijk, nema verre sie. Hvor er su Olucka i Heimenum, er Reidenn ecke af Stad kome? Hun er Verkfære allra Lasta og Odygda. Hun er eins og ein Pwta, sem lifer epter hvors Mañs Villd; So þioonar Reideñ ollum Skomum, þegar œ þarf ad hallda. Hvor drap Abel, þegar Cain ofundade hann? Gen. 4. Hvor kveikte Elldeñ i Balachs Nosum, er hañ villde mootstanda Guds Foolke? Num. 24. Hvor kom Eliab til ad atyrda sinn Brooður David, er hañ forsmœde hann? 1. Sam. 17. Hvor rak Saul til ad ofsœkia sinn Doottur=Mœg, 1. Sam. 19. og ad drepa Kieñemeñena i Nobe? 1. Sam. 22. Hvor framkvæmde Achabs vondañ Asetning? 1. Kong. B. 21. Hvad brwkade Haman til ad svala Drambsemeñe med? Est. 3. Hvornenn fieck Joab Metordum sijnum halldeð? 2. Sam. 3. og 10. nema med Reideñe? Og var þad honum þo ecke nema Stundar=Fridur: Ollu þessu kom Reidenn af Stad, og er hun so eirn almennelegur Bodull allra Skama og Odygda. Eg veit ad bæde Aristoteles og Cicero skrifa, ad hun sie Brijne Hugprijdenar, og ad eingenn viñe nockurt Stoorvirke, nema reidur sie: Þad gietur valla satt vered, og eige kiemur þad samañ vid sialfa þœ, er þeir segia, ad Hugprijdeñ skule vera œ Skynsemenne grundvolluð. Enn sœ sem reidur er



hann

hann er Vitlaus, og þvi segier Horatius, ad hun sie nockurskonar stutt Æde; Teiknande þar med, ad engenn sie Munur þess, sem reidur, og hinns sem Vitstola er, nema ad Reidinn varer skiemur, Æded lengur: Og eru þo Dæme til þess, ad sumer hafa bwed so leinge ad Heiptenne, ad þeir alldrei hafa orded Heilvita aftur. Heiptenn er eitt Andskotans Reidar-Slag, Gen. 4. Hun afmyndar alla Mannsins Lime og Lide, hun kveikir Bæl i Augunum, hun hleiper Bloode i Nasernar, Boolgu i Kinnarnar, Æde og Stioornleysi i Tunguna, Deyfu fyrer Eyrunn, hun lætur Manninn gniista med Tønnunum, fliwga med Hondunum, æda med Footunum, hun skekur og hrister allann Lijkamann og aflagar, so sem þegar Hafid er uppblaased af Stoorvidre. Og i einu Orde ad segia: Hun giorer Mannenn ad Ofreskiu og ad Holldgietnum Diofle, i Augum þeirra sem heilvita eru: Og ef hun so afskræmer Asijnd Mannsins fyrer odrum Monnum, hvornenn mun hun þa ecke afmynda Saalina i Guds Auglite? Segied mier; Hvilijkur Diofull mun þar inne bwa, þar Alit Mannsins verdur hid ytra so afskræmt? Hvilijkur Elldur mun vera i þvi Hiarta, er hann lyster sig þannenn wt i hvorn einn Lid og Lim? Þad er ollum lioost, ad eckert styrker og efler Sambwd Mannanna i Heiminum, meir enn Kiærleikurenn, þvi hann er Band Fridarins, Eph. 4. Hann bindur samann Hiortu Mannanna, og hann samannteinger og vidhelldur Christi Lijkama, sem er hanns Kyrkia hier a Jordunne. Enn hvad segier Salomon, Ordsk. B. 18. Hvor gietur þolad eirn reidann Mann? Hvar af audsied er, ad hann, sem Reidegiarn er, hann er Ohæfur til Samneytes annarra Manna, og Ohæfur til ad vera Christi Limur og hanns Kyrkiu. Hvad er hann þa? Andskotans Limur og þeirra Stall-Brooder, sem Tønlast og Tyggiast Junbyrdes, þar til þeir umm siider verda uppetner, Gal. 5.

Eg hefe nockrum Sinnum heyrt a Tal þeirra, er segia: Menn verda ad reidast, og læta til sijn taka, annars verda Menn forsmæder, og ad hvor Madur giore sier dællt vid þann sem eckert Sinne hefur, þvi sie þad Hofdingskapur og Stoormennska ad reidast ækaflega, so ad þeir hrocke undann, er einum mootþægia. Ecke ræteft þetta ævallt, so vel fare, þvi annad hvort reidest eg vid Of-Menne mitt, edur vid minn Jafningia, edur vid mier minne Mann. Reidest eg vid þann sem er meire Mættar enn eg, þa er eg diarflegur, og reise mier Hurdar-Ås umm Oxl; þvi so segier Syrach: Þrætta ei vid þann, sem er rijkare þier. Sie hann minn Jafninge, þa vite Menn, ad eckert er þvilijkt Fool, ad ecke eige sier Jafningia. Og þegar Menn beria Tveim Steinum samann, þa er vansied hvor þeirra fyrre brotnar. Sie hann minne Mættar, þa giore eg sialfum mier Oriett, ad eg spille mier a honum, sem eg giet alltijd næd Josnude a Reide-laust, og ef mig kostar þad Omak nockurt, þa vil eg þo hugsa, ef eg være Hugprwdur, ad þad sieu Smæmuner ad wthella Reide sinne yfir þann, sem einga Mootstodu gietur veitt, og þvi kalla eg sælla og Samvitskubetra ad fylgia Rædum þeirra Salomons, Ordsk. B. 25. og Pæls Postula, Rom. 12. Ad safna Gloodum Ellds yfir Hofud Ovinar sijns med Goodgiordum, so hann skammest sijn og rodne af Blygdan, ad hann hafi mier illa tilgiort, er ecke meir ræke hanns Moot-

giorder

giorder enn so, ad eg giefe honum ad eta, nær hann er Hwngradur, og ad drecka, nær hañ er Þyrstur; Og hvor sem odruvijs kieñer, hañ framfylger so kappsamlega Satans Evangelio medal Mañaña, so sem Guds Þijslar-Vottar Christi Lærdoome, þeir ed blessudu nær þeir lastader voru, og þolldu þad ad þeir voru offsookter, 1. Cor. 4. Eg vil eige sæ mier þad til Orda, hvorn Skada Meñ giora sialfum sier med Reideñe. Sæ sem giarn er til Reide, hann er jafnann Sinnisveikur. Engeñ er so var i Umgeingne siñe, ad hann giete giort honum til Mæta, og eru þeir þo færster af oss, er so regle nidur Athafner sijnar, ad ecke verde adfunded; Enn hann, sem Reidur er, hann er eins og Elldur i Sinu. Hvad sem ecke er epter hanns Skape, þad grijpur hañ, eins og Elldurenn Tundred, og þar fyrer utañ spiller Reideñ Heilsu Lijkamans, ecke all-lijted; Þvi segier hinn Vijse: Vandsijsneñ og Reidenn stitta Dagana, og flijta Elleñe, Syr. 30. Eg vil ei tala um, hversu opt ad hun spiller Gotze og Formegun Manna. Hinn Reidegiarne er eins og sæ er bijr i Stræ-Hwse: Hañ kann ad vera fullrijkur ad Morgne, eñ ef Ellddureñ grijpur þad verdur hañ Hwsgæangs-Madur ad Kvollde. Skamma Stund verdur Hond Hogge feigenn, segium vier. Hvad margur hefur giort þad i Bræde sinne, æ einu Augnablike, sem hañ hefur ydrast epter alla sijna Æfe? Þad er valla Manns Kostur þvilijkur, sem ad hafa Valld æ Tungu sinne, og þad er so naudsynlegt, ad St. Petur segier, 1. Pist. 3. Hver sem vill elska Lijfed, og sia gooda Daga, hañ hallde Tungu siñe fræ Illu: Enn þad er honum Omogulegt sem Reidenn er, þvi hañ hefur eckert Valld æ neinum sijnum Lim, auk helldur Tunguñe, er Jacob segier bægara sie ad temia, enn alla Nætturu Dijranna, Fuglanna og Fiskaña, Jacob. 3. Nu þoott ad þad sie noogu stoor Olucka, sem allareidu er upptaled, þa er þo ecke bwed þar med: Reidenn er ad soñu kollud stutt Æde, enn ecke er þad hiæ ollum. Hiæ allmorgum snijst hun upp i Hatur, og engenn hatar sæ añañ, ad hañ hafe honum ecke fyrst reidur orded. Fæum þeim sem reidast, þyker Reide sijn Ræanglæt verá, og med soddañ Moote verdur hun ad Hatre i Mannsins Hiarta, og swrnar þar inne, til þess hun skiemer Kiered, og er þa illa fared med Guds Mustere, 2. Cor. 6. þegar þad er giort ad soddann Dioflabæle, hvar Andskotenn iñe rijker med Sio Ondum sier verre, Luc. 11. Þvi Heipteñ er alldrei Einsomul: Osund, Drambseme, Roogur, Lijge, Bakmælge, Agg, Præta, Tvijdrægne, og margt añad Illþijde, fylger henne giarna. Pæll segier i þeim Ordum, er eg i Ondverdu las fyrer ydur: Læted ecke Soolena undergæanga ydar Reide; med hvoriu hañ tekur oss Vara fyrer, ad þoott oss henda kynne ad reidast, þa skulum vier þo ecke læta Reidena ad Hatre verda. Enn strax þar epter segier hann: Giefed ei Dioflenum Rwm, Eph. 4. og bender oss til med þeim Ordum: Ad þar sem Andskotenn er Hwsboonde, þar mune þetta hañs Hyske med honum Samsæte eiga, og er þeim Mañe vijst Helvijte, so fliott sem Aundeñ skreppur wt af Kroppnum, sem af þessum Pwkum er kvaleñ, nema hañ hreinse ædur Sæalu sijna med heitre Ydran; og er rædlegt, ad ætla ecke til, ad Daudans Beiskia skule þad giora, þvi vandhitt er æ, hvort þar

verdur Doom til þess, ef so kañ til ad bera, ad hañ kome ad Skyndingu. Enn stoor Saar þurfa mikla Grædslu. Þetta Groom er ecke so fliott wtþveiged, er so leinge hefur bwed uñ sig i Mannsins Hiarta. Enn hitt er vijst, ad so sem þeir aller faa Kvittun Synda siña, er fyrergiefa wt af Hiarta sijnum Broodur hañs Misgiorder, nær þeir heñar leita af Alvoru i Nafne JEsu Christi; So verda og hinum sijnar Synder aptur halldnar; er ala Hatur til Naungans, og Gud vill þa ecke heyra, þoott þeir wtbreide sijnar Hendur, Es. 1. og bidie mørgum Ordum: Hvar fyrer? Þvi þoott ad ei sieu Hendur þeirra fullar af Bloode, fyrer Otta Saker, þa er þo Hiarta þeirra. Og hygg eg faa beri ecke langt af Mordingianum, sem Hrædslann fyrer Straffenu alleina hamlar ad slaa sinn Broodur i Hel. Verda maa ad Cain hefde læted Abel lifa, Gen. 4. Og Joab, Ashael og Abner, 2. Sam. 2. og 20. hefdu þeir Ottast Boduls-Oxena. Og hefe eg nu ad nockru Leite sagt, hvorsu skadleg ad sie Reideñ og Heiptræknenn; enn ecke er hun sijdur Daarleg og Heimskuleg. Hvorier eru giarnaster aa Reide? Þad eru Born, þad eru vesæler Menn og heimsker; Þar uñ talar Salomon, Ordsk. B. 12. Hiñ Faavijse hleiper fram Reide siñe, enn faa er vitur, er hann læst ecke sia Orietteñ. Segied mier, þier Babylons Giædingar, þier Veralldareñar Phaetontes, (*) sem vilied dansa aa allra Maña Hofdum, og soopa allt þad, er ydur mislijkar, i burtu med hinum snarpa Reideñar-Vende. Vilied þier laata hallda ydur lijka þessum? Þier segied: Margur stoor og vitur Hofdinge hefur vered hneigdur til Reide; Þad er þess verr, þaa hafa þeir miog so nidurdreped Tign sinne. Homerus skrifar uñ Agamemnon, (er Gricker nefndu Konung Konungaña, af þvi hann var fyrer Lide þeirra i Troiumanna Bardogum) ad þaa hañ hafe vered i goodu Skape, hafe hañ vered Godunum lijkur ad Millde og Vijsdoome; Enn þegar Reideñ took hañ, grimare enn hin verstu Varga Dijr. Saamed þo hvad hid heidna Skaalld dæmer hier uñ: Godunum eignar hañ Vitskuna og Milldena, enn Reidena Vorgunum. Þad er og riett dæmt, þvi engenn kañ meir Gude ad lijkiast, eñ med Giædskuñe. Þar fyrer sagde DRottenn: Vered myskunsamer, lijka sem ydar Fader er myskunsamur, Luc. 6. Og eckert lætur verr aa einum Konunge, sem er nærstur Gude, enn Reidenn. Þeim er ollum framar hroosad, sem stioornad hafa med Riette og Myskunseme, eñ hinum, er rijkt hafa med Hardydge og Ofbellde, jafnvel þo þeir hafe aatt Rijke meira eñ hiner. Alexander hiñ Stoore hefde eñ þa stærre vered, hefde hañ Clitum, Parmenionem og Calistenem Odrepna læted, helldur eñ þoott hann hefde broted under sig allañ Heimeñ; Þvi var þad aagiætt er hañs Skolameistare Aristoteles skrifade honum til (er hañ heyrde ad Reideñ og Offeñ tooku til ad aflaga Giedsmune hañs) aa þeñañ Haatt: Þeir sem reidast, þeir reidast sier meire Monnum. Enn þar er engeñ stærre enn þu, þvi byriar þier ecke ad reidast. Saamed hier hvort Reideñ

og

(*) Eins og Phaëton (so sem Skaldeñ dikta), þaa hañ villde eiñ Dag stijra Vagne Soolareñar, og var sm hærst komeñ i Lofted, fell hraparlega till Jardar; so meiga aller Offa Meñ, er hvorke þeckia Gud nie sialfa sig, kallast Veralldareñar Phaëtontes.

og Foolſkann giører nockurn meiri Mann, ef riett er ꜳlited? Alldeilis ecki, þvi hun giør-ir þann, ſem annars være mikill Madur, ad Kvikinde Veralldar og Athlæe ſkinſamra Manna. Þvi var þad viturlega talad af Cicerone fyrer Julio Keyſara; Ad ſꜳ eini Dagur, er hann gaf Marcello Lands-Viſt, hañ giørdi hañ frægare eñ allar hañs Sig-urviñingar. Kalla Meñ þad ecki hiñ meſta Dꜳruſkap ad farga ſiꜳlfum ſier? Eñ hiñ Reide er Bijflugunni lijkur, þegar hun ſtijngur, þa ſtijngur hun ſiꜳlfa ſig i Hel, og ſkil-ur Lijfid eptir i Sꜳrinu. So giører og optlega ſꜳ, er lætur Reidina fyrer ſig rꜳda; Drepi hann ecki ſinn Ovin, ſo hann verdi aptur drepiñ, þa drepur hañ þo gott Mann-ord ſitt, hann drepur gooda Samvitſku, Jꜳ, Sꜳlina, ef til vill, ef hann mellter Re-idena med ſier þar til hun wldnar i Hiartanu. Sꜳ ſem dreckur Oforvarandis nock-ud Banvænt, hañ mꜳ ſiꜳ til hverniñ hañ fꜳe þvi ælt upp aptur, þad fyrſta hañ verd-ur þeſs var, añars er Daudiñ vijs: So er og i þeſſu; Hende nockurn þꜳ Avirding, ad hañ reideſt Broodur ſijnum, þa ſiꜳe hañ til, ad hañ fꜳe Heiptina ꜳ Braut rekid, þad fyrſta hañ verdur Heilvita aptur, og kiemur til ſiꜳlfs ſijns, añars myrder hañ Sꜳ-lu ſijna; hañ myrdir eirn Mañ i Hiarta ſijnu, ſo opt ſem hañ miñiſt med Heiptrækne ꜳ þad, ſem vid hañ var afgiørt, ſo opt ſem hañ æſker Hefndar yfer Ovin ſijnum, ſo opt ſem hañ fagnar yfer þeirre Hefnd, er hañ alla reidu feingid hefur yfer ſijnum Nꜳunga. Þvi ef Chriſtur ſeger: Ad ſꜳ ſem lijtur eina Konu til ad gyrnaſt hana, hann hafe alla-reidu drijgt Hoor med henni i ſijnu Hiarta, Matth. 5. Þa er lijklegt, ad Heipteñ mu-ni ecki hafa meira Frelſe i Himninum, helldur eñ Oleifileg Elſka, þoott hverutveggia ſie Anſtigd fyrir Gudi. Segied mier; Hvada Dꜳraſkapur er þa þad, ad ſpilla ſo Vinꜳttu hañs med Foolſkuñe, ſem ſagt hefur; Nema þier fyrergiefid Moñunum þeir-ra Misgiørder, þa vill miñ himneſkur Fader ecki tilgiefa ydur ydar Synder, Matth. 6. Ad Meñ nꜳ heñi ecke aptur, fyrr eñ Menn hafa ſættſt vid Broodur ſinn, og være þa betur heima ſetid enn farid. Øllum þyker mikid fyrer ad bidia Forlꜳts ꜳ Avirding-um ſijnum, og eñ þa meira, ad lꜳta undann honum ſem oſs hefur tilgiørt. Þetta verd-ur þo ad vera, ef Meñ ſkulu hallda Guds Vinꜳttu. Chriſtur bidur ecki fyrer þær Syndernar, ſem hañ veit ad hañs Fader ecke tilgiefur. O! Gud nꜳdi oſs, hverſu illa er honum þa farid, ſem Guds Sonur vill ecki bidia fyrer? Þvi kalla eg þad hinn meſta Dꜳruſkap, ad fremia þad i Brꜳdrædi, fyrer hvert Meñ annadhvert ſkulu miſſa Guds Aſt i Himninum, edur og Vyrdingu ſijna hiꜳ Mønnunum. Eñ eg hefi allareidu ſijnt, ad ſꜳ verdur annadhvert ad giøra, ſem Heiptrækur er, og væri þa betra alldrei ad reidaſt, edur ad miñſta Koſti, lꜳta Reidina ecki fꜳ ſo mikid Valld yfer ſier, ad hun briootiſt wt uñ Muñiñ edur Hendurnar. Og hefi eg ſo nockud talad uñ þad, hvad ſkadleg og dꜳrleg ad Reidenn ſie. Nu vilium vier ſijdann heyra, med hveriu Moote Menn fꜳe henne beſt i Taume hallded.

Þad er ad tala yfer ſig, ad ſegiaſt vilia edur kuña Reidiñi alldeilis frꜳ ſier ad hrinda. Fordilld Heidenna Spekinga er þad, enn ecke Þecking Chriſtenna Manna, ꜳ ſiꜳlfum

ſier

sier. Pad er eins Ohægt, og einhver segia villde, þad hañ kynni olldungis ad deyda Spilling Natturuñar so hun hreifde sier alldrei: og er þad akdeilis Omøgulegt, so leinge vier berum epter oss þennañ daudlega Lijkama. Pad er og ecki Riettviist alldrei ad reidast: Reidast eigum vier Syndum og Glæpum, reidast eigum vier sialfum oss, nær vier fremium eitthvad af slijku. Reidast eigum vier og vandlæta fyrer Guds Saker: Pvi er þad hverke møgulegt nie gagnlegt Reidina alldeilis burt ad taka, enn ad setia Skordur vid henni, ad sem minnst gange hun yfer Maal Hooglætisins edur hreinke Samvitskuna, þar uñ a Christinn Madur ad lata sier hugad vera: Og er þad hid Fyrsta, ad vier yduglega hugleidum hvad skadlegur og darlegur Løstur ad Reidinn sie, hvar uñ eg nockud talad hefi i hinum Fyrra Partinum. Par nærst er þad, ad Menn varest þeirra Selskap, er oss mest kuña ad egna til Reide, edur sialfer eru med þessum Skaplost plagader: Par uñ talar Salomon, Ordsk. 22. Vert ecki Vinur Reidins Mañs, og gack ecki med hinum Galda, ad þu lærir ecki hañs Vegu og hneixler Saalu þijna. Par ad auke, ad Menn varest þær Ordsaker, hvar af Reidenn plagar giarnañ ad kvikna i Mannsins Briooste. Og er þad hid fyrsta, ad vier ecki bruum yfer neinum illum Asetningi. Hvad þesse Blood-Hundur Herodes hafi i Siñi hast, er af Gudspialls-Historiuñi auglioost, sem var, ad lijflata þad saklausa, nijfædda Konungs Efne JEsum, ecki so af Reide, edur illu Skapi i Fyrstuñe, so sem af Metorda Gyrnd, sem adur er sagt; Enn er hann sa, ad þesse hañs illur Asetningur hafdi ei Framgang, þa kveikte Diofullenn Foolskuna i hanns Hiarta, so hann liet myrda þesse saklausu Born: ecki var þetta hid fyrsta Bragd Satans vid hañ; Adur hafde hann lated af Døgum rada sijna eiginn Sonu, Alexandrum og Aristobulum, er þeir voru rægder vid hann, so sem ad sætu þeir honum epter Rijkinu, og þo an Ordsaka, so sem af Sogunum rada ma. Þetta er alltijtt i Heiminum: Sa sem ecke kiemur fram siñi illri Fyrerætlan, hañ reidist engum Hlut so miog, sem þvi, so hañ gietur ecki aflatid; Pad sia Meñ a Pharaone, er hañ fieck ecki halldid Israel a-moote Guds Vilia, Exod. 14. Pad sijner oss Dæmie Sauls Konungs, er hañ gat ecki David fyrerkomid, 1. Sam. 22. Achabs Dæmi, er hañ fieck ecki svælt under sig Nabots Vijngard, 1. K. B. 21. Gydinga, er þeir feingu þvi ecki radid vid Postulana, ad lata af ad predika wt af JEsu Nafni, P. G. 5. Darlegt er þañiñ ad vilia strijda vid hiñ Almattuga. So blindar nu Reidinn þañ, sem hefur Illt i Siñi. Annadhvert trwde Herodes Spadoomunum, edur hañ trwdi þeim ecki. Ef hañ þeim ecki trwdi, hvad droo hann þa til þess ad fremia þetta gudlausa Mord? Og ef hañ þeim trwdi, þa var þad Gloopska ad vilia beriast vid Gud, eñ þad sa hañ ecki, fyrer Heiptiñi, og þessare Foolsku velldur nu illur Asetningur. Vondskann er Frilla Diofulsins, og eitt friooffsamt Kvikende; Ein Illska gietur Þusund adrar af sier, og er Reidiñ og Heiptræknin Fooftur-Mooder allra þeirra. Vakte þvi hver Christenn Madur Hiarta sitt, og late þar einga syndsamlega Gyrnd inni drottna, helldur bidie Gud ad skapa hreint Hiarta i sier, Ps. 51. Þa mun

henni

honum sijdur verda hætt vid Reidinne. Ad sönnu er þad Mannlegt ad reidast, þegar eiñ hefur gott i Sinni og fær þvi ecki framkomid fyrer annarra Illsku Saker, (sem optlega skedur), og er þad skylldt gudlegri Vandlætingu; Eñ þo skulu Menn ecki giefa þañ Taum Reidinni, ad Meñ trodi Guds Bodord under Footunum, þvi ei mœ Illt giora, so ad Gott framkomi, Rom. 3. Giorum helldur Skylldu vors Embættis med Poliñmœdi, eñ felum Gudi Avoxtiñ œ Hendur. Eñ hitt er vijst, ad þess verri sem Asetningurinn er, þess stærri verdur Reidinn og Oriettvijsare, ef Asetninguriñ odlast ecki sinn Framgœng: Þad velldur þvi, ad ef eirn hreckvijs Madur gietur framkvæmt Gyrnd sijna, þa fagnar hann i Hiarta sijnu, œ medañ honum þiker vænt uñ Skomina, hefur og marga, sem eins eru Skapi farnir og hann, hroosandi þvilijku, og kalla þad velgiort, og þoott ecki sieu þeir, þa vantar eirn Maktar-Mañ alldrei eiñ Hræsnara, sem gyller þad fyrer hanns Augum, sem honum þo Reyndar þyki Klæker ad vera. Enn bere af þvi, ad hann nœe Fyrerætlan sinni, þad gremst honum, þvi hañ veit ecki einasta ad Illmeñska sijn er i Lioos komiñ, helldur þar œ ofann verdur spiadur og lijttur af hverium Mañi, so sem sœ, er took til ad byggia og gat þad ecki fullendad. Þad synir oss Dæmi Mordingians Herodis, er hann sœ ad hañ var gabbadur af Vitringunum, þa vard hann œfa reidur. Einginn Hlutur er sœ, er so miog upperti illt Skap, so sem Forsmœaninn, og, ei einasta þa, sem vonder eru, helldur og gooda Menn, ef þeir eru añars nockud Stoor-Hiartader. Og þess vegna, er þad hid añad Raad œ mooti Reidiñi, ad lijta ecki stoort œ sig, helldur ad eignast Saal sijna i Polinnmœdi, eptir Bodi Lausnarans, Luc. 21. Þvi fyrer utañ þad, ad Drambsemiñ spiller Mañkostunum vor Mœta, hversu vel sem eiñ er ad sier uñ marga Hlute, þa giora aller Meñ sier ad Skyldu, ad kiesia þañ sem mikillœtur er, og þykest odrum betri, og gietur hañ so ecki œ mis vid þad farid, ad eige bere honum margt Reide-Efni til Handa, og þvi er gott ad temia sier nockurskonar Mañvædleika, og uñ alla Hluti frañ Kiærleikañ, uñ hvern Paulus skrifar, 1. Cor. 13. Kiærleikurinn er Polinnmoodur og Goodgiarn, Kiærleikuriñ ofundar ecki, Kiærleikurinn gioerer ei Illmannlega, eige þijtur hann upp, hann er eige Osidsamur, hañ leitar ecki eptir þvi sem hañs er, hañ er eige þrwnglyndur, hañ þeinker ecki Illt; Og er i þessari Gullvægu Maals-Grein allt þad innibundid, sem afstijra mœ Reide og Fiandskap, enn efla Frid og Eindrægni Maña œ medal. Verollldiñ kieppist nu uñ Stunder vid, ad tilla sier sem hærst, og sœ er lijttur af morgum er þad giorir ecki, so sem hafi hann eige Vit œ, ad hallda Virdingu sinni, neina hañ trodi sier fram. O hvad betra er og Ohultara, ad setia sig i hinn ytsta Sess! epter Lausnarans Raadi, Luc. 14. Þa mun Virdingiñ sialfkrafa eptirfylgia þeim er so giora. Eñ hañ sem tiller sier œ þa Troppu, sem hañ er eige variñ til ad stijga uppœ, hañ mœ vel taka sier Vara, ad ei þurfe hann ad briota Odd af Oflæti sijnu: og ef so kañ til ad bera, þa er eingiñ oñur Von œ honum, sem hefur giort mikid af sialfum sier, enn ad honum gremiest þad og hañ kieppist vid œ allar Lunder ad fœ Hefnd þar yfer: Er honum þvi illa farid hvern Veg sem þad tekst.

Næe hann Hefndiñe, þa stelur hañ Hefndinni frœ Gudi, er segier: Mijn er Hefndinn, eg vil endurgiallda, Rom. 12. Enn bere af þvi, verdur hañ lijttur af sijnum Lijkum, Veralldariñar Bornum, hver ed forsmæer þœ, er Guds Syne fylgia i þvi ad forsmœ Oriettiñ. Hversu miklu betra er þa, ad hafa i Fyrstuñi snided sier Stack epter Vexte, so ecki þurfi þeir ad snijda hann upp aptur, er þu sijdst villder, þar til hañ verdur mœtulegur, eda kañskie oslijtell, og sagt verdi til þijn: Gief þessum Rwm, Luc. 14. Þoott eige sie hañ Heidarlegre eñ þu, sem þu mœtt vijkia fyrer. Þvi er Nœdlegt ad hafa sig i Hoofi, af Meñ vilia ei giefa sialfum sier nie odrum Ordsok til Reidi og Fiandskapar. Menn skulu ei helldur vera allt of grandskygner epter Oriettinum, edur gloggver i þvi, ad leggia þad wt œ vondañ Veg, sem oss er tilgiort, þad kann margt ad vera giort af Fævijse, af Brædrædi, af Trauste til Vinœttu vorrar, af Otta, af añarra Fortolum, er sœ reiknar sier ad vera til Sinœñar giort, sem er allt of-vidkvæmur, hveriuñi sijn Virding er sarare, enn þoott hañ væri skoreñ eda brendur, og reidest þar fyrer optlega Ofyrersynju, enn villdi kañskie alldrei reidst hafa, þegar hañ finnur Sañleikañ, og hefur i Brædi siñi añad hvert giort stærri Oriett edur þolad, helldur eñ Tilgiordenn var i Fyrstuñi, enn skañast sijn ad jæta sijdann ad hañ hafe fared villt, þoott hañ þecki þad, nær honum er Reidenn ruñeñ. Og þoott einhver Ovirde nockurn af æsettu Rœdi, þa er þad vijslega sagt, er Salomon skrifar, Ordsk. 11. Ad hann sie Vitur, sem lætur sem hann eigi siœe Oriettenn; Þvi Orietturiñ er eins stoor, so sem hann er af honum metinn, er hañ lijdur; Eingiñ reidist, nema hañ ætli sig vanvirdtann œ einhvern Hœtt. J ollu þessu er eckert betra Rœd, eñ ad giefa Reidiñi Stunder, og wthella henni ecki strax sem hun tekur eirn, þvi Bidinn kañ margt ad auglijsa, og Þrotenn i Hiartanu kann ad siatna œ medañ, og sœ sem vijs er, hann giorer so; Þad er heilnæmt ad pretta sialfann sig i slijku, og þegar Meñ reider eru, ad ætla sier ad bijda betri Tijma til ad hefna sijns Vansa; Eñ œ medañ kañ eitthvad ad skie: Eg kann ad deya, og skal mig þa alldrei ydra þess, ad eg hafe slept Hefndiñi. Hañ kañ ad deya sem mier tilgiordi, og giet eg þa eige helldur ydrast þess, ad eg tilgaf honum, hverium eg þo giarnann samfagna vil i Himnarijke; Og verdi hverugt af þessu, þa kannskie hann ydrest, og færi mier aptur Virdingu mijna med Auxte, þa hefi eg vel bedid og tekid Hlut œ þurru Landi. Verdi eige helldur þad, þa hefi eg Toom til ad hugsa mig um, hverninn eg fœe þad bætt, er eg lidid hefi, med sem minnstum Skada beggia ockar. Alleina er ad vakta sig fyrer þvi, ad Heiptinn snwist ecki upp i Hatur, ef Menn geima Reidina, sem þeim er hætt vid, er ecki Ottast Gud, og hverium ad sel er sin eilijf Velferd fyrir Virdingu Heims þessa. Guds Born giora þad ecki, sem Himnarijked erfa vilia, þau lœta Soolina ecke undergœnga sijna Reide, nie giefa Dioflinum Rwm, Eph. 4. Enn hverninn sem ollu þessu er varid, þa fæ eg alltijd Toom til þess, ef eg hepte Reidina, medann hun er sem brædust, ad hugsa um hvad betra sie ad lijkiast mijnum Frelsara, sem Mootmælinn þoldi, Ebr. 12. og drottna so med honum eilijflega, helldur enn ad vada uppi med Heiminum, og fyrerfarast so med honum og ollu þvi sem i honum er, 1. Joh. 1.

Þvi

Þvi vil eg brwka Raad hiñs gamla Platonis, er hañ baud þeim, sem reidur væri, ad skoda sig i Speigle, a medañ hañ være hvad grimastur, og munde hañ hrædast sialfañ sig; Enn eg villde skoda mig i miñe Molld og Ösku, þegar nockud fra lide, ef eg giæte stillt Brædena, medann hun er sem mest, og skoda þar, hvad lijted eg a under sialfum mier, eg sem er eitt Bloomstur, er folnar strax sem Ande DRottenns blæs a þad, Esa. 40. ein Vatns Boola, sem þijtur upp af Vindenum, ein Gusa er siest um Stundarsaker, og hverfur sijdann, Jac. 4. og mun eg þa brædlega skamast mijn, og þenkia helldur a Vesælld mijna, enn Hefndena yfir honum, sem ecke hefur kannskie meira syndgad enn eg a moote Gude, sem bæda ockur skapad hefur, og i hvørs Hende ad stendur beggia ockar Giæfa og Ogiæfa. Eg vil alleina gledia mig af þvi, ef honum þocknast ad lata mig þola Oriett sinna vegna, Matth. 5. Enn eg aumka minn Ovin, ad hañ ecke þenker hid sama og eg vil þenkia. So hugleided nu þetta, DRottenns Börn! Allir þier sem elsked ydar Tijmañlega Velferd, þier sem elsked ydar Sæluhiælp, og aller þier sem Gud elsked, giefed ydur Stunder til ad þenkia um, hvad skadlegur Hlutur ad Reidenn sie, hversu skamviñ ad sie sw Glede, er sa hefur af Hefndeñe, er hana tekur fra Gude. Lated ydur i Hug koma, ad Sæler ydar bwa i Hey-Hwse, þvi allt Holld er Hey, segier Raust Predikarans, sem hroopar i Eydemørku, Es. 40. hvørsu fliott kañ þad ad verda til Ösku brendt, þegar i þvi kviknar af Heiptenne, og hvar erum vier þa? Hvad verdur af þeim, er sialfur hefur eydelagt þad Herberge, er Gud fieck Sælu hañs til ad bwa i? nema ad Guds Reide Elldur tekur vid Öskuñe og breñur i heñe allt til nedsta Helvijtes, Devt. 32. fra eirne Eilijfd til annarar. Vert þvi snarlega samþyckur þijnum Mootstødu-Mañe, a medañ þu ert eñ þa a Veige med honum, ad ecke ofurselie hañ þig Doomaranum, eñn Doomarinn Kvalaranum, og verder þu so i Diblissu kastadur. Sañlega seige eg þier, þu munt þadañ ecke wtfara, fyrr enn þu hefur gollded hinn sijdarsta Pening, Matth. 5. sem alldrei verda mun um alla Eilijfd. Þar fra vardveite hinn Myskunsame Goode Gud alla þa, sem a hanns Myskun og Giædsku treysta, fyrer JEsu Christi Forþienustu, AMEN.

# A Þrettanda Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 2. Cap.

NEr ed JEsus var fæddur i Bethlehem a Gydinga Lande a Dogum Herodis Konungs: Sia þu, þa komu Vitringar af Austuralfu til Jerusalem, og segdu: Hvar er sa Nijfædde Konungur Gydinga? Þviad vier höfum sied hañs Stiornu i Austur-Vege, og erum komner ad tilbidia hañ. Enn er Herodes Konungur heyrde þad, skielfdest hann og öll

Jerusalem med hønum. Og hañ liet samañsafna øllum Kieñemaña Høfdingium og Skriftlærdum Lijdsins, og forheyrde af þeim, hvar Christur skyllde fædast. Enn þeir søgdu hønum: J Bethlehem a Gydinga Lande. Þviad so er skrifad fyrer Spamannenn: Og þu Bethlehem a Gydinga Lande, ert eingañveigeñ hin minnsta a medal Høfdingia Juda, þviad af þier mun koma Hertoge sa, er stioorna skal yfir mitt Foolk Jsrael. Þa kallade Herodes Vitringana heimuglega til sijn, og spurde þa iñilega ad, a hvorium Tijma þad Stiarnañ hefde byrtst þeim, og vijsadi þeim til Bethlehem, og sagde: Fared þier, og spyried vandlega ad Sveininum, og nær þier finned hañ, þa kuñgiored mier þad aftur, so ad eg kome eirneñ ad tilbidia hañ. Sem þeir høfdu nu hlijdt Konungenum, fooru þeir af Stad. Og sia þu, ad Stiarnañ, sem þeir høfdu sied i Austuralfu, gieck framme fyrer þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppi yfir, hvar ed Barned var. Eñ er þeir sau Stiørnuna, glødduft þeir af miklum Føgnude, og geingu i Hwsid inn, og fundu þar Barned, med Mariu Moodur þess, fiellu frañ og tilbadu þad. Og ad upploknum sijnum Fiarsioodum, Offrudu þeir þvi Giafir, Gull, Reikelse og Myrru. Og feingu Avijsan i Svefne, ad þeir kiæme ecke aftur til Herodem: Og fooru so annañ Veg aftur i sitt Land.

## Exordium.

SNema taka Børn til Meina, segier Ords-Hattur vor gamall, og er hann sañur. Madurenn fædest til Eymdanna, eins og Neistarner upp i Lofted fliwga, Job. 5. Fullur Hørmunga og fara Lijfdaga, Cap. 14. Allar Skiepnur Guds, er hañ giordt hefur oss til Þarfinda, þær eru ad nockru Leite sialf-færar, koñu efter þad þær wtkoma af Moodur-Lijfi; þeim hefur Gud og Natturann til-lagt af sialfum sier, hvad þau skulu hylia sig med og vardveita fyrer Kullda og Jll-Vidrum: Madurenn fædest Nakenn i Heim þennann. Þau fædast þeigiande af Moodur Lijfi: Manneskiann med Ope og Tarum, so sem kvijde hun vid þvi, ad henne byriar ad ganga i giegnum Taranna Dal, a medann hun nær Lijfe ad hallda. Jordenn er Dijranna Sæng edur Sioorenn Fiskaña, nær þau wtklakenn eru: Mañeskiañ ma ecke Lijfi hallda, nema hun a alla Vegu sie nærd og foostrud. Þesse er Upprune vor, hvorium þo a stundum eckert þyker sier Omattugt, nær vier drøgunst a Legg; er þetta þo hiñ miñste Hlute Mannlegra Eymda er vier þolum a Omalga Alldre vorum. Og er þad ecke ad undra a oss, hvørra Fødur sagt var i Ondverdu, ad i Sveita sijns Andlites

lites ſkyllde hañ ſijns Brauds neyta, og næra ſig af Jordunne med Erfide alla ſijn Daga, Gen. 3. Hann hafde til þeſs unned, og vier ſijdann, ſem af honum komner erum. Enn þad eru Undur, ad hiñ annar Adam, ſem er DRotteñ af Himne, 1. Cor. 15 Hañ ſkule vid ſomu, og enn þa miklu lakare Koſte bwa, jafnvel þott hañ ſie eptir Holldenu af Adam komeñ; Þad heyrum vier i þeſſa Dags Evangelio, þar Konungur Himens og Jardar mæ Svikum og Offsooknum hinns Grima Herodis mæta. Valla var hann fyrr i Heimenn borenn, enn ad Andſkotenn uppfyllte Hiarta þeſs Gudlauſa Konungs til ad wtſlockva Lioos Heimſins, og aflijfa hañ, ſem ollum giefur Lijf og Anda. Og fyrer þvi ad þeſſe Umſæatur Herodis voru Upphaf DRottens Hormunga, er hann þola mætte ſtrax i Inngaungu þeſſa Næatturlega Lijfs, þar ſæ Refur med Slægdarfullre Underhyggiu, leitade ſo freklega epter ad vita hvar DRottenn være fæddur, alleina til ad ræda hann af Dogum, ſem Raun gaf ſijdann Vitne um; Þæ vil eg tala framveiges um þeirra Kior i Heimenum, ſem Gude vilia epterfylgia i þeſſum Tæraña Dal inni i hanns Dijrd: Og þad i Tvennu Lage. 1. Vil eg ræda um Guds Barna Mootlæte, hvad þarflegt þad ſie. 2. Um Guds Adſtod i Mootlætenu.

Hinn goode Gud ſtioorne Tungu minne og Hiortum ydar med Næd ſiins Anda, ſier til Lofs og Dijrdar, fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

DRottenn JEſus ſagde vid Læreſveina ſijna, Luc. 18. Hvor ſem ecke medtekur Himnarijke ſo ſem Ung-Barn, hañ kañ ecke ad iñgæanga i þad. Enn eg vil ſegia, Brædur mijner: Nema þier gioreſt eins og Ung-Barn, þad er Maria lagde i Jotuna, þa fææd þier ecke iñgeinged i Guds Rijke. Hier med vil eg ecke þad meint hafa, ad nockur af oſs Adams Bornum kunne ſo fullkomeñ, ſo Heilagur, ſo Riettlææatur ad vera, ſem hañ, er ecke viſſe af Synd, 2. Cor. 5. Helldur ſo ſem DRotteñ ſegier, Luc. 6. Vered myſkunſamer, lijka ſem ydar Fader er myſkunſamur; og er þo ſyndug Mañeſkia læangt fræ þvi, ad jafnaſt vid Gud i Myſkunſemeñe, ſo vel ſem ollu odru, helldur bijdur Frelſareñ oſs, ad breita epter honum ſem meſt verdur. So eigum vier DRottne JEſu ad lijkiaſt i ollum vorum Lijfernes Hæattum, ad ſo miklu Leite, ſem oſs er mogulegt i þeſſum Daudlega Lijkama, og þad ecke ſijdſt i Kroſsburdenum. Hvorneñ hanns Fæding, hañs Uppfooſtur og allur hañs Alldur var Fææatækt og Eymdum hladenn, er oſs alkuñugt af Gudſpiallamañanna Bookum. Meinum þvi ecke, Brædur mijner, ad vier munum ſleppa hiæ ad drecka af Læknum med Chriſto, Pſ. 110. hier i Utlegdeñe, ef vier vilium nijtt Glediñar Vijn med honum drecka i Guds Rijke, Matth. 26. Miñeſt þeſs Ords er eg ſagda ydur, ſegier JEſus vid Læreſveinana, Joh. 15. Ecke er Þrællenn fyrer Herra ſijnum: Hafe þeir mig offsookt, þæ munu þeir ydur eirneñ offsækia. Hañ hlaut þañ Kaleik af ad drecka, er hanns Fader hafde honum æaſkeinktañ, ſo ad Ritningenn uppfylleſt, Joh. 18. Vier ſkulum og Ritninguna uppfylla, Matth. 26. med þvi ad drecka hañs Kaleik, hvar ad ſegier: Ad i giegnum margar Hormungar byrie oſs iñ ad

gꝏnga i Guds Rijke. St. Petur bijdur oss, P. G. 14. ad vier skulum hugga oss þar vid i Mootgꝏngenum, ad vorer Brædur i Heimenum hafa þvilijkt ad lijda. Enn hvad miklu helldur ættum vier ad hressa Gied vort þar vid, ad þetta er oss med sialfum Guds Syne sameigenlegt, hvør ad er Hofundur og Fullkomnare Trwarennar, Heb. 12. Þvi segier Paall. 2. Cor. 1. Ad so sem ad Christi Pijsler yfergnæfe til sijn, so yfergnæfe og sijn Huggun fyrer Christum. Vitringar þesser, er Gudspialled umgietur, þeir offrudu hinum nijfæddа JEsu, Gull, Reykelse og Myrru. Allt voru þetta Konunglegar Gꝏfur. So var hann Fꝏtækur, sem allt Sylfur og Gull aa, Jordena og allt hvad i Jorduñe er, Ps. 50. Ad hann mætte þetta þiggia af framande Mønnum; Eñ þvilijks einkes krefur hañ nu af oss, þar hañ er ingeingeñ i sijna Dijrd, utañ hvad vier skylduger erum ad hiꝏlpa hañs naudstøddum Limum, med þvi sem Gud oss lꝏnad hefur; Um hvoria hañ segier: Matth. 21. Hvad þier giordud einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, þad giordud þier mier. Hvørs krefur hañ þꝏ af oss? Eirnrar sañrar og lifande Trwar; þad er þad Gull, sem vier eigum Gude Himnaña Konunge ad biooda, eñ hun reinest hvad mest i Hørmunguñe. Þad er hægt ad trwa Gude, nær allt ad Oskum geingur. Valla vitum vier hvort vier Riett-Trwader erum, fyrr eñ i Mannraununum. Þad orkar ecke aa Hreiste Kappans fyrr enn aa Hoolmenum. Eige vita Meñ hvørsu ad Styremadureñ er forsiꝏll nema i Olgu-Sioonum og Andvidrenu; Og eige hvørsu dyggur ad Hyrdereñ er, fyrr enn hann sier Ulfeñ koma. So reynest og Trwenn vor i Mootlætenu. Þad er sꝏ Elldur, er Gull þetta skal reinast i: Og so sem Gulled smelltest i Elldenum, eñ tapar ecke Þyngd siñe, ef þad gott er; eñ Heyed og Hꝏlmeñ brenner hañ upp: So reinast Guds Børn i Mootgꝏngenum, styrkiast, eflast, vidurkveikiast og leidriettast; Enn i sama Mootgꝏnge kollsteipast Veralldarennar Børn, tortijnast, eideleggiast, orvænta og falla i Vijl og Efaseme; hiner þacka Gude, lofa hañ, og prijsa, kyssande aa hañs Fødurlegañ Hyrtingar Vønd, med allre Audmykt og Trwfastre Von, hvør ed alldrei lætur til Skamar verda, Rom. 5. Þesser lasta Guds H. Nafn, mogla, leita allra añarra Medala eñ ad snwa sier til hanns, sem þa typtar. Hier um talar St. Petur aagiætes vel, 1. Pist. 1, segiande: Þier erud glader, jafnvel þoott þier, um litla Stund, ef vid þarf, hryggder verded med adskiliañlegum Freistingum, so ad Reinsla ydvarrar Trwar verde Gullsins Reinslu dijrmætare, (hvørt ed forgeingur, og verdur þo i Ellde reynt) til Lofs og Heidurs og Dijrdar i Openberan JEsu Christi. Med Reykelseñu verda teiknadar Bæner Heilagra i Opennberununum hiñs heilaga Johannis, Cap. 5. og 8. Enn Gud nꝏde oss, hvørsu ad vier kallder erum i Bæneñe. J Medlætenu giører Madureñ Gud af sialfum sier, þegar allt ad Oskum geingur, og þykest einkes Þurfe vera, eñ veit ecke þad hañ er Fꝏtækur og Voladur, Ber og Nakenn, Openb. B. 3. Meñ segia, þar er Fridur og Tryggleike, eñ vita ei nær eñ Ogiæfañ bradlega yfer þa kiemur, so sem Jood sott Olietta Konu, 1. Thess. 5. Gud nꝏde hañ sem Bænarlaus er i vondre Verolldu þessare! Betra er nakeñ ad gꝏnga i Orustu, og Mꝏl-

laus

laus fram̃ fyrer Doomarann, helldur enn Bænarlaus fram̃ ad ganga i Heiminum. Enn þetta Reykelse tendrast ecki betur af neinum̃ Hlut, enn af Ellde Mootlætinganna; Þvi segier David, Ps. 34. Hiner Riettlaatu kolludu til DRottens, og hann Bænheyrdi þaa, og frelsade þaa, af ollum Hormungum þeirra. Meñ faa ecki Elld af Staalenu, nema Menn slaae þvi vid Tinnuna; Og so læra Menn ad þreyta vid Gud med heitre Bæn i Mootgaanginum, so sem Von er til, þvi hañ sem heitt skal bidia, honum skal mikid aa þvi liggia, er hann bidur um̃. Vier erum soddann Sialfsbyrgingar, þegar Verolldenn lætur epter oss, ad vier þykiunst oss um̃ alla Hlute fullnooger vera, so sem eckert hefdum vier ad þyggia af Fodur Lioosan̄a, fraa hverium þo kiemur oll good Giof, og oll fullkominn Giof, Jac. 1. Mootlætid hlijtur ad verka i oss Hitann og Alvorugiefnina i Bænin̄i, þvi an̄ars erum vier kallder og dofner i þvi ad bidia Gud. Ecki hefdi hin Canaaniska þreytt so vid DRottin̄ med Bænin̄i, nema hen̄ar Dootter hefdi verid so þwnglega plaagud, Matth. 15. Ecki hefde Samkundu-Hofdingen̄ leitad Christs, nema Dootter hanns hefdi andast, Matth. 9. Og Konungsmadurin̄ hefdi vel heima setid, hefdi eigi Vanheilindi hanns Sonar rekid hann af Stad, Joh. 4. Og þoott ad oss daglega ligge so mikid aa Guds Adstod, ad vier erum aller uppaa hana komner, þa siaa Menn þad samt ecki fyrr enn i Mootgaanginum. So kveiker nu Gud þetta sitt Upplyptingar-Offur med Elldi Mootlætinganna hier aa Jordunni, so þad verdi einn Sætleiks Ilmur fyrer honum i Himninum. Fyrer Myrruna hafa Lærifedur Christilegrar Kyrkiu, (og medal an̄arra Gregorius hin̄ Mikli) viliad skillast laata Deydingu Holldsins, af þvi ad hun beisk er, enn giefur þo af sier Ilm miog sætann. Eingin̄ Foorn er Gudi þeckari en̄ þessi, næst Trwnni aa Christum, og hun verkar ecki i Man̄inum, nema fyrer Trwna, enn þo allra hellst i Mootlætinu. Þegar hinn gamli Adam tekur til ad verda Fullur og Feitur, og gioraft Lauslaatur, (so sem Moyses sagde um̃ Israel, Devt. 32.) Þa leggur hinn Alvijse Gud vid hann Krossins Beitsle, so hann tamin̄ verdi og krossfestur med Christo; Þad er, ad hin illa Gyrnd, sem i oss bijr, verdi afmaad med Krossgaungunni eptir vorum Frelsara. Han̄s blessada Holld vard so vanburda aa Krossinum, ad hann gat daaed og laated sijna Saalu fraa sier. Enn hann vard lijfgadur aptur eptir Andanum, so sem Petur seger, 1. Pist. 3. Þad er: af, eda, eptir Guddoominum: Þad skiede til þess, ad han̄ til-legdi vorum Anda þan̄ Styrk, ad hid Syndumspillta Holld, giæte daaed i oss, enn vier eptir Andanum lifad, vard so hin̄ sami Hlutur, sem afladi honum Mannlegs Veikleika, Ordsok til Gudlegs Kraptar i oss, og hefur JEsus alldrei meira Almættis-Verk framid, enn þegar hann sem veikastur var. So verda og þeir, sem af Andanum fædder eru, styrkvaster i Gudi, þegar Holldid deydest og hinn gamli Madur er sem veikastur. Þetta vottar St. Paall, er hann seger, 2. Cor. 4. Alla Tijma berum vier um̃ krijng Deydingu DRottins JEsu i Lijkamanum, so ad Lijf JEsu verde og auglioost i vorum Lijkama. Segied mier, Br. M. Kann nockurt Hlutskipte, nockur Heidur, nockurt Rijki þvilijkt ad vera, so sem ad kallast, og ad vera, Guds Barn?

Oll

Oll Veralldarinnar Metord eru Prældoomur hiaa þvi Nafni. Madurinn bliifur ecki leingi i Heidrinum, segier David, Ps. 49. Hversu haa Volld og Virdingar sem einhver hefur; Enn þetta Hlutskipte maa eingenn af oss taka. Vier erum teiknader i hanns Hondum, Es. 49. Af hvers Hende eingenn fær oss slited, Joh. 10. Enn hvad segier Postuleun til Hebræos, Cap. 12. Hvern DRottenn elskar, þann agar hann, og hann epptar þann Son, er hann ad sier tekur. Ef þier Ogunina þoled, þa mun Gud tiaa sig ydur, eins og Bornum. Þvi hver er saa Sonur, er Faderenn ecke vandlæter um? Enn ef þier erud fyrer utann Aga, hvers aller Hluttakendur eru; Þa erud þier Hiaa-Born og ecki Syner. Hier af ræd eg þad, ad Krossenn Christi maa reiknast Pantur Arfleifdar vorrar, og eitt Trygda-Merke, sem Guds Sonur hefur sett uppaa sijna elskulega Brwde, og so sem Feste-Peningur þess Brwstadar, sem Guds-Born hafa i hanns Rijki heima eiged, þvi hier hofum vier ecke stadfastann Samastad, helldur væntum eins annars, þar sem vor Borgar-Riettur er, sem er aa Himnum; Phil. 3. Þad er þad Merki, er St. Paall umm talar, Gal. 6. er hann segier: Ad Heimurenn sie sier Krossfestur, og hann Heiminum. Hiedann af (seger hann) giore mier einginn Onaad; Þvi eg ber Teikn JEsu Christi aa mijnum Lijkama. Þar fyrer er Mootlætid alldrei so þwngt, og einginn Hormung so mikil, ad sw Huggun ecki yfergnæfe, ad vier eigum vissa Arf-Von i Guds Rijke, medann vier berum Christi Kross med Þolinnmæde. Þar umm talar St. Paall, Rom. 8. Siaalfur Andinn ber Vitni vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, enn ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, jaa, Erfingiar Guds, enn Samarfar Christi, ef vier lijdum med honum, ad vier eirninn med honum Dijrdleger verdum. Hann seger enn aptur: Ad ef vier vonudum aa Christ alleina i þessu Lijfi, þa værum vier Vesælaster allra Manna, 1. Cor. 15. Eg vil og þad segia, ad vier værum allra Manna Faavijsaster, ef vier dijrkudum Gud fyrer Epterlæti Heims þessa alleina, eins og hann hafi ecki annad Þusundsinnum meira og betra fyrerbwed þeim, er hann elska. Reidunst þvi ecki, Br. M. þoott vier siaaum hinum Ogudlega vel gaanga, Ps. 73. enn Guds Born Hormungar lijda. Þoott Gud hafe aa Stundum margt laated epter Elskendum sijnum, þa er þad Reyndar ecki so eiginnlegt Christinndoominum, ad þeim lijde jafnann vel, sem eru Christi Þegnar. Ogudleger hafa eckert aa Himnum; So hafa og Guds Born eckert i Heiminum, og þoott þeim falli Rijkdoomur til, þa festa þau ecki Hiartad vid hann, Ps. 62. Hier umm aaminner St. Petur nærsta heilnæmlega, 1. Pist. 4. med þessum Ordum. Elskanleger! (seger hann) skielfist ecki so sem Okunnuger af Reynslu þeirre er framm vid ydur kiemur af Elldinum, til ad freysta ydar, so sem hefdi ydur nockud Ovenjulegt tilfalled, helldur gladiest af þvi, ad þier erud Hluttakendur Hormunga Christi, so ad þegar hanns Dijrd opinnberast, ad þier gledjest þa fagnande. Þegar Skyenn hafa nockra Stund byrgt fyrir Soolina, þa skijn hun hvad fegurst. Þess meira sem vier lijdum hier fyrer Christi Saker, þess helldur munum vier fagna, nær vier skulum med honum dijrdleger verda, Rom. 8. Saa kann alldrei huggadur ad verda, sem eige harmade. Maa

saa

ſoo nockud Sigrinum hrooſa, ſem eige bardiſt? Gud kann ecki ad afþerra þau Tarenn i eilijfu Lijfe, er alldrei voru wthellt i þeſſu. Lijtum þvi ecki til nærverandi Hrellingar, hver ad er ſkamvinn; helldur til epterkomande Farſælldar, ſem er eilijf; vitande þad, ad Mootlætingar þeſſara Tijma, eru eige verdar þeirrar Dijrdar, ſem vid oſs mun opinber verda i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Og hin lietta Hormung, er vær hier lijdum, aflar oſs Oumrædilegs Þwnga eilijfrar Dijrdar, 2. Cor. 4. Hveria Gud oſs giefi fyrer Forþienuſtu Sonarens, Amen.

Hvad þvi Sijdara vidvijkur, er eg hiet um ad tala, þa ſtendur hier i Gudſpiallinu, ad Vitringar hafi komid wr Auſturvegi, og fært Barni þeſſu Gaafur. Þetta ſijnir oſs Guds Almaattugs Fodurlega Umhyggiu og Forſioon fyrer ſijnum Bornum, midt i Mootgaanginum, midt i Orbyrgdinni; Og ſanaſt aa þeſſu, medal annars, ad JEſus hefur oſs til Epterdæmis lided, 1. Pet. 2. Hinn alſkygni Gud, fyrer hvers Augum ad aller Hluter opner og nakter eru, Hebr. 4. Hann viſſe vel, hvad laa fyrer ſijnum Eingietna Syne, og hverſu hanns Hond hafde aaſett ad plaaga hann vorra Synda vegna, Eſ. 53. med laangri og mæduſamri Reiſu, og laangri Utlegd i Ægyptalandi, og þad ſtrax ſem hann i þenann Eymda-Dal borinn var; ſamt liet Gud hann ecki alldeilis hiaalparlauſann, helldur ſendi þeſſa Okiendu Menn af fiærlægu Landi, til ad bæta hanns Naudþurſt og hanns faatækrar Moodur. Tvennt hefur hinn goodi Gud med þeſſu Almættis og Myſkunar Verki wtriett; Hid fyrra, ad hann ſyndi, ad þetta Hiaalprædi tilheyrde heidnum Þioodum, Eſa. 49. hverier ad voru aan Guds i Heiminum, og fiærlæger Iſraels Rietti, Eph. 2. Þad Foolk er ſat i Myrkrunum ſaa Lioos mikid, Eſa. 9. Þvi eige er lijklegt, ad þeſſer viiſu Menn hafe duled þad fyrer Londum ſijnum, er þeir ſaau og heyrdu, hvar epter ſijdann fylgde Chriſtnibodid medal annara Þiooda. Hann ſendi þeſſa Framandi Menn ſo ſem i Umbode Heidingianna, til ad hylla þennann nijfædda Konung yfir ſig, til þeſs ad hann drottna ſkyllde til ytſtu Veralldarinnar Endimarka, Pſ. 2. O hverſu ættum vier þeſſu ad fagna! hverier eige vorum Guds Foolk, 1. Pet. 2. enn hann hefur þo kallad ſitt Foolk. Hverſu ættum vier ad prijſa hanns Riettlæte yfer hanns eigenn, og hanns Myſkunſeme yfer oſs, ſem vorum annarleger, ad hiner Naatturlegu Kviſterner eru af-brotner, enn vier innplantader, ſem vorum ville-Vijnvidur, Rom. 11. Hann rak ſinn eingietinn Son i Utlegd aa Ægypta-Land, ſtrax aa Omaalga Alldri, enn hann hefur flutt Vijn-Vid af Ægyptalande aptur, af þvi Þrældooms Hwſinu, og groodurſett hann i þvi Landinu, er hann villdi giefa þeim, Pſ. 80. Þad maa eg heimfæra uppaa oſs, hverra Fedur ad voru Syndarinnar og Dioful ſins Anaud underokader, er þeir geingu til Maal-lauſra Skwrgoda, 1. Cor. 12. Alldrei kunnum vier noogſamlega ad mikla og upphefia hanns Gudoomlega Speki og Fodurlega Forſioon, ad hann med þeſſu Vitringanna Dæme ſynt hefur, ad ſaa væri i Heiminn borinn, ſem er vor Fridur, og giorer eitt af baadum, og Gyrdingu Midveggiarins hefur afbroted, Eph. 2. Þar hann afmaad hefur Ovinſkapinn, hvert ad var Logmaal Bodordanna,

Q ſem

sem var innifalid i Setningunum fyrer sitt Hoiid, so hann giordi Tvo ad einum nijum Manni og semdi Frid; So þar er nu af Gydingum, þeim ed trwdu, og Heidingium, er ꜵdur ecki trwdu, ordid eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh. 10. Þetta var hid allra mesta Myskunar Verk, vid þa ed voru hinum sꜵrustu Syndum vafder, og mesta Sꜵlar Voda; Enn so ad Guds Fodurleg Giædska lieti oss vita, ad honum og umhugad være um Lijkami vora, þa sier hann sijnum elskulega Syni, hver ad i Volædi alinn var, hann sier honum Farborda med þessu Mooti, sem ꜵdur er sagt. HErra Gud! Hann kom til sinna eigenn, og hanns eiginn medtooku hann ecki, seger Johañes, Cap. 1. Arla syndu þad Gydingar; Hanns Mooder fieck eckert Rwm i Giesta-Herbergenu, til ad fæda i Heiminn Himins og Jardar Skapara, nema eirn Stall, Luc. 2. Enn framande Meñ, þeir ed eckert af Gudi vissu, þeir komu uñ lꜵnga Vegu til ad færa honum Giafer. An Efa hefur hinn goodi Gud þetta giort medal annars til þess, ad þau eige skylldu Naud lijda a Floottanum i Egyptaland. Mꜵttugur var hann ad sia þeim borgid med odru Moote. Hann gat lꜵted hvert Hey-Strꜵ a Jorduñi ad Gulli verda. Þad var ecki meira Krapta-Verk, ad leida þennañ litla Hoop i giegnum Eydemorkena, ꜵn allra Medala til Egyptalands frꜵ Canaan, helldur enn morg Þusund Israels Sona wr Egypto iñ i Canaans Land, og forsorga þꜵ uñ heil Fioritijger Ar i Eydemorkiñe. Eñ Gud villde hier med sijna bædi Moodur hanns og Foostur-Fodur, sem og ollum þeim, er þetta Evangelium sijdann heyrt hafa og a hanns Nafn trwa, ad jafnvel þoott hann Konungur være, þa være hañs Rijki ecki af þessum Heime, Joh. 18. Og so ættu aller þeir lynder ad vera, sem honum villdu til Handa gꜵnga, ad lꜵta sier nægia, 1. Tim. 6. sinn deildañ Verd, bæde i Medlæte og Mootlæte; Og þegar vier hofum þad vier skulum Fædast og Klædast med, ad vier lꜵtum oss þa nægia ef Gud vill so vera lꜵta: Uppꜵ sinn Eingietinn Son hafde Gud lagt alla Byrde Synda vorra, Esa. 53. Sw Anaud took til strax i Voggu, añars hefde hañ ecki i Armood fæddur verid, og Landsflootta ordid; Eñ ef honum var so umhugad uñ hann, þa er hañ reidur var Syndarinnar vegna, ad hann þetta giordi, ad hann sende honum Engla til Þioonustu, þa hann freistadur var, Matth. 4. Ad hann sendi honum Engil af Himne i hanns bitra Dauda-Strijde, Luc. 22. Þvi villtu þa orvænta uñ Guds Adstod i Mootgꜵnginum, sem i honum og fyrer hann ert sættur vid Gud, Col. 2. og JEsu Christi Samarfe ordinn? Eru ecki oll vor Hofud-Hꜵr talinn? Mun þa eitt af þeim falla a Jordu ꜵn vors Fodurs Vilia, þar slijkt mꜵ ecki einn Titling henda? Matth. 10. Og hversu dijrmætari erum vier þo Titlingunum, sem med Guds Bloodi erum endurkeypter? P.G.20. Eñ ef Guds Vilie verdur a oss, hveriu hofum vier þa ad kvijda? Er hañ Fꜵtækur, ad hann gieti ecki hiꜵlpad? Edur hardsvijradur, ad hann vilie ecke? Þvi moglum vier þa strax, sem ecki er fyrer Augunum þad sem eta skal? Hvar fyrir þijngia Menn Hiortu sijn med Sorgum þessarar Næringar? Lu. 21. Þvi hripsa þeir Nꜵungans Braud wt af hañs Munni, sem Valldid hafa, strax sem þa vantar?

Þvi svijkia hiner med adskiliañlegum Undannskotum og Raangsleitne er Yfirvalldenu eiga Tolla og Tijunder ad giallda? Þvi hallda Meñ Daglaunarans Sveita inne? Þvi prettast Meñ aa iñbyrdes i Kaupum og Sølum? Allt þetta er af hinum Vonda, og giora þad nockrer af þvi, ad þeir eru so lynder: Adrer þess vegna, ad þeir hyrda ecke um, þoott ad þeir brwke Leifar Eckiuñar, og Arf hins Fødurlausa til Ohoofs og Ofmetnadar, eñ flester þess vegna, ad þeir vantreista Gude. Eñ hvad miklu betra er ad brwka Davids Raad, Ps. 55. og varpa siñe Ahyggiu uppaa DRotteñ, þvi hañ mun þvi vel til Vegar koma. Hann kañ ad giefa Vatn af Helluñe þegar hann vill, Exod. 17. Hann gietur sadt sitt Foolk med Maña, Exod. 16. nær hønum þocknast. Hann gietur synt Agar Brunneñ aa Þurlendenu, nær hun til hañs kallar, Gen. 21. Hañ gietur forsorgad Jonas i Hvalfiskfins Kvide, Jon. 2. og jafnvel laated Hrafnenn, þañ graadugasta Hræfugl, færa Eliæ Fædslu, 1. Kong. B. 17. Enn Vantrwenn segier ad Gud giore ecke Jardteikner eins og aa Eliæ Døgum. Eg jaata þad; þess þarf og ecke vid; Gud hefur so leinge synt oss Giædsku sijna og Almætte, ad vier mættum vel trwa, þoott ecke siaaum vier Teikn og Stoormerke; Eñ þo vil eg þad segia: Ad være þar til Eliæ Trw, Eliæ Bæn, og Eliæ Kiærleike, þa er Eliæ Gud eirn og hiñ same, ef hønum þætte Krafta-Verkanna vid þurfa. Eñ mier sijnest eige þurfa Jard-Teikner til þess, edur ad umbreita Naatturunnar Haattum, ad Gud vardveite þaa sem hønum treista, og hañ i Anda og Sañleika aakalla, og siaai þeim Farborda, bæde þa illa og vel geingur, þvi þess hefur alldrei Mis-Brestur orded fraa fyrstu Heims Skøpun, allt til þessa Dags. Þad Ord stendur stødugt, segier Postulenn, 2. Tim. 2. ad Gud þecker sijna. Eda vill nockur skrifa hønum fyrer, med hvøriu Moote hañ hiaalpa skal? Seig mier, hvør myndade þig nær þu engeñ varst? Ps. 139. Hvør forsorgade þig i Moodur-Lijfi? Hvør leidde þig wt þadañ? Hvør gaf þier Alldur og Voxt, Maal og Vit? Giørder þu þetta siaalfur? Eda hiaalpader þu nockud þar til med þinne Ahyggiu? Seig mier: Er þaa ecke Lijfid meir eñ Fædslañ? Og Lijkameñ meira eñ Klædnadureñ? Matth. 6. Hvør lætur Grasid aa Jørduñe vaxa? Segier ecke JEsus ad þad verde, ad Akur-Kallenum söfande? Marc. 4. Hver plantar Trien i Skoogenum? Hver lætur Saudena fiølga aa Jørduñe? Hvør framleider Fiskana af Sioonum? Hver giefur Regned aa Jørdena i Hagstædañ Tijma? Paall sagde, Gud giørde þad til Vitnisburdar um siaalfañ sig P. G. 14. Være þier eirneñ rignt i Verølldena i Dag, og þu sæer ad allt þetta skiede, munder þu ecke kalla þad Kraptaverk. So verda Guds Almættes Verk, eirn almeñur Hlutur hiaa oss, i hvørium vier þo ecke hid minnsta skilia kunnum. Hann lætur mig þo margt Mootlæte þola, segier þu; Þvi maa eg hwngra og þyrsta? Þvi hann vill kienna þier, ad Madureñ lifi ecke af einsamañ Braude, helldur sierhvøriu Orde sem frameingur af Guds Muñe, Matth. 4. Þvi em eg siwkur og saar? Til þess, ad Lijkamans Vanheilsa verde ad Andans Heilbrygde. Þvi misse eg þad Gud mier wdur laanad hefur? So þu ecke fester Hiarta d þar vid, Ps. 62. Þvi verdur mimun

kiæruſtu Vinum og Adſtodar Moñum i burtu ſvipt? So ad Gud ſie þiñ beſte Vinur, og þu lærer ad þeckia, ad hiaa honum einum er Hiaalpeñ, Eſ. 43. Þaa oll Mañleg Hiaalp er wte. Hluſta þvi til þeſs, er Eliphas Themanites ſagde vid Job., af hanns Bookar Cap. 5. Sañlega er ſaa Madur ſæll er Gud typtar, fyrerlijt þu ecke Straffan hinns Almaattuga; Hann hreller ſiaalfur og læknar; Hann ſlær, enn hanns Hendur græda. Af Sex Hornungum mun hañ wtryckia þier, og i hiñe Siøundu ſkal eige ſnerta þig hid Vonda; J Hungrinu mun hañ frelſa þig fraa Daudanum, og i Strijdenu af Sverdſins Hende. Vel er þad ſatt, ſem Poſtuleñ ſegier, Hebr. 12. Ad oll Typtan, medañ hun aaliggur, þiker hun Sorg og engeñ Glede vera, eñ hun giefur þo epter aa Fridſamlegann Avoxt Riettlæteſins. Þar fyrer geingur þad Guds Børnum, ſo ſem hann uñ ſig jaatar, 2. Cor. 4. Vier hofum þennann Fieſiood i Leyr-Kierum, ſo ad Yfirburder Kraptarens ſieu af Gude og ecke af oſs. J ollu þiaaunſt vier, enn verdum þo eige adþreyngder, vier eſunſt enn ørvæntum eige; Vier lijdum Offoſn, enn verdum eige yfirgiefner, oſs verdur nidurvarpad, enn vier fyrerførunſt þo ecke. Hvar fyrer, Brædur mijner? Þvi ad oſs hender eige nema Mannleg Freiſtne, 1. Cor. 10. Þad er ſoddann Mootlæte, ſem Mønnum er bærelegt, eñ hañ er trwr, og freiſtar einkes yfir Megn fram: ſo ad margur Lazarus, ſaa ed liggur fyrer Dyrum hiñs Rijka, fullur Kauna, Luc. 16. hann er betur til Frids, eñ eirn Verålldar-Sonur, hvern Agyrndeñ daglega plaagar, hverium Øfundenn ſlijtur, hvern Reidenn brenner, hvern Hofmoodureñ uppblæs, ſo hañ hefur eige Frid nema einhver ſteite; hvar aa moot Guds Vinur hrooſar ſier af Hørmungunum, vitande ad Hørmungeñ verkar Þolinnmæde, enn Þolinnmæden Reinſluna, enn Reynſlañ Vonina, enn Vonenn lætur eige til Skamar verda, Rom. 5. Þviad Elſka Guds er wthellt i Hiørtum vorum fyrer heilagañ Anda ſem oſs giefiñ er, Rom. 5. Jaatum þad þvi ſatt ad vera, er Jacob ſeger, Cap. 5. Sæll er ſaa Madur, er Freiſtinguna þolir, þvi nær hann reyndur verdur, mun hann odlaſt Coronu Lijffins, hvørre DRottenn hefur heited þeim er hann elſka. Hennar niootande ad verda, uñe oſs Myſkunſamur Gud, Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrer Son ſinn JESUM, AMEN.

# Fyrſta Sunnudag epter Þrettanda.

Gudſpialled, Luc. 2. Cap.

J Þañ Tijma. Og þaa ed hañ var Toolf Ara gamall, fooru þau upp til Jeruſalem, epter Sidvenju Haatijdar-Dagſins. Og er þeir Dagar voru lidner, og þau fooru Heimleides, vard Barned JEſus epter i Jeruſalem, og hañs Forelldrar viſſu þad ecke. En þau meintu þad, ad hañ være hiaa Selſkapnum. Og voru ſo komeñ Eina Dag-Ferd, og leitudu hañs medal Frænda og

Kunn-

Kuñingia. Og þared þau fundu hañ ecke, geingu þau aptur til Jerusalem, og leitudu ad hønum. Enn þad skiede so, epter Þriar Daga, ad þau fundu hañ i Musterenu, sitiande midt a mille Læresedrana, heyrande þeim og adspyriande þa. Eñ aller þeir, er hann heyrdu, undrudust yfir hañs Skilningi og Andsvørum. Og er þau sau hann, hnickte þeim vid. Eñ hañs Mooder sagde til hanns: Son miñ! þvi breitter þu so vid ockur? Sia þu, Fader þiñ og eg leitudum Harmþrungiñ ad þier. Og hann sagde til þeirra: Hvad er þad þid leited ad mier? Vissud þid ecke, ad mier byriade ad vera i þeim Hlutum, sem mijns Fødurs eru? Enn þau underst oodu ecke þetta Ord, sem hañ mælte til þeirra. Og hañ foor med þeim ofañ, og kem til Nazareth, var þeim og hlijdeñ. Eñ hañs Mooder geimde øll þesse Ord i sijnu Hiarta. Og JEsu jookst Alldur og Vitska, og Naad hia Gude og Mønum.

## Exordium.

Hvor sem ecke medtekur Himnarijke sem annad Ung-Barn, hann mun ecke inngaanga i þad, segier Endurlausnarenn, Marc. 10. Hvad skulum vier hier til segia, Br. M.? Jeg ætla ad Hollde og Bloode mune þetta Ofgar þykia, og er þess øll Von, þvi þau erfa sialf ecke Guds Rijke, 1. Cor. 15. Er þar fyrer lijklegt, ad þau mune ecke kunna mikla Grein a þeim Hlutum, er til Guds Rijkes heyra. Hvørnenn kann Madurenn ad endurfædast þa hañ er gamall? Hvort gietur hann horfed aptur i siñar Moodur Kvid, og fædst so ad niju? Sagde Nicodemus: Joh. 3. Og slijkar Tølur mun Holld og Blood telia sier: Skal eg æpa aptur eins og Ung-Barn, og verda Vitsyrringur eins og Ung-Barn, og laata øllum Laatum eins og Ung-Barn? Eda eru Himnaña Dyr so þraungvar, ad eg verd ad skrijda a Fioorum Footum inn i Guds Rijke eins og Ung-Barn? Þraungvar eru þær ad sønnu, Christeñ Madur, og þad so miog, ad hægra er Ulfballdanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur enn Rijkum Mañe inn i Himnarijke, Matth. 19. Og Leidenn er þaangad so þraung, ad marger vilia hana gaanga, og gieta þad ecke, ad Vitne Christi, Luc. 13. Eñ ecke er þad Meining vors Frelsara, ad þad sie Vegur til Himna-Rijkes ad gaanga i Bernsku edur i Ungiæde, helldur enn hitt, ad Mañenum byriade aptur ad hverfa i Kvid siñar Moodur. Paulus segier oss best hvernig þvi hagar, med þessum Ordum: Vered ecke Børn i Skilningenum, helldur i Hreckvijsenne, 1. Cor. 14. Sa er alltijd noogu Vitur, er sier lætur stioorna af Anda DRottens; Hinn er Faavijsare enn Nauted og Asnenn, Esa. 1. sem mootstendur Heilogum Anda. Þier þyker þad Vesalmañlegt ad æpa eins og Barn, enn ecke þockte þad David, sem ad taaradest fyrer Gude um allar Nætur, Ps. 6. Ecke Ezechia Konunge, sem tijste eins og Tranann, og kurrade eins

og Owfañ, Esá. 38. Ecke Manasse, sem giorde heita Ydran fyrer sijnar Synder, 2. Kron. 33. Og voru þesser engeñ lijtel-Meñe; Ecke Petre, sem geck wt og griet beisklega, Matth. 26. Og ecke hinne Bersyndugu, er þvode JEsu Fætur i Tarum sijnum, og þerrade med Haar-Lockunum, Luc. 7. Þesser breita epter Smaa-Børnunum, og þanneñ ætla eg ad flester hafe geinged inn i Himna-Rijke. Gud næde vort Eymdar-Stand hier i Heimenum! Þegar vier vorum Omaalga Børn, og vissum eingenn Deile Goods edur Ills, þaa var Himna-Rijke vort; Eñ nær vier dregunst aa Legg, gioraſt sumer Helvijtes Ellde-Brandar. Gott er ad sonnu ad vaxa ad Alldre, og under eins ad Vitsku og Naad hiaa Gude og Moñum, eins og Barned JESUS: Eñ hvad Illskunne vidvijkur, þaa ætla eg gott sie ad fara alldrei af Barns Alldre; Þvi kalla eg þañ heppenn, sem ecke veit af fleire Odigdum ad segia, enn hann er fæddur med, jafnvel þo allt sie Holldlegt þad af Holldenu er fædt, Joh. 3. Enn þad maa þo ad miklu Leite bæta med Christilegum Aga og Uppfrædingu, aa hverrar Syndumspillt Nattura er eins næm, aa þad illa, so sem Tundred tekur aa moote Elldenum. Um þetta vil eg nockud framar tala wt af þessu H. Evangelio, er vier viliumi Tvo Hlute deila. 1. Um Skylldu Forelldranna vid Børnenn. 2. Um Barnanna Skylldu vid Forelldrana. Enn þu sem ordenn ert Hluttakande Hollds og Bloods, eins og Smaa-Børnenn, HErra JEsu Christe! Stioorna þu Hiortum vorum, so oss kvsa giøre ad fylgia þijnu blessudu Digda Dæme, og send oss þar til Naad þijns H. Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

HJd Fyrsta sem Forelldrarner eru Børnunum skylldugerr um, þad er Lijkamleg Forsorgun, Fot og Fæde: Þad kienner sialf Natturann; Himen og Iord hroopa þad Daglega. Aller Hluter hafa Forsorgun af þvi sem þeir eru fædder af; Villu-Dyreñ aa Morkeñe, þau grimu Leoneñ, og hinar Olmu Byrnur afrækia ecke sitt Foostur. Tried hefur siñ Vøkva af Rooteñe, og Ormum Jardareñar giefur hun sijna Fædu, og vier erum sialfer komner af heñe i Ondverdu, og øll sijn Børn hefr hun fyrer Almættes Krapt DRottens foostrad, allt til þessa Dags; Þacker sieu hønum ad eilijfu, sem hana daasamlega friovgar, med Feite Vagnleidar sinnar, Ps. 65. Þetta er ad soñu skylldugt og naudsynlegt, enn þo er þad hiñ miñste Partur, jafnvel þoott sumer þykest øllu hafa afloked, þegar so er giort. Þad er þo Haalfverk, nema miña sie, þvi betra er ad kasta Afkvæme sijnu wt aa Morkena, enn ad laata þad uppalast i øllum Odygdum Diøflenum til Þioonustu. Hvad er þaa framar? Hvad heyrum vier af Forelldrum JEsu? Þegar Hañ Var Toolf Ara Gamall, Hofdu Þau Hann Upp Til Jerusalem. J Exod. 34. C. stendur, ad DRotteñ hafe giefed þetta Bodord: Þrisvar aa Are hveriu skulu aller þijner Karlmenn mæta fyrer Auglite DRottens Guds þijns. Þessu Bode voru þau Joseph og Maria hlijdug, og tøldu ecke epter sier ad reisa umlangann Veg, allt fraa Nazareth i Galilæa upp til Jerusalem. Merk hier hvad fyrst aa ad

ꝏ ad vera i Christilegu Upphelldi, sem er Otti DRottins. Þad sem fyrst kiemur i Kierid, þad lyktar þad leingst af, seger hinn Romverski Ordshæattur. So eru og Bornenn, þad fyrst er hiꝏ þeim innplantad, þvi hallda þau leingst; Enn eckert er þvilijkt, sem Otti DRottins. Hañ er eins og Sædid þad Meñ i Jordina leggia; þad kañ eige annad eñ ad bera sier lijkañ Avoxt; Þar fyrer ꝏ þad ad vera þitt Fyrsta Verk, Christiñ Madur, ad iñrœta hiꝏ Barninu Eskuna til Guds og mun allt añad gott, med miña Erfide, ꝏ epter fylgia. Læknisdoominn giefa Meñ iñ ꝏ toomañ Maga, og hallda þad gott til Heilsubootar. Vier fædunst i þennañ Heim siwker af Syndenne, þvi i Syndeñe em eg aliñ, seger David, og i Syndiñe hitnadi miñi Moodur med mier, Ps. 51. Eñ hvor mun þvilijk Lækning þar vid, sem Elskañ til Guds? Lꝏt þiñ Son drecka hana iñ med Moodur-Mioolkiñi, og muntu afla honum andlegrar Heilbrygde, og þad ꝏdur enn allt añad iñkiemur, ꝏdur enn hid unga Hiarta saurgast af Heimsins Ohreinindum, af vondri Uñgeingne og illum Dæmum, ad þad sie þa fullt af Elskuñi til Guds og Dygdaña, so þa Satan kiemur og ber ad Dyrum med Hamri Lastanna, þa verdi hañ snarlega brotiñ ꝏ Bak aptur, af þeim, sem honum eryferster kare, Luc. 11. Lastadu Blygdunarlaust, þar mun alltijd eitthvad vidloda, segia hin hreckvijsu Dioful sins Born, sem tamt er ad bera illt i Hofdingiaña Eyru, til ad afla Fiandmonnum sijnum Ohocka. Brwka hid sama vid Barn þitt med odrum Hætti. Tala jafnann uñ Gud, hvad goodur hañ sie, og hversu Volldugur, ad hann hafe Himen og Jord skapad, hvad mikid gott hann Moñunum veite, hverninn hañ þꝏ dꝏsamlega forsorge, hversu goodur hañ sie þeim, sem hañ Ottast, hvad dijrdlega Vist hann hafe tilbwed þeim med sialfum sier, er hann elska og nockud lijda i Heimi þessum hañs vegna, hversu ꝏgiæt Giof ad sie JEsus Christus, og hverninn hañ hafi eirniñ Ungbarn giorst fyrer Mannanna Hialpræðis Sakir. Tala þetta fyrer Barninu, Christiñ Madur, þad er sw hreina og skynsamlega Mioolk, sem ad Petur uñ talar, 1. Pist. 2. ad vier skulum gyrnast, so ad vier voxum til Sꝏluhiꝏlpar, og trw mier til, þad mun eigi Avaxtarlaust verda, jafnvel þoott Bernskann sie rijk i Ungdoomsins Hiarta, Ordsk. 22. Þvi af Munne Smꝏ-Barnanna og Briooſtmylkingaña hefur hann sier Lofid tilreidt, Ps. 8. Þetta mꝏ einfalldlegt þykia; Þad er þo þad, ꝏn hvers einginn hefur vitur ordid. Eg skamast mijn ecki ad tala þad til goodra Barna, sem Moysi þootti eingiñ Miñkun ad tala til Israels Sona, edur hvad seger hann? Devt. 6. Þesse Ord sem eg bijd þier i Dag, skalltu leggia uppꝏ Hiarta þitt, og brijna þau allt jafnt fyrir þijnum Bornum, og ræda uñ þau, nær þu situr i þijnu Hwsi, og binda þau til Merkis ꝏ þijna Hond, og skrifa þau ꝏ þijna Dyrustafe, og þau skulu vera þier Miñingar-Teikn fyrer þijnum Augum: Hvar uñ talade Moyses þetta? Uñ Guds Logmꝏl sem þo deyder, 2. Cor. 3. Hvad miklu framar mꝏ eg þad segia uñ Ord Evangelii, sem er Lijf og Andi, Joh. 6. Og fyrer þvi, ad allt Logmꝏled er i Tveimur Bodordum innifalid, sem er ad elska Gud af ollu Hiarta, og Nꝏungann sem sialfañ sig, Matth. 22. Þa undervijsa Barninu strax ꝏ

unga

unga Alldri, hverninn aller sieu ordner eirn Madur i Christo, Gal. 3. Eñ hañ sie Hofuded, Eph. 1. Hvad skamarlegt þad sie, ad eirn Limurinn forsmaaer añañ, edur ad þeir toñlest og tyggiest iñbyrdis, þar til þeir mættu um̃ sijder verda uppetner: Jaa, hvada Merke hinn goode JEsus hefur sett uppa sijna Læresveina, ad aller skulu þeckia þa þar af, ad þeir elske hver annañ, Joh. 13. Brijn fyrir Syni þijnum Christilegar Dygder og gudrækilegt Athæfi, Hoogværdina, Kiærleikann, Myskunsemina, Þolinmædena, Riettvijsena, Goodfijsena, Sparsemena, Hugprijdena. Afmaala þær so sem DRottins Engla i hañs Augum, so ad hañ fae Elsku til slijkra Hluta, og hafe þa kiæra enn allt añad, og þecki hversu Gud hafi þa kiæra er slijkt ydka, og hverninn ad aller agiæter Hluter, sem Meñ hafa mestar Mætur a i Heiminum, plage slijkre Atferd epter ad fylgia, so sem er, Heidur, Metord, Astsæld, og annad stundlegt Epterlæte, er Gud veiter morgum af sijnum Vinum: Eñ kuuni odruvijse ad falla, þa sie Dygdinn sijn eiginn Verdlaun i þessu Lijfi, og hafe Fyrerheit eilijfrar Sælu i Himnarijke. Lat hann sem allra seinast naa Odygdernar ad þeckia, eñ elska alldrei. Drep þeirra Nafn wt i hanns Eyrum, og gior Lestina ad Skrimslum og Ofreskium; Leid honum fyrer Siooner þeirra Straff og illar Utfarer, er þvilijkt adhafast, og ad hann muni slijkañ Kost eiga, nema hann gialldi Varhuga vid. Med soddann Fortolum er Christilegt og Skynsamlegt ad hræda ungar Manneskiur, eñ eige med Grijlum, Draugum og Forinum. Upphaf Vitskunnar er Otti DRottins, Ps. 111. eñ ecki ad hrædast Fiendur og Pwka, hveria þeir alldrei sied hafa, er hvad mest þar um̃ rausa. Um̃fram̃ alla Hlute, vert sialfur hinn skiæraste Dygda-Speigill fyrer þijnu Afkvæmi. Lat eckert Liott sioast i Fare þijnu, hvad hinn Ungi kunni eptir ad henda. Borniñ trwa Forelldrunum eins og Gudi, og meina þad sie allt Gott sem þau giora. Lat ecki Hlijdni Undirgiefninnar glæpast a Agni Illskunnar. Fyrer eingum a meiri Bligdun ad bera, eñ fyrer einum Ungling. Þad er betra ad giora Liott eitthvad i Hofdingians Auglite, enn Barnsins. Hvar a þinn Sonur Gott ad læra, ef hann sier eige til Fodursins añad enn þad Illt er? Munt þu, sem Lijtum ert hladinn, hafa gietid hañ so næmañ a Dygdernar, ad hañ læri þær sialfkrafa, er hañ sier alldrei fyrer sier nema Odygder? Kunne þig þvi mannlegt ad henda, sem opt skiedur, þa tak þier Vara fyrer, ad hinn unge Madur vite sem minnst þar af; Þvi eg vil helldur ad Ovinur minn siae Illt til mijn, helldur enn Sonur minn, þegar eg giæte ad hversu þwng ad Guds Hond vard yfer Jeroboam, Syne Nebat, sem ad kom Israel til ad syndga, 1. K. B. 14. Þad er og ecke noog, ad þu vardveiter sialfañ þig, vakta og Barn þitt fyrir vondum Selskap, þvi illt Samtal spiller goodum Sidum, segier Postulenn, 1. Cor. 15. og lijted Surdeig sijrer allt Deiged, 1. Cor. 5. Eg sie hier i Gudspiallinu, ad Joseph og Maria leitudu ad JEsu a medal Frænda og Kunningia, sem voru Gudhrædder Menn, enn ecki medal Illþijdis. Hvar fyrer? Þvi hann var ecki þesshattar Selskap vanur. Þau fundu hañ og i Musterinu, sitiande midt a millum Lærifedranna, enn ecke wt a Strætunum

medal

medal Gærunga. Eingenn kann um̃ þad Høgum ad hyggia, hvad vondur Selſkapur giører; Þad geingur tregt ad venia vonda Nꝛatturu a hid Gooda, hitt er liett ad temia gooda a hid Vonda. Juda hefdi kan̄ſkie ecki verid Hluttakari i Manſali † Joſephs, hefdi ecki ſpillt honum Selſkapur Brædra ſinna, Gen. 37. Dina hefdi halldid Æru ſinni, hefdi hun ecki komid i Lauslæatar-Hendur, Gen. 34. Paulus hefdi ei offsookt Guds Chriſtne, nema hann hefde ꝍdur verid drucken̄ af Swrdeigi Phariſæanna, Matth. 16. Þoott ad vier ſieum gietnir og fæddir i Syndin̄i, þa er þo Barnanna Hiarta lijkt hreinum Pappyr, þar ed aller Hluter verda ritader a. Ef þad er Gott, þad blijfur; er þad Illt, þad er ecki helldur ſo liett wt ad ſkafa, ſo ecki a ſiaæ. Um̃geingni hreckvijsra Manna er heimuglegt Eitur, ein̄ Nætur-Þioofur, ein Mord-Pijla, ein Drepſoott ſem i Myrkrunum lædiſt, Pſ. 91. Ein̄ Høggormur i Barme, og Rotnan i Beinunum, Ordsk. 12. Hallt þvi hinum ungu Arum fraa ſlijkre Oliſian. Barned ſamþicker þad kannſkie ecki ſtrax, ſem þad heyrer; En̄ trw mier til, ad eitt vondt Ord grefur meira um̃ ſig i Hiartanu en̄ Flijſen̄ i Holldinu; Ef nockur ſtijngur Fijngrinum a Vaxid medan̄ þad er blautt, þa verdur þar Hola epter, og hun varer þegar þad hardnar, tekſt og ecke helldur i burt nema þad ſie brædt aptur. So er og Barned. Þad ein̄ Ungur numdi, þad kan̄ hann Gamall; Gietur og kannſkie ecki gleimt þo hann villde; og þo han̄ kyn̄e, þa er betra heillt enn bætt. Laat þvi ſem minnſt verda Spiollenn, ſo eige þurfe ad endurbæta. Þar er Stoorlæti nockurt i fleſtra Manna Hiortum, Jer. 17. Þvi Madurenn er drambſamt Dijr. Þad er ad ſøn̄u ſkadleg Tilhneiging, kan̄ þo til Gagns ad koma, ſie henni vel ſtioornad; Laat þinn unga Son læra ad forſmaa þad ſem Illt er, og virda þaa ad eingu, ſem ecki vanda ſialfa ſig: Þad Stoorlæti er ſkadlauſt; Þvi Poſtulenn ſeger um̃ þaa, ſem laataſt Brædur (þad er Chriſtner) vera, en̄ eru þo Heidingiar i Hiartanu, ad med þvilijkum ſkulu Men̄ ecki Matar-Nautn hafa, 1. Cor. 5. Ad þeſſu undan̄geingnu, þa venied og Born ydar til Ydni og Aſtundunar. So ſem Leti og Omennſka hefur aflad mørgum mikellra Laſta; So hefur Ydni og Eliun margan̄ Oſooma i burtu tekid. Hofdingi þeirra Athenuborgar Manna Solon, hann ſetti fordum Daga, ad ſaa ſem ecki hefdi kiennt Syni ſijnum neitt Handverk, han̄ ſkylldi ecki eiga ſkilid af honum Fooſtur i ſinni Elli. Eg kan̄ ecki ad ſegia, ad þad væri Chriſtilegt: Hitt ſege eg, ad þad var gagnſamt, þo eg valla vite, hvad ſaa er Forelldrunum ſkylldugur um̃, ſem er uppalin̄ i Leti og Omen̄ſku, ſo han̄ gietur ecki feinged ſier Atvinnu, þa hann er fullþroſka. Og þoott aller ſiæ ei til þeſs komiſt, ad ſetia Born ſijn til Menta, þa vited, ad ærlegt Erfide er Gudi eins þægt, þvi hiaa honum er hvergi Þræll nie Frelſinge, helldur aller Eitt i JEſu Chriſto, ſeger Poſtulenn, Gal. 3. Þad væri ei gott ad aller væru Herramen̄, eg ætla þa yrdu aller Bændur, hvad Verollden̄ ei þoler fyrer Man̄an̄a Illſku Saker. Bondin̄ vid Orfid er eins þægur Gudi, þegar han̄ giorir Verk ſin̄ar Kallanar, ſo ſem Doomarin̄ i ſijnu Sæti, edur Preſturin̄ fyrer Altarinu. JEſus var ecki til Boo-



† Man er Þræll, ad ſelia Manſale, er ad ſelia i Þrældoom.

ka settur, þvi sogdu hañs Oviner, hvadann kiemur honum Frædi þessi, Matth. 13. er hañ hefur þo ecki á Bækur lært? Þad skiedi af Guds ásettu Raadi, so einginñ kyñi ad segia, þad hañ hefdi sijna Speki af Monnum. Eñ Timburmannsins Son, Marc. 6. var hann kalladur, og sialfur Smidur nefndur. Þvi er audvitad, ad hañ muni ecki Ydiulaus verid hafa i Ungdoomi sijnum, helldur unnid þad sama Handverk: Þo mæla sumir eptir Bornum sijnum, ad læra ad leita sijns Brauds i Sveita sijns Andlitis, vitandi þad, ad sá sem uppelst Ydiulaus, honum er nærst þvi ad deya Ærulaus; Þvi þegar hañ kañ eckert ad vinna, hvad gietur hañ añad giort, eñ ad hlaupa med Þioofnum til ad stela, og verda sijdañ dreiginn i Gealgann til ad hánga? Margt mætti hier uñ framar tala, enn eg læt hier vid bijda i þetta Siñ, og vil Ihuga framveigis, hvad Borninn eru aptur á moot Forelldrunum skylldug.

Og hann foor ofaun med þeim, og kom til Nazareth, var þeim og hlijdiñ, segier Textiñ. Hvilijkt er þetta? B r. M. Skapariñ hlijdnast Skiepnuñi, Gud Mañinum, Herrañ Ambáttiñi. O miñ JEsu! hvilijk er Þioons Mynd þessi? Þad er ecki uñ Skor fram talad, ad þu lided hefur oss til Eptirdæmis, 1. Pet. 2. Merki þad aller þeir, ed undir Forelldra Valldi eru, og añarra, sem i Forelldra Stad settir eru, hversu Ovidurkvæmilegt þad er, ad briootast á mooti þeim, sem vier ecki einasta eigum Lijfid, helldur og Foostur og Uppheldi ad þacka. Þier Born, verid hlijdug Fedrum ydar i DRottni, seger Páll, Eph. 6. þvi þad er riettvijst; Heidra þiñ Fodur og Moodur, þad er hid fyrsta Bodord med Fyrerheiti, ad þier vel vegni, og þu verdir Lánglijfur á Jorduñi. Hvar fyrer seger hañ: J Drottne? Þvi ecki einasta vegna Forelldraña, helldur og Guds vegna á þeim ad hlijda. Gud er allra vor Fader, Eph. 4. og med þvi allra fegursta Nafni hefur hañ auglijst sijna Elsku til vor Mañaña. Hañ kuñum vier ecki ad siá og lifa, Exod. 33. Þvi hefur hañ sett Forelldrana i siñ Stad, ad vier skulum dijrdka sig med Hlijdniñi vid þá.

Hiñ fyrsta Heidur og Lotningu hefur Gud siálfum sier skilid af Mañinum, þau eru iñbundiñ i hiñi fyrri Bodorda Tobluñi. Þad allra fyrsta i þeirri sijdari, hefr hañ látid vera þad fioorda Bodordid, so sem Hlijdniñ vid Forelldrana væri sá Hlutr, er umfram adra væri mest verdr; Þetta er hid einasta Bodord mz Fyrirheiti, og er ecki Olijkindi, ad hin almáttuga Speki, sm̃ leikr vid Mañaña Born, Ordsk. 8. hafi þad giort i þeirri Meiningu, ad Ungdoomuriñ, sem alla Hluti viñr fyrir fogr Loford, eñ ecki hefr Vit á odrum Dygdum eñ Hlijdniñi, sem er Root hiña, skylldi hafa eitthvad þad ad gángast fyrir, sem iñ i Auguñ geingi. Eñ þoott ad Gud hafi hier tijmañlegri Blessan heitid, þá viti Meñ, ad hitt er eigi fráskilid, helldr þar sm̃ þetta stundlega endar, þar tekr hid eilijfa vid. Sæll er sá, sm̃ missir nockud af Leingd Lijfdagaña, til ad ná sm̃ fyrst iñ i Rijki Himnaña, þvi leingi ad lifa er leingi ad syndga, þad má og ecki leingi kallast, sem einhvorn Tijma skal Enda taka; Bregdist þvi Leingd Lijfdagaña hier á Jorduñi, þá bregdst hun ecki á Lande Lifande Manna. Ohlijdne er Galldra Glæpur, seger Skriftenn, 1. Sam. 15.

Hvar

Hvar fyrer? Eda hvad er Galldur? Þad er Afguda-Dyrkan, eñ sa hiñ Ohlijdne gioꝛer sialfañ sig ad Gude; Þvi segier Paulus, Rom. 13. Ad sa sem mootstande Valldstioornenne, hann mootstande Gude, enn hañ ed Forelldrunum mootstendur hann gioꝛer hid sama. Þad er nærsta merkelegt, sem ad sagde Jeremias Spaamadur, vid Sonu Jonadabs, Sonar Rechab, Jer. 35. Þegar Jsrael atte ad wtleidast i Herleidinguna med Kvinum og Børnum; Þa sagde Spaamadureñ i Guds Stad, til Rechabs Sona: Af þvi þier hlijddud Bodorde Jonadabs Fodur ydar, og þier giored sem hann baud ydur, vardveitande øll hanns Bodord, þar fyrer segier DRottenn Allsheriar: Þar skal ecke uppræetast Eirn Madur fyrer Jonadab Syne Rechabs, ad eige stande hann frame fyrer mier alla Tijma. Og ad Menn vite, ad Hlijdninnar Fyrerheit næe lengra enn til Jsraels Sona, þa voru Rechabitar framande Menn, og ecke af Jsraels Sonum, og var þannenn Fyrerheited teked fra Børnum Fyrerheitesins, enn giefed þeim er eige hofdu Fyrerheit. So sia Menn nu, ad þar er eckert Manngreinar-Alit hia Gude, helldur a øllu Foolke og Tungumaalum, sem gioꝛer hanns Vilia, hefur hann Þocknan, P. G. 10. Og so sem Gud hefur i Naad sinne blessad Hlijdnena vid Forelldrana, so hefur hann og i sinne Grimdar Reide Ohlijdnena straffad. Hrædeleg eru þau Ord, er DRottenn talade vid Samuel, 1. Samuel. 3. Um Sonu Eli, þa þeir traassudust a moote sijnum Fodur: Jeg skal giora eirn Hlut i Jsrael, ad hver þad heyrer, hañs Eyru skulu klijngia þar vid. Jeg hefe svared Eli Hwse: So sannarlega sem eg life, ad Eli Hwss Misgiord skal ecke forlijkud verda med Gaafum edur Foornfæringum ad eilijfu. Og hvorsu margur hafe hier fyrer straffadur vered, er oflaangt upp ad reikna. Fyrer þetta miste Ruben sijna Frumgietningu, Gen. 45. Fyrer þad hieck Absalon i Eikenne, 2. Sam. 18. Fyrer þad vard Canaan, Sonur Cams, bølvadur, Gen. 9. Þad sama wtriette Neronis Hønd til ad myrda sialfañ sig, og adrer hafa med ødru Moote hegnder vered. Og hvad vilium vier laangt leita? Giætum ad Oskopum þessa auma Lands; Þar Sonurenn skipar Fodurnum; Faderenn þorer ecke ad tala i midt Hoof vid Sonenn. Faderenn vinnur Bake brotnu; Sonurenn sefur a bæde sijn Eyru. Fodurenn hwngrar og þyrster; Sonurenn er fullur og feitur. Faderenn hefur einga Roo, fyrr enn hañ hefur klaked þvi upp, sem hann gieted hefur, eñ Sonurenn vill laata Fodurnum vera veitt i øllu þvi hann lætst giøra, hvad þo eingañveigenn er, þvi Faderenn þiggur eckert af Synenum, þoott hañ ale hann. Hinn gioꝛer eige meira eñ giallda aptur þad honum laanad var. Ecke þarf eg ad segia, ad fyrer þetta kome Hefnd DRottens og Reide yfir Land vort, þvi þetta er nog Hefnd i sialfu sier; þar þesser, sem so eru uppalder, gaanga heilbrigder Bæa a mille: Þad eru vorer Ølmusu-Menn og vier fædum þa i Guds Nafne: Þad eru þeir ed wtsiwga Hws Ecknа og Fodurlausra, og þeir ed drecka añarra Guds Barna Sveita, jafnvel þoott þeir eige i sijnum eigeñ ad næra sig af Jordunne, Gen. 3. Solon var eitt Sinn adspurdur, hvar fyrer hann hefde eingar Vidløgur haft vid Fodur-Draaped? Enn hann svarade: Ad

hañ hefde alldrei þeinkt til þess, ad þad munde nockrum i Hug koma. Eg medkieñe og þad, og þacka Gude fyrer, ad hañ hefur vardveitt Land vort fraa so skielfelegre Olucku i laanga Tijma, jafnvel þoott þess Dæme sieu annarstadar. Enn saa ed formæler Fodur og Moodur, Ordsk. 20. Sa ed hæder Fodureñ eñ foraktar Moodurena, Ordsk. 30. hañ sem med Illu einu launar alla þaa Mædu og Piaaningu, sem hañs Forelldrar hafa uppaa hann kostad: Hann sem med Ogudlegu Athæfe, Skomum og Lostum kvelur þad Brioost, fyrer hvoriu hann borenn var, so þetta hefur marga Gudhrædda Forelldra til Dauda dreiged: Mun hann vera laangt fraa Fodur-Morde? Og so sem þad maa hin stærsta Glede vera, ad siaa sitt Afkvæme framgaanga i Guds Otta, so hlijtur þad ad vera hin mesta Hiarta-Sorg og Hugar Angist, ad siaa siina eigeñ Saalu illa fara. Borneñ eru kveikt af Forelldrana Veru; Eñ engenn hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur foostrar hañ þad og nærer, Eph. 5. Seleucus, Hofdinge þeirra i Locris, er hañ hafde þad i Log leidt, ad saa sem tæke med annars Manns Ekta-Konu, skyllde Augum missa, þaa hente þad hañs eigenn Son, hvar fyrer hann liet stijnga wt hañs þad eina Auga, enn sitt añad, til ad fullnægia Logmaalenu. Þad auglijste og Psamenites Egypta-Lands Konungur, þegar Born hañs voru svijvirdt og illa wtleikeñ, þaa griet hañ ecki helldur eñ Steirn, enn þegar hann saa Vine sijna til Lijflaats leidda, þaa taaradest hañ miog so; Og er hañ var ad Ordsokeñe spurdur, svarade hañ þvi: Ad i Mootgaange Vina siña skylldu Menn graata, enn Barnaña Olucka være stærre og saarare eñ so, ad hun tæke nockrum Taarum. Og allt mun helldur skorta, enn ad þvilijkt fiñest eñ nu i Dag, jafnvel aa medal vor. Hvad sijnest þier þaa, Christeñ Madur? Hvilijkur Ogiorningur er þad, ad saalga þeirra Hiarta, med Ohlijdne og illu Athæfe er so heitt elska, af hvorra Saalu þijn Saala so fast haanger, so sem Jacobs af Benjamins? Gen. 44. Þad var i Logum haft hiaa Athenu Moñum, ad saa sem ecke villde Forelldrana forsorga, hañ skyllde Ærulaus vera. Eg kañ ecke ad segia þad Oriettvijst, þvi þar er engrar Æru Von hiaa honum, sem ecke vill uña þeim Lijfs Uppheldes, sem honum hefur til Lijfsins hiaalpad. Þar fyrer, Born mijn, giæted ad ydur, fyrer Guds Saker, og leided ecke yfer ydur Tijmannlega og eilijfa Olucku, med Ohlijdne og Forsmaan Forelldranna. Þier kalled aller Gud ydar Fodur, sem aa Himnum er, eñ hañ vill ecke þess Fader heita, sem foraktar sijna Forelldra, þvi elske hañ ecke sinn Fodur, hvorn hañ sier, hvorsu maa hann Gud elska, þann er hann sier ecke? 1. Joh. 4. O HErra JEsu Christe! Þu sem Fodurnum hlijdenn giordest allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Gief þu ad vier fyrer þijnar, og þijns og vors Himneska Fodurs Saker, verdum so allre Mannlegre Skickan undergiefner, 1. Pet. 2. Ad þu vilier oss þeckia fyrer þijn Born aa hinum efsta Deige, nær þu kemur ad endurgiallda sierhvorium einum epter sijnum Verkum, 2. Cor. 5. Sier i Lage þidium vier, goode Gud! Gief Bornunum hlijded Hiarta, og vernda þau fraa vondre Verolld þessare, so þau elske þig, elske Forelldrana, elske Yfirbodarana, elske Dygder og Mannkoste, og, i Einu Orde ad segia;

Ad

ad þau vaxe og þrooest ad Alldre, Vitsku og Naad hiaa Gude og Monnum. Bæn-heyr þad fyrer JEsu Forþiénustu, AMEN.

# Annann Sunnudag epter Prettanda.

Gudspialled, Joh. 2. Cap.

I Þañ Tijma. Þar giordest Brwdkaup i Cana Galileæ, og Mooder JEsu vaar þar. Eñ JEsus og hañs Læresveinar voru og boduer til Brwdkaupsins. Og er þaa þraut Vijn, sagde Mooder JEsu til hañs; Þeir hafa ecke Vijn: JEsus sagde til heñar: Þu Kviña, hvad hefe eg med þig? Mijn Stund er eñ ecke komeñ. Mooder hañs sagde til Þioonustu-Mañanna: Hvad hellst hann segier ydur, þad giored. Eñ þar voru Sex Stein-Kier sett epter Veniu Ebreskra Manna Hreinsunar, og hvort eitt took Tvo edur Þriaa Mæler. JEsus sagde til þeirra: Fylled upp Kierenn af Vatne, og þeir fylltu þau allt aa Barma. Og JEsus sagde til þeirra: Helled nu aa, og færed Kiæmeistaranum, og þeir færdu hønum. Eñ þaa Kiæmeistareñ smackade Vatned, þad ad Vijne var orded, og hañ visse ecke hvadañ þad kom: Eñ Þioonustu-Meñerner, sem Vatned sooktu, vissu þad: Þaa kallade hañ aa Brwdgumann, og segier hønum: Aller Menn giefa i Fyrstu hid gooda Vijned, og nær þeir taka Olvader ad gioraft þaa þad hid liettara; Enn þu hefur geymt hid Gooda allt til þessa. Þetta er hid Fyrsta Jard-Teikn, sem JEsus giørde til Cana i Gallilæa; Og hann opinberade sijna Dijrd. Og hanns Læresveinar trwdu aa hann.

Exordium.

Eg hefe trwlofad ydur einum Manne Christo, ad eg fææ ydur hønum hreina Meyu, segier St. Paall, 2. Cor. 11. Hvør skyllde hafa vogad ad koma so Ordum ad þeirre Einingu sem er aa mille Guds og Manna, hefde ecke Guds Ande fyrstur lagt þad i Muñ sijña heilagra Maña? Og er þad þo ecke ad undra, þvi Ordeñ eiga epter Hlutunum ad lijkiast. J Leindardoome Holldtekiuñar vors Frelsara, er Gud samteingdur mannlegre Naatturu, þad Himneska vid hid Jardneska, þad Eilijfa vid hid Daudlega, þad Synelega vid hid Osynelega, hid Skapada vid þad Oskapta, og þad med so sterku Bande, ad ecke maa adskilia, og þar ad auke eru þeir sem Gud elska, eirn Ande med Christo. Þennann Orannsakanlega Leindardoom hefur hinne eilijfu Speke þocknast ad jardteikna med Sambwd Daudlegra Manna, þar

Madur og Kona samannkoma i Ærlegum og Heilögum Ektaskap. Nu þoott ad Himneskra og Jardneskra Hluta kuñe valla nockur Jofnudur ad hugsast, auk helldur talast edur gioraſt, þa er þo Einingenn a mille Guds og Manna, miög so lijk einum Christelegum Ektaskap: Beggia Hofundur er hiñ Almattke Gud; hvorttveggia hefur Kiærleikureñ samteingt: So sem hrein Elska fester Gudhrædddra Hioona Saler eina vid adra, so hefur JEsus af eintoomre Elsku og Kiærleika ofanstijged i vort auma Holld, og giorst Safnadarens Hofud, eins og Madureñ Kviñuñar, Eph. 5. Og Paulus talar eñ þa nær þessu i sama Capitula, segiande: Vier erum Limer hins sama Lijkama, Holld af hañs Hollde og Bein af hanns Beinum; Og med somu Ordum wtskijrde vor Fader Adam þær Teingder, sem Natturann baud honum ad være a mille hans og vorrar fyrstu Moodur, er hann sagde: Þesse er Holld af mijnu Hollde, og Bein af mijnum Beinum, Gen. 2. Þar fyrer itrekar Paulus eirnig hina Fyrstu Hioona-Vijgslu, Eph. 5. med þessum Ordum: Af þeim Tveimur skal eitt Holld verda. Vor HErra telur alleinasta eina Ordsok til þess, ad Egta-Foolk skilia meige, Matth. 5. sem er, Hoordoomurenn. So skilst eige Christur vid nockra syndugs Manns Saalu, þa er hann hefur sier eitt Sinn festa, nema hun take fram hia honum Heimenn, Holldeð og Diofulenn; Og þo segier hin eilijfa Myskunsemenn, Jer. 2. Sia þeir plaga ad segia: Ef Madur lætur Konu sijna eina, og hun geingur ad eiga annañ Mañ, muñ hann hversa ad heñe aptur? Mun ecke þad Land magnlega saurgast? Eñ þu hefur Hoorarer drijgt med morgum Elskhuga. Snw þo aptur til mijn, segier DRottenn Gud. Egtaskapurenn er af Gude innstiptadur, til ad fiolga Mañkynenu i Heimenum, þad baud Gud i Ondverdu, er hann sagde: Vaxed og margfalldest, og uppfylled Jordena, Gen. 1. Þad i-trekade hann epter Flooded vid Noa, Gen. 9. Og þess sama Ords Almættes Kraptur er enn nu nijr og ferskur, og mun verda allt til Enda Veralldar. JEsu Brwdur er eirnenn nærsta Friooffsom, margra Barna Mooder; Hennar Unnusta Spa er a henne farsællega rætt, ad hin einsamla hefur fleire Born enn hun sem Manneñ hefur, Es. 54. Hann hefur med H. Guds Orde Otal Barna vid henne gieted, 1. Pet. 1. Hvor nu standa umhverfes hañs Bord a Hminum, Ps. 128. So sem Paalma-Vidar Kvister a Vatns-Bockum plantader, Ps. 1. Þess gietur Jacob Postule, Cap. 1. Hann hefur sialfkrafa gieted oss med Orde sijns Kraptar, ad vier sieum nockurskonar Frumburder hanns Skiepnu. Þessu hroosar Brwdgumenn, Es. 8. Segiande: Sia med mijn Born sem DRottenn hefur giefed mier. Þar yfer fagnar Brwdurenn, Es. 49. Med þessum Ordum; Hvor hefur gieted þessa? Jeg var Obyria, burtflutt og ad Herfange tekenn; Hvor hefur uppaled þessa? Jeg var yfergiefenn og einsomul: Hvar voru þesser? Christeleg Kyrkia elur Fiollda Barna, þvi hennar Unnuste er alltijd hinn same, og hanns Ar taka eingann Enda, Ps. 102. Hann er sa Madur Zemach under hvorium eilijflega grær, Zach. 6. Hvors Ande ad lijfgar. Gydingaña Samkunda er ein Obyria, þvi hun hefur sleiged siñ

Mann

Mann i Hel, enn fadmar hinn af-gamla og wtdauda Moysen, hvers Bookstafur ad deyder, 2. Cor. 3. Nu fyrst hinum eilijfa Gudi hefur þocknast ad teikna so hꝏleita Hlute med Hioonabands Sam-Visteñe, þa giætum þess, Brædur mijner, med hvad mikelle Æru og Virdingu, ad oss byriar ad vanda þa heilogu Stiett. Þar um vil eg nockud framvegis tala wt af þessu Heilogu Evangelio.

Enn þu sem oss hefur Trwlofad þier i Raad og Mystunsemi, Eilijfe Sonur lifanda Guds! Upplijs þu Hiortu vor, so ad þetta vort Aform farsællega luckest, og gief þar til Raad þijns Heilaga Anda, AMEN.

## Utleggingenn.

Har Giordist Brwdkaup J Cana Galileæ, (segir Textenn) Og JEsu Mooder Var Þar. Sumer hafa tilgieted, ad þesse Brwd-Hioon hafe vered Ætt-Meñ Guds Moodur, og nockrer hallda ad Brwdguminn vered hafe Johannes Postule, þvi hann eirn skrifar þetta, og þeiger þo um Nofninn, so sem Plagsidur hañs er, nær hann um sialfann sig eitthvad merkilegt skrifar. Um þetta er eckert vijst, rijdur og aa eingu. Hitt er audrꝏded, ad hier hafa Gudhrædda Persoonur bwed Raada-hag siñ, þvi ecki hefdi JEsu Mooder aatt Sess vid þau ella; Og er þad af þessu ad læra, ad Meñ take Gudhrædda Meñ til Raadaneitis med sier, þegar slijkt aa ad byria, eñ ecki hlaupi til slijkra Efna fyrer Raad fram, ecki helldur hlijdast aa Fortolur þeirra, er añad-hvert sialfer ecki vita Footum sijnum Forraad, edur fyrer eiginn Gagnsmuna Saker steipa einum Oreindum og Fꝏkiænum i þaa Grifiu, sem hañ maa æfiñlega gista og alldrei blijdañ Dag sia. J Egtaskapar-Maalum er þad eins og i Strijdinu. Þar maa eige villast Tvisvar. Saa sem eitt Sinn fiell i Valinn, hañ reis alldrei upp sijdañ; Og hañ sem byriar siñ Raadahag, maa bwast vid ad tebla vid slijkañ Kost allañ siñ Alldur, er hañ tekid hefur. Eg heyre ad JEsu Mooder var hier ad Heimbode, og hañs Lærisveinar. Eñ hvad segier hañ sialfur? Matth. 12. Saa sem giorer Vilia mijns Fodurs sem aa Himnum er, hann er miñ Brooder, Syster og Mooder, þad eru þeir ed Ottast Gud og elska. Slijkum eiga Guds Born epter ad leita. Eingiñ er þvillijk Heimañ-Fylgia, sem Otti Guds og ærlegt Uppelldi. Abraham liet Eleazar siñ Þienara sveria sier vid Gud, ad hañ skylldi eingva taka Syni sijnum til Egta af Canaans Dætrum, Gen. 24. So mikid þokte honum aa þvi rijda, ad Born sijn ecki skylldu draga Ok med Ogudlegum, 2. Cor. 6. DRottiñ Allsheriar lagde rijkt aa vid sitt Foolk, ad eige skylldu þeir teingiast þeim Gudlausu Þioodum, er hañ rak wt wr Canaans Lande, Devt. 7. Þad var til þess, ad eige skylldu þeir villa Hiarta þeirra fraa Gudi, og temiast aa alla þaa Ohæfu, fyrer hveria hiner voru wt drifner, eda aasamt þeim verda fyrer Guds straungu Hefndar Hendi, er allareidu var wtriett til ad hvolfa hinum fulla Mælir Syndanna yfer þeirra eiginn Hofud. Synir Verålldar þessarar spyria fyrst allra eptir Audæfum og Rijkdoomi, so sem oll er Von til, þvi hvar þeirra Fiesioodur er, þar er Hiarta þeirra, Matth. 6. Nu maa þo ecki slijkar Guds Gaafur lasta, þegar

þad

þad eru hanns Gaafur, og ecki Braud hinns Volada, Sveite Daglaunarans, edur Hws Eckiunnar; Eñ eg sie þo aptur aa moot, ad Heimurinn mun fyrerfarast med øllu þvi sem i honum er, 1. Joh. 2. Og hvør eru þa þess Not, sem einn hefur sett fyrer sinn Gud og ædsta Hiartans Traust? Þar er fliott til ad svara: Hann er Gudlaus og Huggunarlaus: Og auk þessa, þoott vier skylldum epter mannlegum Plagsid tala, þa jaata eg þad satt ad vera, sem eiñ sagdi fordum: Eg vil helldur Mañiñ sem Peninginn brestur, helldur eñ Peningeñ þañ, er Mañiñ vantar; Þvi hvad skal Audurinñ hinum Arga, edur Bogeñ þeim er eige kañ ad nijta hañ? Þad være eins og ad kaupa margar Horpur handa þeim sem ecki kañ aa Horpu, eda Bækur fyrer þañ, sem ecki hefur lært aa Book. Audur er goodur þeim er kañ ad brwka hañ, hinum er hañ eins og røgum Mañe langt Vopn, eñ eingiñ veit þa Kunst, nema saa sem Gudhræddur er, og giorer sier Vini af hinum gamla Rangslætis Mamona, þa er medtake hañ i eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. Og i stuttu Maali ad segia, saa er einasta Auds verdur, sem Audeñ forsmaaer, ecki þad hañ fyrerlijte Guds Gaafur edur kaste þeim aa Glædur, helldur festir ecki Hiarta sitt þar vid og lætur ecki Mamon drottna yfer sier, helldur drottnar yfer honum. Og fyrst þessu er so varid, þa er ecki ad slægiast til Audsins, sem aa ad vera Þrællinn, helldur til Guds Otta, sem aa ad vera Herrann. Adrer eru giefner fyrer Ættum og gøfugu Forelldre; þad er ad sonnu aagiætt, þvi tijdara ber þad vid, ad gooder koma af goodum, og Stoormeñi hafa betri Raad til ad ala upp Børn sijn, ef þeir vilia vel, helldur eñ Smælingiar. Þo er allt Holldlegt þad af Holldinu er fædt, Joh. 3. Og aller eigum vier til Adams ad telia, og ecki taka Menn alltijd Dygdernar i Arf. Eg vil helldur ad eiñ giori Abrahams Verk, enn ad hann sie Abrahams Sonur; Þvi lijtt gagnar þeim gøfugt Afspreingi, sem meir er til Mijnkunar Ætt sinni, enn hun kynni ad vera honum til Sooma, og nærst er þad hverium sem sialfur er hann. Þeir sem þa hafa minna Vit, þeir gaangast fyrer Lit, og so ætla eg allmarger binde þad Saattmaal, sem eingenn maa riwfa so ad Skopum fari, nema Daudenn. Fagurt Gotz er þad ad sonnu enn nærsta fallvallt, þvi allt Holld er Hey, og allur þess Bloomi so sem Gras Akursins: Þegar Guds Ande blæs þar aa, þa visnar þad; Seger Rodd Hroopandans i Eydemørku, Esa. 40. Lijtell Kville, eitt Oforvarandis Tilfelle, ein Mij-Fluga, sem er hid minnsta Kvikinde, kañ ad eyda Mannsins Frijdleik og hanns Styrk, so þar er eckert epter af. Dygdenn er ein, so sem hinn gamle Cicero sagde, sem er med diwpum Rootum nidurfest, hver alldrei veikiast kañ, og alldrei wr Stad ad hræraſt; Og ef hañ hafde so miked Traust aa Dygdeñe, sem þo kuñe ecke ad meta hana ødruvijse helldur eñ añar Heidinge: Hvad dijrt ætter þu þa, Christenn Madur, Gudhrædsluna ad kaupa, sem er til allra Hluta nytsamleg? 1. Tim. 1. Giefid mier þessa, sagde Samson hiñ sterki, þvi hun þocknast mijnum Augum, Dom. B. 14. Þad var diwpvitur Roksemd fyrer Doomarañ i Israel! Dalila þocknadist og so hañs Augum, enn hañ vard añars var, þegar hun olle þvi, ad hann blindadur var aa þeim somu Augum, er komu honum til ad gyrnast hana, Dom. B. 16.

Og

Og mœ af hañs Dœmi læra, ad so verdi œ Svinnum sem Osvinnum; Eñ hverninn sem hönum er farid, þa ætla eg ad margur eñ nu i Dag gyrnist þad, er hañ glæpist œ, og sanna so sijdann Ordskvid Salomonis Konungs, er best visse af slijku ad segia, ad vond Kona sie eins og Reikur i Augunum. Eptir öllu þessu spyria nu Heidnar Þiodir, Matth. 6. og þeir sem eins eru lynder; Enn hvort nockur elskar Gud, edur ræker sinn Christindoom, edur hefur JEsum ad Heimbode, þar spyria fæer epter af oss, sem þo læatunst Christner vera; Og eg hefi ovijda heyrt adspurt i Landi voru, hvort Eirn, sem leitar Konfœangs Ottast Gud, hvert hann ræki hañs Bodord, hvort hann giefi Ölmusu, nema fyrer Fordilldar Skulld, hvort hañ væri Riettsyñ, Astundunarsamur i sinne Kallan edur eige, hvort hann hefde Sinni edur Hiarta til ad voga nockru Omake edur ödrum Munum uppœ sijna og añarra Velferd, eda hefde adrar Christilegar Dygder til ad bera. Enn hvort hann Rijkur væri, kynni vel ad hræsna fyrer Mönnum, kyñi ad koma so Aru siñi fyrir Bord, ad hann giæti œ einhvorn Hœatt slopped Mijnkunarlaust fyrer Almwga, kynni vel ad hylia Ulfiñ under Saudar-Giærunni, og i einu Ordi ad segia, Stela, Svijkia, Liwga og Ræna, under Hylmingu Gudrækninnar og Hooglætisins, þar hefi eg heyrt nærri þvi med berum Ordum uñtalad; Og so er farid Christindoominum hiœ allmörgum. Være þa eige betra ad taka JEsum til Raads og Heimbods med sier, sem allt Valld er giefid, bæde œ Himne og Jordu, Matth. 28. hvored allt Stundlegt Epterlæte kann yfergnæfannlega ad veita Astvinum sijnum, epter þvi sem hanns Alvitra Raad sier þeim best haga, og ef hann þad ecki veiter, þa veiter hann þad sem er öllu ædra, öllum þeim sem hann Ottast, sem er sialfur hann og hanns Vinatta, sem alldrei bregdst, þoott Himen og Jord forgœange. Þad var stoor Virding, ad JEsu Mooder og hanns Lærisveinar voru ad Veitslu þessare, eñ þad tekur yfer, ad Menn heyra i Evangelio, ad JEsus hafi hier sialfur vered. Abraham vard gladur vid, ad hann sœ Dag Mannsins Sonar, Joh. 8. og þeckti hann þo valla. Eñ hvilijkt er þetta? Ad JEsus Christus Sonur Guds lifanda, Matth. 16. voru Hollde iklæddur, sañur Gud og sañur Madur, hañ virdest ad prijda Samkomu þessa med siñi Nœalægd.

O miñ HErra JEsu! Hvad er þo Maduriñ þess, ad þu miñist hañs? Eda Mañsins Sonur ad þu vitier hanns? Hinn Riettlœati þess Rœanglœata; Hinn Odaudlege þess Daudlega? Konungur Dijrdarinnar Þioons Syndarinnar? Enn allt hefur þu þetta giort, minn HErra, til þess ad kienna Börnum þijnum, hverninn þau eige ad byria þad Sœattmœal, sem þu hefur viliad lœata vera Lijking þinnar Guddoomlegrar Elsku, til vor aumra Maña. Ecki er JEsus einasta nœalægur þessum Brwdhioonum, helldur eiga allar Christnar Mañeskiur þañ sama Kost sem hönum vilia til sijn bioода: Þott JEsus sie oss ecki nœalægur sijnilega, so sem hañ var œ Dögum sinnar Holldsvistar, þa eiga þo öll Gudhrædd Hiörtu Kost œ hañs Nœalægd, þvi hann hefur sialfur lofad, Matth. 28. ad hañ vilie vera hiœ oss allt til Veralldariñar Enda. Ecki hefur hañ þad einasta sagt til Lærisveinaña, helldur til allra þeirra, sem œ hann trwa mundu, þvi Post-

ulanna Dagar þrutu laungu fyrer Veralldariñar Enda, helldur mœ hier um̃ ætla þad sama, sem DRotten̄ sagde Fordum til þeirra: Þad eg segie ydur, þad segie eg ollum, Marc. 13. Biood JEsu med heitre Bæn til þijns Brwdkaups, Christeñ Madur, og mun hañ ad vijsu verda þiñ Giestur. Riett-trwad Hiarta þarf eige leinge ad leita ad JEsu, þad er hañs Kyrkia, 1. Cor. 6. og mun Drottnareñ ecki tefia ad koma til sijns Musteris, þegar hañ til þess kvaddur er, Mal. 3. Eitt harmþrwnged og sundurknosad Hiarta fyrerlijtur hañ alldrei; þvi þad er sw Foorneñ sem honum lijkar; Ps. 51. Þad eru þær Vister, er honum skal fagna med, og hañs Þegnskyllda hiœ Mañaña Bornum. Sie þvi JEsus hiñ fyrste og sijdarste Giestur til allra vorra Brwdkaupa: Þar sem hañ er, þangad vill Faderiñ og H. Andi koma, og Vistarveru hiœ þeim giora, Joh. 14. sem Guds Syne hafa til sijns Brwdkaups boded. Adrer Viner og Giester yfergiefa oss og kañast varla vid oss epter œ, sierdeilis ef nockud skyllde œ þeim liggia, so ad Vinskapureñ er wte, þegar af er Koñunne. Þeir hafa Matar-Ast œ oss, enn eingva adra flestaller. Enn JEsus yfergiefur alldrei þœ, er honum treysta. Snarara kañ Faderen̄ ad giefa Syninum Hoggorm fyrer Fisk, og Stein fyrer Braud, Luc. 11. helldur eñ Gud kuñi ad neita þeim um̃ goodar Gœfur, er hann med Riett-trwudu Hiarta þar um̃ bidia. Helldur kann Moodurinn ad gleyma sijnu Barne, Averte sijns Kvidar, Es. 49. helldur eñ JEsus kunni þeim ad gleyma, sem hann elska. Og fyrst þesse Giestur er so œgiætur, sem nu er sagt, þa sieu oll Christenn Egta-Hioon alvarlega œmiñt um̃, ad skicka sier so i sijnum Egtaskap, ad þau fæli ecki i burtu frœ sier so milldann, so Giædskurijkann og so Volldugann HErra. Paulus leggur Heilrædi hier til, Eph. 5. Segiande: Þier Meñ, elsked Egta-Kviñur ydar, so sem Christur Sofnuden̄, og gaf sig sialfañ wt fyrer hañ. Omogulegt er ad soñu Daudlegum Monnum ad vera so fullkomnum i Elskunni hver vid añann, so sem Christur hefur vid oss verid, þo kunna Meñ ad breita epter hañs Elsku, so miked sem mogulegt er. Mier þyker Lijklegt, ad sœ sem tijdt hugsar til þess, hvørsu kiæra ad JEsus hafdi hañs Sœlu, þegar hañs Sœla vard hrygg allt i Daudann, Matth. 26. til ad wtvega syndugum Sœlum eilifa Glede, hann mun skyrrast vid ad hata sitt eiged Holld, Eph. 5. og afrækia þad, sem œ ad vera ein Sœla med honum. Eñ Gud nœde, hvad fœer hugsa hier til! Og hvad Olijkur er sumra Manna Egtaskapar Underbwningur og Sambwd, Christi Elsku til siñar Brwdar! Losta og Lœtæde taka marger til Rœads med sier, þegar so Vegsamlegañ Rœdahag skal byria, þenkiande lijted um̃ þad, hvert þeir giete veitt sier og sijnum ærlegg Forsorgun, eda hvert þeir beri Vit og Menningu til ad ala Born sijn upp i Guds Otta og goodum Sidum. Allt Of-marger hlaupa samann med litlu meire Ahyggiu, enn Hestar og Mwlar, og þegar Gyrndenn er slockt um̃ Stundarsaker, þa yfergiefur hvert annad, edur lifa i Hioonabandinu eins og Vargar. Frillulifnadur er slijkt, og ecki ærlegur Egtaskapur, og þoott þad kallest so fyrer Monnum, þa er Guds Doomur odruvijse enn Mannanna Doomar. Sœ sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hañ hefur

allareidu drygt Hoor med heñe i sijnu Hiarta; segier Lausnarenn, Matth. 5. Þar af ræd eg, ad sca sem ætlar Konu siñe Einlæte (edur Kona sem seigenn villde vera vid Manneñ skilenn) þau hafa allareidu yfergiefed hvort añad. Sca sem illa med henne lifer, hañ hefur tapad hinum betra Hlut Egtaskaparens, sem er Eining Hiartnaña, og i sundur slited pad, sem Gud hefur skipad ad eitt skyllde vera, Gen. 2. Christur gaf sitt Lijf i Daudann fyrer sijna Brwde, Eph. 5. Ad sonnu er þad valla heimtande af syndugre Nætturu, ad hun so heitt elske; Þo eru þess mørg Dæme añarstadar i Heimenum, ad margur vogar Lijfenu fyrer Kviñu og Børn. Enn hvad giora Menn i þessu Idiulausa Lande? Þad sama sem Salomon segier um Letingiann; Eg vil eñ þa sofa lijted, og enn nu dotta nockud, og enn þa leggia mijnar Hendur samañ litla Stund, þangad til Orbyrgdenn kiemur, so sem eirn Ferda-Madur, og Skorturenn eins og ein Hetia, Ordsk. 6. Konurnar hafa og Bodord af St. Paule i þessum sama Capitula, sem eg adur umgat. Hann segier: Konurnar vere sijnum Monnum undergiefnar, so sem Drottne, þviad Madurenn er Konunnar Hofud, so sem Christur Safnadarens. Þar fyrer, so sem Sofnudurenn er undergiefeñ Christo, so eiga og Konurnar ad vera sijnum Moñum undergiefnar i ollu. Med Elsku a slijkt ad vera; Br. M. Enn eige med Ofbellde. Madurenn er ad soñu Konunnar Hofud og Herra, Gen. 3. Eñ hanns Herradæme a ad vera innefaled i Elsku og ecke Ofrijke. Hofuded sier fyrer Lijkamanum til þess ad honum vel vegne, enn ecke meide sig edur steite. Hiner adrer Limerner wtrietta þad sem Hofuded aliktar, eñ þad a so fyrer ad sica, ad eige sie til Skada nie Hindrunar. Stioorne Meñ Konum eins og Christur Sofnudenum, hann rædur alldrei nema til Farsælldar, þeim sem vilia lata sier af hanns Anda stioorna. Eñ sw Manneskia, sem ecke vill hañs Radum hlijda, hun kann ecke ad heita hanns Brwdur. So giet eg eige helldur kallad þa Egta-Konu, sem ecke vill fara ad goods Mañs Radum. Ecke helldur þann Egta-Mann, sem illa rædur, ef hann hefur betur Vit a. J Moysis Logum bannade Gud, ad nockur Kallmadur skyllde færa sig i Kvenna Brwning, og ad ein Kona skyllde bwa sig eins og Kallmadur; Þetta er lijklegast, ad hiñ alvitre Konungur hafe sett til ad hallda gooda Skickun medal sijns Foolks, og til ad afstijra Lauslæte og Hneixlissamre Umgeingne millum Karla og Kvenna. Enn þo kyñu Meñ þess til ad gieta, ad (a medal añara) være hier med teiknad, ad eirn Karlmadur skyllde ecke lata þad Valld, er hann epter Guds Bode hefur yfer Konuñe, og Konañ eckert Valld taka sier til, yfir Mannenum; Þvi ein Kona, sem vill rada fyrer Boonda sijnum, hun tekur uppa sig Karlmañs Brwning, og eirn Egta-Madur, er so miøg vellteft wr sijnu Boonda-Sæte, ad hañ lætur Konuna fyrer sig rada, hañ bijr sig Kvenna Brwninge, og ma ei framar Hwsbonde kallast, og er hvorttveggia þetta ad umhverfa Guds Skickun, þvi hvorttveggia hefur hann bannad, er þad þvi ein Andstygd fyrer honum. Þetta segie eg ecke þess vegna, ad eige sie þad Soomasamlegt hverium Manne, ad þeckiast holl Raad goodrar Konu. Hefde Pilatus hlydt Konu siñe, þa hefde hann ecke giorst sekur i Bloode hinns riettlata

 ta

ta, Matth. 27. Aurelianus Keysare gaf þann Vitnisburd Zenobiæ Drottningu, ad med hennar Rædum og Fylge, hefde Odenatus, hennar Hwsboonde, Persana sigrad. Munde þad skada David, ad hann hlijdde Abigael? 1. Sam. 25. Edur Joab Rœde Kvinnunnar i Abel-Beth-Macha? 2. Sam. 20. Þvi segier og Salomon, Ordsk. 14. Ad ein skynsom Kona bygge Hwsed: So kann og opt til ad bera, ad Kvinnann sie framar Vite borenn enn Madurenn, og er þaa engenn Mijnkun ad fallast aa Rœd hennar, enn þar fyrer aa hun ecke ad hefia sig upp yfer Manneun. Eirn Þienare kann ad skynia margt framar enn hañs Herra, samt er hañ þo ecke Herra. Þad kann og oft ad henda sig, ad eiñ Rædgiafi sie vijsare enn hanns Konungur, samt er hann þo ecke nema Rædgiafe; So er og ein Kona alldrei nema Kona, hvorsu sem hun er vel ad sier uñ alla Hlute; Hun kiemst alldrei hærra enn ad vera Hofud-Prijde Boonda sijns, eins og Salomon talar uñ goodar Konur; Vilie hun meira vera, þaa smæanar hun bæde sig og hann, og heiter hun þa Rotnan i hanns Beinum, Ordsk. 12. Sem er engenn Æru-Titell. Gud hefur Hlutunum nærsta vijslega hagad; Mannenum hefur hann giefed Afl og Vitsmune, Konunne Fegurd og Blijdlæte; Hvorutvegge eiga so sijnar Gæfur ad brwka ad Gude þocknest. Kallmadureñ aa ad brwka Styrkleika siñ til Erfidis, enn ecke til Osstopa, Vitsmuneña til Forsioonar, og ecke Hreckvijse; Konann Fegurd sijna til ad þocknast Mannenum, þvi þad hefur Gud skapad i Nættwrunne, eñ eige til Lauslætes, þvi þad hefur Diofullenn innfært i Heimenn. Blijdleika sinn til ad æviña Mannsins Giedsmune, enn ecke til ad svijkia hann til vondra Verka, eins og Jessabel, 1. Kong. 21. Eg i-treka eñ þa aptur hina fogru Pæls Samlijkingu uñ Christum og Sofnudenn, þvi hvørge er Christelegum Egtaskap meire Virding gior, enn i henne; Þoott Sonur Guds lifanda hafe virdt oss þess, ad kalla oss sijna Brwde, þaa er hanns Dijrd eingu ad minne, helldur øllu meire i allra þeirra Hiarta sem hann elska; Hanns Brwdur hefur og alla sijna Æru og Virdingu þar af, ad hun er hanns Brwdur, og elske hann eirn og virde, og þar fyrer utann hefur hun einga. Konann hefur og einga Æru þegar hun Ovirder Mannenn. Pæll segier, Eph. 5. Ad saa sem elske sijna Egta Konu, hann elske sialfann sig: Og sama er uñ Konuna ad segia, þegar hun Manneñ virder, giorer hun sialfre sier Virdingu, og su þad ecke giorer, hun rijfur Guds Skipan, og setur Skorena upp i Beckeñ; Þvilijkt Hioonaband er ecki øllu skickannlegra, helldur enn ef einhvor geinge aa Hofdenu. Salomon segier, ad ein þægeleg Kona sie Mañsins Corona, Ordsk. 12. Og er þad mest i þvi innefaled, ad hun hlijdenn sie, og giore honum allt til Sooma. Þeir sem nu JEsum vilia hafa med sier ad Heimbode, þeir skulu med slijku Skape gaanga ad eigast, þaa mun alltijd vel farnast og alldrei illa, þaa mun Christi Ok sætt finnast og hanns Byrde liett, Matth. 21. Ef honum þocknast ad spenna sijn Born fyrer sinn Ploog. Romveriar sem og Gricker hafa nefnt Hiooneñ med sama Nafne, sem Akneyte þau er draga eitt Ok. Nautenn verda þvi so von þegar þau samsveitast, ad eitt hialpar ødru til, og eitt hegdar sier so i sijnu

Erfide vid annad, ad Ploogurenn kunne sem liettast aa fram ad gaanga. Siaaum til, Christner Meñ, ad eige sieum vier lakare enn þau Vinnu=Dijreñ, er Gud hefur sett oss yfer, og giefed oss til ad lietta under vort Erfide, med hvoriu vier eignm ad næra oss af Jorduñe, þar hañ hefur so miklu meira til vor lagt eñ þeirra, ad fyrer utañ hiñ fagra Lijkama, er hañ hefur oss giefed, og hina skynsemdarfullu Saal, er honum stioornar, þa hefur hann endurkeipt oss med sijnu eigenn Bloode, P.G. 20. Hofum Raad JEsu Moodur, er hun sagde til Þienarañа; Hvad Hellst Hann Skipar Ydur, Þad Giored. Eñ hvor eru þa hañs Raad? Paall segier oss þad, Gal.6. Eitt bere añars Byrde, og þa munud þier uppfylla Christi Logmaal: Þad hefur ad soñu Postuleñ ollum sagt, eñ ecke sijdst Hioonunum. Þaa mun hin Almaattuga Orlætes Hond, er sedur allar lifandi Skiepnur, bæta allann vorn Brest, og snwa ollu Vatne Mootlætinganna i sætt Vijn Gledennar. Og þegar Verolld þesse hætter ad dryckia oss med Vijne sijns Munadar, og þad tekur til, fyrer Yferburde Þeckingareñar DRottens vors JEsu Christi, ad smacka oss illa, þaa vier finnum einga Huggun i Heimenum, og hañ dryckiar oss med Galle og Edike eins og vorn Brwdguma, Matth. 27. Þaa mun JEsus giefa hid gooda Vijned, þaa mun hann drecka oss til af Nægdargiædum sijns Hwss, Ps. 36. Þaa mun hañ laata oss smacka Sætleik epterkomande Alldar, hvor ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i i H. Anda, Rom. 14. Hvors niootande ad verda hier i Naadenne, og sijdañ eilijflega i Dijrdenne, oss unne og veite Gud Himneskur Fader, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar JEsu Christi, AMEN.

# Þridia Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

I Þann Tijma. Og þa ed JEsus gieck ofañ af Fiallenu, fylgde honum margt Foolk epter. Og siaa þu, ad Lijkþraar Madur kom, tilbad hann, og sagde: HErra, ef þu villt, þaa gietur þu mig hreinsad; Og JEsus riette wt Hondena, ahrærde hann og sagde: Eg vil, vertu hreirn: Og jafnsnart vard hanns Lijkþraa hrein. Og JEsus sagde til hanns: Siaa þu til, ad þu segier þad eige neinum, helldur far þu og sijn þig Kieñemsñunum, og offra þeirre Gaafu, er Moyses baud til Vitnesburdar yfer þeim. Eñ þa ed JEsus gieck iñ i Capernaum, kom til hañs Hundrads Hofdinge nockur, bidiande hañ og sagde: Herra! Þioon miñ liggur Limafalls siwkur heima, og kvelst þwnglega. JEsus sagde til hañs: Eg vil koma og lækna hann. Og Hundrads Hofdingeñ svarade og sagde: HErra! Eg em þess ei verdugur, ad þu gaanger inn under

mitt Þak, helldur seig þu eitt Ord, og mun miñ Þioon Heilbrigdur verda. Þviad eg em Madur Yfirvalldenu undergiefeñ hafande under mier Strijds Foolk, og nær eg segie þessum: Far; þa fer hann, og ödrum: Kom þu, og hann kiemur; og Præle mijnum; Giör þetta, og hann giörer þad. Eñ þa JEsus heyrde þetta, undradest hann, og sagde til þeirra er hönum epterfylgdu. Sañlega segie eg ydur: Ad þvilijka Trw hefe eg ecki funded i Jsrael. Eñ eg segie ydur; Þad marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Jsaac, og Jacob i Rijke Himnaña, eñ Rijkesins Syner munu verda wtrekner i hin Ytstu Myrkur, þar sem vera mun Op og Gnijstran Tannaña. Og JEsus sagde til Hundrads Hofdingians: Gack þu hiedañ, verde þier epter þvi sem þu trwder. Og hans Þioon vard heill a þeirre somu Stundu.

## Exordium.

Alla er nockur sa Vitnesburdur i heilagre Ritningu, er so kroptuglega votte, ad Gud og Madur eru Samteingder i eitnre Persoonu DRottens vors JEsu Christi, sem þau Ord, er skrifud standa i Pistlenum til Col. 2. Cap. Þar Postulenn segier: Ad i Christo bwe oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega. Nærsta bermælltur hefur Paulus vered um Leindardoom Holldtekiunnar vors Frelsara i þessare Maals-Grein, þvi hvar Guddoomsins Fylling byr, þar byr Gud allur, og allur hañs Kraptur, hanns Almætte, hanns Guddoomlega Speke, hanns Riettlæte, og hanns mikla Myskunseme, og allt annad sem Mannleg Hyggia kann ad giöra sier i Lund um Guds Oranñsakannlega Veru; Og þar Gud byr lijkamlega, þar byr hañ so sem Saalenn i Lijkamanum; Og so sem Saaler vorar eru samteingdar Lijkamanum; So ræd eg af þessum Postulans Ordum, ad Gud hafe samteingdur vered Christi Mañdoomlegre Naatturu: Og þvilijka Ordshættu ma fleire lesa i Sende-Briefum hinns Heilaga Paals og añarra Guds Maña. Nu þo ad vor Frelsare hafe allmarga Votta sinnar Guddoomlegu Hatignar, og hennar Jbwdar i voru Hollde, þa hefur hann samt enn þa framar viliad styrkia þesse Sanninde um siñ Guddoomlega Krapt, med Tacknum og Stoormerkium, hvor eugenn kuñe ad giöra nema Gud, sem alleina Dasemdar Verkeñ giörer, Ps. 136. Þetta ætte ecke ad miñsta leite ad styrkia Trw vora, Brædur mijner, i Eymda-Dal þessum, þvi hann er Gud sem vort Holld og Blood hefur uppa sig teked. Gud er i Hollde voru freistadur a allann Haatt, lijka so sem vier, þo an Syndar, Hebr. 5. Gud kann ad sampijnast vorum Eymdum. Gud hefur vora Siwkdooma bored, og vorum Orkumslum a sig hladed, Esa. 53. Gud er pijndur i voru, og þo i sijnu, Hollde; Fyrer vorar, enn ecke sijnar Synder. Gud hefur med sijnu

nu eigenn Bloode Christnena endurleyst, P. G. 20. Gud hefur giefid oss siñ Lijkama til Nautnar, og med Bloode sijnu hefur hañ dryckiad oss, Joh. 6. Gud hefur i voru Holldé lided, og i þvi sama er hann inngeingiñ i sijna Dijrd, Luc. 24. og hefur sett sig til Kraptarins Hægre Handar, Hebr. 1. J þessare Trw ætti oss ad styrkia, medal annarra, þad heilaga Evangelium, er vier strax heyrdum lesed; J hvoriu vor Blessade Endurlausnare med Tvofølldu Kraptaverke auglijste sinn Guddoomlegann Mætt og Vellde; Enn sokum þess, ad eg fyrer vijst veit, ad þar er einginn af ydur, sem efar hier uñ, og eg hefi þeñann Formæla talad længtum helldur til Uppvakningar i Þacklæt= enu vid Guds Sonar Oumrædilega Giædsku, helldur enn til ad telia nockrum Trw uñ þa Hlute, sem aller jata saña ad vera, og eingiñ Tvijmæle leika a i nockurs Manns Hiarta; Þa vilium vier helldur, a þessare hælfre Stundu, Jhuga, hvorninn vier eig= um þessar Guds Dæsemder og Velgiørninga oss i Nyt ad færa. Og skulum vier þvi alleinasta i þetta Sinn oss fyrer Hendur taka hid Fyrra Kraptaverkid, uñ Lækning hinns Lijkþraa, og þar af yfervega: 1. Hvad Skadsamlegur og Vidurstyggelegur Siwkdoomur ad sie hin Andlega Lijk=Þra, SYNDinn. 2. Hvorninn vier eig= um af henni heiler ad verda. Enn þu goode Meistare, JEsu! sem vor Krænkdæme hefur bored; Tala þu Eitt Ord oss til Lijknar hia þijnum himneska Fodur, ad hann sende oss sinn Anda til þessa Verks, og munum vier heilbrygder verda; Bænheyr þad O HErra! Fyrer þitt Dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Her stendur i Upphafe Gudspiallsins, þegar JEsus var kominn af Fiallinu, ha= fe honum mætt Lijkþrar Madur. Øllum er oss kunnugt, hverſu skædur ad er þesse Siwkdoomur, þar hann smijgur i giegnum Ædar og Sinar, Holld og Bein, eins og nockurskonar Eitur, og er so ad segia almenniløg Rotnan Lijkamans. Hvar fyrer Aaron sagde Fordum Daga, Num. 12. (er hañ bad fyrer Systur þeirra Moysis og sijna, Mariam, þa hun hafde møglad sialf og giñt hañ til ad mogla a moote Gude og Moyse, og vard þar fyrer med Lijkþraa sleigeñ): Alijttu mig, miñ Herra, sagdi hañ: Eg bid, legg ecki a ockur Giølld Syndariñar, med hverri vid høfum d arlega bre= itt og syndgad. Eg bid, ad eige verde þesse lijk Hræe þvi, hvers hælfur Lijkame er upp= eteñ, þa þad wtgeingur af Lijfe siñar Moodur. So banvæn sem nu Lijkþraeñ er, þa er þo Syndeñ hælfu verre; Bæde Sælu og Lijkama hefur heñar Spilling iñteked, eing= eñ Limur Lijkamans, eingiñ Tilhneiging Sælariñar er svo, ad eige strijde i giegn Gude. Augun hlaupa epter sinne Fysn og drambsomu Lijferne, 1. Joh. 2. Munnurinn bijr yfer Høggorma Eitre, Rom. 3. Hendurnar wtrietta Menn til ad ræna og stela, til ad slaa og deyda. Fæturner eru skiooter til ad hlaupa hiñ breida Veg, sem til Glotunariñar liggur, Matth. 7. Eyrun daufheyrast vid DRottins Orde, Ps. 58. enn klæa epter nijum Lærdoomum, 2. Tim. 4. epter Roog og Bakmælge, epter Næungans Ohrood= re, og nælega øllu þvi, er Menn vilia þar Illt i bera. Nasernar hitna af Foolsku, þeg=

ar vier sꝏum þann, er vier þykiunst eiga nockrar Heipter ad giallda, edur ef einhver vird-
er þetta sꝏnijta Rik og Ostu nockru miñá, helldur eñ heñar Mikellæte hlijda þiker, þeg-
ar Luckuñar Svipvinde hefur hvirflad heñi um Stundarsaker i Loptid upp, til ad blin-
da þeirra Augu, er oss samfara verda um Eymda Dalþennañ, edur mæta oss i honum;
veit þo ei nær eñ þad fellur aptur a Jordina, hvadañ þad kom, og verdur Footum trod-
ed, þegar Vedrinu slotar, sem þo litlu ꝏdur numdi vid Skyeñ, og sꝏvijsum Moñum
þootte, sem ad færi a Vængium Vindaña, Ps. 104. nærst Gudi yfer Himen og Haud-
ur. Skynseminn er aflogud, so þegar Hollded rædur fyrer hana, þa er hun Ovinꝏtta
i giegn Gudi, Rom. 8. Vilienu er hꝏlfu verre, þvi hann kiepper i moote Andanum,
Gal. 5. Og af Hiartanu frañkoma illar Hugsaner, Agg, Reide, Þræta, Mord, Mañ-
drap, Hooraner, Matth. 15. og annad þvi um lijkt. So er þesse vesæla Tialldbwd
ecki annad eñ eitt Hóspital daudsiwkra Lima, sem af Andskotanum og Syndiñi eitrader
eru. Þad jꝏtar Esaias, Cap. 1. Þar hann segier: Ad allt Hofuded sie siwkt, allt
Hiartad sie veikt, fra Hvirfle og allt til Ilia, sieu ecki nema Sꝏr, Kaun, Beniar og
Þrote. Adrar Sootter verda flestar med einhveriu mootelæknadar, eñ Lijkþrꝏenn
ecke; Hun skilur ecki vid Lijkamañ fyrr eñ Lijkamiñ skilar Sꝏluñe. Fweñ i Grofuñe, er
Eydelegging heilbrygdra Lijkama: Hañn ma kallast Uppbygging þeirra, sem rotna
sfande, þvi sielegri er ein Molldar-Hrwga, enn Lijkþra Manneskia. Syndenn er i
eingu betre, nema midur sie; Hun skilur eige vid oss, æ so leinge vier berum epter oss
þennann daudlega Lijkama; Þvi þoott vier sieum fyrer Guds Almættis Krapt i heilag-
re Vatns-Laug endurfædder, samt græt þo alldrei ad heilu uñ hid gamla Mein A-
dams Spillingar, og hid eitrada Hoggorms Bit. Andenn er ad sonnu reidubwenn,
enn Holldeð er veikt, Matth. 26. og þau Tvo berast Bana-Spioot epter, so eins Lijf
er añars Daude; Þoott vier sieum greptrader med Christo fyrer Skijrnena til Da-
udans, Rom. 6. þa lifer þo Neiste Syndariñar i Molldinne, sem optlega vekur hiñ
gamla Adam a Fætur aptur. Þad geingur eins uñ vorn Eymdar-Hag i þessu Lijfe,
eins og Josua skrifar uñ Israels Sonu, Jos. 23. þa þeir forsoomudu ad wtreka hina
Canaanisku epter Guds Bode, ad Gud hafe lꝏted þeim epter nockra af þeim Þiood-
um, er hañ formælte, þeim til Asteitingar, þad er þeim til Mootlætis: So er þad og fyr-
er oss, sem gengner erum yfer Jordan epter JEsu, þad er, i giegnum heilaga Vatns-
Laug, til ad byggia i þvi fyrerheitna Landinu, sem er Rijki Guds Sonar. Þar verd-
ur þo alltijd nockud epter oss til Asteitingar, hellst af þvi vier erum Tóomlꝏter ad stock-
va þeim O-Alldar Flocke, sem Gud hatar, eins og Israel i Canaan; So ad hier uñ ha-
fa eirniñ Heilager kvartad, og medal añarra St. Pꝏll, Rom. 7. þar hañ segier: Ad
hid Vonda lode vid sig, þa hann vilie giora hid Gooda. Nu er þañ Veg Syndenne
vared, Br. M. Og þad ma uñ hana segia, sem Hannibal sagde fordum uñ Romver-
ia og þeirra Borg: Ad bꝏgt munde Ulfum þeim fyrer ad koma, nema Skoogurenn
hoggvenn være, er þeir plogudu ad flija i; So verdur og eige helldur Syndeñ afmꝏd,

rsyr

fyrr eñ þetta heñar Hreisi er nidurbrotid, og er med soddann Moote þess Kostur betre sem daudur er, helldur enn hinns er sig kallar ad lifa, allt eins og hiñs Lijkþrǽa. Það si' aist mier St. Paall samþycke, þegar hañ segier: Ad Daudiñ sie sinn Abate, og ad hañ gyrnist ad leysast hiedañ og vera med Christo, hvad hann kallar miklu betra, Phil. 1. Eñ i þvi maa Lijkþráainn kallast Heilbrygdi hiaa Syndiñi, ad hun skilur vid Mañiñ i Daudanum, eñ Syndiñ fylgir øllum þeim eftir Daudañ, sem ecki verda med JEsu Bloodi afþvegner i þessu Lijfe, so þeirra Reikur mun uppstijga um alla Eilijfd, Op. B. 14. Þeirra Elldur ecki slockna, og þeirra Ormur ecke wtaf deya, Es. 66. Lijkþráaiñ er asskrǽmilegur Siwkleike, hun eyder Mannsins Fegurd, so adra heilbrygda Meñ stuggar þar vid, og þeir fordast þeirra Naalægd, jafnvel þeir sem af Christelegre Medaumkan hrǽrast Myskunar yfer Eymdum þeirra. Þar fyrer baud Gud, Levit. 13. Ad soddann Manneskiur skylldu hylia Asioonur sijnar. Ecki er Syndinn betri, ef vor Augu væru so skygn, ad vier skaa mættum heñar Omynd. Vier høfum Vidbiood aa þeim Lijkþráau, af þvi vier erum ecke aller eins af Gude plaagader, enn vor Andleg Jllsku-Kijle og Graftrar-Mein kyssum vier innbyrdis, og laatum vel yfer þeim, nema þau hafist so illa, ad Faadæmi sieu slijkra Vanheilinda, og ber þad til þess, ad aller vier erum med slijku Marke brender, sumer meira, sumer minna, þvi einginn er saa er gott giøre, og ecki eirn, Ps. 14. Gud giæfi vier mættum skynia, hvad illa ad vorar Skamer lijta wt i hanns Auglite, þar hañ, fyrer þeirra Skulld, vill snwa vid oss Bakinu, og ecke Andlitenu: Hvad segier Gud hiaa Esaiam, Cap. 1. um Mannaña Guds Þioonustu? Laated af ad Offra hiegoomlegum Gaafum, Reykelseun eru Anstygd fyrer mier. Og skomu sijdar: Ydar Tunglkomu Haatijder og hin vissu Helgehølldeñ hatar mijn Saala, þær eru mier Mædusamar, og eg em þreittur ad bera. Sie nu þanninn vort Gudræknis Verk i hañs Augum sumrahverra, hvilijkar munu þa vera hinar verstu Synder og Glæper, sem ad hroopa i Himiniñ? Vier vorum ad soñu skapter epter Dijrdlegre Guds Mynd, enn Jllyrmi Klækia og Lasta hefur uppeted vorn andlegann Frijdleik, og Holldswe Syndarinnar hefur spillt voru Atgiørfe. Mætti oss þvi til Hugar koma, ad skijla Lijkþráa Asioonu vorrar, sem i Guds Auglite er Osijn ordiñ, þar Asiaana hinns fegursta medal Manhanna Sona, Ps. 45. JEsu Christi, sem er Jmynd Guds Dijrdarfullrar Persoonu, Hebr. 1. hun var byrgd, medann hann var sleigiñ fyrir vora Skulld, Marc. 14. hveria Andskotinn sleiged hefur med andlegum Kaunum. O! hvad naadugur ertu, lijknsame Gud, ad þu so vægder syndugum Møñum, ad þeir sem þinn Kross aa Herdum bera, voru adgreinder fraa þeim, sem hid sama høfdu forþienad, enn þijna heiløgu Engla lætur þu ecki vijkia fraa oss, helldur þioona oss og aa Høndum bera, jafnvel þegar vier sem verst wtlijtum i þijnu Dijrdarfulla Auglite. Þinn Eingietinn Son hefur þu wtrekid fraa Augliti þijnu vor vegna, hañ er Madkur og ecki Madur ordinn, Ps. 22. Hañs Alit var andstyggilegra enn añarra Maña, Es. 53. Þetta var þinn trwe Þioon, sem var hlijdugur allt til Daudans, jaa, allt til Krossins Dauda,

Phil. 2. Enn til vor wtbreider þu bœdar Hendur allann Dageñ, Es. 65. sem Ohlijdnuger erum og giører oss i hønum þijn wtvaliñ Børn, Englunum Samlijk, Matth. 22. jæ, samlijka hanns Dijrdarlegum Lijkama; Phil. 3. Lijkþrœer Menn hafa illa lyktande Anda, er og þess øll Von, þviad allur nœtturlegur Vesse Lijkamans er spilltur. Þvilijk er Syndenn, og þo øllu verri, jafnvel þott ad vier finnum þar ecke til, hverier Samdauna erum ordner hennar Ylldu. Paulus talar so uṁ hana i Davids Orda Stad, Rom. 8. Ad þeirra Barke sie ein vijd opinn Grøf. Enn uṁ Grafer Framlidenna talar so HErrann, Matth. 23. Ad þær sieu hid innra fullar med daudra Maña Bein og allskins Oþeckt. So er og þeim Mannė hœttad, er grafid hefur Sœlu sijna i syndugum Kroppe, siœlfa dauda i Syndunum, og varpad ofañ œ hana fwlum Leyr Syrnda og Lasta, hun aflar vidurstyggilegrar And-Fijlu i Guds Auglite, þeim er lœta hana drottna i sijnum daudlegum Lijkama, Rom. 6. og leifa henne ad ylldast þar inne. Hennar Straff breñur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Eñ hennar Reṁa uppstijgur fyrer Guds Hœsæte. Er þetta sœ Fadmur, sem vier eigum Brwdgumanum ad bioda, þa hann frambrunar af Fijlabeins Hollinne? Ps. 19. Er þad sœ Koss, sem vier eigum ad fagna med þeim Vørunum, œ hveriar Nœdenn er wthellt? Ps. 45. Er þetta sw Fegurd, sem hañ œ ad gœngast fyrer, i hvers Auglite, ad ecke Himnaña Himnar eru hreiner? Joh. 15. Og hvad œ þesse Andardrœttur skylldt vid Harmþrwnginn og sundurknosadann Anda, er Konungur Dijrdarinnar vill ecke fyrerlijta? Ps. 51. Vier bwum oss i Skart, hver fyrer ødrum, og leggium Kapp œ þad, sumer fyrer Hœversku Skulld, enn sumer til Lauslætis: Eñ fœer hyrda uṁ þad hvert þeir hreiner sieu i Guds Augum. Vei, vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, seger Lausnareñ, Matth. 23. Þier ed hreinsed þad ytra af Kierunum, eñ hid innra er fullt af Rœne og Ohoofe. Þu blindur Pharisœus, hreinsa fyrst hid innra af Bikarnum og Diskenum, so þeirra ytre Partar hreiner verde. Þessa œttu Guds Børn ad giæta, og þvo daglega Kœm Syndanna af Hiarta sijnu med heitre Ydran og JEsu Blode, þa væri þess meire Von, ad vier yrdum ecki so Andramer fyrer Gude. Og þo margt mege nu fleira hier uṁ tala, þa vilium vier lœta þetta so sagt vera uṁ Skadseme Syndarennar, eñ Hugleida framvegis, hverniñ vier eigum Rœda ad leita, so hun ecki kvelie oss i eilijfre Helsott: Hvar fra Gud vardveite øll sijn Børn i JEsu Nafne, Amen.

Nu fyrst ad þesse andlega Lijkþrœ, Syndenn, er so skadlegur, so hrædilegur, so vidurstyggelegur, og so banværn Siwkdoomur, sem nu hefi eg sagt, og þier munud aller med mier sanna, og, þad sem yfertekur, ad hun er so lœngvinn, ad hun mun alldrei yfergiefa oss, fyrr eñ vier hana yfergiefum, þa er einsætt ad leita þess Medals, sem alleina vid henni œ, œdur enn vier erum so yferkomner, ad ecke er Von til Apturbata. Hvad vilium vier þa hier til giora? Hvad giorde þesse Lijkþrœe Madur? Þegar vor Blessade Endurlausnare kom ofann af Fiallenu, mætti hann hønum og bad: HErra, Ef Þu Villt, Þa Gietur Þu Mig Hreinsad. Hanns Bæn var riettskickud, af þvi

hann

hann bad um̃ Lijkamans Heilbrigde, Þaa beidde hann med Fororde. Vier þurfum ecke þannenn ad bidia moote Syndenne, þvi vier eigum fyrer Saalum ad siaa, hvoriar hañ hefur med sijnu dijrmæta Bloode endurleyst, P. G. 20. Hvar fyrer skylldum vier med Førorde bidia, þar vier vitum hann vill vier hreiner verdum, og hañ hefur svared vid sitt Lijf, ad hann ecke vilie syndugs Manns Dauda, helldur ad hann snwe sier og life? Ezech. 33. Og þar fyrer er hann i þennañ Heim komenn, ad aller þeir sem aa hann trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Þesse aume Madur jaatade siñ Veikleika fyrer DRottne. Giør slijkt hid sama, Barn Guds, drag ecke Dulur aa þijn Afbrot fyrer Gude, og fegra ecke þijna Illsku i hañs Auglite. Þeink helldur þad sama, sem David, þegar hann sagde, Ps. 32. Eg jaatade DRottne mijna Misgiørd, og þa fyrergafstu mier þad. Christur hefur algiørla vitad, ad þesse Madur var Lijkþraar, aadur enn hann kallade til hañs; þoott hañ ecke hefde vered audkiendur af sijnum Bwninge, þa mun hañs Guddooms Speke ecke sijdur hafa þeckt hañs Meinlæte, helldur eñ heñar, sem gieck Bak til vid hañ, Luc. 8. og valla þorde ad snerta Falld hanns Klæda. Laat þier af þessu til Hugar koma, ad hønum mune ecke Okuñug þijn Andleg Lijkþraa; Enn aa medann þu þeiger, þaa er engenn Von ad hann wtricite Høndena. Holld=Fwenn og Daüdenn i Saarunum er ad sønnu liootur Asijndum, eñ ecke mun þad lijta betur wt i Læknarans Augum, þoott hann sie strokenn yfer med Purpura=Farfanum. Hugsa til þess, hvad lijted þad gagnade vorum Fyrstu Forelldrum ad skijla sier med Fijkiu=Blødunum, Gen. 3. Þaa Naatturann baud þeim, ad þau nakenn være: Minna mun þier þad gagna, ad draga Skij Hyrduleysesins fyrer Skøm̃ þijna; Þvi þott ad bæde Diøfullenn og þitt eiged Holld giete svæft þig um̃ Stund, þaa munu þid ecke stijnga Israelis Vaktara Svefn=Þorn, þviad ecke syfiar hann, Ps. 121. Og hanns Auga sier hvad i Myrkrunum er huled, Syr. 23. Adam vard feigeñ ad þiggia Skinn=Kyrtileñ af Gude, Gen. 3. til ad hylia sijna Blygdun med, og ad veria syndugann Lijkama sinn fyrer Kullda og tijmanlegu Froste. Þu munt og verda ad kaupa eirn nijann Klædnad, af hinum ødrum Adam, 1. Cor. 15. So ad Blygdan þijns Klædleysis ecke opeñberest, Openb. 3. Og ad þu ecke brenner i eilijfum Ellde. Dyl þvi ecke þijn Afbrot fyrer Gude, christenn Madur, þaa mun hañ þau hylia, og lypt Skylunne af þijnum Syndum, so mun hann draga hana fraa sijnu Auglite, þvi eingann þann sem til hanns kiemur, vill hann fraa sier reka, Joh. 6. Þegar vier vilium ecke siaa edur þeckia vor Lijte, þa sier Gud þau hvad best, þvi vorar heimuglegar Synder setur hañ fyrer sijnu Auglite, Ps. 90. Eñ þegar vier siaaum, þa sier hann þær ecke, þvi hann hefur heited, ad kasta þeim i Hassins Diwp, Mich. 7. og miñast þeirra ecke ad eilijfu. Verum þvi ecke so einfallder sem Fiskurenn, hvor ed vænter sier einkis Voda, þegar hann hefur Høfuded faled, þvi þoott vier stijngum vor Augu wt, nær oss ofbiooda vorer Klæker, þoott vier villdum segia Fiøllunum, hylied oss, og Haalsunum hrinied yfir oss, Openb. 6. Þaa skorter Gud ecke Beinskeyte til ad rama vorn syndugann Kropp, þegar hann hefur spannad siñ Boga,

Ps. 7. Þvi aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Hebr. 4. Þegar hiñ Lijkþrœe beidde, þa dvaldest þad eige leinge fyrer, ad JEsus bænheyrde hann, riette wt Hondena og sagde: Eg Vil, Vertu Hreirn. Þad var goods Þocka Merke hia Persa Konunge, ad rietta ad einhvorium sinn Velldes-Sprota, hvad lesa mœ um Esther Drottningu, þegar hun gieck fyrer Konungenn Assverum, Esth. 5. Hvor er þijn Velldis-Spijra, þu Konungur Dijrdarennar? Þad er þijn Almættes Hond, sem allt verkar, i hvoria Faderenn hefur allt Valld giefed, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Af hvorre engeñ kañ ad grijpa Saude þijna, Joh. 10. Hun er eige stutt ordenn, ad hun kunne ecke ad hiœlpa, Esa. 59. Hun er eige apturlokud, þad hun vilie eige mykuna; Hun er eige Aflvana, so hun megne eige ad frelsa; Þad er Guds sterka Hond, og wtriettur Armleggur, Devt. 4. Þad er Hond Guds, i hvorre ad eru Fylsne Jardar, og Styrkleike Fiallanna, Ps. 95. J hvorre aller Heilager eru, Devt. 33. Ja, J hvorre ad er oll lifande Sœl, og allra Manna Ande, Job. 12. Þegar Syndarenn stijngur Hendenne i sinn eigenn Barm, og dregur hana wt aptur hvijta af Lijkþrœ, eins og Moyses, Exod. 4. Mun hañ þa þora ad drepa Hende siñe a Odd hiñs Almœttuga Velldes-Sprota, eins og Esther? Fiærre sie þvi, ad nockur bere minna Traust til ad mæla vid Fodur Myskunsemdaña, eñ hun hafde a Konunge hinum mikellœta. Hañ hafde hana ad Hersœnge teked, Esth. 2. Eñ JEsus hefur oss af Herleidingunne wt þrised. Hann kvadst fws ad skipta med henne Konungs-Rijkenu, Esth. 5. Þad kuñe hañ ecke morgum ad biooda, nema hañ giæfe upp sialfur Tignar-Nafned. Eñ JEsus hefur ollum segia lœted, sem hañ elska: Komed blessader Born miins Fodurs, og eignest þad Rijke, sem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veralldar, Matth. 25. Og er þo sialfur Konungur ad eilijfu, og hañs Rijkis-Stooll varer um Alldur og Æfe. Ps. 2. Hañ hefur ad fyrra Bragde riett oss sijna Hond, þa hann Trwlofade oss sier i Nad og Myskunseme, Os. 2. Riettum honum aptur vorar Trwar-Hendur, og trwlofunst honum i Elsku og Undergiefne. Hann rietter ad oss sinn og vorn Trygda-Pant, sem er Heilagur Ande, Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. hvorn hann hefur sendt oss af sijnum Fodur. Drepum ecke Hendenne vid þvilijkre Sœmd, og mootstondum ecke Heilogum Anda, so eige verde Guds Rijke fra oss teked, og odrum giefed, Matth. 21. Eg Vil, Vertu Hreirn, sagde JEsus. Enn hvad segier Gud vid oss? Es. 1. Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar illa Breitne fra Auglite mijnu, komum sijdann og eigunst Log vid! þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood, skulu þær verda hvijtar sem Snioor, og þoott þær sieu raudar sem Purpure, skulu þær Ullhvijtar verda. Hver sem sialfur vel vill, hann þarf ecke ad efast um Guds Vilia. Gud gaf sinn Son i Daudañ til þess vier kynnum ad hreinsast, þvi skyllde hañ þa ecke vilia oss hreina? Þar hann er allareidu wtgiefeñ. Þad velldur einasta vorum Saurendum, ad vier vilium ecke hreiner vera, þyker helldur vænt um, ad vellta oss i Endeme Syndanna, og gleymum þvi a medañ, ad i hiña Himnesku Jerusalem ma eckert saurugt iñ koma, Openb. 21.

Hier

Hier stendur i Evangelio; Ad JEsus Gieck Ofann Af Fiallenu. Hvad munde vor Herra þar ad hafast? Hañ talade fyrer Foolkenu þa ægiætu Predikun, sem skrifud er hiꝏ Matth. 5.6.7.C. J hvorre medal añarra ad standa þesse blessudu og Huggunarfullu Ord; Bidied, og mun ydur giefast, leited, og munud þier finna; Knijed ꝏ, og mun fyrer ydur upplóked verda. Þvi hvor sem ad bidur, hann mun medtaka, og hvor sem leitar mun finna: Er þar nockur Madur af ydur, ef Sonurenn bidur hann um̃ Braud, ad hann giefe hønum Stein? Ellegar ef hann bidur um̃ Fisk, ad hann riette ad hønum Hoggorm? Þar fyrer, ef þier sem vonder erud, kuñed ad giefa goodar Gꝏfur Børnum ydar; Hvar fyrer mun ecke minn himneske Fader giefa þeim gott, sem hann þar um̃ bidia? Nu fyrst ad Sañleikfins Munnur hefur þanneñ talad, þvi skyllde eg efast um̃, ad hañ vilie mig Lijkþrꝏann hreinsa, fallenn reisa, villtann leidrietta, og harmþrꝏngenn og sundurknosadann endurnæra? Enn epter þvi eg sie ad JEsus, þegar hann gieck ofañ af Fiallenu, þꝏ stadfeste hañ allt þad hañ sagt hafde, med þessum Tveimur dijrmætu Kraptaverkum; So veit eg ad Skylldann bijdur mier, sem er hinn vesælaste Ormur, er skrijdur ꝏ hanns Footskør, ad sanna mijna Vidurkienningu, med alvarlegre Vidleitne þeirra Verka og Athafna, er hañ hefur skipad ad dyrka sig med; Sierdeiles þar eg heyre hann segier i þessare somu Predikun; ad þeir mune ecke aller sem til sijn segie: Herra, Herra, inngꝏnga i Guds Rijke, Matth. 7. helldur þeir, sem giøre Vilia sijns Fødurs, þess sem ꝏ Himnum er. Þvi so sem eirn goodur Lækner nægest ecke þar med, ad giøra hinn sivka heilbrigdañ, helldur tekur hønum Vara fyrer þeim Hlutum sem hañs Heilsu kunna framveiges ad skada, sierdeiles þeim, af hvorium hann veit, ad hann hefur hast sijn Vanheilinde, so ad ecke falle hann aptur i somu Soott; So Gꝏdskurijkur þikest eg vita ad minn Heilsugiafare er, ad hann alvarlega vill, ad eg fordest alla þꝏ Olifian, sem hann veit ad mijna Sꝏlu kreinkt hefur, so ad ecke verde mitt hid Sijdara argara hinu Fyrra, 2. Pet. 2. Þad kienner mier hanns Lijknarfulla Tilhlutan, þꝏ hann frelsade Hoor-Konuna frꝏ Afellis Doomenum, og sagde: Kona, hefur nockur fordæmt þig? Enn hun kvad Ney vid; og hann ꝏliktade med þessum Ordum: So fordæme eg þig eige helldur, gack hiedann og syndga ecke framar, Joh. 8.

O Rottenn segier til þessa Lijkþrꝏ Manns: Far Og Sijn Þig Kiennemønnunum, Offra Þijna Gꝏfu Þa Er Moyses Hefur Boded Til Vitnisburdar Yfer Þeim. J Levit. Bookar 14. Cap. stendur, ad þeir sem hreinsader voru af Lijkþrꝏ, skylldu offra Tveimur Fuglum, hvorra añar ꝏtte ad slꝏtrast, enn hiñ dijfast i Blood þess slꝏtrada og sijdañ laus giefast og burtu fliwga. Þetta minner mig ꝏ ad þeinkia þar um̃, ad Guds Eingieteñ Sonur er minna vegna fyrer utañ alla Verdskulldan slꝏtradur, og ꝏ Krossens Altare foornfærdur, Gude til eins Sætleiks Jlms, Eph. 5. Enn mier er dijft i hañs Blood, og þar fyrer em eg laus giefeñ, sem hann lijflꝏted hefe, og i burtu flogeñ; samt veit eg þo mijna Skylldu, ad eg ad nockru Leite skal skijrast þeirre Skijrn, sem hann skijrst hefur, Matth. 20. Þad er, ad miñ gamle Madur ꝏ med hønum ad krossfestast,

Rom. 6. þadur eñ Saala mijn fær uppflogeð til Himna, og iñgeingeð i hanns Dijrð, a Land lifande Maña, Ps. 116. Hvort ad koma, og þar eilijflega med hønum ad fagna, bæde mier og øllum Guds Børnum, veite og giefe myskunsamur og goodur Gud, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar, og Naad Heilags Anda, AMEN.

# Fioorda Sunnudag epter Þrettanda.

Gudspialled, Matth. 8. Cap.

OG er JEsus stie a Skip, fylgdu hañs Lærefveinar hønum epter. Og sia þu, ad mikell Okyrrleike giørdest i Sioonum, so ad Skiped laa under Asøllum; Eñ hann svaf. Og hañs Lærefveinar gengu til hañs, vøktu hañ upp, og søgdu: HErra, hialpa þu oss, vier forgaungum. Enn JEsus sagde til þeirra: Hvad hrædest þier lijtiltrwader? Þaa reys hann upp, hastade a Vindenn og Siooenn, og þar vard Logn miked. Eñ Mennerner undrudust, og søgdu: Hvilijkur er þesse? Þviad Vindur og Sioor hlijda hønum.

## Exordium.

HInn Ogudlege Heimur þesse, hvors Hofdinge ad Satan nefnest, Joh. 14. hañ synest miøg so vel kunna ad samlijkiast vid Hafed. Siooreñ er ein Ostødug Hofud-Skiepna: Þegar hann er sem blijdastur, veit ecke fyrre til a Stundum, eñ hañ umhverfest nærre i Augnablike og rijs Fiollunum hærra. So er og eckert i Heimenum stadfast; Þegar hann fladrar uppa nockurn, eins og Þioofgiefeñ Hundur, þaa er Guds Børnum af hønum Skadeñ vijs, og jafnvel hañs eigenn Børnum optlega. Þoott ad Satan og hanns Viner hate Gud mest, og þaa, sem eitt eru med hønum, þaa er hañ þo i sialfum sier sundurþyckur: Ecke elskast hanns Þioonustu Menn leinge innbyrdes, þegar þar er ad kieppa um þad, sem þeir hafa giørt sier ad Gudum. So sem Christi Þienarar eru vidkvæmer, nær þeirra Hofud er meidt, so er og Diøfulenn i siñe Kynslood. Þegar Laban vantade sijn Skwrgod, þaa rann hañ jafnskioott epter Jacob, Gen. 31. þoott hañ være hanns Maagur; Og so er Heimur þesse Iñbyrdes, þegar hañ maa sia a Bak einhvors þess, sem Drambsemenn og Fijsn Augnaña hafa fest sinn Trwnad a, þaa rijsur hann Vinskapeñ, jafnvel vid þaa sem hañ lïest hafa hvad kiærasta. Joab er ecke leinge Vinur Amasæ, 2. Sam. 20. þegar hañ ottast hañ mune tapa nockru af Virdingu sinne, elge helldur ræker Absalon Brooderned vid Amon, 2. Sam. 23. þegar Heiptræknenn blæs hann upp. Midt a medal þessarar hreckvijsu Kynsloodar, verdur hiñ litle Hoopur Christi ad bwa, og mæta adskiliañlegum Araasum og Hneixlunum; So ad i Villu mættu leidast, ef skie kynne,

nne, jafnvel Urvallder, Matth. 24. So sem Noe og hañs Hyske var i hinne Vantrwudu Verolld, Gen. 6. So sem Loth var i Sodoma, Gen. 19. Abraham i Gerar, Gen. 20. Israel i Egypta-Lande og Chaldea, Exod. 1. So eru og Guds Viner i O-olld þessare. Hvad er hier til Raads, Brædur mijner, so vel fare, og Menn sieu visser um̃, ad þeir eige lijde Skipbrot a Saalu siñe? Eitt veit eg, sem alldrei skal bregdast: Þad kieñer D Rottenn oss hia Matth. 7. (þegar hañ adur hafde teked sijnum Lærisveinum Vara fyrer Fals-Spamonnum) segiande: Hver sem heyrer þesse mijn Ord, og giorer epter þeim, honum vil eg lijkia vid eirn Forsiaalann Mann, þann er byggde Hws sitt a Biarge, enn þar giordest Regn og Vatns-Floodenn komu, og Vindarner bliesu og fiellu yfer þad Hws; Enn þad datt ecke, þvi þad var a Biarge byggt. Þetta Biarg er D Rottenn JEsus; Þad er sa Hyrningar-Steirniñ i Zion, Esa. 28. sem Gud hefur bygt sijna Christne a; Hver sem yfer hann bygdur er, hann mun alldrei Kollsteipast, helldur stodugur blijfa. Lærisveinar D Rottins tooku til ad veikiast i Trwnni þegar hann svaf, enn Vedrid took ad hefia Siooenn, so þeim la vid ad forgaanga; Þa tooku þeir þad til Raads, ad þeir voktu hann, og gaafu honum til Vitundar Neyd sijna. Christne Guds er lijk einu Skipe, sem velltist i Olgu Sioo Veralldar þessarar; Hun hefur Christum jafnann innannbords. Tokum þvi sama Raad og Lærisveinarner hier tooku, þegar Siooreñ, þad eru Araaser, Fiandskapur, Illkvittne, Hneixlaner, Lastmælge og allskonar Ohlutvendne þessarar vondu Veralldar, tekur til ad gaanga a þetta D Rottins Skip; Hvers aller hafa sier ad vænta, sem hia honum hafa Far teked, so þeir meiga finna til þess, er Paulus um̃ sig talar: Ad þar sie Baraatta hid Ytra, enn Strijd hid Innra, 2. Cor. 7. Vil eg þvi af þessu H. Evangelio og Dæme Lærisveinañ tala alleina um̃ þa Hlute, sem eiga ad giora oss Fulltrwa um̃ hanns Adstod i ollum vorum Naudsynium.

Hiaalpa oss hier til Naaduge Gud og Fader, med Krapte þijns Anda, fyrer Sonarens Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

Ess maa allvijda giæta i Æfi-Sogu D Rottinns vors, ad þegar hañ hafde einhvoria merkilega Predikun flutt, þa stadfeste hañ Kieñinguna med einhvoriu Krapta-Verke. So giorde hann þegar hañ gieck ofann af Fiallinu hvar hann hafde talad Eyrende Rijkisins fyrer Foolkinu, Matth. 5. og hañ læknadi hiñ Lijkþraa. So giorde hañ og hier, þar hann allañ Daginn hafde kieñt Foolkinu med þeim fogru Epterlijkingum (er skrifadar standa, Matth. 13.) um̃ Illgresed, um̃ Mustards-Korned, um̃ Syrdeiged, um̃ Perluna, og um̃ Fiesioodenn, og adrar fleire. Eñ strax a epter fylgde þetta dijrdlega Kraptaverk, er Gudspialled um̃gietur, Marc 4. Nu var þad ecki alleina giort fyrer Lærisveinana, Br. M. helldur hefur og Guds Ande þvilijkt Stormerke uppteiknad laated oss til Lærdooms, ad vier, sem hofum tekid vid Trwnni a D Rottinn JEsum, og erum i hañs Nafne skijrder, vier skulum læra ad treysta honum

i ollum

i ollum vorum Naudsynium. Þesse var nu Adferd DRottens, bædi a hans Hierv'star Døgum, so og strax epter hans Hinnafør, leinge fram epter Æfi Christnennar. Þvi skrifar Marcus, Cap. 16. um Postulana, ad þeir hafe geinged wt, predikande allstadar, ad DRottne samverkanda og Ordid styrkianda, med epterfylgiande Teiknum. Enn þvi var misjafnt tekid af Heiminum, so sem auglioost er af Giorninga Bok Postulanna. Þetta dijrdlega Krapta-Verk skiedi i Næaviist hans Elskulegra Lærisveina. Matthæus skrifar, Cap. 13. ad margt Foolk hafi safnast ad honum, so hann Blessadur vard ad stijga a Skip fyrer Mann-Þraunginne, en Foolked sat i Fiorunne og heyrde a. Flester munu þeir hafa verid i þessum mikla Hoop, sem meir hefur fijst ad heyra Mæl-Snille hanns, helldur en ad skilia edur geyma Krapt Ordanna; Þad ræd eg af þvi, ad einginn spurde hann epter Meiningu Epterlijkingana, nema hans Lærisveinar, hvad honum, a an Efa, mislijkad hefur, sem Von var, þvi sagde hann vid þa; Ydur er unnt ad vita Leyndardoom Himnarijkis, enn þeim er þad ecke giefid, Matth. 13. So er og Kyrkiu-Gaanga vor a Stundum. Aller flyckiast til ad heyra eins Manns Predikun, sem talar sniallt, enn rootfesta þo ecki meir i Hiartanu þann heimuglega Krapt, sem bijr i Ordinu, helldur enn þoott eirn Ovite talade, so þeir fære Avoxt þar af, og gioreft sanner Christi Lærisveinar. DRottenn giorde þetta mikla Krapta-Verk fyrer so faaum af þvi þar voru so fæer, sem gaafu mikenn Gaum ad Predikunenne; Hann talade fyrer Mwga Manns af Skipenu, so aller heyra maattu og skilia Guds Veg, hefde þeim verid um þad hugad, og þad skiede nærre Lande; Enn Kraptaverkid giorde hann og i Skipenu, midt a Sioonum, þar faaer voru hia honum innanbords, og ecki nema þeir, sem logdu uppa Hiarta, þad hann talad hafde. Þar fyrer, Barn Guds, vilier þu vera fullviss um Adstod Guds i Sioo-Roote Veralldar þessarar, þa sia til fyrst, ad þu siert Christi sannur Lærisveirn. Heyr hans Ord, og laat þier vænt um þad þykia, ecki einasta um Stundarsaker, helldur geym þad i Hiartanu. Stunda epter ad faa þess riettann Skilning, laga þinn Lifnad þar epter, fær þar af Avoxt i Polinnmæde, Luc. 8. So þegar And-Vidri Hormunganna mætir þier, ad þu siert þa viss um, ad þu hafer Guds Son innan Skipsborda, þa maattu vera þess fulloruggur, ad DRottenn er ollum þeim nalægur, sem hann akalla, Ps. 145. Þad er hid hellsta a einu Skipe, ad þvi sie vel stijrt, sierdeilis i Olgu-Sioonum. Lijkame vor er Skip Saalarennar, hvoriu hun stioorna, so hun nae Hofninne um sijder a Landelifande Manna, Ps. 116. a hinu fyrerheitna Landinu. Gief honum ecke ofmikinn Taum, þrælka hann eins og St. Paall, ræk Holldsed ad sonnu, en þo ecki so ad þu leyfer þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. Laat ecke Saalu þinne verda þad sem Palinuro vard, þegar hann sofnade vid Stijred, þa datt hann wtbyrdis. Eins kann Saalu þinne ad verda, utan þu vaker og bidier, so þu faller ecki i Freistne, Matth. 26. Og ef hun kann ad sofna, sem optlega skiedur, þa sia til, ad þu hafer JEsum i Skutnum, ad hann vekie þig, nær hann sier þu ætlar ad forgaanga. Saala þijn sefur opt þo Lijkamans Augu vake. DRottenn sofnade epter Nattur-

legum

legum Hætte, þvi hann var ad allre Hegdan fundinn so sem Madur, Phil. 2. So hann kynni ad sampijnast þijnum Eymdum, Hebr. 5. Samt vakte hanns Guddoomur, þvi hann er Israels Vaktare, hvor ed ecke sefur og ecke sifiar hann, Ps. 121. Og þar hann nu i vöru Hollde situr til Kraptarins hægre Handar, Marc. 16. þa hefur hann vakande Auga yfir sinne Christne, hveria hann endurkeypt hefur med sijnu eiginn Bloode, P.G. 20. Jaa, aa øllum hennar Limum, sem hann þeckir fyrer sijna Lærisveina; Bid þvi med Skaldinu: Vak þu minn JEsu, vak i mier, vaka laat þu mig eins i þier, Saalinn vaki þa sofnar Lijf, sie hun ætijd i þinni Hlijf. Þegar þu so giorer og þad af Hiarta, og stundar epter ad hallda þier vakandi i hanns Þioonustu, og lætur ecke Satan dilla þier aa Kodda Syndanna, þa maattu vera fulltrwa þar um, ad Svefn-Læte Veralldarennar skulu alldrei æra þig, þott hun velltist um, og berie Hæl og Hnacka. Diøfullenn, sem er hennar Hofdinge, skal alldrei reisa so mikla Olgu i henni, ad þier sie hætt vid ad forganga; Þad kienna mier hanns Fyrerheit, er sagt hefur: Otteſt ecki, eg hefi Heiminn sigrad, Joh. 16. Þad segia mier hanns Ord, er sagde: Hofdinge þessa Heims er dæmdur, og med mig hefur hann eckert, Joh. 14. Hafi hann eckert med hann, so hefur hann ecke helldur med þa sem i honum eru, og hann i þeim, þeir sem eru Limir hanns Lijkama, og hvad meira er, ad þeir eru ordnir eirn Ande med honum. Þvi segier Johannes, 1 Pist. 3. Hvad sem af Gude er fædt, þad yfervinnur Heiminn. Hvad vill sa Ottast, sem hefur soddann eirn Fodur? Unglingum setia Menn Fiarhallds-Menn, og þykist sa goodur bættur, sem odlast þann einhvern sem er Fullvedia, og lijklegur til ad giora honum Riett, og forsvara hann fyrer Raangsleitne Oraadvandra Manna, jafnvel þo þad gange misjafnt til medal vor Mannanna; Samt laata aller ærleger Menn sier vera um þad hugad; Enn hvernig sem þvi er varid, þa eru aller, þeir ed Gud Ottast, hanns Omagar, og er þeim miklu betur raadstafad, helldur enn hinum vollduguſtu Heimsins Giædingum og Villdar-Monnum. Seged mier: Hvad skal eins Manns Fulltrwi hafa til ad bera, nema Maattinn og Viliann? Um hverigt kunnum vier ad efast hiaa Gude. Maattinn sioum vier i þessa Dags Evangelio, þott ecki væri annad til, sem þo fleira og stærra er, enn ad allar Engla og Manna Twngur fææ þad um allar Allder upptalid. Hann hastade aa Vindinn og Sioonn, Og Þa Vard Strax Logn Mikid, so þeir sogdu: Hvilijkur er Þesse, ad Vindur og Sioor hlijda honum? Einginn Hlutur er Gudi Omøgulegre einn annar, Luc. 1. Þad kostar hann ecki meira ad steypa allre Verølldinne um Koll, enn ad deyda eirn Titling; Hann hefur alldrei haft mikid fyrer neinu i allri sinni Rijkis-Stioornan, nema þvi, ad leysa Syndarann wr Helvijte, og þo giordi vorum Frelsara Elskann til sijns Ovinar þetta Ok so sætt, ad hann langade til ad drecka þann Kaleik, er hanns Fader skeinkte, Luc. 22. og aktade ecke Forsmaanina, seger Postulenn. Gud giæfi ad Elskann til hanns kynni ad giora oss hanns Byrde so lietta. Og þar ed øll Guds Skiepna er so eckert i hanns Hende, þa maa eg fulltreysta, ad hann sem eige þurfte ad tala nema eitt Ord til hinns brwsanda Hafs, honum muni eige vera um Megn, ad vardveita mig hinn

vesælasta Ormi sem liggur a hans Footskor, i Olgu Heims þessa. Han talar til Siaf=ar Hassins: Hijngad skalltu komast og ecki leingra, hier skulu þijnar stolltu Bylgiur legg=ia sig, Job. 38. Þvi mun honum veita hægt ad drepa Ossann i hinum Dramblaata, so þar verde Logn mikid, edur og ad sla honum Hogg vid Eyra, Ps. 3. so hanns Stad=ur finnest ecke meir, ef honum so lijkar. So mikils Maattar er nu þesse stoore Konung=ur Himins og Jardar, hver vill þrijsa mig af hanns Hende? Joh. 10. Kann nockud Orinn ad giora, nema henni sie beitt, eda Soginn ad wtrietta, nema heni sie stijrt? eins miked kuna Menerner mier ad giora, nema Gud leife þeim; þvi vil eg segia med David, nær Heimuren hatar mig: DRottenn er mitt Lioos og mijn Heill, fyrer hverium skal eg Ottast? DRotten er Verndare mijns Lijfs, hvern skal eg hrædast? Ps. 27. Enn þad hann leifer, skal mier kiærtkomid vera, han agar mig þvi han elskar mig, Hebr. 12. Han typtar mig þvi han vill leidrietta mig, han særir mig þvi han vill græda mig, Os. 6. Og er þad Daaraskapur fyrer mig, sem læst avijta Vin min, ef honum yfersiest, sem strij=ki Barn mitt, nær þad giorer þad sem eige byriar, sem læt skiera og brena eitt swed Saar a mijnum Astmane, so han heill verde, ad eg skule ecki taka hinu sama af Hende DRott=ens. Þar fyrer skal eg eige helldur efast um Vilian, þad lære eg og af þessu Gudspialle. Lærisveinarner voktu DRotten, og þad med Umkvortun nockurre, og Mistrauste a hanns Almætte. Þvi Marcus skrifar, Cap. 4. (er hann segier fra þessu mikla Kraf=taverki), ad þeir hafi sagt: Meistare, þu hyrder ecke um þad, ad vier forgaungum. Hvad var þetta ad segia vid hann, hvers Almætte þeir vel maattu þeckia, hvor ed so mørg Kraftaverk hafde giort þeim asiaande? Samt vard hann fliootare til ad hial=pa þeim, og ad hasta a Vindinn og Siooinn, helldur enn til ad aatelia þaa fyrer þessa Efaseme og Trwarleysu. Þetta hendir oss optlega, nær vier bijdum epter DRottne a Þurlendinu, sem David segier, Ps. 63. Vier meinum hann sofi þoott vier vitum ad han sifie ecke, vier kollum ad hans Hond sie stutt ordin, þo oss sie alkunugt af Guds Or=de, ad hun ecke einasta kallast hin sterka Hond DRottins, og wtriettur Armleggur med miklum Undrum, Devt. 4. Helldur og hin millda Hond DRottins, sem giefur ad vier saman sofnum, og þa han upplijkur hene, sediunst vier af Giædum, Ps. 145. Og þoott vier sieum nu so Tvijlraader og Efasamer, eige ad sijdur er han oss hvad nærstur, þegar vier ætlum han fiarlægan vera. Þegar Joseph liet sem han ætlade ad taka Benia=min i Vardhalld, þa gat hann valla Taarum halldid; Þegar hann Ottade Bræedrum sijnum med sini Reidi, þa fieck han þo ecki leint sier fyrer þeim, Gen. 45. Ætlum ecki ad Fader Myskunsemdana muni sijdur Naadugur vera edur kienna i Briooste um sijn Born, þoott han typte þau þeim til Gooda, þvi han straffar, en ecki af Hiarta, Thren. 3. Han burtrekur en ecki eilijflega. Ohætt er þvi, alldrei sleiper DRottin nockrum þeim, sem hin allra minsta Trwar=Neysta geimir i Hiarta sijnu, so diwpt nidur i Afgrun Hor=mungana, ad þeir alldeilis orvænti sier Naadar hans, jafnvel þoott þeir sieu a Stund=um laungt leidder, þvi lijttlogande Hor=Kveik mun han ecki wtslockva, Es. 42. Gud

straffade

straffade Synder vorar um̃ skamt med Oaaran nockurre, þar epter vitiade hann vor med Land-Plaagu, hvør ed took fraa oss vora Kiæruſtu Aſtvine, og hid beſta Foolk; munde oss þa ecke þikia horfa til Vandræda ? Hvilijk Audn var þa i Landenu, ſo ad þeir ſem Holldlega voru ſinnader, tooku til ad efaſt um̃, ad vier mundum hier leinge Bygdum hallda. En̄ hvorſu hefur hin millda Hond DRottens ſijdan̄ Coronad Aared ? Hvørſu hafa hanns Footſpor af Feite droped ? Pſ. 65. Med þvilijkre Argiæſku hefur hann bleſſad oss, ſo ad vier ecke einaſta hoſum eingann Skort lided, helldur fleſter bwed vid betre Koſt en̄ nockurn Tijma aadur. Er ecke þetta ſijnelegt Almættes og Giædſku Merke DRottens ? Hvort ſkylldum vier leita i Hørmungenne, nema til hanns, ſem ſo vijs, ſo mættugur og giædſkurijkur er ? Eg vil taka mier Ordſøk af þeſſu Dijrdlega Kraptaverke, til ad tala nockud vid ydur, ſem um̃ Siooen̄ fared, og leited Næringar ydar i Hafſins Diwpe. Hvorſu opt hefur hinn goode Gud vardveitt ydur i Lijfs-Haaſkanum ? Hvad tijtt hafed þier maatt ſegia med David, Pſ. 18. Hann ſende wt af Hædenne og ſookte mig og droo mig upp wr miklum Votnum. DRotten̄ hefur optlega giort Furduverk aa ydur, þegar Daudans-Bond hafa um̃krijngt ydur, Pſ. 18. og þier meintud þier ætludud ad forgaanga, þaa hefur hann þo rickt ydur upp wr Daudans-Porte, Pſ. 9. og frelſad ydar Saaler wr Heliu. Þar er eige laangt aa ad minnaſt : Vier lifum en̄ nu, ſem eige erum miog til Ara komner, og munum þad, ad DRottenn hefur aa ſama Deige kollvarpad ſumum, enn ſuma hefur hann vardveitt Undrunarlega og Olijklega fyrer Manna Sioonum, og þetta optar en̄ Einuſinne; ecke þar fyrer, ad þeir ſem tijnduſt, hafe ſyndugre vered, en̄ hiner ſem afkomuſt, meir enn þeir ſem Turnenn fiell yfir i Siloa, edur þeir ſem Pilatus ſlaatrade i Galilæa voru ſekare enn adrer, Luc. 13. Helldur til ad ſijna Riettlæte ſitt aa þeim er hann burt took, oss ſem lifum til Epterdæmis og vorum Epterkomendum, enn Naad ſijna aa hinum er hann ſparade, ſo hann med baadum Hondum leidde oss þverbrotnar Manneſkiur til Ydranar, ad eige ſofnum vier oss Reide aa Dag Reidennar, og Guds Riettlætis Dooms, Rom. 2 Enn Gud naade hvorn Avoxt þad færer! Eg giet ecke þvi hrooſad, ad aller þeir ed voga Lijfe ſijnu wt aa Siooen̄ take JEſum i Baat med ſier; Og eg þore ad ſegia, ad valla drijgia ſumer Menn fleire edur meire Synder, Gude til Stigdar, en̄ nær Men̄ þiggia hina meſtu Bleſſan af hanns Orlætes Hende, ſo ecke er ad undra, þoott han̄ meige lykia hen̄e aptur aa Stundum fyrer oss, og ſkamta oss ur Hnefa, ſem Men̄ plaga ad ſegia, Jaa, þoott han̄ ſtraffe oss med Skipreikum og Mann-Tioone, til ad typta oss lijkſaa Kaalfa. Alkun̄ugt er þad øllum Mon̄um, hvilijkt Fram̃ferde, hvada Mun̄-Soſnudur, Giaalijfe, Straakſkapur, Lijge, Raan og Þioofnadur, ad ædur er i þvilijkum Selſkopum, med laangtum meire Frekiu og Oskam̃feilne en̄ an̄arſtadar, ſo hann þikeſt goodu bættur, ſem verſt gietur laated, og þad þyker Kallmennſka og Snille, ad vera fremſtur i Flocke, nær Men̄ ſlijkt adhafaſt. Þegar þier rooed til Fiſkiar, laateſt þier bidia Gud fyrer ydur; Enn hvad mikell þar filge Hugur Maale, er af þvi audſært, er þier taled og giøred, ſumerhvørier, nær þier erud under

Vad setter, þaa formæled þier ydar Veidarfærum, ydar Verkfærum, ydar Lagsmonnum, þegar ecke er allt epter Villd ydar. Og þar þier ættud ad bidia Gud ad blessa, segied þier ad Andskotenn skule taka. So saaer nu Fiandmadurenn Illgresenu, Matth. 13. bæde aa Siöo og Lande. Þegar Gud sender ydur þad aa Aunguleñ, er ydur ecke lijkar, forsmaaed þier þad, blooted þvi, og kasted þvi aptur i hanns Naadar-Fadm, sem hañ er þaa hvad mest ad wtbreida til ydar. O þier vanngsnwner og Þeckingarlauser Syndarar! Laate DRottenn siñ Vind blaasa aa Siooenn, so ydur þyker hætt vid Lijs Tioone, þaa kalled þier ad sonu til DRottens, sem og vera aa; enn giæted ad, hvort þad mune eige kuña ad eiga heima hiaa ydur allmorgum, sem DRottenn sagde vid Juda, Jer. Cap. 2. Þegar Neydeñ yfirgeingur, þaa segia þeir: Upp þu og hiaalpa oss; Eñ hvar eru þaa Guder þijner, sem þu hefur giort þier? Biood þeim upp ad standa, laat siaa hvort þeir kunna ad hiaalpa þier i Neydenne, þegar so tilber fyrer ydur. O þier Gudlauser Meñn! Hvar er þaa Andskotenn, er þier so tijdt aakalled, og bidied ad taka bæde ydur og ydar Stallbrædur? Hvar er hann þaa? Mun hann nockud hiaalpa ydur wr Neydenne, þegar þier ligged under Afollum? Mier mun saklaust vera ad aavarpa hann med somu Ordum og Elias talade um Jessabels Baal fordum Daga: Kalled haatt, þvi hann er eirn Gud og hefur miked ad giora, 1. Kong. 18. Veit eg ad hann hefur Rijke so miked j Heimenum, sem Gud liær honum til ad straffa med Synder Mannaña, eñ helldur mun hann uppæsa Siaafar-Hafed þeim til Skada, ef hann þo hefur þad Valld, enn eige mun hañ hasta aa Siooenn nie Vindenn; Þaa Makt gaf hiñ Almaattke Konungur Syne sijnum, og ecke Fiandanum, sem er Fange og Utlæge Guds. Einskis er af honum nema Ills Von, þvi hañ rædur ecke fyrer odru. Enn þegar þier so kalled til Guds i Neydenne, munud þier gieta haft fullt Traust aa honum, ad hann wtrycke ydur þadann, Ps. 91. nær þier þanneñ leited Atvinnu ydar. Eckert Fyrerheit hafed þier þar um, nema þad, ad aa hvorium Tijma, sem hinn Ogudlege snijr sier fraa sijnu Ogudlegu Athæfe, þa skule hanns Synda ecke ad eilijfu miñst verda, Ezech: 18. Og stendur þad ad sonnu Oraskad um alla Æfe. Enn giæted ad, þier sem so Ogudlega lifad hafed, hvort ydur mune ecke fyrr koma til Hugar, þegar þier rated i Lijfs-Haaska nockurn, ad sorga fyrer þessu auma Lijfe, hvort þier þo skulud einhvorn Tijma missa, helldur enn ad befala ydar Saaler Skaparanum af Alvoru: Ordsok þaa hefe eg til ad efast hier um, ad þar eru so saaer, sem Gud hefur sijndt Daudann, ad þeir life betur epter enn aadur. Enn hvad er soddann? Gud er naalægur ollum þeim sem hann attast, enn eg kann ecke ad segia, ad þeir otteist hann, sem hañ eirt sinn hefur leist ur Helin, og eru þo eingu betre sijdann. Þegar Gud giefur odrum meira enn ydur, þaa ofunded þier þaa. Þier erud vaangeygder, af þvi hann er goodgiarn, Matth. 20. Þier spilled Veidum þeirra, ef þier gieted, og i þvi reked þier Satans Eyrende, þvi hañ leitast vid ad koma þvi til Vegar, ad Manneskiañ hafe sem minnst Gagn af Orlæte DRottenns: Ecke giorde so Petur og Felagar hanns, er DRottenn gaf þeim hina miklu Blessan, er

Lucas

Lucas skrifar um̃, Cap. 5. Þeir bendtu sijnum Feløgum, ad þeir kiæmu og hiálpudu þeim, og meddeilldu þeim af þeirre Guds Blessan, er þeir feinged høfdu: Enn eg þore ad segia, ad nockrer af ydur eru so lynder, ad þeir nærre þvi helldur sockva vilia enn uña sijnum Naabwa nockurs af þvi þeir hafa Of-miked. So og forsmaaed þier hina adra, sem minna er veitt, so sem være þad ydar Atburdum ad þacka, og þier mætiud skamta ydur wr Guds Hende þad þier vilied, og giæted lijted ad þvi, sem Paall segier: Hvad er þad Madur, ad þu ecke þeiged hafer? 1. Cor. 4. Sumer af ydur trwa aa siñ Fiske-Galldur, og hefur þaa Andskoteñ sijnt Kunst sijna i Hiarta ydar, þegar hann kiemur ydur til ad dijrka sig og þacka sier fyrer Guds Gaafur. Ecke giørde þad Petur. J Þijnu NAFNE Vil Eg Netenu Utvarpa, sagde hañ til JEsum, Luc. 5. Enn þegar þier brwked Rwner og Ristingar, med hvorium þier þo miña enn eckert faaed wtriett; Kasted þier þaa ecke Netenu wt i Fiandans Nafne? O Minn HErra og Gud! eg giet ecke noogsamlega daadst ad þinne Polennmæde, ad þu setur ecke Krook i Naser Andskotans, Ezech. 29. eins og Hvalsens i Egyptalande fordum, og lætur þa draga Diofulinn upp aa Aunglenum, er so hæda þitt Nafn, ad hann gleipe þaa lifande, eins og Jordeñ, Core, Datan og Abiram, Num. 16. Læred af Petre ad fiska, gooder Meñ, hann er hiñ beste Formadur, þoott hann sæte wte alla Noottena og feinge eckert, þaa møglade hañ ecke, helldur sagde: Epter Þijnu ORDE Vil Eg Netenu Utkasta. Ecke orvænte hañ, þoott DRottiñ liete hann bijda epter sier, enn þegar hañ blessade hann, þaa fyrervard hann sig og gaf Gude Dijrdena. Ecke giøra þeir so, er hroka sier upp af Guds Laane, so sem væru þeir þess verdugre eñ adrer. Fordest slijkann Daaraskap, ef þier vilied vera visser um̃ Guds Adstod i Haaskanum; Taked med allre Hiartans Audmykt aa moote hañs Blessan, hvort helldur hun er mikel edur lijtel, og siaaed ecke Offundum yfer þeim, sem hañ hefur meira giefed: Forsmaaed og ecke hina, er hañ minna laanar: Helldur sie hvor aanægdur med sinn deilldañ Verd, og giallde Gude skylldugar Þacker þar fyrer; Hyrded og Faung ydar skinsamlega, og Onijted ecke Guds Gaafur. Ef þier Ovyrded þær og legged ad litlu, nær þier Nægter hafed, þaa Ovyrded þier Skaparann, sem þær giefed hefur. Vered og miñuger Kiærleikans, ad þier gleymed ecke hinum Volada og Þurfa-Mannenum, og sijned Þacklæte ydár vid Gud, ecke einasta med Orde, helldur og Verke, 1. Joh. 3. vid hanns fatæka naudstadda Limu. Ecke faaed þier honum betur launad, eñ med soddann moote, þvi jafnvel þoott ad Madurenn sie vesæll til þess, ad hann kunne Gude nockud aptur ad giallda, þaa vill þo Mannsins Sonur aa hinum efsta Deige segia: Hvad þier giørdud einum af þessum hinum minnstu, þad giørdud þier mier, Matth. 25. Eñ um̃ alla Hlute fram, þa feled Gude aa Hendur Saal og Lijkama, nær þier draged wt aa Diwped, til ad leita ydar Næringar: Hugleided, ad þar eru valla Tveir Þumlungar aa mille Lijfs og Dauda. Hvilijkur Vode er þad þaa og Saalar-Haaske, ad trwa so Ostodugum Hlut fyrer Saaln sinne, sem Hafed er, nema Meñ sieu þar um̃ aadur fullvisser, ad hvort þeir lifa edur deya, þaa sieu þeir DRottens, Rom. 14. Saa sem wt aa

Siooeñ fer, þad er eins og gaange hann i Oruſtu; Hann er ecke viſs um̃ ad naa Landenu aptur; Eñ þoott ad hinum Almaattuga Gude ſie ecke um̃ Megn ad vardveita ſijna, eins vel aa Sioo og Lande, þaa mætte mier þo til Hugar koma, ad vanda mig hvad meſt, og leita D Rottenns Hiaalpar þegar eg ſie Haaſkann fyrer Augunum. Eg hefe um̃ þetta Efne nockud langtala vered, og þad fyrer þvi, ad eg hygg þeſs vel vid þurfe, þvi marg-ur er Odæll, hyrdulaus og Ohlutvandur, ſkeitande ecke um̃, nema ad fylla Kroppenn, og gillder einu þoott Saalenn ſvellte, og vona eg ad Guds Bornum mune þad ecke O-þægt vera, er eg hier um̃ ſagt hefe: Hiner verda ſijnu fram̃ ad fara, er heilſuſamlegar A-minningar ad eingu hafa; Og velldur þo ecke ſaa ed varer, þoott ad verr fare; Þeir mu-nu ad komaſt Raunenne, er þad forſmaa, nær Uppſkieru Tijmenn kiemur.

Vil eg ſo apturhverfa til hiñs, er eg i Ondverdu hoof um̃ ad tala, ſem var, ad Meñ ſkylldu varpa allre ſiñe Ahyggiu uppaa Gud, Pſ. 55. og honum alleina treyſta, þaa vier erum i Neyd einhvoria edur Mootlæte. Ad ſoñu er oſs ecke bañad, miklu helldur leiſt, ad leita Mañaña Hiaalpar nær oſs aaliggur, þvi Meñerner eru ſkapader hver odrum til Ad-ſtodar, og hafa Guds Bod um̃ þad, ad ſtyrkia hvor annañ Innbyrdes, Gal. 6. Gud naade! ad þvi er aa eingann Veg ſo epterfylgt ſem byriade; Eñ ef vier þetta riett athug-um, þaa dregur mañleg Hiaalp oſs ſo ſkamt aa Veg aa ſtundum, ſuma vantar Efnenn, adra Viliann, nockrer eru langt fraa oſs, og naa eige til vor þoott villdu, nær i Rauner-nar rekur, eñ Gud breſtur alldrei Maatteñ, alldrei Viliañ, ſo ſem aadur er ſagt, og Meñ ſkulu eige þurfa ad ſenda langt epter honum, þvi hañ er naalægur ollum þeim ſem hann aakalla, Pſ. 145. Hier ad auke er ſumum vorum Meinum ſo haattad, ad engeñ Mañ-legur Kraptur gietur raaded Boot aa þeim, enn þar er eckert þad Bol, ſem allra Meina Grædare kunne eige ad lækna. Vel kuña Meñerner ad hiaalpa Lijfe voru optlega, enn þo ſo ad hann vilie hafa oſs hoolped i þad ſinn, annars ecke, þvi oll lifande Saal er i hañs Hende, Job. 12. Enn þad ſkilur Guds og Manna Adſtod, ad þoott hañ deyde, þa lijf-gar hañ eilijflega. Þvi þad ſkal ſkie, ſagde Lauſnarenn, Joh. 11. ad hvor ſem trwer aa mig, þoott hañ deye, þaa ſkal hañ ſamt lifa. Giætum og þeſs, Brædur mijner, ad þoott vier af Moñum Lidveitſlu þiggium, þaa kiemur hun ſamt fraa Gude. Edur hvadañ er þad, ad oſs kiemur Hiaalp aa ſtundum, þadann ſem Olijklegaſt er, og vier væntum heñar ſijdſt fraa? Ecke var Moyſes, þaa hañ var Landflootta, Exod. 2. til þeſs lijklegur, ad leida Iſrael wt af Egypta-Lande. Gedeons Ætt var hin minnſta aa medal Manaſſe, og hañ minnſtur medal ſiña Brædra, Jud. 6. þo ſende Gud hañ til ad frelſa Iſrael af Hende Madianitanna. Hañ ſende Okienda Meñ af fiarlægu Lande, til ad færa Syne ſijnum Vega-Neſte, er hann var eñ þaa i Reiſum, Matth. 2. Hann ſende honum eirn framande Mann Simon af Cyrenia, til ad bera Kroſſeñ med honum, Matth. 27. Hann ſende Nicodemum og Joſeph af Arimathia, til ad giora hanns Utfor heidarlega, Joh. 19. Engenn Madur kann um̃ þad Hogum ad hyggia, hvorneñ Gud fer ad hiaalpa, þegar hañ er naudugur; Hañ kañ ad giefa Iſrael Vatn af Hellunne, Num. 20. Hann

gietur

gietur sendt Eliæ Fædslu med Hrofnunum, 1. K. B. 17. og mettad margar Þusunder Manna med fáum Braudum og Fiskum, Joh. 6. Og eg veit, ad Þar er nærre eingenn af ofs, sem til Ara erum komner, ad eige hafe hann einhvern Tijma reint soddañ undrunarlega Guds Adstod, ef vier hefdum Vit ä epter ad taka, og tilreikna Þad Gude sem hanns er; Enn sumer trwa ä Matt sinn og Meiginn, og Þykiast sialfer afreka alla Hlute, jafnvel Þott eg ætle, ad hinum Megtuga Himnanna Konunge verde lijted fyrer Þvi, ad giora ofs Þrauternar so Þwngar, ad mannlegur Kraptur næe skamt til ad kasta Þeim af sier. Þad hefur hann optlega synt. Hvad vard wr Þeim Fim̃ Konungum, sem Abraham hrakte med nockrum Hwskorlum sijnum, Gen. 14. Hvad vard af ollum Risunum i Canans Lande, sem hrucku undann Josua? Jos. 12. Hvad vard wr Pharao, er hann treyste ä sijna miklu Magt og sagde: Hvor er Jehova, ad eg skyllde hlijda honum? Exod. 5. Hvad vard wr hinum sterka Goliath, er David rotade hann med Steins Hogginu, 1. Sam. 17. Nockrer treysta ä Vijsdoom og Framsyne, enn Þad er og Hiegoome. Hvad stodudu Absalon Achitophels Klookinde? 2. Sam. 16. Edur Adonia, Joabs Slægvitska? 1. Konganna Book. 1. Baada Þä sloou Þeirra eigenn Pretter um̃ Hælsenn. Hvar fyrer? Þviad Gud var ecke til Radaneytis tekiñ. Sumer giora Þennann fallvallta Mam̃on ad sijnu Athvarfe, 1. Tim. 6. og vilia alla Hlute med honum wtrietta; Enn Þad er eitt vesællt Traust: Guds Gæfa er hann ad sonnu, ef hann er riett feingenn, annars ecke. Enn eingvum mä hann duga nema DRottenn hiälpe, og allra sijst mä hann Sälunne gagna, nema Þeirra, sem giora sier Vine af honum, er medtaka Þä i eilijfar Tialldbwder, Luc. 16. og eru Þar fyrer rijker i goodum Verkum, 1. Tim. 6. Enn hverninn sem ollum Þessum er hättad, Þa er hinum Þo verst farid, er so lijtt treysta Gude sijnum, ad Þeir meina ad Hofdingia og Veralldar Manna Gunst mune duga Þeim framar enn Ast hiñs mikla Allsheriar DRottenns, er ollu rædur bæde ä Himne og Jordu, og giora Þvi marga Oleifilega Hlute Þeim i Vil, enn moote honum, og ætla ad Þeir mune kunna ad bera Skiolld fyrer sig, er Þo eckert eiga under sialfum sier, Þegar DRottenn er reidur. Ofarer Þeirra, er so hafa breitt, mä allvijda lesa i Ritninguñe; So sem Þegar DRotteñ reiddest Juda Konungum, er Þeir leitudu Hiälpar til Syrlands og Egyptalands Konunga, og kioru helldur ad vera Þeirra Naudungar-Meñ, eñ ad läta DRottenn rijkia yfir sier og heita hanns Frelsingiar. Þvilijkt skylldu oll Guds Born varast, helldur leita hanns i allre Neyd, til hvers Þeim er varpad i frä Moodur-Lijfe, Ps. 22. og haga so Lijferne sijnu, ad hann Þecke Þä fyrer sijn Born, sijna Ast-Menn og Brædur sijns Eingietins Sonar JEsu Christi. Heyred Þar fyrer Ord DRottins, af Esaiæ Spädooms Bookar 33. Cap. Hver hann geingur i Riettvijsenne og talar hvad Riett er; Hver hañ hatar Ranginden og Agyrndena, og helldur sijnum Hondum frä Þvi ad Þyggia Skeinkingar; Hver hann tilbyrger sijn Eyru, ad ecke heyre hañ Mañdrap, og lykur Augu sijn til, ad eige siäe hañ Þau Illsku Poreñ; Sä mun i Hædunum bwa, og

Biorg

Biorgenn munu hañs Vyrke og Verndar-Hlijf vera; Hanns Braud mun hönum giefast, sitt Vatn muñ hann vijst hafa. Enn þu Doomare allrar Veralldarennar, sem i Himninum bijr, vertu Sool og Skiolldur þinna Barna, sem æ þig vona, og læt þau alldrei verda hinum skiæda Mordingia Dioflinum edur hañs Limum ad Herfange; Læt þau bijda epter þier med Polinnmæde, og sleppa þier ecke þar til þu blessar þau og innleider i þijns Sonar Dijrd. Bænheyr þad næduge Fader fyrer hanns Forþienustu, Amen, i JEsu Nafne, AMEN.

# Fimta Sunnudag epter Prettanda.

Gudspialled Matth. 13. Cap.

I Þann Tijma. Adra Epterlijking lagde JEsus fram̃ fyrer þa, og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Mañe, hver ed sæde goodu Sæde i Akur sinn; Enn þa Menn svæfu, kom Ovinur hañs og sæde Illgrese med i bland Hveitinu, og gieck i burt. Enn er Grased spratt upp og bar Avøxt, þa auglijstest og Ill-Gresed. Enn Pioonustu-Mennerner geingu til Hwss-Fødursins og søgdu hønum: Herra, sæder þu ecke goodu Sæde i Akur þinn? Hvadann kiemur hønum þa Illgresed? Og hann sagde til þeirra: Fiand-Madurenn hefur þad giørt. Pioonustu-Mennerner søgdu þa: Villtu ad vier førum og wtlesum þad? Og hann sagde: Nei, o ad þier upprætted eige Hveited under eins, nær þier wtlesed Illgresed. Læted hvørttveggia vara allt til Kornskurdarens: Og æ Kornskurdar-Tijmanum skal eg segia til Kornskurdar-Mannanna: Lesed fyrst samann Illgresed, og binded þad samann i Bindene til ad brenna þvi. Enn Hveitinu samanñsafned i mijna Korn-Hlødu.

Exordium.

Þad eru hrædileg Ord, sem Esaias Spamadur talar til Gydinga, Cap. 6. Er hann seger: Heyred ævallt, sioned ævallt, og þecked þo ecke. Gud vere oss Lijknsamur! Hvilijkt er þetta skielfilega Straff? Hvad er vesælla enn ad hafa Skilningar-Vitenn af Gude þeiged, og hafa þo ecke Not af þeim til þeirra Hluta, sem þau eru tilgiørd? Þad er ad vera lijkur þeim Skwrgodunum, er David um̃talar: Ad þau hafe Munn og mæle ecke, Naser og lyckte ecke, Hendur og þreife ecke, Fætur og gange ecke, Ps. 115. Og er þo ecke ad undra þoott soddann Straff kiæme yfer þæ, sem þessa Mælleisinga, þessa dauda Hlute, Stocka og Steina, giørdu sier ad Gudum, og dijrdkudu þæ i Stadinn hinns Lifanda Guds, sem bædi þæ og alla Hlute skapad hefur: Þvi David segier hier strax epter; Ad þeir ed giøra þau, sieu lijker þeim. Enn

þess

þess er ad giæta, Born mijn, ad Spaadoomur þesse Esajæ, hefur ætt sier lengre Alldur, eñ um hanns Daga, þvi þegar DRottenn JEsus framsette fyrer Foolked Eftirlijkinguna um Sæded, er fiell i Fernslags Jord, Matth. 13. og Lærisveinarner spurdu hañ ad, hvar fyrer hañ talade i Eptirlijkingum til þeirra; Þa vijkur hañ þessum Spaadoome Esajæ til Gydinga, er lifdu aa hanns Dogum og forsmaadu Evangelium Rijkisins, er hann bodade þeim, segiande: Þar fyrer uppfyllest aa þeim Spaadoomur Esajæ, er segier: Ad Heyrande muni þeir heyra og ecki skilia, og Siaande mune þeir siaa og ei þeckia. Ecke er sw Meining Frelsarans, ad Gud vilie ecke unna þeim Skilnings sinna Heilogu Orda og Riettinda, þvi hann vill ad aller Menn hoolpner verde, og komist til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Helldur segier Esajas, og DRotteñ epter honum, Ordsokina til þessarar Andlegu Deyfu og Blindne i sama Stad med þessum Ordum: Hiarta þessa Foolks er hart orded, og þeir heyra þwngleja med Eyrunum, og lykia Augunum aptur, so þeir siæe ecke med Augunum, og heyre ecke med Eyrunum, nie skilie med Hiartanu, ad þeir snwe sier og eg lækne þaa, Es. 6. Hvar af audsært er, ad Sokinn er hiaa Monnunum, og ecke hiaa Gude. DRottenn sette fram margar Epterlijkingar i þessum sama Capitula, og medal annara þaa, ed Samstundis var upplesinn, enn eingiñ var saa ed spurde hann epter heñar Þijding, nema alleina hanns Lærisveinar. So lijted oktudu þeir þessa Guds Giof; Þar fyrer var þeim ecki unnt ad vita Leyndardoom Himnarijkis. Ecke þarf eg þessa fogru Eptirlijking fyrer ydur wt ad skijra; Hiñ stoore Biskup, 1. Pet. 2. med þaa vel-lærdu Twnguna, Es. 50. hefur þad so vel giort med faaum Ordum, ad ecke er Aboota vant, þar hann svarade Lærisveinunum þanniñ: Matth. 13. Saa er saade hinu gooda Sædi, er Mannsins Sonur, eñ Akuriñ er Heimuriñ, enn hid gooda Sædid eru Rijkisins Syner, enn Illgresid eru Syner hinns Vonda, enn Ovinurinn, er saadi þvi, er Diofulleñ, enn Kornskurdar-Tijminn er Ender Heimsins, eñ Slattu-Mennirnir eru Englarner. Þar fyrer, so sem Illgresinu verdur samañsafnad og i Elldi uppbrendt, so mun og verda aa Heims Endirnum. Mannsins Sonur mun senda Engla sijna, þeir ed munu samannsafna wr hanns Rijke ollum Hneixlunum, og þeim er yfertroodu Logmaaled, kastande þeim i Ellds-Ofninn, þar mun verda Op og Tannagnijstran; Þa munu Riettlaater skijna eins og Sool i Rijki sijns Fodurs. Hver Eyru hefur ad heyra, hañ heyre! Þesse er Utskijringenn, Brædur mijner; Og er þad Maala sannast, ad hun er so ágiæt, ad Gydingar hefdu vel maatt forvitnast nockud framar um Skilning hennar, so sem Lærisveinarner hier giordu, hefdu þeir lagt nockurn Hug aa sitt Maal. Eñ þess er ad giæta, Born Guds, ad fyrst ad Spaadoomur Esajæ naade til Gydinga, sem lifdu aa Christi Dogum, meir enn 700. Arum sijdar, og var þa af honum stadfestur; Þa er audvitad, ad hann einnig nær til vorra Daga, sem nu lifum; Þvi so sem þad, ad Guds Rijke er til vor komed fra Gydingum, sokum þess Þeckingarleysis sem i þeim var, Eph. 4. So eru og til vor komnar allar þær Vidlogur og Hootaner, sem

sem æ þeim munu ad fullu hrijna, er giora sig þess enn i Dag Overduga, og forsmæ Guds Son og under Footum troda, Hebr. 10. Nu fyrer þvi ad einginn Þorf er ad wtskijra þessa Predikun HErrans, framar enn giort er, so sem ædur er sagt: Þa vil eg kvedia ydur þeim dijrmætu Ordum er hann endar þessa sijna Utleggingu med: Hver Eyru Hefur Ad Heyra, Hann Heyre! Og alleina tala um þæ Hlute af Gudspiallenu, er oss vekia megi til ad þeckia vorn Vitiunar Tijma.

Hiælpa oss þar til, O þu goode Gud! med Naad þijns Anda, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingenn.

Herrelsarenn seger i ondverdu Gudspiallinu; Ad Himnarijke sie lijkt Mañi nockrum, Er Sæde Goodu Sæde i Akur Sinn. Af hanns eiginn Utleggingu er audsied, ad Sæded merker hier annad enn i nærst fyrerfarande Epterlijkingu, þar merkir þad Guds Ord, eñ hier Meñina, sem Guds Ord eiga ad heyra. Þessu gooda Sæde sæde DRottenn strax i Upphafe Skopunar. Gott Sædi voru þau Adam og Eva, þegar Gud sædi þeim nidur i Aldengardeñ. Margt hefur þar Gras fagurt vered, morg fogur Eik, og margur bloomlegur Avoxtur, þo einginn nærri til lijka vid þau, þvi Madurinn var epter Guds Mynd skapadur, seger Ritningenn, Gen. 1. Vaaru þau þess vegna laangt af ollum skopudum Skiepnum æ Jordunni: Eñ jafnskiott kom þar Fiandmadurinn, Gen. 3. og stack þeim andlegañ Svefn-Þorn, so þau tooku nidur fyrir sig, og virdtu meir þæ Skiepnu Guds, sem þeim var miklu Oædre, helldur eñ siælfa sig, epter slægdarfullre Diofulsins Aeggian. Sijdañ hefur hañ alldrei vantad Sæde til ad spilla Guds Akre med. Strax var þar eiñ Mordinge i Adams Hwse, Gen. 4. Og þoott ad Gud sette hañ wt fræ þeim litla Safnadi siña Barna, sem þa var æ Jorduñi, þa vardi þad ecki leingi, þar til Ovinuriñ sædi aptur Illgresinu æ medal Hveitisins, og kom Guds Sonum, sem voru þeir af Nidium Adams, er Guds Otta giættu, til ad elska Mañaña Dætur, sm voru Cains Affspreinge, hvar af voox þad Illgresi, fyrer hvert ad Gud upprætti hina Vantrwudu Verolld, Gen. 6. þegar honum i þad Siñ virdtist Kornskieru-Tijmiñ komiñ vera, og ecki var eptir nema Illgresi eitt æ Jorduñi, ad fraatekinum Noa og hañs Hyske, og þo var þar eirn Spottare, eiñ Ohlidiñ Sonur i hañs Hwsi, Gen 9. So ad epter Flooded, þegar þar voru ecki nema Atta Kornstænger i Guds Akre, þa var þo eitt Illgresi æ medal þeirra; Og er framlidu Stunder, kiæfde þetta Andskotans Sæd-Verk so Hveited, ad þess giætti varla, og þad so miog, ad þad ætlade ad vaxa upp i Himiniñ, þegar þeir byggdu Turniñ Babel, Gen. 11. og ætludu sier ad taka Raadiñ af hinum Almaattuga, so ad eige skylldu þeir adskiliast, og so hefur þad jafnañ geinged fram epter Olldunum. Þegar Gud kallade Abraham af Ur i Caldea Lande, Gen. 12. og uppfrædde hann siælfur i þeirre himnesku Speke., þa sæde hiñ Alvitre Hwss-Fader goodu Sæde i Canaans Lande, þo spratt þar upp strax Eitt Illgrese, Eiñ Hræd-Fugl, Ismael, Gen. 21. Eiñ Offsooknare, Ein Ambaatt, sem

ad

ad vanvirdte Hws-Moodur sijna, Gen. 16. J Kvide Rebecku voru Tvær Þiooder, og sꝏ meire offsookte þann minna, Gen. 25. Esau, Gudlaus Madur, hiñ frooma Jacob, Gen. 27. Og þo var ecke Jacobs Hws fyrer utann Jllgrese; Þar var ein lauslꝏt Dootter, Gen. 34. Þar voru Tveir Mordingiar, Gen. 34. Þar var eirn Sonur, er fleckade sijns Fodurs-Sæng, Gen. 35. Þar voru Niju Brædur, er selldu siñ eigenn Broodur Mansale, Gen. 37. Lꝏngt er soddann allt upp ad telia. A medal Christi Toolf Læresveina var þar eirn DRottenns Svikare, Joh. 6. Þegar Akur hanns Christne var sem bloomlegastur, so ad aller Hluter voru sameigennleger med þeim trwudu, og þeir selldu Eigner sijnar, og bꝏru fram fyrer Fætur Postulanna, P.G. 4. Þa skaut Diofulleñ þar strax Jllgresenu iñ, þegar Ananias og Saphira leyndu af Jardar-Verdenu, P. G. 5. Hvorneñ Simon hiñ fiolkunnuge, P. G. 8. spillte Guds Christne, er lioost bæde af Postulaña Gioruingum og odrum Christenndooms Sogum. Og hvorsu miog Paulus kvartar uñ Vanskickunena i DRottenns Kvolldmꝏltijd, 1. Cor. 11. so og skamarlegt Samræde med nꝏkonnum sier, er hann segier, ad ecke heyrist jafnvel medal Heidingianna, 1. Cor. 5. Þad mꝏ alkuñugt vera af hanns Briefum til Safnadarins i Corintho. Fyrst nu ad Diofullenn fieck slijku til Vegar komed ꝏ medañ Gud talade sialfur vid Meñena, eins og Madur vid Mañ talar, ꝏ medañ hañs Eingietenn Sonur, voru Hollde Jklæddur, flutte Eyrende sijns Himneska Fodur hier ꝏ Jorduñe, medañ Heilagur Ande, med sijnelegum Krapte og Jardteiknum, auglijste sitt Guddooms Almætte i Moñunum og ꝏ medal Mannaña, þꝏ ætlunst ecke til ad hañ mune nu sijdur verka i Bornum Vantrwarennar, Eph. 2. Þar vier meigum gloggglega vid þad kañast, af þeim Lostum og Skomum, er daglega i Vo[x]t fara ꝏ medal vor, ad Satan er ofann komenn, hafande Bræde mikla, Openb. 12. Þvi mætte oss vera umhugad, ad þeckia vorn Vitiunar-Tijma, er oss so optlega bodadur verdur i Guds H. Orde; Og vilie Meñ ecke Guds Vitiunar-Tiima þeckia, þa þeckie Meñ þo Andskotañs, þvi sijdañ Christne hoosst i Lande þessu, hygg eg hañ alldrei hafe meira Rijke hast vor ꝏ medal i sumum Hlutum, eñ nu uñ Stunder. A ollum Olldum hefur hann sꝏd Jllgresenu ꝏ medal Hveitesins, enn þo hefur þad optast vered og vijdast, ad Skomeñ hefur Skom heited, og Dygdeñ Dygd, jafnvel hiꝏ þeim, sem ecke hafa Dygdena elskad nie hatad Skomena: Enn nu heyrest mier, ad Meñ hroose sier af Lostunum, og setie Dygdanna Nafn uppꝏ þꝏ. Jsmael er tekeñ til ad offækia Jsaac, og Agar ætlar ad reka Sara wt wr Hwsenu. Abimelech er farenn ad drepa hina skilgietnu Brædurnar, D. B. 9. so hann Frillu-Sonureñ meige einsamall rijkia. Agyrndeñ er Framsijni kollud, Drambsemeñ Hofdingsskapur, Hræsnenn Vitska, þegar Meñ brioota Riettenñ kalla Meñ þad ad byggia hañ, þegar Menn sleppa Skꝏlkum og Jllrædes Moñum Ohegndum, þꝏ nefna Meñ þad Kiærleika og Myskunseme. Hyrduleyse og Toomlæte i sijnu Kalle og Embætte, heiter Spekt og Fridseme. A Dogum Christi Onijttu þeir Guds Logmꝏl med sijnum Setningum, Matth. 15. Þa hofdu þeir ecke Log-Book,

nema Moysis Logmaal. Enn þess være Ofkande, ad ecke Onijttu Men nu Konungsens Log med sijnum eigenn Þootta, nær þeim rædur so vid ad horfa. So falsar nu Andskotenn Guds Stedia a medal vor, og setur hanns Mynd og Yferskrift a svikinn Maalm; Og þetta verkar han med Slægd og Kunattu so mikelle, ad so sem ad Illgresed er vanþeckt fra Hveitenu, adur en þad er fullvaxed, Matth.7. So þeckia Menn ecke þessa Ulfa fyrr en Saudar-Giæran er af þeim dreigen, og þeir bijta Hofuded af Skomene, so hun fær ecke leingur dulest. Veit eg ad Fiandmadurenn brwkar Einfelldne og Hugleyse margra til slijkra Hluta, og er þad noogu illt, þvi graatlegt er til þess ad vita, ad Faakiænskan og Otten fyrer þvi, sem eckert er, skule so Drotena i Verolldene, ad faer anadhvort vite hvad þeir eiga ad giora, edur þore, þoott vita meige: En hvornen sem þvi er vared, þa villda eg þess oska, ad þegar DRotten lijtur af Himne ofan yfer Manana Sonu, Ps. 14. ad hann hefde þa ecke Ordsok til ad klaga eins og Jeremias, Cap. 5. Er han segier: Nu vel, sa aume Flockurenn er skynlaus, vitande ecke neitt af DRottens Veige, og af sijns Guds Riettindum. Eg vil gaanga til hinna Volldugu og tala vid þa, þeir munu vita af DRottens Veige, og sijns Guds Riettindum; En aller saman hofdu þeir Oked broted og Togen i sundur slited. Hvar fyrer kienur nu oll þesse Olucka? Þvi hefur Fiandmaduren so mikenn Framgaang? Er hann sterkare enn Gud? Fiærre sie þvi; Hans Sonur hefur Einusine rænt han sine Harneskiu og sijnum Vopnum, a hvor han treyste, Luc. 11. Hvad þa? Hvor er Ordsokenn? Þviad Menn vilia helldur lia Limu sijna til Ibwdar Syndenne, helldur enn Riettlætenu til Verkfæra, Rom. 6. Gud vill laata erfida i sijnum Vijngarde, Matth. 20. Þar fyrer vill margur hafa sig undann þeigen ad liaast honum til Þioonustu, jafnvel þoott ad þeim sieu Launen vijs a Himnum, er honum til Handa gaanga; Enn þad er indællt ad giorast Verk-Þræll Andskotans, þvi hann leggur Kodda under Hofud Syndarans, Ezech. 13. Þoott Men fyrer vijst vite, ad han laune med Ellde og Brenesteine, Openb. 14. Med Ope og Tanagnijstran, Matth. 13. So sem DRotten adkvedur sijdarst i Utskijringu þessarar Epterlijkingar.

Þegar Men svaafu, Kom Fiandmaduren Og Saade Illgresenu Medal Hveitesins: Segier i Textanum. Ecke er med þessu meint ein Stiett enn onnur, enn alleina Tækefære þad, sem Ovinurenn brwkade til ad saa Illgresenu nidursaad i Akurenn, þad var Svefn-Tijmenn. Samt maa eg taka mier Ordsok hier af til ad tala þar um, ad eg hygg oss verde nockud Svefnsamt allmorgum i baadum þeim Stiettum, sem Yfer-raadenn hafa, so ad Fiandmannenum þar fyrer optlega giefest Tækefære til ad spilla Guds Akre med Illgresenu. Taked fyrst til a mijnum Helgedoome, sagde Gud vid Jerusalems Engla, er hann baud þeim ad sla þa alla sem ecke teiknader voru. Ezech. 9. Eg vil fyrst taka a oss, sem berum Aarons Skrwda. Hvornenn mun lijda um hinar smaau Kornsteingurnar i Guds Akre? Mun þær ecke vanta a Stundum þann heilnæma Vokva, er þær eiga ad sprètta af, so ad þeim kyne safnad ad verda i Bindene

Guds

Guds Barna, þegar Uppskieru Tijmenn kiemur? Eg hygg ad i þessu sie mikell Brestur hiaa allmorgum, hvad Gud Naadarsamlega lagfære, og giefi þeim ad ydrast, er i þessu er so miog Aboota vant! Enn segied mier; Hvad giora þeir ed þanig breita? Sofa þeir ecke? Mun ecke Fiandmadurinn hafa nooga Ordsok til ad saa Illgresenu, þegar so tilgeingur? Þad er hægt ad giora Hveited ad Illgrese, enn ad laata Hveited aptur hverfa til sinnar firri Natturu, þegar þad er einusinne orded ad Illgrese, þad heyre eg sagt ad sie Omogulegt; So er þvi og vared i Guds Akre: Margs Ungmennis Nattura kan ad vera good, enn þvi velldur Fiandmadurinn, og þeir sem eiga hier um ad hyrda, nær þeir forsooma sitt Verk, og giefa honum Rwm, ad hun venst aa þad illa sem er audnæmt; Þvi hun heyrde lijted af þvi gooda, og dregst so Unglingurenn aa Legg, ad bægt kan vera vid ad giora, venur so adra epter sier, nær hann er gamall orden, so ad þesse Drepsoott smijgur so Mann af Manne, þar til hun spiller heilum Akre. Þeir sem eta þetta Illgrese, sem hier gietur um i Evangelio, verda blinder edur Glaamskigner; Hvad munu þeir verda sem uppalast med þeim, er so eru uppalder? Blindir af blindum Leidtogurum. Og þetta siaa nockrer af vorum Kiennimonnum, og leggia þar ecke til. Sofa Menn þaa ecke? Mun Satan forsooma þetta Tækefære? Eg vil ei tala um þad, hvorsu lijted ad sumer af oss vanda Kienninguna af Predikunar-Stoolnum; Finnast munu þeir, ed ætla sig vel hafa reked Guds Eyrinde, ef þeir fylla upp Eyru Tilheyrendanna med Haareiste nockru og Mælge þeirre, er hvorge aa heima, enn giæta ecke ad þvi, hvert hinn sturlade finnur Huggun þar i, hinn faavijse Leidrietting, hinn dofne og hyrdulause Uppvakning, hinn Ogudlege og saa ed forsmaair Gud og hanns Riettinde, þad sem honum tilheyrer, sem er, Hootun Guds Reide, og eilijfrar Fyrerdæmingar. Hvort aller þesser finna þad i einne Predikun, þad athuga sumer ecke so gaumgiæfilega aa Stundum; Þegar Menn hrissa eitthvad wt wr einne Book til ad giora Affsokun sijna, giætande ecke miog smaasmuglega ad, hvort þad gagnadi ad tala, aa þeirre Tijd, edur i þeim Sofnude, sem honum er aa Hendur falenn til Umonnunar; Samt þvo Menn Hendur sijnar fyrer Foolkenu, og kalla sig saklausa af Bloode hinns riettlaata, Matth. 27. Sem þo ecke hrijn aa þeim er tapast, sokum Faafrædes þessarra Vesælinga. Enn hann sem i Guds Stad er settur, forsoomade ad giefa hanns Hiwum i riettann Tijma þad sem byriar, Luc. 12. Og ætlar ad Gud mune ecki krefia þess af sinne Hende sijdan; Ezech. 33. Jafnvel þoott hinn faafroode meige deya i sijnum Syndum, nema Gud vilie meire Myskun aa giora, vegna hanns Toomlætes, er honum aa ad undervijsa, og aaminna Forelldra og Hwsbændur ad giora Skylldu sijna, þar sem hann fær ei sialfur tilkomist. Segied mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Mun Ovinurenn ecke færa wt sinn Reit i Guds Akre vid allt þetta? Eg vil ei faa mier til Orda, hvorsu ad margur Leigulide er ragur i þvi ad straffa Odygder og Glæpe hiaa þeim, sem eru nockurs Maals metande; Ein Maaltijd Matar, eirn Bikar aafeings Dryckiar, eitt Hundrads Virde edur minna aa Stundum, þvær af allar Synder hinns Gudlausa, hiaa þeim er so eru lynder, laun-



ande

ande so skamarlega sijnum Velgiørda Mønnum, ad þeir pretta þa um Gagn Sæalar sinnar, og þann mesta Velgiørning er þeir kynnu þeim aptur ad sijna, sem er, ad segia þeim til Synda sinna; So vanhelga þeir Gud fyrer eirn Miølhnefa, so sem DRotten ad Orde kiemst, Ezech. 13. Og þoott eckert af þessu i mille kome, þa helldur Ottenn, fyrer Ofrijke þess vollduga, mørgum af þeim, er sig kalla Umbodsmen Christi, so i Taume, ad þeir ecke þora Munenum upp ad luka, hvoriar hellst Skamer og Klæke sem þeir horfa a. O vei! O vei! Segied mier i Guds Nafne, segied mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Mun ecke Fiandmaduren hlæa ad þessu, nær Guds Þienarar draga hanns Ploog so kappsamlega, og finna ad þad meige um vorar Tijder segia, er DRottenn sagde fordum um Hyrdarana i Juda: Aller þeirra Vøkumenn eru blinder og vita alls eckert, Mꜳlausser Hundar eru þeir, og kunna ecke ad giellta; Þeir eru later, liggia og sofa giarna, Es. 56. Og þesser hiner grꜳdugu Hundar kunna þo alldrei sadder ad verda; Og þetta hid sijdarsta velldur, ad Menn eru so spaker i þvi ad umvanda vid adra i Guds Stad. Balaks Femuner orka þess, ad Asnann verdur fliootare til ad segia satt, helldur enn Spꜳmadurenn, sem a henne situr, Num. 22. So þegar eirn Høfdinge fær ecke ad heyra Sannleikan af Preste sijnum, sem a og mꜳ segia hønum til Syndanna, an allrar Misvyrdingar, þa verdur hann a Stundum ad heyra þad af Fiandmane sijnum, af hinum minnsta Þienara, af einum Boonda, sem ad giorer Skøm til Kiennemannsins, er þetta ætte ad giora sier til Forsvars hiꜳ Gude, enn hinum til Sæalar-Boota og eingrar Mijnkunar, nema hann þikest meire Madur enn David, er þolde Nathan Spꜳmanne Sannyrdenn Reidelaust, 2. Sam. 12. Og ef hann heyrer þad af eingum af þessum, þa mun hann þad heyra af Døomara alls Hollds a sijdarsta Deige. Og þoott Men sieu nu so spaker vid Høfdingiana, og þa, hvorra Volld Menn ottast, þꜳ vantar Men ecke sumahvoria a stundum, ad brwka sijns Embættes Myndugleika vid Lijtilmagnan, ecke til ad leidrietta han, edur til ad vandlæta i Guds Stad, helldur til ad otta Mønum med þvi Vallde, er vier høfum til ad leysa og binda Syndena a Jordu, Matth. 16. Og til ad hefna sijn a þeim, er Men þykiast varhendt eiga. Gud veit ad eg lijg ecke, ad þesse munu Dæmen giefast, og þo fleire en eitt. En eg bid ydur, ad þier athuged, þier sem þetta adhafest; Eg bid (segie eg) i Guds Nafne, ad þier athuged, hvad skielfeleg Hꜳdung ad þetta sie, og hvørsu ad Blood DRottens JEsu, þad dijra Sꜳttmꜳlans Blood, mune hroopa i Himenen, þegar þad er so almenelegt hallded af einum Synda-Þræl, er væenest þessa Guds Umbods, sem fyrer þeirra og allra Mana Synder er krossfestur; Segied mier, þier Dꜳrar! Mun Gud hafa nockrum umboded, ad foottroda þanen sitt eiged Blood? Hvors minnste Drope ad er dijrmætare, enn ad Himen og Jord meige i nockurn Samjøfnud koma. Þessu vil eg hafa viked til þeirra, er setia eirn Vesæling wt frꜳ Heilogu Altaresins Sacramento fyrer litlar edur eingar Saker, og optlega þær, er þeir sialfer þykiast vid hann eiga. Vited þier ecke, þier Hræsnarar, ad þvilijk Utsetning er eitt DRottenns Reidar-Slag til þess ad straffa med Gudlausa Menn,

Og

og hanns Nafns Forsmaanata. Þo skamest þier ydar ecke ad taka ydur þad i Hond til ad slaa þaa med, er ydur er illt i Skape vid. Hversu vel hafed þier geimt ydar HErra Bodords? Er hann segier: Blessed þaa er ydur bolva, giored þeim Gott er ydur offsækia, Matth. 5. ad þier sieud Born ydar Fodurs sem aa Himnum er. Enn þegar þier brwked hañs dijrdarfullu Stoormerke til ad refsa þeim, er þier þykest eiga Hefnder ad giallda, hvers Syner erud þier þa? Ecki hañs er skipade ad liida Illgresid til Kornskieru Tijmans, helldur hinns, sem er Mordinge Saalnaña, Joh. 8. Ecke hanns, sem gieck i krijng, giorde Gott og grædde alla, P.G. 10. Helldur hañs er geingur nū krijng sem greniande Leon, leitande ad þeim, er hañ faae uppsvelgda, 1. Pet. 5. Þegar DRottenn JEsus gieck um Samariam Fordum Daga, þa sende hann undañ sier Lærisveinana, ad tilreida sier Herbergi i Borginne, eñ Bæjar-Menn villdu ecke taka vid honum, þvi hañ hafde þann Snid aa sier, sem villde hann reisa til Jerusalem; Eñ Samaritani hotudu alla þaa, er sooktu helgar Tijder þaangad; Þa reidduſt þeir Jacobus og Johannes, og sogdu: Meistare, villtu ecke ad vier segium ad Elldur kome af Himne og fortære þeim, eins og Elias giorde? Eñ hañ Blessadur snerest vid, straffade þaa og sagde: Þier vited ecke hvers Anda þier erud, þvi Mañsins Sonur kom ecki, ad hañ tortijnde Saalum Mañaña, helldur ad hañ þær hoolpnar giorde, Matth. 9. Þetta giordu þeir Johañes og Jacobus, af Einfelldne og Oforsu Vandlæte vegna DRottens, og þo aatalde hañ þaa so hardlega; Eñ af hverium Anda giored þier þetta? Ecki Guds, helldur Andskotans. Segied mier: Er ecke þad ad kalla Elld af Himne, ad baña Moñum hina kroptuguſtu Lækning Saalar siñar, og steipa þeim so til Helvijtis, ad so miklu Leite, sem i ydar Vallde stendur? O þier Skinlauser Vargar! Laated af soddann Æde, nema þier siaalfer vilied þola Bræde DRottens um alla Eilijfd, i þvi Dijke sem rijkur af Ellde og Breñisteine, Op. B. 21. Vakned upp og sofed eige leingur; Giored Ydran, þviad ydar Hiarta er ecki riett fyrer Gude, P. G. 8. Hver Eyru hefur ad heyra hann heyre!

Eg villde og faatt eitt vid ydur talad hafa, þier Veralldar Hofdingiar, mz ydar grædu Leife: Munu þeir ecke finnast ydar aa medal, er Svefn-Hoggve renne aa i Doomara Sæte, edur nær Menn eiga ad giora Verk sinnar Kallanar, sem Gud og Konungurenn hafa þeim aa Hendur falid? Eg vil eige tala um þad, hversu Menn leita sier Fordilldar i ad spilla Stefnum og Vitnum, þvert aa moote Logmaalinu, nær Monnum rædur so vid ad horfa, ad wtleggia Logenn epter þvi sem Menn þykiast vid þurfa i þad Sinn, og aka þeim eins og Seglum epter Vedrinu. Þau munu Dæme giefast, ad eiñ og hinn same Doomare hefur i eirni Sok dæmt epter einu Logmaale, og þvert aa moote hinu sama i odru eins Maale, ecke fyrer nockur Olijk Atvik edur Haattalag Sakanna, helldur alleina epter þvi, sem hann hefur unnad þeim til, sem hafa vered fyrer Doome hanns. Segied mier; Er ecki þetta ad sofa? Þyker ydur ecke Von aa, ad Akur Fiandmannsins groove vid þetta: Hversu Ohlijfner eru Meñ i þvi ad tradka Maalunum, og þoott eg segde bligdunarlauser, þa segda eg ecke ofmiked, þvi Meñ giora þad so ber-

lega

lega ꝏ Stundum, ad þad er ollum hꝏlvita Mønum augliooſt, ad Meñ ſetia þær Flæk-
ur i Dooma ſijna, ſem eirn Tals-Madur, edur ſꝏ ſem ætti ad veria Hofud ſitt, ſkyllde
ecke añarſtadar þora ad brwka ſier til Forſvars. Eg vil eige ſꝏ mier til Orda um opiñ-
bera Riettar-Neitun, hverſu Slægvitrer Meñ eru i þvi, ad ſkioota Mꝏlum ꝏ Freſt,
ꝏn allra Ordſaka, ſo ad hiñ Fꝏtæke og Einſtædingureñ, og jafnvel, ꝏ Stundum, þoott
hann ſie Mꝏls metande, ef Doomareñ er honum mootfallenn, þeir neydaſt til ad ſtanda
af Riette ſijnum, og þeim leideſt, edur hafa ecke Efne ꝏ, ad ſækia hann framar, og vilia
helldur giefa epter Søk ſijna, eñ ſpilla Tijdiñe, og voga Gootze og Omake uppꝏ þann
Rett, ſem Menn eiga ad ſækia i þvilijkar Hendur. Hvad ſijneſt ydur nu, gooder Meñ?
Mun ecke Skꝏlkureñ og hinn Ogudlege vaxa vid allt þetta, og æſa ſomu Skañer Otta-
lauſt? Og þegar honum ſo hrockur yfer, Sokum Rꝏngſleitnis þeirra, er Riettinum
eiga ad ſtiira, þa kallar hiñ Ohlutvande, ad Gud hafe þocknan ꝏ ſier, af þvi hañ læt-
ur hañ vaxa til Kornſkieru Tijmans; Eñ þeir, ſem Gud hefur umboded, forſooma ad ta-
ka Hneixled og hid Vonda i burt wr Iſrael, Devt. 17. Þegar nu ſo ber vid, þa kalla
eg ad Retturenn ſofe, af þvi einginn er til ad vekia hann; Er ecki ſlijkt ad rꝏda Diofl-
enum Verk-Þrꝏla til Handa i ſinn Akur? Sem ad miklu ſijdur forſooma hañs Verk,
eñ hiner, er Guds Ploog eiga ad draga, og være gott ef hier med være kyrrt lꝏted. Eñ
þeſs være Oſkande, ad ecke lidu Meñ alleina hinar verſtu Skañer og Ohæfu, helldur og
tæke þær ecke i Forſvar; So ſem er Vanſkickun og Ølæde under Guds Orda Heyrn,
Gudlaſtaner, Vanbrwkun hanns Dijrdarfulla Nafns, til ad ſkiema ſinn Nꝏunga
med, og margt þvilijkt fleira, ſem heidvyrdur Madur mætte ſkamaſt ſijn ad nefna, enn
ſumer ecke bligdaſt vid ad forſvara, edur, ad miñſta Koſte, nærre Oſtraffad lꝏta; So
þad, ſem añarſtadar i Chriſtnum Londum er med Utlegd, edur og odrum þwngum Alog-
um ſtraffad, þvi ſleppa Meñ hier alldeilis, edur og lꝏtaſt ſtraffa þad ſo ſem litla Yfer-
ſioon eñ eingvañ Stoor-Glæp. Eg hefi leſed i Guds Manns Rite, er lifde fyrer Hund-
rad Arum hier i Lande, hvers Sꝏl nu lifer i Himninum, eñ Minningenn er ꝏgiæt ꝏ
Jordunne; Hann ſegeſt hafa talad vid eiñ Mañ, er ſagt hafe; ad hann ecke villde ſverja
rꝏngañ Eyd, þoott honum Sex Hundrud giefenn væru, enn hefde þad Sioundu vered
i Bode, þa munde kannſkie hafa runned ꝏ hann Tvær Griijmur; Skrifar þeſſe Guds
Madur. Þetta var ad ſoñu ein Hofud Skom, er hañ talar um; Eñ ecki hygg eg Menn
þurfe ad kaupa ſoddañ nu uñ Stunder ſumſtadar, þad mun fꝏſt Okeipis, ef Doom-
areñ er velviliadur, þeim er ꝏliggur, ſierdeilis ef ecke liggur vid nema Guds og Konung-
ſins Rettur. Seged mier: Mun þad ecke eiga hiꝏ þeim heima, er ſo breita, ſem Drott-
eñ ſeger vid Juda, Ezech. 16. Ollum Skiækium verdur Fe giefed til, eñ þu hefur giefid
þijnum Fylgiu-Mønum Peninga. Er ecke þetta ad ſofa? Er þad ad undra, ad þunn-
ſkipad er i Guds Akre af Hveite-Stauıngiñe, nær ſo tilgeingur, og þoott Guds Þienar-
ar kvarte hier um, og fære jafnvel ſlijkt under Log ꝏ Stundum, epter Skylldu ſijns
Embættis, þa fꝏ þeir eingu ꝏ-orkad, mæta helldur Arꝏſum þar fyrer, og ei bligdaſt
hiner

hinir þar vid, þoott þeim sie hier um̃ brixlad, helldur slaa vid þvi Hnackanum (so sem Meñ plaga ad segia), og giora eins og Salomon seger um̃ Skiækiuna, ad hun striwke sier um̃ Andlited og segie: Eg hefe eckert illa giort, Ordsk. 30. Þeir blygdast þar vid ad soñu um̃ Stundar-Saker, eñ reka ei ad sijdur Fiandans Eyrende, so sem hefdu þeir Valld sitt og Veitslur af honum þeiged, enn ecki af Gude nie Konginum. Þyki nu nockrum so sem ad þetta hitti aa sig, þa mun saa giefa Hliood af sier sem aakiemur, eñ margt af þessu er almennara og kunnugra, eñ ad hier þurfe mørg Vitne ad leida. Eg fiñ þad ecki med þvi ad grafast þar epter, þetta er yfer allt, segier DRotteñ um̃ Klæke Gydinga, Jer. 2. Bref og Doomar Maña skulu þad satt giora, er eg ritad hefi, og sialfer þeir, ed æfa þvilijkt, munu þad þeckia, þoott eige vilie þeir ad giora, nema þeir sieu forbrender i Samvitskuñe, og hafi mist alla Tilfiñingu, nema hiñn grædduge Hræ-Fugl Diøfull-iñ hafi rigna laated i Augu þeim heitum Saur, eins og Titlingarner i Augu hinns gamla Tobiæ fordum Daga, Tob. 2. Sagann seger, ad hann hafi læknadur ordid med Galli Fiskiarins; þegar þvi var ridid aa hanns Augu, þa datt Hreystred af þeim. Tob. 11. Enn eg veit ecke hvad þessum mune til Lækningar verda, fyrst Guds Blood fær þess ei orkad, og ecki þad beiska Gall og Edik, er honum var borid, Matth. 27. þegar hann kvaldist fyrer þessar þeirra og allrar Veralldariñar Synder. Eg veit ecki hvad þeirra Augum muni uppliwka, nema hin sterka Svæla Helvijtis Ellds; Hun mun liwka þeim upp ad vijsu. Annarra Manna Augu skiemer Reikurinn og slioofgar þau, eñ þessa mun hin eilijfa Svæla heilskigna giora, ad þeir so loksins siaae hvor annars Skom̃, sem hafa giørdt Samband aa mooti Gudi og haũs Christe, og ecke villdu upplaata sijn Augu aa mooti hanns Riettlætis og Nædar-Geislum, medann þeir plaagudu haũs Utvallda i Rijki sijns Fødur, sem er Høfdinge þessa Heims: Og þad er um̃ þaa riett sagt, er Seneca skrifar um̃ Claudium, ad hann ecki þeckt hafi ad hann daudur var, fyrr eñ haũ saa Lijkfør sijna. Segied mier nu i DRottins Nafne, seged mier, er ecke þvilijkt ad sofa? Er ecke þad ad vera Saadmadur Fiandmannsins, og spilla Guds Korneckru af øllum Kreftum? Hvør Eyru hefur ad heyra, hann heyre! So heyred þier nu Ord DRottins, sem i Landinu bwed, þier sem hanns Um̃bod er aa Hendur faled. Heyrid þier, sem standed fyrer Altare hinns Allra Hæsta, hvad haũ bijdur ydur, af Ezechielis Spaadooms Bookar 33. Cap. Eg hefi sett þig fyrer Vørd yfer Israels Hws; Nær eg segie til hiñs Ogudlega, þu skallt Dauda deya, og þu varar hann ecke vid, og segir honum þad ecke, so ad hiñ Ogudlege kuñi ad vakta sig vid sijnu Ogudlegu Athæfi, so ad haũ meige lifa, þa skal hiñ Ogudlege deya fyrer siña Synda Saker, enn haũs Bloods vil eg krefia af þinni Hende. Og so ad þier kunnid med þess meira Frelse og Myndugleika, og betre Samvitsku ad Straffa, Ogna og Amiña i Guds Stad, þa hagid Lijferne ydar so sem Christi Þienarar og Raadsmenn hanns Leyndardooma, 1. Cor. 4. giefande eingvum nockra Hneixlan, so ad vor Þioonusta verde ecke løstud, helldur i øllum Hlutum hegdum oss, so sem Guds Þioonustu-Menn, efter Bode St. Paals; 2. Cor. 6.

Heyred þier hiner Volldugu i Landinu, og þier, sem Gud hefur Sverdid i Hendur feinged, heyred þier Ord DRottenns! Læred gott ad giøra, leited epter Riettinum, giøred Riett hinum Underþryckta, lꜳted hinn Munadarlausa Logum nꜳ, og taked ad ydur Mꜳlefne Eckiunnar, Es. 1. Hallded Doominn og Riettvijsina, frelsid hinn Underþryckta af Hende Offsooknarans, og sturlid ecke hinn Framanda, Fodurleysingian og Eckiuna, og giøred eingum Ofrijke, seger DRottenn Zebaoth, Jer. 22. Hugsed ecke med ydur, ad nær þier þessar Guds Aminningar ad eingu hafid, ad hann muni þa vera lijkur ydur, þoott hann þegie, Ps. 50. og lꜳte ydur vaxa til Kornskieru-Tijmans, þvi hann mun straffa ydur og tala vid ydur under Augun, nema þier ydrest af Hiarta. Lꜳted af Illu og læred Gott ad giøra. Vandlæted i Guds Stad, og uppræted Hneixled og hid Vonda wr Israel, Devt. 22. Annars mun þad heita fyrer ydur: O þier af Moysis og Arons Hwse! Hver sem mig forsmꜳer, þann vil eg forsmꜳ, 1. Sam. 2. Þijn Sꜳla skal vera fyrer hanns Sꜳlu, 1. Kong. 20. Þier erud Guder kallader, og aller erud þier Syner hins Hæsta, gooder Menn, en þo munud þier deya so sem Manneskiur, Ps. 82. Heyred þetta til samans Andleger og Veralldleger, heyred hvad DRottenn seger ad Alyctun i Utleggingunne; Ad Illgresenn mune verda kastad i Ellds-Ofnenn, þar mune verda Op og Tannagnijstran. Ef þeirra Doomur verdur so strꜳngur, sem fyrer ydar Vanræktar Saker tapast, hvilijkur mun þa ydar Doomur verda, nema þier giallded Varhuga vid? O! þier Christner Menn, O! þier sem med Guds Sonar Bloode erud endurkeypter og i hanns Dauda skijrder, P.G.20. Giefed Giætur ad sialfum ydur og allre Hiordenne, sem Gud hefur afrekad med sijnu eigin Bloode, hver i sin Stad: Punded er stoort, Reikningskapurenn er mikell, Guds Blood er dijrt, hanns Reide er þwng, Doomarenn er strꜳngur, Lijfed er stutt, Daudenn er vijs, Helvijte er heitt, Eilijfdenn er laung; Og þier vited ecke nær ed Hwsboondenn kiemur; Enn i hveria þꜳ Att sem Eikenn fellur, þar liggur hun, Predik. 11. Lꜳted ydur þvi ecke villa med Ogudlegum Heimsins Dæmum, bered ydur eige samann vid þꜳ, sem þier kalled ydur verre; Þeirra Fordæming verdur ecke ydar Afbøtun, þvi hver eirn mun sijna Byrde bera, Gal. 6. Nema þier ætled ad ydur muni þar fyrer verda roorra i Helvijte og Kvolunum, ad adrer sꜳta þijngre Hefndum en þier þykest hafa tilunned. Satt er þad ad sønnu, ad Guds Riettlæte mun skamta Hegninguna epter Tilverknadinum, og vega Straffed wt epter Þijngd Syndanna: En giæt þess, ad øllum mun verda þar Obærelegt: Og so sem ad Utvallder i Dijrd Himnanna munu ei ofunda hver annan, þoott eirn skijne fegra en annar; So munu eige Fordæmder hafa neina Roo af þvi, þoott eirn kveliest meir enn annar: Mæl þvi ecke Vondsku þijna samann vid hanns, sem forþienad hefur heitara Helvijte; Helldur giør Ydran ꜳ medan þar segest en þa i Dag, Hebr. 3. so ei komer þu i þann Kvala Stad, Luc. 16. helldur skijna megier eins og Sool i Rijke þijns Fodurs. Þad veite hinn goode Gud øllum þeim, sem under hanns Merke strijda, i Utlegd þessare, fyrer JEsum Christum, AMEN.

A Hrein-

# A Hreinsunar Hætijd Mariu.

Gudspialled, Luc. 2. Cap.

NA þeim Tijma. Þa Dagar heñar Hreinsunar fullnuduſt epter Moysis Logum, hofdu þau hann til Jerusalem, uppa þad þau a Hendur fæle hañ DRottne (so sem skrifad er i Logmæle DRotteñs, ad allt hvad Kallkyns var, þad er fyrst opnade siñar Moodur-Kvid, þa skyllde kallast DRottne helgad; Og ad þau giæfe Offred, epter þvi sem segiest i Logmæle DRotteñs, Tvær Turtil-Dwfur, eda Tvo Dwfu-Unga). Og sia, ad Madur var þar i Jerusalem, sa ed Simeon hiet, og þesse Mann var Riettlatur og Gudhræddur, bijdande epter Huggun Israels, og Heilagur Ande var med honum. Simeon hafde og Andsvar fenged af Heilogum Anda, ad hann skyllde ecke Daudañ sia, nema hann sæe adur fyrre Christ DRotteñs. Og hann kom af Andans Tilladan i Mustered: Og þa Forelldrarner hofdu Barned JEsum i Musterid, og giordu fyrer honum epter Sidveniu Laganna, og hañ took hañ þa upp a sijna Armlegge, lofade Gud og sagde: DRottenn, lat nu þiñ Þioon i Fride fara, epter þvi sem þu hefur sagt, þviad mijn Augu hafa sied þitt Hialpræd, þad þu tilreidder fyrer Auglite allra Þiooda: Eitt Lioos til Uppbyrtingar heidnum Þioodum, og til Dijrdar þijns Foolks Israel.

## Exordium.

MArger Veralldar Hofdingiar, sem og adrer vijser og gooder Menn hafa sier oskad, ad þeir mættu lifa so lenge i Heime þessum, ad þeir feinge bunded Enda a Fyreætlan sijna; enn þad hefur þeim misjafnt tekest. Augustus Keysare er sagt ad optlega hafe talad þad vid Vine sijna, ad hann villde lifa meiga, þar til hann hefde ad fullu skipad Rijkes-Stioornenne i þvi Romverska Vellde; Og verdur ecke a moote þvi sagt, ad honum tookst þad ad miklu Leite. Eige verdur þvi helldur neitad, ad i þessum Asetninge var mikil Hugprijde. Hinn stoore Solimannus, Tyrkianna Hofdinge, ætlte sier ad deya ecke fyrr, enn hann hefde unned Hofud-Stadenn i Keysarans Rijke, enn Gud liet þad ecke epter honum, Daudenn vann a honum adur enn hann fieck Borgena unned; Og hender þetta marga þa, sem alleina vilia lifa til þess ad seilast a adra, og meirietta gijrugar Hendur til þeirra Hluta, sem eige eru þeirra. Vijsenda Mannaña Osk er so giarnann, ad þeir mættu lifa so leinge, þar til þeir hefdu afloked Erfide sijnu, Skriftum og Bookum, og odru þvi, er þeir fyrer Stafne hafa;

 Og

Og er i slijku Tveñt ad skoda: Eitt er nockurskonar Ærlegur Metnadur, og Elska goods Nafns og Riktes epter sig daudann, hvad ecke er Lasts vert, þvi hun hefur mørgum komed til Ydne og Astundunar. Annad er Vilie og Asetningur til ad kienna ødrum, og sierdeilis Epterkomendunum, sem Losslegt er og mikellrar Hroosunar vert, þvi þad ber epter sier Elsku og Hugþocka mikenn til Mannkynsins, hvoriu eckert er ægiætara, eckert Gude þeckara, og, ef eg mæ so ad Orde komast, eckert Gude lijkara, þvi hann elskar øll sijn Handaverk. Enn hvørnenn sem øllu þessu er vared, þa er eitt Naudsynlegt, og eitt er þad gooda Hlutskipted, sem engenn mæ af þeim taka, Luc. 10. er þad hafa wtvaled, sem er, ad hafa svo lifad, svo trwad og svo tilreidt sig, ædur enn Madur geingur Veg allrar Veralldar, Jos. 23. Ad hann sie fullviss þar um, ad hann i Fride fare af þessum Heime. Þvi prijsa eg Hlutskipte hinns gooda og gamla Simeonis, ecke so miøg i þvi, ad hønum hlotnadest ad sia Heimsins Skapara og Endurlausnara med sijnum Augum, so sem hann hier segier i Lof-Saungnum, og ad taka hann uppæ Armlegge sijna; So sem hitt, ad hann, wt af fullu Trauste um Guds Nææd og eilijfa Vist med hønum, saung so ad segia þenna Gledelega Lof-Saung yfir siaalfum sier: Nu Læt Þu DROttenn ÞJOON ÞJNN J FRJDE FARA Epter ORde Þijnu, Þviad Mijn Augu Hafa Sied Þitt Hiaalpræde. So þad mæ kalla, ad hanns Lijk-Psalmur, og Fædingar og Fagnadar Diktur, Endurlausnaranum tilkvedenn, være eirn og hinn same. Sæll er sa Kvidur, er þig bar, og þau Brioost er þu mylkter, sagde Kvinnann Fordum vid vorn HErra; Enn hann svarade henne: Hvad um þad? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau, Luc. 11. Þetta kiemur mier til þess, ad mier þyker meir koma til þess, ad Simeon beid med Þolinmæde epter Huggun Jsraels, og ad Heilagur Ande var med hønum, helldur enn hinns, ad hann sa JEsum, og took hañ i Faang sier, ædur enn hañ skyldest vid þetta Lijf; Þvi engenn er þvilijk Sæla og engenn Styrkur i Daudanum so mikell, so sem ad hafa sied JEsum med Trwarennar Augum, og fadmad hann med hennar Ørmum; Þad kienner hañ siaalfur, er hañ sagde vid Thomam: Af þvi þu sæst mig, Thoma, trwder þu; Enn sæler eru þeir sem ecke sia og trwa þo, Joh. 20. Þenna Kost eiga aller þeir ed Ord Guds heyra, i hvoriu JEsus Christus hinn Krossfeste er oss fyrer Augum afmaaladur, Gal. 3. Sæ sem epter þvi geingur, hann mun med Simeone allshugar fegeñ og gladur skillast vid hreckvijsa Verolld þessa, og kalla Daudann sinn Abata. Og fyrer þvi, ad þessa gooda Manns er minnst i Gudspiallenu, er strax var uppleseд; Þa vilium vier af hønum læra, hvørnenn vier eigum Fridsamlega ad lifa, so vier kunnum i Fride hiedann ad fara. Þar til hiaalpe hinn Næadarfulle Gud, fyrer Forþienustu sijns Eingietens Sonar JEsu Christi, AMEN.

## Utleggingeñ.

HVad Maña ad Simeon þesse vered hafe greiner ecke Ritningenn um; Þeir ed skrifa, ad hann hafe Kieñemadur vered, færa eckert til sijns Maals, þad er eige

helldur

helldur lijklegt, annars munde Gudspialla-Madureñ ecke hafa þagad um̃ þad, helldur ek um̃ Zachariam, Fodur Johañis Skijrara, Luc. 1. Lijklegre er þeirra Meining, er ætla ad hañ vered hafe Sonur Hillelis, er Gydingaña Meistarar segia ad vered hafe Lærefader Gamalielis, hvor ed sagde hina roksamlegu Meining sijna um̃ Christne-Boded, er Oldungarner hielldu Raadstefnu um̃ Postulana og þeirra Lærdooma, P.G. 5. Þetta er ad sonnu ecke vijst; Eñ ef so er, þa var þad ecke ad undra, þoott Gamaliel framar odrum kigndest i þenna Lærdoom, þar hañ hefur, ꝏn Efa, heyrt af sijnum Meistara, ad Huggun Israelis, epter hvorre hann beid, munde ecke fiarlæg vera, hvad hann ꝏded hefur af Spaadoomum þeim er voru af Messia, er þꝏ tooku marger fram̃ ad koma. Meistarar Gydinga hofdu marga Læresveina, Joh. 4. sem siꝏ mꝏ af Christo og Johañe, Luc. 10. So hefur og ꝏn Efa Simeon haft fleire enn færre, og er þad vijst, ad hañ hefur ecke sijdst talad fyrer þeim um̃ þessa Hofud Grein Trwareñar, er hlioodade um̃ Messiam og hañs Tilkomu, þvi ecke hefur hann vered sꝏ einaste, er vænte epter hinum saña Messia med Ahyggiu so mikelle; Þad segier oss Lucas i þessum sama Capitula, af hverium Gudspialled er teked, þar hann skrifar, ad Anna Dootter Phanuelis, af Kyne Aser, hafe talad af honum til allra þeirra, er Endurlausnareñar bidu til Jerusalem, hvorier ꝏn Efa vered hafa af Skoola Simeonis edur hanns Lijka. Hvar af oss sie þad kiennt, ad Meñ velie til ad uppfræda Born sijn, ecke einasta Vijsa Menn og Lærda, helldur Sidsama og Gudhrædda, þꝏ ed undervijse þeim i Otta Drottenns, og temie þeirra ungu Ar ꝏ Riettvijse og Gudrækne, ef þeir vilia ad þau life so i Heime þessum, ad þau sieu viss um̃ ad deya riettlꝏtra Manna Dauda, Num. 23. nær þau leysast hiedañ. Þad stendur hier i Gudspiallenu um̃ Simeon, ad hann hafe Riettlꝏtur Madur vered. Ecke meinar Ritningenn hier, ad hañ hafe af sialfum sier vered fullkomlega Riettlꝏtur; Þad er ecke hiꝏ Mannlegum Kroptum ad fiña. Aller vier meigum segia med Job, Cap. 9. Vilie eg riettlæta mig, þꝏ fordæmer miñ Muñur mig; Ef eg segie mig Saklausann, þa syner hann ad eg er Rꝏnglꝏtur. Vilium vier fyrer Gude Riettlꝏter vera, þa meigum vier kasta frꝏ oss bæde voru Riettlæte og voru Rꝏnglæte. Riettlætenu i þann Mꝏta, ad Madur treyste ecke ꝏ þad, helldur reikne þad Dreck ad vera, so hann ꝏvinne Christum, og finnest i honum, hafande ecke sitt Riettlæte, sem er af Logmꝏlenu, helldur þad sem er af Trwñe ꝏ JEsum Christum, eins og Paulus, Phil. 3. Eñ Rꝏnglætenu þess vegna, ad Trwenn er daud ꝏn Verkaña, segier Jacob, Cap. 2. Og Gud er Heilagur, honum lijkar ecke Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Hvad ecke er i þeirre Veru sagt, ad Madureñ giete alldeilis afklædst þessum vonda Syndareñar Ham, ꝏ medañ hañ lifer i Holldenu, helldur ꝏ hañ af fremsta Megne ad leitast vid ad krossfesta hinn gamla Mañeñ, Rom. 6. Judar segia i Skrok-Sogu sinne eirne, ad þegar Noe giorde Sonu sijna frꝏ sier til ad byggia Verolldena, þa hafe hann feinged þeim i Hendur nockrar Reliqvias edur Meniar hinns gamla Adams, Fodur vor allra; Kannskie lijkar þeim, ed Papistar hafa þykiast epter sijna helga Meñ, og eru i miklu Gillde hiꝏ þeim. Fꝏvijsleg er Saga þesse

ad ſøñu, enn þo minner hun mig aa ad hugleida med Trega nockrum, ad Forfaderenn Noe, ſem var Riettlaatur Madur, Gen. 6. og Riettlæteſins Predikare, 2. Pet. 2. til hvørs ad aller Meñ i hiñe ſeirne Verølldu eiga Kyn ſitt ad rekia, hann hefur oſs epterlaated nockrar Leifar hinns gamla Adams, er vier daglega finnum i vorum Limum, ſo ad Paulus ſegier: Hollded gyrneſt i moote Andanum, og Andenn i moote Holldenu, og þetta er hvort aa moote ødru, ſo ad þad þier vilied jafnvel ecke giøra, þad giøred þier, eñ ef þier leideſt af Andanum, þaa erud þier ecke under Logmaalenu, Gal. 5. Enn ef vier ecke erum under Logmaalenu, þa erum vier Riettlaater, og þanneñ var ad ſønnu hinn gamle Simeon Riettlaatur. Enn ecke meinar þo Gudſpiallamadurenn hier þetta Riettlæte, edur þad oſs verdur fyrer Lauſnarans Forþienuſtu tilreiknad, helldur merker þetta Ord, Riettlaatur, i þeſſum Stødum, þad ſama og vier køllum goodañ Mann og Raadſvinñ, þann er vandar Ord ſijn og Giørder, bæde fyrer Gude og Mønnum, og ſo merker þad vijda i Ritningunne. Vertu froomur og riettvijs, ſegier David, Pſ. 37. Þvi ſlijkum mun ad ſijdurſtu vel gaanga. Hinn Riettlaate, ſaa ed framgeingur i Einfelldni ſijns Hiarta, mun laata farſæl Børn epter ſig, ſegier Salomon, Prov. 28. Þeſſa Riettvijſe aa hvør Chriſtenn Madur ad temia ſier, añars er hann ecke Chriſteñ: um hana hefur margur Heidinge vel talad, og hana ſo tamed ſier, ad lijted hefr ſijnſt Aboota vant fyrer Maña Auglite, hvar med þeir hafa giørt Skom til Chriſteña margra hvørra, þeir ed eingann elſka nema ſiaalfa ſig, og hyrda eckert um hvørnenn þeir aaſælaſt Lijtilmagnann. Ariſtoteles ſegier; Ad hun ſie hin koſtulegaſta Dygd, og allar Dygder ſieu i heñe foolgnar: Þad er og ſatt, þvi aan heñar meiga þær ecke Dygdaña Nafn bera. Vitſkañ og Framſijneñ er Hreckvijſe, ef ecke fylger heñe Riettvijſeñ: Hugprijdeñ er eitt Bøduls Sverd, nema hun ſtioorneſt af Riettvijſenne. Orlæted, hvørt aller Meñ elſka, þad er þo Gloopſka og Athlæe Maña, ef þad vantar Riettvijſena. Saa ſem eys wt Femunum ſijnum til Onijtes, edur giefur þeim er ſijſt ſkyllde, enn lætur Þurfamannenn og Daglaunarann miſſa, mun hann ecke Oſvinnur og Daare kalladur? Sparſemenn er ein aagiæt Dygd, enn þo er hun beſt med Riettſijne: Saa ſem ſparar ødrum þad þeim byriar ad giefa, hañ er kargur og ecke ſparſamur, og ef hañ ſparar ſiaalfum ſier, þad ſem Lijkamenn vid þarf, þaa er hañ ſiaalfs ſijns Oþocke, ef hann giører þad af Kiergiu eirne, og ecke til ad temia ſitt Holld, ad hañ þeſs betur faae Gude þioonad, eins og Paulus ſegieſt þrælka ſinn eigenn Lijkama. Enn hitt er Loflegt og Gude þægt, ef nockur ſparar Lijkama ſijnum, jafnvel leifelegt Epterlæte fyrer hañs Saker. Engenn Dygd er aagiætare eñ Myſkunſemeñ; med henne kuña ſynduger Menn allra meſt ad lijkiaſt Gude Skapara ſijnum, Luc. 6. Enn ef hun er aan Riettlætes, ſo Menn vægia þeim ſem Gud bijdur ad ſtraffa, þaa er hun ein Svijvirding og meſte Glæpur i Auglite hiñs Hæsta Doomara. Og i einu Orde ad ſegia: Riettvijſeñ er ſw Mæleſnwra, aa hvøria ad ſtikaſt eiga Ord vor og Giørder. Veit eg ad einhvør kann ad ſegia; Eg ber ecke Vitsmune til þeſs, ad ſiaa og þeckia hvad riett er, hvørnenn maa eg þaa giøra þad? Mier kann optlega ad ſkiootaſt i ſlijku. Þar til

ſvara

svara eg; Ad hellst er þad i Doomum og ødrum Vandrædum, ad Menu þurfa so mikillrar Skinseme med, og er þeim Rædlegt, sem eru sier Fæavitsku sinnar medvitande, ad þeir sieu þar fræ, og ecke trode sier inn i Doomara Sæte, edur hlaupe til þess mikla Vanda, eins og lijkadur Hestur til Bardaga, sem þo margur Daare giorer: Enn hvernenn sem þvi er vared, þa er þad almennelegt, ad margur giører verr enn hann veit, enn øllum kann yfer ad sioast; Þad er Mannlegt, og mæ þad hver Madur ødrum jæta; Enn i daglegre Umgeingne, i Kaupum og Sølum, i Umtale um Næungann, i Spekt og Kyrrlæte vid hann, i þeirre Virdingu, sem Menn eiga ad sijna Foreldrum og Yferbodurum, þa er eingenn heilvita Madur so fæavijs, ad hann ecke nockurnveigenn vite hvad hann æ ad giora, ef hann giefur sier Stunder til ad athuga þad. Og hvad um gillder; erum vier ecke aller noogu Vidkvæmer og Grannskigner, til ad þeckia þad, sem oss sialfum er æ moote broted? Enn þessa Hugrenningu skylldum vier brwka, nær vier eigum nockru vid adra ad skipta, þvi hier ætla eg duge sw ægiæta Regla, sem Frelsarenn hefur oss epterlæted: Hvad þier vilied ad Mennerner giore ydur, þad giored þeim eirnenn, Matth. 7. og sæ sem hana hefur jafnann fyrer Augum sier, hann mun sijdur syndga. Enn þetta forsmaer nu Heimur þesse og þyker i þvi lijtell Vijsdoomur vera, samt ætlar hann sier ad deya Simeonis Dauda, jafnvel þoott þeim verde ad Skyndingu i burtu svipt, æ medann þeir hvad mest eru ad æfa Svik, Prette, Fedræatt, Underferle, Fiandskap, og allrahanda Ræangsleitne, eins og ad þvilijkra sie Himnarijke. Enn eg segie ydur i Umbode Guds, fyrer hverium eg stend, ad nema þier giored Ydran, legged af Ligar og Prette, Agyrnd og Underhyggiu, og adra þvilijka Løstu, sem mootstrijda Riettvijsenne, þa munud þier ecke inngæanga i Guds Rijke. Þetta kienner mier JEsus Christus, hver sialfur er alls Hollds Doomare, og rædur fyrer Himninum, er hann sagde, Luc. 18. Hver hann ecke medtekur Guds Rijke so sem Ungbarn, hann mun ecke inngæanga i þad. Bered ydur nu samann vid soddann eitt Barn, og rannsaked hvert þier erud þvilijker i Goodlyndinu og Einfalldleikanum, og ef þier kunned ad finna þess nockurn Mun, þa vited, ad þier erud eins læangt fræ Himnarijke; Þar er ei vid ad dyliast, nema þier vilied reingia Ord DRottins. Segied mier, hverier munu sitia til Bords med Simeone, med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnanna? Matth. 8. Þad seger David oss i Psalminum 15. med þessum Ordum. DRottenn, hver mun bwa i þinne Tialldbwd? Hver mun stadnæmast æ þijnu heilaga Fialle? Hann sæ ed frammgeingur Flecklaus, og giorer Riettvijsena, og talar Sannleikann wt af Hiarta, hver ed ecke bakmæler med sinne Twngu, og Næunga sijnum eckert Illt giorer, og leggur ecke sijnum Næunga neitt Lastlegt til, hver ed einkis aktar hinn Ogudlega, enn i Heidre hefur hinn Gudhrædda, hver ed helldur þad, er hann sver sijnum Næunga, hver hann giefur ecke Fe sitt wt uppæ Okur, og tekur ecke Mwtur yfer þann Saklausa, hver ed þetta giorer, honum mun vel vegna æfinnlega. Hier siaed þier, hverier ad verda mune Bord-Giester i Lambsins Brwdkaupe. Ydur hefur fyrer laungu boded vered, læangt er sijdann Hwsbondenn

liet

tiet segia; Mijner Uxar og aled Fie er slatrad, allt er til Reidu, komed til Brwdkaupsins, Matth. 22. Rannsaked nu sialfa ydur, hvert ad þier erud skrijdder Brwdkaups Klæde, ef hann kann ad koma umm Midnætte, þad er, nær ydur minnst varer. Eg veit þier segied: ad Gud hafe mørgum Syndernar fyrergiefed: O Jaa, þad er satt, enn þo þeim einum, sem þeirra hafa ydrast wt af Hiarta, læted af Illu, og lært Gott ad giora, Es. 1. Þetta vited þier, hin rangsinwna Kynslood, enn merked þad þo ecke: Samt uppeted þier þo Guds Foolk, og aled sialfa ydur, enn DRottenn akalled þier ecke, Ps. 4. So snwed aptur i Guds Nafne, snwed aptur, eg grætbæne ydur fyrer hid dijra Blood JEsu Christi og ydar Velferdar Saker, leited Fridarens, og fylged honum epter, Ps. 34. Otteft DRottenn og giored Riettvijsena, P.S. 10. so Gud sæe Velþocknan a ydur, og burtkaste ecke eilijflega. Og er þad so sagt umm Riettlæte Simeonis.

J Annann Maata stendur hier umm Simeonem, ad hann hafe Gudrækenn vered. So sem ad øll sw Skyllda, er vier eigum Naunganum ad sijna, og oss er fyrerskrifud i hinne sijdare Bodorda Toblunne, hun er i Riettvijsenne innifalinn, so er og hin, er vier eigum Gude ad giallda, og oss bodenn er i hinne Fyrre, i Gudrækninne foolgenn. Hann var Gudhræddur Madur, seger Lucas: Hann brwkar þad Ord er merker Guds Dijrkara, þann er ræker hanns Bodord, ecke so af Otta, so sem af Elsku og Virdingu. Þannenn a og Christenn Madur Lyndur ad vera, þoott þad sie ecke Onijtt ad hrædast Gud, af þvi hann er Riettlaatur og straangur Vandlætare, Exod. 20. Þa er þad eige fullkomenn Guds Dijrkun. Ottenn duger til þess, ad reka Syndarann til Guds, þegar hann hugleider þad, ad hann hafe hanns Reide forþienad: Enn Jhugan Guds føderlegrar Giædsku, hanns Speke, hanns Polinmmæde, uppvekur Elskuna i Mannsins Hiarta, sem lætur oss verda eitt med Gude, og kveiker soddann Unadsimd i vorre Saal, ad Menn forsmaa alla Hlute jafnvel, hiaa Krosse DRottens, eins og St. Paall, Phil. 3. So eg maa segia: Ad Ottenn er Fader Gudhrædslunnar, enn Elskann til hanns er Mooder ad henne. Ottenn gietur hana i Fyrstunne (þvi segia Gudlauser Menn, ad Ottenn hafe Gudena giort), enn Elskann tekur vid henne, elur hana og nærer i Hiarta Mannsins, a medann hun er ecke fullburda, eins og ein Mooder sitt Foostur, þar til hun kiemur i Lioos, og auglijser sig i goodum Verkum, og smaamsamann vex hun eins og annad Ungmenne, epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, seger Paulus, Eph. 4. So ad þvilijk dasamleg Skiepna Heilags Anda, skijn so sem eitt Lioos a medal hinnar hreckvijsu Kinsloodar, so sem ein Sool a Himnenum; Ecke eins og Sool Ezechiæ Konungs, hver ed gieck til baka, 2. K.B. 20. Ecke eins og Sool Josuæ, hver ed stood kyrr, Jos. 10. Helldur eins og Sool Davids, hver ed gledur sig af ad hlaupa sinn Veg, Ps. 19. Þvi sa, ed Gud elskar, honum þyker inndællt ad giora þad honum lijkar, og lætur sier jafnann i þvi framfara. Cicero wtmaalar Gudræknena þannenn; Ad hun sie Riettvijse a moote Gude: Hann sagde vel, þvi hann sagde allt þad hann visse edur vita kunne, og var ecke meire Von a heidnum Manne, og hefur hann þo enn þa talad Christeleggr (ef eg maa so segia umm eirn Heidingia)

i ødrum

i odrum Stad hier um̃, þar hann seger: Ef Gudhrædslann er i burtu tekenn, þa gietur þad eige odruvijs ordid, eñ ad allur Trwskapur og allt Samneyte Maña a medal, og hin kostulegasta Dygd Riettvijsenn, fare og i burt; þetta er vijslega talad, þvi sa sem ecke Gud Ottast, sem ad i Augnablike gietur kastad honum i Afgrun̄ Helvijtis, hañ mun eige verda miog hlijfiñ vid siñ Jafningia. Þad sia Menn a hinum gudlausu Satans Þrælum, er segia i Hiarta sijnu: Þar er eingenn Gud, Ps. 14. Hverke hallda þeir Ord nie Giorder, og eingum hlijfa þeir, sem þeir fa Hond yfer. Til þessa eru Dæmi, jafnvel i Lande voru, ecke miog gomul. Og er hier af audsært, ad þad er Dagsatt, er hann skrifar, ad Gudleysed take allann Trwskap i burt wr Verolldinne, og spille so Sambwd Mannaña, ad ecke er vært i Heiminum an þess, ad Menn Ottest Gud: Og þetta Valld Guds er so rijkt a medal Mañaña, ad jafnvel Afguda-Dijrkun Heidingianna, sem voru an Guds i Heiminum, Eph. 2. hefur þvi valldid, ad þeir ecki uppatu hver annañ. So eg vil hier um̃ segia, vidlijkt og Aurelius Alexander Keysare svarade þeim, er villdu giora Samkundr christeña Maña ad Dryckiu og Legu-Kofum: Ad miklu betra være ad Gud þar med einhveriu mooti dijrdkadist, eñ ad þau skylidu brwkast til slijkra Odada. Þad var roksamlegt og konunglegt Svar af heidnum Mañi. So vil eg segia, ad betra er, til ad hallda Samvist Mannanna vid i Heiminum, ad dyrdka Gud med einhveriu Moote, þegar eige eru til þess brwkadar hinar verstu Synder og Glæper, sem Diofulleñ lætur sier þioona med, helldur eñ hafa eingva Trw a honum; þvi þad munde giora Verolldina ad Herbwdum Madianita, hvar eirn ryckte Sverde a moote sijnum eigeñ Broodur og Lagsmanne, Dom. B. 7. Satt er þad sem Johañes seger, ad hver sem ecke elskar sinn Broodur, hvern hann sier, hverninn kañ hañ Gud ad elska, þañ hann sier ecke? 1. Pist. 4. Eñ eg þori og ad segia, ad hann sem ecke elskar Gud, sem hefur skapad hann, endurleyst og helgad, hverninn gietur hann sinn Broodur elskad? Þvi baagt mun oss, sem vonder erum, og under Syndina sellder, Rom. 7. ad elska Ovine vora, blessa þa, er oss bolva, giora þeim gott, sem vid oss misgiora, Matth. 5. nema vier giorum þad fyrer Guds Saker, og verdur þvi Ottinn og Elskañ til Guds undann ad ganga, og sie hun alvarleg, þa er einsætt ad hitt a efterfilger, þvi sa sem hann elskar, hann vardveiter hañs Bodord, 1. Joh. 5. Og er þetta eitt af þeim hellstu, sem nu sagda eg, ad elska Ovin sinn. Hvad sem nu Heidingiar ritad hafa um̃ Gudhrædsluna, er alltsamann goodra Gialda verdt, og duger ad vijsu til þess, ad sijna oss Christnum Monnum, hversu ad hun hafe þoott Omissande, jafnvel þeim, er mest litu epter þvi nalæga, og ecke so epter þvi, sem þar uppe er. Enn St. Paall kienner oss heñar Nytseme miklu betur, 1. Tim. 4. Segiande: Ad Gudhrædslann sie til allra Hluta þarfleg, hafande Fyrerheit, bæde þessa Lijfs, sem nu er, og so hiñs komanda. J Gamla Testamentinu hafde þesi Hofud-Dygd mikil Fyrerheit um̃ Tijmañlega Farsælld, so sem allvijda ma lesa, bæde i Moysis Bookum og annarstadar; kannskie þessvegna, ad Guds Foolk a þeim Dogum, hofdu fleire Bodorda og Setninga ad geima enn vier Christner Menn

so og voru ecke Fyrerheiteñ so lioos um Dijrd hiñar epterkomande Sælu i Guds Rijke; Eñ sijdañ JEsus Christur hefur afmaad Ovinskapinn, Logmaal Bodordaña, sem var innifaled i Setningunum, fyrer sitt Holld, so sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Sijdañ vier hofum feinged ad sia og heyra þad, sem marger Konungar og Spaameñ gyrntust ad heyra og sia, og saau þad ecke, Luc. 10. Sijdann hafa Guds Astviner ecke so stoor Fyrerheit um lijkamlega Farsælld, og þad til þess, ad Sætleike epterkomande Alldar, (hvern vier smockum i hinu gooda Guds Orde, Heb. 6.) Hann yfergnæfer allann tijmannlegann Fognud og Medlæte, so ad þeir ed Gud elska og lijda fyrer Christi Saker, eru glader i Hormungunum, og hallda þad mikinn Fognud, nær þeir rata i Imislegar Freistingar, so sem Jacob bijdur, Cap. 1. Vitande þad, ad Reynsla Trwar vorrar, hun aflar Polinnmædis. Ecke er vid þad ad dyliast, Br. M. ad sa sem vill Gudhræddur vera, hañ maa bwa siñ Hrygg under Christi Ok, 2. Tim. 3. Eins og þegar eirn Kappe bijr sig til Orustu; Og þoott Gud laate honum heppnast Lucku og Heidur i Verolldinne, sem hann og hefur mørgum af sijnum Astvinum veitt, þa er þar þo alltijd einhver Baraatta, annadhvert hid Innra edur hid Jtra. Sie þar ecke annad, þa er þar Andskotinn og hanns Prælar, sem jafnann ofsækia þaa, sem geinged hafa a Maala med Christo. Satan kieppest vid af ollu Megne ad nidurbriota Guds Rijke, og alldrei lætur hann af ad skioota sijnum Orvum a Guds Her i Verolldu þessare, so leinge sem hann heiter Diofull og Andskote: Og þarf til þess mikla Gudhrædslu og Alvorugiefne ad saa honum og hañs Arum i moote staded, bæde Synilegum og Osynelegum. Eñ þegar hinn mikle Guds Kraptur er so maattugur i Breyskleika sinna Astvina, ad þeir faa stadest Araaser vondra Manna, þegar hann styrker þaa og stoduga giorer i sijnum Ordum og Trwnne allt til Æfiloka: þa kalla eg, ad hvad mest sannist Ord St. Paals, ad Gudhrædslañ hafi Fyrerheit þessa Lijfs: Og hefur hinn almaattuge Gud þad optlega og undrunarsamlega framkoma laated, og lætur eñ nu i Dag a ollum þeim, er honum treysta. St. Paall kallar hina Utvolldu Guds, þau Kier i hañs Hwse, er hañ hefur til Heidurs sett, Rom. 9. A þesse Kier fellur Dupt nockud a Stundum, so þad hender sig, ad þau verda jafnvel Groomtekiñ. Vonder Meñ eru ein Pvaga, sem hañ hreinsar þesse sijn Kier med, so þau verde hæf til Pioonustugiordareñar, og setur þau so aptur iñ i Guds Hws, nær þau eru hrein ordinn, eñ Pvoguñe kastar hañ i burt, ad hun verdi Footum trodiñ. Gud leifer, ad þeir ed hañ Ottast, verde a Stundum nidurþryckter, eñ alldrei underþryckter; Saa sem fæst vid eiñ Gudhræddañ Mañ, þad er so sem berie hañ eiñ Klett med Vende; Vondureñ slitnar, eñ Klettureñ verdur hiñ same: Eins og sa er vill kiæfa Ellldeñ med Oliu, hun fortærist, eñ Ellldureñ logar þess gladar; Pad er eins og ad binda Samson med Streingium, þeir hrucku i sundur eins og Hor-Praadur, er hann riette sig, Dom.B. 16. Samson hiellt sijnum mikla Styrk, allt þar til Skiækañ skeck rakad hanns Haar af: Guds Børu eru Osigrande, allt so leinge þau hallda sier vid DRottenn JEsum, hver ad er Safnadarens Hofud, Eph. 5. Eñ þegar þeim verdur

þad

þad ad taka hina flærædu Dalila Verølldena i Fadm sier, þa missa þau allt sitt Afl, hun stijngur þeirra Augu wt og giører þa Philistæis, þad er Satans Børnum, ad Herfangge, Jaa, ad Spotte og Athlaatre, nema Meñ danse epter þeirra Pijpu, og er þaa Daudenn vijs, nema Menn deyde sialfa sig ad niju eins og Samson, Jud. 16. Þad er, drepe hinn gamla Adam med hanns Gyrndum og Tilhneigingum, og burtkaste Fijsn Augnanna og Draambsomu Lijferne, ad Menn verde heilskigner aptur og siae Liosed i hanns Liose, er oss hefur fyrer sinn Dauda sett til Arfskiptis Heilagra i Liosenu, Col. 1. So er nu Gudræknenn aa sig komeñ, og so er hun þorf og nytsamleg, Jaa, Omissande i þessu Lijfe, enn þaa gagnar hun hvad mest i Daudanum, þvi hañ verdur þeim Jñgangur til Lijfsins er Gud ottast, til ad medtaka þar Fyrerheit epterkomande Alldar.

Saa sem hefur i Lijfenu tamed sier Riettvijsena vid Naungann, og Ottañ og Elskuna aa Gude, hann fagnar Daudanum, og segier med Simeone: Nu laattu O Drottenn Þioon þinn i Fride fara epter Orde þijnu. Þvi eins og Simeon hafde Andsvar feinged af Heilogum Anda, ad hann skyllde ecke Daudann siaa, nema hañ sæe aadur Christ. O Drottens; so bera og þesser jafnañ med sier Vitnesburd Heilags Anda i siinu Hiarta, ad þeir sieu Guds Børn, Rom. 8. nær sem þau leysast i burt hiedann. Hvornenn kañ soddann eirn Guds Astvinur Daudanum ad kvijda? Daudenn er ad sonnu hrædelegur, þvi hann er Verdlaun Syndarennar, Rom. 6. Enn hvorium er hañ hrædelegur? Þeim sem ecke eru Heimenum dauder, enn ecke þeim, hvorra Lijf Christur er, enn Daudann kalla þeir sinn Abata, Phil. 1. Daudenn er oss, syndugum Mønnum, eins og Myrkred er Børnunum, þau ottást þad þess vegna, ad þau ætla i þvi mune bwa nockurs konar Vode, og sierdeilis þau, sem Heimsker Menn leggia i Vana sinn ad fæla med Grijlum og Ofreskium; So er Daudenn; af þvi Menn heyra so miked um hanns Grimleika talad, þvi kvijda Menn so fyrer hønum, og veit þo engenn hvad mikell hann er: Hvør veit, hvørt Menn finna meir til i Daudanum, enn i Fædingunne? Þetta man engenn; Engenn er helldur aptur komenn til ad segia oss hitt.

Þar er varla so lijtilfiorleg Tilhneiging, ad hun ecke forsmæe Daudann. Heiptræknenn aktar Daudann ad eingu: Þad sijner oss þeirra Dæme, er selia sitt Lijf fyrer Lijf Ovina sinna. Hvad margur hefur dæed fyrer Ast Kvenna, sem er Hiegoome i sialfu sier? Syrach kienner oss, ad hønum, sem aa moote geingur, þyke Daudenn sætur; Otte fyrer Vanvyrdu nockurre, giører Daudann liettañ; Medaumkanenn giører hid sama. Þegar Otto Keysare villde helldur taka Lijfed af sialfum sier, eñ ad laata straxhøggva Lid sitt nidur med Sverds Eggium, þaa voru marger af hañs Fylgiurum, er alleina af Medaumkan løgdu Hendur aa sialfa sig: Enn ef Hiegoomeñ virder Daudañ so lijtels, hvad liettur mun hañ þaa vera þeim, sem fara i Fride hiedann, og vita ad hann er Inngangur til Lijfsins? Ritningeñ talar um Daudann, so sem Endurlausn af Fangelse. Allur Israel saa Aaron leysast, (segier Num. 20.) Eg gyrnest ad leysast hiedañ og vera med Christo, hvad miklu betra er; segier Paall, Phil. 1. So þyker og øllum þe-

im, er Heimurenn er Krossfestur vegna Christs, og þeir Heimenum, Gal. 6. Þeir andvarpa med Paulo og segia: Æ Eg syndugur Madur! hvor mun leysa mig fra þessum Daudlega Lijkama? Rom. 7. Ottast þvi ei ad deya, Christeñ Madur, helldur ad deya Jlla, þad mun þier til eilijfs Lijfs gagna. Þad er gott Daudañ ad Ottast, til þess ad fordast þad, med hvoriu vier forþienum hinn eilijfa Dauda. Tijmannlegur Daude er ecke i sialfum sier Ognarlegur, nema vier segia vilium, ad þad sie Jllt, ad sleppa wr Fangelse, wr Prældoome, wr Siovolke; Þvi hvad er þetta Lijf añad? Þad er hrædelegt sem epter hañ kiemur, ef odruvijse fer eñ vel. Þad er vitañlegt, ad Daudenn er Guds Bornum Inngangur til eilijfrar Sælu. Og þvi skyllda eg þa ei vilia ganga eitt sinn i Bardaga, til ad vinna heillt Konungs Rijke? Enn þeim, er tapast, verdur hann Leid til eilijfra Kvala. Nu veit eg ad Þioofurenn hrædest ecke Stigann sem liggur upp i Galgann, enn Snoruna hrædest hann. So er þad og daarlegt fyrer þann, sem hefur leitad epter Helvijte alla Æfe sijna, ad hañ skule hiñ Tijmañlega Dauda hrædast, og ecke miklu helldur hiñ eilijfa, sem a epterfylger; hann mætte Oska og fegenn verda, ad Helsottenn og Fiorbrotenn mættu vara um alla Eilijfd, ef hann mætte þar med sleppa fra hinum eilijfa Ellde, sem fyrerbwenn er Dioflenum og ollum hañs Englum, Matth. 25. Þvi þar mun betur bijta. Þar fyrer, O Þu syndugur Madur! nær þu sier hinn Nakta og villt ei klæda hann, hinn Svanga og villt ecke metta hañ, og hiñ Þyrsta og villt ei giefa honum ad drecka, Ja, nær þu sier Ovin þinn hungra edur þyrsta, og villt ecke giefa honum ad eta edur drecka, nær hinn Vollduge og hinn Vesæle standa bader fyrer Doome þijnum, nær þu att ad vandlæta i Guds Stad, edur hialpa hinum Naudstadda til Riettarens, nær Reideñ tekur þig, nær Losteñ blindar þig, nær Agyrndenn kvelur þig, nær Ofundeñ freistar þijn, og, i einu Orde ad segia, nær Diofulleñ, Hollded og Heimureñ vilia locka þig, til ad styggia þinn Gud; Lat þa Daudañ vera þier Ognarlegañ; Jmynda þier hañ þa, sem eirn skielfelegañ Helvijtes Ar, þann er bwenn sie til ad gleipa Salu þijna og færa i eilijfar Pijsler; Lat sem hann fyrer Dyrunum stande, og eige ad heimta þig under hiñs Vollduga Guds Doom, til ad giora Reikning fyrer þad, er þu ætlar Samstundes ad fremia. Þañeñ skulu Meñ Daudañ hrædast, og hañ ed so giorer, og temur sier þetta Hugarfar, og lifer þar epter i Guds Otta og Trwnne a Christum, hann þarf ei ad kvijda, hann mun med Simeone Daudanum fagna, hann mun i Fride burtu leysast og deya Riettlatra Manna Dauda. Hvad oss ollum, Ja, ollum sijnum Bornum, hvar hellst þau eru um Heimenn, unne og veite Gud Fridarens, Gud Fagnadarens, og Gud Lijfsins og Daudans, fyrer sinn Eingieteñ Son JEsum Christum, AMEN.

# Siotta Sunnudag efter Prettanda.

ÞEssa Dags Evangelium, sem skrifad stendur hia Matth. 11. Cap. Og so Predikunina þar yfir, ma lesa þañ Tuttugasta og Siotta Sunnudag epter Trinitatis, hvor og tilheyrer þessum Deige.

Fyrsta

# Fyrsta Sunnudag i Nijuvikna Føstu.

Gudspialled, Matth. 20. Cap.

Y Pañ Tijma. Sagde JEsus til siña Læresveina þessa Epterlijking. Himnarijke er lijkt einum Hwss-Fedur, sem wtgieck sneña Morguns, Verka-Meñ ad leigia i siñ Vijngard. Enn ad giørdum Samninge vid Verka-Meñena, ad Daglegu Penings Gialld e, sende hann þa i siñ Vijngard. Og nærre Pridiu Stundu gieck hañ wt, og leit adra Idiulausa standa a Torgenu, og sagde til þeirra: Fared þier og so i Vijngardeñ, og hvad riettvijst er mun eg giefa ydur; Og þeir geingu burt þangad. Og hañ gieck eñ wt aptur uñ Siøttu og Nijundu Stund, og giørde slijkt hid sama. Nærre Elleftu Stundu gieck hañ wt, og fañ eñ adra standa Idiulausa, og sagde til þeirra; Hvar fyrer standed þier hier allann Dag Idiulauser? Þeir søgdu til hañs: Þviad engeñ hefur leigt oss; Hañ segier til þeirra: Fared þier og i miñ Vijngard, og hvad riettvijst er skulud þier fa. Eñ þa Kvølld var komed, sagde Herrañ Vijn-Gardsins til sijns Rads-Mañs: Kalla þu Verk-Meñena, og gialld þeim Verdkauped, og tak til fra hinum Seinustu, allt til hinna Fyrstu. Þa komu þeir, sem nærre Elleftu Stundu leigder voru, og medtook hvør þeirra siñ Pening. Eñ hiner sem fyrster komu, þeir þeinktu, ad þeir mundu fa meira: Og hvør þeirra medtook siñ Pening. Og þa er þeir høfdu hañ medteked, møgludu þeir a moote Hwss-Fødurnum, og søgdu: Þesser enu Seinustu hafa eina Stund erfidad, og þu giørder þa jafna vid oss, sem bored høfum Hita og Þwnga Dagsins; Enn hann svarade og sagde til eins þeirra; Vinur, eige giøre eg þier Oriett; Ertu ecke asattur ordenn vid mig uñ eirn Pening? Taktu hvad þitt er, og far i burt; Enn þessum hinum Seinasta vil eg giefa so sem þier. Eda leifest mier ecke ad giøra af mijnu hvad eg vil? Eda ertu þar fyrer rangeygdur, þo ad eg sie goodgiarn? So verda Seinaster hiner Fyrstu, og Fyrster hiner Seinustu. Þviad marger eru Kallader, eñ faer Utvallder.

## Exordium.

Þegar St. Pall, 1. Cor. 2. skijrer fra, hvør ad hafe vered Atferd sijn i Christne-Bodenu, er hønum var a Hendur faled, þa talar hann svo medal annarra Orda; Þegar eg kom til ydar, Brædur, þa kom eg ecke med Yfirlæte Ordanna

edur Spekennar, er eg bodade ydur Evangelium. Pad mꜳ vijda sia i Heilagre Ritningu, ad Gud hefur ecke viliad lꜳta sijn Eyrende vera bundenn vid Mꜳl-Snylle mikla. Pegar Moyses affakade sig fyrer Gude frꜳ Sendeferenne til Pharao, talde hann þad mest til, ad sier være þwngt um Mꜳl, þꜳ svarade Gud honum: Eg skal vera med Munne þijnum og kienna þier hvad þu mæla skallt, Exod. 4. Vidlijkt fieck Jeremias ad heyra, er hañ taldest undann ad flytia Guds Eyrende til Jerusalems Manna, og sagde: Ach O Drottenn, eg er Ungur og kann ecke ad tala; Enn O Drottenn svarade: Seig ecke, jeg er Ungur, helldur til þeirra sem eg sende þig skallt þu fara, og þu skallt tala allt hvad eg skipa þier, Jer. 1. Hvi mun hinum Almꜳttuga hafa þocknast ad haga þessu svo? Sialfur hefur hann Mannenum Muñeñ giefed, Exod. 4. Skyllde hañ þꜳ ecke vilia lꜳta brwka Gꜳfur sijnar sier til Dijrdar og Lofs? Par hann eingvann Hlut hefur i Nꜳtturunne forgiefens skapad, auk helldur Mꜳlfæred, sem er eitt med þeim bestu Guds Gꜳfum. Paulus kieñer oss Ordsokena hier til med berum Ordum, 1. Cor. 1. Segiande: Christur hefur sendt mig, ecke til ad skijra, helldur til ad predika, ecke med Spakmælum, svo ad Krossenn Christi verde ecke ad eingvu. Hvornenn mꜳ Krossenn Christi af Spakmælunum nockra Nidrun hafa? Pad kienner Pꜳll strax epter i sama Cap. Pvi sw Ræda um Krossenn, segier hann, er Heimska þeim sem fyrerfarast, enn oss, sem hoolpner verdum, Kraptur Guds. Engenn Hlutur er svo Foracktanlegur fyrer Heimenum, svo sem Christi Kross, svo ad þꜳ sem hañ ꜳ Herdum bera, kallar Postulenn Afrak og Hreinsun Veralldar: Eckert er þo kroptugra Medal til ad draga synduga Menn til Himnarijkes, helldur enn hañ. Afreks Verk hefur alldrei þvilijkt unned vered, hvorke ꜳ Himnum nie under Himnenum, svo sem þad, er JEsus Guds Sonur vann ꜳ Krossenum, þegar hañ forlijkade Heimeñ vid Gud, enn nidurbraut Diofulsins Rijke, og took Herleidinguna ad Herfꜳnge. Petta sitt Sigurmerke hefur hañ feinged sijnum Strijds-Monnum, ad þeir bere þad fyrer Hertoga sijnum i hañs Bardögum hier ꜳ Jordunne. Skyllde nu svo dijrmætur Hlutur hafa sitt Agiæte af mannlegre Speke edur Mꜳl-Snylle, þꜳ være honum þad ecke lijtid Nidurdrep, hinns og añars vegna, ad þad mꜳ satt um oss jꜳta, sem Pꜳll enn aptur segier: Ad vier erum ecke marger Skynsamer epter Holldenu, 1. Cor. 1. Ecke marger Gofuger, eñ hiꜳ Gude er eckert Mañgreinar Alit, P. G. 10. Hañ þecker best sijna: Hann hefur Fꜳfroodum lꜳted i Fꜳfræde undervijsa, svo hañ giorde þꜳ Higgna: Enn þad er þo sw Fꜳkiænska, sem er allre mannlegre Vitsku ædre, 1. Cor. 1. Hann hefur med hinu sama Fꜳfræde leidt þꜳ Higgnu til Guds Rijkes, sem hafa viliad fylgia Rꜳdum Pꜳls ad verda Heimsker, svo þeir Vitrer yrde. Pad sie eg ꜳ Nicodemo, Joh. 3. hvorn JEsus hondlade med, svo sem annann Brioost-Mylking, jafnvel þoott hann være Meistare i Israel. Og ecke hefur þetta einasta vered Atferd St. Pꜳls, helldur og annarra Christi Postula, hverier i þessu hafa fylgt Dæme sijns Meistara; Pvi jafnvel þoott ad allvijda meige rekia Spor hanns Guddoomlega Vijs-

doms

dooms, þa eru þess mørg Dæme, hverniñ hann teked hefur Lijkingar af almennilegum Hlutum, til ad kienna Fáfroodum Guds Gøtu, til þess, ad hinn heimuglege Kraptur Guds Speke, sem i honum bioo, mætte Samfara verda þeim Hlutum, er þeir best þecktu, og daglega fyrer Augum sáu, er skyllde ǽin Aflǽts minna þǽ ǽ þau Lijfsins Ord, sem framflutu af hanns blessada Munne. Til Dæmis hier uñ, vil eg taka hina føgru Epterlijking, er stendur i þessu H. Evangelio, wt wr hvorre margur Veralldar Vitringur hefur rǽngar Meiningar spunned; Eg vil med fáum Ordum tala nockud framar fyrer ydar Kiærleika uñ hennar riettann Skilning, þad framast eg veit af Guds Orde, og þar med hugleida, hverninn vier eigum ad skicka oss i Guds Vijngarde, svo oss verde ecke þadann med Oscæmd burtu vijsad. JEsu, þu blessada Vijn-Trie, ǽ hveriu vier innplantader erum! Send oss þinn Anda, sǽ ed leide oss i allann Sannleika, og kienn oss riettann Skilning þinna H. Orda, AMEN.

## Utleggingeñ.

ALLt frǽ Upphafi Mannsins Skøpunar og inn til þessa Dags hefur DRotteñ wtgeinged til ad leigia Verka-Menn i siñ Vijngard, og eñ nu giorer hann þad med Ydranar og Syndanna Fyrergiefningar Predikun. Rodd Hroopandans heyrest enn nu i Eydimørku Veralldar þessarar hiǽ oss, segiande: Gioored verduga Avøxtu Ydranenne, Oxeñ er sett til Rootar Triǽña, hvert þad Trie sem ecke ber goodañ Avøxt mun upphøggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Hwss-Fadereñ hefur leigt Verka-Meñ i siñ Vijngard, eñ ecke Letingia; Þar ǽ Guds Eyrende ad giora, uñ hvert Jeremias svo segier, Jer. 48. ad bølvadur skule sǽ vera, sem Verk DRottins giorer Svikssamlega. Eingiñ hefur sig siálfur leigdañ i þeña Vijngard; Þad er sañkveded hier uñ, sem Esajas talar under Persoonu Guds, Esa. 65. Eg er fundeñ af þeim, sem ecke leitudu ad mier. Og mætte þad stoor Fásiña verǽ, (hver sem þar riett ad hygdi, þar vier svo fundner erum, og i hañs Vijngard, þad er, i Rijke Guds Sonar, setter) ad lǽta Sysslaner þessa Heims vefiast so fyrer sier, ad Meñ þeinke añadhvert ecke ǽ Guds Verk, edur og giora þad med hǽngande Hende: Þarfara være þeim, ad alldrei hefdu þeir leigder vered, og stæde eñ nu ǽ Torginu Idiulauser, þvi so seger Endurlausnarenn hiǽ Luc. 10. uñ þǽ, er ecke villdu medtaka Guds Rijke: Eg sege ydur, ad Sodomæ mun bærelegra vera ǽ þeim Dege, helldur eñ þeirre Borg. Hvilijkt er þetta, Br. M.? Hwsbondeñ er wtgeingeñ ad leita Þrælsins, Konungureñ ad biooda honum sem hafde burtu hlauped, hiñ alleina Rijke hinum Allsþurfanda, Doomareñ Utlaganum, Brwdgumeñ heñe, sem drijgt hafde Hooraner med mørgum Elskuga, og hañ sem oss hefur elskad i JEsu Christo þegar vier vorum hañs Oviner, Rom. 5. oss, sem ad elskudum Heim þeña, og þad sem i honum er, Fijsn Augnaña og drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Þess gietur Johañes, 1. Joh. 4. J þvi er Kiærleikureñ, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hañ elskade oss, og sende Son siñ til Forlijkunar fyrer Synder vorar. Þo fæst hin auma Mañeskia svo lijted uñ þǽ Idiu, er henne bodeñ er i Guds Vijngarde, eins og

Menn

Menn væru þangad leigder til ad bada i Roosum, og ecke til ad bera Hita og Þwnga Dagsins. Hefur þa JEsus sveitst Bloodinu, Luc. 22. til þess, ad vier skylldum i Syndarinnar Epterlæte lifa? Hefur hann Vijn-Pressuna troded, Esa. 62. til þess, ad vier skylldum færa swr Vijnber? Hefur hann litad sin Kyrtil i Vijne, og siñ Mottul i Vijnberia-Bloode, Gen. 49. til þess, ad Syndareñ Blood Sæattmaalans Almeñelegt hallde? Hebr. 10. Hefur hann þar fyrer afdruckid hinn fleitefulla Kaleik Guds Reide, ad vier skulum sitia ad Heimbode hinnar vondu Babylon, af hvorrar Hoordooms Vijni, ad Þioodernar drucknar eru? Op. B. 18. Fiærre sie þvi. St. Paall kiennir oss þad lɶngtum odruvijse, Eph. 2. er hann seger: Vier erum nu Skiepna i Christo, til ad giora Goodverk þau, er Gud hefur tilbwed, ad vier gaungum i þeim; Eñ hvar eru þau Verk, er hann tilbwed hefur, eda hvilijk Idia er oss ætlud i hañs Vijngardi? Þad telur Paall upp, Gal. 5. Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolinnmæde, Goodgyrne, Giædska, Trw, Hoogværd, Sparneytne. Enn mier er Spurn: Mun Brwdgumenn plocka morg þvilijk Ber, þegar hann inngeingur i Alldingardinn til ad skiemta sier þar med henni, sem hanns Hiarta elskar? Eg er hræddur um̃, ad þad farnest ecke betur sumum af Triaanum, helldur enn Eikenne, sem Frelsarenn bolvade, þegar hann fañ eingann Avoxt aa heñi, Matth. 21. nema midur sie, þvi hun bar einga, eñ eg hygg, þvi verr, ad fiñast mune þeir, ed bere illa eina. Gud klagade Jerusalem, ad hun bære swr Vijn-Ber og Villu Vijnvide, Esa. 5. Enn þess være ad Oska, ad ecke yrde sagt til Christneñar, svo sem hun nu tekur til ad gioraft, eins og til Jerusalem fordum: Samaria hefur ecke ad Helminge syndgad sem þu, þu hefur margfiolgad þijnar Misgiorder, meir enn þær, og þu hefur riettlætt þijnar Systur med þijnum Svivirdingum, Ezech. 16. Forum eige viller Vega, Brædur mijner, og þenkium ecke, ad vier munum þvi alleina fyrerþlijta, ad vier leigder sieum; Þad være haalfu verra, enn ad segia: Abraham hofum vier fyrer Fodur, eñ giora þo eingenn Abrahams Verk, Joh. 8. Vier erum ad soñu leigder, vier erum skijrder, vier erum Christo i Skijrninne innplantader; Enn hann segier, Joh. 15. Eg er þad sanna Vijn-Trie, og minn Fader er Akur-Madurenn, hvern þann Kvist aa mier, sem ecke ber Avoxt, mun hann burt taka. Hann seger ecke: Hver sem mier er einusinne innplantadur, helldur; Hver sem blijfur i mier, og eg i honum, hann ber mikenn Avoxt, þvi aan mijn gietid þier eckert giort, enn ef nockur blijfur ecke i mier, hann er wtkastadur eins og Vijn-Kvistur, og uppþornadur, og þeir samañsafna þeim og i Elld kasta, og þeir munu brenna. Adur enn Adam fiell fraa Gude, þa var hann af honum settur i eirn Alldingard, hvern hann skipade honum ad yrkia, Gen. 2. Og fyrst þvi var so haattad i Heilagleikans Stande, þa er lijklegt, ad Gud mune eige vilia lɶta þad nu odruvijse vera i sijnum Vijngarde; þar vier erum, Syndarennar vegna, under þad Logmaal skyllder, ad neyta vors Brauds i Sveita vors Andlitis, og næra oss med Erfide af Jordunne alla vora Lijfdaga, Gen. 3. Eñ ef þad aa so ad vera i þeim Utriettingum, sem vier nærum aa þetta lijkamlega Lijf, hvad miklu framar

ar mun þad skylldt i voru Sælu hiælpar Eyrende? Vier høfum aller stoort Pund af Gude medteked, eingenn þarf meira med, enn hønum tiltrwad er: Nockrer hafa Audlegd Veralldar þessarar, sumer Embætte, nockrer Vitsku og Speke, og sumer Afl og Atgiørfi Lijkamans. Af øllu þessu byriar Reikningskap ad standa; Enn hverninn foorst hønum þad, er bar sitt Pund fram̃ Avaxtarlaust, hvert ed hann hafde i Jørdu grafed? Hann fieck þann Doom, ad þeir skylldu kasta hinum Onijta Þioon i hin ytstu Myrkur, hvar vera munde Op og Tanna-Gnijstran, Matth. 25. Hvad mun þa verda um̃ hann, sem ecke einasta skilar Avaxtarlausu Punde sijnu, helldur leggur þad a Satans Bord, til ad uppbyggia þar med hanns Rijke? Lijtt gagnar hønum ad vera leigdur i Guds Vijngard, þvi hanns Idia er sw eina þar inni, ad giøra Christs Kyrkiu ad Belials Krambwd, lijkur þeim, er Gud talar um̃, Ezech. 16. Þu hefur teked mitt Gull og mitt Silfur, sem ad eg gaf þier, og giørt þier Manns-Lijkan af, til ad hoorast med. Hinn Onijte Þioon sagde vid Hwss-Fødurenn: Medtak hvad þitt er; Enn Hwss-Faderinn mun vid hinn vonda Þioon aptur segia: Tak hvad þitt er, sem er Fordæming Daudans, gack i burt fra mier i eilijfann Elld, sem fyrerbwen̄ er Dioflinum og øllum han̄s Arum, Matth. 25. Drage þvi eingen̄ sialfan̄ sig a Taalar, edur ætle þad, ad i DRottins Vijngarde sie eckert, edur Illt, ad giøra. Hwss-Fadirin̄ hafdi ecke matalid þa, sem allan̄ Dagin̄ stoodu Idiulauser a Torginu, hefde þvi eins hættad vered i han̄s Vijngarde: Þar fyrer er þad ecke noog, ad leggia Høndina a Ploogin̄, enn lijta aptur; Þvi sa ed þad giører, han̄ er ecke hæfur til Guds Rijkis; En̄ þoott þad sie sialfsøgd Skyllda vor, ad erfida i Guds Vijngarde, svo miked sem vier berum Matt og Megn til, þa vere eingen̄ so blindur, ad han̄ ætle, ad han̄ hafe til Skulldar ad reikna hia Gude. Ad sønnu seger Paall, Rom. 10. Ad sa sem giører hvad Løgmalsins er, han̄ lifi i þvi, og þad sama seger sialfst Løgmaaled. Hver eru þa Launin̄, ef Men̄ skulu tala epter Guds Riettlæte? Ecki an̄ad en̄ han̄ lifa skuli, og ecki deya, Levit. 18. Vier heyrum ecki, ad vorum fyrstu Forelldrum hafi heitid verid Launum nockrum, þoott þau vardveittu Guds Bodord, en̄ ef þau bryte þad, attu þau Dauda ad deya; So kunna vor Goodverk alldrei neitt ad forþiena af Gude: Þad kien̄er oss Endurlausnarenn, Luc. 17. Segiande; Er þar nockur af ydur, sem hefur eirn Þræl, er plæger, edur helldur Hiørd a Beit, ad han̄ sege til han̄s, strax sem hann geingur in̄ af Akrinum: Kom hingad og sit til Bords: En̄ mun han̄ ecke segia hønum? Bw til þad eg snæde, gyrd þig og þioona mier, þar til eg hefi etid og druckid, sijdan̄ skalltu eta og drecka. Mun han̄ þacka þeim Þræl fyrer, ad hann giørde þad hønum skickad var? Eg meina Nei. So og þier, þegar þier giørt hafed, allt hvad ydur bodid er, þa seged: Vier erum Onijter Þioonar, þvi vier giørdum hvad vier attum ad giøra. So hafa Goodverkinn eingin̄ Verdlaun epter Riettinum, en̄ hinum Vondu tilheyrer Straff ad riettu. Goodverkinn eru jafnann Skyllda, en̄ hin Vondu eru Afgiørd a mooti Skylldun̄i. Hin bestu Goodverk forþiena eckert, þvi þad er eins og ad betala Skulld sijna, enn hid min̄sta Af-

brot vinnur til Reide, þvi þa vantar so miked til Skullda-Lwkningar: Þess gietur Jacob Postule, 2.Cap. Sœa sem helldur allt Logmœled, eñ verdur brotlegur i einu Bodorde, hañ er sekur vid øll. Ad sønnu stendur hier i Epterlijkingunni, ad Hwss-Fadiriñ hafi giort Samning vid Verka-Menninq uñ eirn Pening, enn ecki er þad so ad skilia, Br. M. so sem þegar Madur semur vid Mann, helldur talar DRottenñ þetta ad Mannlegum Plagsid. Peningur þesse er JEsus Christus, hiñ sanni Israels Sikill, med hverium Foornernar leystar voru fra Lijflœtinu œ gamla Testamentisins Dogum, enn syndugar Sœler fyrer JEsum Christum fra eilijfum Dauda. Eñ Samningureñ skiede i Ondverdu vid vora fyrstu Forelldra epter Fallid, þegar Gud, af einskiærre Nad og Myskunsemi, hiet þvi, ad Kvinnuñar Sœde skyllde sundurmeria Hoggormsins Høfud, Gen. 3. Hañ verdur Itrekadur so opt, sem vier heyrum af Guds Orde, ad vier sieum af Nad hoolpner vordner, og ecke af Verkunum, Eph. 2. Ad Gud hafi epter Myskun siñe giort oss hiœlplega, eñ ecke af Verkunum, sem vier giordum, Tit. 3. Þegar oss sagt verdur, ad hver sem œ JEsu Nafn trwer, skuli ecki fortapast, helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3. Og þesse Samningur hefur einn og sami verid fra hinu fyrsta Fyrerheite, og mun verda allt til Veralldarinnar Enda, vid alla þa, er forlœta sig uppa Sonarins Forþienustu med hreinne Trw; Þvi JEsu þessum bera aller Spamen Vitne, ad i hanns Nafne fai þeir aller Syndanna Fyrergiefning, sem a hann trwa, P.G. 10. Og er hier af audsært, ad þetta er einginn almeñilegur Samningur, helldur lijkt þvi, þegar eirn goodur og radvandur Madur heitir nockrum einhveriu Goodu, an allrar Verdskulldunar, þa reiknar hann sig skylldugann þad ad hallda, uppa þad, ad hanns Ord bregdist ecki. Og ef fiñast kann einhver so lyndur a medal vor, sem vonder erum, hvad miklu framar mun Gud, sem er alleina goodur, vera bundinn vid sijn Loford, Luc. 11. Þar hanns Ord forganga alldrei, þoott Himin og Jord forgangi, Luc. 21. Hvar fyrer eingiñ kann wt af þessu Lausnarans Orda Tiltæke, ad reikna til nockurrar Verdskulldunar hia-hia Gudi, helldur blijfur hid sama, sem Paall seger, Rom. 3. Ad allur Heimurinn verde Logsfallinn fyrir hønum. Og so sem þad, ad þeir sem komu uñ Siottu, Nijundu og Elleftu Stund, feingu af Nad þad þeir feingu, so er og Samninguriñ vid þa Fyrstu af einskiærri Nad giordur; Þvi sialfrœdur var Herrañ ad lata sinn Vijngard audañ liggia, nema hañs Giædska hefdi knwd hañ til ad leita efter þeim, er hañ mætti hialpa. Eg veit ad nockrir hafa steitt sig a þeim Ordum, er skrifar Jacob Postule, 2. Cap. og þañig hlioода: Sier þu ecki, ad Trwiñ hefur samverkad hañs Verkum, og Trwinn er af Verkunum til Lykta leidd, og Skriftinn er uppfylld, er seger: Abraham trwdi Gudi, og þad vard hønum til Riettlætis reiknad; sied þier þar fyrer, ad Madurenn riettlætist af Verkunum, og ecke af Trwnne alleina. Þetta hefur nockrum þoott gagnstædt þvi, er bæde St. Paall, og øll H. Ritning med einu Hlioode vottar, sem er þeirrar Meiningar, ad Madurinn verde af Trwnne hoolpinn, og ecke af Verkunum, Rom. 4. Enn þess er gætande,

hvor ad sie Meining Jacobs i þessum Pistle. Hann ætte Ordastad vid þa, er hielldu sig vel Christna, ef þeir trydu a Gud, og jatudu hann eirn ad vera, eins og Dioflarner, enn auglijstu ecke Trw sijna med christelegum Verkum; Þad byrta þesse Ord, er standa skomu ædur i sama Capitula: Ef Brooder edur Syster eru nakenn, og skorter Daglega Næringu, enn einhvor ydar segier; Fared i Fride, vermed ydur og metteſt, enn giefed þeim þo ecke þad Lijkamanum er þarflegt, hvad gagnar þad? So er og Trwenn, ef hun hefur eige Verkenn, hun er daud fyrer sialfa sig. Hier giører Jacob bert fyrer Mönnum hvad hann meinar: So sem þad er ecke Myskun ad segia; Verm þig og mettaſt, so er þad og ecke helldur Trw, ad segia; Eg trwe a Gud og hanns Son, enn afneita Gude med Verkunum aptur a moot; So sem þad er eckert Myskunar-Verk, ad giefa allar sijnar Eigur Fatækum, enn hafa þo ecke Kiærleikann, 1. Cor. 13. So forþiena og eige helldur Verkenn neitt i sialfu sier: Vilie eg segia, ad Verkenn vinne til nockurs hia Gude; Þa vil eg og segia, ad Efned i einum Smijdes-Grip forþiene Laun, af þvi hann er vel giørdur: Enn so sem hann kunne ecke ad giøra sig fyrer utann Hagleik Mannsins, so hafa og Verkenn allt sitt Agiæte af Trwnne, sem er Guds Verk i Mannenum, Joh. 6. Segied mier þa, hvar er þeirra Verdskulldan? Trwenn samverkar Verkunum, segier Jacob; Eg jata þad, þvi an hennar væru þau Synd, Rom. 14. Hun verkar þad med þeim, ad þau syndlaus reiknaſt, forþiena þo eckert. Trwenn fullkomnaſt af Verkunum; Menn sia ad eirn er sterkur, af þvi, ad hann kann ad lypta miklu, annars visse engenn þad hann sterkur være. Lioosed þeckeſt ad vera Lioos af Byrtunne. Abraham audsijnde sig ad vera trwadann, af þvi hann giørde hvad Gud baud honum; Þannenn fullkomnaſt Trwenn af Verkunum, enn ecke odruvijse; nema einhvor villde segia, ad Verkenn væru Partur af Trwarennar Veru, og være þad eins og ad segia, ad þad være Mannenum verulegt ad ganga og standa. Hitenn fylger Elldenum, Harkann Jarnenu, Byrtann Soolunne, þo er hverke Hitenn Elldur, nie Harkann Jarn, nie Byrtann Sool, eige helldur eru Verkenn Trw, þo þau fylge Trwnne, og ecke riettlæta þau, þo þau framkome af þeim, sem riettlatur reiknaſt fyrer Trwna. Abraham trwde Gude, og þad var honum til Riettlætes reiknad, segier Jacob; Enn eckert gott Verk gietur Skrifsten um, Gen. 15. þegar Gud matte hanns Trw so mikils, helldur alleina um þad ad hann hafi Gude trwad til þess, ad hanns Sæde skyllde verda so sem Stiørnur Himens, enn Jacob tekur þad samann vid hanns Trwar-Verk, þegar hann villde offra Syne sijnum, Gen. 22. Til ad styrkia þar med sijna Meiningu, sem er su, ad Trwenn sie daud an Verkanna. Af Verkunum riettlæteſt Madur, og ecke af Trwnne alleina; Um Auglijsingu Trwarennar talar Jacob hier, og ecke um sialfa Trwna, um Trwarjatninguna fyrer Mönnum, og ecke um Trwarennar Krapt fyrer Gude; Þad kienna mier hanns eigenn Ord i sama Capitula; Syn mier þijna Trw af Verkunum: Og ad þier vited, Brædur mijner, ad þetta er meir enn Hiegoome eirn, þa merker þetta Ord, ad riettlæta, i H. Ritningu optaſt ecke annad, enn ad auglijsa sig edur adra riettlata ad vera. Þu hefur

 riett-

riettlætt þijna Systur med þijnum Svijvirdingum, segier DRottenn um̃ Jerusalem, Ezech. 16. Hvorneñ kunne hun ad riettlæta, sem sialf var ollum Skom̃um vafeñ? Enn þad kuñe hun ad giora, ad sijna ad hun være sier riettlaatare. Ad þu riettlætest i þijnum Ordum, þegar þu dæmest, segier David um̃ Gud, Ps. 51. Hvor vill Gud riettlæta, sem sialfur er alleina riettlaatur? enn ad byrta hanns Riettlæte fyrer Moñum, þad kunna Meñ ad giora. Tollheimtumeñerner riettlættu Gud, er þeir skijrder voru med Skijrn Johannis, Luc. 7. Hvorneñ gaatu þeir Gud riettlætt? Synduger Menn og framar odrum Lostum og Lijtum hladner; Eñ ad þeckia og opennbera Riettlæte Guds, þad var þeirra Skyllda. Jacob segier; Madureñ riettlætest af Verkunum. Eñ hvornenn kann Madur ad riettlætast af þvi sem er eins og Nidurlags Fat, Esa. 64. af þvi sem er Synd, Rom. 14. af þvi sem er Skylldu-Verk Onijtra Þioona, Luc. 17? Eñ þess eru Verkenn um̃komenn ad auglijsa, ad Gud bijr i Mannenum fyrer Trwna, ad Trw Mannsins er kroptug fyrer Kiærleikann, ad þad sie lifande og ecke daud Trw, hvor ed stioornest af H. Anda til goodra Verka, epter Bode vors Endurlausnara, Matth. 5. Svo lijse ydar Lioos fyrer Monnum, ad þeir dyrke ydar Fodur sem á Himnum er. Nu er þessu svo vared, Br. M. ad engeñ hefur til neirnrar Skulldar ad telia hiá Gude, og þad er þad sem Endurlausnareñ hier segier i Epterlijkingunne, under Persoonu Hwss-Fodursins; Vinur, Eige Giore Eg Þier Oriett, etc. Fyrst engenn hefur af Gude neitt forskulldad, er þad þá ecke noogu stoor Naad, ad hann hefur alla leigt i sinn Vijn-Gard, þad er, alla kallad til Ydranar og Syndanna Fyrergiefningar? enn þoott adrer bere þar Hita og Þwnga Dagsins, og sieu strax ad Morgne kallader, munu þeir meiga lijta raungu Auga til þess, þoott hann, sem um̃ eingvann Hlut er nockrum skylldugur, þoott hann, segie eg, myskune einhvorium á Daudastundunne? Mun Samuel meiga sia Offioonum yfir Paulo? Jeremias yfir Tollheimtumannenum Matthæo? Matth. 9. Josias yfir Manasse? Baptista yfir Tito og Timotheo, edur þesser aller yfir Ræningianum á Krossenum? Luc. 22. Fiærre sie þvi: Gude er i sialfs Vallde ad laata hvorn eirn hafa so miked fyrer Himnarijke, sem honum þocknast, þvi aller medtaka af Naad og ecke af Verdskulldan. Og þo eirn sveittest Bloodenu i Guds Vijngarde, frá þvi fyrsta hann hefur Vit á, og til þess hann giæfe Ondina upp, þá hefur hann ecke med Verkunum meira forþienad af Himnarijke, helldur enn hinn sem i Andlaatenu var kalladur; Þvi á mille hinns eilijfa, sem er Guds Rijke, og þess er Enda tekur, sem eru daudlegra Manna Verk, er engenn Jofnudur, so eitt meige med odru kaupast ad riettum Solum. So vill nu DRotteñ hafa sijnt, ad hiner Fyrstu verde hiner Sijdurstu, þegar Menn vilia gaanga i Riett vid Gud, og mogla vid Hwss-Fodureñ; og Sijdarster hiner Fyrstu þegar hañ vill Naadugur vera þeim sem hann er Naadugur, Rom. 9. Og er þo ecke hier fyrer nockurt Mañgreinar-Alit hiá Gude, Þvi Marger Eru Kallader Enn Faaer Utvallder. Balaam, Saul, Achab, Judas, og adrer miklu fleire, þeir voru kallader, enn þeir breittu epter Fodur sijnum, og stoodu ecke i Sann-

leikanum, Joh. 8. Gud hefur ecke sagt: þeim sem kallader eru, helldur þeim sem er trwr allt til Enda, vil eg giefa Coronu Lijffins, Openb. 2. Utvalningeñ er ad sönu alltijd viss hiaa Gude, þvi hañ hefur wtvaled þaa sem hañ veit i Køllunenne stoduger standa munu, eñ engvañ hefur hañ kallad med þeim Skilmaala, ad hañ skyllde eige kuña fraa ad falla; Eñ vier erum ecke visser um vora Utvalningu med odru moote enn þvi, ad so leinge sem Trweñ er i oss kroptug fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. so leinge erum vier Guds Børn, og þvi rædur Petur riett, 2. Pist. 1. talande um Trwna og hennar Avexte: Fremied i Trw ydar Dygdena, i Dygdenne Vitskuna, i Vitskunne Sparsemena, i Sparsemenne Poleñmædena, i Poleñmædenne Gudræknena, i Gudræknenne Broodurlegañ Kiærleika, i Kiærleikanum Elskuna; Þvi nær þetta er hiaa ydur, og yfirgnæfer, þa giører þad ydur ecke ydiulausa, edur forgiefens erfidande, til Þeckingar DRottens vors JEsu Christi, þvi hvørium sem þetta eige fylger, hañ er blindur, og leitar ad Veginum med Hendeñe, gleymande þvi, ad hañ er af gomlum Syndum hreinsadur; Þar fyrer køsted Kappsum, Brædur, ad giora ydar Kallan og ydar Utvalningu vissa, þvi nær þier þetta giored, munud þier alldrei falla. Med soddann moote, enn eingvu odru, verdum vier visser um Utvalningu vora, þar fyrer hefur og Gud vijsad oss i siñ Vijngard til ad erfida, eñ ecke i Himeniñ til ad rañsaka sitt Leyndar Raad: Enn so Menn best vite hvørneñ þad samañ haanger, þaa segier Paall þad med faam Ordum, Rom. 8. a þeñañ Haatt: Hvøria hañ aadur þeckte, þaa hefur hañ fyrerhugad, hvøria hann fyrerhugad hefur, þaa hefur hañ kallad, enn hvøria hañ kallad hefur, þaa hefur hann riettlætt, enn hvøria hañ riettlætt hefur, þaa hefur hañ Dijrdlega giørt. Hvørrar Dijrdar og eilijfrar Farsælldar oss uñe ad niota um eilijfar Allder, Gud rijkur af Naad, fyrer sinn Eingieteñ Son JEsum Christum, og sende þar til siñ H. Anda, Amen.

# Annann Suñudag i Nijuvikna Fostu.

Gudspialled, Luc. 8. Cap.

Naa hañ Tijma. Og þaa ed margt Foolk var samañkomed, og þad dreif til hañs wr Stødunum, sagde hañ i Epterlijkingu: Saa gieck wt, sem saade, ad saa Sæde sijnu. Og þa hañ saade, fiell sumt utañ hiaa Veigenum, vard Footum troded, og Fuglar Loptsins aatu þad. Og sumt fiell a Hellu, og nær ed þad spratt upp, visnade þad, af þvi ad þad hafde eige Vøkvan. Og sumt fiell a medal Þyrna, og Þyrnerner spruttu upp med og kiæfdu þad nidur. Og sumt fiell i gooda Jord, og þad vor upp og bar Hundradfalldañ Avøxt. Þaa ed hañ sagde þetta, kallade hañ: Hvør Eyru hefur ad heyra, heyre hañ! Eñ hañs Læresveinar spurdu hañ ad, hvør ed være þesse Epterlijking? Eñ hañ sagde: Ydur er uñt ad vita

Leynda Dooma Guds Rijkes, eň þeim ødrum i Epterlijkingum, so ad siaande þa siaae þeir eige, og aaheyrande þa skilie þeir þad eige: Enn þesse er Epterlijkingeň; Sæded er Guds Ord. Eň hiner vid Veigeň, eru þeir sem heyra þad, eň epter þad kiemur Diøfulleň og tekur burt Orded wr þeirra Hiørtum, so ad þeir skule ecke trwa og verda Hiaalpleger. Eň þeir aa Helluňe, eru þeir, sem medtaka Orded med Føgnude, þaa þeir heyra þad, og þesser hafa ecke Root, hvørier uň Stundarsaker trwa, og aa Freistingar Tijmanum falla þeir fraa. Eň þad sem fiell aa millum Þyrnaňa, eru þeir, sem þad heyra, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kieňast og færa eingvaň Avørt. Eň þad sem i gooda Jørd fiell, eru þeir sem heyra Orded, og behallda þvi i goodu og Sidsømu Hiarta, og færa Avøxt i Þoleňmæde.

## Exordium.

EF þier vardveited mijna Setninga og mijn Riettinde, saa Madur sem þad giører, hann skal lifa af þvi, segier DRottenn, Levit. 18. Riettvijst er þetta Logmaal, svo sem aller Doomar DRottenns, enn Obærelegt er þad syndugum Moňum, þvi hvør er saa ed Logmaaled hallded giete? Engeň af øllum Adams Nidium, nema haň eirn sem giørdest Bølvan fyrer oss, Gal. 3. er Logmaalsins Bølvan forþienad høfdum. Bølvadur vere saa sem ecke helldur allt þad sem i Logmaalenu stendur, so hann giøre þad, segier Moyses i Guds Umbode, Devt. 27. Þesse Kostur var Obærelegur þeim sem ecke gieta eitt Augnablik Syndlaust lifad, og er þad vijst, ad hiň naaduge Gud hefur ecke sitt H. Logmaal wtgiefed i þeirre Meiningu, ad nockur munde þad hallded gieta, helldur til þess, ad Meň skylldu laga sinn Lifnad þar epter, ad so miklu Leite sem Mannlegur Kraptur fær orkad: Og svo i ødru Lage til þess, ad synduger Meň vita mættu hvad miked þaa brestur aa ad uppfylla þad, sem Logmaaled bijdur, svo þad yrde voř Typtunar Meistare til Christum. Nu þoott ad Logmaaled sie straangt, þaa hefur hiň goode Gud laated þvi alltijd fylgia Evangelium, allt fraa þvi haň wtgaf þaň fyrsta Naadar Bodskap, ad Kviňuňar-Sæde skyllde i sundurmeria Høggormsins Høfud, Gen. 3. Stoor var su Naad ad søňu, og svo stoor, ad øll Verølldenn gietur hana alldrei fullþackad. Enn svo sem ad hun er mikil, svo er og miked þeirra Straff, sem hana forsmaa. Þegar Jsrael villde sig hafa undanþeigenn ad tala vid DRottenn i Horeb, er haň wtgaf sitt H. Logmaal, Exod. 20. Þaa sagde Gud vid Moysen; Eg vil uppvekia þeim eirn Spaamann af sijnum Brædrum eins og þu ert, Devt. 18. Og eg vil leggia mijn Ord i haňs Muň, haň skal segia þeim allt hvad eg bijd honum, og hvør sem ecke heyrer mijn Ord, sem hann talar i mijnu Nafne,

af

af þeim hinum sama vil eg þess krefia. O vor Gud! Vert þu oss Nadugur. Hversu Illa er þeim farid, sem Gud vill krefia Skulldar sinnar? Honum mun verda i hiu ytstu Myrkur kastad, og mun ecki þadann wtfara, fyrr enn hañ hefur borgad hinn sijdarsta Pening, Matth. 18. sem alldrei verdur uñ alla Eilijfd. Þoott Logmaaled væri bæde straangt og riettvijst, þa gieck þo ecke hinn Naduge Gud epter þeim Sektum, sem þad Monnunum aa Hendur sagde, vegna þess Lausnargiallds, er hann hafde sialfur tilbwed oss og fyrerhugad i sijnum Eingietnum Syne, sem var sw eina Boot vid þvi Saare, er Diofullenn veitte Adam og ollu hanns Hyske; Forsmæe hana nockur, þa seger Moyses oss i þeim Ordum, er eg strax uñgat, hvad vid þvi liggur, sem er, ad Gud muni krefia þess af Hende hinns sama. Ef nockur syndgade aa moote Moysis Logum, þa vard þad þo forlijkad i gamla Testamentinu med Offrum og Fornfæringum, i hverium ad Christur var fyrermyndadur, svo sem Paulus, til Hebr. 10. vottar, aa medann Syndenn var under Guds Þolinnmæde; Enn nu þar Skugginn er i burtu horfinn, enn vier hofum sialfa Hlutina, Rom. 3. þa verdur Syndenn burttekenn med sannre Trw aa JEsum Christum. Þetta verdur oss bodad i ollu Guds Evangelio, sem er hid andlega Sæded, af hveriu hinn nije Madur gietinn verdur i Hiarta voru, uñ hvert Frelsarenn talar i þessa Dags Evangelio. Enn þad er Grætlegt til ad vita, ad þesse Naad er svo morgum frambodinn, kieñd og predikud, enn svo faaer hafa þess Not, sem hier maa sia, fyrer þeirra eigenn Forsoomunar Saker. Vier viljum þetta H. Gudspiall nockud gior yfervega, og af þvi hugleida hvad D Rotteñ seger uñ þaa Fernslags Jord, er took vid Sædinu.

O vor Gud! Laat þitt Ord, sem i Dag verdur kiennt, falla i gooda Jord, svo vier færum þar af Avoxt i Þolinnmæde. Bænheyr þad himneske Fader, fyrer þiñ Eingietinn Son JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingin.

Vor Endurlausnare talar þanninn uñ hina Fyrstu Tilheyrendur i Upphafe Gudspiallsins: Ad sumt af Sædinu hafi fallid wtann hiaa Veginum, og orded Footum troded, og Fuglar Loptsins hafi uppetid þad. Hañ leggur þad sialfur svo wt, ad þad sieu þeir, sem vid Veginn eru, eñ epter aa kome Diofullenn og take Orded wr þeirra Hiortum. Þeir eru vid Veginn, seger JEsus, og ecke aa Veginum. Þad mun vallda, ad Orded er Dioflinum svo audsookt i þeirra Hiortu; væru þeir aa Guds Vege, munde þad leingur vefiast fyrer hinum illa Ovin, ad grafast epter þessum dijra Fiesiood. Eg em Vegurinñ, Sannleikurinn og Lijfid, eingeñ kiemst til Fodursins nema i giegnum mig, seger Lausnarenn, Joh. 14. A þessum Vege Saaluhiaalparinnar eiga oss Guds H. Ord ad leida, aññars faalma Meñ epter Veginum og eru blinder, 2. Pet. 1. Enn hversu maa nockur sia Lioosid i hanns Lioose, 1. Tim. 6. nema fyrer Christum i hañs Lioose, sem er Guds Ord, ef Meñ snwa þar vid Bakinu, og ecke Andlitenu, eñ horfa aller uppaa sinn Veg, Es. 53. Hiaa Matth. 17. C. ræder Frelsareñ uñ tveñ-

Vegu

Vegu a þeñañ Haatt: Gaanged iñ uñ hid þraungva Portid, þvi hid vijda Port og breide Vegur leider Afvega til Glotunariñar, og þeir eru marger er hañ gaanga. Þess er eru þeir, er vid Vegiñ standa, Br. M. a hverra Vegum ad bijr Sorg og Armæda, og þeckja ecke Veg Fridarins, Esa. 59. Hverra Vegur ad er haall, og þeir munu dreifast afrañ i Þokunni og i henni hrapa, Jer. 23. Lausnarinn seger: Ad Sæded falle utañ hia Veginum, hañ meinar Akur-Reinarnar: Þad sem i þær fellur, vardveitist, þvi Jordiñ er plægd, og aller varast ad gaanga þar uñ. Eñ þeir, sem vid Vegiñ standa i Guds Akre, eru sw Jord, er Ploogur Logmaalsins hefur alldrei geingid uñ til ad mijkia Akuriñ, eige helldur Guds Vagn, sem ad er Evangelii Lærdoomur, til ad feita Jordina. Hvad sem þar fellur i, verdur af Fuglum Himins, þad er vondum Aundum, uppeted, edur og Footum troded, þvi þa er Perlum fyrer Svijn kastad, Matth. 7. Hverniñ bijr Gud i Mañaña Hiortum? J sijnu H. Orde. Hverniñ a þad Hiarta tilreidt ad vera, sem hañ vill bwa i? Angrad og sundurkramed, Es. 57. Þad sem ecke fellur i soddañ Hiarta, þad fellur utañ hia Veginum, utañ hia Guds Akur-Reinum, og verdur Footum troded, þvi aller Veger DRottens eru Myskun og Sañleike, ollum þeim, er vardveita hañs Saattmaal, Ps. 35. Eñ Vegur Ogudhræddra mun fyrerfarast, Ps. 1. JEsus seger, ad Johañes hafe komed med Veg Riettlætisins, Matth. 21. Eñ hverniñ var sa Vegur, er Johañes kiende? Giored Ydran, þvi Guds Rijke er nalægt, Matth. 3. Saa sem ecke geingur a þessum Vege, hañ geingur ecke a Guds Vege, ecke a Riettlætisins Vege, ecke a Fridarins Vege: J einu Orde ad segia, hañ geingur utañ hia Veginum. Predikariñ seger, Cap. 11. Ad hiner Ogudlegu gaange a Vegum sijns Hiarta, enn hverninn Vegur er i þess Manns Hiarta, sem daufheyrest vid Guds H. Orde? Þad er almenniteg Þioodbraut Lasta og verstu Klækia, hvar Agg, Reide, Præta, Manndraap, Hoordoomur, Frillulifnadur, sem af Hiartanu framkoma, Matth. 13. hafa troded sier Gadd i Jskolldu Mañsins Hiarta, svo Guds Ord faa ecke Rwm i þeim, og ef nockud af Sædinu kann ad hrioota þar inn, verdur þad Footum troded. Þesser eru þeir, er fyrer Sidasaker gaanga inn i Guds Helgidoom, til ad byrtast fyrer Monnum, þeir Hræsnarar. Vel hefur Gud uñ þaa talad fyrer Munn Ezechielis, 33. Cap. Þu Mannsins Son, þeir koma til þijn svo sem Foolked er vant ad koma, og þeir sitia fyrer þier so sem mitt Foolk, og heyra þijn Ord, eñ þeir giora þar ecke epter, helldur giora þeir Haad-Vijsur þar af med Muñi sijnum, þeirra Hiarta stundar epter Abata, þu ert þeim eins og Amors-Vijsa, sw er lætur vel og er fogur ad leika, þvi þeir heyra þijn Ord, eñ giora þar ecke epter. Og er þad skielfileg Faasinna, Br. M. er hiñ slæge Diofull hefur blindad Mañaña Hugskots Augu med, ad Meñ leggia Eyruñ vid skamarlegum Ordum og fiflslegu Hiale, eñ byrgia þau fyrer Guds Evangelio, þau standa opiñ fyrer Hafgyu Saungum Verallдariñar, eñ Brwdgumans Raustu heyra þau svo þwnglega, ad ecke er sijnt þau muni bregda vid fyrr, eñ Hofud-Engilsins Baasuna lætur i Skyum Himins. Dæmafrood Æfinntijre og Liga-Sogur

ur læta Menn sier inndællt ad heyra, enn vilie nockur framtelia Guds Dasemdir um̃ Stoorvirke vorrar Skøpunar, um̃ Myskunarverk vorrar Endurlausnar, um̃ Leyndardoom vorrar Helgunar, þar velgir Menn vid, so sem ødru Liettmeti, so eg sie ecki annad i sumra Manna Fare, eñ ad þeir muni þeinkia hid sama um̃ Guds Ords Þienara, sem Athenu Borgar Meñ kvædu upp um̃ Paulum, er hañ taldi þeim Christilega Trw, enn þeir søgdu: Hvad mun Ordsnæpur þessi vilia sier? P. G. 17. Giætid þo ad, i Guds Nafni, Christner Meñ, hvilijkur Hlutur ad Guds Ord er; þad er Foodur Saalna vorra, Matth. 4. Þvi ææn þess munum vier deya; þad er Lijf og Andi, Joh. 6. þvi ææn þess erum vier i Syndunum dauder; þad er Leidarvijser til Himnarijkis, Ps. 119. þvi fyrer utañ þad munum vier ofañ fara i hin ytstu Myrkur, hvar vera mun Op og Tañagnijstran. Og fyrst vier þetta vitum og þad er i Hiørtum vorum fyrir Doomi Samvitsku vorrar sannproofad, þa þyker mier sæ ecke kvalræædur vera, og ecki miked kvijda Helvijtis Pijslum, sem lætur þad eins og annann Vind um̃ Eyrunn þioota, so sem þad komi ecki vid hann, sem af Gudi er talad, og alltijd muni eitthvad til eilijfs Lijfs verda.

Næst þessu talar Endurlausnarenn um̃ þæ, er hann samlijker grijttre Jordu, i hveria þegar Sædid fiell og spratt upp, þa visnade þad, af þvi þad hafde ecki Vøkvan: Þesser eru þeir, sem heyra Guds Ord, og medtaka þad med Føgnudi, og hafa þo ecki Root, þviad um̃ Stundarsaker trwa þeir, eñ æ Freistingar Tijmanum falla þar fræ. Eg kann ecki añad ad segia, eñ þessum er ad nockru Leite betur hæ̈ttad enn hinum; Þvi lijklegri er sæ til Apturhvarfs, sem ad smackad hefur hvad sætur ad Gud er, helldur eñ hiñ, sem ææallt mootstendur H. Anda. Þo er þad med þvi Mooti, ad þeir læti sig leidrietta af Anda DRottins, nær þeir villt fara, annars munu þeir bwa vid verri Kost eñ hinir, þvi þad Orded, sem þeir heyrdu, mun fordæma þæ, Joh. 12. Petur fiell fræ æ Freistingar Tijmanum, enn JEsu blijda Tillit sneri hønum aptur, so hañ gieck wt og griet beisklega, Matth. 26. Aaron fiell fræ, þegar hann Ottadist Foolksins Reidi, Exod. 32. Eñ hañ hvarf aptur æ Guds Veg, so hañs Synd var hønum ecki til Dauda reiknud. Sicalfur Moyses var ecki læ̈ngt þar fræ, er hann sloo Tveimsiñum æ Klettinn, Num. 20. Hvar til hañ þo ei hafdi Guds Bodord; Eñ allir þesser voru nærsta Leiditamer aptur æ Guds Gøtu. Judas fiell og fræ, eñ skipadist ecki vid Christi Aminningu i Kvølldmaaltijdiñe, Joh. 13. ecki vid hañs blijda Avarp i Grasgardinum, Luc. 22. og ecke nema til ills vid hinn harda Doom, er hann sæ ad ætlade ad gæ̈nga yfer sinn Herra, Matth. 27, Saul fiell og fræ æ Freistingar Tijmanum, eñ leitade ecki Guds i sijnum Mootgæ̈nge, helldur Galldra-Konuñar, 1. Sam. 28. Þvi fiell hañ æ sitt eiged Sverd, 31. Cap. Achab medtook Ordid med Fognudi, so hañ sat i Seck og Øsku og griet fyrer Gude, 1. K.B. 21. Eñ ecke ad sijdur fiell hañ fræ og sendi til Fretta vid Baal, eñ liet afsijfa Spæ̈menn DRottins. Þvi er eg viss um̃, ad þessir muni Obærilegre Kost eiga eñ hiner, sm̃ alldrei hafa æ Guds Vege geinged: Eñ hvad mun þessu valda? Br. M. Ecki annad, enn ad Hiartad er hardt, svo ad Sæded fær eingvann

Vokva. Guds Ord hafa eige gietad un̄id so a Priootskuna, ad þad hafi smelltst i þm̄ fyrer hreina Ydran, ad hid himneska Sædid hafi feingid nockra fasta Root. Marger vilia Guds Viner vera þegar allt leikur i Lynde, enn þegar Soolbrune Mootlætingan̄a tekur til ad hafa sijnar Verkaner i Guds Akre, þa visna þeir Avextirner brádlega, sem ecke eru vel Groodursetter. Ef Menn láta Steininn i Elld, þa verdur han̄ gloo-ande um̄ Hrijd, enn ecke mijkest han̄, nema han̄ ad Osku brenne; Eins er þess Manns Hiarta, sem Spámadurinn klagar yfer, Jer. 8. ad sie hardara enn Demant: DRottenn typtar þá med Vende sijns Ords, enn þeir finna þar ecke til, hann heller yfer þá Oleo Fagnadarins, þad geingur eige inn i Steininn. Þegar Gud giefur Regn á Jordina, þa fellur þad yfer friooſsama Stade og Ofriooſsama, harda og miwka. Þad er vijst, ad hvertveggie bera nockurn Avoxt medann þad yferstendur, enn þegar Soolenn tekur ad brenna, þa verdur sw Grein þessara, ad hvad sem yfer hina hordu og Omiwku Stade fiell, þad þornar brádlega upp, þvi þad fann eckert sier lijkt i Hellu-Steininum, sem þad kynni ad vardveita: Hin Plántinn fára Avoxt þess meire, sem Soolinn meir verkar, þvi þeirra Mijkinde hallda þvi, er þau hlutu, og hid besta þar af stijgur ecke upp i Loptid aftur, helldur sniijst Avextinum i Vokva og Vessa: So verdur og Guds Ord predikad Vondum og Goodum, Bliwgum og Hardsvijrudum. J þessum brenner Elldur Mootlætinganna allann Vokva i burt, enn i hinum verkar hann fridsamlegann Avoxt Riettlætisins, Hebr. 13. Alldrei hefur Guds Kyrkia meir eblst, enn i Mootgánginum. Þegar JEsu Nafn mátti ecki nefna fyrir utann Lijfs Háska, þa friwofgadist Guds Alldingardur best; Þegar Kraftur JEsu Bloods, sem var i Ordinu, fann Guds Akur mijktann med bloodugum Ydrunar Tárum i Hiartanu, þa kviknade Kiærleikurenn, þa spratt upp Þolinnmædinn, þa grere Trwin̄, þa voox Lijtillætid, þa lifnade Mylkunseminn, þa dafnade Hoogværdinn, þa brann Elskann til Guds, hvad heitast, so ad hverke Lijf nie Daude, hverke Englar nie Valld-stietter nie Hofdingiadæme, hverke hid Nálæga nie þad Efterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur onnur Skiepna, kunni ad skilia Guds Elskendur vid þan̄ Kiærleika, sem er i Christo JEsu, Rom. 8. Enn sijdann Monnum took til ad leidast ad draga Okid med Christo, þa hefur ecke Ploogur Logmálsins rist so diwpt i Mannan̄a Hiortum. Menn vilia aller med honum rijkia, enn fáer med honum lijda, og hyggia ad mátuleg Gudhrædsla dugi noog til Sáluhiálpar; Þar fyrer koolnar Hiarta Mannsins so, ad Guds Ord, þad himneska Sæded, verdur ecke i Bein og Merg inn-drucked; Fyrer þvi vex og Korned i Guds Akre miog so þun̄t, so ad ein Staungin̄ æpir til an̄arar, og Andskotin̄ hefur med Bále Oleifilegrar Heimsins Elsku bren̄t oss marga Dijla þar inni. Þar fyrer tem þier christilega Ydran, O þu Guds Barn, sem villt Sáluhiálpina erfa! á medan̄ Gud lætur þier ad Oskum gánga, og lát Min̄ing þin̄a Synda og han̄s Astgiafa mijkia Hiarta þitt, so ad H. Ande, sem bijr i Ordenu, megi una þar in̄i, þviad þu veitst ecki nær ed Hite Freistingan̄a tekur til ad bren̄a, og þu þurfer

er brædlega æ ad hallda, og þoott þad verde eige fyrr enn æ Daudans Stundu, sem hvørn Dag yfir hæanger, þæ þeink ad þær eru þæ vijsar: Enn eingvum hefur veitt af æ þeirre hørdu Tijd; þeim einum hefur þa best vegnad, vid hvoria Ande DRottens hefur talad i Hiartanu, i þvi Ordenu sem þeir ædur numdu og Rootfestu þar inne, til heilnæms Veganestis i giegnum hiñ myrkva Daudans-Dal, iñ æ Land lifande Maña.

Hinum Þridiu Tilheyrendum dregur vor HErra Dæme af þvi Sæde, sem fiell æ medal Þyrna, enn Þyrnenn spruttu upp med og kiæfdu þad nidur: Þad eru þeir (segier hañ) er heyra Orded, og velkiast i Sorgum, Audæfum og Gyrndum þessara Lijfdaga, kefiast og færa eingvañ Avoxt. Hvilijka Hindrun ad þetta Illgrese giore Akur-Londum Guds, eru fleire Dæme til, enn segia þurfe: Margann hefur Buksorg og Ahyggia fræ Gude dreiged. Þar sem þiñ Fiesioodur er, þar er þitt Hiarta, segier Endurlausnarenn, Matth. 6. Hvorneñ fæ Meñ þæ under eins Gude þioonad og Maihona? Endurlausnareñ segier; Ad Þyrnereñ hafe vaxed upp med og kiæft Sæded nidur. Ecke segier hann, ad Korned hafe ecke og nockud vaxed, eñ þo er þad eige ad meira leite enn so, ad hann reiknar þad fyrer eingvañ Avoxt. Hvar fyrer? Af þvi Þyrneñ hofdu Yfirhond, eñ Korn-Staungeñ þroskadest alldrei, so ad Axid næde wt ad sprijnga. Lijkt er þetta Gudhrædslu sumra Maña, þeir ed giarna rækia Ord DRottenns, þeir hafa þad uñ Hond, þeir bidiast fyrer, þeir tæarast fyrer Gude, þeir sijngia og lesa, þeir heyra giarna talad uñ Gud og hañs H. Dæasemder, og lœtast þad sialfer giora med fullre Alvoru, enn straffa adra, sem þa eru Toomlætare i sinne Þioonustu. Eñ þegar Brooder edur Syster eru nakeñ, og hafa Skort æ tijmannlegre Næringu, þæ giefa þeir þeim þo ecke hvad Lijkamanum er naudsynlegt, Jac. 2. Þegar þeir siæ Þioofenn, hlaupa þeir med honum ad stela, Ps. 50. Ef ecke med almennelegre Launung, þa med Yfirvarpe Laga og Riettinda. Siæe þeir nockud gyrnelegt, verdur Bukforgeñ þeim svo Obærelег sem Achab, ad þeir nærre þvi leggiast uppæ Sængena, 1. Kong. 21. Nær þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal, þæ er ecke Truweñ æ Gud betur grunduollud enn so, ad Meñ spyria med Heidingiunum; Hvad skulum vier eta, eda hvoriu eigum vier ad klædast? Matth. 6. Uñ Asnans Skugga, og uñ Geitar-Hæreñ toñlast þeir og tyggiast Innbyrdes, þar til þeir mættu uñ sijder verda uppetner, og ef einhvor giorer nockud af vid þæ, þad rækia þeir iñ til Daudans; Siæe þeir Veg til ad Fiefletta einhvorn, spara þeir ecke Roog nie Lijge; Þyke eitthvad inndællt vera, þæ stendur Guds Elska og hanns Ord til baka, enn Holldenu er þioonad i þess Gyrndum og Tilhneigingum. So vaxa nu Þyrneñ upp fullum Fetum, enn Sæde Guds Orda dempast, og bera ecke Avoxt, og æ Gudhrædslunne ber ecke fyrer Illgresesins Ofvexte; Hvort hun sie nockur i Hiartanu, þad vita eige adrer nema af Avoxtunum; Hitt er Deigenum lioosara, ad alldrei kiemst hun leingra enn i Muñenn, enn hiner Limerner erfida i Satans Akre; og sijnest mier ad þesser elske Gud med somu Elsku og hanns Limu, er þeir segia; Vermed ydur og mettest, Jacobs 2. enn giefed þeim þo eckert. Slijkt er i Raun og Sañleika ad

hrøosa sier af Gudhrædsluñe, enn afneita þo hennar Krapte, 1. Tim. 3. og (so sem JEsu i sagde vid Juda) wtsiwga Hws Eckna og Fødurlausra under Hylmingu længra Bæna, Matth. 23. Og kañ þad ecke ad fara æ annann Hatt, þvi eige verda Vijnberenn samañlesenn af Þyrnunum, nie Fijkiurnar af Þistlunum, Matth. 7. Gudhrædsla soddann Manna er eins og Tal hinns Heimska, fyrer Gude, um hvort Salomon segier; Ad þad sie eins og Kvister i Hond hiñs Druckna, Ords. B. 26. Þyrnereñ er nærsta brædþroska, velldur þad þvi, ad hann dregur til sijn allann Vøkva wr Jørdunne, so þau Grøsenn, er i Nænd vaxa, þau sæ ecke til Vidurlijfis, og þess betre Vøkva sem hann nijtur, þess lijklegra er ad hann betur bloomgest: So er Hreckvijseñ; Þegar hun er plontud i Nælægd Dygdanna, (svo kalla eg Skin Gudhrædslunnar) þæ tekur hun þess meira Afl. Þegar Odigdenn er briniud med Lijkingu Guds Herskrwda, þæ hefur hun stoorann Myndugleika, jafnvel þoott þad sie ecke nema Hamur eirn, og Satans Engell i Liossens Engel umsteiptur; Enn eige ad sijdur mun rætast æ þeim Spædoomur Esajæ, Cap. 10. Elldurenn mun uppbrenna hanns Þyrna og hañs Þistla æ einum Deige. Þyrnarner eru bloomleger nærsta, eñ skart stijnga þeir, ef Ogiætelega er æ þeim teked. Þanneñ er Ahyggia og Bwksorg þessara Lijfsdaga; Hun losar øllu fegru, Gulle og Silfre, fullum Kornhlødum, Ynde og Epterlæte; Eñ þeir ed slijta Hiarta sijnu þar med, þeir fiña þo eckert Ynde, helldur, eins og hinn Vatns-siwka þyrster æ þess meir, sem hañ meira dreckur, so er þess frekare Agyrndeñ, sem meire er Audureñ, og hun etur siælfa sig, og elur sig þo siælfa; Hun er bæde Hungur og Fylle, Ynde og Sorg, og er þo alldrei so miked Epterlæted, ad ecke sie meira Andstreymed, og, þad sem yfirtekur, ad hun kiesur þæ Unadsemd, er Meñ eiga i DRottne ad hafa, og mettar sijna Þræla med Harma-Braude einu, og dryckiar þæ med Omiñis-Øle, so þeim gleimest ad safna sier Fiesiood æ Himnum, hvorium ecke kañ Mølur nie Rid ad granda, nie Þioofar eptergrafast, Matth. 6. O þu Dijrkeipta JEsu Brwdr, Christeleg Kyrkia! Læt hier þad til Rifia reña, ad þinn Uñuste er med Þyrnum Koronadur æ yckar Heidurs-Deige, enn þu ræktar þæ Þyrnana best, sem hanns blessada Høfud hafa hvad særast stunged i Þijnunne, þad eru þijnar Synder og þitt Epterlæte, þu sem ert afrekud med Guds eigenn Bloode, P. G. 20. Svo þad er ecke all-lijted Sorgar-Efne, hvar sem þess giæter, ad hid Oforgeingelega Sæde Guds Orda, sem Petur talar um, þad vrooast valla so hier æ Jordunne, ad Bindene hanns Barna verde fullt i Heimenum. Romveriar kolludu þad Obæcklæatann Akur, sem ecke svarade Kostnadenum og Erfidenu; Enn þad mæ hinn Allsvalldande Hwss-Fader ad riettu segia um sinn Akur: Þvi ef nockur vill meta til samans Guds Eingietens Sonar dijrmæta Blood, hvors miñste Drope ad er kostulegre enn øll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, og so hinn Fioorda Part af þeim, sem Orded heyra, ad hinum Oreiknudum, sem þar fyrer utann eru, þæ mun hañ jæta, ad Christi Erfides og hanns Akur Avexte sie Olijkt fared, og eingvañveigeñ samañ ad jafna. Hvor Eyru hefur ad heyra, hañ heyre!

Hvør-

Hvorier eru hiner Fioordu Tilheyrendur? Br. M. Pad eru þeir, sem JEsus samlijker þvi Sædenu, er fiell i gooda Jord og bar Hundradfalldann Avoxt. Þetta þijder DRottenn uppa þaa, sem behallda Ordenu i goodu og sidsomu Hiarta, og fæera þar af Avoxt i Polennmæde. Gud hefur lofad, ad sitt Ord skyllde ecke koma toomt til sijn aptur; þvi hefur hañ ecke lofad, ad þad skule hiaa øllum verka Saaluhiaalpena: Hvar fyrer? Þvi þar eru so marger, sem þvi ecke hallda i goodu Hiarta, og ecke aller sem liaa þvi Rwm i Hiartanu. Hid sama Ord var predikad Pharao og øllum hañs Þienurum; Enn þo segier Ritningenn, ad sumer af þeim hafe Ottast Ord DRottenns, eñ Pharao forherdte sitt Hiarta. Hid sama JEsu Christi Evangelium kiende Paulus og Barnabas i Iconio, og þar trwde mikill Fiollde, bæde Gydinga og Grickia, eñ Judar, þeir ed Vantrwader voru, æstu upp Heidingiana i moote Brædrunum. P. G. 14. Hid sama Guds Ord kiende JEsus øllum þeim, er til hanns heyrdu og saau hanns Kraptaverk, þo sogdu nockrer, ad hann Jardteikner giørde fyrer Belzebub, Luc. 11. Adrer leitudu epter Teikne af Himne; Þo fannst þar ein Kona, er fagnade hanns Kieñingu, og sagde: Sæll er saa Kvidur er þig bar, og þau Brioost er þu mylkter. Andsvar JEsu uppa Ord hennar, minnir mig aa ad tala um, hvorsu Gledelegt ad er Guds H. Ord i þess Mañs Hiarta, sem hefur Lysting sijna i hanns Logmaale, Ps. 1. Hann sagde: Hvad um þad? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau. Eg þykest vita, ad mørg mune so lynd sem Kona þesse, er hun liet aa sier heyra, ad hun villde hafa vered JEsu Lijkamleg Mooder, hefde hun þann Kost maatt eiga, enn eg heyre ad hvorre eirne Christenne Saalu er bodenn betre Kostur, sem er, ad heyra Guds Ord og vardveita þau. Ecke hafde Maria mikla Blijdlæte Heimsins ad fagna, þoott hun være Mooder ad Konunge Himens og Jardar. Enn þo heyre eg, ad hun hafe vardveitt øll hanns Ord i sijnu Hiarta, Luc. 2. Pad heyre eg og ad Simeon segier i þessum Cap. Ad hennar Aundu mune Sverd i giegnum smiuga; Pad hefur aan alls Efa vered, þegar hun stood under Krossenum, og hun saa hanns Hendur og Fætur i giegnum stungnar, er hun elskade so sem sitt eiged Hiarta. Af þessu sie eg Mariu sæla ad vera, þvi þau Ord er hun vardveitte i sijnu Hiarta, hafa hiaalpad heñe slijk Offop ad þola; Pad sama veit eg ad Guds Ord verkar i allra þeirra Hiortum, sem hann elska, og eru JEsu andlegar Mædur. Mitt Ok er sætt og mijn Byrde liett, segier Endurlausnarenn, Matth. 11. Ecke þiker þad Heimsins Bornum, þeir ed Oked i sundurbriioota. Enn hvor mun þad liett giøra? Pad giører Guds Ord, sem riett-trwud Saala vardveiter i Hiartanu, hvort ed telur heñe Trw um þad, ad Mootlætingar þessara Tijma, sieu eige verdar þeirrar Dijrdar, sem fram vid oss mun koma i eilijfu Lijfe, Rom. 8. Sæler eru þier nær Meñerner hallmæla ydur, og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo liwgande, segier hann enn aptur, Matth. 5. Fagned og vered glader, þviad ydar Verdkaup er nooglegt aa Himnum. Eñ hvor mun giøra oss vissa um þesse Verd-Laun? Pad giører H. Ande, sem byr i Ordenu, þvi er eirn Harm-Þrwngenn og Sundur-

knosadur Ande vardveiter i goodu og sidsomu Hiarta, þvi hann er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. So sem eg er þess fullviss, ad mier verdur engenn Skota-Skulld wr lanudu Fie, a medañ eg Pänt hefe; Svo og langtum framar er eg þess fullørugg-ur, ad mier mune øll Harmkvæle þessa Heims med eilijfre Glede endurgollden verda, (Jafnvel þo eg þess Overdugur sie) a medañ eg vardveite Guds Ord i goodu og Sid-somu Hiarta, þvi Ande Guds ber Vitne mijnum Anda, ad eg sie Guds Barn, Rom. 8.

Og Færer Avoxt i Poleñmæde, segier HErrañ: Hvorugt gietur añars an vered. Sa sem vardveiter Guds Ord, hañ færer Avoxt i Poleñmæde, og hañ sem Avoxt i Poleñmæde færer, hañ vardveiter Guds Ord. Þess gietur Johannes i hañs fyrsta Briefe, Cap. 2. med þessum Ordum: Ef nockur segier; eg elska Gud, og vardveiter ecke hañs Bodord, hann er Lÿgare. Villt þu, Christeñ Madur, vita hvort ad Guds Ord bijr i Hiarta þijnu edur ei, þa reyn og proofa sialfañ þig, hvort þu manst þad af Gude er sagt, hvort þu hefur Lyst til ad tala um hañ, hvort þier misþocknast, er þu hey-rer hañs Nafn lastad, hvort þu gledst af þvi, þa hañs Ord hefur Framgang, hvort þu elskar þa er hañ elska, hvort þu ert fliootur ad tilgiefa Misgiørdernar, hvort þu ki-eñer i Brioost um þa, sem Naud lijda, og elskar þa ecke einasta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika, hvort þu audmyker þig fyrer Gude med Packlæte þijns Hiarta, þegar þier vel vegnar, hvort þu kisser a hañs Vond nær hañ þig typtar; Þegar þu freistast af Andskotans Heimsins og Holldsins Vielum, enn þier kiemur þa under eins i Hug, hvad Gud hefur bañad, hvort þu lætur þa af, og Elskañ til Guds rædur meir eñ Fijsn Holldsins? Fiñur þu þetta hia þier, þoott þad sie i Veikleika og a stundum meige afbera, þa er þad vijst, ad Guds Ord og hañs Ande drottnar i Hiarta þijnu, eñ añars ecke; þvi so segier Lausnareñ: Ef nockur elskar mig, þa skal hañ mijn Ord vardveita, Joh. 14. Eñ ef Skap þitt bijdur þier allt añad, þa segie eg þier i Nafne JE-su Christi hiñs Krossfesta og blessada, sem þijna Saalu hefur fra Helvijte endurleyst; tak þier Vara og bid Gud ad skapa i þier hreint Hiarta, og giefa þier nijann Anda: Þviad eg þore ad setia mijna Saalu i Ved, ad þu geimer vanfæra Saal i heilbrigdum Lijkama, og herbergiar vondañ Giest i vænu Hwse, eñ veitst ecke nær a Veggeñ skrif-ad verdur: Þu Daare, a þessare Noottu skulu þeir þijna Saalu fra þier taka, Luc. 11. Hvad gagnar þad þa Mañenum, ad hañ ætte alla Verolld þessa, og lijdur so Skip-Brot a Saalu siñe? O þu eilijfa Ord Fodursins, sem varst i Upphafe hia Gude, fyr-er hvorn ad Allder nar skapadar eru! Endurskapa þu Hiarta vort, ad vier verdum nij Skiepna i þier; Lat þu þitt sæta Ord vera vort ædsta Epterlæte hier tijmannlega, so ad vier meigum þess Oumrædelega Fagnadar niioota eilijflega. Veit oss þad, O Her-ra JEsu Christe, fyrer þitt dijrmæta Blood og blessada Forþienustu. Þier sie, med Fodur og H. Anda, Dijrd, Heidur og Lof, fra þvi nu er og um Allder Allda, AMEN.

# Sunnudagenn i Føstu Inngꜳng.

Gudspialled, Matth. 3. Cap.

J Þañ Tijma. Kom JEsus af Galilæa ad Jordan til Johañem, uppꜳ þad, ad hañ skijrdest af honum. Eñ Johañes varnade honum þess, og sagde: Mier er Þørf ad eg skijrest af þier, og þu kiemur til mijn. Eñ JEsus svarade og sagde til hañs: Lꜳttu nu so vera, þviad so hæfer oss allt Riettlæte upp ad fylla. Og þa liet hañ þad epter honum. Enn er JEsus var skijrdur, stie hann jafnskiott upp wr Vatninu. Og siꜳ! ad Himnarner lukust upp yfer honum, og Johannes sꜳ Guds Anda ofañ stijga sem Dwfu, og yfer hann koma: Og siꜳ! ad Roddenn af Himne sagde; Þesse er Sonur minn Elskulegur, ad hverium mier vel þocknast.

## Exordium.

EG vil uppvekia þeim Eirn Spꜳmann af þeirra Brædrum eins og þu ert, sagde DRottenn vid Moysen, Devt. 18. Þesse Ritning er ꜳ vorum Frelsara JEsu Christo ad fullu uppfylld, þar ed hann strax epter sijna allra heilogustu Skijrn i Añe Jordan var settur af Gude sijnum Fødur til Kieñimañsskapar og Spꜳmanns Embættis Nija-Testamentisins, og smurdur med Oleo Fagnadarins fram yfer sijna Hluttakendur, Ps. 45. So ad uppfylltest þad sagt er fyrer Munn Esaiæ, 61. Cap. og hin eilijfa Spekenn Guds uppꜳ sialfann sig þijder, Luc. 4. Ande DRottenns er yfer mier, af þvi hann hefur smurt mig, hann hefur sendt mig til ad predika Voludum; ad leggia vid þau Sundurknosudu Hiortunn, til ad predika þeim Hertekñu Frelsed, þeim Faungudu Lausnena, hinum Blindu, ad þeir verde heilskigner, ad eg frelse hina Sundurkrømdu. Enn hverninn mꜳ eg þad skilia, ad þesse mikle Spꜳmadur sie eins og Moyses, þar hann var Madur syndugur, enn þesse ꜳn Syndar? Þess er ad giæta hier i, ad Gud spꜳer, ad hann mune eins og Moyses verda, enn Moyses þo ecke jafn honum: Lijkur ad sønnu i allre Mannlegre Hegdan og Edle uppꜳtekennar Nꜳtturu, enn nærsta Olijkur epter þeirre Dijrd, sem hann ꜳtti i Upphafe hiꜳ sijnum Fødur; Og i Sannleika er vor Endurlausnare Moysi i mørgum Hlutum lijkur. Moyses var eirn Madur, Christur er og Holld af voru Hollde, og Bein af vorum Beinum. Moyses var af Gude sendur, enn um̃ sig talar JEsus hiꜳ Johannem: So sem Faderenn sende mig, þa sende eg ydur, Joh. 20. Moyses wtleidde af Egypta-Lande, JEsus hefur frelsad oss af Syndarinnar Þrældoome. Gud wthellte sijnum Anda yfer Moysen, og gaf honum Vitsku og Speke til ad dæma sitt Foolk; miklu framar þo yfer JEsum Christum, þvi honum hefur hann ꜳn Mælingar giefed, Joh. 3. Gud took af Anda Moysis og lagde yfer Ølldungana i Jsrael, Num. 11. Af

JEsu

JEsu Fyllingu hofum vier aller medteked, Joh. 1. Þar var eige so plaagadur Madur sem Moyses, Num. 12. Hvor hefur so plaagadur vered sem JEsus? Moyses var Hertoge i Jsrael, sa ed leidde Guds Fylkingar i Eydemorkenne. JEsus Guds Sonur er hinn mikle Hertoge, sem af Bethlehem er wtgeingenn, Mich. 5. til ad fæda hanns Foolk Jsrael. Jsrael hræddest fyrer Auglite DRottens i Horeb, Exod. 21. og sagde vid Moysen: Eige vilium vier framar heyra Raustina DRottins Guds; Far þu uppa Fialled og tala vid hann fyrer oss. Af hvoriu raada er, ad Moyses i þad Sinn hafe vered Medalgaangare millum Guds og hañs Foolks: Þeirrar Meiningar hefur og vered Stephanus Pijslar-Vottur DRottins, er hañ sagde um Moysen, P. G. 7. þegar hann þijder þenna merkelega Spaadoom uppa vorn Frelsara, segiande: Þesse er h ann, ed var i Samkundunni i Eydemorkunne med Englinum, sa ed talade vid hann og Fedur vora, sa ed medtook þad lifanda Ord, ad hann giæfi oss þad; Enn þoott ad Moyses i þañ Maata være Medalgaangare mille Guds og Jsraels Sona, þa hefur þo Guds Sonur eitt ædra Embætte odlast, vordenn Arnadar-Madur hinns betra Testamentis, sem stadfest er uppa betra Fyrerheit, Hebr. 8. Vid þenna Mismun a milli Moysis og Christi Medalgaungu hefur Paulus kannast, Hebr. 12. Cap. med þessum Ordum: Þier erud ecke geingner til þess Fialls, sem þreifannlegt er, og med Ellde brennur, nie til Þoku edur Myrkurs og Ovedurs, nie til Lwdur-Þits edur Raddar Ordanna, vid hveria þeir Ottudust er hana heyrdu, þad eige yrde til þeirra Orded talad, helldur erud þier komner til Fiallsins Zion, og til Medalgaangara hinns Nija Testamentis JEsum, og til Bloodsins Adreifingar, þad betur talar enn Abels Blood. Þetta er þad dijrmæta Blood Guds Eingietins Sonar, Op. B. 1. JEsu Christi, med hvoriu hann þvær oss synduga Menn, sem komum i þennann Heim, i Skijrnar-Laugeñe, af ollum vorum Syndum; Og uppa þad hann helgade oll Votn til hiaalpsamlegs Medals Endurfædingarinnar, þa hefur hañ laated sialfañ sig i Anne Jordan skijra, svo sem vier nu Samstundis heyrdum af þessa Dags Evangelio; Af hveriu vier vilium einasta yfervega, hvad stoor og mikill ad sie Kraptur Skijrnariñar i Framkvæmd vorrar Saaluhiaalpar, og hverier ad sieu hennar Avexter.

Þu mysktunsame Gud, sem bæde hefur plantad og Avoxtenn giefur, gief þu ad um þenna þinn haaleita Leyndardoom svo talad og epterteked verde, ad þitt allra-Helgasta Nafn vegsamest a medal vor; Enn vier mættum þinnar eilijfu Myskunar Saaluhiaalpleg Not hafa, fyrer Fulltinge þijns Elskulega Sonar, i Krapte Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingenn.

DRotteñ sagde vid Nicodemum Fordum Daga, Joh. 3. Ad hvad sem af Holldinu fædt være, þad være Holld; eñ hvilijk ad sie vor holldleg Fæding, þad wtmaalar Guds Ande allra best fyrer Munn Paals, er hañ seger, Eph. 2. ad vier sieum af Naatturuñi Reidinnar Born. Hvad kañ þeim aumra ad vera, sem under

Guds

Guds Reide eru, þar hun er eiñ fortærande Elldur, sca ed breñur allt til nedsta Helviitis? Devt. 32. Enn hvernig erum vier nu vid þetta Volæde kvitter vordner? Þad hösum vier ødlast i Skijrnar Saanum. Þess gietur St. Paall, Eph. 5. segiande: Christur hefur hreinsad Søfnudinn med Vatns-Lauginne i Ordinu. Hann seger eñ aptur: Ad Gud hafi þrifid oss wt af Vallde Myrkraña og sett oss i Rijki sijns Sonar, Col. 1. Nær mun þetta hafa giørst? Ad viisu i Skijrninne. Hvørt er Valld Myrkranna? Þad er Diøfulsins Rijke, Eph. 6. Hvørt er Guds Sonar Rijke? Þad er Fridur og Fognudur i heilogum Anda, Rom. 14. Þier vorud fordum Myrkur (seger Paall um Heidingiana, aadur enn þeir voru af Gude Endurfædder), enn nu erud þier Lioos i DRottne, Eph. 5. Eins vorum vier aller aa oss komner, aadur enn Guds eiliijfa Myskun endurbætte vorn syndugann Gietnad med Vatni og Anda. So mikill Munur sem nu er aa mille Lioossens og Myrkursins, mille Dags og Nætur, mille Soolariñar og þeirra Hluta, sem hun upplijser, svo miked Diwp, sem þar er stadfest aa millum Lazarum i Fadmi Abrahams, og hiñs rijka Sælgiætings, þar hañ pijnist i Helviite og Kvolunum, Luc. 16. So stoor Mismunur er, ad synu Leite, mille þeirra, sem alleina af Holldinu, og þeirra, sem i Skijrninne verda af Andanum fæddir; Þvi vor Endurlausnare seger hiaa Joh. 3. Cap. vid Nicodemum: Nema einhver verde endurfæddur af Vatne og Anda, þa kañ hañ ecke iñ ad gaanga i Guds Rijki. Þetta tala eg ecke i þeirre Meiningu, ad eg hafi hiñ miñsta Paanka þar uñ, ad Smaa-Borniñ, sem añadhvert i Moodur-Lijfi burtkallast, eda deya strax eptir þad þau boriñ eru i Heimiñ, edur hindrast aa einhvern Haatt fraa Skijrnarinnar Blessan, ad þau muni ecki eiliijfs Lijfs Erfingiar verda; helldur af þvi, ad DRottenn aatti Orda-Stad vid Nicodemum, eirn fullordiñ Mann, sem ecki var so uppfræddur i þeirri Guds Rijkis Stiorn, sem Christur hoof hier aa Jorduñi, med Endurgietningu syndugra Maña, fyrer Vatn og Anda, er Nijungar þoottu hiaa þeim, sem af Umskurninni voru, sierdeilis Phariseunum, af hverium Nicodemus var, þa epter þvi (sege eg) ad hann villde undervijsa honum i Lærdoome Nija Testamentisins, þa sijnir hann honum, ad sca nu vilie hoolpinn verda, hann mege skijrast laata. Eirn Konungur er ecke bundinn vid þau Log, sem hann sialfur giefid hefur, svo hann megi þeim ecke umbreita, nær þad ei skiedur aa mooti Guds Logum; Þvi skylldi þa hinn mikli Stioornare allrar Veralldar vera so fastur vid sijna Setninga, ad honum leyfdest ecke ad giora sijnum Skiepnum Gott, med þeim Hætte, sem hanns Alvitra Raadi haga þykir? Guds Setningar skyllda oss undir hanns Hlijdne i ollu þvi, sem i voru Vallde er, enn ecke sialfann hann, svo hann þad ecke wtrietta kunne, sem hann vill, med þeim Hætti, sem hann sialfur vill. Foroktun Skijrnarinnar, og ecke hennar Brestur, fordæmer syndugann Mann; Eñ sca kañ ecki ad forakta, sem eige kañ ad adgreina Illt og Gott. Hiaa Gude er eingenn Hlutur Omaattugur, Luc. 1. Þvi mun þa þesse vera? Maattugur er Gud ad uppvekia Abraham Sonu af Steinum þessum, Matth. 8. Þvi þa ecke ad flytia þeirra Saaler i Abrahams Skaut, hverra Lijfs-

um̃ hañ sialfur rædur? Ef Gud villde endurfæda Mañinn aan Skijrnariñar, munde hann þad ecke gieta edur meiga? Sannlega. Eg sie hann hefur endurfædt þaa, sem aa Gamla Testamentisins Dogum lifdu, fyrer Medal Um̃skurnarinnar. Eñ ef honum þocknadist olldungis fyrer utann nockurt Medal ad endurgieta Manniñ til eilijfs Lijfs, mundi þad ecke i hanns Valldi standa? Eingenn Efe er aa þvi. St. Paall styrkir mig i þeirre Trw, Rom. 4. talande þar um̃, med hveriu Moote Abraham hafi verid reiknud Trw sijn til Riettlætis: Med hveriu Mooti var hun tilreiknud? Seger hañ: Hvert þegar hañ var i Um̃skurninni edur Yfirhwdiñe? Ecki i Um̃skurniñi, helldur i Yfirhwdinne. Hafi nu Gud Abraham, Fodur Trwadra, endurfædt fyrer utañ Sacramentaña Medal, þvi skal hañ ecki kuña og vilia þad sama giora vid þaa, sem ecke verdur so laangs Lijfs audid, ad þeir meige i Skijrniñe endurfædast? Ad eg ecke tali um̃ Adam, Seth, Lamech, Matusalem, Enoch og Noa, med Otal Þusund odrum, sem Meñ fyllilega trwa, ad nu lifi med Gudi i Himninum, og andader eru aadur enn Sacramentiñ voru iñstyptud. Og ad Meñ vite, ad þessu sie eins varid sijdann Sacramentiñ innsett voru, þa sie oss vitannlegt, ad hañ, sem kunni hoolpiñ ad giora þau Borniñ i gamla Testamentinu, sem burtkolludust iñañ þess Attunda Dags, hver ætladur var til Um̃skurnariñar, Gen. 17. Hann sem myskunade sig yfir þa sem deydu i Eydimorkunni Oum̃skorner, Jos. 5. Hann sem wthellti Heilogum Anda yfer Cornelium, og þa sem voru i hañs Hwsi, aadur enn þeir nockurn Tijma skijrdir voru, so ad Petur sagde: Hver maa banna þeim Vathid, sem medtekid hafa H. Anda eins og vier? P. G. 10. Hañs diwpu Myskunar Ydur, Luc. 2. sem eingann Botn hafa, þau eru ecke ollsamann wtrunniñ i Skijrnar-Saaiñ, helldur renna hanns miklu Myskunar-Læker eirneigeñ til þessara Smælingia, af hverium Fader Myskunsemdanna vill ecke ad nockur fyrerfarest, Matth. 18. Þeim sem Trwader voru af Um̃skurninni hnickti vid þad, ad H. Andi fiell yfer heidnar Þiooder, P. G. 10. sem lijtid af Gudi vissu aadur enn þeir skijrder voru: So skiedur þad enn nu i Dag; ad þad sm̃ Omogulegt er fyrer Moñunum, þad er mogulegt fyrer Gude, Matth. 19. David Konungur, þoott hañ stoorsyndugur Madur være, þa er eckert ad heyra añad aa hañs Kvedlingum, eñ ad hañ hafi ætlad sier eilijfa Vist hiaa Gudi, þegar hann harmade siñ Son, hvern hann gietid hafde med Bersabe, hver ed, framar odrum hañs Bornum, maatti kallast gietinn og fæddur i Syndinne, saa ed og deyde aadur eñ hañ um̃skorinn vard; Hann huggade sig med þessum Ordum, þegar hañ reis upp wr Duptinu, þar hann griet Synd sijna fyrer Gude: Eg kiem til hañs og hañ ecke til mijn, 2. Sam. 12. Af hveriu audsied er, ad hañ hefur verid fulltrwa þar um̃, ad hann væri undann sier fareñ i þaa gledilegu Vist, hvar ad er Sadning Fagnadarins; so sem hañ þad sialfur kallar. Hvad fiarlæget ad sieu Guds og Maña Doomar, er, aa medal añarra, audsied af Jonæ Spaamañs Sogu, þegar hañ nærre þvi bryxlade Gudi um̃ sijna Poliñmæde, Jonæ 4. med þessum Ordum; Eg veit þu ert Naadugur og Myskunsamur, Polinmoodur og nærsta Goodgiarn: Enn Gud svarade honum þessu, medal annarra:

munt

munt þu riettelega reidast? Þu hlijfder Lundenum uppa hvorn þu ecke erfidader, og eckert giorder þu til hanns Fullkomnunar, þvi hann voox a Noottu, og Nætur-gamall visnade hann; Skyllde eg þa ecke þyrma Ninive þeim stoora Stad, i hvorium ad eru fleire enn Hundrad og Tuttugu Þusunder, er ecke vita til Hægre nie Vinstre Handar, og morg Villudijr. Hafe nu Bruñur Myskunsemdanna so nadugur vered, ad hann villde þyrma þeim Ogudlega Stad vegna Oumskorenna Heidingiaña Barna, hafe hañ helldur viliad þola þeirra Illsku, sem i Himeneñ vär uppstijgenn fyrer hann, helldur eñ ad eydeleggia oll Dijrenn sem þar inne voru, Jon. 1. Þvi skyllde eg þa ecke ganga wr Skugga þar uñ, ad hañ mune myskuna sig yfir eitt Omalga Foostur, sem eckert kañ til þess, ad þad ei leingur lifer. Nu þoott ad Gude vorum sie i sialfs Vallde, ad taka Mañeskiuna i Saatt vid sig og endurgieta til eilijfs Lijfs, med hvoriu hellst moote, sem honum þad þocknast, epter sinne Almættes Goodgyrne; Samt er þad hinn verste Glæpur, ef nockur forsmaer edur forsoomar þetta Hialpsamlega Medal. Þoott eirn Hwss-Fader meige med odru moote wtrietta þa Hlute, er hann skipar sijnum Þienara, mun hiñ þar fyrer vera sijkn Saka, ef hann forsmaer sijns Herra Raadstofun? Gud hafde noog Raad ad sla i Hel Konung Amalechitanna, þoott ecke hefde hañ brwkad Sauls Hond þar til; Enn af þvi hañ var toomlatur i Guds Eyrenda Frañkvæmd, þa vard Israels Rijke rifed af hanns Hende og giefed hañs Þienara; 1. Sam. 15. Munde nockud Achab og hañs Hws umflya Oluckuna, þa hañ forsmade DRottenns Vilia i þvi ad drepa Benhadad Syrlands Konung? 1. Kong. 20. Jafnvel þoott hiñ sterke Gud hefde Þusund Veige til ad tortijna honum. Þad sem Umskurnenn var i Gamla Testamentenu, þad er Skijrnenn i þvi Nya. Enn hvorsu miked hafe vardad uñ Umskurnena, vottar sialfur Gud, Gen. 17. þegar hann stiptade þad H. Sacramentum, segiande; Allt Kallkins, sem ecke umskier Yfirhwd sijns Holldś, hanns Saal skal upprætast fra mijnu Foolke, þvi hañ hefur Onijtt minn Saattmaala; hvoriu samkynia er þad DRotteñ talade vid Nicodemum, og eg hefe adur aminnst. Nu þoott ad Barnanna Velferd sie hier undanntekenn, sem adur er sagt, þa vite þo hiner gomlu, sem forsooma a þeim soddañ Hialprædesins Medal, ad Gud vill þess krefia af þeirra Hende: Þar fyrer skielfdest og Zipphora Kviña Moysis, þa hann tafde ad umskiera sinn Son, Exod. 4. annadhvort fyrer heñar Umtolur, edur einhvorn annañ Tilgang, enn Gud mætte þeim i Giesta-Herbergenu, og ætlade ad sla Moysen i Hel fyrer þessa Forsoomun; Þvi skyllde ecke syndugum Monnum framar ollu odru þykia mikels verdt uñ þennann Haleita Hlut? Sa Stadur, hvar vor Endurlausnare liet skijrast, hefur an Efa vered Betabara, þar ed Johañes skijrde, sem raada ma þar af, ad DRotteñ gieck strax epter Skyrnena i Eydemorkena ad freistast, og epter Freistinguna kom hann til Johañem i Betabara aptur, hvar hann var ad þessu Guds Verke, Joh. 1. Þetta Ord merker Feriu-Stad, af þvi mikla Dasemdarverke, sem Gud giorde vid sitt Foolk, þegar hañ leidde þad i þessu sama Platze þurrum Footum i gegnum Ana Jordan

inn i Canaans Land, og verdur so hier um̃ skrifad, Jos. 3. Ad Ork DRottens hafe stad-ed midt i Fliootenu. Þetta ætte ad minna oss a, ad JEsus Christus er hin sana Ork Saattmaalans a mille Guds og Manna, hvor ed i Skijrnene samen̄ verdur: Hann er sa riette Naadar-Stooll, hvorn Gud hefur sett fyrer Trwna i hanns Bloode, hvar med hann fram̄bijdur þad Riettlæte, sem fyrer honum er fullkomed: Þar fyrer ert þu minn JEsus ofannstijgen̄ i Jordan, allt Riettlæte upp ad fylla, þu hefur staded midt i Vatns-Floodenu, so vier þurrum Footum inngengium i Guds Rijke. Þu eilijfe Jehoschua, sem oss hefur hoolpna giort i hærstum Hædum! Þig hefur Gud, þinn Gud, daasamlega miklad, laangt fram̄ yfir Josuam a þijnum Skijrnar-Dege, þegar hann gaf þier fyrer Skijrnar Saaenn i Ordenu heidnar Þiooder og Endemork Jardarennar til Arfleifd-ar, Ps. 2. Þu blessada Saattmaals Ork! i þier er bunden̄ Saattmaale goodrar Sam-vitsku vid hin̄ straanga og riettlaata Gud, 1. Pet. 3. hvors Utlagar vier erum vordner i Adam, og Landraadum vid hann seker med Diosulsins Pioonkan; Þu hefur sundur-klofed, ecke Vatnsfollenn, helldur Himnana, sem med Yfirtrodslu Logmaalsins voru tilbyrgder. Þu ert aadreisdur med þvi rietta Saattmaals Bloode, sem i vorn Skijrnar Saaer wtrun̄ed oss til Riettlætes og Helgunar. Þu stoore Hertoge Guds Heilogu Þusunda! þu hefur fyrer þijna H. Skijrn flutt oss yfir um̃ Jordan, og slited vora Ut-legd; Þu hefur fært oss fraa Egyptalande til Canaan, fraa Myrkrunum til Liioossens, fraa Diosulsins Vallde, og sett oss i þitt Rijke, Col. 1. Siaae hier nu Christner Men̄, hvad miked oss Skijrnen̄ gagnar: Og þoott Gud rate adra Leid in̄ i þad Fyrerheitna Landed med þeirra Saaler, er hann sialfur burtkallar, aadur enn þeim þessa Medals auded verdur; þaa er audvitad hier af, hvad miklu soddan̄ Guds Raadstofun orkar, til vorrar Saaluhiaalpar: J saam Ordum ad segia; Hun er þad fyrsta Port til Saalu-hiaalparennar. Endurlausnarenn kallar sig Dyr Saudanna, Joh. 10. Hier verdur hann allra fyrst a Veige fyrer ollum þeim, er sijdann eiga Lijfsins Veg ad gaan-ga inn i Guds Dijrdar-Rijke, og hun er hin fyrsta Trappa til Andlegs Lijfs, so sem hin̄ Lijkamlegi Gietnadur er til þess Holldlega. Vier erum i Skijrnene endurgietner, þvi Paulus segier; Ad vier so marger, sem skijrder erum, vier hofum Jklædst Christo, Gal. 3. Enn aptur segier han̄, 2. Cor. 5. Ad ef nockur er i Christo, þaa sie hann Nij Ski-epna, og fyrer þessa Nija Skiepnu bijr Christur i vorum Hiortum, Eph. 3. Fyrer hana kollunst vier Guds Mustere, 2. Cor. 6. Fyrer hana verdum vier innplantader a hid sanna Vijntried, Joh. 15. JEsum Christum; Fyrer hana heitum vier Limer Christi Lijkama, 1. Cor. 12. Vier hofdum i Falle vorra Fyrstu Forelldra mist hid sa-nna Riettlæte, so ad vorar bestu Athafner voru eige betre i Guds Auglite, enn Nidlags Fat, Esa. 64. JEsus hefur bætt vort Raad med sijnu Riettlæte, enn þad kunne ecke þeim til ad reiknast, sem voru Guds Oviner, þvi hefur hann i Skijrnenne Endurfædt oss og giort oss Guds Born af Diosulsins Bornum, so han̄s Eingietens Sonar Dijr-darfulla og yfirgnæfan̄lega Riettlæte yrde tilreiknad han̄s Brædrum, en̄ ecke Andskot-

aus

anns Limum. Þad er ecke um Skort fram, ad DRottenn segier vid Johannem: Lat Þu So Vera, Þannenn Byriar Oss Allt Riettlæte Upp Ad Fylla. Ad Christur þyrfte ecke sinna vegna ad skijrast, er kunnugra medal vor enn um þurfe ad tala, þvi hvornenn kunna Menn ad skygna Glased, eda Soolena biartare ad giøra? Helldur er Christur skijrdur svo vel sem umskorenn, uppa þad, ad hann helgade Sacramentenn, og forþienade oss Arfstoku Guds Barna fyrer þau somu. Christur var ad sönu alltijd vort Riettlæte, þvi Gud sende Sonenn i Heimenn, ad hann vort Riettlæte yrde. 1. Cor. 1. Hann er ordenn Bølvan fyrer oss, ad vier yrdum Guds Riettlæte i honum, Gal. 3. Hann er Jehova vort Riettlæte, Jer. 23. Og þetta Riettlæte hefur vor HErra med sijnum allra Helgasta Dauda oss wtvegad; Enn hier vantade þad Medal, med hvoriu oss skyllde þetta Riettlæte tilreiknast, so þad kinne a oss ad hrijna, hvort eg segie Skijrnena ad vera, og fyrer Skijrnena Endurgietninguna, þvi erum vier og i hanns Dauda skijrder, þvi trwe eg þess fastar sem St. Paall helldur styrker mig i þeirre Trw, er hann segier, Tit. 3. Ad hann hafe oss hoolpna giortt fyrer Endurgietningar Vatns-Saaenn og Endurnijungar H. Anda, hvorlum hann hefr nooglega wthellt yfir oss, fyrer Jesum Christum vorn Frelsara, svo vier riettlætter fyrer hanns Naad, yrdum Erfingiar Eilijfs Lijfs epter Vonenne.

So er nu vor Skijrn byggd a Christi Allra-Helgustu Skijrn, enn af vorre Skijrn framkiemur Riettlætingenn fyrer Gude, sem er Fyrergiefning Syndanna. Þessu sijnest mier ad Faderenn lijse, þegar vor Brooder, sem oss er ad ollu lijkur, ad Syndenne undanteknne, þegar hann stie upp wr Anne Jordan, segiande: Þesse Er Minn Elskulegur Sonur, J Hvorium Mier Velþocknast. Til hvors er þinn Sonur i Heimenn komenn, naaduge Fader? Synduga Menn Saaluhoolpna ad giora, 1. Tim. 1. Þvi hefur hann i sinne Skijrn allt Riettlæte uppfyllt? Til ad kalla synduga og ecke riettlaata til Ydranar, Matth. 9. Þvi liet hann Skijrnena vera Inngang sijns Kiennemannlega Embættes? Þvi hann villde hun yrde vor Inngangur til hinns Andlega Kiennemannsskapar. Þvi er Herrann af sijnum Þienara skijrdur, Skaparenn af Skiepnunne, Gud af Mannenum, Soolenn af Morgun-Stiornunne, hinn heilage af Syndaranum, Meistarenn af Læresveinenum? So ad þu fyrer þessa og alla adra hanns Forþienustu, giorder synduga Menn þijna Þienara, þijnar Skiepnur, þijns Sonar Læresveina verduga og hæfelega i hanns Nafne ad framkvæma a odrum sijnum Lijkum þetta þitt Eyrende, og ad skijra med Vatne eins og Johannes, þar DRottenn sialfur vill med Anda skijra. Þetta hefur honum þocknast fyrer sialfann sig ad wtrietta, i hvorium þu hefur alla þijna Velþocknan. Muntu þa hafa Oþocka a þeim, sem hann ecke skamast sijn Brædur ad kalla, fyrer somu Skijrn? Ef hann hefur i sinne Skijrn allt Riettlæte uppfyllt, munt þu þa ganga i Doom vid Raangla atann, sem i hanns Dauda er skijrdur? Ecke er þad ætlande til þinna heitu Myskunar Ydra, sem giefed hefur oss Sonenn þegar vier vorum enn þa þijner Ovíner, Rom. 5. ad þu muner ecke giefa oss alla Hlute med honum, Rom. 8. Þar hann hefur i Endurgietningar Laugenne giort oss ad þijnum Bornum, þar fyrer

vegsomum vier þijna Guddoomlega Hæatign i bliwgustu Audmykt vors Hiarta, enn nu i Dag standande i þijnu Auglite, med þijns Þienara St. Peturs Ordum, af hañs Fyrra Pistels 1. Cap. segiande: Blessadur sie Gud og Fader DRottens vors JEsu Christi, sem af sinne mikille Myskunseme hefur Endurgieted oss til lifande Vonar, fyrer Uppriisu JEsu Christi fraa Daudum, til þeirrar Arfleifdar, sem ecke kann ad skiemast, ecke saurgast og ecke ad rotna, hver oss er ætlud aa Himnum. Hvornenn Madur sie epter Holldlegu Edle, þad sijner oss St. Paall aa þeim sem ad eingvu nijta sijna Endurfædingu, og ecke hyrda um hana ad endurnija. Um Skilningenn talar hañ, ad Holldsins Vitsmuner sieu Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Um Viliann, ad Hollded gyrnest i moote Andanum, Gal. 5. Um Gyrndernar, ad þær strijde i moote Saalunne, 1. Pet. 2. Þoott ad þesse Vanheilsa Saalareñar verde nu alldrei fyllelega læknud, so leinge vier lifum i þessu Hollde, so sem Paulus þad nooglega vottar, med mikellre Harma-Klogun yfir sialfum sier, Rom. 7. Þaa samt verda vorar Saaler i Skijrnenne, fyrer Verkan H. Anda, tilbwnar til ad mootstanda þvi illa, og vorer Limer til Riettlætesins Ibwdar, epter þeirre Mæling, sem ad þetta Forgeingelega kann ad þola, so ad þegar H. Ande straffar i oss Syndena, uppvekur Trwna, efler Þolennmædena, styrker Vonena, kveikir Elskuna til Guds og Naungans, añadhvort fyrer Ordsins Heyrn, i hvoriu hann bijr, edur og fyrer Gudrækelega Þanka, þaa gietur saa honum samsiñt og auked sijna Endurnijung, sem honum ecke mootstendur, annadhvort med Hyrduleyse, Þverwd edur sialfskapadre Vantrw, hvor ad sonnu er i voru Vallde, so sem allt hid illa, enn ecke Trwenn, hvor ad er Guds Verk, Joh. 6. Og segier vor Endurlausnare oss allra best Greinarmun aa millum þessarra Tveñslags Flocka, þeirra sem nockur, og þeirra sem eingenn Not hafa siñar Endurfædingar, Joh. 15. Eg em þad saña Vijntrie, enn Fader miñ er Vijngards Madureñ, sierhvorn þañ Kvist sem ecke ber Avoxt, mun hañ burttaka, og hvorn þañ sem Avoxt ber, mun hañ hreinsa, ad hañ bere meire Avoxt. So verdum vier nu i Skijrnenne endurnijader til goodra Verka, hvad Paulus vottar, Rom. 6. Vier erum jardader med Christo, fyrer Skijrnena, til Daudans, ad lijka sem Christur er uppriseñ fraa Daudum fyrer Dijrd Fodursins, so eigum vier ad gaanga i Endurnijung Lijfdaganna. Þanneñ verdum vier nu i Skijrneñe andlega Endurfædder, riettlætter og Endurnijader, og þoott ad vor Goodverk, ef nockur væru, sieu Ofullkomenn, og ecke i sialfum sier betre enn margra Heidingia, þaa samt lijka þau Gude betur, þvi þau framkoma af þeim, sem i Skijrnenne eru Guds Born ordner, og riettlætter i heilagre Vatns-Laug, fyrer þañ Fullnad, sem Gude er golldeñ i Christi saklausum Dauda, eñ oss tilreiknadur fyrer Endurfædinguna. Jeg fæ mier ecke til Orda um þaa, sem þar fyrer utañ eru, 1. Cor. 5. Gud veit þad sialfur sem Mañeñ skapad hefur, af hvorium Krapte verkast i þeim þær Dygder, sem oss munde torsookt epter ad breita, og hvort Alit þær hafa i Guds Dijrdarfulla Auglite, er honum kunnugast, sem er Doomare alls Holldz. Jeg þacka alleina hanns Al-

maatt

mattugre Goodgyrne, ad hañ hefur oss, sem a hañs Nafn trwum, þeña Veg tilbwed, og opiñberad til Saluhialpariñar; og fæ eg mier Ordsøk hier wt af ad þeinkia, hvad miklu Obærilegra oss muni verda a Doomsins Dege, helldur eñ þeim, ef vier afrækium þessa Guds Naad, og gaungum ecke verduglega þeirre Kallan, hvar iñi vier erum kallader. Draged ydur þar fyrer ecke sialfer a Talar, Br. M. so sem mundum vier þar fyrer meira Frelse hafa til ad syndga, ad vier erum endurgietner. Þesse Guds Goodgyrne a ad krossfesta i oss hinn gamla Adam, eñ ecke ala hann a Eytre Syndarinnar. Hun er af Gude skipud til ad temia Hollded, enn ecke til þess ad rækia þad so miøg, ad þad fremie sijnar Gyrnder, Rom. 13. Þad er noogu stoor Velgiorningur, sem Gud oss giørde i Skijrninne, ad hann tilbioo so vorar Saler daudar i Syndunum, ad H. Ande kynne i þeim ad lifa og verka gudrækilegt Athæfe, þoott ecke heimtum vier þad af honum, ad hann laate sier þad allt þocknast, sem voru Hollde gott þykir. Skulum vier þa i Syndunum lifa, soo ad Naaden yfergnæfe? segier Paall, Rom. 6. Fiærre sie þvi, seger hann, vier sem dauder erum Syndeñe, hverninn skylldum vier framveigis i henni lifa? Ef vier erum innplantader Lijking hañs Dauda, þa munum vier og verda Lijking hañs Upprisu, seger hañ. Hvor St. Paals Ord eg so skil, ad fyrst Gud hefur deydt Afl Syndarinnar i oss med sijns Sonar Dauda i Skijrninne, þa hafe hañ giefed oss so mikinn Anda-Kraft, ad vier gietum uppriseð af Dauda Syndaña, so þær ecki drottni framar i vorum daudlegum Lijkama: Og væri ecki so, ad nockud af þessu stædi i voru Valldi, sem endurfædder erum, munde Ritningeñ ecke so tijdt skipa oss ad deyda hiñ gamla Mañeñ, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins. Edr hvad er þad hañ segier? Rom. 12. Samlaged ydur ecke Heime þessum, helldur uñmynded ydur med Endurnijung ydvars Hiarta. J øllum þvilijkum Greinum Ritningariñar sie eg ecke annad, enn ad Guds Ande vorkieñe ecke endurfæddum Manne ad þocknast honum; Sw er þa Meiningenn, jafnvel þoott ad vier i eingann Maata algiørder sieum, edur kunnum Guds Løgmaal upp ad fylla, samt hefur Gud giefid oss i Skijrniñe so mikla Krafta, ad vier gietum viliad hid Gooda, jafnvel þoott hid Vonda lode vid oss, Rom. 7. og þurfum ecke ad mootstanda H. Anda, eñ adhyllast Holldsins Verk. Sö laated ydur nu sagt vera, Br. M. ad þier þessum gudrækilegum Aminingum hlijduger sieud, og yfervegied Guds Owtsegiannlega Giædsku, sem ydur i H. Vatns-Laug hefur andlega endurgieted, ecke til þess, ad þier lwæd Limu ydar Ranglætinu til Jbwdar, helldur ad þier helged Gud i þeim, so sem nijar Skiepnur. Alijted þañ Sooma, sem Guds fodurleg Giædska hefr ydur i Skijrniñe veittañ, þar ydur er Makt giefiñ Guds Børnum ad vera, Joh. 1. Hia hverri Sæmd, ad allrar Veralldariñar Tign og Herradæme er Endeme ad reikna, Gal. 3. Þier erud i Skijrninne Christo Jklædder, hvorsu meged þier þann fagra Skrwda nijda og ata med saurugum Holldsins Verkum? Vited, ad Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samann, 2. Cor. 6. Hversu meged þier þa Tveimur so Olijkum Herrum þioona? Þier erud i Skijrninne Christi

Limer ordner, vared ydur þad þier giored ecke Christi Lime ad Satans Limum, 1. Cor. 6. Þier erud i Skijrninne vijgder og helgader til ad vera Guds Mustere, enn þañ sem þad saurgar, vill hann straffa, seger Paulus. Þier erud iñplantader æ hid saña Vijn-Trie Christum, Joh. 15. Siaed til, ad þier verded ecke afhoggner og i Elld kastader. Allt hvad Gud hefur ydur Gott giort i andlegum Efnum, ad hañ hefur giefid ydur siñ Eingietinn Son, ad hann hefur ydur fyrer hann opinnberad siñ Vilia; ad hañ liet hañ hwngra og þyrsta, ad hann liet hann afklædast, hwdstrijkiast, Hrækum og Slogum Ogudlegra Manna undergiefinn, og med Þyrnum Coronadañ verda, og um sijder þola hinn smæanarlega Krossens Dauda, ad hann hefur tilreiknad ydur Ræanglæatum hañs blessada Riettlæte, sem alleina fyrer honum gyllder, og wtsendt sinn Anda i ydar Hiortu til eins Pants og Innsiglis þar uppæ: Þad allt samann, so miked sem þad er, sem er þo so miked, ad Himin og Jord er ecki Heystræs Virde þar hiæ ad reikna; Þad alltsamañ, sege eg, er oss i Skijrninne giefid; þvi er þad Skom vor, ad afrækia þessa stooru Guds Næad og gæanga i Lid med Fiandanum og hanns Arum, sem eingu launa þæa Þioonustu er Menn veita þeim, nema eilijfre Kvol og Pijslum i þvi Dijke sem vellur af Ellde og Breñesteine, Op. B. 19. Hvar fræ oss og oll sijn Born vardveite goodur Gud i Nafne JEsu Christi, AMEN.

# Fyrsta Sunnudag i Fostu.

Gudspialled, Luc. 4. Cap.

I Þañ Tijma. Þa var JEsus leiddur af Anda æ Eydemork, uppæ þad, ad hañ yrde freistadur af Dioflinum. Og þa hañ hafde fastad Fiorutijger Daga og Fiorutijge Nætta, Hwngradi hañ sijdañ. Og Freistariñ gieck til hañs, og sagde: Ef ad þu ert Guds Sonur, þa seig þu ad Steinar þesser verdi ad Braudum. Eñ hañ svarade og sagde: Skrifad er; Madurenn lifer ecke af Einusamann Braude, helldur af sierhveriu Orde, þvi sem framgeingur af Guds Muñe. Þa took Diofulleñ hañ med sier i Borgina Helga, og sette hañ uppæ Musteris Bustina og sagde til hañs: Ef ad þu ert Guds Sonur, fleig þier hier ofañ af, þviad skrifad er; Ad hañ muni biooda Englum sijnum um þig; ad æ Hondum bere þeir þig, ad þu steiter ecke Foot þiñ vid Steine. JEsus sagde til hañs; Eñ aptur er skrifad: Eige skalltu freista DRottiñs Guds þijns. Og eñ aptur flutti Diofulliñ hañ med sier uppæ eitt miog ofurhatt Fiall, og sijndi honum oll Rijke Veralldarñar og þeirra Dijrd, og sagde til hañs: Allt þetta mun eg giefa þier, ef ad þu framfellur og tilbidur mig.

mig. Þa sagde JEsus til hañs: Far i burt fra mier Andskote, þvi ad skrifad er: DRottiñ Gud þiñ skalltu tilbidia, og hønum einum þiona. Þa forliet Diøfulleñ hañ; Og sia þu! Ad Englar komu til hañs, og þionudu hønum.

## Exordium.

I. Sam. 17. Cap. verdur oss kiennt uñ David, er sijdann vard Konungur i Israel, og Risañ Goliath, hversu þesse var af hinum ad Velli lagdur med einum Slaungu-Steine. Þessi Frækleikur Davids var so miøg ægiætur, ad Kvinnurnar geingu wt af Israels Borgum, og sungu: Saul vann Sigur a Þusund, enn David a Tiju Þusund, 1. Sam. 18. Nu þoott ad þetta Afreks Verk Davids sie merkilegrar Hroosunar verdugt, þa hefur þo Sonur Davids, Matth. 1. HErrann JEsus Christus, eitt annad miklu meira unnid a hinum helvitska Goliath Andskotanum, sa ed brijxlade Fylkingum Guds lifanda, æ sijdann hann sveik vora fyrstu Forelldra i Paradijs: Þar hann hefur Høggormsins Høfud i sundur brotid, Gen. 2. med þeim Steine, sem Uppbyggendur hafa forsmaad, þad er med sialfum sier: Þvi siaed, hier er meire enn Goliath. Hann var einn Madur: Satan er einn Diøfull. Þoott Goliath væri Ogurlegur, þa var hann allur þar sem hann var siedur: Satan er ein Hamhleipa, svo hann bregdur sier jafnvel i Lioossens Engils Lijke, 2. Cor. 11. Goliath fylgdu ad sønnu mørg Þusund Philistæaña, enn Andskotanum fylger Oflijande Her: Þridiung Stiarnanna dregur hinn skarlege Dreke i sijnum Hala, Op. B. 12. Og mikla Sveit Ogudlegra Manna, sem hañs Merki fylgia. Þennañ sterka Her-Vijking hefur JEsus Sonur Davids sigrad, og afklædt hann sinni Hardneskiu og sijnum Vopnum, a hvør hann treyste, Luc. 11. Hafi nu Kvinnurnar i Israel prijsad David med þessum Dijrdar Dikt, fyrer þañ Sigur, er hañ vann a Risanum, þvi skylldu þa ecke Zions Dætur, sem eru Guds andlegar Meyar, sijngia og spila i sijnum Hiørtum fyrer þeirra Konungi? Segiande: David vann Sigur a Tiju Þusundum, enn JEsus Sonur Davids a Oteliande Þusundum Þusunda, a margra Þusunda Høfdingia, a Þusund Viela Meistara, og hefur sijnar H. Þusunder af hanns Valldi hertekid. Medal annarra DRottiñs vors Frægdar-Verka, heyrum vier i þessa Dags Evangelio eitt Einvijge, millum þess allra Besta og hinns allra Versta, millum þess Stoora Michaelis, og hinns gamla Dreka, sem kallast Diøfull og Andskote, ecke a Himninum (svo sem Op. B. 12. verdur umgieted), sem er Guds Hæsæte, helldur a Jørdunne, hvøria Satan kallar sitt Rijke. Og sokum þess, ad þetta huggunarrijka Efni verdur a þessum heilaga Degi predikad i Christnum Søfnudum medal vor, þa vilium vier þad nockud framar yfervega, og af vorum Hertoga læra, hverninn vier eigum Hollds ins, Heims ins og Andskotans Freistingum i mooti ad standa.

Enn styrk oss hier til DRottenn med Naad þinni fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen.

Magt er oll Viela-Brogd Satans upp ad telia; Eñ Gud næde oss! Fleiri mættum vier þeckia, helldur enn vier hyrdum uñ ad varast. J þessu H. Evangelio heyrum vier, ad hañ med Þrefolldu Ahlaupe rædur a Lausnaran. J Fyrstu segier hañ: Ef Þu Ert Guds Sonur, Þa Seig Þu Ad Steinar Þesser Verdi Ad Braudum: Med hveriu ad lijklegt er, ad hañ hafi viliad reyna, hvert hann være hinn fyrerheitne Meßias edur ei, þvi hann visse, ad Meßiæ vorü aller Hluter under Fætur lagder, Ps. 8. Og hann var Herra og Erfinge allra Hluta. Ef Þu Ert Guds Sonur; segier hinn Vondi: Þad ma ecke satt vera sem þu heyrder vid Jordan, ad þu Guds Sonur værir, þar hann lætur þig hungra; Hversu agiætlega hefur Gud sijna Velþocknan i þier? ad hann hefur þig yfirgiefid hier i Eydemorku a medal Villu-Dijra, Marc. 1. Og ef so vera kann, ad hann reyni þig med sodann Moote, þa bind Enda hier a, og reyn aptur, hversu Sannsogull og halldinordur hañ er, Og Seig Ad Steinar Þesser Verde Ad Braudum, so þu neyta meiger. Eg efast ecke uñ, ad Holld og Blood muni og þvilijkar Fortolur hafa fyrer þeim, er mootdrægt eiga i Heiminum. Gud hefur lofad, þad hañ vilie miñ Fadir vera; Hverniñ er eg þa vordiñ ad Hiaa-Barne? Hañ segier, ad Lijfed sie meir eñ Fædslañ og Lijkamiñ meir eñ Klædnaduriñ, Matth. 6. Nu hefur hañ mier hverutveggia i fyrstu giefid, þvi fæ eg þa ecke eitthvad af þessu til Vidurhallds? Betra være mier, þad eg hefdi hverigs Hluttakande vorded, helldur eñ eg a hverutveggia Naud lijde. Ef eg er hañs Sonur, þvi giefur hañ mier þa Stein fyrer Braud, edur Hoggorm fyrer Fisk, Luc. 11. þar hañ hefur þo sagt sig ad vera Fodur Myskunsemdaña, 2. Cor. 1. Eñ eg, sem vondur er og morgum Syndum hladenn, villde þad ecke giora vid Barn mitt. Þetta predikar Holld og Blood, þegar þad er ecke fyrer Augunum, sem eta skal. Hvad skal hier til segia, Christeñ Madur? Þad sem JEsus Andskotanum svarade: Maduriñ Lifer Ecke Af Einusamann Braude, Helldur Af Sierhveriu Orde, Sem Framgeingur Af Guds Munne. Med þessum Ordum hefur ecke Christur sagt þier, ad þu skuler burtkasta allre Ahyggiu fyrer Lijkamlegre Næringu, ecke lofad ad giefa þier þitt Braud, nema i Sveita þijns Andlitis, Gen. 3. ecke heited ad Hrafnarner skule færa þier Fædslu, 1. K. B. 17. þegar þu sefur med hinum Lata; Helldur svarade Frelsariñ Andskotanum wt af med þessu Moote, og kiende þier under eins, ad jafnvel þo hañ liete þig lijda Brest a Lijkamlegre Farsælld; skylldir þu ecke ætla, ad hann muni eige kannast vid þitt Faderne, so leinge sem þu hañ Ottast, og ræni hañ ecke sijnum Heidri: Þvi hvern þañ Son sem Fadiriñ elskar, þañ agar hañ, Hebr. 12. Ef Gud vill ad eg life, þa giefur hann mier Braud til ad lifa af; Lætur hann mig lijda Skort a Braude, þa vill hann samt ad eg life i Trwnne og Voninne. Eg vil bera mig eptir minne Atvinnu med ollum þeim Hætte, sem Gud hefur lofad, og epter þvi Orde sem framgeinged er af hañs Munne. Þocknest honum ad mitt Erfide skule ecke blessast eptir miñi Tilætlan, þa veit eg samt, ad hañ hefur ecke burtkastad mier

strax

strax i Daudans Hendur. Giefe Gud mier ecke Braud, so eg fæe lifad, þæ lætur hann mig deya, so eg eilijflega life. Er mier vandara um̃ eñ hañs Eingietnum Syne, hvorn hañ liet hwngra, so hañ freistadur yrde? Ad eg ad læta mig þad undra, þo hann freiste mijn um̃ Stundar-Saker, sem er ecke nema Ættleidingur? Þad sem hiner Egyptsku sogdu vid Joseph, Gen. 47. Þad sama vil eg vid miñ Gud segia: Þegar Hwngurs Naudenn took til ad kvelia þæ allt til Dauda, þæ sogdu þeir: Læt oss med voru Lijfe og Eignum vera Pharaonis Þræla, þad vier lifa meigum og ecke deya. Take Gud þad hañs er, ef honum so þocknast, og jafnvel sialft Lijfed, hvort hann sialfur gaf; Jeg vil bæde med þvi og ollu, sem mier tilheyrer, vera hañs Þræll, so eg æfennlega med honum rijkie; Þad vardar mig ad litlu, þoott hann læte mig ecke lifa af Braude, þegar eg life af þeim Ordum, sem framgeingenn eru af hanns Munne, ad hann vilie ecke freista mijn yfir Megn fram, helldur giefa Freistingunne þann Enda, ad eg stadest fæe, 1. Cor. 10. Madurenn Lifer Ecke Af Einusamann Braude: segier Lausnareñ. Ordenn eru tekeñ af Devteronomii Bookar 8. Cap. Þar Moyses sagde vid Israels Sonu: Þar fyrer hefur Gud þvijngad þig, og læted þig Hwngur lijda, ad hañ giæfe þier Man, hvort þu þeckter ecke og ecke Fedur þijner, so ad þeir kiendu þier þad, ad Madureñ lifer ecke af einusamañ Braude, helldur sierhvorju þvi Orde, sem framgeingur af Guds Muñe. Jeg er hræddur um̃, ad þetta Mæl kuñe hiæ sumum af oss heima ad eiga. Hvad munu þeir, ed nu allvijda i Heimenum uppvaxa, heyra af Fedrunum, so þeir kieñe þeim þad? Færed hijngad, bered hijngad, so ad vorar Hyrdslur fullar verde, og þar sie eingeñ Skortur i Hwsum vorum: Enn ecke ad leita Næringar sinnar epter þvi Orde, sem framgeinged er af Guds Munne, ecke ad læra nockud þad Soome er i, med hvorju þeir kuñe sialfer sijna Næringu ad wtvega, so þeir vite og meige med goodre Samvitsku segia þad þeir ete sitt eiged Braud, 2. Thess. 3. So ad þegar Skortureñ uppæ fellur, þæ fara Meñ ad hnoda Braud af Steinum, þad er, af þeim Hlutum, sem Gud hefur ecke þar til skickad, og alldrei þar til ætlad; þvi eru so marger þeir, ed med Oleifelegu og Oærlegu moote leita siñar Næringar, og bijda ecke epter þvi ad Gud hialpe; bæde þess vegna, ad þeir lærdu alldrei nema Odigder af Fedrum sijnum til ad leita Brauds med, heyrdu og um̃ fæatt annad talad, hinns og annars, ad þeir hafa æ Gude eckert Traust; þar þeir vita, ad hañ ecke brwkar slijka Atferd til ad fæda sijna. Þegar JEsum hwngrade, talar Satan um̃ Braud, þvi hañ visse þad var þad hellsta sem hañ mætte gæangast fyrer. Þessa Slægsmune hefur Holld og Blood af sijnum Meistara lært: Þad sem hvor er giefenn fyrer, þar um̃ þeinker hann optast; þad sem einhvor vid þarf, þad brwkar Satan til ad locka Manneñ til vondra Verka: Og svo sem eirn klookur Veide-Madur, hann leggur þad Agn fyrer Dyred, sem hañ veit þvi lostugast þyker, og þæ, þegar hann hyggur þad hafa mesta Epterlaungun; svo fiskar og Satan med Þorsinne, og kriddar Agned med Vellistingunne. Seig Þu Ad Steinar Þesser Verde Ad BRaudum. Þetta sagde hañ vid Guds Son, og hañ lætur ecke af ad predika hid sama fyrer odrum, sem eiga Guds

Børn ad heita, jafnvel þoott þaa drage engeñ Naud þar til, og er þvi æ verr og midur, ad honum tekst meir eñ skyllde i slijku hiaa allrahanda Foolke. Jeg spyr: Hann er uppskier, hvar hann ecke saade, giører hann ecke Steina ad Braudum? Hann sem wtsiigur Hws Ecknaog Fødurlausra, Matth. 23. under Hilmingu Laga og Riettinda, hañ sem svijkur sinn Naunga i Kaupum og Sølum, hann sem leggur Agn Onaudsijnlegra og Skadsamlegra Hluta fyrer hañs Ofrañsijne og Faafræde, til ad laata hañ hwngra aa hiñe vondu Tijd, enn seiter sialfañ sig þar med, saa er innehelldur Sveita þess er erfidar, saa ed svijkur þann i sijnu Erfide sem hann elur, klæder og launar honum; munu ecke aller þesser og þeir ed þeim lijker eru, munu þeir ecke, segie eg, giøra Steina ad Braudum? Þetta eru Krafta-Verk Andskotans, er hann verkar i Børnum Vantrwareñar, med hvørium hañ stioornar sijnu Rijke, og leider margañ einfalldann til sinnar Þioonustu. Satan apar epter Gude, hvør ed alla Hlute giørde af eingvu, og Satans Villdar-Meñ epter Christo hañs Smurda, hvør ed stadfeste sitt Rijke med Furdu-Verkum. Þegar Fiandeñ hefur kieñt einum ad feita sig af eingvu nema annarra Bloode, hvørt ad þeim Øvørum er floted burt wr Ædunum, þaa þenur hañ sig wt sem añar Jstru-Mage, Ps. 73. Svo ad faafrooder Menn glaapa aa hann so sem annad Furdu-Verk, og meina þad sie af Himnum komed sem hañ talar og bijdur, jafnvel þoott engeñ sie Hiegoome slijkur i Guds Dijrdarfulla Auglite. Ad eg nu ecke tale uñ þaa, sem þyggia Guds Ølmusu, hvøria hañ skipar i sijnu Nafne ad giefa þeim, er hann virdest ad kalla sijna Limu, enn under Skyne þeirrar føgru Nafn-Bootar, stela þeir, liwga og ræna, eru bakmaalugær, obacklaater, illyrdter, haadgiarner, formæla þeim er briøota þeim sitt Braud, og i Stadeñ þess, ad sañer Guds Limer leita sier Ølmusu i hanns Otta, hiaa þeim sem hañ hefur skipad ad medtaka þaa so sem sialfañ sig, þa fremia þesser allra-handa Skañer og Leste i hañs Nafne, liwga vid þad og svijkia, sveria og formæla, uppaa þad þeir faae sijnum Odaadum skylt fyrer Møñum. Þesser hygg eg, framar øllum ødrum, giøre Steina ad Braudum, verda þo af oss aa Stundum jafnframt ødrum, sem rietta Tiltølu eiga, Bordsetter i þvi almennelega Hospitale, sem Gud Allsheriar Konungur hefur stiptad i siñe Christelegre Kyrkiu. Munum vier þessa mikel Not hafa, Br. M. i Upprisu riettlaatra, ef vier giørum þad vijsvitande? Eda þykiunst vier trwer Raads-Menn vera yfir Guds Gotze, sem hañ hefur oss til Umraada, og ecke æfennlegrar Eignar, feinged, þar vier giørum eingvann Greinarmun aa þessum, og kostum Forsorgun Guds Faatækra Lima fyrer Andskotans Limu, giørande þanneñ ecke Steina ad Braudum, helldur Braud ad Steinum i þeirra graadugum Muñe, hvørium Leindar-Braud smackast listelega, enn sijdañ uppfyllest Muñureñ med Smaa-Steina, so sem Salomon ad Orde kiemst, i hañs Ordskvidum Cap. 20. og sialfa oss ad þeirra Hluttøkurum i Syndeñe, under Skyne Mijskunsemennar og goodrar Meiningar, enn allra hellst Mannords vegna, hvørt oss mun þo ecke fylgia epter Daudañ, allra sijst inn i eilijft Lijf, þvi þar hafa ecke Fyrerheit nema þær Ølmusur, sem giefnar eru i Læresveins Nafne, Matth. 10.

Þad maa vel skiliast um þaa sem eru saññer Christi Lærefveinar, takande sinn Kross uppaa sig og fylgia hønum so epter. Þetta giørum vier, Brædur, og þykiunst vel giora, jafnvel þoott oss meige alkunnugt Bodord St. Pauls, 2. Thess. 3. er hann segler: Þegar vier vorum hiaa ydur, budum vier ydur þad, ad ef nockur vill ecke erfida, þaa skal hann ecke eta, þvi vier heyrum ad nockrer gaanga aa medal ydar Osskickannlega, giørande eckert, helldur hnijsa faafeingelega (hvort Mark vier meigum þeckia aa nockrum vorum Olmusu-Moñum): Þessum bioodum vier, segier Paulus, fyrer DRottenñ vorn JEsum Christum, ad þeir erfide med Spekt og ete sitt eiged Braud; Eñ ef nockur hlijder ecke þessu voru Bode, þaa teikned mier þad til, og hafed ecke Umgeingne med hønum, so hann skammest sijn. Um hina fyrstu Freistinguna høfum vier nu heyrt þaññ talad; eñ þegar Satan merker ad hønum tekst ecke ad locka JEsum med Efasemenne, reiner hann til aa hinn Veigenn, og vill freista hanns med Oftrauste. Noogu vel talade Satan um sialfann sig, Job. 1. Ad hann sagdest hafa geinged um krijng; þvi fyrer utañ þad hann geingur um krijng sem greniande Leon, leitande ad þeim sem hann kuñe upp ad svelgia, þaa er hønum þesse Atferd nærsta tom, er hañ brukar hier vid Christum, ad fara um krijng og leitast vid aa allar Sijdur, eins og eirn slægvitur Hertoge, þa hañ umsitur eina Borg, enn Bæarmeñ hafa med ølkum Lids-Afla fyrerbwest i þeim Stad sem þeir ætludu sier mestrar Hættu Von, þaa fer hañ ad þeim Ovørum i krijng, og rædst þar til sem engeñ er Vorn fyrer: Svo giorer Diøfulleñ; giete hañ ecke flækt Maññ i Hyrduleyse, leitar hann til med ofmiklum Ahuga, ef ecke i Mistrauste, þaa med Oftrauste, ef ecke med Hofmood, þa med Hugleyse, ef ecke i Heimsku, þaa med Siervitsku; Og so framveigis.

Ef Þu Ert Guds Sonur, Þaa Fleig Þier Hier Ofañ Af. Alkunnugt er oss, Br. M. hvad margur er aa medal vor, sem Ovarlega fer med Lijf sitt, so sem være þad eirn Hlutur, er hañ kinne strax aptur ad kaupa, eins og adra Voru: Soddañ Apaskap kalla Meñ Hugprijde, og hvor Daareñ metst vid añañ, svo sem være þad goodur Hlutur. Ad spara ecke Lijf sitt fyrer Guds Saker, þegar hañ vill þad so hafa, og Menn hafa Guds Ord fyrer sier, ad þad sie hañs Vilie, þad er hinn aagiætaste Hlutur og Elsku-Merke til Guds, þvi eingeñ elskar eirn meir, enn hann giefe sitt Lijf wt fyrer hann, Joh. 15. So er þad og kostulegt, ef nockur vogar Lijfe sijnu, Lande og Lijdum til Varnar, þvi þad er Kiærleikans Verk, Gud hefur þad og sambickt, og boded allvijda hiaa sijnu Foolke Israel. Og eg sie, ad Lausnareñ ecke Ovirdte Hundrads-Hofdingiañ, þoott hañ Strijds-Madur være, Matth. 8. Eige helldur vijsade Johannes Strijds-Monnunum fraa sinne Skijrn, helldur gaf þeim Bodord, hvornenn þeir lifa skylldu i sijnu Stande, Luc. 3. Enn þad skiedur tijdast, Br. M. ad þeir sem eru diarfaster i Heimskunne, þeir eru ragaster i þessum Hlutum, og kiemur þad ecke til af Hugprijde, helldur af Ovitirleik og Einræde; af þvi Gud hefur vardveitt þaa so tijdt i Haaskanum, þaa meina þeir ad þad kule alltijd eins gaanga. Enn hvor vill skyllda hinn almaattuga til þess? Hann vill ecke laata trwa sier til þeirra Hluta, sem hann ecke lofad hefur. Gud hefur lofad, ad

hanns Englar bere oss a Hondum sier, Ps. 91. Enn ecke nema a Vegum vorum. Þvi Orde stal Diofulleñ undañ, þa hañ talade vid Christ, og maa skie hañ stele þvi og wr þijnu Hiarta, þa hañ gyller fyrer þier Haaskañ, og þu meinar þad sie allt þiñ Vegur, sem þier hefur einusinne fleytst yfir: Slijkt er ad freista D Rottens, hvor Synd ad hefur hiñ versta Vitnisburd i Ritningunne; Enn ef þu i burtu deyr midt i þessare hrædelegu Synd, hvad mun þa af Saaluñe verda? Læt þvi ecke locka þig af fiflslegre Akiefd edur faanijtu Hroose (sem þo er ecke nema i Heimskra Munne), til ad lijda Skipbrot a Saalu þinne, fyrer hvoria Guds Sonur er daaenn, Rom. 14. Nu þoott Daarask apureñ sie stoor hiaa morgum i þessu, þa er hañ þo ecke minne i odrum Efnum. Satan visse ad skrifad var um Messiam: Snart mun sa Doomarenn koma til sijns Musteris, Mal. 3. Hefur honum maatt þvi lijklegt þykia, ad ef hañ þottest Messias vera, þa munde honum hier flestallt leyfast. Þegar Gud hefur nockrum stoort Umdæme i Hendur feinged, og sett hañ uppa þad haa i sinn Stad, þa er hætt vid, ad Holld og Blood meige ad honum hvijsla: Hier kañ mier eingeñ ad granda; Og hvad jeg adhesst, þad maa gott þykia. Fyrer þessar Satans Umtolur hefur margur Haalsenn broted. Og af þvi hann munde ecke til þess Stadar, er hann var tekenn fraa, sem er Leyr Jardareñar, þegar honum var lypt upp i Hædena, þa vard Falled hærra eñ hann varde, so ad þad Leyr-Kiered, sem Ovarlega var medfared, datt i Smaa-Mola. Þegar Meñ eru i Guds Stad setter, þa þeinkia þeir lijtt þar til, ad þeir eru af sama Efne giorder og adrer Menn. Þetta hefur morgum komed til ad ætla, ad hañ være Guds Jgyllde, þegar hañ ried fyrer odrum, so ad nockrer hafa lided þad Hræsnenne, ad setia þad haaleita Nafn uppa eina Vatns-Boolu, hvar um Caligula, Nero, Domitianus og adrer bera liooslast Vitne. Þar verdur ecke a moote mællt, ad Madurenn er eitt Drambsamt Dyr, Jer. 17. Strax sem Luckunnar Svip-Vinde hefur brugded vorre Molld og Osku i Lopted upp um Stundarsaker, þa vilia sumer Menn vera eins og Rik i allra Manna Augum, giætande ecke þar ad, ad þegar Vedrenu slotar, þa fellur Dupted a Jordena, hvadann þad kom; so þeir, sem blinder urdu i þessum Þit, verda heilskigner aptur, og troda þad under Footunum, fyrer hvoriu þeir hræddust litlu adur. Hier vid kañast David Konungur, sem bæde a sier og sijnum reint hafde Luckunnar Mislynde, er hañ segier, Ps. 1. ad þeir Ogudlegu sieu eins og Rik þad, hvoriu Vindureñ feiker, þar fyrer kunne þeir ecke ad standast i Doomenum. Fyrer þvi, hafe Gud nockurn haatt settann, og giort hañ ædre odrum Monnum, er þad i Vijsdoome eda i Yfirvallde, er þad i Aud og Rijkedæme, er þad i Lijkamans Styrkleika, edur odru Atgiorfe, þa þeinke hann med sier, ad hañ a ecke þar med ad hondla, so sem honum sialfum lijkar, helldur so sem Gud hefur boded, og hafe fyrer Augum sier þad Paall segier; Hvad er þad Madur, ad þu hafer þad ecke þeiged? 1. Cor. 4. Þier erud Guder, segier David, Ps. 82. eñ þo skulud þier eins og Meñ deya. Tokum oss Ordsok þar af ad þeinkia, ad þoott Gud hafe sett uppa oss nockra Lijking sialfs sijns, edur Skugga sinnar Tignar i þvi ad raada

fyrer

fyrer ødrum, þa kiemur þo sa Dagur um̃ sijder, ad Meñ skulu standa Reikningskap af þeirra Raadsmennsku, Luc. 16. Þad var vel tilfunded, sem Tals-Madur þeirra i Schytia sagdi vid hinn stoora Alexandrum. Ef þu ert Gud, þa att þu ad medbijta Mønnunum þijn Giæde, enn ecke ad taka þeirra fra þeim. Ecki var Guds Eingietnum Syne Omøgulegt ad stijga ofann af Musteris-Bustiinni, enn hañ villde ecke giøra Kraptaverk Andskotanum til Eptirlætis, eige helldur til Skiemtunar Herodi edur hanns Villdarmønnum, Luc. 23. Hann giørde sijn Dasemdarverk alldrei forgiefins, helldur Moñunum til gooda; Hann læknade Siwka, P. G. 10. Mettade hwngrada, Joh. 6. Uppvakte Dauda, Joh. 11. Snere Vatne i Vijn, þegar medþurfte, Joh. 2. Þu sem af Gude hefur, fram̃ yfer adra, miked þegied, gack i hañs blessud Footspor, og ef þu villt sijna þijna Yferburde i nockru, þa giør þad til Gagns og Nota þiinum Brædrum i Heiminum, og lat eingum illa lijda af Guds Gafum fyrer þijna Vanbrwkun; Enn sijn ecki Fordilld þijna þar med, Andskotanum og vondre Verølldu til Athlaturs og Augna-Gamans. Nu høfum vier þañiñ heyrt þessar Tvær Freistingar.

Enn þegar Satan finnur ad hann ecke neitt orkar med Efasemeñe edur Oftraustinu, med hveriu hann plagar almennilega ad pretta Manniñ i Heiminum, og eru hañs daglegar Veidebrellur, þa tekur hann til þess, sem hann visse ad sterkast var, sem er, Oleifileg Gyrnd til Audæfa og Metorda. Texteñ segier: Ad hañ hafe fært HErrañ uppa eitt ofurhaatt Fiall, og sijnt hønum þadañ øll Rijke Veralldarinnar og þeirra Dijrd, sagt sijdañ: Allt Þetta Vil Eg Giefa Þier, Ef Þu Fellur Fram̃ Og Tilbidur Mig. Hier var ærid mikid i Bode, E.G.B. Og er þad Mala sannast, ad margur hefur loted Andskotanum fyrer miña. Miña var þad, sem Balaam vañ til þess, ad hañ villdi formæla Israel, Num. 22. Miñi var Gull-Twngañ og Kapann og þeir 200. Siklar Silfurs, sem Achan misti Lijfid fyrer, Jos. 7. Eige var Naboths Vijngardur so mikils Virde, sem Achab tapade fyrer Lijfinu, Rijkinu og allri sinni Velferd, 1. K. B. 21. Eige var Heatijda Klædnadurinn og þau Tvø Centener Silfurs, sem Gezi laug wt af Naaman hinum Syrlendska, 2. K. B. 5. miked ad reikna hia þessu; Og hvad voru þeir 30. Silfur-Peningar sem Judas keypte, Matth. 27. fyrer Skapara Himins og Jardar? Hversu næm ad sie þesse Andskotans Snara til ad veida syndugar Saler, þar eru Otal Dæme uppa. Eñ giæt ad þeim Ordum, Christeñ Madur, sem þiñ Endurlausnare seger: Hvad gagnar þad Mañinum, þo hañ eignest alla Verølldu, eñ lijde Tøpun a Salu siñi, Matth. 16. Eg medkieñi, ad Gotz og Peningar eru stoor Guds Gafa, þegar þau eru af Guds Hende medtekinn, enn ecke hriffud af Munne sijns Naunga, hiñs Fatæka, Eckiuñar og hins Fødurlausa; Eñ eige eru þau þess verd, ad falla a Knie fyrer Andskotanum, til þess ad eignast þad sem ecke er nema til Þijngsla, og til ad þrælka fyrer þeim Omaga sem ecke hefur Vit a hvad vid hañ er giørt, til ad þioona einum Nijdinge, sem alldrei sadde siñ Þienara, hvad þeir þo aller giøra, sem añadhvert afsa Fiarens med Ranginbum, edur festa sitt Hiarta þar vid. Hin grim̃u Villudijr-

eñ a Morkiñe hafa siñ vissañ Skamt, og þau taka ecke Brauðena nema hwngrud. Eñ Grædge hiñs Fegiarna tekur alldrei Enda, hañ etur alltijd, og er þo alltiid solltinn; Hañ Ottast ecke Gud, og eige skamast hañ sijn fyrer Monnunum, hañ þyrmer ecki Fodur nie Moodur, hañ underþrycker Eckiuna og rænir hiñ Fodurlausa, hveriu eckert er herfilegra Meistara Sticke Andskotans, enn ad horfa uppa eirn Guds Vesæling, sem Naudstaddur er, og slijta þann Bita Brauds fra hanns hwngrudum Muñi, sem hin millda DRottinns Hond hefur honum riett, til ad sedia hañ a. Þad er satt sem Paall segier, ad Fie-Gyrndenn sie Root alls hiñs Jlla, 1. Tim. 6. Vilie Menn uppræta Jllgresed af Akrinum, þa skulu Menn Rootina eirninn burttaka. Eg efast ecke um, ad so sem Agyrndenne hefur wtskwfad wr sijnu Hiarta, hañ hefur og gyrdt fyrer marga Leste; Þvi hvad er þad Jllt, sem ecke fylger einum Fe-Pwka? Meinsære, Manndrap, Lijge, Svik, Fals, Agg, Þræta og añad, sem hier wt af fædest; Svo ad eirn af þeim Spoku Fordum, er hann var adspurdur, hvort ad være hid versta Dijr a Jorduñi? Þa svarade hann: Ad þad være Leon og Byrner a Fiollunum, enn Agiarner Menn i Bygdenne. Eg veit ecke lijkare Skwr-God eñ Mañon og Moloch, Svivirding Amons Barna, 1. K. B. 11. Hver ed sitt Nafn hefur af Rijke. Þessum Afgud offrudu Heidner Menn, og a Stundum Gydingar, Born sijn, og letu þau ganga i giegnum Elldenn, honum til Þioonustu, 2. K. B. 21. Hverium ecke Olijker eru þeir, sem kveikia i Hiortum Barna sinna, strax a unga Alldre, Oleifelega Elsku til Auds og Fiarafla, og kienna þeim ad þiena Mañona fyrr enn Gude, og ad hafa sitt Yndeog Epterlæte i Oþorfum Maurum, langt framar enn i goodum Sidum og Dygdum, þar til Lijf og Saal standa i biortu Baale. Og þoott nu ad Metorda-Gyrndenn halldest af flestum ad vera nær Manndygdunum, þa eru þo badar skadlegar, og halldast giarnañ i Hendur, þo so, ad þar sem Metorda-Gyrndenn er einsamann, þa er hun þess stærre ef Agyrndenn henne ecke fylger, þvi Agyrndenn er þwng og dregur þann til Jardarinnar, sem vill kieppast uppa þad hafa; Enn i þvi eru þær so lijkar, sem ein Syster kann nockurn Tijma ad vera annarre, ad þær giora badar Lækninguna ad skiadare Siwkdoome og Sadninguna ad Sullte; Þvi eins og hinn Agiarne vill þess meir, sem hann meir hefur, og vantar alltijd eirnenn þad sem hann hefur; Svo er og hinn Metordagiarne alldrei anægdur med þad Stand sem hann er i, helldur kieppest alltijd uppepter. Þad er og fullkomlega Satt, ad Metordagyrndenn hefur ecke færrum steypt enn Fesijnkninn; Fyrer hana er oll Olucka innkominn i Heiminn; Þegar Diofullinn villde helldur stioorna enn hlijda, þa hrapade hann morgum til Olucku. Eg þykest vita, ad Eva hafi ecke geingest so fyrer Eplinu, helldur mune þad hafa geinged heñi i Augu, ad hun ætte Gude lijk ad verda, Gen. 3. Hvad miklu illu hefur nu Metorda-Gyrndenn af Stad komid sijdann i Heiminum? Hun sloo Miriam Aarons Systur med Lijkþra, Num. 12. Hun lauk Jordunni upp under Core, Datan og Abiram, Num. 16. Hun heingde Absalon upp i Eikina, 2. Sam. 15. og 18. Hun blandadi

Oſku

Hun blandade Osku Simri samañ vid Kongsins Hwss-Osku, 1.K.B.16 Og er þad nu lijtels verdt og nærsta maktegt, þo hun slæe sinn eigenn Mann um̃ Hæls, eñ þad er miklu hryggilegra og aumkunarverdara, þegar heilum Londum og Rijkium illa lijdur fyrer eins Hroka, og þad kostar margra Mañа Gots og Velferd, þegar tveir Stoorer þrætta. Gud giæfi Meñ villdu þo giæta þar ad, ad sw Æra, sem Meñ hafa af Metordunum, er eingañveginn verd þess Erfidis, sem þar er uppæ kostad. Annadhvort komast Meñ þar til med Riettu edur Raungu; ef med Riettu, þa skulu Meñ leinge þrælka, ædur eñ Menn koma til nockurs, og fyrer mikid Erfidi komast Meñ til añars stærra, þvi þa Meñ eru þar komner, taka Meñ Valld yfer odrum, eñ missa Valldid yfer siælfum sier; Þvi ein kostgiæfinn Yfervallds Persona er ecke siælfræd, helldur allra þeirra Þienare, sem hun er yfirbodiñ, og mæ tijdt vaka þegar hinir sofa. Eñ hafi hann geingid hiñ rænga Veg med Satans Listum, þa heiter Tignar-Sætid, Stooll Hædungariñar, og er Svivirding bædi fyrer Gudi og Monnum, svo sem Predikariñ segier, Cap. 7. Ad sæ sem rænglega tekur sier Valldid til, muni hatadur verda. Þvi hygg eg þad riett være, sem Joas Israels Konungur sagde vid Amaziam Juda Konung; Þu hefur slegid Edom, þar fyrer er þitt Hiarta upphafid, haf þu þijna Vegsemd og sit i þijnu Hwsi, hvar fyrer skyllder þu skipta þier af Illu, so þu faller og Juda med þier, 2. Chron. 25. Svo er nu Agyrnd og Osmetnadur nærsta skadleger Lester. Þar fyrer, vilie Satan freysta þijn þar med, Christenn Madur, þa slæ hann med Guds Orde, so sem JEsus giorde; Vijk fræ mier Satan, þviad skrifad er, Drottenn Gud þinn skallt þu tilbidia og honum einum þioona. Nu er þad olldungis Omøgulegt undir eins Gudi ad þioona og Mam̃ona, Matth. 6. Vilier þu þar fyrer, ad þitt Hiarta sie Guds Musteri, þæ rek Satan wt þadann med hanns bolvadre Aura Elsku. Satan æ ecki þad hann giefur, helldur er þad allt Þioofstolid, sem af hanns Hende er þeiged. Vei þier Satan! Hvor hefur giefid þier oll Rijki Veralldarinnar, so þu meiger þau aptur giefa? Þu ætt ecke Ræd æ einni Mij-Flugu, nema Gud leife; Og þoott þu mætter hier um̃ ræda, þa vilium vier ecke taka þijnu Bode, enn sleppa honum, sem bæde Himin og Jord hefur i sinne Hende, sem oss hefur Sæl og Lijkama giefid, sem oss hefur frelsad fræ þijnu Valldi, Col. 1. sem hefur giefid sitt Lijf i Daudann fyrer oss, Joh. 10. sem hefur sendt sinn Anda i vor Hiortu, Gal. 4. sem ad ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. O þu eilijfe Konungur Dijrdarinnar, sem ad ert Hoogvær og af Hiarta Lijtillætur! Kienn þu oss ad epterfylgia þijnu blessada Dijrdar Dæme hier i Heime, svo vier meigum þier sijdann inn i þijna eilijfu Dijrd fylgia, og til þess himneska Hæbords upphafder verda, til ad syngia þeirri Hæleitu Guddoomsins Þrenningu Eilijfa Dijrd og Lof um̃ allar Allder Allda, AMEN.

# Annann Sunnudag i Fostu.

Gudspialled, Matth. 15. Cap.

J Þañ Tijma. Og JEſus gieck burt þadañ, og ſoor i Lands-Bygder Tyri og Sidonis. Og ſiaa þu, ad Canverſk Kona gieck wt af þeim ſomu Takmørkum, kallade epter hønum, ſegiande: HErra, Sonur Davids, myſkuna þu mier! Mijn Dootter kvelſt illa af Dioflinum. Og hañ ſvarade heñi eingvu Orde; Hañs Lærißveinar geingu til hañs, bædu hañ og ſøgdu: Lattu hana fara, af þvi hun kallar epter oſs. Eñ hañ ſvarade og ſagde: Eg em ecke ſendur nema til Fortapadra Sauda af Hwſe Iſraels. Eñ hun kom og tilbad hañ, ſegiande: HErra, hiaalpa þu mier. Eñ hann ſvarade heñe og ſagde: Pad er ecke gott ad taka Brauded Barnaña, og kaſta þvi fyrer Hvolpana. Eñ hun ſagde: Satt er þad HErra; Eñ þo eta Hvolparner af Molum þeim, ſem detta af Borde Drottna þeirra. Pa ſvarade JEſus og ſagde til heñar: O Kona! Mikil er þijn Trw, verde þier ſo ſem þu villt. Og aa þeirre ſomu Stundu vard heñar Dootter Heilbrigd.

## Exordium.

VJer bidium i vorri DRottinnlegre Bæn, Børn Guds Elſkuleg! Eige Leid Þu Oſs i Freiſtne. Nu er Tvøfolld Freiſtne til, Oñur kiemur af Gude; Oñur af Andſkotanum, Oñur leider til Lijfſins, Onnur til Helvijtis. Sw ſem af Gude kiemur, hun er hennar Lækning, ſem kiemur af Satan. Pad er ecke Otamt hinum Almaattuga Konungi, ad laata Diøfulenn detta aa ſijnu eigenn Bragde, og ſijna Freiſtne hanns Freiſtingar yfirvinna. Enn þo ad þeſſar Athafner Guds og Diøfulſins hafi ſama Nafn, þa eiga þær þo ecke ſamañ nema Nafnid. Diøfullinn geingur ecke i Berhogg vid Mennina, þvi hann veit þeir fælaſt ſig, helldur hefur hann Tvo Stall-Brædur, ſem ecke eru ſo uggvæner, enn þo ecke øllu ſijdur ſkadvæner; Annar er hid Ytra, Annar hid Jnnra: Peſſe er vort Holld og Blood med þeſs Tilhneigingum; Hinn er Verølldinn med ſijnum illum Dæmum: Hinn ſijdare af þvi hann er vondur, og liggur i þvi Vonda, 1. Joh. 5. þa leider hann til hinns Jlla. Saa fyrre er haalfu verri. Margur kann ſaa ad fordaſt adra, ſem ecke gietur fordaſt ſiaalfann ſig. Holld og Blood er gamall Skutul-Sveinn Diøfulſins, ſem framreider allrahanda ſætar enn þo eitradar, Viſter, þegar Andſkotenn bijdur Manneſkiunni til Snædings, enn Saalinn liggur blind i Sænginni, eins og Jſaac, og veit eige hvert þad eru helldur Jacobs edur Eſau Hendur, ſem hun þreifar aa, jafnvel þo hana grylli til ad þeckia Rauſtina, Gen. 27. So miked laangar hana i þann ferſka Riett, veit þo ecke ad giøra Greinmaa, hvert helldur hann er med Boganum veiddur, eda af Hiørdinne tekinn. Vei þeirre Borg, hver ed bæde hefur Ovinina utann fyrer Portunum, og lijka inn aa

Stræt-

Stræturum: Eñ eingvu betur erum vier a oss komner i Andlegum Efnum. Alla Vega uñkrijnger Hollded oss, a hægre Sijdu med Gyrnd Audæfa og Metorda, a vinstre Hlid med Orbyrgd og Orvijnglan; Fyrer framañ oss stendur Siælfs-Poottenn og Virding vors eigenn Agiætes, a Bak vid oss Assokun og Peckingarleise Syndarennar, innvortes Slog Samvitskunnar, illar Gyrnder og Tilhneigingar. Þesse er nu Andskotans Freistne og Elldlegar Pijlur þess Hreckvijsa, Eph. 6. Enn sokum þess þær eru syndugre Manneskiu svo skiædar, ad þar er engenn Lijfs edur Heilsu Von, ef Diofullenn, Heimurenn og Hollded meiga sijnu framfara, þa freistar Gud Mannsins, Sæalunne til Heilsubootar. Enn Gud freistar vor, bæde sialfra vor vegna og so Naungans. Þad sem Diofulleñ giorer med illum Heimsins Epterdæmum til Ills, þad giorer Gud til Epterdæmis med Krossburdenum til Goods. Margur munde hallda sig saklausann, nema Gud typtade hann og ride Mootlætinganna Vatne a vor blindu Augu, svo ad vier siaum vora Omind. Þegar Gud byrtest Fedrunum i Gamla Testamentenu, þa skiede þad opt i einu Leyptrande Skye; og svo trwe eg þad verde enn nu i Dag, ad valla fae Menn riett Gud siedann, nema hanns Dijrd bregde fyrer oss i Þoku Mootlætinganna: Þvi a medann vel geingur, þykest Madurenn svo sem sialfskiled eiga allt þad hann þiggur af DRottne; Enn þegar hann tekur þad burt, þa leita Menn hanns med Angist. Kunnuglega talar David hier um, Ps. 30. Eg sagde þa mier vel gieck: Eg skal alldrei skiliast fra DRottne, þvi þu DRotteñ veiter Stadfestu mijnu Biarge med þinne Þocknan: Enn þegar þu byrgder þitt Andlit fyrer mier, þa skielfdest eg, þa kallade eg til DRotteñs, og eg grætbænde hann. Aptur freistar Gud þeirra er hann vill, odrum til Epterdæmes, svo sem Abrahams og Jobs, hvad lioost er af hanns Sögu, er ollum er skrifud til Epterdæmis. Og siaum vier nu af þessu, ad Gud freistar Mannsins, bæde þeim til Gagns, er hann leggur sinn Kross a Herdar, svo og odrum til Fyrermyndar. J þessu H. Dags Evangelio hofum vier Dæme einnrar Kvinnu, hvor ed þa fyrst leitade ad Christo, þegar Naudenn þrijste henne þar til. Og vilium vier þad nu med þess Lærdoomum yfervega, epter þvi sem Gud giefur Naad til.

Hiælpa oss þar til naaduge Gud fyrer þinn Son JEsum, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞEgar Marcus segier fra þessare Historiu, i hañs Gudspialla Cap. 7. Þa gietur hann um, ad JEsus hafe svo sem faled sig i þessum Stad, þvi hann hafe geinged iñ i eitt Hws, og hafe eige viliad laata neirn vita þad. Hvar varstu nu minn HErra? Sem segier: Eg er fundeñ af þeim sem ecke leitudu ad mier; Þu sem ad hroopader, Matth. 11. Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiader, eg vil Endurnæra ydur. Hvar varstu þa? Er nockud þijn Hond stutt vordeñ, ad þu kunner ecke, eda þitt Eyra so tillukt, ad þu vilier ecke hiælpa? Sañlega er þad ecke, helldur kiemr þad hier frañ, sem hin eilijfa Spekeñ segier: Eg leik mier vid Mañaña Sonu, Ordsk. 8.

Svo plagar Fader Myskunsemdanna ad breita vid sijn Born. Hann hylur sig um Stundar-Saker, svo ad Manneskiann leite hañs Andlitis. Visse JEsus ad Lazarus Vinur hañs lœ veikur, Joh. 11. Samt var hann fiarlægur honum œ medañ hañ took hañ burtu. Eige var honum Okuñugt ad Vijnskortur var i Cana, eñ þo droo hañ undann ad snwa Vatnenu i Vijn, þar til hanns Stund var komeñ, Joh. 2. Ymislega breiter Gud vid sijna. Hvor hefur nockurn Tijma hañs Rœdgiafe vered? Rom. 11. Hann deilde œ Konungs Mañeñ, þœ hañ leitade Hiœlpar vegna Sonar sijns, Joh. 4. Hañ baud Hundrads-Hofdingianum ad gœnga samstundes heim og lækna Pioon hañs, Matth. 8. Hañ fañ strax Krapt wt af sier gœnga, þœ hin Bloodfallssiwka hrærde vid hañs Klæda-Falldе, Marc. 5. Eñ fyrer þessare Naudstoddu Konu hylur hañ sig. Þo kann ecke Sool Riettlætesins ad leyna sier; Þvi segier og Marcus: Ad þesse Kona hafe heyrt af JEsu og þar fyrer til hañs komed, þvi hann hafe eige gietad dulest. Hvar er þœ Boon heñar? Hun hroopade og sagde: HErra SONur DAvids Myskuna Þu Mier. O Hvad dijrmætur Hlutur er Krossenn! hann kann ad reka Mañeñ wt af Tyro og Sidon, þad er, af vondre Verolldu þessare, til ad leita ad Christo. Hañ er eirn Andlegur Segul-Steirn, sem Mannanna Stœl-Hiortum uppricker i Hædernar til Guds lifanda. HErra Sonur Davids, segier þesse Kona. Fœord er Bæn heñar, enn eckert er hier epterskiled, þad sem audmiwkre syndugs Manns Bæn œ ad fylgia. Med Herra-Titlenum jœtar hun sijna Undergiefne; var hañ HErra, þœ var hun hañs Ambœtt; Eñ med Nafne Davids Sonar telur hun sig i Ætt vid hañ: Ecke þad hun være af David komenn, helldur af Adam, hvørs Nidie David var. O minn JEsu! Þeir eru þijn Mooder og þijner Bræđur, sem eru þijner Læresveinar, Matth. 12. Enn þijner Læresveinar eru aller þeir, er þitt Ok uppœ sig taka, og fylgia þier epter, Luc. 14. Medal hvørra þesse Utlendingur var eige hinn sijdarste. Þad var henne ecke noog, miñ JEsu, ad þu varst heñar HErra; Þad er annad ad kuña, annad ad vilia; enn þad hun kallar þig Davids Son, þad er Holld af heñar Hollde og Bein af heñar Beinum, þad var biturt Skeite, sem œn alls Efa hefur stwnged þijn Myskunar Ydur. Þetta styrker St. Pœll, Hebr. 2. segiande: Honum byriade Brædrunum i ollu samlijkur ad vera, uppœ þad hann myskunsamur være, og trwr Biskup i þvi sem hiœ Gude ætte ad giora, þvi søkum þess hann lided hefur, þœ hann var freistadur, þœ kann hann og ad hiœlpa þeim sem freistader eru. Myskuna Þu Mier, segier Konann. Hun kiemur til JEsum, ecke svo sem til añars Lækners, þeim er Menn biooda Laun fyrer sitt Omak, ecke helldur i Trauste siñar Forþienustu. Myskuna Þu Mier, segier hun, enn ecke: Miñe Doottur: Jœtande þar med, ad ecke þyrfte heñar Dootter einasta Myskunar vid, helldur være og sialf hun Overdug i Guds Auglite siña Synda vegna, þad hañ skyllde hiœlpa hennar Lijfs-Afkvæme, hvort hun eige einasta hafde gieted og fædt i Syndeñe, helldur uppaled medal Ogudlegra Maña vid Satans Pioonustu, og i hañs Dyrkan. Lær hier af, syndugur Madur! Nær þu frañkiemur fyrer Gud ad þiggia nockud af hanns Orlætis

Hende,

Hende, ad afneita sialfum þier, og øllum þijnum Verdugleik, og gior ecke þijn Good-Verk, ef nockur eru, ad hinne verstu Synd, med ofmiklu Trauste a þeim edur Daalæte vid sialfann þig, helldur seig þu med þessare Konu og David: Myskuna þu mier Gud epter mikellre Myskunseme þinne, og, epter Mikeleik Myskunsemda þinna, afmaa þu mitt Raanglæte, Ps. 51. Þesse saarmæda Manneskia leggur Ordsøkena til, hvar fyrer hun so grætbæne: Mijn DOOtter Kvelst Illa Af Dioflenum. O Neyd! O Neyd! O Sorg! O Sorg! Hvad goodur Skoola-Meistare ertu? Og hvørsu sijnt er þier um ad giora hinar saarmædu Tungurnar vel talande? Eckert er hier epterskiled, sem eitt Manns Hiarta kynne ad hræra til Medaumkunar, svo hier var a eingvann Veg hægt undann ad komast fyrer þann, sem allt Vald hefur bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Og er þo under eins so lijknsamur, sem Faderenn er Børnunum myskunsamur, Ps. 103. Hun kallar hann, HErra, þvi treister hun ad hann giøre, hun kallar hann, Son Davids, þvi vard hann ad vilia, hun bidur um Myskun, hvørt villde þa Brunnur Myskunarennar laata sijna Læke renna, ef ecke i soddann Trwar Skaut? Enn þetta eykur miøg so a, ad hun bidur fyrer sitt eigid Lijfs Af-kvæme, hvers Saal ad hieck af hennar Saal, eins og Jacobs af Beniamins. Hun segier; Mijn Doottir, þad var sart, hun kvelst, þad var hersilegra, hun kvelst illa, þad var Obærelegt, og þad af Dioflenum, þad yfergieck alla tijmannlega Hørmung.

Lijkamlegur Sivokdoomur liggur æred þungt a, og nærsta hart er ad sia uppa sijna, þegar svo tilfellur, enn þad geingur nærst hinum bitru Helvijtes Pijslum, þegar Andskotenn fær Leife til med sijnum Illsku-Krapte ad bwa i syndugs Manns Hollde, og slijta þad og kremia epter Vilia sijnum. Hvad fast mun hin heita Moodur-Ast hafa þreingt ad hanns Hiarta, er sialfur segier, Es. 49. Kann nockud Mooduren ad gleyma sijnu Barne, Syne sijns Kvidar, og þo hun gleyme þvi, þa vil eg samt ecke gleyma þier. Sia eg kiem, vill þesse Kona segia: Eg er ein vesæl Mooder, eg bid um Myskun, ecke um Mune þessarar Veralldar, ecke um Lijf Ovina minna, alleina bid eg ad mitt Barn, sem er Guds volud Skiepna, ad þad mætte frijast fra Diofulsins Vallde og Ofrijke. Mun ecke JEsus hafa þeinkt til sinnar Moodur, sem stood sijdann under hanns Krosse, þegar hann hieck þar so sem Madkur enn ecke Madur, afmyndadur af Diofulsins Þrælum? Mun nu ecke hann, sem i bitrustu Daudans Angist og Helvijtis Kvolum staddur, sa Aumur a sinne Moodur, mun hann ecke, segie eg, hafa aumkast yfir þessare voludu Manneskiu? Eige er þad ad efa, sem sijdar gaf Raun Vitne. Enn þo segier Textenn oss, Ad Hann Hafe Ecke Svarad Henne Einu Orde. Hvilijkt er þetta! O sann a alla hennar Neyd, eykur þetta nærsta miklu. Hin blessada Riettlætis Sool Mal. 4. upprann henne um Stundar-Saker, enn Skii Þagnarennar droo fyrer hana aptur. Hvad skal hier til segia? Kann ecke þad eilijfa Orded ad tala? Heyrer hann ecke sem Eyrad hefur plantad? Er hann afundenn, sem øllum bijdur til sijn ad koma? Matth. 11. Hvar eru nu þijn Ord, minn HErra JEsu, er þu sagder fyrer Munn Es. 65. Cap.

Pad skal skie ædur enn þeir akalla mig, vil eg svara, og a medan þeir eru ad bidia, vil eg bænheyra þa. Þetta sijnest hier allt ad eingvu verda. Enn vier vilium hier standa vid um Stund, G.E.B. Pad være ecke gott fyrer oss, ad vier skylldum ollum Stundum bænheyrder verda; Peir eru eige aller, sem Gud fæe til sijn leidt med Taume Naadarennar, nema hann slæe odruhvoriu med Svipu Tiptunarennar. Þegar vel gieck, snerum vier Bakenu vid Gude; Vier foorum illa med hanns Gæsur, vier forsoomudum ad briota vort Braud hinum Þurftuga og Volada. Oss fannst eckert til, þegar Gud liet oss falla allt i Kior, og eige þædu Menn Guds Orlæte, so sem af honum komed, helldur so sem af vorum Handafla, vorum Atburdum, vorre Framsijne: Er þa ad furda þoott hann meige þeigia um Stundar-Saker vid oss? So ad vier hölldum oss ecke saklausa, og lærum, ad oll good Giof og oll fullkomenn Giof kiemur ad ofan fra Fodur Liossanna, Jac. 1. Og ecke giorer Gud einasta þetta vid hina Þrælæatu, helldur og vid sijn Elskuleg Born. Sannlega hefur hann kient i Briooste um Eymd þessarar Konu, enn þo svarar hann henne ecke einu Orde; Hann vill þeir bidie svo þeir fæe, leite svo þeir finne, knije a, svo fyrer þeim upploked verde, Luc. 11. Heyred David Konung, sem var Ast-Vinur DRottenns, hvorsu hann klagar yfir hans Þogn vid sig, hvort helldur hann talar þad under sinne edur Messiæ Persoonu; Hvar fyrer ert þu fiarlægur mijnu Hiælpræde, og svo fiærre mijnu Hroope, Gud minn? Dag og Noott kalla eg til þijn, og finn þo eingva Hvijld, Ps. 22. Nu, þoott Gud svo þeige vid oss a Stundum, þa mun hann samt Hiælpena ecke leinge undann draga; svare hann ecke svo sem vier vilium, þa svarar hann svo sem hann vill: Vier vitum eige hvors vier bidium, enn hann veit hvad oss er fyrer bestu. Ef vier yrdum alltijd bænheyrder, þa kannske hann giæfe oss Hoggorm fyrer Fisk, edur Stein fyrer Braud, Ja, Hoggorms-Eyru fyrer Umskorenn Eyru, Stein-Hiarta fyrer Kiotlegt Hiarta, enn þad sama er a moote hanns Fodurlegu Hiarta. Hann bænheyrde ecke Eliam þa hann bad hann ad taka sijna Sæalu fra sier, 1. Kong. B. 19. helldur gaf hann honum Krapt til ad mootstanda Jessabel og ollu Achabs Hwse. Hann heyrde ecke so bræadlega Harma-Klögun Jobs, enn hann gaf honum yfirmæata mikla Þolennmæde, Job. 2. Hann took eige Kaleikenn fra sijnum elskulega Syne, helldur sende honum Engel af Himne, Luc. 22. Og so giorer Gud enn nu vid hans Sam-Arfa; Take hann ecke fra þeim Hormungena, þa sender hann þeim þo Krapt til ad bera hana. Hvort er betra ad reka Fiandmannenn burt, edur ad giefa einum Megn og Maatt til ad sigra hann? Hefde Goliath a Bak aptur horfad, hvar var þa Davids Sigur? 1. Sam. 17. Hefde eige Israel barest vid Cananita, þa hefde hann ecke eignast þad fyrerheitna Landed. Hefde eige Jacob glijmt vid Gud, þa hefde hann eige hloted Israels Nafn, Gen. 32. Og hefde ecke þesse Kona þreitt med Bænenne vid hinn Almæattuga, þa hefde hun eige heyrt þesse Fagnadar Ord: Kona, Mikel Er Þijn Trwa. Þegar Læresveinar vors Endaurlausnara formerktu ad hann svarade henne eingvu, þa hrærdust þeir af Medaumkan, og segia: Laat

þu

þu hana fara, fyrst hun kallar epter oss. O hvad gott Epterdæme hefur þu hier, Christ-enn Madur! Sæler eru Myskunsamer, seger Endurlausnarenn, þvi þeir munu Myskun hlioota, Matth. 5. Guds Myskunseme þurfum vier daglega vid, og an hennar kunnum vier ecke ad lifa. Vilier þu ad Gud sie þier Nadugur, þa vert ecke afundenn vid þann sem þig bidur, eda fræsnwenn þeim, sem af þier vill Lan taka, Matth. 5. Þvi hversu ma Gud opna þier sijna Myskunar Brunna, ef þu tilbyrger þijna Læke fyrer hinum Naudstadda, og sie so ad þu hafer eige Efne a ad myskuna med Verke, so sem þu villdir, þa alijtur DRottenn Hiartad. Sa sem myskunar meir enn hann hefur Rad til, hann hefur giort sitt Myskunar-Verk jafnvægt sijnum Vilia, og hefur myskunad meir enn hann kunne ad myskuna. Ecke er hier talad um Eirn helldur enn Annan af Lærisveinunum, helldur hafa þeir aller i einu Hlioode meint ad inntaka DRottins Myskunar Hiarta. O Gud giæfe! Christner Menn villdu vera samtaka i Bæninne. Hvad er þad vier segium i vorre Trwarjatningu? Jeg trwe Samneyte Heilagra. Er þad alleinasta ad jata eirn og hinn sanna Gud? Ad vera med einne Skijrn skijrdur? Ad koma saman i einu Guds Hwse, og medtaka einn og hinn sama Lijkama og Blood JEsu Christi? Nei, eingannveigenn, helldur þar ad auke ad hallda Eindrægne i Andanum, Eph. 4. med Bænum og Fyrerbeidslum fyrer ollum Monnum, 1. Tim. 2. Bidled hver fyrer odrum, segier St. Jacob, Cap. 5. ad þier heilbryngder verded, þvi miked ma Bæn hins Riettlata, þa hun er heit. Sialfur DRottenn seger, Matth. 18. Ef Tveir af ydur samþyckia a Jordu um hvern þann Hlut sem þier bidied, þa skal ydur þad veitast af mijnum Fodur, sem er a Himnum. Og ef Gud heyrer so Tveggia Bæn, hvad miklu framar mun hanns Fodur-Hiarta komast vid, þa eirn heill Sofnudur wtheller sijnum Bænum i Eindrægne Andans. Gud elskar Mennena, þa hann sier ad hver þeirra elskar annann. Eirn Vatns-Drope, ef hann er einsamann, þa þornar hann bradlega, enn falle hann i Siooinn, þa geimest hann Otijndur: So eru og Tara-Dropar Christ-enna Manna; ef þeir falla samann, þa verdur þar eitt Vatns-Flood af, sem allt upp i Himininn vex, þar til þad fellur i Nadar-Strauma hins Almattuga Guds, sem framm-flioota af hans Nasæte, og renna so aptur ofann til vor a Jordina. Damparner, sem uppstijga af Jordunne, samannsafnast i Loptinu; þegar þeir verda ofur-þwnger og þiett-er, þa sundurdreifast þeir af Vindinum, sem ecke kann i giegnum þa ad briootast og falla aptur yfer ymsar Alfur Jardarinnar, henne til Frioofgunar: Andvarpaner Guds Barna, sem uppstijga af heitu Hiarta, þær samannsafnast fyrer Guds Nasæte, þar til þær verda hans Myskunar Ydrum of-þwngar, so ad Himnarijke lijdur Ofrijke, Matth. 11. Þar af verdur hin hialpsamlega Natt-Dogg Guds Goodgyrne og Myskunar, sem fellur af þvi himneska Hermon yfer þa jardnesku Zion, Ps. 133. hverre Ande DRottens sundurdreifer og wtskipter medal Mannanna Sona. Þad er eige noog, þoott Eirn edur Tveir bidie fyrer ollum. Þo Gud hafe miked giort fyrer Bæn Moysis, Abrahams, Eliæ, Elizei, St. Pals og annarra Guds Astvina, þa er Gud ecke skylldugur ad

giora

giera so ollu Foolke; Nunu og kaer vera þeim lijker a vorum Dogum. Margra Trw hygg eg ad mege leggia vid Abrahams og Eliæ Trw. Fyrer almennelegre Plagu skal almennelega bidia, þvi a Stundum er Gud so lyndur, ad hann vill straffa þa Goodu med þeim Vondu i Landinu. Hafed þvi Raad Endurlausnarans, M.E. Luc. 18. Bidied Oaflaatannlega og letiest ecke, þvi hvar fyrer skyllde Gud eige frelsa sijna Utvallda, þoott hann undanndrage Hialpina? Sannlega sege eg ydur, hann mun frelsa þa. Hvert Svar giefur nu Frelsarinn sijnum Lærisveinum hier uppa? Eg Em Eige Sendur Nema Til Fortapadra Sauda Af Hwse Israels. Þetta sijnest nockud þwngskiled i fyrsta Alite, enn hefur þo sinn stadfastann Grundvoll i Ritningunne. Epter sijnu Spamanns Embætte var hann eige sendur nema til Gydinga. Epter sijnu Kiennimannlega Embætte var hann ollum sendur, þvi fyrer alla hefur hann forlijkad. Hann bannade ad sonnu Lærisveinunum ad ganga a Veg Heidingianna eda i Samverskar Borger, helldur til fortapadra Sauda af Hwse Israels, Matth. 10. Þo seger hann hia Johannem, Cap. 10. Eg hefe og adra Saude, sem ecke eru af þessu Sauda-Hwse, þa byriar mier og hier til ad leida. Ecke heyre eg ad JEsus hafe a sijnum Hiervistar-Dogum predikad medal Heidingianna, þvi þad var hanns Spamanns Embætte, hanns Tijme var enn þa ecke kominn; For-Tialdded var enn nu ecke sundurrifed, þar var enn nu eige nidurbrotenn sa Midveggurenn sem a millum var, Eph. 2. edur vordid eitt af badum; Þad skiede allra fyrst i hanns Pijnu, Dauda og Upprisu, þvi skomu þar epter baud hann sijnum Lærisveinum ad fara wt um allann Heiminn, Matth. 28. St. Paall þorer ad segia, Rom. 3. Er Gud alleinasta Gud Gydinga og eige Heidingia? Sannarlega og svo Heidingia, þviad Gud er Eirn, hver ed riettlæta mun Umskurnena i Trwnne og Yferhwdena fyrer Trwna. Svo var nu JEsus sendur alleina til Gydinga epter sijnu Spamanns Embætte; Enn so sem Fadirinn sende hann til Gydinga, svo sendi hann sijna Lærisveina til Heidingia. Epter sinu Kiennimannlega Embættinu er hann ollum Heimi sendur, þvi Johannes seger Fortakslaust: Hann er Forlijkun fyrer vorar, og ecke einasta fyrer vorar (þad er Gydinganna) helldur og fyrer allrar Verralldarinnar Synder, 1. Joh. 2. Epter sijnu Konunglega Embætte var hann og ollum sendur, þvi hanns Gud hafde giefid honum Endimork Jardarinnar og heidnar Pioode til Arfleifdar, Ps. 2. Og er þad Eptertekta verdt, ad þau tvo Kraptaverk, sem DRottinn giordi medal heidinna Pioode, annad þetta, annad hia Gergesenis, Matth. 8. þau voru bædi til ad auglijsa hanns Almættis Herra-Tign, þvi i hverutveggia Sinn rak hann Dioflinn wt, sem kallar sig Drottinn Veralldar þessarar.

Hvad giorer nu þesse Kvinna til, vid Af-svar þetta? Hun lætur ecke af, helldur sæter þessu Tækifære, þar hun sier Lærisveinarner tala hennar Maale. Lær hier, christenn Madur, ad þreitast ecke i Bæninne; þoott Gud hialpe ecke strax, sem þu kallar, þa hefur hann þo ecke forgleymt Myskunsamur ad vera; Fodurlegt Hiarta hefur Gud: Hann er ecke so sem Stockur eda Steinn. Forgiefins hefur hann þa straffad Gud-

leyse

leyse Mannanna, sem gaanga til Maallausra Skwrgoda, ef hann være þeim sialfur lijkur. Gud er ecke eins Sinnadur og Madurinn; Ef nockur Ølmusumadur liggur jafnann vid Dyr hinns Rijka, þa heiter hann Þraabæninn, Offickannlegur, Heimtufrekur. Þad verdur so fyrer oss Mønnunum, þvi vier megnum eige margra Þorf ad fylla: Enn Afgrunne Myskunarinnar er ei so haattad; þess optar sem hañ er bediñ, þess kiærara er þad honum, þvi hañ kañ ad uppfylla alla vora Naudþurft, epter Rijkdoome siñar Dijrdar, Phil. 4. Þeir neyddu hann: segier uñ þaa Tvo, sem til Emaus geingu, Luc. 24. Gud vill laata þvijnga sig med heitre Bæn, og þad er honum inndællt ad þola Ofrijke af Trwudum Syndara. Su Þraakelkne er good sem Gude þocknast, og sw Orusta mætte liett falla, þar sem Madur er viss uñ Sigurenn. Sa sem af Tiñuñi vill Elldinn faa, verdur optar ad slaa, eñ Einusinne. Vilier þu og ad Guddoomsins Giædsku-Neistar stockve wt af Hellu Hiaalprædisins, þa verdur þu optar enn Einusiñe ad slaa med Hamre Bænarinnar, og ecke aflaata, þar til þu aa einhvern Haatt bænheyrdur verdur. Menn skulu og audmiwklega bidia. Matthæus segier, þesse Kona hafe tilbeded hann. Marcus segier, hun hafe falled til Foota JEsu, Marc. 7. Þad Ord er ad Eilijfu satt, sem David segier, Ps. 34. Naalægur er DRottenn þeim Harmþrwngnu i Hiortum, og þaa Sundurkromdu i Anda frelsar hañ. Hver sem vill uppausa Vatn af nockrum Brunne, hann maa begia sig. Hvor er Brunnur þess Siaanda og lifanda? Hanns ed sier, þoott eingenn siae; hanns ed lifer i oss, þo ad vier deyum. Hver sem vill af honum Naad og Myskun uppausa, hañ kriwpe audmiwkur aa sijn Hiartans Knie. Josua fiell til Jardar nidur, og joos Molldu yfer Høfud sier fyrer DRottne, Jos. 7. David lagdist flatur aa Jordu fyrer hanns Tignarvellde, 2. Sam. 12. Sialfur Guds Sonur kastade sier flotum aa Jordina fyrer sijnum himneska Fodur, Matth. 26 Og þvi skylldum vier þa eige begia Knie vor fyrer Fødur DRottins vors JEsu Christi? Eph. 3. Sa sem vill vera mikill i Himnarijke, hañ skal fyrst giora sig lijtinn hier aa Jardrijke. Þad er ecke Vegur til ad liwka upp Guds Myskunar Ydrum, ad standa innst i Kyrkiu og bidiast fyrer, enn forsmaa Tollheimtumanninn, sem stendur laangt i fraa, Luc. 18. Tak þijn Skoo-Føt af, sagde Gud vid Moysen, þvi sa Stadur er heilagur, er þu stendur aa, Exod. 3. Vor Bæna-Stadur er heilagur Stadur; Þar er Guds Musteri, hvar hellst þad er, þar er øll heiløg Guddoomsins Þrenning aa Tale vid oss. Øll Ohreininde Drambseminnar, allt Endeme Sialfs-Þoottans aa þar i burtu ad vera.

Hvort Andsvar fær nu þesse aangraada Manneskia uppaa þessa sijna audmiwka Bæn? Þad Er Eige Gott Ad Taka Brauded Barnaña Og kasta Þvi Fyrer Hundana. Hord var þesse Ræda; Hversu maatti DRottenn þwnglegra svara? Eñ ecki fiellst henni Hugur vid allt þetta, helldur svarar hun: Satt Er Þad HErra, Enn Þo Eta Hundarner Af Molum Þeim, Sem Detta Af Bordum Drottna Þeirra. Þoott Abrahams Munnur hefde hier kominn verid til ad kieppa med Bæninne vid Gud

um̃ Sodoma, Gen. 18. þa hefde hann ecke kuñad betur ad mæla. Ecki þyckist hun vid Sannindi þessi, helldur þess meir hun er Ovirdt, þess audmiwkari er hun ad bidia. Hina hördustu Freistingu gierer hun ad sætustu Huggun. Þau Ordinn Christi, er heñi brijxludu um̃ siñ Overdugleik, þau brwkar hun sier til Forsvars, og þad sem sijndist ad horfa heñi til mestu Ørvæntingar, vard heñi til ædstu Blessunar, og hier af er audsied, ad Gud lætur þeim alla Hlute til Gooda verda, sem hañ elska, Rom. 8. Hun slær vorn HErra, ef so mætti ad Orde komast, med hanns eiginn Sverde. Satt er þad HErra, eg em Hundur i þijnu Auglite, og hefi eingann Riett med Börnunum. Þad er Riettvijst ad þau mettist fyrst: Þu hefur tilreidt eina mikla Maaltijd fyrer þeim, og þijnir Uxar og aled Fie er slatrad, Matth. 22. Enn i slijku Giesta-Bode munu nockrir Molar a Goolfid falla, sierdeilis þar Börninn, sem mett eru, hyrda eige so vandlega þar um̃.; Þesser Molar nægia mier aumri Hund-Tijk, eg em þiñ Hundur: Eñ mun nockud Hwsbondinn sla sinn Hund fra sier, þa hañ vill fylgia honum epter? Eg er eige so væntinn, ad eg gyrnist ad sitia til Bords med Börnunum; Leif mier þo samt ad tijna Molana med Hundunum, þa Braud-Mola, sem þijn Börn vilia ecke nijta; Leif mier og minni Doottur þa upp ad tijna, og þo vid höfum þa ecke forþienad, þa veit eg ad þu, sem ert miñ Herra, og þar ad auke Davids Sonur, miñ Skapari, og þo minn Brooder, þu munir eige ockur allra vesölustu Skepnur, eñ þo þijnar Skepnur, ad sönnu Hund-Tijkur, enn þo þijnar Hund-Tijkur, i Hwngri og Vesölld wt af deya lata. Fyrir þessare so öflugre Trw, liet hiñ Almattugi sigrast; hanns Hiarta brast i honum, so hann hlaut henni Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Og Brunnur Myskunsemdanna vard ad opnast i slijkri Hræringu, so ad þadann wtflaut eirn lifande Naadar-Straumur, til ad endurnæra þessarar Kvinnu sorgbitid Hiarta. Þanniñ verdur hañ hier yfirunniñ af siñi eiginn Giædsku, sem þo er Osigrande, hann verdur til Fanga tekinn, sem hefur Herleidinguna ad Herfangi tekid. Hann þurfte valla eitt Ord til ad wtreka Diöfulenn, Matth. 4. Eñ med mörgum Ordum fær hann ecke þessa Trw fra sier rekid, so ad alltijd verde Sönnur a hañs Maale: Hvern þann sem til mijn kiemur; vil eg ecke fra mier reka, Joh. 6. Athuga þu nu, Christenn Madur, nockud um̃ þijn Efne hier wt af. Munt þu i Guds Auglite betur vera a þig kominn, eñ eiñ Hundur? Þu ert ad sönnu Christinn, þesse Kona var Heidiñ, þu ert skijrdur og iñtekiñ i Guds Sattmaala, hun var ecke. Þu heyrir Guds heilögu Ord daglega, eñ hun alleinasta Nyktid af JEsu: Eñ hygg ad, hvad Endurlausnarinn seger: DRottningeñ af Arabia mun uppriisa a Effsta Dege og dæma þessa Kynslood, þvi hun kom langa Vegu ad heyra Speke Salomonis, og siaed hier er meire enn Salomon, Matth. 12. Svo er eg og hræddur um̃ ad Kona þesse mune dæma marga þa er Christnir kallast; Hun sem hier ber Hunds-Nafn, talde ecke epter sier ad leita ad Christo, og fylgia honum epter, þo hun yrdi ecke so fliott Bænheyrd. Enn hver er nu sa, er leite ad DRottne, eda kalli af Alvöru til hanns i Hörmunginni? DRottinn typtar oss, enn vier finnum þar

ecke til, hann slær oss, enn vier betrum oss ecke, Jer. 5. Menn hafa hardara Andlit enn Steirnenn, og vilia ecke snwa sier. Hundarner hafa nockra Rækt aa siinu Afkvæme. Þesse heidna Manneskia var af innstu Hiarta-Sorg tilknwd ad leita sier Hiaalpar hiaa þeim Himneska Lækner, vegna siñar Doottur sem plaagud var af Dioflenum; Eñ hvad faaer eru nu þeir, sem færa siin Born til JEsum med Christelegum Aga og Umvondun, og gieta eige jafnvel lided, ad Omennskunnar Dioful sie fraa þeim rekenn, med Guds Ords Kienningu og goodre Tilsogn. Þesse Kviña gieck wt af Tyro og Sidon, þeim Ogudlegu Stodunum, til JEsum; enn hvad tregt er oss komed til ad gaanga wt af vondre Verolldu þessare og fylgia honum, jafnvel þoott Saalenn ligge vitstola i Æde Syndarennar. Þesse Kvinna reiddest ecke, þo heñe være ofuglega svarad, eñ hvad giora þeir sem mogla aa moote Gude, þaa ecke geingur allt ad Oskum, og formæla hañs Hofud-Skiepnum, þaa þær, epter Skipan siins Herra, eru oss moot fallnar, hvoriar Gud hefur oss þo giefed af Oumrædelegre Giædsku sinne, til ad hallda vid voru Opacklaata Liife. Hundar komu og sleiktu Lazari Saar, enn ecke fieck hann ad sedia sig af þeim Molum, sem duttu af Borde hinns riika, Luc. 16. So fiñast og marger Omyskunsamer, hardwduger enn i Dag, hverir ed hafa Gnægt Veralldar þessarar, enn laata þo sinn Naaunga Hwngur liida; Og ef þesser Ogudleger Lester skylldu finnast medal Christeña Maña, (sem ecke er ad efa) Hvad erum vier þaa betre enn Heidingiar i Guds Diirdarfulla Auglite? O vor Gud og Almaattuge Skapare! Vert þu oss syndugum liiknsamur, og tilreikna oss ecke vorar Illgiorder, epter þeirra Verdskulldan, helldur minnstu þinnar mikellrar Myskunseme! Vor Dootter, þad er vor Saala, kvelst þwnglega af Dioflenum, hvorre hañ Ognar med hrædelegre Miñing Illgiordaña. Illa hofum vier lifad, eñ þu, Christe, ert fyrer vorar Illgiorder uppheingdur, fleyre eru vorar Raanglætingar helldur enn Taar vorra Augna, enn laangtum fleire eru þo Dropar þinnar Myskunar, sem ad upprennur yfir oss syndugum Monnum ny og ferst aa hvorium Morgne. Harmagr. Jer. 3. Allra Manna syndugasta jaatum vier oss, hvor i sinn Stad, enn þeckium þig þo ad vera hinn allra Heilagasta, sem fyrer oss raanglaata ert Bolvan ordeñ. Vier erum eige betre enn Hundar i þijnu Diirdarfulla Auglite, þar vier hofum forþiepad ad wtelokast fraa þeirre Himnesku Jerusalem, Openb. 21. Enn samt erum vier þo þijner Hundar og vilium helldur so heita, enn Andskotans Ofka-Born. Vier kiorum helldur ad tiina Molana under þijnu Borde, eñ hafa full Hws med Ogudlegum; Meigum vier ecke Born kallast, þaa gior oss so sem eirn af þijnum Leigu-Monnum, Luc. 15. Meige og þad ecke, þaa laat oss Riett hafa med þijnum Hundum. Þoott vier teliumm oss Overduga ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Þaa vilium vier samt i þijnu Leife skrijda under Borded med hiñe Cananisku. Gott er oss ad aahaanga DRottne, med hvoriu hellst moote þijn eilijfa Myskun vill þad vera laata; þoott vier faaum ecke þau Kior, sem Riikesins Syner, þaa holldum vier fullgoott ad vera Dyra-Verder i Hwse DRottenns vors, Ps. 84. Þad næger oss, þegar vier alleina

ecke wtkastader verdum i hin Ytstu Myrkur. O þu Lijknarfulle Gud og Nædige Fader! Þegar vier allra sijdarst wtgaungum af Tyro og Sidon, sem er, af Heime þess-um, fyrer Tijmannlegann Dauda, enn Andskotenn gyrnest ad kvelia vora Sealu med eilijfum Pijslum, mys̄kuna oss þa fyrer JEsu Davids Sonar Skulld, og lat oss ver-da epter þvi sem vier vilium, sem er, ad vier frelster af Synd, Dauda, Diofle og Helvijte, meigum þier þioona i Riettlæte og Heilagleika um̄ allar Allder Allda, Amen, i JESU Nafne, AMEN.

# Pridia Suñudag i Føstu.

Gudspialled, Luc. 11. Cap.

Aa Þeim Tijma. JEsus rak wt Diøful þañ er Mallaus var. Og þad skiede, þa Diøfulleñ var wtfareñ, ad hinn Mallause talade, og Foolked undradest þad. Eñ nockrer wt af þeim søgdu: Fyrer Belzebub Diøfla Høfdingia þa drijfur hañ Diøflana wt. Adrer freistudu hañs, og leit-udu af hønum epter Teikne af Himne. Eñ er hañ sa þeirra Hugreñ-ingar, sagde hann til þeirra: Hvørt Rijke, sem i sialfu sier er sundur-þyckt, þad mun eydast, og hvørt Hws mun yfer annad hrapa. Og ef Andskotenn er i sialfum sier sundurþyckur, hvørneñ ma hañs Rij-ke þa standast, fyrst þier segied mig fyrer Belzebub wtreka Diøflana? Eñ ef eg fyrer Belzebub wtrek Diøflana, fyrer hvørn wtreka þa ydrer Syner? Þar fyrer skulu þeir og verda ydrer Doomendur. Eñ ef eg rek wt Diøflana med Guds Fijngre, sañlega er þa Guds Rijke kom-ed til ydar. Nær ed sterkur Hervopnadur vardveiter sitt Andyre, þa er allt med Mak hvad hann a. Eñ nær añar yfersterkare kiemur og yfervinnur hañ, þa fletter hañ hañ øllum Hertijum, a hvør ed hañ tr-eister, og i sundurskipter so hanns Herfange. Hvør hañ er eige med mier, sa er a moote mier, og hvør sem samañsafnar ecke med mier, sa sundurdreifer. Nær Ohreinn Ande fer wt af Mañenum, rasar hañ um̄ þurra Stade, leitar ad Hvijld og finnur ecke, þa segier hann: Eg vil aptur hverfa i Hws mitt, hvadañ eg foor wt; Og þa hañ kiem-ur, finnur hañ þad soopad og prijdt. Þa fer hann og tekur med sier Siø adra Anda sier verre, og sem þeir eru þar innkomner, byggia þeir þar, og verdur so þess Mañs hid Seinasta, verra hinu Fyrra. Eñ þad skiede þa hañ talade þetta, ad Kona nockur, wt af Foolkenu, hoof

upp

uppsijna Raust og sagde til hanns: Sæll er sa Kvidur sem þig bar, og þau Briooſt sem þu mylkter. Eñ hañ sagde: Ia ad vijsu; Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord, og vardveita þad.

## Exordium.

EKke er Laan leingur enn lieder, segia Menn i Fornkvednum Ords-Hætte, og er hann sannur, þvi þegar Eigandenn aptur heimtar, þa er hanns Riettur wte ad brwka, sem Laaned took: Og so sem þvi er hættad almennelega a medal vor Mannanna, so er þad eirnenn a sig komed a mille Guds og Satans; Andskotenn hefur a stundum nærsta diarftækur vered til ad hondla med hanns Skiepnur, þa honum, fyrer einhvorn Tilgaang, hefur þad leift vered, enn eingvannveigenn maa hann rada yfir þeim, moote Vilia hinns Almaattuga. Ad sonnu heyrdum vier ei alls fyrer laungu, ad hiñ Bligdunarlause Diofull baud vorum HErra, ad hañ villde giefa honum oll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Eñ hvad miked Rijke hafder þu þa i Heimenum, Satan! er þu þorder ecke ad bwa i Svijnunum fyrer utann Leife DRottiñs vors? Matth. 8. Syne sijnum hefur Gud feinged Raad yfir Verolldenne, hvorn hann sett hefur Erfingia allra Hluta, Hebr. 1. Honum hefur hann giefed allt Valld bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. enn ecke Dioflenum. Þar fyrer, þoott ad DRottenn kalle hann Hofdingia þessa Heims, hia Joh. 14. Þa er þad ei, svo ad skilia, ad hann med frialsu hafe nockra Stioorn a Jordu i þeim Hlutum, sem Valldstioornenne vidkoma, helldur meinar Lausnarenn þar med Heimenn, sem eru þeir Ogudlegu, þad eru Vantrwareñar Born, Eph. 2. J hvorium Diofullenn maattugur, til ad drijfa þa epter Villd sinne til allskyns Synda og Lasta. Ei þorde hann ad granda Jobs Lijkama, fyrr enn Gud gaf honum Leife þar til, Jobs 2. Ei gat hann Petur sigtad, þvi vors Endurlausnara Bæn maatte meira, Luc. 22. Og so sem Andskotinn hefur eckert med Christum, edur þa sem i honum eru, svo kunna ei helldur hañs Born Guds Bornum ad granda, framar enn Gud leifer. Oll vor Hofud-Hær eru talenn, og ecke fellur eirn Titlingur a Jordu aan hanns Vilia, Matth. 10. Nu þo ad Satan vel vite, ad hann megnar eckert med ollum sijnum Illsku Krapte a moote einu Guds Orde, þa fær hann ei vid sinne Illsku giort ad areita Gud og hañs Utvallda. Alldrei er svo sterkur Kastale, ad ei þurfe ad vaka svo leinge Striided yfirstendur. Nu er Lijf þetta ecke annad enn sijfelld Baraatta, Job. 7. bæde hid Ytra og Innra, þvi er Þorf ad Saalenn vake i Hiartanu, sem er Slot Lijkamans, og bidie svo ad vier follum ecke i Freistne, Matth. 26. Jeg sagde fyrer Skomu, Born mijn! Ad Andskotenn hefde eckert med þa, sem eru Gude Handgeingner, enn þad gyllder a medann þeir eru i hanns Þienustu, enn ecke annars. Svo marger sem ecke geingu wt af sijnu Hwse þa Noott, sem Paaska-Lambed var ad Kvollde eted, þeir urdu frijer fyrer Mord-Englenum i Egypta-Lande, Exod. 12. Guds Osijnileg Kyrkia hier a Jordunne

unne, er Hws þad, hvar inne hid saklausa Guds Lamb, sem burttook Heimsins Synder, verdur daglega slaatrad og offrad i Riett-Trwadra Hiortum, þeim Himneska Fodur til Sætleiks Ilms: Gaanger þu wt af þessu Hwse, christenn Madur, þa kann eg ecke ad segia þig Ohultann fyrer Draaps-Englenum; Enn þyker hitt lijkara, ad þu meiger i hans Hendur falla. I þessu H. Evangelio hofum vier Epterdæme, bæde uppaa Andskotans Illskufulla Medferd aa syndugum Monnum; Og so hanns Barna Hreckvijse aa moote Gude og hanns Bornum. Vil eg þvi i þetta sinn tala: 1. Uñ Diofulsins Valld yfer syndugu Hollde aa hinum fyrre Dogunum, og so nu. 2. Uñ hanns Illsku i þvi ad spilla vorre Andlegre Velferd.

Styrk oss þar til Naadarfulle Gud, med Krapte þijns Anda, i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

Mjog so Aumkunarlega hefur þesse Mañeskia halldenn vered, sem hier uñ gietur i Gudspiallenu; Þvi hvad kann vesællra ad vera, eñ þegar Twnga Mañsins er bundeñ i hanns Munne, so hann faer ecke talad vid adra Menn sier til Skiemtunar, eige kvartad uñ þa Hlute, sem hañ aangra. Eirn Maalleisingur er i Heimenum, so sem fyrer wtañ Heimeñ; Hañ hefur Twngu og talar ecke, og ecke ollu betur, eñ ein Lijkneskia, er hañ aa sig komeñ. Nu eykur þad þo miklu aa, ad raada er af Gudspiallenu, ad þesse Plaaga hafe vered af Dioflenum; og er þvi ecke ad neita, ad Gud hefur Andskotanum leyft mikla Hlute i Lijkamlegum Efnum, aa Dogum gamla Testamentesins, aa Hiervistar-Dogum vors Frelsara, aa Dogum hañs H. Postula, hvoria hañ sier i lage wtsende i sijnu Nafne til ad planta siñ Vijngard aa medal Mañaña Sona hier aa Jorduñe, og so nockra Stund fram epter Olldunum, til ad styrkia og auka þessa nyju Plantan, med Auglijsingu sijns Maattar yfir Dioflenum. Hanns Owtsegiannlegre Myskunseme og Naad hofum vier þad ad þacka, ad vier finnum ecke so miog þar til aa vorum Dogum, ad Dioflenum sie leift ad hafa Valld yfir Manneskiuñe i Lijkamlegañ Maata. Fiærre sie þvi, ad eg segie þad Gud kunne ecke, ef hañ vill, ad brwka Andskotann til ad straffa Synder Mannaña, þvi hann er i hañs Hende, so sem oll hanns Verk. Hitt efast eg uñ, hvort þad sie hanns Vilie nu uñ Stunder. Saa Alvitre Konungur hefur Þusund Veige og Maata til ad stiorna sijnu Rijke. Eins og eitt Kongs Rijke umbreitest aa marga Vegu epter Tijdunum, so siaaum vier eirneigeñ, ad þad er skied i Guds Rijke hier aa Jorduñe. Ad soñu er hann ecke siaalfur i nockru umbreitannlegur, helldur umbreiter hann ollum Hlutum, epter þvi sem hañs Guddoomlegu Speke haga þyker. Hann talade siaalfur vid Fedurnar fyrer Flooded; Hann giorde slijkt hid sama vid Abraham og hanns Epterkomendur, allt til Moysen. Moyses took Riettindenn af hañs Munne, og fieck þau Israels Sonum, og hann gaf þeim fyrer hanns Hond sitt H. Logmaal, skrifad aa Stein-Toblum, til ad lifa epter, Exod. 24. Hann stiornade siaalfur, eins og eirn Veralldlegur Konungur, sijnu Foolke, þar til þeir villdu ei leingur laata hañ drott-

drottna yfer sier, og hann gaf þeim Saul Konung i Bræde sinne, Hos. 13. Hann talade þo vid hans Epterkomendur fyrer Munn sinna Spaamana, og jafnvel i Herleidingunne lagde sitt Ord i þeirra Munn. En i Tijmans Uppfyllingu hefur hann talad vid oss fyrer Soninn, Heb. 1. og læted hann, sem er wtgeingenn af hanns Skaute, Joh. 1. opinbera Mönnunum sinn Vilia, en þegar hann stie til Himna og inngieck i sijna Dijrd, þa sendi hann Postulum sijnum H. Anda, af sijnum Fødur, Joh. 15. sa er leidde þaa i allan Sannleik, Joh. 16. og kiendi þeim ecke einasta, hvad þeir tala ættu fyrer þeim, sem Saaluhiaalpina erfa skylldu, helldur og fyrir Herrum og Konungum, Matth. 10. sem offvoktu Guds Evangelium. Þesser eru þeir, sem oss hafa Guds Vilia skrifadan eptirlæted i Gudspiollum, Sendibrefum og Opinnberunum, fyrer hvør ad Guds Kyrkia stioornast enn nu i Dag hier a Jordunni. Sijdann þeirra Daga vitum vier ecki til, ad Gud hafe talad vid Mennina, nema i þessu sijnu H. Ordi, hvert ed enn nu daglega kennist og predikast medal vor. Af þessu siaum vier, hversu margbreitt ad hefur verid Rijkisstioorn þess mæattuga Allsheriar Konungs hier a Jordunni. Enn hvad Satans Utriettingum vidvijkur, þa sie eg, ad hann hefur leyft hønum marga Hlute ad fremia a Gamla Testamentisins Døgum. Hønum þocknadist ad læta hann slaa sinn Þienara Job, med Saarum og Kaunum, Job. 2. uppa þad hann reynde hans Þolinmæde, og sijndi Andskotanum, hversu ad Guds Kraptur være i Mannsins Breiskleika mæattugur, 1. Cor. 12. Hann leifde Tofra-Mønnum Pharaonis marga undarlega Hlute ad giora fyrer Satans Krapt, Exod. 7. 8. uppa þad hann med þeim, og þeir med hønum, yrdu til Skammar, fyrir Moysi Guds Þienara. Gud leid hønum ad aklaga Josuam þann Ypparsta Prest, Zach. 3. so hann af hinum Ædsta Biskupi Saalna vorra straffadur yrdi: Og annad þvi um lijkt er ad lesa i Søgum Gamla Testamentisins. Hvar fyrer munde nu Gud giora þetta? Ecki þess vegna, ad hann ei giæte med sijnum Almættis Krapti alla Hlute verkad, epter þvi sem sialfur vill hann, þvi fyrer hønum er eckert Ord Omæattugt, Luc. 1. helldur eins og hann liet Pharaonem standa og ecke um Koll steipast, þar til hann optsinnis audsijnde sijna miklu Makt a hønum, Rom. 9. So liet hann a þeim Døgum, Andskotann brwka a Stundum sijna Makt, til ad læta Mannkynid sia, hvad miklu Gud være hønum sterkare, so þeir lærdu ad trwa a einn DRottinn Gud, og eingann annan. Alldrei hefur þo Andskotenn feinged so mikla Makt til ad opinbera sig Mønnunum, so sem a Hollds-Vistar Døgum vors Lausnara, og lijtur þad eins wt, so sem Gud hafe viliad geyma sijnum Eingietna Syni þa sterkustu Orustu moote hønum, so hanns Sigur yrdi þess frægare medal Mannanna. Hann talade vid hann sialfann eins og Madur talar vid Mann, Matth. 8. Hann kvalde Doottur þeirrar Cananisku, Matth. 15. Hann kastade þeim Diøfuloода a Vatn og Elld, Matth. 17. Hann bioo i þeim Tveimur Gergesenis, Matth. 8. Gann giorde þennan Maallausann, sem vor Texte um talar. Hvar fyrer mun þetta skied vera? Br. M. Mannsins Styrkleika sia Menn ecke, nema hann hafe einhvern ad reyna Orku

vid,

vid. Og so sem Endurlausnarinn segier i þessu Evangelio; Þegar eiñ sterkur Hervopn=adr vardveiter sitt Andyri, þa er allt med Mak, hvad hañ a, ett. Þad var vorum Herra fyrer minnstu, ad þvijnga Diofulinn epter sinne Villd. Annad var hanns Erinde meira i Heiminn, sem var, ad lwka þa Sekt, er Mannkyned atte Gude ad giallda. Eñ so sem DRottenn i Gamla Testamentinu leifde Andskotanum ad sijna Megn sitt odruhveriu, Monnunum til Eptertektar; So leifdest og þessu Illhvele ad vada hvad mest uppe og brwka Makt Myrkranna, a medann Guds Sonur umgieckst hier a Jorduñi i Mynd eins Þioons, þeim ollum til Trwarstyrkingar, sem a hanns Nafn trwa villdu; Ad þeir sia mættu, ad so audvirdilegur, sem hañ var, þa være hann þo sa, sem af Gude sendur være til ad nidurbrioota Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. og med ollu ad sundurmola Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hefde og Guds Eingietinn Sonur, strax sem hañ var til Himna farinn, bundid so Hendurnar a Dioflinum, ad hañ hefde ecke feinged odruhveriu ad sla sig sialfann a Muñiñ, þa kañskie, ad Illþiided i Verolldiñi hefdi sagt, eins og þesser sogdu; Ad fyrer Beelzebub hefde hann wtrekid Dioflana a sijnum Hier=vistar Dogum: Þvi gaf hann honum og nockurn Taum um Postulaña Daga, sem er ad sia af þeirra Giorninga Book, og a medal añarra, þegar Satan maatti til Skañar sier medkieña: JEsum veit eg, og Paal þecke eg, eñ hverier erud þier? P. G. 19. Þad er og lijklegt, ad fatækum Fiskurum, sem hielldust fyrer Afskwm Veralldar, munde ecke hafa stoorum trwad verid i þeim Hlutum, sem so eru gagnstæder holldlegre Skynseme, sem Christs Evangelium er, hefde hañ ei stadfest þeirra Predikun med þessum og odrum jafnvægum Kraptaverkum. Dasamlega hefur Gud uppbyggt sijna Kyrkiu hier a Jorduñi, hver sem þar ad vill giæta, ad hañ hefur laatid hana vaxa fyrer utañ allt mañlegt Yfirlæte, og alleina af þeim Hlutum, sem ecke standa i nockurs Mañs Vallde, nema honum sie þad af Gude giefid; og er hun i þessu lijk Salomonis Musteri, sem byggt var fyrer utañ allt Hareyste, so þar heyrdest ecke Axar edur Hamars=Hliood, 1. K. B. 6. Segied mier, hvert nockur Atrwnadur hefur so byriast sem þesse? Edur so leinge stodugur staded, nema honum hafe framfylgt verid af mañlegu Vallde? Enn sijdann hinn alhage Smidur hafde so fastann Grundvoll lagt fyrer Spameñina og Postulana, Eph. 2. og allra hellst fyrer hinn sterka Hyrningar=Stein (hvern Gud hefur sett i Zion, Esa. 28. ad hann yrde Hofud Hyrningar um Alldur og Æfe, so ad vel mætte ofann a byggia), þa hefur hann laated Spadoomunum slota og Kraptaverkunum linna. Gud giorer eingann Hlut forgiefins, og so sem þad var ecki Naudsynlegt, ad Gud talade framar vid Mennina, edur opinnberade sig, epter Postulanña Daga og Spamañaña, þar allur Guds Vilie er opiñber i þeirra Bookum og Psalmum; Svo lagde hañ og Hapt a Andskotañ, epter þad hañ ei þurfte framar ad auglijsa sijna miklu Makt a honum. Eg veit eingeñ Rok til, ad Gud hafe giefed Satan nockurn Tijma Taum, alleina til ad kvelia Meñina, þvi hañ hefur noog Raad til ad straffa Synder vorar ann þess; helldur añadhvert til ad reyna siña Barna Trw, edur sialfum
honum

um til Hegningar. .. Eda ſeged mier, nær Satan hefur auglijſt ſijna Makt, nema ſier til Svijvirdu og ſijnu Rijke til Nidurdreps? Sijdañ Gude hefur nu þocknaſt ad brwka onnur Medol til ad ſtioorna med ſinne Kyrkiu, ſem er hid ſkiæra Lioos Evangelii, þa vill Gud ecke leika fyrer mannlegre Forvitne med Opinnberunum edur Kraptaverkum, þar þeir eru O-affſakanleger, ſem eige vilia Guds Orde trwa. Herodes vænti ad hañ munde ſiaa Teikn af JEſu, Luc. 23. Enn JEſus var ecke i Heiminn kominn til ad ſkiemta Herodi. Satan villdi eirninn, ad hann auglijſte ſitt Almætte aa Steinunum, Matth. 4. Enn Chriſtur ſijnde honum, ad hañ var ſaa Almaattuge Hyrningar-Steinn, ſem hanns Hofud hefur i ſundurbroted. Þetta Foolk beiddeſt epter Teikne af Himne, og þokte þad ecke noog, ad þeir ſaau Dioſulinn wtrekinn; Enn HErrann ſagde, þeim ſkyllde ecke Teikn giefaſt nema Jonæ Spaamanns, Matth. 12. Þvi eins og Jonas var Ninive, mundi Mannſins Sonur verda þeſſare Kynſlood. Enn þeir ſem nu ecke vilia Gudi trwa, nema þeir þykiſt Dioſulinn ſiaa, ſkulu eckert Teikn ſia nema Mannſins Sonar, hvers Greftrunar og Uppriſu Teikn ad Jonas var. Og vilie þeir ecke þar med nægiaſt, munu þeir ſiaa hanns Teikn i Skijum Himins, er hann kiemur med Makt og miklu Vellde, Matth. 24. ad fordæma bæde þeirra Hiaatrw og þeirra Vantrw, ſem aa Jordu byggia.

J Añann Maata vil eg taka mier Ordſok af þeſſum maallauſa Mañi, til ad ſkoda, aaſamt ydur, hvert ecke er ſumum Monnum i Verolldu þeſſari eins miked aafaatt i andlegri, ſo ſem honum var i liikamlegri, Heilſu. Ei þurfum vier laangt ad leita ad Dæmum þar uppaa. Hverra Koſtur var betre, þeirra er ſogdu, ad JEſus ræki wt Dioflana fyrer Beelzebub, edur þeſſa Maalleyſings? J hinu Fyrſta Bodorde hefur DRotteñ tilreidt ſier eitt Muſteri i Manninum, ſegiande: Þu ſkallt ecke hafa annarlega Gude fyrer mier, Exod. 20. Hvad hann wtleggur i odrum Stad, ſegiande: Elſka ſkallt þu DRottinn Gud þinn af ollu Hiarta þijnu, og allri Aundu þinni, og ollu Hugſkote þijnu, Devt. 6. Enn ſtrax i odru Bodordinu hefur hann ſkickad Kiennimenn til þeſſa Muſteris, ſem er Twngann. Þegar Kiennimeñirner i Gamla Teſtamentinu fooru til Frietta vid DRottinn, þa leitudu þeir hanns oftaſt i Helgidoominum; Svo tekur og Twngann af Hiartanu, allt þad hun tala ſkal, og af þeſs Nægd mæler Munnuriñ: Eñ ſegied mier: Verdur nockud Guds Muſteri helgad, þo þar ſieu hiegoomleg Æfinntijr og Skrok-Sogur þuldar? Enn ſijdur verdur Hiartad helgad med ſaaniijtum Þaunkum: Ad eg tale ecke uñ ſkañarleg Ord og fiiflslegt Hial, ſem Chriſtnum ſoomer ecke, Eph. 5. Soddann er undarleg Þogn i Guds Eyrum. David bijdur, ad Meñ ſieu ecke eins og Heſtar og Mwlar, hverium Menn verda Bitel og Beitſl i Muñ ad leggia, Pſ. 32. Enn þad er ſorglegt ad vita, hverſu Maallauſar Sklepnur eru fremre morgum Gudlauſum, ſem vanhelga hanns H. Nafn, forſmaa hanns Ord, hæda ad hañs Þienurum, ſpotta hanns Kienningar, og alldrei edur allſkialldañ taka ſier hañs dijrdarfulla Nafn i Munn, nema þa þeir Lwga edur Sveria. Aſnann talade Fordum Daga,

Num. 22. Þegar Gud sende sinn Engil til Balaam ad mootstanda honum, og hun talade riett. Enn þau Otømdu Villudijrenn, sem ad nu uppalast i Heiminum a Andskotans Stalle, hafa lært annadhvert eckert, edur Illt, ad tala, þa Gud sender sijna Engla, Mal. 2. þad er, sijna Kiennimenn, til þess ad leida þau til Himnarijkis. Eru ecke soddañ fraleitar Manneskiur halldnar af dausum Diofle? Eg vil nu ei tala um Bænræktarleysed i Heiminum. Hver er sa, er lelte ad Drottne og akalle hann i Neydeñe? Ps. 50. enn laatast koma samann i Guds Hwse, og Meñ kriwpa þar nidur til ad Fridmælast vid hinn Almaattuga; Enn Gud giæsi þad være med sañre Trw, Lijtillæte og audmiwkum Anda! Allt þad sem ecke er af Trwnne, þad er Synd, Rom. 14. Sa sem bidur an Trwar, hann bidur ecke einungis forgiefins, hlldur giorer sijna Bæn ad Synd, so sem David Oskar þeim Ogudlegu, Ps. 109. Og Menn lasta Gud meir eñ dijrdka med soddañ Bænum, verande ecke einasta maalhallter, helldur verr enn maallauser fyrer honum. Ecke þarf mikinn Orda-Fiollda til ad vera Maalsniall fyrer Gudi, sem er Hiartnaña og Nijrnaña Rannsakari, Jer. 17. Einginn sa Moysis Varer bærast, Exod. 14. og sagde þo Gud vid hann: Þvi hroopar þu þanniñ til mijn? Konann, sem umgietur Matth. 9. talade ecke Ord fra Muñi, helldur sagde med sialfre sier: Ef ad eg mætte ad eins snerta Falld hanns Klæda, þa munda eg heilbrygd verda; Þo vard Myskunsemdanna Afgruñ ad byrta sig fyrer henne med þessum Ordum: Vert þu Hughraust, Dootter, þijn Trwa giorde þig heilbrygda. Hver kann oss hier uñ betur ad underviisa enn sa Eingietne Sonur Fodursins, sem er i hanns Skaute? þar hann segier til sinna Lærisveina, Matth. 6. Þegar þier bidiest fyrer, þa vered ecke margorder, so sem Heidingiar, þeir ed hyggia, ad þeir fyrer Mælge sijna Bænheyrder verde. I Anda og Sannleika ber oss ad bidia, Joh. 4. Þa tala Menn noogu sniallt fyrir Gude, þvi þad er sa Maalsheattur sem honum þocknast. Aller Meñ kostgiæsa ad tala þeirre Twngu, sem Konunguriñ talar; so eiga vor Bænar-Ord Guds Orde samlijk ad vera, uñ hvert David so talar: HErra, þijn Ord eru glooande; og þar epter vill hann breita, nær hann segier: Herra, mijnar Varer skulu þijnu Lofi wtfleyta (so sem heitt Vatn i Suduñi ysergeingur og skwmar, hvert ed ei kañ leingur ad hallda sier i Katlinum fyrer Hita); Og þad kallar St. Paall, Rom. 12. ad vera glooande i Andanum; Eñ þessar Glædur Hiartans astundar hiñ vonde Maalleysis Diosull ad wtslockva a einhvern Haatt, so þo vier tolum, þa skule Gud ecke heyra, og þo vier bidium, skulum vier ecke Bænheyrder verda, og þo vier wtbreidum vorar Hendur, þa hylie þo Gud sijn Augu fyrer oss, Esa. 1. Þvi gleptur hann fyrer oss i Bæninne med hiegoomlegum Þaunkum, med Vantrw, med Epterlaungun til vorra Uxa og Bwgarda, eda med Velgiu Andans, so vier ecke medtekner, helldur wtskirpter verdum af Guds Munne, Op. B. 3. O oss auma! Vier erum ei betur a oss komner enn Lazarus, hver ed ecke kunne gaanga, fyrr enn Christur skipade ad leysa af honum Boundinn, Joh. 11. Svo erum og vier, ad vier meigum ecke tala riett vid Gud i Bæninni, nema hann uppleyse Fi-

otur vorrar Tungu, og wtreke Mælleysesins Diøful, eñ legge Elld-Kol siins Anda, æ vorar saurugar Varer, Esa. 6. Þañiñ erum vier nu vid Gud; Eñ vid Næunganñ engvu betre. Hvør kañ stærre ad vera Tungunnar Brestur eñ sæ, nær Meñ giora stooranñ Roog af þvi, sem eckert er? Hvad kann vidurstyggelegra ad huxast edur talast, enn ad brwka Tunguna, hvør ad er einn hinn beste Limur æ Mañsins Lijkama, sem giord er til ad lofa Gud sinn Skapara, til ad forsvara sinn Næunga, til ad semia Frid millum sundurlyndra; ad brwka hana, segie eg, til ad myrda hinn saklausa, og liwga Lijf og Æru af sijnum Næunga? Lijgenn er verre øllum ødrum Andskotans Illsku Aundum, þvi er sæ plægadur med vondum Diøfle og þwngu Mælleysi, er sier hana temur. Øll Synd er Lijge, og fyrer hina fyrstu Andskotans Lijgi, Gen. 3. er øll Synd innkomenn i Heimenn, og sijdañ wtruñeñ til allra Maña; og þoott ad aller sieu ecke ad þessu fundner, þa er þo hier fyrer utann morg Tungunnar Vanbrwkan, sem i allann Mæta er Osæmande. Þar eru þeir til, er eckert velgiort þyker, utann hvad þeir siælfer giora, og lasta añarra Giorder, jafnvel þær, sem ecke Lastverdar eru. Falle margviislegir Doomar uñ einn Hlut, kieppast þeir vid ad filla þañ Flock, er færer æ hiñ verra Veg. Þesser eru giarnañ siælfer hiner sijdstu og ødrum lakare, og af þvi þeir vita, ad þeir eru siælfer illa ræmder, þa ætla þeir ad añarra Ohroodur mune þeirra Assøkun verda. Þu Hræsnare, segier Frelsarenn, drag fyrst Biælkann wt wr þijnu Auga, Luc. 6. Þad være vel adgiætande, ad sæ være heilskygn siælfur, sem dæmer uñ annars Blindne. Jeg veit ad þad er loslegt ad segia einum til sinna Lasta, þvi segier DRotteñ Gud, Levit. 19. Þu skallt straffa þinn Næunga, so þu berer ei Skulld hañs vegna; Eñ þad æ ad vera eptir Skynsemi, so ad Gaukurinn dæmi ecki uñ Svana Hlioodid, eda Hrafninn uñ Sund-Fuglana. O HErra Gud! hvør kann ad vita hvad oft hann syndgar? Ps. 19. Dæmed ecke, segier Endurlausnareñ, so þier verded ecke dæmdir: Fordæmed ecke, svo ad þier verded ecke fordæmder; Þvi med þeim sama Mælir, sem þier ødrum mæled, mun ydur aftur mællt verda, Matth. 7. Hvad margur dæmer siælfann sig Ovitande, þegar hann adra dæmer fyrer somu Lesti, er hann er mest hladenn siælfur? Og eckert er tijdara enn þad, ad Menn lijta þad æ ødrum, er þeir vita med siælfum sier, viliande þannig dyliast fyrer Mønnunum. Þar eru og soddañ skynlausar Mañeskiur til, sem lijta sinn Næunga fyrer þæ Hlute, sem hønum er ecke i siælfs Vallde ad giora vid. Soddann er einn skadlegur Illsku Ande, þvi hvør hann foraktar Fætækann, hañ hæder Skaparann, segier Salomon, Ordsk. 17. So er og uñ hvad añad. Sie einhvør Vitgrañur, Vesæll, Ofrijdur, Mælhalltur, eda hefur nockurn þvilijkann Brest Næturuñar, sem hañ sær ecke adgiort, þa fiñast þo soddann Vitstola Manneskiur, sem ecke skamast sijn ad hafa þvilijkt ad Hæde. Heyr þu syndugur Madur! Er hann fætækur; Seig mier: J hvøriu ert þu audugre? Þar hañ vantar Fiemunina, hvørium Mølur og Rid kann ad granda, enn þig vantar Þeckinguna æ Gude og siælfum þier: Er hann Vanskapadur og ei so Giørvilegur; Þorer þu ad segia þad lioott, sem Gud hefur so vera læted;

rated? Eñ lijt þig hid Jñra, ef þu mætt, og skoda hvorneñ Dioffullenn hefur afmyndad Sælu þijna, þad þu mætt ecke lijta riettu Auga til Guds Skiepnu: Hañ er Vitgrañ-ur og veit ei hvad giora byriar. Hvøriu ert þu Vitrare? Þar þu med Sialfs-Þoottan-um og hañs Nidran giører þig honum þess Fæviisare, sem Odur Madur er Heimskum argari. Lucifer, hvørs ad gieted er hier i Evangelio, var af þeim i Samaria Beelze-bub kalladur, þad er Flugna-Hofdinge, og þad af þvi, ad Illsku-Ondunum i Loftinu verdur vid Flugur samlijkt, Eph. 6. Eñ þad er þeirra Art ad sækia þar mest ad ødrum lifande Skiepnum, sem þeim er meinsamast, og hvar sem Hørunded er af, þar setiast þær a og stijnga. Þeim eru hiner Ogudlegu Spottarar lijker, sem eru þroottkir um annars Mein, og una sier illa, nema einhvør steite sig, sveria sig so i Ættena ad þeir sieu af Fiandanum, uñ hvorn Paulus talar, Eph. 2. ad hann sie eiñ Hofdinge, sem Valld hafi i Loftinu, verkande i Þvermoodskunnar Børnum.

Þesse Mælhellte drottnar enn nu so miøg i Heiminum, ad þoott aller hate hana a ødrum, sem Von er, þvi hun spiller hinum besta Hlut, sem er gott Mannord og Rykte, þa gieta so fæer vanid Tungu sijna þar um, og eru þeir af Dioflenum þrvnglega plægader, sem þannig lynder eru, og være øllu betra, ad þeim være Twngann wr Muñe skoreñ, helldur enn ad þeir sieu veltalande til þess, ad safna sier þeim Syndum, er þvi vallda, ad þeir ecke fa eirn Vatns Dropa til ad kiæla hana med, nær þeir pijnast i Helvijtes Ellde, Luc. 16. af hvørium St. Jacob segier: Ad þvilijkar Twngur sieu upp-tendradar. Þvi ef Endurlausnarinn skipar ad wtstijnga þad Augad, sem hneixlar, Matth. 18. Þa er lijklegt ad hid sama meige þess helldur um Twnguna segia, sem hun er hæfare til ad drijgia fleire og verre Synder, nær hun misbrwkud er. O HErra JEsu Christe! Þu saklausa Guds Lamb, sem ecke upplaukst þijnum Munne, helldur enn Saudur til Slatrunar leiddur! Es. 53. Virdst þu ad temia vora Twn-gu til ad lofa og dijrka þitt H. Nafn, a medañ vier hrekiunst i Utlegd þess-are, so ad vier þier eilijft Lof sijngia meigum i Dijrd Himnanna, med øllum Utvølldum Guds Børnum, Amen.

# Sunnudagenn i Midføstu.

Gudspialled, Joh. 6. Cap.

Á Þeim Tijma. Efter þetta foor JEsus yfer um Siæfar-Hafid Galileæ, sem liggur vid Stadenn Tiberias, og mikill Mañ-Fiollde fylgde honum efter, þvi ad þeir sau hañs Ja-rdteikn, sem hañ giørde a þeim sem siwkir voru. JEsus gieck uppa eitt Fiall, og settest þar nidur med sijnum Lærisvein-um: Eñ þa var Paska-Hatijd Gydinga nalæg. Og JEsus leit þa upp, og sa ad mikill Mañ-Fiollde kom til hañs; Þa sagde hañ til Philipp

Philippum: Hvadañ kaupum vier Braud, so ad þesser neyte? Enn þetta sagde hañ til ad freista hanns þar med, þviad hann visse sialfur hvad hann villde giøra. Philippus svarade hønum: Braud fyrer Tvø Hundrud Peninga nægest þeim ecke, so ad hvør eitt fꜳe þa nockud lijted. Eirn af hañs Læresveinum, sem ad var Andreas, Brooder Simonar Petri, sagde hønum: Eitt Ung-Menne er hier, sem hefur Fiñ Bigg-Braud og Tvo Fiska; Enn hvad skal þetta ꜳ medal so margra? Þa sagde JEsus: Lꜳted Mennena setiast nidur ad borda. Enn þar var i þeim Stad Gras miked: Og þar settust nidur ad borda, Kall-Meñ, ad Tolu, nær Fiñ Þusunder. Eñ JEsus took Braudeñ, þa hañ hafde Þacker giort, og fieck sijnum Læresveinum, eñ þeir feingu þeim, sem til Bordsins høfdu setst: Slijkt hid sama af Fiskunum, so miked sem hvør villde hafa. Enn þa þeir voru metter, sagde hann til sinna Læresveina: Safned samann þeim Leifum sem afgengu, so ad eckert spillest. Enn þeir søfnudu þeim samañ, og fylltu upp Toolf Karfer medur þessar Leifar, af þeim Fiñ Bygg-Braudum, hveriar ad voru auk þess sem þeir høfdu neytt; Enn þa er þesser Meñ sꜳu hvørt Teikn ad JEsus giorde, søgdu þeir: Þesse er sañarlega sꜳ Spꜳmadur, sem i Heimenn skal koma. Enn þa JEsus formerkte þad, ad þeir mundu koma og handtaka hann, og giøra hañ ad Kounge, veik hann einsamañ burt upp aptur ꜳ Fialled.

## Exordium.

Eirn af þeim gømlu Spekingum sagde Fordum Daga, ad Nꜳtturann være ꜳnægd med lijted: Enn ef vier eigum ad skrifa under med hønum, þa munar nockru, hvornenn Nꜳtturunnar Þijding er tekenn; Þvi skiliest fyrer þetta ecke nema Sꜳl og Lijkame i sialfum sier, þa er þad satt, ad þau þurfa ecke mikels vid af Veralldlegum Munum sier til Vidværis. Þegar Lijkamenn er O-solltenn og O-froseñ, þa er hønum noog; Eñ þegar Sꜳlenn gyrnest ei framar, þa er hun ꜳnægd, og vardar litlu, med hvøriu þesse Naudþurft er uppfylld; Þvi eins vel unde Adam i Skiñ-Kyrtlenum, Gen. 3. og Salomon i allre siñe Prijde, Matth. 6. og Johannes ollu betur i Ulfallds Felldenum, Matth. 3. helldur enn Herodes i sinne Purpura Kꜳpu, P. G. 12. Eñ sie Nꜳtturunnar Gloosa tekeñ fyrer Syndumspillt Mañsins Edle, þa hefur hun nær þvi alldrei noog; Hun er Elldenum lijk, sem þess meir logar, sem meir er i hañ bored. Bloodsugan slepper Hwdenne um̃ sijder, þegar hun er full ordenn; Enn Syndumspillt Nꜳttura sialldann þvi er hun leggst ꜳ. Sadningeñ er heñe Ordsok til ꜳ meira Hrong-

urs, og hun verdur alldrei sedd nema med Sulltenum. Vilie nockur sedia hennar Fijkn, þa tekst þad ecke med ødru møote, enn ad draga vid hana Foodred, svo hun drageft sialf upp umm sijder. Hvad lijtels ad Náttúrann af sialfre sier vid þurfe, þad kienner oss Frelsarenn, hia Luc. 12. Cap. medal annara, þar hann segier: Vered ecke Hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta, eda fyrer ydar Lijkama, hvoriu þier skulud klædast; Er ecke Lijfed meir enn Fædslann, og Lijkamenn meir enn Klædnadurenn? Enn þoott ad vor Náttura þurfe ecke margra Hluta edur mikillrar Umsorgunar vid, þa hefur Gud samt tilskickad, ad Madurenn skule med Erfide næra sig af Jordunne alla sijna Lijfs-Daga. Þad gamla Løgmaal stendur enn nu i Dag Oraskad: J Sveita þijns Andlites skallt þu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Gud hefur lofad ad blessa Jsraels Erfide, Devt. 28. enn ecke hanns Jdiuleise; hann giefur ad sonnu þeim, er hann elska, sitt Braud, þa þeir sofa, Ps. 127. Hann lætur Himenenn rigna, Jordena grooa, Fienadenn Avaxtar samann verda og Vøtuenn af sier giefa allrähanda Fiska, þoott Madurenn sofe; Enn samt hefur hann þo ecke hier med leift ad hann skule alldrei vaka, eingvum hefur hann heited ad steikt Giæs skule sliwga i Munn honum. Letenn er eirn lifande Daude og vakande Svefn, og vinnur ecke nema til Oþocka, bæde hia Gude og Monnum. Ef nockur rietter einhvorium Ølmusu og hann nenner ecke vid ad taka; Hvad kann sa vid þvi sem giefur? Og svo er þad eirneigenn; þegar Gud upplijkur sinne milldu Hende til ad sedia allar lifande Skiepnur, og lætur Grased vaxa a Jordunne, Fiskinn tyngast i Vøtnunum, Fienadenn Avaxtast a Landenu; Enn Mennerner forsooma ad hyrda þessar Guds Gaafur: Er þa nockud Skulldenn hia vorum Skapara? Langt er fra þvi. Mann liet hann rigna ad sonnu a Eydemørkunne, Exod. 16. enn sialfer mattu Jsraels Syner þad samannlesa; Og alldrei veit eg ad Mannenum sie Atvinnu sinne lofad, nema hann hafe Umsorgun þar fyrer med sijnu Erfide, þo ecke med Heidinglegre Bwk-Sorg, med hvorre Gud bannar ad þijngia Hiørtun, Luc. 21. J einu Orde ad segia: Ad leita fyrst Guds Rijkes og hanns Riettlætes, svo oss allt annad gott tilleggiest, Matth. 6. Þad er sa riette Vegur; Enn þadann fra liggia Tvær Ville-Gøtur: Aunnur til Lete og Omennsku; Aunnur til ofmikellrar Ahyggiu. Baadar verda oss bannadar i upplesnu Evangelio; Af hvoriu eg vil umm þad alleina tala i þetta Sinn: Hvornenn vier eigum christelega og Ærlega ad leita Næringar vorrar. Hialpa oss hier til goode Myskunsemdanna Fader fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

Upphafe þessa H. Evangellii heyrum vier, B. G. E. ad þegar vor HErra foor yfer umm Siooenn, sem liggur vid Stadenn Tiberias, þa hafe Mannfiollde mikell fylgt honum epter, þviad þeir saau þær Jardteikner, er hann giorde a þeim Siwku. Sannlega hefur þad vered Eyrende þessa Foolks ad heyra JEsum og hanns Kienningar, hvoriar hann stadfeste med Kraptaverkum. Þeir telia ecke epter sier ad fylgia honum epter, þo hann geinge a Eydemørku, Þvi JEsus Gieck Uppa Eitt Fiall, segier Textenn, og

þeir faaſt ecke um̃ þad, ad þeir hoфdu eckert til Matar med ſier, og ei hélldur var þar ad faa i Obygdiñe. Lær hier af, Chriſtenn Madur, hverninn þu ætt ad haga daglega þijnu Fram̃ferde. Þeſſer voru 5000. ad Tolu, enn Gud giæfi, ad 5. findeſt i morgum Þusundum æ medal vor, ſem laata ſier um̃hugad vera, ad leita fyrſt Guds Rijkis, og hanns Riettlætis, ædur enn þeir fara ad þijngia ſitt Hiarta med Sorgum þeſſarar Næringar. Ecke er hier gieted um̃, ad þetta hafe ſkied æ Sabbats edur Hvijldar-Dege; Þad hefur og ecke vered, þvi annars mundi DRottenn hafa byrtſt i Samkunduñi, og ecke vered æ Reiſu þañ ſama Dag: Þu ſkallt og ecke meina, ad þad ſie noog, ad þu hlaupur til Kyrkiuñar hvern helgañ Dag. Hvern Dag ættu ad offrá Gude Þackargiordiñe, þvi hvern Dag er hañs Myſkun nij og ferſk yfer þijnu Hofde, Pred. 3. Þu medtekur æ hverium Dege þitt daglegt Braud med þijnum Munne, þvi æ og þiñ Muñur daglega ad lofa og prijſa hañ, ſem þig og allar lifande Skiepnur mettar med ſinne Velþocknan, eñ þu ert Hyrdulaus þar um̃, og þier þyker þeirre Stundu illa varid vera, ſem þu giefur Gudi til ad bidia hann um̃ ſijna Bleſſan, eins og honum ſie veitt i þvi ad myſkuna þier. Hvern Afgud giorer þu ſialfañ þig? Meinar þu ad einnrar Stundar Erfide drage þier meira enn hañs Adſtod, ſem i einu Augnablike ſnere Vatne i Vijn. Joh. 2. Sem med ſiñe Bleſsan mettade 5000. Mañs af 5. Bygg-Braudum? Mun þitt Viku-Verk, med allri þiñi Ahyggiu, verka meir, eñ hann ſem æ 6. Dogum ſkapade hid dæſamlega Stoorvirke Himins og Jardar? Gen. 1. Og þo ert þu ſoddann Sialfbyrgingur, ad þu villt ecke faa hanni Lid med þier, ædur enn þu geingur til þijns Erfidis. Veitſt þu ecke, ad Madurenn lifer eige af einuſamañ Braude, helldur af ſierhveriu Orde, ſem fram̃geingur af Guds Muñe, Devt. 8. Tveir Vegier liggia til Allsnægta i Heiminum, Añar i giegnum mikil Um̃ſvif med Martha, Luc. 10. Eñ Annar med Mariu, ad þvo Fætur JEſu med ſijnum Taarum, og þerra þaa med Haar-Lockum ſijnum, Joh. 11. Ecke ſege eg, ad þeſſar Leider kunne ecke ſamañ ad liggia, og þoott ſiñ ſare hveria, ad þeir kunne ecke baader ad hafa ſama Nætur-Stad, þvi Martha og Maria kuña vel ad forlijkaſt i einu Hwſe, þo ſo, ad hin giori ecki þeſſa affkipta edur klage yfir henne, þvi hun hefur wtvaled þad gooda Hlutſkipted, Luc. 10. Luckulegt er þad Hws, hvar Forſioon og Gudrækne halldaſt i Hendur, ſo ad Maria bidur enn Martha ſtidur: Eñ ſkule añars hvers æn vera, þa er ſæ laangtum beiñe, ſem liggur Riettlijnis til Guds, helldur enn hiñ, ſem lætur oſs flækiaſt i kriijngum hanns Skiepnur. Vor Ahyggia og Erfide kañ ad bregdaſt. Hvad margur viñur Bake brotnu og þrijſt ecki ſamt? Eñ Gudræknenn hefur alldrei nockrum brugdeſt, helldur verda þeim aller Hluter ad Goodu, jafnvel ſialfur Skorturenn, ſem ad Gud elſka, Rom. 8. Sieu þeir likamlega Volader, þa eru þeir i Gudi Rijker; Sieu þeir foraktader i Heiminum, þa eru þeir þo mikils metner i Himninum. Skal eg kalla þann Rijkann, ſem æ morg Naut og Saude, Og ecke miklu helldur þann, ſem æ Himins og Jardar Skapara? Ef Gud bleſſar ecke ſijna Þioonuſtu med Rijkdoome, þa bregdſt þad þo alldrei, ad hañ bleſſe hana med

ſialfum

sialfum sier. Sva er ecke Rijkur sem miked a, helldur hinn sem lætur sier nægia: Enn hann sem hefur Gud, hann er alltijd anægdur, þvi þegar hañ hefur DRotteñ, þa skeytir hann hverke uñ Himen nie Jord, Ps. 73. Mig skal ecke furda, þo Gud late a Stundum sijna Elskendur vanta Audlegd Heims þessa, þvi hann hefur giefid þeim langtum betra, sem er, sialfann sig. Þegar nockur hledur Skip sitt med nytsamlega Voru, þa letter hann a sier Barlestenne. Hvad skyllde hann, sem fullur er af Gude, vilia þyngia sig med Mañona? Og mun hann ei alla Vegana varast Diofulsins Snorur, sem Gud hefur Einusinne veiddann i sijnu Nete? Sva sem Gud hefur, hann hefur meir eñ allt, og hañ sem ecke hefur Gud, hañ hefur miña eñ ecke neitt, svo verdur giefid þeim sem hefur, og teked fra þeim sem ecke hefur, eirneigenn þad hañ hefur edur meinar sig hafa, Marc. 4. Vier heyrum framveigis i Gudspiallinu, ad DRotteñ seger vid Philippum; Hvar Kaupum Vier Braud, Svo Ad Þesser Neyte? Allt Valld hafde JEsus a Himne og Jordu, Matth. 28. þo radgadist hañ uñ þetta vid siñ Lærisvein, hvar þeir kuñi Fædslu ad kaupa. Med hveriu Ordi hañ bendir þier til, Christeñ Madur, hverniñ þu att ad leita þinnar Atvinñu, sem er, i allañ Leyfilegann Mata: Ecke ad Andskotans Rade, þvi hañ stelur ollu þvi hañ rædur til, og ert þu þa hañs Þioofsnautur, ef þu, fyrir hañs Aeggian, wtvegar þier Fooстur: Ecke med Okre, þvi DRottenn seger: Þu skallt ei fa þijna Peininga þijnum Broodur til Okurs, Deut. 23. Ecke med Kwgun eda Hardrægne, þvi Gud hefur Andstygd a þeim, sem selur Lijtilmagnann fyrer einn Pening, og hinn Fatæka fyrer einn Skoo, Amos. 2. Næst þessum sitia i Andskotans Rijki Þioofarner, sem wtrietta sijnar Hendur til añarlegra Fiarmuna, uñ hveria St. Paall seger, 1. Cor. 6. ad þeir ecke eignest eilijft Lijf. Og i Sañleika: Þa er Þioofurenn Svijvirding bæde fyrer Gudi og Monnum. Ad sonnu seger Syrach, Cap. 20. ad lijdannlegre sie Þioofurenn enn Lygarenn, þo muni bader til Olucku verda. Enn þegar eirn Odada Skielmer tviñar hverttveggia samañ, mun hañ ecke flietta Olluckuñar Snoru handa sijnum eigiñ Halse? Og þott hann megi umflya þa Tijmannlegu, þa er eckert vijsara, enn ad honum salgad verdi med eilijfri Kyrkingu i Helvijte; Þvi eg hafde nærre þvi sagt, ad þad være Þioofsins Lucka, ef hañ yrdi hengdur, ef skie mætte, ad Galginn frijade hañ fra Helvijte. Heyred þier, Satans Born, ef nockrer erud, sem meged Ord mijn heyra, edur til þeirra spyria! Erud þier enn nu ecke Obyrster vordner af Bloodi fatæks Almwga hier i Lande? Nær viljed þier lata af, ad wtsiwga Hws þeirra, sem ydur Forsorgun veita med sijnu Erfide? Skulu Guds Born leinge bera ydar Svijvirdingar? A Gud oss leingi reidur ad vera fyrer ydar Saker? Geingur ydur þad ecke til Hiarta, ad hann straffar þa, fyrer ydar Skulld, sem ydur ala? Hafed þier ecki heyrt, hversu Gud vard reidur vid Israel fyrer einnsamann Achans Þioofnad? Jos. 7. Vited þier ecke hvad DRotteñ seger, hia Zach. 5. Þad er sw Bolvan, sem wtgeingur yfir Landid, þvi aller Þioofar verda sagder froomer epter þessu Brefe, eñ eg vil þad frañkoma lata, seger DRottenn Zebaoth, ad þad skal koma yfer Þioofsins Hws, og

þess

þess Hwss sem sver falskelega vid mitt Nafn, og þad skal blijfa i þeirra Hwse og eyda þv med þess Stockum og Steinum. Þeinked þier þa, fyrst hann lijdur ydur ad plaaga sijn Born medann ydar Tijmi yferstendur og Makt Myrkranna, þad Gud muni vera eins og þier, af þvi hann þeiger? Ps. 50. og sier þo betta, og ecke vitia um sijder ydar Ogudlegs Athæfis i sinni Reidi, sem ad brennur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32 Þar fyrir laatid af Illu, O þier Eytur-Ormar og Nodru Kyn! og lærid gott ad giora, Es. 1. Hvor hann hefur stolid, hann steli ei framar, helldur erfide med Hondunum? Eph. 4. Mauriñ er einn veikur Hoopur, þo wtvega þeir sijna Fædslu um Sumar-Tijmañ. Kwnijsenn er og veikur Lijdur, þo byggia þeir sitt Hws a Steinum. Gras-Hopp-urnar hafa eingann Konung, þo gaanga þær allar wt i Hoop. Gaunguroofann vinnur med sijnum Footum, og er i Konganna Hijbijlum, Ordsk. 30. Þetta giora þin vesæl-ustu Kvikinde Jardar; eñ hvad giorid þier, sem Gud hefur giefid skynsemdarfulla Saal i heilbrygdum Lijkama? O þier hin hreckvijsa Kynslood! Hversu vilied þier umflija Guds Reide og Fyrerdæminguña? Matth. 23. nema þier ydrest af Hiarta.

Gudspiallamadurenn segier, ad JEsus hafe talad þesse Ord til ad freista hañs med, þvi hann visse sialfur, hvad hann villde giora. Þu skallt og ecke laata þig þad undra, þoott Gud reyne syna, Christenn Madur! Gud freistar ad sonnu einkis Mañs til Ills, seger Jacob, Cap. 1. Enn til Goods freistar Gud Mañsins, so ad Reynsla vorrar Trwar finnist Gullinu dijrmætare, 1. Pet. 1. til Lofs og Dijrdar Christo. Abraham vard freistadur, Gen. 22. so hañ væri Fyrermyndan allra Abrahams Sona; Su Ca-naniska, Matth. 15. so einginn orvænti, þoott Gud mege þegia um Stund vid Bæn-um sinna Barna. Merkelegt er betta, ad DRottenn spyr Philippum ad þessu fram-ar odrum; Sañlega, þvi hañ hefur Trwarveikur vered, so ad þad dijrdlega Krapta-verk, er hann villde giora, mætti þess betur gaanga honum til Hiarta. Eda hvad segier vor HErra, Joh. 14. vid sama Lærisvein, er hañ beidde, ad hañ sijndi þeim Fodurin; Trwir þu ecke ad Fadiriñ er i mier og eg i honum? Og varla odruvijse voru hiner Læri-sveinarner a sig komner; Hvar fyrer Endurlausnareñ straffar þa, Matth. 16. þa þeir hofdu Braudid eptersliled, segiande: O þier Lijtiltrwader, eñ þa skilied þier ecke, mun-ed þier ecke þau 5. Braudeñ, þar ed voru 5000. Maña? Og hvad margar Karfer þier upptookud? So vill nu vor JEsus, med Reynsluñi og Auglijsingu sijns Almættis midt i Freistingunni, smaamsamann innplanta Trwna hia sijnum Lærisveinum, og sama giorer hann enn nu i Dag, þa hann Hialpina undanndregur, edur lætur veniuleg Lijfs-Medol bresta. Gud naadi! Þoott Menn sieu Christi Lærisveinum i flestu Olijk-er nu i Heiminum, þa finnast þo marger þeirra Lijkar i þessu; Braud fyrer 200. Pen-inga nægir þeim ecke. Eñ hvad giorum vier? Strax sem vier ecke hofum fullañ Maga Matar, þa er þar Muñuriñ fullur Orvæntingar. Ef þar er ecke allt fyrer Augunum, sem eta skal, þa seger hinn Vantrwade: Þoott Gud giore Glugga a Himiniñ, þa kañ þad ecke ad skie ad Meñ life, 2. K. B. 7. Eñ hiñ Matvande gietur ecke lifad vid þad Liett-

mete,sem daglega tilfellur; Hann segier, hvar vill þesse giefa oss Kiøt ꝏ Eydemørku? Num. 11. Sijnist nockud Omøgulegt, þa hæder mannleg Skynseme þar ad. Hverninn skal þesse giefa oss sitt Holld ad eta og sitt Blood ad drecka? Joh. 6. Þesse Orvæntingarinnar og Ofolinnmædis Ord, byrgia tijdt og opt aptur Guds Myskunar Ydur, so hann lætur hinum Gudlausa verda epter Trw sinne. Heyrid þier mier! Er þa nockud Ord O-mœttugt fyrir Gudi? Hann sem skapad hefur Steininn, kann hann ecki ad giefa Vatn af honum? Num. 20. Hann sem giørt hefur Vatnid, hvad liett veitir honum ad umhverfa þvi i Vijn? Joh. 2. Er honum nockud bœgara ad lœta mig finna Gull i Fiskſins Munni, helldur enn i Filsnum Jardar? Er ecke Hrafninn grœdug Skiepna? Þo liet hann Eliam fœ af hans Munni Kiøt og Braud, 1. K.B. 17. Þressar nockur Oleum wt af Leyr-Kierum? Og þo fyllte Spœmannsins Bæn og Eckiunar Trw so morg Kier allt ꝏ Barma, 2. K.B. 4. Þu segier, Gud giøre ecke Kraptaverk ꝏ þessum Døgum, so sem Eliæ: Eg medkienni þad, þvi þess gioristt ecki Þørf, Gud hefur giørdt so morg Kraptaverk sijdann Eliæ Daga, sœ sem ecki vill Gudi trwa fyrer þau, hann mundi ei helldur trwa, þoott hann sœe Eliæ Kraptaverk. Þar eru ei helldur marger ꝏ vorum Døgum, sem þioona Gudi eins og Elias. Være þar Eliæ Trw, hanns Arvekne og Astundan i Guds Þioonustu, þa Trw mier til, ad Eliæ Gud er einn og hinn sami, og ecki umbreytist hann. Þu seger: Gud giører eingenn Kraptaverk; Enn hvert er meira ad giøra alla Hlute af eingu, Gen. 1. Eda ad giøra Vatn ad Vijne? Eda Steina ad Braudum? Mier sijnest eckert meira Kraptaverk enn þad, ad Gud kann ad forsorga þann Vantrwada. Lærisveinarner gœtu ecke wtrekid Twnglmeina Diøfulenn fyrer þeirra Vantrwar Saker, Matth. 17. Enn eins miked Valld hefur Gud yfir Diøflinum, sem yfer ødrum sijnum Skiepnum, þvi sijnist mier þad yfir Mœta mikid Kraptaverk, ad Gud lætur hinum Vantrwada og Oþacklœta nockurn Hlut ad nockru Goodu verda. Þar fyrer, E. G. V. Ef mannlegur Veikleike kann ad koma inn hiœ oss, so sem Christi Lærisveinum, ef vier erum þeim lijker i Trwarveikinne, þa verum þeim ecke Olijker i Hlijdninni: Þeir giørdu slijkt er þeim var skipad, þeir stoodu ecke upp i Mosunum ꝏ sijnum Herra, eins og ad væri þetta Omedal, so sem ad giøra vorir Þioonustumenn ꝏ þessum Døgum, sie þeim skipad nockud Oveniulegt, þa hroopar hinn Lati, ad þar sie Leon ꝏ Veginum, Ordsk. 22. Giørum þvi Verk Kallanar vorrar i Guds Otta, og vørpum allre vorre Ahyggiu uppꝏ Gud, hann mun þvi vel til Vegar koma, 1. Pet. 5.

JEsus Took Braudinn J Sijnar Hendur, seger Textenn; J þær blessudu Hendur took hann þad, i hveriar Fadirinn hefur lagt alla Hlute, Joh. 3. Framar seger Gudspialled, ad hann hafi lited Augunum til Himins og giørdt Þacker. Ei þurfte vor JEsus þessarar Blessunar vid, til ad giøra Kraptaverk fyrer sialfann sig, þad vottar hann sialfur, hiœ Joh. 11. segiande: Eg þacka þier, Fader, ad þu Bænheyrder mig, enn eg visse þu munder mig Bænheyra, helldur vegna Foolksins sem i kriingum er, so ad þeir trwe þad þu hefur sendt mig. Þar fyrer skallt þu vita, Syndugur

Madur

Madur, hvorium Gud giefur daglega sijna Blessan, ad þinn Endurlausnare hefur giefed þier eitt blessad Dæme hier med, þad þu trwa skyllder, ad þijn Faung og Fæda verdur þa hellst til Blessunar, þegar hun er i hanns Nafne blessud. Þad er ei minna verdt, ad giæta fengins Fiaar, enn afla; Somu Atferd skal og Christeñ Madur hafa til hvorstveggia. Jeg sagde fyrer komu: Þess skyllde i Guds Otta leita; so segie eg eñ nu, ad þess skal i Guds Otta neyta. Hvad segier DRotteñ um̃ þa, sem treista a Maatt siñ og Megeñ, Es. 8. Vered iller, þier Lijder, og reñed þo undañ, herklæded ydur og hlauped þo a Flootta, bwed ydur wt, og flijed þo undañ, alykted eina Raadagiørd, og þar verde þo ecke af, hafed Samtok, eñ þad hafe þo eingvañ Stad: Og allt eins eru Søfn Mañа og Addrætter, fyrer utañ Blessan Drottens. Margur hyrdulaus meinar, ad þetta sie ecke nema faanijtt Hial, sa ed ecke einasta hleipur, sem añar Hundur, til siñar Fædu, helldur og lætur sier alldrei til Hugar koma, ad bidia Gud ad blessa sijn Efne. Øll Skiepnañ er good, segier Paall, 1. Tim. 4. og eckert burtkastande, ef hun er med Þacklæte medtekeñ, þvi hun helgast fyrer Orded og Bænena. Eñ Gud nade, hvada Þacker hin eilijfa Myskunseme maa faa fyrer sijna daglega Blessan hia mørgum Mañe! Jeg meina þad sie sañast, ad vier setiumst nidr ad eta a stundum, og rijsum upp til ad dansa, Exod. 22. O Mañeskia! er þa Gud leingur ad svipta eñ ad giefa, reidur helldur eñ myskunsamur ad vera? Syrach. 5. Laate hñ oss nockud mootdrægt tilfalla, þad liggr so þrwngt med oss sem Blij; Eñ ef hañ opnar sijna Myskunar-rijku Orlætes Hønd, þad er hia oss liettara eñ Fis.

Framveiges stendur i vorum Texta: Ad JEsus Hafe Feinged Sijnum Lærесveinum Brauded, Enn Þeir Feingu Þeim, Sem til Bordsins Saatu, Slijkt hid Sama Af Fiskunum, Svo Miked Sem Hvor Villde Hafa. Þetta sijnest mier vera ein agiæt Lijfs-Regla fyrer Christenn Mann, hvornenn hann a ad høndla med Guds Gaafur, sem hønum eru i Hendur feingnar. Jordenn er DRottenns og allt hvad þar inne bygger, Ps. 24. Sijna Raadsmenn hefur hann sett yfir Eigur sijnar: Hvor er sa Trwe Raadsmadur, segier JEsus, Luc. 12. er hanns Herra setur yfir sijn Hiw, þad hann giefe þeim i riettann Tijma þad sem þeim ber? Sæll er sa Þioon, hanns Herra finnur svo giora, þa ed hann kiemur! Eins og JEsus fieck sijnum Lærisveinum i Hendur Brauded, til ad wtskipta þvi medal Bordsitiandanna; So hefur hañ og þeim, er hønum þocknast, afhendt Audlegd þessa Heims, til ad wtbijta medal þurftugra. Þu skallt ecke meina, Christenn Madur, ad þad sie allt þitt eiged, sem þu medferdis hefur. Þad Braud, sem afgangs er i þijnu Hwse, er Forsorgun hiñs Volada. Sa Mottull, er þu þarft ecke ad brwka, er Klæde hinns Nakta, Luc. 3. Þau Faung, sem a añañ Veg hia þier skiemast og fwna, eru Lijfsbiorg hinns Naudþurftuga: Þar fyrer giører þu so morgum Faatækum Oriett, sem þu mætter añars, þier ad skadlitlu, hialpa, ef þu þvi inne helldur, þa hinn Volade, sem er sañur Ølmusu-Madur, vidþarf. Ei þurfum vier ad brioota nidur vorar Kornhlødur og giøra adrar stærre, so leinge vier høfum Faatæka hia oss. Korned liggur idiulaust i Hløduñe, og verdur kañskie um̃ sijder af Or-

mum uppeted, enn hia hinum Fatæka ber þad Avoxt, svo sem a Akrenum. Soddañ Akur-Menn eru nærsta þarfer. Jeg vil helldur sa einu Korne i Munn hiñs Fatæka, helldur enn Tiju i Jordena. Jeg vil helldur sa hinum Volada Tiju Peninga, eñ kasta Hundrad a Mangarans Bord; Hann mun þvi med Þusundfolldum Abata aptur-skila, ef ecke i þessum Heime, samt i Upprisu riettlatra, hvar eirn Vatnsdryckur mun ecke Olaunadur verda, Matth. 10. Hinn ranglate Radsmadur var Ofrægdur vid sinn Herra, svo sem hefde hañ eydt hañs Gotze, Luc. 17. Meined þier ecke og, ad Hroop hiñs Fatæka og Eckiuñar mune Ofrægia þa i Himnenum fyrer lifanda Gude, sem liggia a Guds Gasum, svo sem Ormur a Gulle, og ala Agyrndena; eñ Fatækur fellur af Hungre i Froste og stoorre Neyd; Þvi er illa utsoad, sem ofs-vel er geymt, þvi slijkt er Ellds-Matur og Orma-Fæda, eñ kiemur ecke i Guds Kistuna, svo þad verde ad Himneskum Fiesiood, hvorium Molur og Rid kann ecke ad granda, Matth. 6. Fordum Daga i Gamla Testamentenu, þa hafde Gud skiled sier vissar Foorner fyrer Syndernar, ecke i þeirre Meiningu, ad Blood Uxanna og Hafrañа kyñe ad hreinsa Samvitskurnar, helldur voru þar i fyrermyndud epterkomande Giæde, sem er Blooded JEsu Christi, hvort ed hreinsar ofs af ollum vorum Syndum. Enn þesser Tijda-Sider eru fyrer laungu afteknar, þar Guds Eingieteñ Sonur er i Holldenu opennberadur, og hefur fyrer sitt eiged Blood einusinne iñgeinged i þad Allra-Helgasta, ad utvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þo eiga vorar Foorner og Upplyptingar-Offur daglega ad uppstijga i Himinenn fyrer Guds Hasæte, ecke einasta med Bæn og Andvarpan, helldur med Olmusugiordum vid Fatæka. Þijnar Bæner og Olmusugiorder eru uppstignar fyrer Gud, sagde Postulenn vid Cornelium, P. G. 10. Þad er su Foorn, sem Gude lijkar framar eñ Blood Uxanna og Hafranna, þa þad framkiemur af truudu Hiarta; Þvi segier Paulus, til Hebr. 13. Gott ad giora og ad utbijta gleymed ecke, þviad slijkt Offur þocknast Gude. Hvar fyrer mun Gud lata suma Menn vera Rijka, suma Fatæka i Heimenum? Mogulegt er honum ad lata alla vera jafna, og eingvañ þurfa annars med. Margar eru Ordsaker þar til, enn þo ecke hin sijdsta, ad Gud vill lata sig dijrka af soddann Manneskium: Hvad þier giordud einum af þessum minnstu, þad giordud þier mier; segier alls Hollds Doomare a stijdarsta Deige, Matth. 25. Miked er þad, ad Gud, sem er einkis Þurfe, vill þiggia i þvi, sem hinum Fatæka er gott giort: Þar eigum vier ad sijna vora Elsku til Guds, þar er Skoole vorrar Gudhrædslu, þar er þad Altare sem vier eigum ad leggia vora Gasu uppa. Ein Brudur skiemter sier vid Mynd sijns Brudguma þar til hann kiemur. Vor Meistare er nu tekenn fra voru Hofde og hafenn yfir alla Himna; Mig hafed þier ecke alltijd hia ydur, enn Fatæka hafed þier hia ydur, sagde hañ, Joh. 12. Þeir eru hanns lifande Eptermynd, og hanns Limer, sem fara Ut og Austur, og ecke hafa, hvar þeir kuñe Hofde sijnu ad halla ad. Jeg meina ecke þa, sem fyrer Omennsku saker bidia uñ Olmusu, edur hina drambsomu Lete-Maga, sem alla Hlute heimta af sialfs Vallde, og

giallda

giallda Bolvan og Formæling i Laun, ef þeirra Hꜳls er ecke fylltur; helldur þa, sem añadhvort hafa slited siñe Heilsu med Ærlegu Erfide, eda Gud hefur siñ Kross ꜳ Herdar lagt, (þvi ecke heyre eg miñ Herra hafa nockurn Hlut med Siꜳlfskylldu utheimt, þo hañ hefde allt Valld bæde ꜳ Himne og Jordu, Matth. 28.) Þa byriar ad medtaka i JEsu Nafne, og miñast þess, er DRotteñ baud, Devt. 15. Alla Tijma munu þar verda Fꜳtæker i Landenu, þvi bijd eg þier og segie, ad þu skuler upplwka þinne Hende fyrer þijnum Broodur, sem Þurftugur og Fꜳtækur er i Landenu.

Eñ þa þeir voru nu metter (segier Texteñ) sagde hañ til siña Læresveina: Safned saman þeim Leyfum sem afgꜳngs eru, svo ad eckert spillest; og ad þeir hafe fyllt upp Toolf Karfer med Afgꜳngs Leyfar. Hier kieñer vor Endurlausnare þier, syndugur Madur, Logmꜳl Christelegrar Forsioonar, sem er, ad hyrda vel Guds Gꜳfur. Gud sꜳ allt þad hañ hafde skapad, og siꜳ, þad var allt harla gott, segier Ritningeñ, Gen. 1. Ef þad var allt gott fyrer honum, i hvors Auglite Himnarner eru ecke hreiner, Job. 15. Skyllde þa nockur Skiepna vera so audvirdeleg i þijnum Augum, O þu saurwga Mañeskia! ad þu villder þar ecke um̃ hyrda? O Herra Gud! Vorar Synder, vorar Synder, vort Oþacklæte og Ofmetnadur stendur mier nu fyrer Augum. Hvad giorum vier ꜳ þeim goodu Tijmunum, þegar DRotteñ lætur sijna Blessan ꜳn Mælingar falla af Himnum ofañ i vort Skaut? Munum vier nærsta hyrtner vera i Lande þessu, ad samañsafna þeim Leyfum, sem afgꜳngs verda? Er ecke allur añar Hiegoome dijrmætare i vorum Augum, eñ þad sem Gud giefur oss til Foosturs; Velger ecke vora Þiwonustumeñ vid daglegre Fædslu? Hyrda Meñ stoort um̃ ad nijta Guds Gꜳfur, so sem giora mætte? Þessar Synder berum vier sijdañ; Kañskie þad kiæme sier æred vel i Dijrtijdeñe, sem engeñ nijter þegar allt er noog. O hvad margann kann þa ad hwngra epter þvi sem hann nu foottredur! Þo kostum vier Skulldeñe uppꜳ Gud; Eñ engeñ gꜳer ad þvi, ad oss er þesse Hefndeñ nærsta makleg, og ad vier hofum þad og annad Þusundsiñum verra forskulldad. Lꜳtum oss þessara Synda ydrast, Born mijn, og þær til Hiarta gꜳnga, med Gudrækelegum Asetninge ad breita forsiꜳllega framveges. Gud hefur engvann Hlut giordañ forgiefens, so vill hañ og ecke lꜳta illa nie Onaudsynlega þar med fara. So er og ei helldur Gude þæg Metordagyrnd þeirra, er sooa Guds Gꜳfum, til ad wtvega sier stoort Nafn þar med. Hvad talar DRotteñ um̃ þa, er giora sijnar Olmusur fyrer Monnum? Sañlega segie eg ydur: Þad þeir hafa sijn Laun wtteked, segier hañ, Matth. 6. Þad er, Hiegooma Dijrd og fꜳnijtt Hroos Mañaña. Frelsareñ liet giefa þessu Foolke ad eta, þar til þeir voru metter; þvi er afgieck skipade hann upp ad safna. Þad er Christelegt, ad metta Maga hiñs hwngrada, enn ad sedia Auga hinns grꜳduga er Onaudsynlegt: Þar eru marger, sem Meñ giora verre med ofur miklu Orlæte, og alltijd reidubwna til ad gapa epter sama. Þad er Gudrækelegt ad safna Nægtum, þegar vel geingur, svo þar sie til ad hiꜳlpa af, i þeirre vondu Tijd. Þad er ein good Forsioon ad miñast þess um̃lidna, hyxa um̃ þad nærveranda, og siꜳ fyrer þvi Okomna, þo fyrer utann Bwk-Sorg

og O-christilega Ahyggiu. Josephs Framsyne er hroosad, ad hann fyllte Korn-Hlödur Pharaonis aa þeim goodu Arum, og frelsade Landed af Hwngre þa illa gieck, hvar fyrer hann kalladest Landsins Fader, Gen. 14. Þad er og hæalsu verra, ad eyda Onaudsynlega uppaa sialfann sig i Ofmetnade Klædnadarenns og Ohoofe Matar og Dryckiar. Ad sönu hefur Gud ecke bannad ad hafa Jnndæle af sijnum Skiepnum; þo so, ad Menn gledie sig med Otta, og gleyme ecke hinum Þurftuga. Ecke er vijst, ad Doomur hinns Rijka hefde vorded svo skielfelega straangur, hefde ei Lazarus leiged Vatnande fyrer hanns Dyrum, Luc. 16. Sialfur Gud hefur giefed eitt Logmaal hier umm sijnu Foolke, Devt. 16. Þu skallt vera gladur fyrer DRottne þijnum, þinn Sonur og þijn Dootter, þinn Þienare og þijn Ambaatt, Leviten sem er innann þinna Port-Dyra, hinn Framande, hinn Fodurlause, og Eckian sem er hiaa þier, i þeim Stad, sem DRottenn Gud þinn hefur wtvaled, þad hanns Nafn skule hiaa þier bwa. Svo hefe eg nu ad nockru Leite sijnt þann rietta Veg til ad leita Atvinnu sinnar, wt af þessu H. Evangelio, epter þvi sem eg skil af Guds Orde. Svo leited nu fyrst Guds Rijkes og hanns Riettlætes, Matth. 6. Brwked leyfeleg Medøl i øllum ydar Athøfnum og Utriettingum: Treysted Gude, ad hann mune ydur og ydar forsorga; þa þier so giored, bidied þann almaattuga ad blessa ydar Faung, ydar Karfer og Afgaangs Leyfar: Gleymed ecke hinum Þurftuga og Voluada: Laated ydar Ølmusur frammkoma af Trwnne og Elskunne til Guds og Naunganns: Høndled Vareygdarsamlega med Guds Giøf, og vered þacklaater bæde i Orde og Verke: Giored þetta, og munud þier alldrei illa fara. Enn DRottenn Gud eilijfur Konungur og alleina Rijkur, hann uppfylle alla ydar Naudþurft, epter sijnum Dijrdar Rijkdoome i Christo JEsu, Phil. 4. Og giefe, fyrer hanns Forþienustu, ad þier, ad afstadenne Armædu þessa Lijfs, mættud innleidder verda i Fognud ydvars HErra, til ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. og mettast af Nægdar-Giædum Guds Hwss. Þad Bænheyre Myskunsamur Gud, fyrer sinn Son JEsum Christum, AMEN.

# Sunnudagenn epter Midføstu.

Gudspialled, Joh. 8. Cap.

Þann Tijma. JEsus sagde til Gydinganna og Høfdingia Kiennemannanna: Hvør er saa af ydur, þad hann meige straffa mig umm nockra Synd? Enn ef eg segle ydur Sannleikann, hvar fyrer trwed þier mier þa ecke? Hvør hann er af Gude, saa heyrer Guds Ord; Þar fyrer heyred þier þau eige, þviad þier erud ei af Gude. Enn Gydingarner svørudu, og sögdu til hanns: Segium vier ecke vel, þad þu ert Samverskur, og hefur Diøfulenn? JEsus svarade: Eg hefe ecke Diøful, helldur heidra eg minn Fodur, og þier Vanheidred

heidred mig; Eg leita ei ad miñe Dijrd, sa er sem leitar og dæmer. Sañlega, Sañlega sege eg ydur: Hver hañ geimer mijn Ord, hañ muu ecke Daudañ sia ad Eilijfu. Pa søgdu Gydingarner til hañs: Nu þeckium vier ad þu hefur Diøfuleñ. Abraham er daudur, og Spameñerner, og þu seger: Ef ad sa er nockur, sem geymer mijn Ord, hañ skal ecke Daudañ smacka ad Eilijfu. Hvørt ertu meire Fodur vorum Abraham, hver ed Framlideñ er, og Spameñerner eru og Framlidner? Hvern giører þu sialfañ þig? JEsus svarade: Ef ad eg vegsama mig sialfur, þa er mijn Dijrd eingiñ. Miñ Fader er sa, sem mig vegsamar, hvern þier seged ydar Gud vera, og þier þecked hañ þo ecke; Eñ eg þecke hañ, og ef eg segde þad, eg þeckte hañ eige, þa være eg eirn Liwgare lijkur ydur; Helldur þecke eg hañ, og eg geyme hañs Ord. Abraham Fader ydar gladdest, ad hañ skyllde sia miñ Dag, og hañ sa hañ, og vard gladur vid. Pa søgdu Gydingar til hañs: Þu ert eñ ecke Fimtugur, og þo sastu Abraham? JEsus sagde til þeirra: Sañlega, Sañlega sege eg ydur: Ad adur eñ Abraham var, em eg. Pa tooku þeir upp Steina, so ad þeir kostudu a hañ. Eñ JEsus fordade sier, og gieck wt wr Musterinu.

## Exordium.

I Añarar Kongaña Book. 9. Cap. lesum vier, ad þegar Sendimadur Spamañsins Elisæi hafde smurt Jehu til Konungs yfer Israel, þa hafe hañs Herra Þienarar sagt vid hann: Hvad villde þesse Vitfyrringur til þijn? Svo voru nu Jorams Villdar-Menn lynder, af þvi þeir ecke þecktu DRottins Raad. Eg er og hræddur um, ad þoott eg i Dag, epter Guds Skipan, vilie smyria þeirra Saaler til andlegra Konunga og Kiennimanna, sem af Gude eru, med himnesku Oleo, sem er Guds heilagt Ord, þa mune eg ecke betur wt lijta i þeirra Augum, sem holldlega Sinnader eru, helldur enn eirn Vitfyrringur, þegar eg tala um þa Hlute, sem Guds Anda eru og holldlegur Madur ecke skyniar, 1. Cor. 2. og er mier þad fyrer minnstu, þad eg af mañlegum Dege dæmdur verdi, 1. Cor. 4. Þvi gott er ad eiga Hlutskipte med St. Paale, vid hvern Festus Landsdoomare sagde, þa hann talade um Christi Pijnu og Upprisu Framlidenna; Ad hann være galinn ordinn, P. G. 26. Enn þad angrar mig framar, ad Holld og Blood giefur sier ecke Stunder til ad rañsaka Dypt og Hæd Guds Vitsku, og þa Speke sem hann hefur Mønnunum opinberad. Þegar Felix heyrde talad um Trwna a Christum, um Hreinlijfed, um Riettlætid, um epterkomande Doom, þa skielfist hann vid, og lætur bijda ad hlusta til þess fyrr enn hann hefur Toomstund, P. G. 24. Agrippa Konunge liggur vid ad verda Christeñ, eñ

fyrer

fyrer þvi ad hann hefur annad ad sijsla, þa dregst þad undann, P. G. 26. Hiñ rijke Yngl ngur vill ad sonnu faa ad vita hia JEsu, hvad hañ skuli giora, svo hañ eigneſt eilijft Lijf; Enn þegar hann heyrer, ad hañ skule selia allar Eigner sijnar og giefa Fatækum, þa verdur hañ hryggur, Matth. 19. Hvad kiemur til þessa? Þad alleina, ad Menn hafa ecke vel smackad hvad sætur ad Gud er, Ps. 34. Og ecke komed Auga aa þaa Persluna, sem Madurinn saa, og sellde allt hvad hañ aatte fyrer þaa somu, Matth. 19. Þvi eingeñ gyrneſt þad sem hann ecke þecker; Og þad er Ordsokenn hvar fyrer ad Guds H. Ord verdur af svo faaum medteked; Þad og annad, ad þar er svo mikell Ovinskapur aa mille Holldsins og Andans, Gal. 5. Liooſsins og Myrkursins, Riettlætisins og Ranglætisins, Christs og Belial, 2. Cor. 6. Guds Kyrkiu og Skwrgodanna, ad einginn kann til Christum ad koma, nema saa himneske Fadiriñ drage hañ, segier Endurlausnarinn, Joh. 6. Hvar til hann brwkar sitt H. Ord. Enn þeir ed ei hyrda um̄ ad gaanga i Liooſinu, eda smacka hid gooda Guds Ord og Krapt epterkomande Alldar, Ebr. 6. Hverninn meiga þeir umflija þad, ad Myrkurennhondle þaa ecke? Samt eru þo Guds Ord Lijf og Ande, svo sem Endurlausnarinn vottar, Joh. 6. Og Gulled er Gull, þo þad verdi af Svijnunum foottroded. Svo er og þad Orded af Krossenum Christi Heimska þeim sem tapader verda; Enn oss, sem hoolpner verdum, er þad Kraptur Guds, segier Paulus, 1. Cor. 1. Eckert Strijd aatte vor blessade Endurlausnare meir vid synduga Menn hier aa Jordunne, enn ad giora Mismun aa mille Holldsins og Andans, svo ad jafnvel Nicodemus, sem var einn Meistare i Israel, Joh. 2. og Gudhræddur Madur, hann var i þessu nærsta Tornæmur. Ad eg ecke tale um̄ þann Ogudlega Hoop Phariseanna og Skriptlærdra, sem alldrei villdu laata telia sier Trw hier um̄, og ecke lietu sier skiliast þad, þo hann segde; Þier dæmid epter Holldinu, Joh. 8. Þier erud hier ad nedann, eg er ad ofann. Og enn nu i þessu Samtale, sem DRottenn aa vid þann Osyrerlaatsama Flock Gydinga, heyrum vier, ad aa mille ber um̄ þessa Spurningu. Eg vil um̄ þad alleina tala i þetta Sinn, hverninn þeim haattad sie sem af Gude eru, wt af þessum heilogu Ordum: HVOR HANN ER AF GUDE, HANN HEYRER GUDS ORD.

DRottenn gief oss þinn Anda hier til, fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingen̄.

AF Gudi eru aller Hluter i Ondverdu, E. G. B. So sem þar stendur Gen. 1. J Upphafi skapadi Gud Himin og Jord; og eñ nu er þad svo, ad aller Hluter meiga af honum segiast, þvi hañ stioornar og stijrer ollum Hlutum, fraa þvi minnsta Skridkvikinde Jardar, allt til þess stærsta Dijrs sem er i Natturuñar Rijke, og i honum erum vier, lifum vier og hrærunst vier, P. G. 17. Enn ecke er þad þo Meining vors Endurlausnara i greindum Ordum. Þeir kallast og af Gudi ad vera, sem i hañ Nadar Saattmaala eru innteknir, svo sem Israel var til forna kalladur Guds Foolk, af þvi þeim var Guds Saattmaal og hanns Ord i Hendur feinged epter Guds Fyrerheite til

Abraham. So erum og aller vier af Gudi, sem høfum Jklædst Christo i Skijrniñi, Gal. 3. og eigum ad samteingiast hønum i Dijrdinni, Heilagleikanum og Ostraffanlegu Framferde, Eph. 6. Enn eins og þvi hættad er i voru lijkamlegu Edli, ad Menn taka ecke alltijd Voxt edur Afl, nie adra Koste i Arf epter Forelldrana, og margur er sijnum Olijkur þo skylldur sie; Svo eru þar fleiri Jsmael helldur eñ Jsaak i Hwsi DRottins, sem ad er christileg Kyrkia, og þeir gaanga ecke aller i Andanum, sem þo eru i Ondverdu af Andanum endurfædder: Þvi er og ecke þetta eigiñleg Meining vors Endurlausnara i þessum Ordum, helldur meinar hann þaa, sem fyrst eru af Vatne og Anda endurfædder i Skijrninne, Joh. 3. og JEsu Christo fyrer saña og lifande Trw eru innplantadir, vordnir andlegir Kvister aa þvi blessada Viintrie, sem hann umgietur, Joh. Cap. 15. og bera þar fyrir mikiñ Avoxt, hverium hann hefur giefid Makt Guds Børnum ad verda, þeim sem aa hañs Nafn trwa, sem ecki af Bloodinu, edur Holldsins Villa edur Mañsins Vilia, helldur af Andanum eru fædder, Joh. 1. Þeir ed sijna þad i sijnu Framferdi, ad þeir sieu flutter fraa Daudanum til Lijfsins, af þvi þeir elske Brædurnar, 1. Joh. 3. Ecki segi eg þeir sieu einasta af Gude, sem eru aan Syndar, þvi þa yrdi eckert Holld hoolpid. Ef vier segium þad vier høfum ecke Synd, þa tælum vier sialfa oss, segier Johañes, 1. Pist. 1. Oxiñ er ecki strax sett til Rootar Trianna, sem nockur Blsd følna; þo Kvisturiñ um nockra Stund beri ei Avoxt, þa er hañ ecke strax afhøggviñ. Saa himneski Urtagards Vørdur bidur siñ Fødur ad hid visna Trie megi eñ nu standa eitt Ar, og hann megi bera Myki i kriingum þad og rækta þad, Luc. 13. Þvi muñ hann ecki kasta þvi strax i Elldinn sem þad ber lijtiñ Avoxt. Mun hañ nockud wtslockva þann lijtlogande Hør=Kveik, eda þañ braakada Reyr i sundurbriota? Esa. 42. Nei, eingañveiginn; hañ mun forsiaallega breita, so sem Fadiriñ talar um siñ Son, Es. 53. Hañ mun auka oss Trwna, Luc. 17. og bidia siñ himneska Fødur fyrer oss, ad hun þrotni ecki, Luc. 22. Helldur tala eg hier um þaa, sem syndga ad søñu, eñ laata þo ecke Syndina drottna i sijnum daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þaa sem af mañlegum Veikleika giora hid Vonda, er þeir vilia ecki giora, eñ giora þo so miked gott sem þeir gieta, þar ed eirn og hiñ sami Þioonar Guds Løgmaali i sijnu Hugskoti, eñ þvijngast þo til af Ofbelldi Naatturunnar ad þioona Syndariñar Løgmaali, Rom. 7. Og, i einu Ordi ad segia, saa sem er syndugur ad søñu, eñ þo fyrir Christi Forþienustu jafnañ i Guds Auglite Riettlaatur; og þoott hañ syndge, þa hefur hañ Arnadar=Mañiñ aa Himnum JEsum Christum hiñ riettlaata, sem er Forlijkun fyrer hañs Synder, 1. Joh. 2. Saa sem þañig er nu af Gudi og Gud i hønum, þegar hañ hefur Gud, þa hyrder hañ hverki um Himin nie Jord, Ps. 73. Vei þeim sem er einsamañ, seger Predikareñ, Cap. 4. Þvi ef hañ fellur, þa er eingiñ ad reisa hañ, eñ saa er alldrei einsamañ sem Gud er med, þvi Gud er i og med hønum, Rom. 14. Fellur hañ, þa stendur hañ upp aptur, þvi Gud reiser hañ: Ratar hañ i nockra Villu, þa viller þo Heimuriñ alldrei so um hañ, ad hañ rati ecki heim aptur, þvi Guds naadarfullt Tillit aavijtar hañ. Hiñ Gudlausi fiñur ei til þo hañ syndgi, meir eñ hiñ Daudi,

daudi sie bariñ, eñ þad Hiarta sem lifir i Gudi, þad er vidkvæmt vid Brodd Syndariñar. Ei þurfte Nathan leinge ad telia um fyrir David, 2. Sam. 12. O Rottiñ leit einasta til Peturs, og hañ gieck wt og griet beyskelega, Matth. 26. Sa sem af Gudi er, hañ yfergiefur alla Hluti Guds vegna, hañ er i Heiminum, svo sem fyrir utañ Heimiñ, svo sem fatækur, og þo marga audgande, svo sem eckert hafande, eñ eignast þo alla Hlute, 2. Cor. 6. Sa sem um Hafid sigler, hann hugsar þo jafnan um, hverninn hañ megi komast i gooda Hofn. Hañ sem wt a Akuriñ geingur til ad erfida, hañ hefur þo jafnann sitt Hws i Þankanum, og til þess giorir hann alla Hlute, ad hañ fae þad vel forsorgad; So er og hañ, sem af Gudi er: Þott hañ verdi ad flækiast vid Sysslanir Heimsins, epter Naudþurft Lijkamans, þa er hañs Takmark hia Gudi; hañ sleppir sier ecki so vid nockurn Hlut, ad hañ halldi ei honum: Falli hañs Erfidi honum liett og vel, þad miñir hañ a, ad þacka Gudi fyrir sijna Giædsku og Epterlæte; Vilie þad mootdrægt falla, þa yfergnæfer þo Guds Elska hia honum. Ok Christi er honum Hunang i Muñi, og hañs Byrdi liett a hañs Herdum, Matth. 11. Þvi Gud hialpar honum til ad bera. Hañ lærir fyrer Guds Saker bæde haar og lagur ad vera, saddur og hwngradur, Noog ad hafa og Skort ad lijda, og alla Hluti formaar hañ fyrer þann, sem hañ styrker, JEsum Christum, Phil. 4. Þott hann gangi i giegnum myrkvañ Dal og Daudans Skugga, þa hrædist hann einga Olucku, Ps. 23. Veri svo til, ad nockr sie i Fangelsi byrgdur, hvad vardar um þad? Eg sie Paulus og Silas eru langtum gladari i Fangelsinu, helldur enn þeir, sem ad Dryckiu sitia, P. G. 16. Sooliñ uppliomar þennañ vorn Horizont edur Sionhverfis Hring, og giorir Asynd Heimsins biarta fyrer vorum Augum, þo getur Skij-Flookinn byrgt hana fyrer oss. Enn hver vill byrgia fyrer mier þa sonnu Riettlætis Sool? Mal. 4. Kann nockur ad wtilykia fra mier Fodur Lioosanna? Jac. 1. Hann sem kom ad luktum Dyrum, og stood midt a milli sinna Lærisveina, og sagde: Fridur sie med ydur, Joh. 20. Kunna nockur Myrkur, nockrer Mwrar, ad loka hann wt fra mijnu Hiarta, so hann giefi mier ecke sinn Frid? hvern Verolldinn kann ei giefa, og hun ætlar muni vera Helvijti allra Eymda. Ef eg er Landflootta, munu þeir nockud reka mig þangad, hvar ecki er Hond Drottins? Ps. 139. Sie eg foraktadur af Heiminum; þad er mier noog, ad eg verd heidradur af Gude: af badum kunna faer under eins virdter ad vera. Sæler erud þier, sagde Lausnarenn, Matth. 5. nær Meñirnir hallmæla ydur og tala i giegn ydur alla Vondsku fyrer mijns Nafns Saker, þo liwgande. Hvert skal eg nu helldur wtvelia ad lijda Jllt med Guds Foolki, Ebr. 11. eda þad, ad hafa tijmannlegt Eptirlæte Syndarinnar? Eg hyrdi ei mikid um þa Osundar-Meñ, sem Gud hatar. Hvad liett fellur honum ad forsma Heimiñ, sem forsmadur er af Heiminum: Hafi eg mist Agiæti Veralldar þessarar, hvad rijdur mier a þvi? Þad voru einginn wrtoku Giædi, sem svo fallvollt voru, ad þau kuña ad missast; Og þo eg misti allt þad eg a inn ad Hwdiñi, þa hefi eg þo eckert mist, þvi eckert af þessu var mitt, þa eg kom nakiñ i Heimiñ, eñ Gud var alltijd miñ med

ein-

einhveriu moote, svo eg lifde ecke fyrr enn eg atte hann fyrer Skapara, og þad Eignar-Skial bætteft i Skijrnenne, og vard underskrifad med JEsu dijrmæta Bloode, og innsiglad med H. Anda, svo ad minn Vinur er minn og eg em hans, Lofk. 6. allt fra Moodur-Lijfe, epter Skøpunar Endurlausnar og Helgunar Riettenum; Hønum vil eg alldrei sleppa, fare allt annad sem auded verdur! Take hann Heilsuna fra mier, þa er hønum þad i Sialfsvallde, eg a þar engva Sok a, eg bij i Leygu-Hwse, og a sa frialst ad byggia þad og brioota, sem er Hwsbondenn. Hvorke sade eg nie plantade þad, helldur enn Jonas Lunden, Jon. 4. Þo mijn Saala kunne um Stund ad verda Orooleg i mier, sem Jonæ, þa veit eg, ad su Soott er ecke til Dauda, hun stendur upp þegar minn Heilsugiafare tekur i Hond hennar og segier: Talitha Kumi! þad er: Stulka, rijs upp; og er mier þad noog þegar minn betre Partur er heilbrygdur, þad er Saalenn. Þad kann ecke stoorum ad veikiast, hvors Kraptur ad Gud er; Þad sie mier noog, ad eg veit, eg er af Gude og hann er mier Raadugur, þa hefe eg Frelse i Bondunum, Fodur-Land i Utlegdenne, Heidur i Forsmaanenne, Rijkdoom i Skortenum, Heilsu i Siwkdoomenum, allshattada Farsælld i allskonar Eymdum og Hormungum. Hvornenn kann sa ad klaga ad hann vante Lioos, sem bijr midt i Soolunne? Kann sa ad beria sier um Armood, sem einusinne hefur eignast allrar Veralldarennar Skapara? Hvad kann mig þad ad vanta, sem Christur sie mier ecke? Vil eg hafa Mat og Dryck, þa segier Christur: Mitt Holld er sannarleg Fæda og mitt Blood sannur Dryckur, Joh. 6. Vil eg Klædnad hafa; Jklæded ydur Herranum Christo, segier Postulenn, Rom. 13. Er eg siwkur og þarf Lækninga vid, þa er Christur Lijfsins Trie, hvors Blod ad þiena til Heidingiann Lækningar, Openb. 22. Ef eg vil ugglaus bwa, þa flytur hann mig wt i eirn sterkann Kastala, mijn Saal vonar uppa hann alleina, þvi hann er mijn Von, mitt Traust, Ps. 18. mijn Hialp og mijn Hlijf, so eg mun ei falla. Hia Gude er mitt Hialpræde, mijn Dijrd, mitt Styrktar-Biarg, og mitt Athvarf er til hans, segier David, Ps. 62. Kvijde eg vid Daudanum, þa er Christur Upprisan og Lijfed, Joh. 11. Og þo ad eg deye, þa mun eg samt lifa, epter þvi sem hann lofad hefur. Vilie eg hafa alla Andlega Farsælld, hvors kann eg ad Oska, sem ad Christur sie mier ecke? Þar hann er mier af Gude giord ur til Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Saaluhialpar, 1. Cor. 1.

Allt þetta hefur sa hia sier, sem er af Gude, ef ecke so fullkomlega sem vier vilium, þa samt er þar Vilie til hinns Fullkomna, sem er ædre allre Tijmannlegre Farsælld; Þvi ef Guds fullkomenn Jbwd er eckert annad enn Himnarijke, þar Gud er allt i ollu, þvi skyllde þa ecke hans Vistarvera med oss a Jordunne, þvi skyllde hun ecke vera eitt Jardneskt Himnarijke? Synest mier þvi, ad þessar tvær Sælur mune ecke i sialfum sier, nema þvi, ad ein er betre enn onnur, og ein algiordare enn onnur; Og engvann annan Mun giorer St. Paall þeirra, þegar hann segier; ad nær þad kome sem algiort er, þa afleggiest þad sem Haalfverked er, og ad vier siaum nu svo sem fyrer Speigil og i Raadgatu, enn þa munum vier sia Auglite til Auglites, 1. Cor. 13. Framar, E. G. V. Hvad sannarlegt er,

hvad ærlegt er, hvad riettvijst er, hvad hreinlegt er, hvad æstsamlegt er, hvad vel soomer, er þad Digd nockur edur gott Rikte, Phil. 4. Þad hugsar hann epter, sem af Gude er, og þad veiter honum liettara ad uppausa af Brunne Nædarennar, helldur enn þeim, sem leita epter soddañ i Fræde-Bookum Heidingiaña: Hvorier þoott um Dygder og Mañkoste hafe skrifad bæde vel og viturlega, epter mañlegum Hætte, þa er þvi alltijd so vared, ad sæ sem dreckur ur Ohreinum Farveg, hañ mæ vel vara sig vid, ad ecke fliote Saurendenn i Muñenn med, og þo Vatned sijnest tært ad vera, þa smackar þad alltijd af Leyrnum; so er og þetta: Vilie Meñ af Heims-Spekingaña Vatns Neñum drecka Vijsdoomenn, þa er alltijd hætt vid, ad þar fliote i bland nockrar Agner Holldlegrar Skynseme, sem ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. þvi þo þær sieu utrunnar i Upphafe af þeim sanna Vijsdooms-Brunne, þa fer þeim eins og ødru Vatne, ad þad dregur Dæm af þeim Farveg, er þad reñur um. Trwed mier, svo eru og Spekingaña Læker, ad þeir tapa sijnum Uppruna, þa þeir reña um Leyrvelltu syndumspilltrar Nætturu. Þad sem adrer hafa med stooru Erfide, þad vinnur sæ, sem Gud elskar, med stooru Epterlæte. Eirn Romverskur Heidinge, þar ed hann læ i sijnum Lyste-Garde med Kunningium sijnum, og þookte vænt um siæalfann sig, hañ sagde: Gud giæfe, þetta være ad giora vel; Meinande so, ad være þad inndællt, þa villde hann alldrei annad giora. Enn þvi er ecke svo vared fyrer þeim, sem Gud elska. Liett falla Lostverkenn, segium vier, og so er þad fyrer þeim, sem elska Gud; þvi þoott ad Spilling Nætturunnar strijdi æ mooti þvi sem Guds Anda er, Gal. 5. þa verdur hun þo liettar yfiruñiñ af Elskunni til Guds, helldr eñ af Nætturuñar Kroptum. Þegar Maduriñ a eiñ Vin og añañ Kuñingia, og þeir bidia bædir um sama Hlut, þa lætur hañ siñ Vin fyrirsitia: Og so gior ir sæ sem elskar Gud, þo honum þyki torvelldt ad læta a mooti Holldinu, þa metur hañ þo Gud meir. Þar voru nockrir Spekingar i Fyrndiñi, er kolluduft Stoici, þeir vildu dempa eina Tilhneiging med añari, og setia þær so i Lag; Enn þad er længsamt nockud og vinnst alldrei vel, þvi Hofudinn æ þeirri Hydra †, Syndumspilltri Nætturu, þau spretta jafnskioott upp aptur, þo þau sieu smæmsamañ afhoggviñ. Elskann til Guds er einn andlegur Hercules, sæ ed Hælsenn a Skrimslenu sundurbrijtur, so þau næ ecki so fliott ad vaxa: Hun setur Tilhneigingarnar best i Lag, ecki ad hun taki þær burt, eins og Stoici villdu giora, helldur þvijngar hun þær til ad giora sijna Skylldu, og temur þær med friælslegum og inndælum Prældoomi. Hun kennir Elskunni ad elska Gud alleina og eckert annad, Reidinni ad vandlæta i Guds Stad, Ofundiñi ad keppast sem hærst i Christi Skoola, Orvæntinguñi ad vona einkis goods af Heiminum, Voninni ad þola og bijda, Glediñi ad hafa sijna Unadsemd i Drottni, Hriggdiñi ad angrast siña Synda vegna, Hrædsluñi ad ottast Gud, Dyrskuñi ad ottast ei Meñina, sem ecki kunna nema Lijkamañ ad deyda, og hvad er hier margt um ad tala, hversu ad allar christilegar Digd- er

† Hydra var eiñ Vatns-Ormur med morgum Hofdum, sem Skældiñ dikta, þo eitt væri afhoggvid vox þad aptur; Enn Hercules hioo a Hælseñ, so þau uxu alldrei sijdañ.

er uppspretta af Elskunni til Guds og Naungans? hveriar alldrei kuña ad skilia helldur enn Soolinn og Byrtañ; Þad wtmalar eingiñ betur eñ St. Paall, 1. Cor. 13. segiandi: Kiærleikuriñ er þolinnmoodur og vingiarnlegur, Kiærleikurinn er ecki øfundsiwkr Kiærleikuriñ giorir eckert Jllmannlega, eigi blæs hann sig upp, hañ er ecki Ofstopasamur, eigi leitar hann þess hvad hanns er, eigi lætur hann giora sig reidann, hann leitar eigi eptir Skada, eigi fagnar hann yfer Ranglætinu eñ fagnar Sannleikanum, hann umber alla Hluti, hann trwir ollu, hann vonar allt, hañ umlijdur alla Hluti. Hvad gott nu sie med soddañ moti af Gudi ad vera, þad hefur ecki þeirra Eyra heyrt nie Auga sied, og ecki hefur þad i þeirra Hug edur Hiarta komid, 1. Cor. 2. sem af Heiminum eru: Eñ uppa þad sierhver og eiñ kunni ad reyna og proofa sialfann sig, og vita sitt andlegt Faderni, þa leggur Drottinn hier til eitt Kenniteikn þeirra sem eru af Gudi, sem er þetta: Ad þeir heyri Guds Ord: Enn hverniñ a þad ad vera? ecki so sem Judar, þeir ed heyrdu Rædu Stephani, og skaarust i Hiortum sijnum af Hatri, P. G. 7. Ecki so sem Evtychus, hvorium vard so vært under Predikun St. Pauls, ad hañ sofnade og datt daudur ofañ wr Vindauganu, P. G. 20. DRotteñ wtleggur sijna Meining sialfur i þessum Texta, segiande: Hvor Sem Geymer Mijn Ord, Hañ Mun Ecke Daudann Sia Ad Eilijfu. Eñ þo allra best i Epterlijkinguñe um Sæded, Luc. 8. segiande; Ad Sæded, sem fiell i gooda Jord, sieu þeir sem heyra Orded, og vardveita þad i goodu og sidsomu Hiarta, og færa þar af Avoxt i Þolennmæde. Þetta er nu vijst Mark a þeim sem ad eru Guds Born. Drage þvi engenn sialfann sig a Taalar, sem þetta heyrer, og ætle ecke hañ mune vera af Gude, ef hann ecke geymer hanns Ord. Sa Saudur er ecke af Hiordenne, sem ecke þecker Raust Hyrdersins, Joh. 10. Su elskar ecke siñ Uñusta, sem ecke gietur heyrt hañ tala: Sa Mage er ecke heilbrigdur sem ad velger vid Fædunne. Hvorsu maa þa Gud lifa i þeirre Saalu, sem bijdur vid Guds Orde? Þar fyrer, syndugr Madur, ef þier leidast Guds heilogu Kieñingar, siert þu tregur til ad ganga þangad sem Guds Ord er um Hond haft, þyke þier fyrer, þa komed er vid þijn Mein og þijnar Synder straffadar, virdest þier þad liettvægt sem af Guds Orde er fyrerheited, og þu aktar þad ecke mikels, ef þu hefur ecke Astundan ad framkvæma þad i Verkunum sem þu heyrer med Eyrunum; So sañarlega sem Gud lifer i Himnenum, þar er ecke hanns Ande i þier, og þu ert daudur i Syndum þijnum: Hier um er ecke ad villast: Eg segie Sañleika i Christo, og lijg ecke. Saalenn er añadhvort Guds Brwdur eda Diofulsins Frilla, segier Augustinus; Og þo þad þyke gijfurlega talad, þa vitnar sialfur Sannleiksins Munnur þad satt ad vera hia Luc. 11. segiande: Hvor hañ er ecke med mier, hann er a moote mier, og hvor hañ ecke samañsafnar med mier, hañ sundurdreifer; og so segie eg: sa sem ecke heyrer Orded, og vardveiter þad, hañ foraktar þad, eñ sa sem þad foraktar, þa mun þad fordæma hañ a þeim sijdarsta Deige, Joh. 12. Jeg hafde nærre þvi sagt, ad betra være ad vera Kalldur eñ Volgur i sijnum Saaluhiapar-Efnum. Af hinum stærstu Syndurum hafa vorded hiner bestu Meñ. Hvilijkur var Manasses? 2. Kr. B. 33. Hvilijkur

lijkur Paall? P. G. 9. Hvilijk hin Berſynduga? Luc. 7. Eñ þad er Furduverk, ad af einum Volgum ſkule verda heilagur Madur. Hvar fyrer? Þvi hann meinar ſig ecke ad vera Vondann; Hañ ſegier: Eg em audugur og rijkur vordeñ, og einkis Þurfe(eins og Engellenn af Laodicea); eñ Gud ſegier: Þu veitſt ecke þad þu ert Aumur og Faatækur og Blindur og Nakenn, Openb. 3.

O! HErra Gud, vert þu oſs naadugur! Gaae hvør ad ſiaalfum ſier, þvi vær eigum aller fyrer Saalu ad ſiaa! Hvør aa ad hugga þig i þijnu Andlaate, ef þu hefur eckert numed af Guds Orde? Þu villt Preſtureñ kome til þijn þa þu berſt vid Ondena: Seig mier: A hann þa fyrſt ad undervijſa þier? Þegar Eyrun heyra ecke lengur, Tungann talar ecke lengur; Seint er ad herklæda ſig þegar aa Hoolmenn er komed. Saa ſem ſaung med Bijflugum Veralldar þeſſarar aa Sumartijma Lijfſins, hann maa ſvellta aa hinum bitra Kullda Dege Daudans. O! hvad gott være þa ad hafa ſafnad nockru i Korn-Hlodu ſijns Hiarta af þvi gooda Guds Orda Sæde, ſo þar være nockud til Veganeſtis i giegnum þañ myrkva Dal og Daudans Skugga, ſem er Vegur allrar Veralldar fraa þeſſu auma Lijfe, Joſ. 23. Svo aaminne eg ydur nu i DRottne og Graatbæne, fyrer lifanda Gud og ydar Saaluhiaalp, gaanged i Lioofenu medann þad er hiaa ydur, ſo Myrkurenn hondle ydur ecke, Joh. 12. Þar eru vonder Dagar, Dioſullenn er ofañ komeñ, hafande Bræde mikla, þvi hañ veit hañ hefur ſtuttañ Tijma, Openb. 12. Afræked þvi ecke Guds heilaga Ord, hvørt ad er Sverd Andans, ſo ad þier gieted Moot ſtodu veitt aa þeim vonda Tijma, Eph. 6. Fiñe nockur ſitt Hiarta ecke riett ſkickad til ad heyra þad, hann bidie Gud ad ſkapa i ſier nijtt Hiarta, þvi þad tekur engenn af ſiaalfum ſier; Verde hañ ecke ſo fliootte bænheyrdur, þa bidie hañ aptur og aptur, og vilie þad undann dragaſt, þa bidie hañ Oaflaatañlega, Luc. 18. Dag og Noott, og þreyte vid Gud med Bæneñe, ad þad Lambed af Kyne Juda kome, og take ſiaalfur þa læſtu Book, og virdeſt heñe ſiaalfur upp ad lwka, Openb. 5. Engeñ Madur ſkal telia mier þa Trw, ad Gud mune ecke giefa þeim heilagañ Anda, ſem hann þar um̃ bidia. Komed og med audmiwkum Anda under Ordſins Heyrn, reidubwner ad medtaka allt þad ſem Gud hefur befalad, eins og Petur ſagde vid Cornelium, P. G. 10. Faanijtar og Veralldlegar Huxaner ſieu laangt i burtu aa þeim Tijma, þvi engenn kañ Tveimur Herrum i Senn ad þioona, Matth. 6. ſierdeiles ſvo Olijkum, ſem Gud og Belial eru. Þeinked ecke ſo med ydur: Eg veit þetta aadur, eg hefe þad aadur heyrt; Þvi þoott ſvo kuñe ad vera, þa hefur Gud ſijna Tijma til ad verka i Hiartanu, og hann er i Ordenu; Þvi ſieu Eyrun, ſem ad eru Dyr Hiartans, alltijd opeñ fyrer Konunge Dijrdareñar. Vered ei Gryckium lijker, um̃ hvoria Demoſthenes ſagde: Ad þa hañ talade um̃ Skugga Aſnans, þa hefde hañ nooga Tilheyrendur, enn þa hañ talade um̃ Gricklands Velferd, þa ſtijnge aller Fijngrunum i Eyrun. Laated Svida Raanglætinganna taka af ydur þañ Eyrna Kitlada, ſem Paall um̃ gietur, 2. Tim. 4. ad þeir vilie heyra þad þeim þocknaſt og hvad Mijſtearlegt er, Eſa. 30. Helldur vered Lærdoomunum og Stroffunum H. Anda und-

ergiefner

ergiefner. Fared og ei i Mannvirdingar um̃ Kieñendanna Gaafur edur Maalfære, þvi allt Guds Ord er gott, og saa er eckert sem talar, helldur Gud sem verkar. Guds Kraptur fullkomnast opt i Veikleikanum, 1. Cor. 12. Hvad er Paall? Eda hvad er Apollo? 1. Cor. 3. Þeir eru Þienarar hanns, a hvern þier trwed, epter þvi sem hañ hefur hverium einum giefid. DRottinn var ecke i Vedrinu, og ecke i Jardskiaalftanum, og ecke i Elldinum, þa hann talade vid Eliam i Hellernum, helldur i Vindblænum, 1. K. B. 19. Svo er og Gud ecke bundinn vid stoora Maal-Snilld, og hanns Rijke er ecke innifalid i Ordum, helldur i Krapte, 1. Cor. 4. Saa sem alleina tekur epter fallegum Ordum og fegrum Maals-Greinum, hañ sleiker Nytina, enn Kiarnañ snerter hann ecke. Vier eigum Nytina ad briota, ef vier vilium riett saa smackad epterkomande Alldar Sætleik, hver oss mun sijdann aan Mælingar frambodinn verda i þvi himneska Brwdkaupe, þar hinn fegurste medal Mañaña Sona, Ps. 45. mun dryckia hana sem hanns Hiarta elskar, Lofk. 3. med lifande Vatns-Straumum, sem framsfliota af Stoole Guds og Lambsins, Op. B. 22. Til þeirrar allra Tignarlegustu Haatijdar ad samannsafnast, unn þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, og þitt vegsamlega Nafn þar eilijflega ad prijsa. Bænheyr þad goode Gud, fyrer Forþienustu þijns Eingietins Sonar, AMEN.

# A Bodunar Dag Mariu.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

EN Naa hinum Siotta Maanude var Gabriel Engill sendur af Gude i þaa Borg i Galilæa, sem nefnist Nazareth, til þeirrar Meyar, er føstnud var þeim Mañe, er Joseph hiet, af Hwsi Davids, og Heite Meyariñar var Maria. Og Engilliñ gieck iñ til heñar, og sagde: Heil siertu Naadarfulla! DRotteñ er med þier; Blessud ertu aa medal Kveña. Eñ þa hun saa hañ, vard hun hrædd af hañs Ordum, og hugleidde ad, hvilijk væri þesse Kvedia. Og Engilliñ sagde til heñar: Ottast þu ecki, Maria, þvlad þu fañst Naad hiaa Gude. Siaa! Þu munt Barn gieta i Kvide þijnum, og munt Son fæda, og hañs Nafn skalltu kalla JEsus; Hañ mun mikell verda, og kallast Sonur hiñs Hærsta: Og Gud DRotteñ mun giefa honum Sæte sijns Fødur Davids, og hañ mun rijkia yfer Hwsi Jacobs ad Eilijfu; Hañs Rijkis mun og eingiñ Endir verda. Þa sagde Maria til Engilsins: Hverniñ skal þad skie? af þvi ad eg hefe eingvañ Mañ kieñt? Engilliñ svarade, og sagde til heñar: Heilagur Ande mun koma yfer þig, og Kraptur hiñs Hærsta

ſta mun yferſkyggia þig. Af þvi, og þad hid Helga, ſem af þier mun fædaſt, ſkal nefnaſt Sonur Guds. Og ſiaa þu, ad Eliſabeth Frænd-Kona þijn hefur og Son gietid i Elli ſiñi, og þeſſe er Siøtte Mañud-ur heñar, ſem kollud var Obyria, þviad Gude er eckert Ord Omaatt-ugt. Eñ Maria ſagde: Siaa, Eg em Ambaatt DRottiñs, verdi mi-er epter Ordi þijnu! Og Engilliñ veik fraa heñi.

Exordium.

SVo ſem kallt Vatn er þyrſtre Saalu, ſvo er goodur Bodſkapur af fiarlægu Landi, ſeger Salomon, Ordsk. 25. Þad maa i Dag ſegia, ad vier høfum goodann Bodſkap heyrt af fiarlægu Lande. Hvad er fiarlægra hvert ødru eñ Himin og Jord, Gud og Maduriñ, Himnarijke og Helvijte? Enn hvad heyrum vier hier i Gudſpiallinu, Br. M.? Vier heyrum ad Gabriel Engill hafi ſendur verid fraa Gudi: Til hvers? Til einnar Meyar, ſem foſtnud var þeim Manni, er Joſeph hiet, þad er til daudlegrar Manneſkiu, og ecki var hann einaſta til hennar ſendur, þoott hañ i þad Sinn ætti alleina Tal vid hana, helldur til alls Mannkynſins; Þvi lijſir Engilliñ aa Fædingar Noottu DRottiñs, er hañ ſagde vid Hyrdarana: Eg boda ydur mikiñ Fognud, þann er ſkier øllu Foolke, Luc. 2. Moodir DRottiñs maatti kallaſt ſvo ſem Umbods-Madur alls Mannkynſins af Gudi ſkickadur, til ad taka fyrſt allra vid þeſſa-re heilſuſamlegre Guds Naad, er ſijdann var opinnberud øllum Mønnum, ſvo ſem vor Fyrſta Mooder took vid þvi bleſſada Fyrerheite, ad Kvinnunnar Sæde ſkyllde ſundurmeria Høggormſins Høfud, Gen. 3. vegna allra ſinna Erfingia: Svo took og Guds Mooder vid Fullkomnan Fyrerheitiſins, vid hinu fyrerheitna Sædinu, vid ſiaalfum Lijkamanum, ſem adur var fyrermyndadur i Skugganum; Þvi kalla eg þetta goodann Bodſkap af fiarlægu Lande, og jaata þad ſatt vera ſem Einn ſagde uñ þeſſa dijrdlegu Haatijd, ad hun ſie Bloomſtur allra Haatijda. A henne er Kviſturiñ af Root Jeſſe tekenn fyrſt til ad bloomgaſt, Eſa. 11. Veturinn er umlidenn, Stoor-vidred er horfed og burtviked, og Bloomſturenn laata ſig ſiaa i Lande voru, ſegier i Lof-Kvædinu, Cap. 2. Jaa, ſaa bleſſade Avøxtur (er ſig kallar Bloomſtur Akurſins, og eina Liliu i Dølunum), hañ ſpratt upp i Nazareth, er þijdeſt, hin bloomlega. Lijt-ed var þetta Bloomſtur i Fyrſtunni. Hann var eitt Fooſtur i Moodur-Lijfe, ſijdann eitt Barn, og ſijdarſt Æfi ſinnar vard hann hinn Fyrerlitlegaſte og Forſmaanarleg-aſte, ſem Eſaias vottar, Cap. 53. Jaa, minnſtur allra þeirra, ſem hann med ſijn-um Syndum kvaled hafa; Enn fyrer þad hefur hann aadreiſt marga Heidingia, og wtbreidt ſijna Dijrd uñ allar Alfur Heims Bygdarinnar; Svo ad vier jafnvel, ſem hier liggium aa þeſſum Hala Veralldarinnar, vier buum under hanns Skugga, og þoott vier ſieum af øllum Heiminum forſmaader, ſamt hefur þo hinn goode Gud virdt oſs þeſs, ad hann hefur breidt yfer oſs ſinn Klæda-Falld, þar vier laagum alls nakter aa

Vijda-

Vijdavænginum i voru Bloodi, og sagt, ad vier skylldum lifa, Ezech. 16. Þvi meigum vier ei sijdur enn hvør aunnur Þiood i Heiminum, kalla þessa Hætijd mikla, og hana med Glede og Fognudi hallda. Være ei þesse gledilege Bodskapur æ Jordu sendur, þa væri Christur ecki Fæddur, til ad helga vora Fæding, ecke Umskorinn, til ad taka æ sig Logmælsins Bolvan, ecke Heidingiunum Byrtur, ecke Dæenn fyrer Synder vorar, ecke Upprisenn oss til Riettlætis, ecke Uppstijgenn til ad bidia fyrer oss, og ecke hefde hann æ Hvijtasunnu Dogum sendt sinn Anda yfer sijna Postula. Þvi mæ eg segia, ad þesse Hætijd ber allar Hætijder i Skaute sijnu, og mæ þeirra Mooder kallast. Hier hefur Gud Fader tekid til ad hallda Brwdkaup Sonar sijns, Matth. 22. Hier hefur Sonurinn trwlofad oss sier i Næd og Myskunsemi, Hos. 2. Hier hefur H. Andi byggt sier eitt Musteri, 1. Cor. 6. Ecke einasta i honum, sem er hid allra helgasta i þessari Kyrkiu, helldur og i ollum hanns Limum, ollum þeim andlegum Steinum, sem hanns Helgidoomur er bygdur af hier æ Jordunni, og af hañs Fylling medtekid hafa: Og þvi vil eg kvedia ydur, Br. M. med þeim Ordum, er hiner Lijkþræu Menn toludu sijn æ milli Fordum Daga, er Gud hafdi frelsad Samariam af Hende þeirra Syrlendsku: Þesse Dagur er Dagur goods Bodskapar, 2. K. B. 7. Skylldum vier þegia yfer þvi? Kunnug mæ oss vera vor andleg Lijkþræ, i hverri vier gietnir og fæddir erum: Þvi skylldum vier þegia yfir þessu mikla Hiælpræđi DRottinns, helldur enn þeir? Þar i Dag er Guds Barna Borg af Valllde Myrkranna frelsud, þvi skylldum vier draga vora Lofgiord, vora Ydran, vora Þackargiord undañ til Morguns? Gaungum þvi nær þessu H. Evangelio i Nafne DRottinns, og hugleidum af þvi um̃ Stund, hversu Hæleitur og Gagnsamur ad sie þesse Leyndardoomur.

O! DRottenn styrk oss med Krapte þijns Anda, svo ad þetta Eyrende mege velluckast i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

HAd er hægra Br. M. ad lofa eiñ Hlut, sem ecke er meira eñ almennilegs Hrooss verdur, helldur eñ þañ, sem Afbrygde er allra annarra Hluta: velldur þad þvi, ad Menn gieta prijdt þæ Hluti med Ordunum, sem ad i sialfum sier ecke eru so prijdileger. Eñ hvad skulum vier um̃ þæ segia, hverra Dijrd og Agiæti enginn kañ med Ordum ad wtmæla? So þegar Meñ hafa sagt um̃ þæ allt þad, sem Hiartad fær uppþeinkt og Muñuriñ wttalad, þa er þo eckert sagt svo sem verdugt er þvilijkre Hætign. A medal þessara dijrdlegu Hluta kalla eg ad vera Leyndardoom Holldtekiuñar DRottiñs vors JEsu Christi. Hvad Sendiforiñi sialfre vidvijkur, þa var til heñar valinn Gabriel Engill, ecki einn almeñilegur Engill, helldur einn Hofud-Engill. Veralldleger Kongar og Hofdingiar, þegar þeir leita Konfæangs Sonum sijnum til añarra Konunga, þa velia þeir til þess Eyrendis sijna villdustu Meñ: So var og Gabriel valiñ i þessa Sendifor: Eiñ Guds Kappe, so sem hañs Nafn hlioodar, og hañs Eingietnum Syne nærsta handgengiñ, sem ræda mæ af Daniels Spæadooms Bookar 9. Cap.

Hver og um̃ sig vitnar, Luc. 1. ad hañ stande frame fyrer Gudi. Þvilijkur Sendibode hæfde vel so tignarlegu Eyrende. Eñ til hverrar var hañ sendur? Ad soñu til einnrar Konungs Doottur, þvi hun var af Hwsi og Kyne Davids, eñ hverri þa var øll veralldleg Konungs Tign horfiñ, so hun var ein um̃komulaus fatæk Mey, og so lijtils metinn af Heiminum, ad hun fieck ecke añad Rwm i Giesta Herberginu, eñ einn Stall til ad leggia i siñ Frumgietiñ Son, Luc. 2. Himins og Jardar Konung. O! hvad satt er þad, sem Postulenn skrifar: Þad sem O-gøfugt er fyrer Heiminum, og þad sem einkis metid er, þad hefur Gud wtvalid, og þad sem ecke er, svo hañ afmæde þad sem er, 1. Cor. 1. Skijrlijfi og heiløg Fatækt Guds Moodur var miklu dijrdlegri i Auglite hiñs Hærsta Konungs, sem er alleina Vijs og alleina Rijkur, helldur eñ oll Rijki Veralldarinnar og þeirra Dijrd; Annars mundi hann hafa lætid hañ fædast af Keysarans Doottur, sem þa hafde Einvallds Rææd i Heiminum, eñ ecke af einne Munadarlausre Stulku. Hvad þa? Mun hanns Tign nockud mijnka vid þad, ad hañ hefur lijtilæckad sinn Son? Fiærri sie þvi; Þar fyrer er hun hvad mest ordiñ: Hefdi hañ ei so giort, þa hefdi Sonuriñ ecke feingid Þioodernar og Endimørk Veralldarinnar til Arfleyfdar, Ps. 2. Fyrer sijna Holldtekiu hefur hañ Herleidinguna ad Hersængi tekid; Allur Heimuriñ var under Diøfulsins Vallde, nema Gud hefdi heited þvi blessada Kvinnuñar Sæde, er i Dag var i Meyar Lijfi gietid, enn med þvi hefur hanns Eingietinn Sonur broted stoort Skard i Diøfulsins Vellde; Svo ad Johañes, er hann sæ Himnana opna, þa sæ hañ þar Fiollda svo mikinn, ad eingiñn gat talid, Op. B. 7. og hefur margur sijdañ vidaukist, jæ, eykst eñ nu i Dag, og mun aukast þar til Verøld þrijtur. Þacker sieu goodum Gudi ad Eilijfu! Satt er þad, ad ecke mæ vid Guds Hæætign auka, hun verdur i siælfri sier hverki stærri nie minni af vorum Volldum. Eñ þo ad þessu sie svo hæattad, þa verdur þvi ecki neitad, ad Christi Persoonu hefur mikill Soomi aukest i þeim Sigre, er hañ fieck yfir Andskotanum, er hañ flette hañ sijnum Herklædum æ hver hañ treyste, Luc. 21. Eñ took sijnar heiløgu Þusunder af hañs Hende: Og fyrer þennann dijrdlega Sigur, hefur Guds Sonur epter Manndoominum odlast Nafn yfer øllum Nøfnum, so ad i Nafne JEsu Christi skulu sig øll Knie begia, bæde æ Himne og Jordunni, og under Jorduñi, Phil. 2. Enn hverninn hefur hann þennann dijra Sigur unnid, nema i voru Hollde? sem i Dag var i Meyar Lijfe plantad af heiløgum Anda: J þvi hefur hann lided, J þvi hefur hañ Sigri hroosad, J þvi situr hann til Kraptarins hægre Handar, og i þvi mun hann aptur koma til ad dæma Lifendur og Dauda, eñ innleida oss, sem æ hañs Nafn trwum, i sitt Brwdkaup: Og þvi kalla eg nu þessa Sendifør miøg vegsamlega, fyrir þeirra Skulld sem þessa Bodskapar notid hafa, þvi Gud auglijser hvad mest sitt Almætti, siñ Vijsdoom og sijna fødurlega Giæsku, ad giora gott af þeim Hlutum, sem i siælfum sier audvirdilegarster og verster eru, svo sem var allt Mañkyn i Synd og Dauda fallid.

Fræ hverium er þesse Sendefør? Fræ Gudi, segier Textinn. Þegar eg Gud nefni þa hef eg noog sagt. Eiginn er þvilijkur og ei kann nockur i Samjøfnud vid hañ ad koma

ma, þad kañ og engeñ Manna edur Engla Skilningur ad griipa edur Jmynda sier, hvad stoor Munur ad sie mille Skaparans og Skiepnunnar. Hañ sem er Alvijs, Almættugur, Eilijfur, Omælanlegur og Orañsakañlegur, þar hañ bijr i þvi Lioose sem engeñ fær tilkomest, 1. Tim. 6. Hann sem ecke einasta skoop Himen og Jord af eingvu Efne, stioornar þeim, vidhelldur og vardveiter þau æn alls Omaks og Erfides, fra Upphafe Skøpunar og inn til þessa Dags, helldur kañ hañ, ef hann vill, ad skapa med einu Orde Otal Þusund Verallder adrar, eins og þesse sijnelege Heimur er. Hañ sender af Himnum ofann til syndugra Manna, er hañ styggt høfdu og til Reide reitt. O minn Gud! Hvad er þo Madureñ þess, ad þu minnest hanns? Ps. 8. Þegar eg hugleide þetta, þa smellitest mitt Hiarta i mier wt af Bligdan, ad soddan ein skielfeleg Hætign, hañ giører Sendefør ofann af sijnu Hæsæte til vor daudra Hunda, til vor syndugra Orma, þar vier skrijdum i Leyrvelltu þessare, og mæ hier af þessa Sendeføor meire øllum Velgiørdum kalla, þoott eckert annad være. Enn hvilijkur er nu þesse Bodskapurenn? Þad sijner oss fyrst Kvedia Engelsins vid Guds Moodur. Heil Siert Þu Nadarfulla, DRottenn Sie Med Þier, Blessud Siert Þu A Medal Kvenna. Hun mætte med øllum Riette kallast hiñ nadarfulla, þvi hun vard Mooder ad hønum sem er full: Nadar og Sannleika, so sem Johannes uñ hann vottar, Cap. 1. Og ecke einasta hun helldur allar Andlegar Christi Mædur, sem er hvør ein Riett-trwud Sæla, Matth. 12. er af hañs Fyllingu medteked hefur Naad fyrer Naad. DRotteñ er med þier, þu Hetia, sagde Engellenn vid Gedeon Fordum Daga, er hann heilsade hønum, D.B. 6. Þad rættest og; Þvi fyrer hañs Hønd sloo DRotteñ i Hel Madianita, sem lau eins og Einge Sprettur i Jesreels Dal, med Þrem Hundrudum Manns, D.B. 7. Eñ þoott þad være miked Guds Furdu-Verk, þa var þad lijted hia þessu, ad Maria bar i sijnum Kvide þañ DRotteñ Himens og Jardar, sem ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Hebr. 1. Blessud var hun a medal Kvenna, þvi engenn Kvennmadur, fra Upphafe Veralldar, hefur soddann tijmannlega Sæmd hloted sem hun, er giørdest þar Mooder, sem hiñ Allra Hæste var Fader ad hinum Allra Hæsta. Enn ecke hefur ein riett-christenn Sæla, er JEsum Andlega gieted hefur, minne Blessun þeyged; Þvi lijser hann sialfur, er hann kallar þa sijna Moodur, Systur og Brædur, er hanns Ord heyrdu, Luc. 8. Fyrer þvi er þesse Andlege Gietnadur so miklu meire hinum Lijkamlega, sem ad allar andlegar Gafur eru hinum meire og betre; Þvi forgiefens hefde Mooder DRotteñs bored Heimsins Frelsara i sijnum Kvide, nema hun hefde og bored hañ i sijnu Hiarta: Kalla eg hana þvi sælle þar af, ad hun vardveitte øll hañs Ord, Luc. 2. helldur enn af þvi, ad hañ mylkte Brioost heñar; Þvi hvad uñ þad, sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þad, sagde hann sialfur Fordum vid Kviñuna, er prijsade Sælu hañs Moodur, Luc. 11. Og so giører nu þesse Kvedia Engelsins Sendeførena miøg so fræga og veglega, ad eckert kann gledelegra upp ad huxast. Kvediunne fylger strax a epter Høfud Eyrended; þad flitur Guds Sendebode med þessum Ordum; Sia, Þu

 Munt

Munt Barn Gieta J Kvide Þijnum Og Munt SON Fæda, Og Hanns Nafn Skallt Þu Kalla JESUS, Hann Mun Kallast SOnur Hiñs HÆRSTA, etc. Miked er i þessum Ordum innefaled, og meir enn syndug Twnga meige þad wtskijra. Hid Fyrsta er, ad hun skule Barn gieta, þad er Manneskiu, eins og hun var og hennar Fedur ad øllum Edlis Hættum, ad Syndenne einne fraatekeñe; Þad skilur Engellenn undañ, er hañ segier; Ad þad heilaga sem af heñe mune fædast, skule kallast Sonur Guds: So var þa Christur hluttakande Hollds og Bloods eins og Smæ-Børneñ, Hebr. 2. So sem Børnenn hafa sitt Holld og Blood, þad er mannlega Naatturu, Saal og Lijkama af Forelldrunum: So hef Christur af siñe Moodur og Fedrunum epter Holldenu, bæde Saal og Lijkama. Nu segier DRotteñ sialfur vid Nicodemum; Hvad af Holldenu er fædt, þad er Holld, Joh. 3. og teiknade hann þar med spillta Mañsins Naatturu. Hvad þa? Var Mañdoomureñ Christi Syndumspilltur? Fiærre sie þvi, þar fyrer stendur hier i Gudspiallenu: Heilagur Ande Mun Koma Yfir Þig, Og KRaftur Hiñs Hærsta Mun Yfirskyggia Þig. Til hvors? Til þess, medal annarra, ad helga og tilreida hennar Blood, af hvoriu DRottne var Lijkamenn tilbwenn, svo ad øll Fylling Guddoomsins kynne ad bwa þar i Lijkamlega, Col. 2. Med hvoriu moote þad sie skied, veit Gud eiñ, sem er Meistare þessa Furdu-Verks, um hvort þad maa med riettu segia, sem skrifad er um Salomons Haasæte, ad þvilijkt hafe ecke giort vered i nockru Konungs Rijke, 1. Kong. 10. Og þad sem eg nu sagt hefe um Christi Allra-Helgasta Lijkama, og þad Efne er hañ var myndadur af, þad sama er um hañs dijru Saal ad segia. Lijkamenn er Herberge Saalareñar, ecke maatte i soddann Herberge, sem af H. Anda var tilreidt fyrer Krapt hiñs Allra Hærsta, ecke maatte þar byggia nema einn hreiñ og heilagur Giestur. Mannsins Saal hafde framar syndgad enn Lijkamenn, hun var og Hofundur Syndarennar i Mannenum, þvi maatte hanns Saala ecke sijdur Oflekkud vera, sem Saaler vorar hefur wr Heliu leyst, helldur enn Lijkameñ. Postulenn segier, ad i hønum bwe aller Fiaarsiooder Vitskunnar, Col. 2. Biuggu þeir i Lijkamanum edur Saalunne? J Saaluñe ad vijsu, eins og Skynsemeñ hiaa oss og þad gott sem henne fylger. So er allur Christur hreinn og heilagur, sem ei kunne annars ad vera, þar hann var gietenn af H. Anda. Þvi epter þad Engellenn hafde sagt, ad Heilagur Ande munde yfir hana koma, þa leggur hañ þetta til: Og Þad HEJLAGA, Sem Af Þier Mun Fædast, SKal Kallast SOnur GUds. Og ad Meñ gaange ur Skugga um þad, ad Christur sie gieteñ i Meyar Lijfe eins og añad Fooſtur, ad þvi fraateknu, ad þar komu engenn Mañs Volld til, so sem hun segier hier vid Engeleñ: Hvorneñ Kann þetta Ad Skie, Þar Eg Hefe Engvann Mañ Kieñt? Og Guds Ande samsiñer heñe, Matth. 1. segiande; Ad Joseph hafe ei kieñt heñar, þar til hun fædde sinn Frumgietenn Son. Ad Meñ gaange wr Skugga um þad, segie eg, þa vottar Matth. Cap. 1. Ad hun hafe fundest Þungud af Heilogum Anda: Og nockru sijdar; Ad þad sem af heñe gieted var, þad hafe vered af H. Anda. Og samt er þo ecke H. Ande Fader ad Christo, helldur tilbioo hañ og

helgade

helgade, sem aadur er sagt, þad Efne i Lijfe Jomfrur Mariu, sem DRottenn myndadest af og framkvæmde so þennan Allra Heilagasta Gietnad med sijnum Orannsakanlega Guddoomsins Krapte. Þannenn byriade allt Riettlæte upp ad fylla, Matth. 3. B.M. Þvi þad vard af syndlausu Hollde ad lwkast, sem af syndugu var tilunned. Þad Mustered vard heilagt ad vera, i hvoriu þeirre Foorn ætte ad offra, sem Gude lijka skyllde fyrer allar Veralldarennar Synder. Saa Kiennemadur hlaut ad vera Ostraffanlegur, sem inngaanga skyllde, ecke einusinne aa Are hvoriu (eins og Aaron og hanns Epterkomendur) helldur ollu Einusinne i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Hebr. 9. Þvi segier Paulus: Soddann Biskup heyrde oss, Heilagur, Saklaus, Oflecktadur, Fraaskilenn Syndurunum, og vordenn Himnunum hærre, Heb. 7. Þad er, upphafinn yfir alla Himna, hvar þad Allra-Helgasta er, i hvort hann er inngengenn og setstur Gude aa hægra Veg i voru Hollde: Og siaa Menn aptur af þessu, hvad gledelegur ad sie þesse Bodskapur, og þesse Sendefør Vegsamleg. Enn þad tekur yfir, Christner Menn, ad Gud er hier Madur vordenn. J sama Vetfaange sem Heilagr Ande tilbioo JEsu Manndoom, svo ad hun gat sinn Son, under eins og i sama Augnablike took hin Onnur Guddoomsins Persoona Manndoomenn i Samfielag med sier, med so føstu Sambande og ecke Samblande, ad þad hefur sijdann alldrei slitnad, og mun ecke umm alla Eilijfd slitna. Jaa, Dauden gat þad ecke slited, jafnvel þott hann adskilde Saal og Lijkama DRottens, þvi annars hefde hann ecke sialfur sijna Saalu aptur teked, hvoria hann sialfur fraa sier liet, Joh. 10. Þetta vottar Guds Ande, sem sialfur var Verkmeistarenn, Tvisvar i þessu H. Gudspialle. Fyrst, þar hann segier: Ad Barned sem hun gieta mune, skule kallast Sonur hinns Hæsta, þad er Guds, þvi engenn er honum hærre; Aptur, ad þad heilaga sem af henne mune fædast, skule kallast Sonur Guds. Taked epter þessu, B.M. þott eg tale i Faafræde umm so haa Hlute, þann sem hun gat eins og Guds Son, þann fædde hun eins og Guds Son, svo ad engenn Ummbreiting hefur vorded fraa Gietnadenum allt til Fædingarennar, i Einingu Persoonunnar, sem ei er Von, þvi hiaa Gude er engenn Ummbreiting nie Skugge til Ummbreitingar, segier Jacob, Pist. 1. C. Hvad þa? Er Christur Guds Fødurs Naatturlegur Sonur epter Manndoomenum? Ad vijsu er hann, enn ecke epter Naatturlegum Hætte, helldur fyrer Eining hinnar Guddoomlegu og Manndoomlegu Naatturunnar, sokum þess, ad hin Onnur Persoona Guddoomsins, Guds eilijfur Sonur, took aa sig Manndoomenn, so gietur þad ecke adskilest, ad saa sem er Guds Sonur fraa eilijfu, enn i Tijmans Uppfyllingu vard Madur, hann er i Raun og Sannleika ad ollu Leite Guds Sonur, og þar fyrer er hann vor Fridur, sem hefur giort eitt af baadum, Eph. 2. Menn kunna ad segia, ad hier umm sie ei so naudsynlegt ad tala, og ad Menn skilie ei þennann Leyndardoom (sem satt er): Enn so miked gieta Menn skiled, sem Gud hefur viliad laata oss skilia, oss til Saaluhialpar.

Þad er ecke lijtel Huggun fyrer einn Syndara, ad Gud er Fader Christi epter Manndoomenum, þar Christur kallar oss sijna Brædur, Ebr. 2. Adam var Guds Son-

ur, sem Lucas vottar, 3. Cap. Enn i Fallenu giørdest hann Diøfulsins Sonur. Hvørnenn ætte nu Adams Sonur aptur ad verda Guds Sonur, nema hinn eilijfe Sonur Guds yrde Adams Sonur, sæ ed geingest under Sekt Brædra sinna? Þad sem broted var æ moote Gude, þad vard af Gude ad gialldast. Þad sem af Mannenum var broted, þad vard af Mannenum ad bætast. Gud kuñe ecke eiñsamañ ad lijda; Madureñ ecke eiñsamañ ad fullnægia Guds Riettlæte. Hvørneñ ætte þetta ad ske, nema Gud yrde Madur, og lide fyrer þad, sem vier med vorum Syndum høfdum broted? Þvi er þetta ecke lijtel Huggun, og hvad segie eg: lijtel? Þesse er hin einasta Huggun Syndugs Mañs, og engeñ er ønnur; Sæ sem hana ecke hefur, hønum er vijst Helvijte, þvi eckert Nafn er añad giefed Mønnunum under Himnenum, i hvøriu oss byriar Sæluhoolpnum ad verda, helldur eñ Nafned JEsus, P.G.4. hvørt hønum var hier giefed, hvad og kallad var af Englenum, ædur eñ hañ var gieteñ i Moodur-Kvide, segier Lucas, 2. Cap. er hañ segier oss Umskurnar-Søgu DRotteñs. O hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Speke! Þetta er ein Feste, sem Guds Sonur gaf sinne Brwde i Trygda-Pant, i hvørre eitt Furduverk hæenger af ødru, eins og eiñ Hleckur af ødrum. Skapare Himensins er ein Skiepna vordenn. Eilijfdenn er gieteñ i Tijmans Uppfyllingu, Gal. 4. Ein Joomfrw verdur Oliett, Esa. 7. Hun sem af Gude er skøpud, verdur Guds Mooder: Hann verdur i Moodur-Lijfe innelucktur, sem Himnañna Himnar ecke teked sæ, 1. Kong. 8. Hann sem dunar i Himnenum, hann grætur i Stallenum: Sæ ed allar lifande Skiepnur sedur, Ps. 145. nærest i Moodur-Kvide: Skiepnann lætur til þad Efne sem Skaparenn var giørdur af: Soolenn hefur Lioos feinged af Stiørnunne: Moodrenn var yngre enn Barned, enn Barned stærra eñ Moodureñ. Miñ HErra, þu sagder, er þu villder sijna þijnum Læresveinum ad þu værer Holld af voru Hollde: Ande hefur ecke Holld nie Bein, svo sem þier siæed mig hafa, Luc. 24. Eun hier sie eg ad Andenn er vordeñ Holld, þvi Gud er eiñ Ande, Joh. 4. og vard þo Holld. So segier Johannes, 1. Cap. Orded vard Holld og bygde med oss, og vier sæum hañs Dijrd, Dijrd svo sem Eingietens Sonar af Fødurnum. Þetta eru stærre Undur enn øll Undur, og mæ hier ad Fyrstu og Sijdurstu kalla, ad þesse Sendefør og þesse Bodskapur sie Sæsamlegur, Hæaleitur og yfir allañ Mæata Undrunarlegur. Gud giefe oss þar ad koma, sem vier meigum eilijflega ad hønum dæst, med þeim Fagnade, sem ecke hefur hier Eyra heyrt edur Auga sied, og ecke i Manns Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2.

Eñ nu vilium vier skoda, hvør ad sie Nytsemd þessa Bodskapar, og er hun ad vijsu so stoor, ad hun verdur alldrei fullþockud. Eilijf Ar skal til þess hafa, ad vegsama Guds eilijfa Giædsku. So elskade Gud Heimeñ, segier Lausnareñ, ad hañ gaf wt siñ Eingieteñ Son til þess, ad aller þeir sem æ hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf, Joh. 3. Nær gaf hañ oss hañ fyrst? A hanns Gietnadar Deige, enn fyrst hañ hafde oss hann Einusinne giefed, þvi skyllde hann þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum, Rom. 8. Til hvørs gaf hann Sonenn? Til þess, ad þeir sem æ hañ trydu skylldu ecke fyrerfarast, þad

er,

er, ad þeim ecki skylldi verda skipad frꜳ Guds Doomstoole i eilijfann Elld, sem fyrerbwinn er Dioflinum og ollum hanns Ârum. Hefde Gud giort oss ad Kvikindum Jardar og Vinnu-Dijrum, og lꜳtid oss svo wtaf slockna eins og Fienadarins Anda, þa voru þad good Kior hiꜳ þvi ad pijnast eilijflega i Helvijte; Enn hañ hefur eñ þa betur til vor giort, þar aller þeir, sem ꜳ hañs Son trwa, skulu hafa eilijft Lijf, þad er, Oendañlega Dijrdar-Vist og Sꜳlu med honum og i honum, frꜳ einne Eilijfd til annarar. Hver vill þa fꜳ Ordum adkomid, hvilijk Guds Âst oss er veitt i Holldtekiu DRottiñs? Vier vitum aller hvilijk Byrde ad er Guds H. Logmꜳl, og hvert ad sie Straff þeirra, er Logmꜳled brioota; Þad segier oss Moyses, Deut. 27. med svo skielfilegum Ordum, ad jafnvel þeim mætti ofbiooda, sem vita ad þeir eru frꜳ Logmꜳlsins Bolvan frelsader, og er þad þo ei nema tijmañlegt Volæde sem hañ uppreiknar: Svo eg vil segia, ad sꜳ sem heyrde Logmꜳled og þess Vidlogur, og ætte sier ecke Lausnar Von frꜳ þess Bolvan, hann være ad miklu Leite i Helvijte, jafnvel hier ꜳ Jordunne, og hefde ei nockra Roo um eitt Augnablik. Enn hvad seger Paulus? Gal. 4. Þegar Tijmans Uppfylling kom, sendi Gud Son siñ giordann af Kvinnunni Logmꜳlinu undirgiefinn, so hann leysti þꜳ, sem undir Logmꜳlinu voru, uppꜳ had vier odludustum Barna Riettinn. Nær skiedi þad? A hañs Gietnadar-Dege: Eñ hvad mikid oss sie i þvi veitt, siꜳum vier best, ef vier hugleidum, hvilijkur Mun þess sie, ad vera Samarfe JEsu Christi, og so hiñs, ad vera Þræll Logmꜳlsins hier i Lijfi, og svo Fꜳnge Satans i odrum Heimi. J einu Ordi ad segia; Allar Lijfs og Sꜳlar Heiller, sem Guds Born þyggia af DRottne, þær eru oss, i þvi Augnablike veittar, er JEsus var gietenn i Meyar-Lijfe.

Eingeñ fegre Sool hefur yfer Heiminn skinid eñ sw, þegar Sool Riettlætisins, Mal. 4. upprann oss syndugum Monnum i hennar Kvidi. Vier vorum nidursockter i Afgruñ herfilegustu Eymda og Volædis, oss vantade þann, sem rietti oss eiñ Streing til ad upprykkia oss wr þessu Diwpi. Þrij-Þættur Streingur slitnar torvelldlega, seger hinn Vijse, Pred. 4. Þesse Streingur var Drottiñ JEsus af Lijkama, Sꜳlu og Gud-doominum samañspuñin, hañ var ofañlꜳteñ i Eymder vors Hollds, med honum hefur Guds megtugi Armleggur ryckt oss wt af Vallde Myrkraña; Oss vantade eina Fororn, þꜳ er kyñi fyrir Gudi ad gyllda, hana var ecke ad fꜳ hiꜳ oss Moñunum; Einn Brooder kuñi ecki añañ ad leysa, Ps. 49. Og þoott Gud hefdi skapad einn heilagann Mañ af Adams Nidium, og lꜳtid hañ lijda, þꜳ nꜳdi hañ skamt, bædi til ad gieta wtstadid hinar bitru Helvijtis Pijsler, so og til ad fullnægia Gudi fyrir Syndina, þvi er Gud Madur vordiñ, so ad Guddoomuriñ hiꜳlpadi Mañdoominum til ad þola Pijslernar, og giora Lausnar-Giallded dijrmætt og gilldt i Auglite hiñs strꜳnga Doomara, eñ Mañdoomuriñ Gudi (ef eg mꜳ so ad Ordi komast) til ad deya. Vier þurftum einhvors Sꜳttmꜳla vid, til Stadfestingar þeim Fride er Gud giorde vid Mañkynid. Siꜳ! Gud er Madur vordiñ, hañ hefur trwlofad sier vora Nꜳtturu i Meyariñar Kvidi: Med þessum Teingdum er Fridurin stadfestur milli Himins og Jardar, milli Guds

og

og Mañа, mille Riettlætiſins og Myſkunariñar. Vier þurftum nockurskonar Veg til Himinſins, hvadañ vier wtlæger vorum. Gud er Madur vordiñ, hañ er Veguriñ, Sañleikureñ og Lijfed, Joh. 14. Hañ er Jacobs Stijge, ſem nær fraa Jordu allt til Himins, Gen. 28. Þvi hañ er ofañkomiñ af Himne i vort auma Holld, eñ vort Holld er uppnumid, Fiolleñ eru læckud, Dalirner eru uppfyllder, Eſa. 40. Himiniñ hefur læckad ſig allt til Jardar, Jordeñ er upphafiñ allt til Himna: Og um þeñañ Jacobs Stiga munu Englar aa ſijdañ bera Saaler vorar i Abrahams Skaut, til ad fagna þar eilijflega. Vier vorum Gudi mørg Tiju Þuſund Punda ſkylldugir, Matth. 18. Þar laa ecke annad fyrer oſs, enn ad verda kaſtader i hin ytſtu Myrkur. Eingenn hafde þad hañ giallda ſkyllde; Þvi er Gud Madur vordiñ. Fadiriñ gaf oſs einn rijkañ Broodur, ſem einn gallt fyrer alla. Ad ſijdurſtu villde Gud ecke einaſta frelſa oſs af Myrkrañа Valldei Helvijte, helldur og hefia oſs til Rijkis i Himnenum; Eñ oſs vantade Rokſemd og Skil til þeſs, ad hañ villde ſo giora. Hanns Giædſka var alltijd til reidu i fraa Upphafi Veralldar, Jaa, adur enn Grundvollur Verallдarinnar var lagdur. Enn þad var ad ugga, ad vier mundum giora hana Onijta aa oſs, fyrir Vantrwariñar Saker. Þad var ecki lijklegt, ad einn Glæpafullur Landraada-Madur, eiñ Spillvirke, ſem allareidu hafdi Snøruna um Haalſiñ og unnid til Gaalgans, hañ mundi ætla ad Konungurenn munde hann aptur kalla fraa Gaalganum til Rijkis, wr Boduls-Høndunum til ſijns Haabords, og giora hann Ættleiding af wtlaga, ſitt Barn af Dioſulſins Þræl, og ſinn Þienara af Drottins Svikara. Þeſs vegna er Gud Madur vordinn, þar fyrir hefur hann giefid oſs þad Teikn, er hann hiet ad giefa aa Døgum Achas Konungs, Eſa. 7. um hvert ad gietur i þeſſa Haatijdis Dags veniulegum Piſtli, þar ſo ſtendur: Fyrir þaa Skulld mun DRottiñ giefa ydur eitt Teikn. Sia þu, ad ein Jomfrw mun Barn gieta, og eiñ Son fæda, og hann mun hun kalla Immanuel, þad er, Gud med oſs: Gud i Manninum og Orded i Holldinu, þad er JEſus, Lauſnare, Frelſare, Saaluhiaalpare; Þvi ſo kunni einginn ad heita, nema Gud bygge i honum. Þetta er nu fullkomeñ Viſſa um Saatt vora vid Gud, ſaa oſs reidur var, þvi hafi hann giefid oſs hann, i hverium honum alleina vel þocknaſt, Matth. 3. og ofurſellt hann i Daudans Pijſler, til ad forlijka oſs vid ſiaalfann ſig, Rom. 5. þegar vier enn þa vorum hanns Oviner; Hverninn kunnum vier þa ad efaſt um Uppgiof vorra Synda? Mun hann kaſta þeim i eilijfann Elld, ſem aa hañs Nafn trwa, er hann took ſo nærri ſier ad giefa oſs? Mun hañ tilreikna þeim Syndirnar, hverra Synder hañs Eingietinn Sonur hefur burtu bored, Joh. 1. nær vier ydrunſt þeirra af Hiarta? Mun hann klaga oſs fyrer þaa Handſkriftena, ſem hann hefur alla-reidu aa Kroſsenn neglt? Col. 2. Fiærre ſie þad Fodur Myſkunſemdañа. Og þeſſe er nu ſaa gledilege Bodſkapurinn, er eg i Ondverdu hiet um ad tala. O Eitt Fagnadarſamt Ord! O Eitt ſannkallad Evangelium! O Eitt æſkilegt Fridar-Bod! med hveriu Heilſann verdur frambodinn hinum Veika, Uppgiofinn hinum Seka, Lauſniñ hinum Herteknu, Frelſid Þrælunum, Lijfid hinum Dauda, og þeim (ſem

einkis

einkis Von ættu nema eilijfra Kvala i Helvijte, med Dioflinum og øllum hañs Arum), eilijf Sæla, eilijfur Fognudur og eilijft Samneyte, med hiñi hæleitu Gudomsins Þreñingu og heiløgum Englum i hiñi himnesku Jerusalem, hverrar Sool og Twngl ad Gud er, Op. B. 21. Og hvar einginn Umskipti eru Liossins nie Myrkursins, Jac. 1. Þessarar Tignar, þessarar Dijrdar og þessarar Full-Sælu, unn þu oss niootande ad verda, goode Gud, fyrer Arnan og Forþienustu þijns Eingietins Sonar JEsu Christi, vors Frelsara, Amen.

# A Pælma Sunnudag.

Gudspialled stendur æ hinn Fyrsta Sunnudag i Adventu.

## Exordium.

Vier hofum eingann Konung nema Keysarann, sogdu Gydingar Fordum Daga, Joh. 19. Þa þeir villdu ecki læta Konung Dijrdarinnar rijkia yfer sier, Luc. 19. Enn eg þikist vita, ad Christnir Menn muni ecki samsinna þeim Ogudlega Flock, þvi jafnvel þoott vier eigum Gudi ad þacka fyrir Konunga vora, er hañ sett hefur til ad stioorna sijnu Foolki, sierdeilis vier, er hañ hefur millda og riettvijsa Konunga giefid Einn epter Annann, þa vitum vier þo, ad Gud hefur sett sinn Konung yfer sitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. hvers Rijke ecke er af þessum Heime, Joh. 18. og þo er hann Heimsins Skapare, Hebr. 1. hvers Herradæmi ad bræa fyrer synduga Menn um Stundarsaker, til ad uppfylla Spaadoom Zachariæ, Cap. 9. þegar hann reid inn til Jerusalem, enn hanns Rijkis-Stooll varir þo um Alldir Allda, Hebr. 1. Verir Hofdingiar stioorna med Makt og miklu Velldi, Verølldiñ er svo skipud, ad eckt verdur ødru ækomid; Enn Christur i sijnu Nædar-Rijki stioornar med sijnu H. Ordi og Sacramentunum, þvi segier Paulus, 2. Cor. 10. Vopn Herfarar vorrar eru ecki Lijkamleg, helldur Kraptur Guds til ad nidurbriioota Gyrdingarnar. Veralldleger Herrar taka Skatt af sijnum Þegnum, Matth. 17. og er þad riettvijst, þvi þesse vor Konungur hefur þad skipad, enn hann giefur øllum allt og upplijkur sinni milldu Hendi, til ad sedia allar lifande Skiepnur, Ps. 145. DRottinn sagde vid Petrum: Veralldleger Konungar, hvert taka þeir Skatt af sijnum Bornum, ellegar af Annarlegum? Enn Petur svarade: Af Annarlegum. Og vor Herra sagde: Þa eru Børninn frij, Matth. 17. Enn þad geingur ødruvijse til i Guds Rijki; Hier tekur Konungurinn Skatt af sijnum Bornum, sem þo er ecke Gull nie Silfur, helldur Harmþrwnginn og Sundurknosadur Andi. Fordum Daga mætti einginn mæta Persaña Konungi, nema hann offradi honum einhverre Gæfu, og er Bonde nockur vard æ Vege fyrer einum af þeim, hafde hann þad ecke til, er hann kynni ad biooda; Enn i þessu Nædleyse took hann Vatn i Lwkum sier og færdi Konunginum, og segia Menn þad hafi verid vel þegid. Vier mætum vorum Konunge Daglega, þvi allann Daginn wtbreider hann sinn Fadm til vor, Esa. 65. Eckert høfum vier þad, vier kunnum

ad biooda þessum Allsheriar DRottne; Blood Uxanna og Hafranna þocknast honum ecke, Ps. 50. Allt Silfur og Gull er hanns, jafnvel vor bestu Verk eru eins og Nidlags Fat, Esa. 64. Gudrækileg Taar vorra Augna, og þad Vatn sem ydrande Manna Hofud eru full af, eiñ audmiwkur Ande og lijtilaatt Hiarta, er hanns Offur, Ps. 51. Betur lijkar honum Foota Þvottur hinnar Bersyndugu, enn Heimbod Simonar, Luc. 7. Betur Mariu Audmykt i Hiartanu, helldur enn Umsorgun Marthæ i Hwsinu, Luc. 10. Hinn beyske Graatur Peturs, Matth. 26. helldur enn Offur Vitringanna, Matth. 2. Þoott hverutveggia væri þacknæmilegt. Hin besta Þegn-Skyllda Guds af Monnunum er þetta, og Trwinu, sem verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Enn þessi Konungur, so Maattugur sem hann er, svo Prijdilegur sem hann er, svo Alvalldur sem hañ er, svo Giædsturijkur sem hann er, þaa er hann þo til vor kominn HOOGVÆr, Sitiande aa Ösnu Einni. Hafi nu Konungur Dijrdarinnar verid so Hoogvær fyrir vora Skulld, þa laatum oss gaanga nær Gudspialli þessu, og læra nockud af honum, sem er Hoogvær og af Hiarta Lijtillaatur, Matth. 11. Þad er hina Andlegu Hoogværd, sem oss aa ad fylgia inn i Himnarijke med Smaa-Bornunum, Matth. 18. Og um hana vil eg tala fyrer ydrum Kiærleika wt af þessu H. Evangelio. Hvar til oss styrki hinn Naaduge Gud i JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingenn.

HAReð Þier J Þad Kauptwn Sem Gagnvart Ydur Er, Og Strax Munud Þier Finña Ösnu Bundna Og Folañ Hiaa Henni; Segier DRotteñ. Af þessu er audsied, ad hann visse alla Hlute, og ef hann var Alvitur, þa var hann og Almaattugur, Allstadar Naalægur og Omælanlegur, þvi Guddoomsins Eiginlegleikar meiga ecke adskiliast, hvar fyrer vier siaaum, ad oll Fylling Guddoomsins hefur bwid i honum lijkamlega, Col. 2. Hvad laangt eru nu allir daudleger Meñ fraa soddañ Haatign? Ad sonnu hefur Gud lagt mikid til margra, og þar verdur ecke aa mooti sagt, ad Madurenn er hin ypparlegasta Skiepna Guds, sem vier siaaum med vorum Augum, enn þad hefur JEsus fram yfer alla adra, ad hann er bæde Gud og Madur. Hvilijkt er þa þetta Oumrædilega Lijtilæte! Ad hann, sem oll Dijr aa Jordunñi skapad hefur, hañ virdir sig so Lijtils, ad sitia aa eiñi Ösnu, sem er eitt hid audvirdilegasta Kvikindi medal Dijrañá: Siaa hier, Christenn Madur, hvad lijtils verd ad sie Hoffrakt Verallldariñar i Guds Dijrdarfulla Auglite. Hier er ecke Pharaonis Vagn, sem Joseph var i fluttur, Gen. 41. Ecki Mardochei Hestur, sem Ahasverus skipade honum ad rijda aa sijnum Heidurs-Dege, Est. 6. Ecki hiñ elldlege Vagn og Hestar, sem færdu Eliam til Himna, 2. K. B. 2. helldur ein lijtilmootlig Asna; Þo stærir eiñ syndugur Ormur sig af Bwninginum, og af þvi Yfirlæte er hañ hledur utañ aa sig. Þad er allvijda ad siaa af Æfi-Sogu DRottiñs, hvad lijtils hañ hefur metid Oflæti Veralldarinnar. Hañ var fæddur i einum Stalli, Luc. 2. Hañ foor aa Fæti, þegar hañ gieck um krijng, giordi gott og græddi alla, P. G. 10. Hañ rijdur hier eiñi Ösnu, og hygg eg þad hafi verid

hid

hid mesta hañs Yfirlæte hier a Jordunne. Þeink nu um̃, syndugur Madur, hvilijk Fœsiña þad sie, ad metnast i Hiarta sijnu, þo Gud læte einhvorn skijna i Prijde Veralldar þessarar; Ecke segie eg, ad Gude misþockneſt lijkamlegt Hreinlæte edur fagur Bwnadur i sialfum sier, þegar þau sambiooda þess Virdingu er þvilijkt brwkar, lœngt helldur meina eg, ad Gud hafe engann Misþocka a þvi, þoott hañs Skiepnum sie hallded til Prijdes; Þad sijner mier Aaronis Bwningur, Exod. 28. Þad vottar Sœttmæls Orkennog Nœdar-Stoollenn, Exod. 25. Þad sijner Jerusalems Mustere, 1. Kong. 6. Þad sijner Salomon med allre siñe Dijrd, 1. Kong. 10. hvorre i Ritninguñe hroosad verdur: Eñ hir segie eg, ad stæra sig þar af, þad er Anstygd fyrer Gude. Ecke trwe eg ad hønum hafe illa lijkad sw Bygging, er Nebucadnezar liet giora i Babylon; Eñ fyrer þvi hann stærde sig þar af, þa vard hønum giefed Villudijrs Hiarta, so hann œt Gras med Kvikendum a Mørkeñe, Dan. 4. Ecke hefur Gud reidst vid Herodem af þvi hañ var Mælsniallur, þvi sialfur hafde hañ hønum Mælsæred giefed: Enn søkum þess, ad hann gaf ecke Gude Dijrdena, þa var hañ sleigeñ af Engle DRottens, P. G. 12. Kañskie ad Gud hefde læted Hvalfiskenn i Egyptalande vera kyrrann i sijnu Vatne, hefde hañ ecke sagt: Mitt Vatn er mitt, og eg hefe giort mier þad, Ezech. 29. Ecke er vijst ad hann hefde sett Krookeñ i Zencheribs Naser, hefde hann ecke lastad Nafn DRottens. Þesse er hinn Riettlæte Doomur hiñs Alvallda Konungs, ad dramblœtum hrinder hañ af Stoole, enn lijtellœtum gefur hañ Nœd, Luc. 1. Betra er ad audmykiast med hinum Hoogværu, eñ ad wtskipta Herfœnge mz þeim Drambsømu, segier Salomon, Ordsk. 16. Hvar af audsied er, ad þo Gud hefde miked til hanns lagt, og upphafed hañ a Stool sijns Fodurs, og giort hañ vegsamlegre, bæde ad Vite og Rijkdoome, helldur enn adra Konunga i Austurælfunne a hañs Døgum, 1. Kong. 10. Þa hefur hañ kannast vid, ad hañ hafde þad allt þeiged og ecke teked af sialfum sier. Svo var og David, hanns Fader, lyndur, hvors Audmyktar merkelegt Dæme vier høfum i añarar Sam. B. 6. Cap. Þegar Drottningeñ Michol brixlade hønum, med þessum Ordum: Hvørsu vegsamlegur var Konguren̄ af Jsrael i Dag, hvør ed afklæddest fyrer Ambœttum Þienara siña, og liek Nakeñ sem Fantar? Eñ hañ svarade: Eg vil leika fyrer Drottne þeim sem wtvalde mig, helldur eñ þiñ Fodur og heldur eñ allt hañs Hwß, og hefur skipad mig Høfdingia yfir Drotteñs Foolk Jsrael, og eg vil eñ nu miñe verda, og eg vil lijtellæcka mig i mijnu Auglite, og vegsamast med þeim Ambœttum, sem þu talader um̃. Ad eg tale ecke um̃ Abraham, Jacob, Moysen, Josaphat, Ezechiam og adra fleire, hvorier aller voru af Gude med mikellre Tign sœmder, og þeirra Audmykt i Andanum er þo hroosad i Ritninguñe. Gud nœde oß! Hvad høfum vier ad stæra oß af, synduget Meñ? Er ecke Madureñ ein Vatns Boola? Hvør þo ad þioote upp um̃ stundarsaker af Vinde Luckuñar, þa hiadnar hun jafnskioott aptur, þegar hiñ same a hana blæs. Er ecke allt Holld Hey? Og allur þess Heilagleike lijka svo sem Bloomstur Akursins? Grased visnade og Bloomstred datt af, þviad Ande DRotteñs blies a þad. Sannarlega er allt Foolked Hey; Grased

 visnade,

visnade, og Bloomstred datt nidur, enn Ord DRottens varer eilijflega, Esa. 40. Hier er engen undanntekenn, Rijkur eda Fatækur, Gøfugur eda O-gøfugur, Smaar edur Stoor, Vitur eda Vankunnande, Þræll edur Herra, og þetta eru Guds Ord, hvør æfennlega vara, er oss þetta segia. Laate þvi engenn ofurdaatt ad sialfum sier, þvi allt hvad vier høfum, hvad gott edur kostulegt sem þad er, þad er þo alltsaman Laans-Fie, og ecke vort eiged. Segied mier: Hvar af skylldu Menn þo stæra sig? Af Aud og Rijkedæme? Þvi skyllde eg hroka mier upp af þvi, sem Luckan kann eins ad giefa einum Nijdinge, so sem besta Manne, sem aflad er med mikellre Ahyggiu a mørgum Arum, enn fargast i einu Augnablike, ef til vill. Þvi skal eg giøra mig stoorann, þoott eg hafe einn Omaga medferdes, sem eg hlijt alltijd ad þrælka fyrer, og so er Oþacklaatur og Orettvijs, ad hann sedur alldrei sijna Fyrervinnu? Viljum vier athuga, Br. M. af hvøriu flester eru i Fyrstunne Rijker vordner; Fæster munu þeir vera, sem Naatturann hefur hialpad þar til ad øllu Leite, edur þeirra eittsamann Erfide, med hvøriu Gud hefur skipad ad næra sig af Jordunne, Gen. 3. Eg vænte ad so hafe flester audgast, ad þeir, eda þeirra Forfedur, hafe teked nockud ranglega fra ødrum. Enn segied mier: Er þad riettvijst ad Menn stære sig upp yfir einhvørium, af þvi ad hanns Forfedur hafa tekid nockud fra hinns Forfedrum? Engum Manne mun þad þykia, þegar Menn gaa ad hvørnenn Hluturenn er i sialfum sier. Eda hvad er nu framveiges ad stæra sig af? Eru þad Vitsmuner? Jeg medkienne, ad þeir eru hinn kostulegaste Hlutur, sem Gud hefur lagt til syndugra Manna, enn þo eru þeir fallvallter eins og annad; Og hvad lijted er, ad vier vitum, hia þvi sem vier ecke vitum? Madurenn veit ecke sinn Sess edur Gaungu, segier Ritningenn; Og hvørsu vill hann þo meira vita? Og þoott ad þeir sieu i sialfum sier gooder, þa verda þeir þo af vorre Misbrwkun optlega nijdder, allra mest af Drambsemenne. Riett giørde Gud, so sem alla Hlute, i þvi hann gaf Nebucadnezar Villudijrs Hiarta, Dan. 4. sem adur er sagt; Og sama ætla eg þa hende, sem forsmaa adra hia sialfum sier, og þykiast einer vita alla Hlute, hvad þa optast hender, sem minst vita, og þa þeir þykiast øllum hyggnare, verda þeir Skiptingum heimskare. Margur Gortare hefur og stært sig af Hreiste Lijkamans, giætande ecke ad þvi, ad lijtell Kvile kann ad svipta Manenn sijnu Afle. Sumer hroosa sier af Fegurd Lijkamans, og er hun ad sønnu agiætur Hlutur, þa hun ecke er brwkud til Lauslætis edur Ofmetnadar, enn einsamann er hun Agiætes lijtel, þvi Madur kann ad mala eitt Bijlæte fagurt, og er þad þo ecke so gott, sem hinn liootaste Madur. Hvad er nu framvegis verdt ad stæra sig af? Dygder og Mannkoster eru mest verder af øllum þeim Hlutum, sem finnast hia Daudlegum Monnum, enn þeir verda ad Okostum, þegar Dramblæted þeim spiller. Þvi segier Salomon: Vanvirdann epterfylger hinum Stoorlaata, enn hinn, sem er Lijtelaatur i Anda, mun Vegsemdenn umfadma, Ordsk. 16. Lijtelæted er fegursta Skart Dygdanna; an þess verdur Framsyn[illegible]nn ad Underferle, Riettlæted ad Hardydge, Hugprijden ad Ofdyrfsku, Sparsemenn ad Nijdsku; Jeg meina hid Christelegg Lijtelæte, sem er eitt audmiwk-

ur Andefyrer Gude, og kannast v:d og þecker þad, ad Menn eru Menn, mannlegum Tilfellum undervorpner.

Siaa Þinn Kongur Kiemur Til Þ'in Hoogvær; segier Textenn, Ef Konungur Dijrdarennar, Ps.24. svo lijtelæckar sig fyrer oss syndugum Monnum, þvi skylldum vier synduger Menn stæra oss upp yfir vorum Brædrum? O Drottenn Himens og Jardar kiemur til vor aumra Manna, sem eckert tokum med oss i þennann Heim, og munum eckert i burtu bera, 1. Tim. 6. Hinn fegurste medal Mannanna Sona, Ps. 45. kiemur til vor, sem fraa Hvirfle og allt til Ylia erum ecke nema Saar, Beniar og Þrote, Esa.1. Laatum oss þad til Hiarta gaanga, hvad stoor Munur ad er vor og hans: Vier erum þeir ed stygdum, hann er saa sem misgiort var aa moote; hann þarf ecke vor med, enn vier kunnum ecke eitt Augnablik ad lifa fyrer utan hans Myskun. Laatum vort Hiarta komast vid af þvi, ad hann er siukur af Elsku, Loft. 2. ofan til vor komenn, þegar vier hann hotudum. Ef vorar Synder ecke aangra oss, ef vier hrædunst ecke þeirra Straff, þa laatum þo þann Oumrædelega Elskunar Bruna smellta vort Hiarta, ad hann kiemur med so mikellre Hoogværd inn til Jerusalem, til ad laata sig kvelia og krossfesta fyrer mijnar og þijnar Synder, Christen Madur! Hann grætur yfir Borgene, hvorrar Jnbyggendur ad ecke þecktu sinn Vitiunar Tijma, Luc. 19. Af hvorium hann visse þo ad hann munde so Haadugslega atleikenn verda, sem hans Pijslar-Saga vottar. Fyrst hann hefur nu allt þetta unned fyrer oss synduga Jardar-Madka, þa laatum oss giora þad hann oss skipad hefur, sem er, ad læra af honum hina sonu Hoogværd, sem Gud aalijtur, giorande eckert af Kappe edur fyrer Hiegooma Dijrd, helldur af Lijtelæte, hafande hvor annann sier i Virdingum ædre, Phil. 2. Audsijnum og vort Lijtelæte i Verkunum, so ad bæde Gud og Menn siae, ad vier leggium ecke ofmikla Virding aa sialfa oss. Drotten sagde til Læresveinanna i þessu Evangelio, þegar hann skipade þeim ad taka Osnuna: Ef Einhvor Segier Nockud Til Ydar, Þa Segied, Ad HErrann Hafe Þeirra Þorf. Allt Valld hafde JEsus, bæde aa Himne og Jordu, þvi alla Hlute hafde Faderenn lagt i Sonarens Hendur, Matth. 28. Þvi synest ad þad hefde ecke vered um fram hanns Raad, þoott hann hefde teked þetta Dijr, ad fornspurdum Eigandanum, þo villde hann þad ecke giora, uppaa þad hann sijnde oss, hvernenn vier eigum hvor vid annann ad breita: Enn hvad giora sumer af oss? þyker oss þad mikels verdt ad giora Lijtelmagnann fornspurdann, ad þeim Hlutum, er vier eignast viliũm? Mun Jessabel virda fyrer sier ad leita Liwgvitna i moote Naboth, og laata grijta hann sijdann i Hel, þegar Achab vill eignast hans Vijngard? 2. Kong. 21. O Gud giæfe! Ecke være þvilijk Dæme hiaa oss, þoott Menn raadest þess minna i, sem vier hofum Vallded minna, helldur enn Achab hafde. Ad sonu er skickanlega og Lijtelaata Umgeingne ecke ad lasta; Hun kann ecke so ad kallast Dygd, so sem Dygdanna Förunautur; Og margur hefur saa hana til ad bera, sem ecke hefur sialfar Dygdernar, og med hene hafa sumer teked allt fraa ollum; Enn þo er ecke hid sanna Lijtelæte i þvi innefaled ad taka Hatten af fyrer Monnum, jafnvel þo þad sie ecke lastande i sialfu sier. Utvortis og Jnn-

vortis Lijtelæte, er ad soñu hvorutveggia gott, eñ skule annars hvors can vera, þa villda eg helldur ad Hattureñ sæte kyrr ca Hofdenu, helldur eñ ad Aumingians Kioll være rifeñ af hanns Kroppe, so ad Gud klagade mig ecke sijdann, ad eg fielle fram i Pantsettum Klædum i hanns Hwse; Amos 2.

Vier heyrum i Gudspiallenu, ad margt af Foolkenu, sem epter fylgde Lausnaranum, Hafe Breidt Sijn Klæde A Veigenn, Enn Adrer Hoggved Kvistu Af Trianum; Þad var stoort Audmyktar Merke af þessu Foolke, og eg veit, ad þier, Christner Meñ, villdud hid sama giora, ef þier mættud hañs Nalægdar niota. Enn trw mier til, ad hann er ecke so langt i burtu, sem þu hyggur, þvi hann hefur sagt: Eg vil vera hia ydur allt til Enda Veralldar, Matth. 28. Og ef þar eckert annad er, þa eru þar nooger Klædleysingiar, sem hann kallar sijna Lime, þad eru sanner Olmusu-Menn: Breidum vor Klæde ca Veigenn fyrer þa, so ad þeir ecke i Klædleysi wt af deye, sem ad bera Teikn JEsu Christi ca sijnum Lijkama, og eru epter hans Mynd skapader, so vel sem vier adrer, sem betre Rad hofum: Þa offrum vier hinu sannarlega Lijtelæte, og latum Gud sia ad vier þykiunst ecke upp yfir þeim, sem hañ hefur minna tillagt. Christur vill ecke lata lwta sier einungis med Ordum, helldur med Verke og Sañleika, Eph. 2. Ecke helldur sijnum Limum, þvi hann er Safnadarens Hofud, Rom. 12. Enn vier erum hvor annars Limur. Þar mun koma sa Dagur ad sagt mun verda til þeirra sem hafa medteked Guds Volada i hanns Nafile, þegar Christur mun i Annad Sinn innrijda til Jerusalem, þad er, til sinnar Christilegrar Kyrkiu, ecke gratande, so sem nu, helldur med Makt og miklu Vellde, þegar Hofud-Engelsins Lwdur mun giella yfir þeim sem ca Jordu bwa: Komed þier blessader mijns Fodurs, og eigneft þad Rijke sem ydur var tilbwed fra Upphafe Veralldar; Þviad Hwngradur var eg, og þier gafud mier ad Eta, Þyrstur var eg, og þier gafud mier ad Drecka, Giestur var eg, og þier Hystud mig, Nakeñ var eg, og þier Klæddud mig, Siwkur var eg, og þier Vitiudud mijn, i Myrkvastofu var eg, og þier Komud til mijn; Þa munu hiner Riettlatu svara honum og segia: HErra, hvenær saum vier þig Hwngradann og Seddum þig? Eda Þyrstann og gafum þier ad Drecka? Eda hvenær saum vier þig Giestkomenn og Hystum þig? Eda Nakenn, og Klæddum þig? Eda hvenær saum vier þig Siwkann edur i Myrkvastofu og komum til þijn? Og Konungurenn mun svara og segia til þeirra: Sannlega segie eg ydur; Ad hvad þier giordud einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, þad giordud þier mier, Matth. 25. Þa mun þad ecke koma i Epterþorf, ad hafa breidt sijn Klæde ca Veigenn fyrer Christi Limu, þad mun verda stoor Fiesioodur ca Himnum, ad hafa lijtels aktad Gull og Gersemar, og Kostulegann Bwnad, þegar allt þetta stendur i biortu Bale, og duger til einkis, nema ad kveikia Elld under þeim sem hafa fest sitt Hiarta þar vid. Þyker oss vænt um þad fanijta Skart, sem vier vefium i þenna forgeingelega Lijkama, og þad so miog, ad sumer af oss være til Frids, ad flytia med sier nockud wr þessare Verolldu, þa er Rad þad vid þvi, ad klæda Fatæka, þeir munu

oss

oss þad med Abatg aptur giefa, sem er Riettlætisins Skrwde, sꝍgadur i Lambsins Bloode. Eckert berum vier i burtu med oss hiedann, nema þad sem Guds Voludum er giefid, þad mun oss aptur rijkuglega gollded verda i Upprisu Riettlꝍtra. So læred nu af ydar Frelsara, Br. M. ad vera Hoogværer og af Hiarta Lijtillꝍter, bædi i Orde og Verke. Hañ hefur ecki sagt til vor: Lærid af mier ad skapa allann Heimiñ, ecke ad giora Kraptaverk i Heiminum, ecke ad rꝍda fyrer Velferd allra Mañа, helldur hefur hañ skipad oss ad læra af sier Hoogværdina. Sꝍ sem vill byggia sitt Hws stoduglega, hañ þeinki uñ Grundvoll Lijtillætisins, þvi hver sꝍ er sig upphefr, hañ skal nidurlægiast, og hver ed sig nidurlæger, hañ skal upphafiñ verda, Matth. 23. Eñ þu, O Herra JEsu Christe! sem ert hid fullkomnasta Eptirdꝍme Lijtillætisins og Hoogværdariñar, virdst þu ad taka burt frꝍ oss Hroka Syndumspilltrar Nꝍtturu, so ad vier rata mættum hañ rietta Vegiñ i þitt Rijki. Þad veit þu oss Myskunsame HErra, sem hefur lijtillækkad sialfañ þig, uppꝍ þad vier Vegsamleger yrdum, og bid þiñ himneska Fodr fyrer oss, ad hañ sendi oss þar til siñ heilaga Anda, Amen, J JEsu Nafne, Amen.

## A Skijr-Dag.

Pistillenn, 1. Cor. 11. Cap.

Gooder Brædur. Þvi eg medtook þad af DRottne, sem eg hefi ydur giefid. Af þvi ad DRottiñ JEsus, ꝍ þeirri Natt, er hañ var svikiñ, took hañ Braudid, giorde Þacker, braut þad, og sagde: Taked og eted; Þetta er miñ Lijkame, sꝍ fyrer ydur verdur broteñ: Giørid þad i mijna Miñing. Somuleidis og eirniñ Kaleikiñ, epter þad hañ hafde Kvølldmꝍltijdina eted, segiande: Þesse Kaleikur er Nijtt Testamentum i mijnu Bloode: Giøred þetta so opt sem þier drecked þar af i mijna Miñing. Þviad so opt sem þier eted af þessu Braude, og drecked af þessum Kaleik, skulud þier kuñgiøra Dauda DRottiñs, þangad til hañ kiemur. Hver hañ etur nu af þessu Braude, og dreckur af þessum Kaleik Drottiñs Overdugur, sꝍ er sekur vid Holld og Blood DRottiñs. Eñ hver Madur prooſe sig sialfur, og ete so af þessu Braude, og drecke so af þessum Kaleik. Þviad hver hann etur og dreckur Overdugur, sꝍ etur og dreckur sialfum sier Doom: Giørande ecki Greinarmun ꝍ Drottiñs Lijkama.

Exordium.

Sæll er sꝍ Madur, sem etur Braud i Guds Rijke, sagde fordum Gydingureñ, er sat til Bords med vorum Frelsara, þa hañ var ad Heimbode eins af Phariseꝍaña Hofdingium, Luc. 14. Hann hefur ꝍn Efa meint hier med alla þꝍ

Sælu, er þeim bwinn er, sem sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnanna. Þessi Madur sagdi ad vijsu satt, enn forgiefins vænta Menn hiñar eilijfu Sælu, nema vier siaum hier i Lijfe nockurn Forsmeck heñar; Eñ hvar saum vier hañ? I Guds heilaga Ordi ad sönnu, eñ þo allra hellst i þeim heilögu Sacramentum. Hvilijkur Fögnudur er þad einni Riett-trwadre Saalu, ad hun veit, ad hun i Skijrninne er vordenn Guds Vinur af Reidinnar Barne, Eph. 2. og Hluttakande allra JEsu Christi Velgiorninga, sem hann med sinni beisku Kvöl og Dauda hefur oss afrekad, og til Styrkingar Trw sinni þar uñ, etur hann Guds Lijkama og dreckur hanns Blood, i og med hinum Jardnesku Hlutum, Braude og Vijne. I Ordinu heyrum vier Raust Brwdgumans, Loff. 5. Enn i Kvölldmaaltijd DRottins, kysser hann hana med Kosse sijns Munns, er hanns Hiarta elskar, Loff. 1. Þar uppvekur hann Elskuna til sijn, þar styrker hann Trwna, þar lijfgar hann Vonina, þar eykur hann Gledina og giefur oss Forsmeck Himnarijkis. David gat ecki meiri Æru veitt Mephiboseth, Syne Jonathans Vinar sijns, 2. Sam. 9. edur Vin sijnum Barsillai, 2. Sam. 19. enn ad þeir skylldu eta Braud vid hanns eiged Bord. O! hvilijk Æra er þetta þa, Br. M. ad Konungur Dijrdarinnar setur oss vid sitt eiged Bord, hañ framreider þar, ecke einn alinn Kaalf, eins og Fader hinns tijnda Sonarins, sem gietur uñ i Epterlijkingunne, Luc. 15. helldur sialfann sig þad saklausa Guds Lamb, sem fra Veralldarinnar Upphafi slaatrad er, Op. B. 5. Hwngrudum til Sadningar. Nathan Spaamadur kunni ecke ad fa annad Vigtugra til ad sijna David, hversu miög hinn Faatæke Madur hefde elskad þann Saudinn, sem hinn Rijki took fra honum, helldur enn þad, ad hañ gaf honum ad eta af sijnum Braud-Bita, og ad drecka af sijnu Kiere, 2. Sam. 12. O JEsu! Vier erum þijnir voladir Sauder, þu hefur auglijst þinn breñande Kiærleika i mörgum þijnum Velgiörningum, enn þo hvad mest i þvi, ad þu hefur giefid oss þitt Holld ad eta og þitt Blood ad drecka, þad sama Holld og Blood, sem a Krossinum hieck og wthellt var, enn nu situr til Kraptarins hægre Handar til ad byrtast fyrir Auglite Guds, til ad afma Syndina med Fornfæringu sialfs þijns, Ebr. 9. Þu hefur til þessa Giestabods kallad Faatæka, Vanada, Hallta og Blinda, Luc. 14. Þad er, oss aumar syndugar Manneskiur, hveria Syndinn og Diöfullinn svo illa hofdu wtleiked, ad fra Hvirfle og allt til Ylia, var þar ei nema Saar, Beniar og Þrote, Esa. 1. Enn eg Ottast nærsta miög, ad þeirra Lijkar finnist vor a medal, er St. Paall so hardlega aatelur, fyrer Osidsemi þeirra og Vanrækt a þessu himneska Bordhallde, þar hann seger til Corinthios: Þessu hroosa eg ecke, ad þier samannkomid ecke til hiñs Gooda, helldur til hinns Verra eins, 1. Cor. 11. Þvi giefur hann þeim eitt agiætt Bodord, hverninn þeir skulu tilreida sig under þessa heilögu Nautn i þessum Ordum: Hver Madur Proofe Sig Sialfur, Og Ete Svo Af Þessu Braude Og Drecke Af Þessum Kaleik. Og ecke einasta hefur hann þeim þad giefid, helldur og öllum Christnum Mönnum, er med þessum Hætte vilia kunngiora Dauda DRottenns, hvar fyr-

er:

fyrir eg vil wt af þessum H. Pistle tala um̃ þaa fierteguſtu Hlute, er heyra til Christilegs Undirbwnings þessarar haaleitu DRottinns Kvølldmaaltijdar.

Hinn goode Gud virdest ad styrkia oss hier til med Naad sijns Anda, i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

Ekkunnugt er þad oss ad vera, B. M. ad i Skijrniñi hefur Gud giort eiñ Naadar Saattmaala vid auma Menn, þar vier fædunst i Heim þenna dauder i Syndunum. Nu er oss þad vitaunlegt, ad vier daglega riwfum þeña Samning, ecke alleinasta af rasande Raade, helldur og optsiñis med Vilia og Asetninge; Eñ þvi vallda Guds diwpu Myskunar Ydur, ad vier eigum Kost a ad niju ad forlijka oss vid hañ, og til þess hefur hañ sett og iñstiftad þad H. Altarisins Sacramentum, i hvoriu vor Skijrnar Saattmaali verdur ad fullu endurnijadur, Guds Naad ad niju frambodinn sannydrande Mañe, og hañ aavallt Skulldbundinn til ad giora verduga Avoxtu Jdraniñi, Matt. 3. Þad vill DRottinn bodid hafa, er hann segier hiaa Luc. 22. Cap. Svo opt sem þier giorid þetta, drecked þad i mijna Minning; hvad Paulus i Textanum kallar, ad kuñgiora Dauda DRottiñs. Eñ hvilijk a þesse Miñing ad vera, B. M? Ecke so sem þegar vier dreckum Konungsins Skaal, edur Vina vorra og Naaunga, þad være ad giora lijtinn Greinarmun a Lijkama DRottiñs og añari Fædu; helldur eigum vier þess ad minnast med Hiartans Angre og Trega, ad vorar bloodugar Jllgiorder hafa Dijrdariñar Hertoga krossfestañ, ad oss verdi þær fyrer hañs Dauda og Forþienustu alldeilis tilgiefnar, ef vier ydrunst af Hiarta. So er nu Christileg Ydran, so ad segia, hin fyrsta Trappa, sem liggur upp ad þessu Haaborde DRottiñs. Eñ þess er ad giæta, Barn Guds, ad hun sie heit og alvarleg. Christur giorde ecke um̃ Grun, ad lijda fyrir Synder þijnar; þu att og ad laata þig af iñstu Hiartans Rootum angra þad, ad þu hafir hañ moodgad og moodgir daglega. Hier til heyrer naakvæm og grandgiæfileg Þecking Guds H. Bodorda: Hverninn maa hañ þeckia Syndina, sem ecke er Sannfroodur um̃ Guds Vilia? Eñ hversu maa saa ydrast Syndariñar, er hana ei þecker? Og saa sem ecke ydrast, hañ etur og dreckur Overdugur, enn hañ ed þad giorir, er sekur vid Holld og Blood DRottiñs, segir Paulus i upplesnum Texta. O hversu hrædileg mun þesse Sekt, Christner Menn! Vier kynnum ad leida oss i Hug, ad þeir, ed vijsvitande, Athugalaust og Overduger gaanga til Guds Bords, þeir væru ecke øllu miña seker i Auglite hiñs riettlaata Guds, enn þeir sem hañ krossfestu, þvi þeir hafa Christi Vitni þar um̃, ad þeir ecke vitad hafe hvad þeir giordu, Luc. 23. Enn þad maa hverium einum Christnum Mañi vera vitañlegt, ad Gud hefur sendt Son siñ i Heimiñ synduga Meñ Saaluhoolpna ad giøra, og ad hañ sialfur hefur giefid sitt Lijf wt fyrer sijna Saude, Joh. 10. Hveriu til Stadfestu hañ giefur oss sitt Holld ad eta og Blood ad drecka. Edur seged mier: Hvad er þad sem Paulus til Hebr. 10. kallar ad Foot-troda Guds Son? og ad hallda Saattmaalans Blood almennilegt? med hveriu vier erum endur-

 keypter.

keypter. Mun þad ecke stappa nærre þvi, sem hier stendur i Textanum? Ad Giora Ecke Greinarmun A Drottins Lijkama. Hvad er þad annad, enn ad hallda hann almeñilegañ? Enn Paulus seger, ad þeir ed þvilijkt giori, Ete og Drecke sialfum sier Doom, þad er, ad þeir giore sig eilijfrar Fyrerdæmingar seka, nema þeir rade Boot a slijku og ydrest af Hiarta. Komi þier þvi til Hugar, syndugur Madur, ad þu ecke hafir so verduglega geinged til Guds Bords, sem þad hefur byriad, þa orvænt þier ad sonnu ecke Guds Nadar, helldur ydrast, og lat þier til Hugar koma, ad bruka þessa hialpsamlegu Nautn, fyrr enn þu hefur lært ad reyna og proofa sialfann þig, svo sem byriar, þvi þu sier hvilijkann Hæska þu ert vidkominn, nær þu steidur vid Herranns Bord, nema þu gialder Varhuga vid. Drag þo ecke slijkt undann med Toomlæte og ødrum Uñsvisum; Þvi þu sem ert sañfærdur þar uñ i Hiarta þijnu, ad þu optlega hefur Onijtt þiñ Skijrnar-Sattmala, þier mætte til Hugar koma, sem flijotast og optast ad forlijka þig vid Gud i H. Altarisins Sacramento. Þar fyrer, þott enginn eige svo Ofroodur ad koma i þenna H. Stad, þa affakar þad hann ecke, ad hann hefur ei verid sier wt uñ Þeckingu Guds Bodorda og riettann Skilnig a sijnum Saluhialpar-Efnum; Þvi sa sem an Logmals syndgar, hañ mun an Logmals tapast, segir Paulus, Rom. 2. J Skijrniñi verdur oss uppalogd almeñileg Hlijdne Guds Bodorda. Uñ hana erum vier skylldüger, þa vier drogunst a Legg og gietum lært ad kuña nockra Grein Jlls og Goods. Sie þier þvi fyrst uñhugad, Christinn Madur, hvert þu ert Ungur eda Gamall, ad þu gaanger smasmuglega i giegnum oll Guds Bodord, med allri Athygli, rannsaka hvad i þeim er bodid edur bannad, hveriar Dygder i hvoriu eru bodnar, og hverier Lester edur Klæker þar eru bannader. Nockud af þessu er ad soñu giort i þeim Bookum, er hlijda til vors Barna Lærdooms, jafnvel þoott eg Oska villdi, ad þad væri nockud greinilegar brijnt fyrer Ungdoominum og Faafroodum, helldur eñ almeñilega gierist, svo þeir lærdu ad þeckia Edli og Hattalag Christilegra Dygda, hvar af Vanart og Oedle Glæpanna er audþeckt. Þeink og ecke, ad vondar Hugreñingar sieu ecke fordæmannlegar Synder. Til hvers seger Endurlausnarenn, Matth. 5. ad sa sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hañ hafi allareidu drygt Hoor med heñi i sijnu Hiarta? Hvar fyrer seger hañ: Sa sem reidest Broodur sijnum, sie Nads sekur? Þvi sagde hann vid Phariseana: Hvar fyrer hugsed þier so Jllt i ydrum Hiortum? Matth. 9. Drage eingenn sialfann sig a Talar, til þess er hinn alskigni Gud, Hiartnanna og Nijrnanna Rannsakare, Jer. 17. ad hann dæmir allt þvilijkt og fordæmir a oss, nema vier þess ydrunst af Hiarta eins vel sem Orda og Verka; Og hvad sem hañ hefur bañad ad giora og tala, þad hefur hann og bañad ad hugsa. Og uppa þad Ydraniñ kuñi ad nockru Leite ad sambiooda Stærd Synvariñar, þa athugum grandgiæfilega Mismun þeirra, epter þeirra Hattalage og Atburdum, Tilgange og Ordsokum, er oss dreou þar til; eñ enginñ kañ ad jaata edur ydrast riettilega þeirrar Syndar, er hañ þecker ecke Stærd hennar og Jllsku, og traudt kann Madurinn ad laata

af

af þeim Glæp, sem hann ecke veit hvøria Verkan hefur haft i sier, edur hvad sig hefur tildreiged ad drygia hann. Þar eru til Ovitannlegar Synder, sem skie annadhvort af þvi, ad Menn vita ecke hvad gioreſt, ſo ſem Paull, er hann ſagdeſt ei hafa vitad, ad þad var hiñ Ypparſte Kieñemadur til hvørs hann talade, P. G. 23. Edur Mooder þeirra Zebedei Sona, er ei viſse hvørs hun beidde, Matth. 20. Þær reiknar Gud ecke Endurfæddum Manne til Syndar, þvi engenn Fordæming er a þeim, ſem eru i Christo JEſu, Rom. 8. Enn þo med þvi moote, ad Vanvitſkann kome ecke af Aſetninge til ad ſyndga, ſo Menn vilie ecke læra Guds Vilia til þeſs, ad ei þurfe epter honum ad lifa; Lijkar þeſſum eru þær, er Meñ giora af raſande Raade, af Gleymſku, af Bradræde, ſo ſem þegar Petur hioo Eyrad af Malchus, Joh. 18. Þegar Læreſveinarner þraattudu uñ, hvør þeirra meſtur være, Marc. 9. Þegar þeir villdu kalla Elld af Himne, Luc. 9. Þeſſum Syndum er hiñ goode Gud og ſo Naadugur, þoott þær i ſialfum ſier ſtoorar ſieu, hvar uppa allſtadar Dæme eru; Enn oſs byriar grandgiæfelega ad taka Vara a Lijfernes Haattum vorum, og læra ad þeckia Breſte vora, annars mun Bradræded og Vangiætſlann ecke afbata meir þeſs haattar Synder, helldur enn Vanvitſkann hinar.

Nu eru þo Synder, ſem Meñ drygia þvert a moote Samvitſkuñe, og ad henne naudugre, hafande ad eingu Guds Bod fyrer einhvørs Tilgangs Saker. Þvilijkar Synder kunna ad verda ad ſtoorum Syndum, þoott þær ſieu ſmaar i ſialfum ſier; Og þad ſem ecke er Synd i ſialfu ſier, þad reiknaſt fyrer Synd, nær Menn ætla þad mune vera Gude a moote, enn giora þad ei ad ſijdur, þvi hann dæmer epter Aſetningenum, og ecke epter Vitsmununum. J Selſkap þeſſara Synda var Aaronis og Mariu, er þau mogludu i giegn Gude og Moyſe, Num. 12. David, þegar hann took Hwsfrw Uriæ Hetithers Frillutake, eñ ſloo Boonda heñar i Hel med Sverde Aмons Barna, 2. Sam. 11. Þeſſar Synder verda ei afþvegnar nema med heitum Ydrunar Taarum, þvi ſtoor Saar þurfa mikla Græðſlu; Enn hinn riettlaate Gud er vandur ad Virdingu ſinne, og lætur ei ad ſier hæda, Gal. 6. Þeſs er og ad giæta, Br. M. ad þær Synder, ſem oſs ydulega henda, þær reita hinn myſkunſama Gud nærſta miog til Reide, þvi þad mætte ſijnaſt, ad Meñ med ſoddañ Ogudlegu Athæfe giordu Leik til þeſs ad ſtyggia hañ. Oſs verda Syndernar med þvi Fororde tilgiefnar, ad vier leggium af vora Jllſku Breitne, laatum af Jllu og lærum Gott ad giora, Eſ. 1. Þvi ef vier æfum þañeñ Syndena, jafnvel þoott vier laatunſt ydraſt hennar, þa mætte virdaſt ad hin ſijdarſta Synd hefde forbroted Fyrergiefningu allra hiña, enn engenn veit hvørt hañ fær Toom til ad ydraſt heñar, edur hvørt Gud vill liena honum Ydran til Apturhvarfs (ſem Paulus ad Orde kiemſt, 2. Tim. 2.) er ſo leinge hefur giort Handverk af Syndeñe. Þar fyrer byriar øllum þeim, er til Guds Bords ganga, ad athuga, ad þær Synder er oſs henda epter þad, ad vier høfum lofad Gude Betrun Lijferniſins, þær eru þijngre og orka meire Hegningar enn hinar, er vier adur giordum, þviad i þeſſu Sacramenti verdur Skyrnar Saattmaaleñ endurnijadur, ſem adur er ſagt, og vier verdum ad niju Tryggrofar vid Gud,

nema vier af fremsta Megne leggium allt Kapp a ad hallda vor Sære. Vid þessum Syndum er flestøllum nockud hætt, jafnvel þeim sem ecke eru langt fra Guds Veige; og þær henda Guds Born a Stundum; eñ um þa vil eg ecke tala, sem eru so samdauna vordner Ranglætenu, ad þeir ecke þeckia Syndena fyrer Synd, þoott þeir vite ad Gud hafe bannad hana, þeir leidriettast ecke vid Guds Straff og Alogur, þeir taka Syndena i Forsvar, og vilia riettlæta hana, reidast Guds Þienurum edur og goodum Vinum sijnum, þa þeir atalder verda. Þeir elska Syndena ecke alleina a sialfum sier, helldur og samsinna þeim er hana giora, Rom. 1. Þad hender Guds Born, ad þad gooda sem þau vilia giora, þad giora þau ecke, Rom. 7. Enn þesser elska eckert Gott og hafa Gaman af Illu, bæde hia sialfum sier og ødrum, lockande adra til vondra Verka, og eru i þvi so sem nockurskonar Umbodsmeñ Fiandans, þvi þad er hanns Embætte. Þessa nefner St. Paull, 1. Tim. 4. Forbrendar Samvitskur, og munu þeir verda iller Apturhvarfs, nema þeim sie i Tijma Grædslu leitad. Nu er engeñ Efe a þvi, ad soddann Mañeskiur finnast i Guds Kyrkiu, fyrer þvi verd eg hier um ad tala, þvi þa er Gudleysed komed a hina efstu Troppu, og gietur varla hærra stijged, og engenn Hlutur er þeim vijsare enn eilijft Helvijtis Baal, nema þeir late sig leidrietta af Guds Anda. Og er þad ecke noog, Christenn Madur, ad þu lærer ad þeckia Syndena af Yfirvegan Guds Bodorda, edur hennar Hattalag, af þvi sem nu er sagt. Þu att þar ad auke ad rañsaka þitt eiged Lijferne, og ganga ytarlega i Riett vid sialfann þig. Þad var Olucka vorra Fyrstu Forelldra, ad þau lærdu ad þeckia hid Illa, Gen. 3. Enn Gud er so hagur ad hann kann ad giora gooda Hlute af vondum, og þvi kañ Þecking Illskuñar ad gagna oss til Saluhialpar þo meir a sialfum oss enn a ødrum. Þad er ecke Mañvant ad þeckia hvad illt er i añars Fare, eñ sa sem dæmer sialfañ sig, hañ verdur ecke af DRottne dæmdur; Þad skiedur, nær Menn bera Lijferne sitt, Ord, Giorder og Hugrenningar samann vid Guds Logmal, enn þar hlijfest margur vid, sumer þess vegna, ad þeir ætla, ad þar mune ecke so skarprar Rannsoknar vid þurfa, adrer hiñs, ad þeir kvijda vid ad ysa hin fornu Sarenn, þvi þau svijda magnlega, nær þau rannsøkud eru med Logmalsins Brodde, giætande ecke ad þvi, ad soddann verkar þo epter a fridsamlegañ Avoxt Riettlætesins, Hebr. 12. Fara Meñ þvi alla Hlute sier til Umbootar, ecke einasta fyrer ødrum, hvad ecke er so ad la, helldur og fyrer sialfum sier og Doome sinnar eigenn Samvitsku, so ad hann sem langt er fra þvi ad elska Gud umfram alla Hlute, hann kallar sig vel hafa giort og afloked þeirre Skylldu, ef hann les Bæn sijna Kvolld og Morgna, edur syngur honum eiñ Psalm til Dijrdar. Sa sem er giarn a Bloot og Svardaga, nefner þad Hreyste-Yrde. Hann sem afræker Guds Hvijldardaga, nefner þad Astundan og Ydiuseme. Ef Menn formæla ecke Fodur og Moodur, jafnvel þo þeir sieu þeim Ohlijdnuger i øllu þvi sem þeir þora, og ef Forelldrarner klæda Børnenn og fæda, þo þau lijde ad þau alest upp i øllu Reydeleyse, og jafnvel sumer i Skømum og Odigdum, þa þykiast Meñ hafa giort mikeñ Part Skylldu siñar; Sa sem reidenn er og heiptrækur, hann

kallar

kallar þad Hugprijde. Hinn Lauslaate vill laata Ofkickanlega Umgeingne heita Mañudleika og Kurteyse. Hinn Agiarne nefner sig framsijnann og forsiaalann. Þegar Menn ecke bera opeñberlega falskañ Vitnesburd edur sveria Lijgeuppaa sinn Naaunga, þykiast Menn vera skillder vid hid Attunda Bodord, og kann skie sumer hrædest þo meir Doomarann enn Gud, enn ecke eru Menn so liwfer aa þad alltijd ad bera Sañleikanum Vitne. Litla Smaa-Skreitne edur Svigurmæle um siñ Naaunga, Lausmælgi, Roogburd aa millum goodra Vina, edur illt Umtal i Hofdingianna Eyru, þad reikna Menn sumer ad eingu, eñ sumer ad hversdags Brestum, sem Gud mune audvelldlega stijga fram yfir, þoott Menn ydrest þess ecke miøg, edur æfe þad ad Gamne sier, epter þad þeir hafa feinged Fyrergiefning Syndanna; athugande ei þad, ad þvilijkt er nærst til ad forðæma Syndarañ, sem fyrer litla edur einga Synd er halldeð. Þvi segier Lausnarenn: Saa sem uppleyser eitt af þessum miñstu Bodordum, hañ skal miñstur kallast i Himnarijke, Matth. 5. Þad er, hañ skal þar alldrei iñkoma. Þañeñ byggia Meñ Odygdunum, Andskotans Dætrum, Heima-Jordena, sem er Hiartad, af hvoriu framkoma vondar Hugsaner, Mannslog, Hoordoomur, Frillulijfe, Þioofnadur, Fals-Vitne, Gudlastaner, Matth. 15. Eñ reka Dygdirnar, edur riettara ad segia, Mynder Dygdanna i Hiaaleigurnar, sem eru Læte vor og utvortes Hegdan, til þess ad forsvara Heimagardeñ, og byrtast hvor fyrer ødrum: Eñ Meñ giæta ecke ad þvi, ad hañ sem Augad hefr skapad, Ps. 94. hann sier hvad i Myrkrunum er huled, þvi skylldu Menn þa vilia fegra sitt Maal fyrer honum? Þvi dylia Meñ Siwkdoomenn fyrer Læknaranum, þvi striwka Menn Purpura Litnum yfir hin fwnu Saarenn? Þad heiter ad færa Christ i eina Purpura Kaapu, ad dylia fyrer honum Meinsemder sijnar, enn ætlast þo til Lækningar af honum, eins og þeir lietu sem hann Konungur være, enn hielldu hann þo fyrer Illrædis-Mann. Guds Sonur maa eingann Hooru Farfa lijda aa sinne Brwde, ecke meir enn Gud villde laata bera Skiækiu edur Hunds-Verd iñ i sinn Helgedoom, Devt. 23. Þar fyrer sie þad Aliktan þessa mijns Maals, ad þegar þu, Christeñ Saala, ætlar ad trwlofast þijnum Brwdguma i H. Altaresins Sacramento, hvar þu aatt ad verda einn Ande med honum, og Limur hanns Lijkama, 1. Cor. 6. Þa laat alla Hræsne fiærre vera. Rañsaka þiñ Lifnad, sem aadur er sagt, ber ecker i Bæteflaaka fyrer þier hiaa honum, sem veit hvad med Mannenum bijr, Joh. 2. Skignst epter hvad þier hefur framfared aa Guds Vegi, sijdann þu seinast lofader þijnum Frelsara Trygdum, hvort þu hefur tamed þitt illfwsa Holld um nockurn Lost er aa þig strijdt hefur, og hvoria Atburde þu hafst hefur til ad Krossfesta hiñ gamla Mañeñ, Rom. 6. Yfirvega hvorsu stoor HErra þad er, sem þu moodgad hefur, ad hann hefur Valld til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld, Matth. 10. Og þo er hañ so þoleñmoodur og goodgiarn, ad hañ hefur sparad þig og laated allt epter þier midt i Syndunum, og kañskie valla feinged eitt Þacklætis Ord þar fyrer af Munne þijnum, hvorn þu hefur til alls añars brwkad; Hugleid þeirra Dæme, sem ecke hafa meir syndgad eñ þu, hvorsu Gud hefur hegnt aa þeim Ovirdingar siñar. Laat so þijna Illsku

Keña þier, og þitt Fraahvarf giora þig vitrañ. Þecktu og hvörsu illt og biturt þad er, ad þu hefur yfirgiefed DRottiñ Gud þiñ, Jer. 2. og þegar þu þanveñ giörer, þa gietur þu varla fared aa mis vid þad, ad Hiarta þitt brædne i þier so sem añad Vax, af Jhugan Guds Naadar, af Þeckingu Syndanna, af Efterbid Helvijtes Pijsla, sem þier eru bwnar, nema þu ydrest af Hiarta. Enn vilie ecke hier med morkast, þa laat samt ecke af ad bidia Gud um̃ sinn H. Anda, sa ed skape hreint Hiarta i þier, og giefe þier nijañ vissann Anda, Ps. 51. hvors hann maa þier ecke synia vegna siña Fyrerheita, þvi ef Madurenn stood upp aa Naattar-Þele, til ad faa Vin sijnum þad hann vidþurfte, Luc. 11. Ef hinn Raanglaate Doomare, sem hvorke Ottadest Gud nie Menn, ef hañ liet skipast vid Þraa-Beidne Eckiunnar, Luc. 18. Ef vier, sem vonder erum, kunnum ad giefa Börnum vorum goodar Gaafur, hvad miklu framar mun vor himneske Fader giefa þeim H. Anda sem hañ þar um̃ bidia, Luc. 11. Þetta stendur æfinnlega stødugt, þvi hann er trwr, sialfum sier kann hann ecke ad neita, 2. Tim. 2. Þess heitara sem þetta Angur er, þess þægra er þad Gude, allt fram̃ til þess ad þu taker til ad efast um̃ Guds Naad; enn vid þvi er ecke hætt, hann mun fliootur verda til ad laata Trwna lifna, nær þu ert so aa þig komeñ, og sijna þier Krapt sijns Sonar Forþienustu, med öllum hañs Velgiörningum: Þa heiter þad so: Sæler eru þeir sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þvi þeir munu sadder verda, Matth. 5.

Þar fyrer, Guds Barn, þu hvors Hiarta hañs Ande hefur sundurmared med Þeckingu Syndareñar og Guds Giædsku, þu skallt þess fulloruggur vera, ad hvar sem ad Syndenn yfirgnæfer, þar yfirgnæfer Naadenn miklu framar, Rom. 5. Fyrer þvi, nær þu stendur vid DRottiñs Bord raudur af Ovirdingu vegna þiñna Synda, eins og Ephraim, Jer. 31. Þa lijt Trwarennar Augum aa þad saklausa Guds Lamb, sem burt hefur bored Heimsins Synder, Joh. 1. Hvorn Gud hefur þar fyrer sett til Naadar-Stools fyrer hañs Blood, Rom. 3. Hañ er Forlijkun ecke einasta fyrer þeirra Synder, er lifdu aa hañs Dögum, helldur allrar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 2. Þar fyrer er hañ og fyrer þijnar, hvorsu miög sem þu ert hinum verstu Lijtum hladenn, þvi Harmþrwngenn og Sundurknosadann Anda mun hañ ecke fyrerlijta, Ps. 51. Og til Stadfestu þar um̃, giefur hañ þier i H. Altarisins Sacramente þañ sama Lijkama sem broteñ var fyrer þig, segier Paall hier i Textanum. Þad skiede, þegar þijnar Synder er hañ bar uppaa Tried, þegar þær mordu hañs Allraheilagasta Lijkama i sundur aa Krossens Gaalga, þegar Ogudlegra Manna Hendur nidurbrutu þad Mustered, er hañ sialfur uppbygde aptur aa Þridia Deige, Joh. 2. þier til Riettlætes. Hafe nu hin eilijfa Giædska sparad þig midt i þeim Syndunum sem krossfestu hañ, þvi mun hañ þa ecke naadugur vera, þar þu ert aa Veigenum ad hversa aptur fraa þeim? Enn þoott ad Ydraneñ og Trweñ sieu fullnoogar til ad ödlast Kvittun Syndaña hiaa Gude, þa kañ þo hvorug þeirra ad standast fyrer utañ nya Hlijdne, þvi nema so sie, ad nockur hafe fastlegg aasett ad sperna vid þeim Glæpum, hvorra Minning ad hönum vard so beisk i Ydranenne

raneñe, þa œ þad heima hiaa þønum, er Petur seger, 2. Pist. 2. Ef ad þeir, epter þad þeir hafa umflwid Saurgänir Heimsins, fyrer Þeckingu DRottins vors JEsu Christi, flækiast'i þeim aptur og verda sigrader, þa eru þeirra hin sijdare Kior verre hinum fyrri, þvi betra hefde heim verid alldrei ad hafa þeckt Veg Riettlætisins, eñ ad þecktum honum, ad hverfa fraa þvi helga Bodorde, sem þeim er i Hendur feinged. Enn þad hender þaa, sem seger i hinum saña Ords-Hætte, ad Hunduriñ gengur aptur til Spijuñar, og þvegèd Svijn vellter sier i hinum sama Saur. Nu fyrer þvi, ad hier er ecke vid ad dyliast, enn Syndumspillt Nattura er eitt Otamed Dijr, þa er raadlegt ad taka til ad leggia vid hana Beitsled, nockru aadur eñ Meñ fara ad forlijka sig vid Gud i Sacramentinu, nema Meñ hafe þad aadur giort laangvaranlega, sem þo mun sialldfeinged: Eingenn vond Tilhneiging, sem ecke er ad nockru Leite deydd, maa fylgia oss, Christner Menn, til þessa Bords. Ef Syndeñ lifer i oss, þa erum vier dauder i heñe, enn engenn giefur daudum Manni ad eta. Þetta er andleg Fæda, og þvi hlijtur saa andlegu Lijfi ad lifa, er hana medtaka skal. Brauded og Vijned medtaka aller og þar med Guds Lijkama; Eñ þar hiaa er oñur Nautn, um hveria DRotteñ talar, Joh. 6. Saa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecki Daudann smacka ad Eilijfu. Heñar verda þeir einer Hluttakande, er sig hafa verduglega tilreidt, hun skiedur opt fyrer utañ Sacramented, enn þo aa hun i Sacramentinu hellst ad skie; Vilier þu heñar niootandi verda, þa siaa til ad þu framkomer skrijddur Brwdkaups Klæde, Matth. 22. Añars verdur ecke af Trwlofuniñe vid þann Fegursta medal Mañanna Sona, Ps. 45. Þad er ei noog ad hafa um Stundarsaker wthreinsad Hiartad med Sooplimum Jdranareñar; helldur byriar strax ad safna i þad hinum bestu Dygdum: So ef hiñ Ohreine Ande kañ aptur ad hverfa med Sio ødrum sier verre, ad hañ fiñe þad þa ecki toomt, og verde so þitt sijdara argara hinu fyrra, Luc. 11. Veit eg ad þetta er eiñ torvelldur Hlutur, þvi þad er sw Barœtta mille Holldsins og Andans, er gyrnest hvert i mooti ødru, Gal. 5. Eñ hvad skulu Menn segia? Þar sem enginn Barœtta er, þar er engiñ Sigurviñing. Þar fyrer saa sem ætlar sier ad uppbyria nijann Lifnad, hañ legge mest Kapp aa, ad brioota þær Syrnder, sem hann er mest tilhneigdur. Þier er ecke Okuñugt, ef þu leggur nockurn Hug aa þitt Maal, af hverium Hlutum þu mest verdur lockadur til ad giora Jllt, varast þaa hina somu, þoott ei sieu þeir vonder i sialfum sier. Eingiñ Hertoge strijder lenge eiñsamann, hversu vitur edur volldugur sem hañ er; Og so eru Lesterner, ef þeir eru einer um sig, þa er hægra ad fyrerkoma þeim. Um fram alla Hlute, þa laat Gud siaa, ad þier sie Alvara ad lifa vel, og þa er hañs Adstod vijs, sem þier dregur Þusundsinnum meir eñ aller þijner Atburder, þvi aan miin megned þier eckert, sagde JEsus vid Lærisveinana, Joh. 15. Saa sem ecke hatar Syndina, hann gengur Overdugur til Guds Bords, eñ saa sem hana hatar, hañ hefur alvarlegañ Asetning til ad laata af heñi, þvi engiñ vill Umgengne hafa med þeim sem hann ad Hatre hefur. Laat Gud fiña þetta hiaa þier, nær hann rañsakar Hiarta þitt, og svijk ei sialfañ þig, hann gietur þu ecki svik-
ed

ed. Eg veit þad er torvelldt ad lꜳta allt ꜳ moote Hollde og Bloode, enn hafer þu nockurn Tijma af Hiarta ydrast og fundid til Guds Reide og Samvitskunnar Veike; hafe þijnar Synder giort þier nockurn Tijma Helvijte heitt: Þa rꜳdgast um̃ vid siꜳlfann þig, nær þu freistadur verdur af einhverre Gyrnd, hvert þu eger ad vinna þad til skam̃viñs Munadar, ad þola strax ꜳ epter slijka Kvøl. Mundi David hafa viliad leika sier ad sømu Synd, epter þad hann hafde so lenge tꜳrast fyrer Gude? Munde Petur ecke helldur hafa i Daudann geinged, eñ ad afneita Christo, helldur eñ ad lijda ad niju Atølur Samvitsku siñar, þegar hañ gieck wt og griet beisklega? Matth. 26. Ætla þier og ecke þad, ad lꜳta epter þier eiñ Brest, enn þioona Gudi i hinu, þvi sꜳ sem brijtur eitt Bodordid, hann er i øllum sekur, seger Postulenn, Jac. 4. Einginn af þijnum Dygdum kann ad standast fyrer Guds Riettlætis Doomi, þvi munu þær þa riettlæta Glæpina? Snijd þvi allt Ogudlegt Athæfi burtu, so mikid sem þu fær orkad, eñ þar sem þijner Kraptar dvijna, þa tekur Christi Forþienusta vid, Meina og ecke þad sie noog, ad þu nockra Stund gꜳnger ꜳ Guds Vege, þvi þeim sem er trwr allt til Daudans, mun eg giefa Coronu Lijfsins, seger DRottenn i Opinberingar Bookiñe, 2. Cap. Og eg vil enn framar segia: Ad þad vill helldur fordæma þig, eñ riettlæta, ad þu hefur einhvern Tijma Gudi þioonad, ef þu hverfur þar frꜳ aptur, þvi þad er Teikn til þess, ad Gud hefur lient þier so mikla Krapta, ad þu gietur geinged hinn rietta Veg, sem til Lijfsins liggur, verdur so Skulldenn hiꜳ þier, eñ ei hiꜳ Gudi. Um̃fram̃ alla Hlute, siꜳ til ad þu Ottest hann og elsker, þa munt þu engañ Sꜳttmꜳla giora vid hanns Ovine, sem eru Hollded, Heimurenn og Diöfullenn, helldur munu allar Christilegar Dygder siꜳlfkrafa spretta i Akre Hiarta þijns, eins og Kornid vex fyrer utann Mannsins Omak, þa Sædinu er i Jordina kastad; Og þad er sꜳ einaste og beinaste Vegur til ad lifa gudrækilega, og sꜳ sem ꜳ honum er, fer alldrei villur Vegar. Nu hef eg einfalldlega sagt hid hellsta, er þeim byriar ad hugleida, sem vilia verduglega til Guds Bords gꜳnga, enn eg hefe sagt þad Børnum og fꜳfroodum Mønnum: Hina sem vijsare eru og kuña Guds Veg, þꜳ næger ad minna ꜳ Christi Ord, er hann sagde, Luc. 12. Sꜳ Þioon er veit sijns Herra Vilia og giorer hañ ecke, hañ mun mørgum Høggum sleigiñ verda. Eñ þu, sem fornfærdur ert fyrer vorra Synda Skulld, HErra JEsu Christe, styrk þu oss bæde i þessu og øllu ødru Verki Sꜳluhiꜳlpar vorrar. Bænheyr þad vor Frelsare; Hveriunı med Fødur og heiløgum Anda sie Magt og Vellde, Lof, Heidur og Prijs um̃ Allder, Amen.

# A Føstudagenn Lꜳnga.

## Exordium.

ENgre Skepnu sinne hefur Guds Giædska meira veitt enn syndugum Manni, og varla er þo nockur tregare til ad þeckia hanns Giædsku. Þegar Adam hafde eckert ꜳ moote Gude giort, og ecke af honum þeged nema Skøpunena, og

so

so Valld yfer hinum ødrum Skiepnum a Jordunne, þa er lijklegt ad enginn Hlutur hafi hønum Jñdælli verid, enn ad lofa siñ Skapara, og gledia sig i Undran hañs Dasemdarverka; Eñ sijdann Gud hønum meira veitte i Fyrergiefningu Syndanna, og Fyrerheite þess blessada Kvinnunnar Sædis, Gen. 3. Þa eru Adams Nidiar bitner fra þeim Hlutum sem heyra til Guds Dijrdar. Heilager Englar, sem frami fyrer hønum standa, hafa einasta hinn dijrdlega Skapnad og Sælu-Vist med Gude af hanns Hende þeged. Guds Sonur hefur Abrahams Sæde, enn ecki þa, uppa sig tekid, Hebr. 2. Samt eru þeir þioonustusamer Andar, Hebr. 1. Enn Madurenn, hvern Gud hefur skapad, Skapadann Endurleyst, Endurleystann Endurgietid, Endurgietinn, med JEsu Hollde og Bloode mettad og dryckiad, og upplijst med sijnum Astgiøfum, hønum finnst Lijtid þar til, og er nærsta Toomlaatur i sinni Guds Þioonustu. Englar komu og þioonudu Christo i hanns Manndoome, Matth. 4. Eñ hañs Foolk villde ecke þioona hønum; Engillinn bodade hanns Gietnad, þeir prijsudu hañs Fædingu, Luc. 1. og 4. Engillinn kom af Himni og styrkti hann i Kvølinne, Luc. 22. Enn hañs Eginn giørdu hanns Saalu hryggva allt i Daudann. Englarner bodudu hañs Upprisu hia Grøfinne, enn hanns Foolk og Prestarner keyptu Liwgvotta til ad mootsegia heñi, Matth. 28. Øll Skiepnann mænir med wtriettu Hofdi epter Guds Barna Auglijsingu, seger Paulus, Rom. 8. og hun stynur til samans, og er til samans so sem i Barn-Burde. Fyrer vora Skulld er Jordinn bølvud; Fyrer vora Skulld ma hun Þyrna og Þistla bera, Gen. 3. Fyrer vora Skulld er hun Þrældoominum undirokud; Enn i øllu þessu auglijser hun þo Dijrd sijns Skapara, hvern Madurinn vanvirder med Oþacklæte og vondum Verkum. Ef ad þesser þegdu, þa mundu Steinarner bradlega hroopa, sagde Frelsareñ vid Gydinga, þa Børninn swngu Hosianna, Matth. 21. O Herra Gud! Hofdu Steinarner Ordsøk til ad hroopa þa Christur Innreid til Jerusalem? Hvad hofdu þeir ecki, þegar hann var af Jerusalem so sem Bolvan wtrekinn? Ef daudir Hlutir maattu vakna vid, þa Lijfsins HErra kom til siñar Arfleifdar, hvad maattu þeir ecke þegar Lijfid doo a Krossinum? Skylldu Musterisins Vegger hafa giefid Hliood af sier, hefdu Børniñ þagad? Hvad var þa øll Verølldinn ecki skylldug ad giøra, þar aller løstudu, hæddu og brijxludu, og a Krossins Gaalga negldu hennar Skapara? Þetta hroopar øll Naatturann fyrir Oþacklaatu og Ogudlegu Mannkyne a Pijslar-Dege allrar Veralldarinnar Lausnara; Þvi samþijnist hun sijnum Skapara i hanns Pijnu, so sem ecke hefde hun Rænu a ad giøra sijns Embættis Skylldu, þar Manneskiann var so affinna, ad hun aflijfade sinn Lijfgiafara. Þessi Naatturunnar Umbrot hefi eg aasett i Dag fyrer ydrum Kiærleika ad yfervega. Og vilium vier þar fyrer, i þetta Sinn, hugleida þau sierlegustu Furdu-Verk, sem ad skiedu i Pijnu vors Endurlausnara, med þeim Lærdoomum, sem vier oss til Huggunar og Aminningar taka meigum þar af.

Styrk oss til þessa Verks O Gud! J JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingenn.

HAr Urdu Myrkur Yfer Alla Jordina, Og Soolinn Misti Sijna Byrtu; seger i Textanum. Hvert þesse Formyrkvan hafi einasta skied i Gydinga Lande, edur yfer allann Heiminñ, vil eg i þetta Sinn ecke fa mier til Orda. Vier vilium alleinasta færa oss i Nyt þetta Dauðsemdarverk, til Gudrækilegrar Umþenkingar, vitandi ad þetta, so vel sem aller Guds Giorningar, eru skieder oss til Lærdooms. Hversu mætti hid blessada Heimsins Lioos lijsa Monnunum, þar Mañaña Endurlausnari var kvalinn, og þad skiæra Lioos, sem upplijser alla Menn, sem koma i þeñañ Heim, Joh. 1. took undir ad gaanga? Sool Riettlætisins, Mal. 4. var sinni Undirgaungu nærri, þar Daudans Skugga took til ad sla yfer þau Allra Helgustu Augu, sem ad eru Þusundsinnum skiærare enn Soolinn, Syr. 23. þvi var þess oll Von, ad hin nattuurlega skamadist sijn ad lijsa. Þegar Meñ sia eiñ vidurstyggilegañ Hlut, sm allir blygdast vid Augunum ad lijta, þa snwa Meñ sier undañ, edur jafnvel byrgia fyrir Augu sier. Soolina kalla spaker Meñ Auga Heimsins; Hun hefur alldrei so blygdunarlaust Verk yfirskinid sem þetta, ad gudlauser Heidingiar og hardsvijrader Gydingar tooku Konung Dijrdariñar af Lijfi, þar sialft Lijfid var aflijfad, þar Daudans Daudi maatte Dauda deya, Os. 13. þar Dagurinn vard ad Noottu Myrkraña Verka, þvi byrger Naatturañ fyrir Augu sier, ad hun ei skyllde horfa a, ad Naatturuñar Herra væri þañiñ af Dogum raadiñ. I mikilli Sorg og Harmkvælum plogudu Judar ad byrgia sijnar Asioonur. David gieck med huldu Hofde yfer um Lækiñ Kedron, 2. Sam. 15. So seger Micheas 3. Cap. Siaaendurner munu til Skamar verda, og Spaasagnararner blygdast, og þeir munu aller byrgia sijnar Asioonur, þvi þar er ei Andsvar fra DRottni. Hier byrgir Himiniñ sitt Andlit, og þolir þar ecke yfir, ad hañ, sem uppfyller bæde Himin og Jord, 1. K. B. 8. Hañ, i hvers Auglite Himnaña Himnar ecki eru hreiner, Job. 15. Ja, hvers Haasæti ad Himiniñ er, Es. 66. Hañ skuli a siñi Footskor einum Madki og ecki Mañi lijkur verda, Ps. 22. Formyrkvun Soolariñar ordsakast þar af (epter þvi sem hinir Vijsu segia) ad Tunglid geingur a mille Soolariñar og Jardariñar. Þo skiedi þad ecki i þessari Formyrkvan, þar Tunglid var i sinni Fyllingu, hvar fyrir hun var a moote Naatturuñi: Þvi giefur þetta mier Ordsok til ad þenkia þar uñ, ad vorar daudlegar Illgiorder settu sig a mille Christi Mañdooms i Þijnuñi, og þess blijda Auglitis Fodursins, hver ad er Sool þeirrar himnesku Jerusalem, Op. B. 21. so ad Geislar hañs fodurlegrar Elsku nadu ecke ad skijna i giegnum þær, yfer þañ Elskulegasta Guds, og sw Velþocknan sem hañ hefur i sijnum eingietna Syni, Matth. 3. umhverfdist (ef so mætte ad Orde komast) i hiñ stoora Byrdar-Þrwnga hañs Neide, hvor ed kvalde Jesu blessadañ Lijkama og Saal allt til Daudans. Sia hier, Christiñ Madur, þañ breñheita Kiærleika lifanda Guds, sem hañ hefur elskad þig med, þegar þu varst hañs Ovinur, Rom. 5. Er ecki þetta skied til þess, ad þijnar Syndir ecki adskilie þiñ Gud og þig? Es. 59. Og þegar ad Skuggi Myrkraña Verka, og hinir fwlu Dampar þiña

Ill-

Illgiørda og Bodorda-Brota, stijga upp i Himeneñ fyrer hiñ riettlaata Doomara, ad Christur med siñe Forþienustu afmææ þær þa, so sem annad Sky, Es. 44. og kaste þeim i Haffins Diwp, so þeirra ecke ad eilijfu minnst verde, Mich. 7. Um þessa Formyrkvan spaaer Amos, i 8. C. aa þeñañ Haatt: A þeim Tijma vil eg laata Soolena undergaanga um Middeige, og allt Landed myrkt verda aa Deigenum. Minn HErra JEsu! Þvi munde ecke þad blessada Lioos Veralldareñar iñebyrgia siñ Liooma, þar Lioome Fødur-sins Dijrdar og Jmynd hañs Guddoomlegrar Persoonu tæmde sialfañ sig, so sem Paulus ad Orde kiemst, Phil. 2. Og Guddoomureñ (so ad segia) hulde sitt Auglit fyrer Mañdoomenum, þegar Christur leid? Þvi skyllde ecke Landed myrkt verda? Þegar Lijf-sins-Trie, hvørs Blød ad þiena til Heidingiaña Lækningar, Openb. 22. var af heideña Manna myskuñarlausum Høndum upprætt af Lande lifande Manna. Epter þad mikla Myrkur, sem skiede Fordum i Ægyptalande, Exod. 10. þa fylgde Jsraels Sona Frelsun og Utleidsla af þvi Þrældooms-Hwsenu, enn þessum Myrkrum hefur fylgt eitt eilijft Frelse fraa Syndarennar Þrældoome. Epter Myrkurenn i Ægyptalande kom Slaatrun Paaskalambsins, Exod. 12. Eñ i þessum Myrkrum verdur þad saña Paaska-Lamb slaatrad aa Krossens Altare, sem ber allar Veralldareñar Synder, Joh. 1. Gyd-ingar høfdu beded Christum um Teikn af Himne, Luc. 11. Siaa, hier er eitt Teikn, sem skied er i Augum allrar Veralldarennar. Hvilijkur mun hann vera i Dijrdeñe, sem so er kroptugur i Pijnunne? Hvør mun hann vera lifande, sem er so volldugur deyande? Hvad øflugur mun hann drottnande, er so drottnar yfir hinum miklu Høfudskiepnum i Mynd eins Þioons lijdande? J Exod. B. 10. C. skipade Drotteñ Gud Moysi ad upp-rietta sijna Hønd til Himens, ad þar yrde Myrkur yfir allt Landed, og þar vard Myrkur og Þoka i Ægyptalande um Þriaa Daga, so eiñ Madur saa ecke sinn Broodur, enn øll-um Jsraels Sonum var lioost i þeirra Hybijlum: Eñ siaaed! Hier er meire eñ Moyses, hier er JEsus Sonur Guds lifanda; Hann wtbreider baadar sijnar Hendur aa moote Himnum aa Krossens Trie: Hier verdur Myrkur yfir allt Landed um þriaar Stunder, eñ i þessu Myrkre hefur øllum andlegum Jsraels Sonum uppruñed eitt skiært og sañar-legt Lioos, so einn Brooder þarf ei ødrum ad kienna, helldur verda þeir aller af Gude lær-der, Jer. 31. Og aller þeir ed aa JEsum Christum trwa, hvør ed gaf sitt Lijf wt fyrer sij-na Brædur, þeckia hvør añañ fyrer Systur og Brædur, og eru eitt Jnnbyrdis, so sem hann og Faderenn eru eitt, Joh. 17. O HErra Gud! hvad skal eg hier til segia? Eg vil brwka þad sama Orda Tiltæke sem Jeremias i 2. Cap. brwkar yfir Syndum Jsraels Foolks, segiande: Himenenn skyllde grwa þar yfir, hrædast og skielfast mikelega. Hier sijnist mier ad Himeniñ og Himnaña Kraptar giøre af Alvøru þessa Befalning DRott-enns. Enn þu, Christeñ Madur, sem ert hin veikasta Boola af Floode þessarar Ver-alldar, kiemur þier ecke til Hugar, ad byrgia þitt Andlit, sem er fullt af Ovirdingu, þegar þu heyrer ad Soolenn, sem daglega upprennur yfir þier rangláatum, Matth. 5. hun sortnar i þijns Skapara herfeleguѕtu Nidurlægingu? Veitst þu ecke, hvad St. Paull

ſegier? Eph. 5. Þier vorud Fordum Myrkur, eñ nu erud Þier Lioos i DRottne, gaanged ſo ſem Lioosſens Børn. J þeſſum miklu Myrkrum, ſem þu heyrer i Dag vera talad uṁ, hefur Leoned af Kyne Juda, Openb. 5. Myrkranna Hoſdingia ſigrad og Herleiding- una ad Herfange teked, Eph. 4. og þig, ſem eilijflega átter ad kveliaſt i yſtſtu Myrk- rum med Ope og Tañagnijſtran, þrifed wt af þeirre Grifiunne, hvar eckert Vatn var iñe, Zach. 9. Paulus ſkrifade þeſſe Ord til þeirra i Epheſo, ſem af Heidingium hoſdu chriſtner giorſt. Þu ert og chriſtenn af Heidingium komeñ, hvørier af Gude eckert viſſu. Seig mier: Hefur þu aflagt Verkeñ Myrkranna, ſijdañ þu heyrder JEſum á Kroſſeñ fyrer þig uppheingdann? Þegar þu les, ad þu ſkuler Ottaſt og elſka Gud, enn fremur þo án Umþeinkingar þad hønum verſt lijkar, ſem er ſyndugt Athæfe, eru ecke þad Myrk- rañа Verk? Þegar þu hyxar illt i þijnu Hiarta og fremur allar Odáder under Skyne Meinleyſeſins og Gudhrædſlunnar, enn veitſt þo ad hann ſier hvad i Myrkrunum er huled, Syr. 23. heiter þad ecke, ad vilia blinda hann, ſem Augad hefur ſkapad? Þa þu ſier eiñ Veſæling Naud lijda, ſem eins miked færde iñ i Heimeñ og þu, og allt eins miked munt i burtu bera, enn þu byrger þijn Augu fyrer hønum, og ſtijngur þau helldur wt, eñ ad þu ſkuler ſiá Aumur á hønum, er þa ecke æred myrkt fyrer Augum þier? Þegar ein- um geingur i Vil, og hanns Lucka er þier þo engenn Afdráttur, enn þitt Hiarta gremſt yfir þvi, og þu ert Ráangeygdur af hañs Velgengne, munt þu þa, fyrer Myrkre þinnar Øfundar, gieta ratad þann Veg, ſem Guds Børn feta eiga inn til Lijfſins? Þegar þu elſkar þijn eigenn Lijte, og Biálkenn i þijnu Auga ſkygger á alla þijna Klæke, enn Flijſ- enn i Náungans Auga er þier ávallt fyrer Sioonum, Matth. 7. Er þad ecke Svart- nætte Eigenn-Þoottans? Þegar einhvør af mañlegum Veikleika giører edur talar þier nockud á moote, enn þu ſieſt ecke fyrer, jafnvel ad voga þinne eigenn Velferd hønum til Olucku, mun þa ecke Myrkur Foolſkunnar apturbyrgia þijn Augu, ſo þau gáe ecke ad, ad ſkaña Stund verde Hønd Høgge ſeigenn? Þegar Satan hefur þig uppá eitt ofur- hátt Fiall, og ſijner þier øll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd, Matth. 4. Enn þu veitſt upp yfir þier ſtendur DRottenn Gud þinn, ſem þu alleina átt ad tilbidia, munu þa ecke reña á þig Tvær Grijmur, hvørium helldr þu eiger ad þioona, Gude edur Mam- on? Ecke munu þeir aller vera, ſem med goodre Samvitſku hrooſa kuñe, ad ecke hafe vo- rded myrkt fyrer Augum ſier i þvilijku Tilfelle. Þegar dæma á mille Broodur og Broodur, á millum Bloods og Bloods, eñ hiñ vollduge ber Fie i Doomeñ, eda Ottenn kvelur, eda Vináttañ kytlar þa Hønd, ſem á Sverdenu helldur; Mun þa ei Andſkoteñ ſetia Brillur uppá Riettarens Naſer, ſo hann ecke ſáe rañad þann Høggſtad, ſem hañ ætte? Villdum vier nu renna vorum Augum frá Giálijfi Veralldar þeſſarar uṁ Stundar-Saker, og bera þeſſe Verk ſamañ vid Lioos Guds heilǫgu Orda, þa þyker mier ecke Olijklegt, ad Andlit vorrar Samvitſku munde rodna fyrer Gude. Med hvør- ium Augum ſkal eg lijta þiñ Broodur Joab, ſagde Abner Fordum Daga, þegar Haſa- el rañ epter hønum i Bardaganum, ef ad eg ſlæ þig i Hel? 2. Sam. 2. Eñ hvøriu vilium

vier

vier Gude eilijfum Konunge og alleina rijkum ſvara, þar vier hofum hañs Son Kroſsfeſtann, og, fyrer vor Myrkra-Verk, er Makt Myrkraña yfir hann komeñ? Munum vier þora, helldur eñ Tollheimtumadurenn, Luc. 18. ad lipta Augum vorum upp til Himens? Munum vier diarfare verda enn vor Fader Adam? Sa er fallde ſig fyrer Gude, og þorde ecke ad lijta hanns Auglit, Gen. 3. Þar fyrer, Chriſteñ Madur, kañaſt þar vid, ad þier ber Bligdan þijns Andlites, enn honum ber Dijrdeñ og Heidureñ, Dan. 9.

J Annañ Mata ſegier Pijſlar-Sagañ, ad Fortallded i Muſterenu hafe i ſundurrifnad fra Ofañverdu, Allt Nidur i Giegn. Von var, ad þad Muſtered ſem var med Hondum giort, munde ei ſtandaſt þa Ogn, ad hid Dijrdlega Muſtere hañs Lijkama var nidurbroted, Joh. 2. Þetta Fortalld adſkyllde þad Allra-Helgaſta fra ſialfu Muſterenu, hvar inne var, a Dogum Salomonis, Sattmals Orkenn, Nadar-Stoollenn og Vondur Aaronis, ſem voru Skugge epterkomande Giæda, Hebr. 9. Þvi ſundurrifnar Fortallded, ad Skuggeñ yrde burt-tekenn, þar vier hofum ſialfa Hlutena. Ork Sattmalans mille Guds og Manna var uppfeſt a Kroſſens Trie. JEſus, ſem er einn Nadar-Stooll i ſijnu Bloode, Rom. 3. var hier ollum giefenn. Kviſturenn af Root Jeſſe var bloomgadur, Eſ. 11. Lijfſins Braud var af Himnum ofannkomed og ollum framboded, ſo ad hvor ſem æte þar af, ſkyllde ei Daudann ſmacka ad eilijfu, Joh. 6. Jnn fyrer Fortallded i þad Allra-Helgaſta matte ei ganga, nema hiñ Ædſte Kienneman Eitt Sinn a Are, enn þad rifnade hier i ſundur, til ad audſijna þar med, ad hinn Ædſte Biſkup vorra Salna er, fyrer ſitt eiged Blood, einuſinne inngeingenn i þad Allra-Helgaſta, ad utvegadre eilijfre Endurlauſn, Ebr. 9. Þar fyrer er oſs nu þad Allra-Helgaſta opnad, ſem er i Himnenum, ſo vier hofum frijann Tilgang til þeſs Himneſka Nadar-Stools, af hvors Fyllingu vier hofum aller medteked Nad fyrer Nad, Joh. 1. Ei matte Almuge Manna inngaanga fyrer Fortallded i Muſterenu, Levit. 16. Enn hier er þad ſundurrifed fyrer hanns Dauda, ſem hefur fullnægt Logmalenu, og lidid fyrer þad, ſem vier med vorum Syndum hofdum forſkulldad, ſo ad hvor eiñ Riett-Truadur er Guds Kiennemadur i ſijnu Hiarta, Openb. 1. ſem er hanns Muſtere. Hann hefur Fortallded i ſundur rifed, og þar med i burtu-teked þañ Veggenn, ſem mille var, og giort eitt af badum, Eph. 2. So þar yrde eitt Sauda-Hus og einn Hyrder, Joh. 10. Og ei være framar Kall edur Kona, Þræll nie Frelſinge, Gydingur nie Grikur, helldur aller eitt i Chriſto JEſu, Gal. 3. Kiennemanna Hofdingeñ hafde adur rifed ſijn Klæde a moote Guds Bode, er hann kiende Frelſaranum Gudloſtun; Enn Gud Allsheriar, uppa þad hann audſijnde, ad hañ og hanns Selſkapur være ſekur i þeirre Ohæfu, hañ lætur Fortallded ſundur rifna. Þeſſe Atburdur ætte nu ad kieña oſs, mijner Elſkanleger, ad ſundur rijfa ecke vor Klæde, helldur Hiortu vor med heitre Ydran, Joel. 2. Giæt ad, ſyndug Mañeſkia, hvad Ovidurkvæmelegt þad er, ad þiñ Lauſnare hanger a hinum ſmanarlegaſta Kroſsens Galga. Hañs Horund er ſundur-ſlited af Hudſtrokunum, ſundur-mared af Hoggunum, ſundur-rifed af

Þyrne-Broddum, sundur-stwnged af Noglunum, sundur-flakande af Sꜳrum og Benium, og Loksins sundur-kramed, sundur-kreist og sundur-mared af Guds elldlegum Reide-Svipum og Obærelegum Þwnga þiña Synda, sem hann hefur bored, og Hegningarennar sem ꜳ honum lꜳ; uppꜳ þad þu hefder Fridenn, Es. 53. Þegar þu villt þetta fyrer þier virda, þa mætte þier under eins til Hugar koma, ad draga þa Skijluna frꜳ Augum Sꜳlar þinnar, sem þar leinge hefur fyrerhꜳnged, og glepur so fyrer þijnum innra Mañe, ad þu þecker hvorke Gud nie sialfann þig. Villt þu vera Guds Andlegur Kiennemadur i þijnu Hiarta, sem ad er hanns Mustere, þa byriar þier ad athuga, i hvada Herberge hañ vill bwa, sem er i einu sundurknosudu Hiarta, Es. 57. Foorner Gamla Testamentesins eru ad sonnu fyrer JEsu dijrmætu Foorn ꜳ Krossens Altare afmꜳdar og ad eingu giordar, enn þar fyrer skallt þu ecke meina, ad þu eiger einga Skulld Gude ad giallda. Enn hvilijkt er þad Offred sem honum þocknast? Þar segier David frꜳ, i Ps. 40. Blood Uxanna og Hafraña þocknast þier ecke: Enn Harmþrwngeñ og sundurknosadañ Anda munt þu ecke fyrerlijta, Ps. 51.

I Þridia Mꜳta segia Gudspiallameñerner, Ad Jordeñ Hafe Skolfed. Hvad hrædelegur hefur Jardskialfte þesse vered, Born mijn? Þar ecke einasta Fialled Golgatha, ꜳ hvoriu ad stood DRottens Kross, helldur oll Verollden, hefur leiked ꜳ Reideskialfe. Plinius eiñ heideñ Madur segier frꜳ, ad ꜳ Valldstioornar Dogum Tiberii Keisara um þetta Skeid hafe 14. Stader i Gricklande og i þeirre miñe Asia i Gruñ nidur falled, hvorra Nofn Cornelius Tacitus i añare Book siña Añꜳla oll upptelur. Hefur nu þesse skielfelege Jardskialfte vered eitt Teikn Guds Almꜳttugs Heiptar Reide, þar hanns Eingietenn Sonur, i hvorium honum alleina velþocknast, Matth. 3. er fyrer añarlegar Synder af hinum synduguſtu so hardlega wtleikeñ. Þad giefur Messias til Vitundar i Ps. 18. med þessare Harma-Klogun: Daudans Angist hefur umkrijngt mig, og Belials Becker hafa Ognad mier; Eg kallade til DRottenns, og Jordenn titrade og skalf, og Grundvollur Fiallanna hrærdest og umturnadest, þvi hann vard reidur. O miñ HErra Gud! Hvad stoor er þijn Poleñmæde yfir Syndeñe og Ogudlegu Mañaña Athæfe? Hier giecꝁ so mikel Ognan ꜳ, ad Jordeñ gat ecke stadest under þeim Þwnga, þa hennar Skapare leid. Nꜳtturann took ad glidna i sundur, þvi þær Hendurnar voru ꜳ Krosseñ negldar, sem vega hennar Þwnga med einum Fijngre og iñelykia Siꜳfar Hafed i sijnum Hnefa, Esa. 45. Hañ ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Þvi skylldu þa ecke aller Hluter sundurbresta, þa hann, sem hefur Ord eilijfs Lijfs, Joh. 6. mꜳtte deya? Þegar Logmꜳled var Fordum wtgiefed, þa skalf Jordenn, og Fiollenn bifudust og titrudu eins og eitt Strꜳ, Exod. 19. Enn siꜳ, hier liggur oll Logmꜳlsins Bolvan ꜳ þeim, sem Logmꜳled hafde wtgiefed, enn hafde þo i allañ Mꜳta uppfyllt Logmꜳled; Þvi skielfur Jordenn af Ognan, ad sw Handskriftenn, sem moote oss var, er borenn uppꜳ Tried, og ꜳ Krossenn negld, Col. 2. Eñ Evangelium, sem er Kraptur Guds til Sꜳluhialpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. er hier underskrifad

med

med hanns Bloode, ſem ordenn er Bolvan fyrer oſs, Gal. 3. Core, Datan og Abi-
ram mogludu moote Gude, þar fyrer urdu þeir lifande i Jordina nidur ad fara, Num.
16. Eñ meire Mootmæle hefur þu hier þolad minn HErra JEſu, þvi er ei ad furda, þo
Jordeñ opne ſig, og bioode ſig til ad ſvelgia þaa Ogudlegu Skaalka, ſem þad ſaklauſa
Guds Lamb hofdu aa Kroſſenn neglt. Enn hier ſiaaum vier, ad þitt Blood er Forlijkun
fyrer allar Veralldarinnar Synder, ad þijnum Kvolurum hefur þyrmt verid fyrer
þijna Bæn i þinni bitru Pijnu, Luc. 23. Eñ Natturañ maa ſampijnaſt ſijnum Gudi.
Þeir hofdu hroopad til forna: Kroſſfeſtu hañ, Kroſſfeſtu hañ, enn hier opnar Jordenn
ſiñ Munn til ad kunngiora þitt Sakleyſe og aaklaga Gydinga. Þegar Adam neytte
þeſs forbodna Avaxtar Jardariñar, þaa var Jordunne bolvad, Gen. 3. Enn ſw Bol-
van linadeſt fyrer þeſs fyrerheitna Sædis Skulld. Nu maa ſijnaſt ad Jordenn, þar
hinn añar Adam, ſem er DRottenn af Himne, var pijndur aa heñe, ad hun kvide vid, ad
henni yrdi ad niju bolvad med eilijfre Bolvan. O HErra himneſke Fader! Fader
allrar Naadar og Myſkunſeme! Vier meigum jaata þad um oſs, ſem Jeremias ſeger i
9. Cap. Ad vier hofum hardar Aſioonur, ſo ſein einn Steinn, og vilium ecki umvenda
oſs. Vor Hiortu eru hardare enn Klettur, þar Biorginn i ſundurkloſna og Jordenn
ſkielfur, enn oſs kiemur ei til Hugar ad laata oſs Ogna þær Synder, ſem hafa þinn Son
Kroſsfeſtann. Grafer Framlideña lukuſt upp; Enn vier erum ſo dauder i Syndun-
um, og ſo diwpt nidurgrafner i Raanglæted, ad vier ſiaaum ei riſed upp wr hinni ſwlu
Grof Hollds og Bloods aa moote vorum HErra. Af þijns Eingietins Sonar Sij-
du, ſem er Hella vors Hialpprædis, wtrennur Blood og Vatn, Joh. 19. Enn af vor-
um Augum gietur ei ſtocked eitt Ydrunar Taar.

Jordenn ſkalf og Biorgenn i ſundur kloſnudu aa Pijnu-Dege vors HErra. O!
hvad meiga vor Hiortu vera Steinum hardare, þar Minning DRottiñs Dauda, er
vier holldum aa þeſſum Dege, kañ þau ecke ad mykia til Ydranar og Apturhvarfs fraa
Ogudlegu Athæfi. O hvad ſtoor Munur er þo aa millum Guds og Maña! Ad hañs
Hiarta breſtur yfer einum ydrande Syndara, ſo hann hlijtur honum myſkunſamur ad
vera, Jer. 31. Enn Syndarans Hiarta er ſo Obifañlegt, ad JEſu dijrmæta Blood,
fyrer hveriu oll Verolldenn liek aa Reideſkialfe, þad fær ecke orkad þvi, ad Madurenn
graate ſijna Synd fyrer Gude. O þu Almaattuge Gud, ſem alla Hlute kannt framar
ad giora, enn vier kunnum ad hugſa edur mæla, Eph. 3. Umſkier þu vor Eyru og Hiort-
tu med Sverde þinna H. Orda, ſo ad þau mege finna til Synda ſinna og Chriſti bitru
Kvalar: Laat oſs, medann Naadar-Tijmeñ eñ nu yferſtendur, þenkia þar til, ad hañ mun
aptur koma i Skijum Himins med Makt og miklu Velldi, Elldureñ mun brenna fyrer
hañs Auglite, i hverium Himnarner munu forgaanga, med Stoor-Breſtum, og Hoſ-
ud-Skiepnurnar af Hita braadna, aadur enn allt þetta ſkier, 2. Pet. 3. O HErra
Gud! giefoſs þa ad vier upphefium vor Hofud, ſo ad vier þeckium vorn Vitiunar-Tij-
ma, ſo vier lærum ad fela oſs i Biargſkorunum, ſem eru bleſſadar Under þijns Eingiet-
inns

inns Sonar og þar i dyliast medann Reidenn fram hiaa geingur, Esa. 26. So ad vier aa þeirre vondu Tijd, mættum fraaskilder þeim Ogudlegu, er JEsum ad niju Kross-festa og foottroda hanns Blood, Hebr. 10. þvo vorn Skrwda i Lambsins Bloode, Op. B. 7. og med þvi dijrdlega Skarte inngaanga i hanns Brwdkaup og þaa himn-esku Jerusalem, til ad losa þig eilijflega, þu Haaleita Guddoomsins Þrenning.

Þad veite oss Gud Fader, Sonur og Heilagur Ande fyrer Christi Blessada Forþienustu, Amen.

# A Paaska Dagenn.

Gudspialled, Marc. 16. Cap.

OG þa ed Pvott-Dagurenn var umlidenn, keyptu þær Maria Magdalena, og Maria Jacobi og Salome, dijrleg Smyrsl, ad þær kiæme og smyrde JEsum. Og miøg sneima Morg-unns eirn Pvott-Daganna, komu þær til Grafarinnar um Sool-ar Uppruna. Og þær søgdu sijn aa mille: Hver mun vellta fyrer oss Steininum af Grafarmunnanum? Og sem þær litu þaang-ad, saau þær ad Steirninn var afvelltur. Enn hann var ad sønnu nærsta mik-ill. Og þær gengu inn i Grøfina, og saau eitt Ungmenne sitia til hægri Hlidar, skrijddann sijdu Klæde hvijtu, og þær urdu Ottaslegnar. Enn hann sagde til þeirra: Eige skulud þier hrædast. Þier leited ad hinum Krossfesta JEsu af Nazareth, hann er upprisenn, og er ecke hier. Siaaed þann Stad hvar þeir løgdu hann; Helldur fared þier burt, og seged hanns Lærisveinum og Petre, ad hann muni gaanga fyrer ydur i Gali-læam. Þar munud þier siaa hann, so sem hann sagde ydur.

## Exordium.

SA Steirn sem Uppbyggendur hafa burtu kastad, hann er vordenn ad Hofde Hyrningar, af DRottne er þesse, og er undarlegur fyrer Monnum: A þessum Dege hefur DRottenn þad giort, føgnum og verum glader aa honum, seger David Kongungur, Ps. 118. Ad þetta Kvæde sie ort um Mannkynsins Frelsara, vottar hann sialfur, Matth. 21. er hann þijder þennann Spaadoom uppaa sig, hver og so i hanns Dauda og Upprisu ad ollu Leite framkomenn er. Hverninn þeir hafe hon-um burtkastad, þad hofum vier heyrt aa umlidnum Fostu-Tijma. Enn hefde DRott-enn ad eins vort auma Holld og Blood uppaa sig tekid, og dæed i þvi sama fyrer allar Veralldarennar Synder, þa hefde hann ad sønnu ad fullu loked þaa Skulld, er vier aattum Gude ad giallda; Þar fyrer sagde hann under sitt Andlaat, haangande aa Krossinum; Ad þad Fullkomnad være, Joh. 19. Enn ecke vorum vier vijser i þvi, ad hann

hann hefde golldid fyrer oss hiñ sijdarsta Pening, nema hañ hefde af Fiotrum Daudans leystur verid, og þad sama kunngiora lαtid, og sialfur sig opiñberad, og þvi kalla eg þad riett sagt, ad JEsus Christur sie ad Hofdi Hyrningar vordinn i sinni dijrdlegu Upprisu. A þessum Dege hefur DRottenn þad giort, seger Skalldid, fognum þvi og verum glader a honum: Eckert hefur oss þvilijkt til Kiæte borid, Guds Børn, og enginn Sool hefur oss fegre upprunnid enn þesse. Adra Daga gioter hin nαtturlega Soolinn med sinni Uppras; Enn þennann, Sool Riettlætisins sialf, er hina skapad hefur. Þegar Soolinn upprennur, formyrkvar hun hin onnur Himin-Tungliñ med Nalægd sinnar Byrtu; Enn þegar hin blessada Sool Riettlætisins undirgieck i hinu bitra Dauda Strijde, þa giørde hun hina myrkva, þegar hun hvad fegurst skein: So mikid Valld hafde hann bæde a Himne og Jordu midt i Daudanum; hvad mikla Byrti mun hun þa bera i allra Riett-trwadra Hiortum i sinni Upprisu? Þesse hin fagra Sool rañ oss upp fyrst allra i hanns Gietnade, eñ strax epter hañs Fædingu droou bradlega fyrer hana Skij vors auma Hollds Veikleika, og sijdann Daudans, er hañ þo ecki forþienad hafde. Enn a þessum Dege er hun so eitt Siñ uppruñinn, ad hun mun framar alldrei undergαnga; Þvi Christur, upprisenn af Daudum, deyr ecke meir, og Daudinn rijker ei framar yfer honum, seger Paulus, Rom. 6. Þeir slαtrudu honum so sem Lambi, enn hann reis upp aptur so sem ungt Leon. Johannes Baptista kallar hann þad saklausa Guds Lamb, sem burtu ber Veralldarinnar Synder, i hanns Nidurlægingu, Joh. 1. Johannes Evangelista nefnir hann þad Lamb af Kyni Juda, sem Sigurinn unnid hafi, Op. B. 5. i sinni Upprisu. Fognum þvi og glader verum, Christner Menn, sijngiande og spilande DRottne i Hiortum vorum. Guds heilager Englar, þeir himnesku Andar, hverium Guds Sonur eckert hafde wtvegad med sijnum Dauda, þeir fagna sijnum Herra i hanns Upprisu, Joh. 20. Þvi skylldum þa ecke vier allshugar fegner verda, synduger Ormar? sem vorum Daudanns Menn, hefdi ecki DRottinn upprised oss til Riettlætis. Christi Postular trwdu ecke Upprisu DRottinns fyrir Fagnadar Saker, Luc. 24. Þessi brade Fognudur var meire enn so, ad hann leysde þeim ad grunda, hvad sannast være i fliootu Bragde; Enn vier, sem trwum fyrer þeirra Vitnisburd, jαtum oss þeim samfagna og glada vera! Þad bijdur oss Guds heilog Mooder og hennar Selskapur, þad biooda oss Englar DRottinns, þad biooda oss hanns Postular, þad biooda oss Himin og Jord, þad bijdur oss sialfur hann, i hvers Nafne vier Sigrenum hroosum, segiande til sinnar Christne: Vaknid upp og sijnged þier, sem i Duptinu ligged, þegar þier hafid nidursleiged hina Andvonu til Jardar, Esa. 26. Og uppa þad, Brædur mijner, ad vier mættum þad þess betur framkvæma, vilium vier af þessa Hαtijdis-Dags Evangelio nockud gior yfervega Upprisu DRottins med þeim Avoxtum og Amiñingum, sem þar af rijsa.

J þessu Eyrende hialpi oss goodur Gud, fyrer Forþienustu sijns Eingietins Sonar, med Naad heilags Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

LOf og Packer sie eilijfum Gudi, fyrer þaa Naad, ad JEsu dijrdarfullu Upprisu þarf ecki med Vitnum ad stadfesta, nu sem stendur, þvi þad er eingen aa medal christeña Maña, sem þad ecki jaate; Eñ aa hinum fyrstu Døgum Christnennar, løgdu Guds heilager Meñ ecki so mikid Kapp aa nockurn Hlut sem þeña, og þvi sagde Petur fordum Daga, P. G. 1. Þad byriar ad eiñ af þeim Moñum, sem med oss verid hafa alla þaa Tijd, er DRottinn JEsus gieck iñ og wt aa medal vor, byriandi aa Skijrn Johañis, allt til þessa Dags, er hañ var fraa oss uppnumiñ, ad eiñ af þeim verdi Vottur hañs Upprisu medur oss; Og eñ framar, þa er Petur taldi um̃ fyrer Judum, hverier JEsum krossfestañ høfdu: Þeir afneitudu hinum Heilaga og Riettlaata, enn beiddust eftir ad ydur yrdi Mordingiñ giefiñ, eñ Høfund Lijfsins deiddud þier, hverñ Gud hefur uppvakid af Daudum, hvers vier aller Vottar erum, P. G. 3. Og um̃ alla Postulana til samans ber Lucas Vitni, segiande, P G. 4. Og med miklum Krafti vitnudu Postularner um̃ Upprisu DRottiñs vors JEsu Christi. Þetta er ecki af Moñum skied, B. M. helldur af Gudi, so ad hañs Sañleike stadfestur verdi aa medal þeirra, til Myskunar þeim og Syndalausnar. So seger Petur aftur, P. G. 10. Þeñañ uppvakti Gud aa Þridia Dege, og giorde þad bert, ecki øllu Foolki, helldur fyrer Vottum þeim, sem af Gudi tilskickader voru, oss sem ad aatum og druckum med hønum. Og uppaa þad ad Christi Lærisveinar ei kyñu ad fara villt i þessu, þa hefur hañ i heila 40. Daga um̃gengist med þeim hier aa Jørduñe, aadur eñ hañ til Himna stie, P. G. 1. Og sijnt þeim klaarlega, ecki einasta ad hañ uppirsiñ væri, helldur med sama Lijkama, og þo forklaarudum, med mañlegum Lijkama, og þo dijrdlegum, med þeim Lijkama, sem aa Krossinum hieck, og i Grøfina var nidurlagdur, og þo er vollduglega uppriseñ, ad luktre Grøfiñe og Steininum O-afvelltum. Ad hann hafde naatturlegann Manns Lijkama vottar hañ, Luc. 24. Siaaed og þreifed aa, þvi Ande hefur ecke Holld nie Bein, sem þier siaaed mig hafa. Ad þad være saa sami Lijkami, auglijser hann nockru sijdar i þessum Capitula Lucæ segiande: Siaaed mijnar Hendur og Fætur, ad eg em þad sialfur: Hann talade vid þaa, hann braut Braudid, hann aat og drack med þeim, eins og til forna, hañ liet þaa þreifa aa þvi sama Hollde, og sijndi þeim þær sømu Hendur, sem aa Krossiñ negldar voru, og þaa Sijdu, er med Lensuñi var i giegnum stwngiñ, þar hañ þo i sama Siñ iñgieck til þeirra ad luktum Dyrum, so sem añar Andi, ad þeir siaa mættu, ad þad væri hiñ sami Lijkami sem leid, og þo Dijrd Oveniulegri prijddur: Jaa: til þess ad eckert vantade þeim til Trwarstyrkingar; Took hañ til aa Moyse og øllum Spaamoñunum, og lagdi wt fyrer þeim allar Ritningar, sem af hønum voru, leidande þeim fyrir Sionir, ad Christo byriade þetta ad lijda, og iñgaanga so i sijna Dijrd, so ad þeirra Hiarta brañ i þeim, er hann talade vid þaa aa Veginum, Luc. 24. Enn so ad þeir mættu fyrir vist vita, ad hann bæde Gud og Madur være, og ad Mañdoomuriñ være ecke i Daudaaum vid Guddoomiñ skiliñ, itrekade hañ eitt af þein Kraptaverkum, er hañ aadur giørt hafde,

hafde, og upp er teiknad hiaa Joh. 21. Pegar hann kom til Peirra, er Peir voru ad Fiske-Veidum, og hoftu um Noottena einkis aflad, enn hann baud Peim ad varpa wt Netinu til Hægre Handar, hvad so tookst, ad Peir gaatu Pau valla innebyrgt fyrer Mergd Fiskanna, er i voru komner. Nu, Par ed Englarner hafa DRottens Upprisu bodad, heilagar Kvinnur Peim trwad, Postularner hafa hann sied, aa honum Preifad, og vid hann talad, JEsus sialfur sig openberad, og wtlagt Ritningarnar, Pær sem af honum voru, og i hvorium hanns Upprisu spaad var og fyrermyndud, og Guds heilager Menn hafa Pusund um samann laated sitt Lijf uppaa Pennann Sannleika, Pa er hann vissare og aa fastare Rokum bygdur, enn honum mootsegia meige. Enn hvoriar munu Ordsaker Pær, Br. M. hvar fyrer ad so vandlega er bwed um Petta dijrmæta Efne? Ein er sw, ad Guds Son i hanns Upprisu hroosade Sigre yfir Dauda og Diofle, og auglijste oss syndugum Monnum, vegna hvorra hann Pennann dijra Sigur unned hefur, ad hann være Daudanns Daude, og Helvijtes Olifian, Os. 13. Herleidingenn være ad Herfaange tekenn, enn hann, under eins, hefde fridad fyrer oss hiaa Gude og Fodr. Pesse er hin hellsta Nitseme Upprisu Drottenns.

Hina adra segier oss Paulus, Rom. 6. med Pessum Ordum; Vier erum Jardader med honum fyrer Skijrnena til Daudans, ad lijka so sem Christur er uppvakenn fraa Daudum, fyrer Dijrd Fodursins, svo eigum vier ad gaanga i Endurnijung Lijfdaganna. Par til er Christur daaenn, ad i oss meige fyrer hanns Dauda, deyddur verda hinn gamle Madurenn, Pad er Uppruna Syndenn, ecke ad hun alldungis wt af deye, helldur deyr hennar Illsku Kraptur, ecke ad hun burt-tekenn verde, helldur hennar Sekt fyrergiefenn, ecke ad Madurenn i Endurgietningunne Heilagur verde, helldur medtekur hann Heilagann Anda, fyrer hvorn hann framveigis dempad gietur Holldsins Gyrnder, ecke riettlaatur i sialfum sier, helldur fyrer Christi Riettlæte, fyrer hvort honum veitest saa Anda Kraptur, ad hann gietur upprised med Christo, og geinged i Endurnijungu Lijfdaganna; Pvi segier Paulus framveigis: Vitande Pad, ad vor gamle Madur er under eins krossfestur, so ad afmaaest Lijkame Syndarennar, ad ecke Pioonum vier Syndenne framar, Rom. 6. Ecke segier Paulus ad vier Syndlauser sieum, Pvi Pess er ecke ad vænta af Holldenu under Syndena selldu; helldur segier hann, ad vier ecke Pioonum Syndenne, Pad er, laatum hana ecke drottna i vorum daudlegum Lijkama, ad vier hlijdum henne i hennar Gyrndum, so sem hann ad Orde kiemst i sama Capitula. Pesse er hanns Meining i Ordunum, er vier strax heyrdum, Pvi hann svarar Pvi sem hann ondverdlega i Capitulanum Peim siotta framsetur aa Pennann Haatt: Skulum vier Pa i Syndununi dvelia, so ad Naadenn yfirgnæfe? Fiærre sie Pvi. Tveggia Guds Velgiorninga gietur og St. Paull i greindum Ordum; Endurgietningarennar og Endurnijungarennar. Vier erum Jardader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, Pad er Endurgietningenn. So eigum vier ad gaanga i Endurnijungu Lijfdaganna, Pad er Endurnijungenn: Hin Fyrre skiedur i einu Augnablike i Heilagre Vatnslaug: Hin sijdare aa ad framkoma um alla Æfe vora, og fara Dagvaxande, so ad smaasamann afmaaest Lij-

kame Syndareñar; og, so sem vier i christelegum Frædum lesum; Ad sa gamle Madurenn, þad er Uppruna Syndenn, Daglega Dreckest og Deydest, fyrer Ydran og Yferboot, enn framkome og uppaptur rijse eiñ nijr Madur, sa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude Æfennlega. Hin fyrre er alleina Guds Verk i oss, so sem Paulus segier, Tit. 2. Ecke af Riettlætes Verkunum sem vier giordum, helldur af Myskun sinne hefur hann oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena. Hin sijdare stendur ad nockru Leite i voru Vallde. Þad vottar St. Paull, Eph. 4. Endurnijest i Anda ydvars Hugskots, og iklædest einum nijum Manne, sem epter Gude skapadur er, i Heilagleika og Riettlæte. Hvorutveggia kallast Umskurn Hiartans i Gamla Testamentenu. Endurgietningenn, Devt. 30. Gud mun umskiera þitt Hiarta. Endurnijungeñ, Jer. 4. Umskiered ydur fyrer DRottne, og burt-taked Yfirhwd ydar Hugskots, þier Menn Juda og Jerusalems Borgarar, ad ecke frambrune mijn Grimd so sem añar Elldur, þann engenn slokt sæe, sokum Illsku ydar Athafna.

Hier kuñum vier nu ad sia Skylldu vora, Brædur mijner, og hve mikill Haske oss bweñ er, nema vier giolldum Varhuga vid, og rijsum upp med Christo Drottne vorum, i hvors Dauda vier skijrder erum, Rom. 6. Og fyrer hvorn vier hofum Barna Riettenn medteked, Gal. 4. Ef þier erud uppriser med Christo, þa leited þess sem þar uppe er, hvar Christur er sitiande a hægre Hond Gude. Hugsed um þad sem þar uppe er, og ecke þad sem er a Jordunne, segier Paull, Col. 3. O! hvilijk er Faasinna Daudlegra Manna, þar vier vordner erum Borgar-Meñ Heilagra, og Guds Heimilis-Meñ, Eph. 2 þad Menn sockva sier nidur i Leyrvelltu og Endeme Heims þessa, sem þo mun fyrerfarast med ollu þvi, sem i honum er, enn yfirgiefa sijns Fodurs Heimkyñe. Giætum þess, ad vier erum i Skijrnenne vordner Kvister a hinu Andlega Vijn-Trie DRottne JEsu Christo, til ad bera mikenn Avoxt, enn hvorn þann Kvist sem ecke ber Avoxt, mun Vijngards Madurenn, sem er hañs Fader, afhoggva og i Ellde brenna, Joh. 15. O hvad herfeleg eru þau Umskipte, af einum Himneskum Vijn-Vid, ad gioraſt Helvijtes Elldebrandur, af Christi Þienara, Satans-Þræll, af Guds Oska-Barne, Reidennar-Barn! Og þad fyrer stundlegt Epterlæte Syndarennar, hvorrar Verdlaun eru i þeim Pitte, sem rijkur af Ellde og Brennesteine, Openb. 21.

Enn framar segier Paulus, Col. 2. Þier erud greftrader med Christo i Skijrneñe, i hvorre þier og uppvakter erud fyrer Krapt Trwarennar a Gud, sem hann uppvaked hefur. Hvor mun þesse Kraptur Trwarennar vera, Brædur mijner? Þad segier Paull oss aptur, Gal. 5. er hann so ad Orde kiemst; ad i JEsu Christo (þad er i þeim Hlutum, sem JEsu Christo vidkoma) gyllde hvorke Umskurn nie Yfirhwd, helldur Trw sw, sem fyrer Kiærleikann verkar. Enn hvorier eru þa Kiærleikans Avexter? Paull kienner oss þad, 1. Cor. 13. segiande: Kiærleikurenn er Þolennmoodur og Goodgiarn, Kiærleikurenn ofundar ecke, Kiærleikurenn giorer ei Illmannlega, hann þijtur ei upp, hann er ei Osidsamur, hann leitar ecke epter þvi sem hanns er, hañ er

ei

ei Þwnglindur, hann þeinker ecke Illt, hañ fagnar ecke yfir Ranglætenu, enn samfagnar Sannleikanum. Hier telur Paull upp allar Christelegar Dygder, er af Kiærleikanum, so sem ødrum Brunne, frañflioota, eins og adrer hreiner friiosgande Læker, til allra þeirra, sem vier eigum nockru vid ad skipta i Heimenum, ad sa sem temur sier þær og Daglega ydkar, hañ maa þess fulloruggur vera, ad hañ hefur med Christo vel uppriised, og er hønum fyrer saña og lifande Trw innplantadur, hvijad Elskañ er Kraptur Trwarennar og hennar Lijfs-Mark; Þar fyrer segier Postulenn Afdraattarlaust, ad Trwenn sie daud aan Verkanna, Jacob. 2. Og St. Paull, sem vard (fyrer þeirra Skulld sem forlietu sig uppaa Løgmaalsins Verk) ad hroosa Trwnne so miøg, ad nockrer hafa steitt sig þar aa, þo aan Ordsakar, og meint ad ei þyrfte Goodverkenn ad giøra; Hañ segier sialfur, 1. Cor. 13. Þo ad eg hefde alla Trw, so ad eg megnade Fiøllenn wr Stad ad hræra, og hefde ecke Kiærleikañ, þa være eg þo eckert. Vilium vier lijta til vors fyrra Haattalags, aadur enn vier Endurfædder vorum, og heyra hvad Paulus þar um segier, Eph. 2. Gud saa, er rijkur er af Naad, fyrer sinn mikla Kiærleika, med hvørium hann elskade oss, hefur lijfgad oss med Christo, þegar vier dauder vorum i Syndunum, og hefur under eins uppvaked oss, og aasamt Christo JEsu sett oss i Himnarijke. J Skijrnenne riette Gud oss fyrst allra sijna Myskunar-Hønd, þegar vier minna kunnum ad hialpa oss i vorum Saaluhialpar-Efnum, enn eitt Briioostmylkingur Lijfe sijnu, þa reiste hann oss upp wr Saurendum Naatturlegrar Spillingar, þa took hann oss inn i sinn eilijfa Saattmaala, þa trwlofade hann oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Þa sette hann oss i Rijke sijns Sonar, Col. 1. Enn hvad er þad, Brædur mijner, ad vier briootunst wr Fadme hañs ad niju, med Jdkun vondra Verka, er Guds Børnum sæma ecke, og forlaatum Meistara vors Ungdooms, sem took oss upp, þar vier laaum i voru Bloode, wtkastader aa Vijdavaangenum, Ezech. 16. eñ gaungum Dioflenum til Handa, hvørium vier afneitad høfum og øllum hañs Verkum. Er þad ecke ad kasta sier aptur i sama Saur, þoott vier Einusinne uppreister sieum? Edur munum vier þess nockur Not hafa, ad Gud hefur med sijnum sterka Armlegg Handdreiged oss af Dioflenum i Endurgietningunne, ef vier leggium Lag vort vid Satan aptur? Laatum oss til Huga koma, Brædur mijner, hvad margt og miked JEsus þolad hefur, þegar hann maatte þo vel Sælu hafa, Heb. 12. aadur enn hañ fieck uppriised oss til Riettlætes. Saa sem heyrer Guds Son yfirgiefinn, Matth. 26. Gud blessadann um Allder, Rom. 9. so sem Bølvan uppheingdañ, Gal. 3. og hañ, sem gallt þad hañ ecke rænte, medal Ræningia taleñ, Marc. 15. og veit ad þetta er skied, fyrer alla þa Illsku, sem ad Syndareñ hefur uñed til Helvijtes med, og ecke leitast vid ad krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, svo hønum mætte Christi vegna Heimureñ verda krossfestur, eins og Paule, Gal. 6. Þeim verdur alldrei auded med Christo upp ad rijsa i Naadenne; svo hañ eilijflega med honum lifi i Dijrdenne. Fyrer þvi aaminner Petur nærsta vel, segiande: Med þvi ad Christur hefur nu fyrer oss lided i Holldenu, þa brynied

ied ydur med sama Hugarfare, þviad hvor sa Holldenu lijdur, hann lætur af Syndenne, 1. Pet. 4. so ad hann þadann i fraa, hvad epter er Æfennar i Holldenu, lifé, eige ad mannlegum Gyrndum, helldur ad Guds Vilia. Hvad er þad ad vier segiunst ydrast vondra Verka, nema vier og upprijsum med Christo? Vier komum hvert Ar, og Þriaar, Fioorar Reysur a Are, epter þvi sem hvor er lyndur til, framm fyrer Kiennemannenn þar hann situr i Guds Stad til ad fyrergiefa oss Syndernar, ecke þeim sinn nalægiast Gud med Vorunum alleina, Es. 29. helldur þeim, hvorra Hiarta ad riett er fyrer DRottne. Vier segiunst bera Angur og Trega fyrer Syndena (Gud giæfe ad Hugur jafnann Maale fylgde, og ad vier villdum af henne laata og vid sia framveiges!) og er hann hefur so i Guds Umbode tilsagt oss Kvittun vorra Afgiorda, meinum vier oss ad fara Riettlaatare heim aptur i vort Hws, Luc. 18. Og þad er i Sannleika satt a þeim, sem vel hafa reynt og proofad sialfsa sig, og af Alvoru audmykt sig under Vollduga Guds Hond, þviad Christi Loford er fyrer þvi, ad hvorium hellst Guds Þienare fyrergiefur Syndernar, þeim sieu þær fyrergiefnar, Joh. 20. Þo ecke nema þeim sem elska sinn Lausnara og rækia hanns Bod, þviad St. Paall lijser Bølvan yfir þa sem ecke elska DRottenn JEsum, 1. Cor. 16. Og eru þeir þa langt fraa Syndanna Fyrergiefningu, Hinne Bersyndugu fyrergafst miked, þviad hun elskade miked, Luc. 7. Hvornenn viljum vier kallast elska Christ edur med honum upprijsa, ef vier afrækium Bod hanns? Ef hann er vor Fader, hvar er þa hanns Heidur? Mal. 1. Sa sem ecke tekur sinn Kross uppa sig og fylger honum epter, Matth. 10. hann er hanns ecke verdugur. Enn Kross er varla þvilijkur Hollde og Bloode, svo sem ad uppfylla Christi Løgmaal, sem þo er ecki nema i einu Bodorde innefaled, sem er, ad bera hvor annars Byrde, edur elska hvor annann Innbyrdis, ad Vitne St. Paals, Gal. 6. Þvi dæme eg so, Brædur mijner, ad sa sem ecke stundar epter ad vardveita Christi Løgmaal, hann elskar hann ecke, sa sem ecke elskar hann, nijtur ecke hanns Forþienustu, sa sem ecke nijtur hanns Forþienustu, hann er bølvadur, og er enn þa i sijnum Syndum, hvorsu opt sem Presturenn lijser þeirra Kvittun yfir honum, þviad hann er Madur, og veit ecke a Stundum hvorium hann fyrergiefur Syndernar, þviad Guds alleina er ad rannsaka Hiartad: Þar fyrer eigum vier ecke ad taka þad, sem Gud hefur talad angrødum Saalum til Trwarstyrkingar, Illskunne og Prettvijsenne til Afbotunar. Enn giætum ad oss i JEsu Nafne, Brædur mijner! Hvad opt høfum vier Syndanna Kvittun þeiged, enn þad mun tilbored hafa, ad vier høfum aptur framkomed ecke einasta med þær sømu, helldur og adrar verre a Stundum. Hvad lijtt hefur oss þa vered giefed um ad hallda þad Loford, er vier giørdum Gude i Jatningu Syndanna, adur enn vier þaadum Heilaga Aflausn af Hende hanns Þienara? Hvorsu treger høfum vier vered a Heyrn hanns Orda? Hvad Ofwser til ad elska vorn Naunga, ad forlaata honum hanns Afbrot, ad giora þeim gott sem vid oss misgiora, ad forsvara hann og færa alla Hlute a betra Veg, ad stilla Reidena, ad laata hanns Eigur kyrrar? Og i einu Orde ad segia; Ad rijsa upp med Christo og bera Krossenn epter honum, þad

er,

er, ad deyda þann gamla Mannenn, er sig fordiarfar i Syndum Villudomsins? Eph. 4. Jaa, þui verr! ad margur mun finnast, sa ed strax, sem hann er kominn fraa Prestsins Knic aam, vellter hann sier i sama Saur, og hefur engva Vidleitne til þess ad laata af ollu þui Illa, er hann strax medkendi og lofadi Umboot aa, og þad i Ostrauste Naadar Guds, og fallvalltre Von laangra Lijfdaga. Ecke er slijkt ad uppriса med Christo edur bera Kr-ossinn epter honum, helldur ad gabba hinn Krossfesta. Enn heyred hvad Paulus til Hebr. segier, i 10. Cap. Saa sem ad engvu hefur Moysis Logmaal, hann skal epter Vitne Tveggia edur Þriggia Vægdarlaust deya: Hvad þijngra Straffs verdugur meined þier hann reiknast mune, er foottredur Guds Son, og Saattmaalans Blood, med hveriu ad hann endurleystur er, Almennilegt helldur, og vanvirder Anda Naadarinnar? Hvad er þad, ad vier jaatum alleina vorar Synder fyrer Gudi? Mun honum nockur Þocknan i þvi? Hann þarf ei þess vid, hann veit þær betur enn vær, þviad aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Hebr. 4. Þad er nærre þvi, ad brijxla Gude med Jona Spaamanne um sijna Myskunseme, Jon. 4. So sem hann sie ecke under eins riett-laatur, og taki alleina Skullda Reikningenn fyrer Skulldalwkninguna, hvad oss munde þykia lioott aa einum Doomara, þui kunnum vier þa ad ætlast til þess af Gude, hvers strannga Riettlæte eingva Þurdu maa lijda? Þad sie fiærre, ad eg lijted giore wr JEsu Forþienustu, hanns Pijnu og Dauda, hanns Upprisu og ollu þvi hann unnid hefur oss til Myskunar, þviad hvad er jafnvægt Guds Riettlæte, hiaa hveriu Himen og Jord eru minna enn eitt Sand-Korn ad reikna, nema þessar Astgiafer Frelsarans? Hitt sege eg, ad þad heyrer þeim ecke til, sem ætla sier ad lifa i Syndunum, uppaa þad ad Naaden yf-ergnæfe: Harmþrwngenn og Sundurknosadur Ande er alleina þad Offred, sem Gude þocknast, Ps. 51. Hvar fyrer? Þviad Christi Forþienusta hrijn aa þvi, nær þvi er so haattad, enn ecke annars, so ad Gud vill ecke tilreikna Manninum giordar Synder; enn ecke er þetta Aflaats-Brief til ad meiga frammvegis Syndina drijgia, þvi Christur er kominn til ad uppfylla Logmaaled, enn ecke ad uppleysa þad, Matth. 5. Til ad forlijka fyrir Synd-ena, enn ecki til þess Madurenn skule syndga: Til ad deyda Syndena i voru Holldi fyrer sijna Upprisu, enn ei til þess, ad hun skule drottna i vorum daudlegum Lijkama.

Þu seger: Eg angrast af ollu þvi Illa, sem eg hefe moote Gude giort, enn hvar er þad Angur, þegar þu leikur þier ad somu Syndum eins og odru Table? Þu seger: Eg hata Syndina; Laat þa siaa ad þu elsker Gud, og drijger ei þad hann bannad hefur. Þu seger: Eg elska Gud sem mier hefur so margar Synder fyrergiefed; Laat þa siaa und-er eins, ad þu elsker ecke þad hann hatar, þviad þessum Tveimur Herrum maa ecki i Senn þioona, Matth. 6. Annad er þad, ad Syndenn hender Mannenn, og hann samþyckest henne um Stund, annad þad, ad laata hana drottna i sier, hafa Lyst af henni, og giora Hand-Verk þar af; Þad fyrra gietur ecke ad ollu Leite skiled vid oss aa medann vier ber-um epter oss Lijkama þessa Dauda, so ad jafnvel Paulus segest giora þad Vonda er hann þo ecke giora vilie, Rom. 7. Hitt Sijdara er hiaa Bornum Vantrwarinnar al-

geingt,

geingt, um̃ hveria Paall talar, Rom. 1. (Er hann uppreiknar Skam̃er þær, ed medal Heidingianna tijdkuduſt), og aalyktar med þeſſum Ordum: Hvorier ed jafnvel þoott þeir þecktu Guds Riettinde (ſem er, ad þeir ed þvilijkt giora ſieu Dauda verder) þa giori þeir þad ecki ad eins, helldur ſamſinna þeim er þad giora, Rom. 1.

Þegar Gud er hvad Naadugaſtur i ſijnu Evangelio, þa er þad þo alldrei odruviiſe en̄ ſo ſem han̄ ſeger, Eſa. 1. Laated af illu og lærid gott ad giora; Komed ſijdan̄ og eigunſt Log vid, þoott ydar Synder ſieu raudar ſem Blood, þa ſkulu þær verda hvijtar ſem Snioor, og þo þær ſieu ſem Purpure raudar, ſkulu þær verda hvijtar ſm̃ Ull; Og Paall er þvi ſamhliooda, Rom. 8. er han̄ vottar, ad eingin̄ Fordæming ſie framar yfer þeim, ſem eru i Chriſto JEſu, þeim ſem ei gaanga eptir Holldinu, helldur epter Andanum. Þetta er eitt æfinnlegt Evangelium, ſem varad hefur i fraa Heimſins Upphafi, og geinged hefur i giegnum bæde Guds Teſtamenta, og er ſo Oum̃breitannlegt, ſem hann er ſiaalfur, hiaa hverium ecke er Um̃breiting nie Skugge til Um̃breitingar, Jac. 1. So þoott ad Engill af Himne kiæme ad predika annad, ſem þo er Omogulegt, þa villda eg med Paulo ſegia: Ad þad bolvad vera ſkyllde, Gal. 1. Hlijdum þar fyrer Raade St. Peturs, er han̄ ſeger: Legged af Illſku alla, og oll Svikræde og Smiadur, og Ofund og alla Bakmælge, og gyrneſt hinnar ſkinſamlegu og hreinu Mioolkur, ſo ſem nijfædd Born, uppaa þad, ad þier þrooeſt fyrer þaa ſomu, ef þier ſmackad hafed hvad liwfur DRottenn er, til hvers vier komner erum, ſo ſem til eins lifanda Steins, hver af Monnum er burtkaſtadur, enn af Gude er wtvalenn og dijrmætur, 1. Pet. 2. Noottenn er um̃lidenn en̄ Dagurin̄ tekur ad naalgaſt, leggium þvi af Verkin̄ Myrkran̄a og Iklædunſt Herklædum Lioosſins, Rom. 13. JEſus Chriſtus er aa þeſſum bleſſada Dags-Morgne upprisenn. Hann er vordin̄ morgum til Falls og Uppriſu i Iſrael, epter þvi ſem hin̄ gamle Simeon Raad fyrer giorde, Luc. 2. Rijſum þvi upp med honum, ad ecke falle han̄ yfer oſs, og i ſundurmerie med hinum odrum, er honum burtkaſtad hafa, allra hellſt þar vier vitum Tijman̄, ad oſs er Maal ad rijſa upp af Svefni Syndan̄a, þvi nu er Hiaalpræded oſs nær, enn vier nockurn Tijma trwdum, ſagde Paall, Rom. 13. Vier vitum ecke hvad naalæg ad er vor Endurlauſn, edur nær Hofud-Engilſins Lwdur kvedur vid i Skijum Himins, og þar vort Paaſka Lamb Chriſtur er fyrer oſs Fornfærdur, þa holldum Haatijdina ecke i hinu gamla Swrdeige Illſkunnar og Prettviſennar, helldur i Oſijrdu Braude Hreinlyndiſins og Sannleikans, 1. Cor. 5. Þad Saklauſa Guds Lamb, ſem i burtu ber Heimſins Synder, Joh. 1. Þad verdur enn nu Foornfært i Himninum, ſvo opt ſem oſs verda Syndernar fyrergiefnar aa Jordunne, þvi ſeger Poſtulenn, Hebr. 9. Han̄ er i Himinin̄ inngeingin̄, ad han̄ byrteſt vor vegna fyrer Guds Augliti, ſiaalfur Foornenn, ſiaalfur Kiennimadurenn, og ſiaalfur Gud ſaa ed Foornina þyggur: Þvi ætte Chriſtenna Manna Lijferne ad vera eitt ſijfellt Paaſka-Halld, þar til þad fullkomnaſt i Guds Rijke epter hanns Loforde, og vier munum eilijfar Paaſker med honum hallda aa Lande lifande Manna, þar ed verda mun eilijfur Hvijldar-Dagur,

ur, Esa. 66. Og vier munum med føstu Elskunnar Bande teingiäst vid hann, sem oss hefur so heitt elskad, ad hann doo fyrer oss Rangliata, Rom. 5. Hvor ad er sialfur Upprisann og Lijfid, Joh. 11. Honum med Fødur og Heilogum Anda sie Oendanlegt Lof og Dijrd, nu hiedan i frä og ad Eilijfu, Am̄.

# Annann Dag Paaska.

Gudspialled, Luc. 24. Cap.

I Þañ Tijma. Og siä, ad Tveir af þeim gengu ä þañ sama Dag til nockurs Kauptuns, þad ed var frä Jerusalem Sextiju Skeida-Rwm, ad Nafne Emaus. Og þeir voru ad tala um̄ alla þa Hlute sijn ä millum, sem vid hofdu boréd. Og þad skiede, þa þeir ræddust vid, og spurdust ä sijn ä millum, ad sialfur JEsus nälægdist þä, og gieck jafnframt þeim. Enn þeirra Augu voru so halldiñ, ad þeir þecktu hañ ecki. Og hañ sagdi til þeirra: Hvad er þad fyrir Rædu, sem þid høndlid yckar ä milli Reikande, og erud hryggver þär af? Þa svarade eiñ, er Cleophas var ad Nafni, og sagde til hañs: Ertu alleina so Framande til Jerusalem, ad þu veitst eige hvad ä þessum Døgum þar iñi giørst hefur? Eñ hañ sagde til þeirra; Hvad er þad? Þeir søgdu til hañs: Þad, af JESU af Nazareth, hver ed var Spädooms-Madur, mättugur i Verkum og Ordum fyrir Gudi og øllu Foolki. Hverniñ ad vorir Høfud-Prestar og Høfdingiar selldu hañ i Fyrirdæmingu Daudans, og krossfestu hañ. Eñ vier vonudum ad hañ mundi endurleysa Jsrael. Og yfer allt þetta er nu hiñ Þridie Dagur i Dag, er þetta skiedi. So og hafa skielft oss nockrar Kviñur af oss til, þær ed ärla hofdu hiä Grøfiñe verid; og fundu ecki hañs Lijkama, komu og søgdu sig eirniñ hafa sied Englaña Siooner, þeir sem segia hañ lifa. Og nockrir wt af oss geingu til Grafariñar, og fundu eins lijka og Konurnar hofdu sagt, Enn hann säu þeir ecki. Og hañ sagde til þeirra: O! þier Heimsker og Tregier i Hiarta, ad trwa þvi øllu sem Spämeñirner hafa talad. Hlaut Christur ecke þetta ad lijda, og inngannga so i sijna Dijrd? Og hañ took til frä Moyse og øllum Spämoñum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar, þær af honum voru. Og þeir tooku ad nälgast Kauptwnid, þad þeir gengu til; Og hañ liet þa sem villde hañ lengra gannga, og þeir neyddu hañ og søgdu; Vertu hiä oss HErra, þviad kvøll-

da tekur, og a Dagiñ lijdur. Hañ gieck iñ og var hia þeim. Og þad skiede, þa hañ sat med þeim til Bords, ad hañ took Braudid, blessade þad og braut, og rietti ad þeim: Þa opnuduſt þeirra Augu, so ad þeir þecktu hañ, og hañ hvarf fra þeirra Augum. Og þeir sogdu sijn a mille: Brañ ecke ockar Hiarta i ockur, þa hañ talade vid ockur a Veginum, og opnade fyrer ockur Ritningarnar? Og þeir stoodu upp a sømu Stundu, og sneru aptur til Jerusalem, og fundu þa Ellefu samañsafnada, og þa sem med þeim voru. Hverier ed sogdu: DRottiñ er sañarlega uppriseñ og hefur byrtſt Simoni. Og þeir sogdu hvad giørſt hefdi a Veginum, og hverninn þeir hefdu þeckt hañ, i þvi hann braut Braudid.

## Exordium.

Þessa Hatijdis Dags Evangelio heyrum vier, ad Tveir af JEsu Lærisveinum gengu fra Jerusalem til nockurs Kauptwns, er nefndeſt Emaus, þad þijdir Kaſtala. Þad giefur mier þa Hugleiding, ad aller vilium vier, Brædur mijner, láta leida oss wt i eiñ sterkañ Kaſtala med David, Ps. 108. so vier kunnum Ohulltir bwa; Enn þad er Vanſied, hvert vier erum aller so fwser til ad gánga med JEsu Lærisveinum wt af Jerusalem; Eg meina ecke hana, sem er riettchristenna Maña Samkunda hier a Jørdunne, Gal. 4. edur hina, sem þar uppi er, hvar vor Umgeingne ætti ad vera, helldur hana, sem er i Þrælkan med sijnum Børnum, hvør ed myrdti sinn Konung, og giørdi hanns Hws ad Ræningia Bæli, Luc. 19. Þad er, wt af hiñi vondu Babylon, Op. B. 17. og 18. Hvør ad er Lijkneskia Verølldar þessarar, og ecki lætur af ad krossfesta DRottinn ad niju, og offækia hann i sijnum Limum. Vier heyrum i Gudspiallinu, ad JEsus hafi nálægſt þessa sijna Astvini a Veginum, og gengid jafnframt þeim. Sia um til, Brædur mijner, ad vier meigum og niota hañs Nálægdar a hinni hættu og torvelldu Leid vorra Lijfs-Daga, og ad hann gange jafnframt oss, þar til vier erum til vors sijdarſta Herbergis komnir. Vier vilium af Dæme þessara Tveggia læra: 1. Hvad vier eigum ad giøra og adhafaſt, so JEsus vilie unna oss sinnar Nálægdar. 1. Hverninn vier eigum honum ad hallda, so vier missum hann ecke.

Hialpa oss hier til, goode JESU, og upplijwk vorum Augum, ad vier þeckium þig! Bænheyr þad HErra, fyrer þijna Forþienuſtu, Amen.

## Utleggingenn.

OG Sia Ad Tveir Af Þeim Fooru Þann Sama Dag Til Nockurs Kauptwns; Seger Textenn. Af hverium? Af hanns Lærisveinum, sem umgengust med honum, fylgdu honum eftir, heyrdu hañs Kieñingar, hlijddu þeim, elskudu

udu hañ lifande og hvernudu hañ Daudañ, eñ voru ecke vijser i þvi ad hañ være upp aptur risenn. Vilier þu, Christenn Madur, ad JEsus uñe þier Nálægdar siñar, þa breit epter þessum aa allar Lunder. Haf þijna Umgeingne med JEsu, tala vid hañ i þijnum Bænum, i þijnu Hiarta, þa muntu fiña ad sw eilijfa Speken Guds hefur Lyst af ad bwa hiaa Mañaña Sonum, Ordsk. 8. Fylg honum epter, þad er, tak þinn Kross uppaa þig, añars ertu ecke hanns Læresveirn, Luc. 14. Hafe Gud þyrmt þier fyrer wtvortis Krossburde, þa gior þad þess helldur til Packlætes vid hañ, er so væger þijnum Breiskleika, og krossfest þitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, þvi svo segier Paulus, Gal. 5. ad þeir giore sem Christo tilheyra, þad eru þeir, sem eru Christi Læresveinar; Og nær þu temur þier soddañ Krossburd, þa maattu vita, ad hañ er þier nálægur, þvi hañs Kraptur er i breiskum maattugur, 2. Cor. 12. Heyr hañs Ord, laat þier þad vera sætara eñ Hunaang og Hunaangs-Seim, Ps. 119. Gack yduglega þaangad sem þad er kieñt og um Hond haft, og ecke fyrer Sidasaker, helldur til ad læra nockud þier til Trwarstyrkingar, til Huggunar, til Sidboota: Og vert viss um, ad hañ er þier nálægur, þvi hvar sem Tveir edur Þrijr eru samañkomner i mijnu Nafne (þad er, til ad prijsa mitt Nafn, heyra mitt Ord, og tala vid mig i þijnum Bænum) þar vil eg vera midt aa millum þeirra, segier DRottenn hiaa Matth. 18. Eñ um alla Hlute fram, þa kappkosta ad naa þvi Hlutskipte, sem bæde þesser hañs Lærisveinar og adrer hlutu, sem var, ad elska hañ: þad maatt þu sia aa þeirra Dæme; þvi lijser sialfur DRottenn, er hañ segier: Hvad Er Þad Fyrer Rædu Er Þid Hondled Yckar A Mille Reikande, Og Erud Hriggver Þar Af? Hvar fyrer voru þeir Reikande? Þvi Gud hafde slegid Hyrderen, og Sauder Hiardareñar voru sundurtvijstrader, Matth. 26. Hvar fyrer voru þeir hryggver? Þviad þeirra Meistare var tekeñ fraa þeirra Hofde: Hier med sijndu þeir Elsku þa, er þeir hofdu aa honum, og ecke leyner Cleophas Ordsokeñe til Sorgareñar i Andsvare sijnu uppaa Spurningu DRottens. Sia hvad kiærañ hañ hefur haft hañ, sogdu Gydingar, er JEsus taaradest vid Grof Lazari, Joh. 11. Þesser sijndu hvad kiærañ þeir hofdu JEsum, af þvi þeir syrgdu hañ laateñ. Gior sama, Christenn Madur, þar þu veitst hañ er uppriseñ, og situr til Kraptarens Hægri Handar. Elska JEsum, þa mun hañ þig elska, þvi so segier hañ, Joh. 14. Hvor hañ elskar mig, hañ vardveiter mijn Ord, og Fader minn mun elska hañ, og til hañs munum vid koma, og Vistar-Verü hiaa honum giora. Born Veralldareñar faast ecke miog um, þoott þau vante JEsum. Hvar fyrer? Þvi þau elskudu hañ alldrei. Saa griet ecke fyrer Gull, sem ecke aatte þad, segier Ordtæked. Heimureñ broser smaatt ad þvi, þoott JEsus hverfe honum, og þyker svo sem þad kome ecke sier vid, hvort hañ er uppriseñ edur ecke; Þegar hañ hefur sinn Gull-Hnott ad treysta aa, þa er hañ sattur; Þegar hañs Svijn, þad eru hañs saurug Verk og Ohreinar Gyrnder, meiga vera Omaksláus, þa er hañ til Frids þoott JEsus vijke wr hañs Landsaalfsum, Matth. 8. Þegar hañ hefur sijn Skwrgod i Dan og Bethel til ad vardveita sijn Landamerke, og til ad hallda Stioorn yfir Foolkenu, ad ecke falle þad fraa honum til

Guds Pioonuſtu ſiñ er i Jeruſalem, 1.Kong.12. þad er, i Guds Samkundu, tijdkaſt, þa þykeſt hañ hafa vijſlega um̃ ſig bwed; enn þeſſer voru ei ſo lynder. Hvad heyrum vier hier i Gudſpiallenu? Þeir Voru Ad Tala A VEigenum Um̃ Alla Þaa Hlute, Sem Til Hofdu bored. Og framar ſegier i Textanum: Þegar þeir voru ad bera ſig ſamann og ſpyriaſt aa, Hafe JEſus Naalægſt Þeim. Hvort hid ſierlegaſta Jñtak Ræduñar vered hafe, þad maa ſiaa af Andſvare Cleophæ, ſem er: Ad JEſus hafe vered Ofurſelldur i Fyrerdæmingu Daudans, og ſie nu allt hiñ Þridie Dagur ſijdann, enn Englarner hafe ſagt Kvinnunum ad hañ Lifde. Þeir hafa aan Efa vered ad bera ſig ſundur og ſamañ um̃ þetta, hvad hier um̃ hallda ſkyllde. O! hvad ſatt er þad, ſem DRottenn ſegier, Eſ.42. um̃ ſinn Son JEſum: Þañ brakada Reir mun hann ecke i ſundurbriota, og þann riukanda Lijn-Kveik mun hann ecke wtſlockva. Mikell var þeſſe Veikleike Læreſveinaña, hvar fyrer hann og aatalde þa hardlega, ſo ſem hier ſtendur ſijdar i Gudſpiallenu: Eñ meire var þo hañs Giædſka, ſem villde ſamlaga ſig þeim, og vera hinn Þridie Madur aa Reiſuñe, til ad leidrietta þa, ad ei ſkylldu þeir gaanga framar i þeſſare Villu.

Lucas ſkrifar, ad þeirra Augu hafe ſvo hallden vered, ad þeir þecktu hañ ecke: Þad hefur aan alls Efa af Gude ſkied: Hefde DRottenn ſtrax Opennberad þeim ſig, þa hefde hañ ei feinged ſvo Ordſok til ad laata þa ſkamaſt ſijn fyrer þeirra Vantrw og Þeckingarleyſe a Ritningunum, og ecke til ad kveikia þañ Bruna i Hiarta þeirra, ſm̃ Ordſakadeſt af Utleggingu Spaadoomanna; hañ hafde aadur noogu berlega talad fyrer þeim um̃ ſijna Pijnu og Upprisu, Matth.16. Eñ þad hafde þo ecke ſvo mikeñ Stad i þeirra Hiarta, ad þeir trydu Kviñunum, er ſogdu hañ uppriſeñ. Mikel var Blindne þeſſe; Eins og hann, ſem uppvakte Lazarum, Joh.11. Doottur Jairi, Marc.5. og Son Eckiuñar af Naim, Luc.7. Hann munde ei kunna, ad laata ſijna Saal fraa ſier, og taka hana aptur, nær honum þocknadeſt, Joh.10. Nu villde hann fyrſt laata þa þeckia Vantrw ſijna af Utleggingu Ritningaña, og ſijdañ auglijſa þeim, ad hann være hiñ ſame, er þær hofdu um̃ſpaad; Þar var ad ſoñu einn Trwar-Neiſte i Hiarta þeirra, enn hañ var ſvo diupt faleñ i Oſku Vanþeckingareñar, ad hañ, ſem viſſe hvad med þeim bio, Joh.2. villde fyrſt rydia heñe i burtu med Utleggingu Spaadoomaña, og ſijdañ blaaſa ad honum med ſijnum Anda, ſvo þar kviknade einn Elldur af, hvar ed ſijdann brann i þeirra Hiarta, hvad þeir ſialfer jaatudu. Vidlijka Atferd brukar DRottenn nu i Dag vid ſijn Born. Hvad opt eru vor Augu ſo hallden, ad vier þeckium hann ecke; Þegar vier rotum i einhvorn Mootgaang, þa kollum vier, ad hanns Hond ſie ſtutt vordenn, og ad hañ hafe forgleymt myſkunſamur ad vera, jafnvel þoott vier i Guds Orde hofum ſo morg Fyrerheit um̃ hanns Adſtod i Mootlætenu. Þegar oſs vantar hañs iñre Hugſvolun, fiñum ecke til hañs Anda, ecke til Fyrergiefningar Syndanna, oſs þykia þær ſtærre vera, eñ ad þær kuñe ſo audvelldlega ad fyrergiefaſt, þa eru vor Augu ſo halldenn, ad vier þeckium hann ecke. Morg eru ſlijk Tilfelle fyrer þeim, ſem Gud elſka; Og þarf þo ei ad kalla þad Tilfelle, eins og Læreſveinarner hier kolludu, þvi þeir þecktu ei Guds Raad;

minna

miña hender hañs Børn ean hanns Vilia, helldur er þad Reinsla Trwarennar, Þegar Meñ þykiast kallder i Bænenne, kallder i Ydraneñe, efast uñ sijna Utvalningu, vantreista sier ad þeir faae stoduger staded allt til Enda. Þegar vier fordæmum oll vor Goodverk, ef þau maa so kalla, og ætlum ad Gud mune ei taka þau fyrer Avexte Trwareñar, af þvi þau sieu so Ofullkomeñ, þegar oss slijkt ad Hondum ber, þa eru vor Augu so halldenn, ad vier þeckium hann ecke: Jaa, þegar ein almenneleg Synd verdur so stoor i þess Augum, sem eckert villde Gude aa moote giora, ad hann ætlar hann mune vera sier Reidur, eins og Læresveinarner, er þeir hofdu gleymt ad taka Brauded med sier, Matth. 16. Þa þeckium vier JEsum ecke. Enn nær vier hofum þanneñ yfirgiefed sialfa oss þa opnar hann oss fyrst Ritningarnar: J Mootlætenu segier hann oss þad sama og Læresveinunum: Byriade Ei Christo Þetta Ad Lijda Og Inngaanga So J Sijna Dijrd? Enn saa skal med honum lijda sem med honum skal Dijrdlegur verda, Rom. 8. Laate hañ hiñ Ogudlega vada uppe og hafa Jfirhondena, þa skipar hann oss med David, Ps. 73. inni Helgedoomeñ, þad er hanns Heilaga Ord og Ritningarnar, til ad skoda þar, hvorneñ hañ breyter vid þinn Gudlausa: Ef vor Saala er Orooleg i oss med David, Ps. 42. af einhvoriu þvi, er eg strax upptalde, edur odru þvilijku, þa skipar hann oss ad bijda epter DRottne, edur vier faaum ad heyra med Paulo: Laat þier nægia mijna Naad, miñ Kraptur fullkomnast i Breiskum, 2. Cor. 12. Og þegar vier so hofum leitad ad honum i Ritningunum, þa mun hann vera oss naalægur, þa finnum vier hann, þa blæs hañ aa Neista vorrar Trwar med sijnum Anda, so ad vier þeckium Pant vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Og efunst ecke uñ Guds Vinaattu nie eilijft Lijf, so leinge vier hann hofum, þa breñur vort Hiarta i oss, þar kviknar-Elldur Elskuñar, Elldur Trwareñar, Elldur Kiærleikans, sem eru Guds Foorner i hanns Mustere, sem er vort Hiarta. So er nu DRotteñ JEsus naalægur ollum þeim sem aa hañ trwa, þoott veiker sieu. Ommrædeleg var Giædska DRottens, i þvi, ad opennbera sig Astvinum sijnum strax sem hañ var upprisenn af Dauda, hvorier hann þo aller hofdu yfirgiefed og fraa honum flwed, Matth. 26. nema hañs Mooder og Johannes med faam einum Kvinnum, er stoodu vid Krossenn, Joh. 19. Jaa, Petre, sem honum hafde Prisvar afneitad, skipudu Englarner sier i Lage ad boda hanns Upprisu, Marc. 16. Mariu Magdalenu, fraa hvorre hann hafde wtreked Sio Diofla, Luc. 8. opennberade hann sig fyrst allra Manna, Joh. 20. An Efa, þvi hun hefur vered Sorgbitenn og Veiktrwud, þvi epter Christo spurde hun so sem framlidnum Manne: Þeir hafa burt-teked Herrann miñ, og eg veit ei hvar þeir hafa lagt hann: Og af Samtale DRottenns vid hana, maa þad mest raada, hvorsu honum hefur vered uñgiefed ad hugsvala þeirra Ormæddum Saalum. Snert þu mig ecke, sagde hañ, þvi eg em eñ nu ecke uppstijgeñ til mijns Fodur, helldur far til Brædra miña og seig þeim, ad eg fer upp til mijns Fodur og ydar Fodur, etc. Skilie eg þetta riett, þa er sw Meiningeñ: Maria hefur viliad fagna honum, sem von var, og þreifa aa honum, enn hañ liet sier so annt uñ vera, ad hun flitte sijnum Brædrum strax þennañ Fognud,

þvi varnade hann henne þess, ad ecke skyllde hun tesia sig, þvi eg em enn nu ecke uppstijgenn til mijns Fødur; Þier verdur noogur Tijme til ad tala vid mig, og þreifa aa mier, þar til eg uppstijg; far skyndelega og kunngiør mijnum Brædrum þessa Glede fyrst. Þesse hygg eg sie Meiningenn i Ordum DRottens: edur þvi skyllde hann annars banna henne ad snerta sig, helldur enn Thomæ og hinum Læresveinunum? Joh. 20. Enn hvornenn sem þessu er vared (eg læt hvørn einn raada sinne Meiningu hier um) þa tek eg þetta til Dæmes um Fodurlega Giædsku DRottens og Medaumkun med þeim Trwarveiku; þeir hofdu yfirgiefed hann, hann leitar ad þeim ad fyrra Bragde, þeir maattu reiknast burthlaupner, hann kallar þa sijna Brædur, Joh. 20. Þesser Tveir, sem geingu til Emaus, hofdu ecke nærre vered, þegar hiner adrer feingu Bodskapenn um þad ad DRottenn hefde byrtst Simoni; þo vill hann ecke ad þeir skule fara varhluta af þessare Blessan, helldur medtaka hana Samdægris og hann uppreis, eins og hiner; Hvar af þad maa sia, ad Trwarveikenn kann ecke ad hindra Naalægd Christi, helldur, so sem good Mooder lætur sier mest umhugad vera þad Barn sem veikt er, so er og DRottenn þeim naakvæmastur, er i Trwnne hvad veikaster eru. Ein veik Trw er þo Trw, ein vanheil Hond tekur eins vel vid Olmusu og ein fullhraust. Ein lijtel Trw er þo Trw; Einn Vatns-Drope er somu Natturu og Sioorenn; Ein lijtel Perla er þo Perla; Einn Neiste er og Elldur; Eitt Barn er so vel Manneskia, sem einn Fullordenn, Dvergurenn eins vel og Risenn. Doottur hinnar Canaanisku, Matth. 15. og hinn Tunglsiwke, Matth. 17. bæde voru þau af Dioflenum plaagud; enn eins hægt veitte Drottne ad lækna hann, þoott Fader hans være Trwarveikur, so sem hana, þott Mooder hennar være Trwarsterk, og eins vel hiaalpade Drottenn Konungs-Mannenum, Joh. 4. so sem Hundrads-Hofdingianum, Matth. 8. Enn hvad skulu þeir nu til Marks hafa um þad, sem Trwarveiker eru, ad þeir sieu i Trwnne? Hun er so lijtel aa Stundum og Olioos, ad vier þeckium hana ecke, þott hun sie inne hia oss. Magdalena saa JEsum og talade vid hann, enn þeckte hann þo ecke, Joh. 20. Sama hender og Guds Børn, ad þau ei þeckia JEsum aa Stundum, þoott hann gange jafnframt þeim, eins og þessum Læresveinum. Skodum þvi Dæme þeirra, og færum þad heim uppaa oss: Þeir voru Sorgbitner; Hvar af? Þvi þaa vantade JEsum. Siert þu og hryggur af þvi, ad þu finnur ecke þinn Lausnara i Hiarta þijnu, þad er, nær þu efast um Syndanna Fyrergiefning, þa leita epter honum med Brwdenne, er gietur um i Lofkvædenu, Cap. 5. Þu veitst ecke hvar þeir hafa lagt HErrann þinn, eins og Maria, þa brwka þessa Sorg til ad lækna sialfann þig med. Holld og Blood vekur hana ecke, þad sorgar fyrer þvi sem Madurenn aa ad eta og drecka, enn ecke fyrer Christo. Guds Anda Verk er hun i þier, og er Christur þa ecke laangt i burtu, þvi hann og Heilagur Ande eru eitt, og mun hann koma i Leitena þegar minnst Vonum varer.

Þesser Guds Viner voru ad tala um alla þa Hlute, sem tilfalled hofdu, um Kraptaverk DRottens (þar þeir sogdu hann hefde vered Spaadooms-Madur, Maattugur J Ordum Og Verkum), um hanns Pijnu, um hanns Upprisu: sem lioost er af Gudspiallenu,

enu. Haf og þetta til Merkis: Sie þier inndællt ad tala um̃ Gud, um̃ hañs Daasemdar-Verk, hañs Stoormerke, hañs Velgiorninga, hafer þu þijna Lyst i þessu og meger giarnann heyra adra tala þar um̃, þa bijr Christur i þier. Enn hafer þu Leida a Guds Orde, þyke þier um̃ allt annad meira Gaman ad tala, ef þu venur Muñ þiñ til swllrar Rædu, sieu skam̃arleg Ord og sijtslegt Hial þitt Epterlæte, hallder þu Guds Dijrkun fyrer eckert, þyke þier lijted koma til þess ad þioona honum, og metur hañs Um̃bun ei ad miklu, helldur forsmaaer þaa er til hañs vona; Þa tak þier Vara: Þvi so sannarlega sem JEsus er þeim nalægur, sem laangar eptir honum, þoott Veiktrwader sieu, so vissulega er hann þier horfinn, þoott einkis Meins þykest þu kienna, og fæst ecki aptur nema med heitre Bæn og sannre Ydran. Nu þoott þad sie heilnæmt og Gudi þocknañlegt, ad tala um̃ alla DRottiñs Velgiorninga, þa er þo eckert Huggunarsamlegra, eñ ad tala um̃ hañs Dauda og Upprisu, so sem þesser giordu. Þeir toludu i Faafrœde og Einfalldleika. Eñ Gud giæfi! ad vier, sem betur erum uppfrædder i þessare himnesku Speke, helldur eñ þeir voru i þad Siñ, vier villdum þess helldur laata oss þessar Haaleitu Guds Daasemder til Hiarta gaanga, og oss i Nyt færa, sem vier erum Sañfroodari hier um̃. Eckert er þad i voru Saaluhiaalpar Verki, ad Miñing JEsu Kvala, hanns Dauda og Upprisu kunne ecke ad wtrietta i þvi Hiarta, sem yduglega þar um̃ hugsar. Þegar eg miñest a Synder mijnar, sem opt hafa styggt fraa mier Gud, hiñ ypparsta Gooda, og mier ecke so hitnar i Briooste, sem eg giarnañ villde, þa mætte þad koma Sudunne upp a Hiarta mijnu, ad Guds Sonur er fyrer mig Raanglaatann Saklaus kvalenn og deyddur, Rom. 5. Þykest eg i Bæninne kalldur vera, þa mætti þad smellta Hiarta mitt, ad Guds Eingietinn Sonur sveittist Bloodinu, er hann badst fyrer, Luc. 22. under minne Synda-Byrde, og vard þo ecke bænheyrdur, so hann giorde mijna Bæn kroftuga fyrer Gude, þoott hun sie veik. Hafi eg Oþocka a nockrum Manne, og giet ecke so fliott drepid þaa Freistingu, þa hugsa eg til þess, ad DRottiñ miñ bad fyrer Ysertrodslu-Moñunum, þeim er hañ kvolldu, Luc. 23. og mun eg braadlega skam̃ast mijn, ad rækia þad Lijtilræde, er minn Brooder mier til giorde. Elske eg Heimenn edur nockud þad sem i honum er, þa rekur hañs Elska þad braadlega wt, sem doo fyrer mijnar Synder, þegar eg var hanns Ovinur, Rom. 5. so eg mege eilijflega lifa, ef eg forsmaai Heiminu, enn elska hann sem mig hefur so heitt elskad. Ofbioode mier Stærd minna Synda, þa minner heilagur Ande mig a, ad Gud er daaenn i mijnu Hollde, og hafi eg sied hann daaenn fyrer mijnar Synder, þa sie eg hann vel upprisenn mier til Riettlætis, Rom. 4. Lærisveinarner þecktu DRotteñ, i þvi hañ braut Braudid; So þeckia og christnir Meñ hañ allra best, nær hañ brijtur oss þad helga Braud i Altarisins Sacramento, sem ad er Meddeiling hañs Lijkama, og drecka þañ Blessunareñar Kaleik, er vier blessum, sem og er Meddeiling hañs Bloods, 1. Cor. 10. Þa er hann oss hvad nalægastur, þa siaaum vier hann hvad best med Augum Trwarinnar, þa þeckium vier hanns Guddoomlega Elsku, og skodum hañs Myskunar-Ydur algiorlega, ad hann ecki einasta

hefur

hefur giefid sitt Lijf i Daudann fyrer oss og wthellt sijnu Bloode, helldur og fædir Saal-
er vorar aa þvi hinu sama oss til Trwarstyrkingar um̃ alla sijna Velgiørninga, þar
kunngiørum vier hanns Dauda, þar skodum vier hann upprisenn: Þvi læge hañ eñ þa
i Grofinne, hverninn mætte hann giefa oss sitt Holld ad eta edur sitt Blood ad drecka?
Nu hefi eg so nockud talad um̃ hvorninn vier eigum ad skicka oss, so JEsus vilie oss naa-
lægiast. Epterfylger ad minnast aa, med faaum Ordum, hvernig vier eigum ad hallda
honum, so vier missum hann ecke.

Þad er ecki minna verdt ad giæta feingins Fiaar, enn afla þess: Og þad maa segia
um̃ JEsum. Margur hefur ad sønnu feinged hann Einusinne inn til sijn, er þo hefur
mist hann sijdan, og sumir alldrei aptur feinged. Judas sellde hann eitt Siñ fyrer
Agyrndar Saker, Luc. 22. og miste hanns so ad Eilijfu: Hann mun sier marga Stall-
Brædur i Heiminum eiga. Petur miste hann og, enn fieck hann þo aptur med beiskum
Graate, Matth. 26. Þvi er þad vijst hieraf, ad Meñ kuña ad missa JEsum, þoott Meñ
hafe eitt Sinn notid hañs Nalægdar. Þar fyrer bañar Paulus og ad hryggia heilag-
ann Anda, Eph. 4. Jaa, hann seger: Vier skulum ei slockva Andann, 1. Tess. 5. So-
mu Atburde skal til þess hafa ad søñu ad hallda JEsu, so sem ad lada hañ ad sier i fyrst-
uñe; Hverigt gieta Meñ aan Guds Anda, þvi einginn kan JEsum DRotteñ ad nefna
fyrer utañ hañ, seger Paulus, 1. Cor. 12. Enn ad mootstanda ecki heiløgum Anda,
þad er i Mannsins Vallde, sierdeilis þess, sem endurfæddur er med Vatne og Anda.
Eg vil ei Itreka þad aptur, sem aadur er sagt, um̃ þad ad niota JEsu Nalægdar; Eñ
eitt sie eg hier i Fare Lærisveinanna, sem batt hann svo, ad hañ gieck iñ og var hiaa þeim;
Hañ Liet Sem Hañ Villde Leingra Gaanga: Enn Þeir Neyddu Hañ Og Sogdu:
Vert Hiaa Oss HErra, Þviad Kvollda Tekur Og aa Dageñ Lijdur. Hvilijk ad ha-
fe vered Naudung þesse, er audsied hier af, þad var ein audmiwk Bæn: Soddann Of-
rijke hefur DRottenn opt lided; So neydde hann Konungs Madureñ, Joh. 4. So
neydde hann hin Cananaiska, Matth. 15. So neydde Abraham Gud, er hañ bad
fyrer Sodomitum, Gen. 18. So neydde Moyses hañ, er honum tookst ecki annad eñ
myskuna Israel; So neydde Jacob hann, er hann sagde: Eg sleppe þier ecki, fyrr enn
þu blessar mig, Gen. 82. JEsus lætur opt sem vilie hañ leingra gaanga, þegar hañ
leggur oss sinn Kross aa Herdar, enn vier siaaum ecke, ad hann er oss nalægur, so sem
aadur er sagt; Þegar vor Eyrende luckast ecke, sem vier þo rekum i hanns Nafne, fyrir
Mannanna Ofbelldis Sakir, enn vier þeckium ecke hanns Tilgaang. Hvad skal þa
hier til giora? Eigum vier þa ad sleppa honum, og leita Raads hiaa Heiminum? Fi-
aarri sie þvi. Hvad þa? Giørum eins og þesser giordu? Neydum hann med aud-
miwkre Bæn og Andvorpunum, ad hann vilie hiaa oss vera. Engvum af oss hefur
þvilijk Sorg tilfalled, sem þessum Guds Vinum; Þeir høfdu mist hann, sem þeir høf-
du allt sitt Traust aa, fyrer hvern þeir kannskie høfdu yfergiefid alla Hlute, eins og Pet-
ur sagde um̃ þaa Tolf, Matth. 19. Þeir voru eptir i Hers-Høndum, og þordu var-
la

la ad siä uppä nockurn Mann, þar aller vissu ad þeir hofdu verid hanns Lærisveinar, er so mynkunarsamlega var wtleikinn fyrir Skomu; Og hversu uggvænt þeim verid hafi, þad sijnir oss bædi Dæmi þeirra, er forlietu hann i Grasgardinum, og St. Peturs, er Ottinn þreyngde honum til ad kannast ecki vid hann, fyrer hvern hann þo skomu ädur villdi Lijfid läta, Matth. 26. sem og þad, ad þeir lokudu Dyrunum ad sier, fyrer Hrædslu Saker vid Gydinga, Joh. 20. Samt neyddu þeir þennann Framande Mann (þvi ei vissu þeir þa annars), til ad vera hiä sier: Hvar fyrer? Af þvi hann talade um JEsum, og opnade fyrer þeim Ritningarnar, so þeirra Hiarta brann i þeim. Þessum Manni villdu þeir ecke fyrer hvern Mun sleppa. Enn þu, Guds Barn, sem þecker JEsum, og veitst hann upprisinn og setstann til Kraptarins hægre Handar, ad hann bidie fyrer þier, Rom. 8. Villt þu ei taka þetta sama Räad, þegar þier sijnist hann vilie fram hiä þier gänga? O Jw, Guds Barn, Fodurlegt Hiarta hefur Gud: Þann er hægt ad locka, er siälfur vill dansa: Þu tekur alldrei so feigins Hendi vid Guds Nädar Hugsvolun, nær þig längar eftir DRottni ä Þurrlendinu, eins og David, ad hann sie ecke liwfare til ad veita þier hana. Þegar Alexander hinn stoore hafde lagst um Borgina Tyrum med sijnum Her-Flockum, þä skrifar Plutarchus, ad suma af Bæar-Monnum hafi dreymt, ad Godinn villdu flytia wr Borginni og i Herbwdir Konungs, enn þeir bundu þau med Hleckium, ad ei skylldu þau i burtu komast. O hversu mikid hofum vier, Christner Menn, Gudi ad þacka! Grätlegt er til þess ad vita, hverninn Andskotinn hefur blindad Vantrwarinnar Born. Veselings Guder voru þad og aumur Atrwnadur, ad trwa ä þann, sem þeir ætludu ad þeir mundu fä til Fänga tekid: Enn DRottinn JEsus hefur feingid oss adra Feste til ad binda sig med, þad er hanns eigenn Bæn, hvor ed ritud stendur hiä Lucam i 11. Cap. og Matth. 6. Og skomu sijdar i sama Capitula kiennir hann oss, hverninn vier skulum leggia þessi Bond ä sig med þessum Ordum: Bidied og mun ydur giefast, leited, og munud þier finna, knijed ä, og mun fyrer ydur upploked verda. Og enn þa framar kiennir hann oss, hversu ad þessi Festi sie sterk og Obilande, er hann seger: Þvi hver sem bidur, hann skal medtaka, og hver sem leitar hann skal finna, og hver sem ad äknijr, fyrir honum skal upplokid verda. Enn med þessu hefur hann sijnt, ad oss ecki einasta byriade Oaflätanlega ad bidia, svo sem Lucas vottar, 18. Cap. helldur heitt og äkaflega, eins og DRottinn i Grasgardinum, Luc. 22. Eins og Tertullianus skrifar um Christna ä sijnum Dogum, ad þeir komi saman i Eitt, og med nockurskonar Fylkingu og Athlaupi taki Gud til Fänga. O hvad Olijk er þessi kallda Verolld slijku! Menn hyggia þad sie noog, ad falla a Knien og hallda Klutnum fyrer Augunum, og murra þar eitthvad, er þeir ei siälfir skilia, eins og Esaias skrifar um Phitons Andann, og þä sem fooru til Frietta vid hina Dauda, Esa. 8. Er þetta Samneyte Heilagra? Er þetta hin sanna Christilega Kyrkia? Mun nockud Andinn bidia fyrer þeim med Oumrædilegum Andvorpunum? O vei! sannlega sege eg ydur, ad betra er alldrei ad bidia, þvi

þeirra Bæn verdur ad Synd, Ps. 109. og þeirra Guds Pioonusta ad Offri hinns Fævijsa, Pred. 5. Þessara Lærisveina Hiarta brañ i þeim, ædur eñ þeir neyddu hañ med sier iñ ad gæanga. Siæ og til, christeñ Madur, ad þu æ einhvern Hætt fæir snellt þitt Hiarta, ædur eñ þu krijpur fram fyrer Guds Hætign i þijnum Bænastad: Þad er hægt ad giora i Kyrkiuñe undir hañs Orda Heyrn, ef þad er riett predikad, og þu liær þvi Eyrun, og þar fyrer utañ; Strax sem þu Augunum upplijkur æ Morgna, þa Jhuga hañs Giædsku og þijna Illsku, hañs Tign og þiñ Overdugleik, hañs Velgiorninga og Vernd yfer þier, og þitt Hyrduleysi og Vanþacklæti, og nær þu hefur so giort um Hrijd, þa gack til Bænariñar, og bid Andañ ad bidia med þier, þvi þu vitir ei hvors þu ætt ad bidia, Rom. 8. Brwka somu Adferd æ Kvolldum, og læt þessa Þænka svæfa þig, þa er þad vijst, ad þu verdur æ einhvern Hætt bænheyrdur, P.S.7. Moyses var eitt fagurt Barn Alits, sem Ritningeñ seger, hañ predikade so vel fyrer Doottur Pharaonis med Barns-Grætinum, er hañ læ i Reyr-Kistlinum, ad hun komst vid i sijnu Hiarta, og sæ Aumur æ honum, Exod. 2. Miklu fegre mun sæ vera i Guds Auglite, sem med JEsu Bloode er ædreifdur. O! hverniñ munu hanns Myskunar-Ydur sæ leint sier, nær hann heyrer þeirra Græt og sier þeirra Tæar, sem wt eru hellt i hid rauda Haf Guds Eingietins Sonar dijrmæta Bloods, hvert miklu betur kallar eñ Abels Blood, Hebr. 12. Þar fyrer, mijner Elskuleger, gleimid ecke ad bidia iduglega og alvarlega um Næviſt JEsu; Sleppid honum ecki fyrr enn hañ hefur blessad ydur til fulls. Þegar honum er tapad, þa er ollu tapad; Medann þier honum fast hallded, þa er ollu hallded, þoott þier missid alla Hlute, og jafnvel sialfst Lijfed, þa erud þier jafn-rijker, þegar þier eiged hann, sem allt Valld er giefid bædi æ Himni og Jordu, Matth. 28. Og hafi þar nockurñ Tijma verid Þorf æ ad neyda JEsum til ad gæanga inn til sijn, og vera hiæ sier, þæ er þad æ þessum sijdurstu og verstu Dogum. Vert Þu Hiæ Oss HErra, Þviad Kvollda Tekur Og æ Dageñ Lijdur; sogdu þesser Guds Menn. Þad mæ kalla, ad allareidu taki miog so til ad kvollda i Heiminum: Myrkur Ranglætisins taka til ad byrgia fyrer oss Sool Riettlætisins, hin saña Guds Þecking og Skilningur æ hañs H. Ordi, er umsnwiñ i Kapprædur og Þrætaner: Þeir sem eiga ad hafa Lykil Vitkuñar stunda þad mest, hverniñ þeir mege flækia adra i Spurningum, þeim er þeir ecke sialfer skilia, og þykiast mikler Meñ, þegar þeir vel Muñhoggvast; Enn hiñi soñu Þeckingu Guds og hañs Lærdooms sleppa Menn nu um Stunder, og þad velldur þvi ad nockru Leite, ad Lijfernid er eingannvegiñ so sem Christnum soomir, þar Meñ læta Guds Rijki vera foolgid i Ordum einum. Meñ hafa Skyn Gudhrædsluñar eñ afneita heñar Krapte, 2. Tim. 5. so varla er ad fiña Trw æ Jordu, Luc. 18. Eg meina þæ Trw, sem verki fyrir Kiærleikañ, Gal. 5. So þad er stoor Naudsyn ollum Guds Bornum, ad neyda Christum ad vera hiæ sier, þar allt teiknar til þess, ad Dagur DRottiñs muni ei længt i burtu vera, og þoott ei væri, þa veit eg ecke nema þad Augnablik, sem eg lifi æ, sie Kvolld miña Lijfdaga, þvi vil eg JEsu hallda og honum ecke

sleppa,

sleppa, so nær sem eg dey, þa deye eg med Lausnara miñ i Fadmenum, og ad hvort sem eg life edur dey, þa sie eg hanns, Rom. 14. Slepp þu mier, sagde hann Fordum vid Jacob, þviad nu Dagar, Gen. 32. Minn HErra, eg vil ecke sleppa þier, þviad nu Kvolldar; Eg sleppe þier ecke fyrr enn þu blessar mig, þvi eg veit ecke nær enn Myrkur Daudans byrgir mijn Augu. Noottenn er umliden, eñ Dagureñ tekur ad nalgast, sagde Paull aa sijnum Dogum, Rom. 13. Þad var og satt, þviad þa var Sool Riettlætesins, so ad segia, nijlega upprunnenn, og skein fagurt i Heimenum leinge fram epter Olldunum. Enn nu ætla eg ad þessu meige umhversa, og segia: Dagureñ er hartnær umlidenn, enn Nootteñ er i Naand. Vert þvi hiaa oss HErra, þviad Kvollda tekur og aa Dageñ lijdr. Jaa; O HErra JEsu Christe! Þegar dregur ad Rockre Æfe vorrar, og vor Augu taka til ad formyrkvast i Daudanum, so þau sia ecke leingur; Vert þu þa hiaa oss, þegar aller hafa forlaated oss, og vier sialfer hofum yfirgiefed oss, enn varpad Saalu og Lijfe i þiñ Myskunar-Fadm; Laat oss þa leggia vora Truar-Hond i þijna Sijdu, og hennar Fijngur i Naglaforenn, og gief ad vier þa sieum Trwader og ecke Vantrwader. Upplijk þa vorum Saalar-Augum, ad vier þeckium þig oss af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar. Bænheyr þad goode JEsu, fyrer þitt Blood og Forþienustu, Amen, i JEsu Nafne, Amen.

# Þridia Dag Paaska.

## Gudspialled, Luc. 24. Cap.

A Þañ Tijma. Þa Læresveinarner voru nu eñ ad tala uñ þetta, stood sialfur JEsus midt i mille þeirra, og sagde til þeirra; Fridur sie med ydur. Eñ þeir skielfdust og urdu hrædder, og meintu ad þeir sæe Anda nockurn. Og hañ sagde til þeirra: Hvar fyrer skielfest þier, og þvi koma slijker Þanckar i ydar Hiortu? Siaaed mijnar Hendur og mijna Fætur, ad eg em þetta sialfur. Þreifed aa mier og skoded, þviad Ande hefur ei Holld og Bein, so sem þier siaaed mig hafa. Og þa hañ sagde þad, sijnde hann þeim Hendur og Fætur. Og er þeir trwdu eñ eige fyrer Fagnadar Saker, og undrande þad, þa sagde hañ til þeirra: Hafed þier hier nockud Matarlegt: Og þeir logdu fyrer hañ Stycke af Steiktum Fiske, og Hunangs Seim, og hañ took þad og aat fyrer þeirra Augum. Og hañ sagde til þeirra; Þetta eru þau Ord, hvor eg talade til ydar, þa eg var eñ nu hiaa ydur, þviad þad hlaut allt ad fullkomnast sem af mier er skrifad i Moysis Logmaale og i Spaamañaña Bookum og Psalmum. Þa opnade hañ þeirra Hugskot, so ad þeir skildu Ritningarnar,

nar, og sagde til þeirra; So er þad skrifad, og svo byriade Christo ad lijda, og upp ad riisa a Pridia Deige fra Daudum, og predikast laata i sijnu Nafne, Ydran og Fyrergiefning Syndaña a medal allra Pioода, uppheflande i Jerusalem. Eñ þier erud Vottar allra þess-ara Hluta.

## Exordium.

Fridur a Jordu og Monnum goodur Vilie! Swngu Englarner Fordum, þeg-ar Mannkynsins Endurlausnare var i Heimeñ borenn, Luc. 2. Þa maattu þeir Himneſku Andar lijsa þessu Fridar Bode i Umbode sijns HErra, þar hañ laa eitt Omaalga Barn i Stallenum, og aatte þo margt epter Ogiort, sem ad þurfte, til ad semia þennann Frid mille Guds og Manna. Enn nu, þar hann fyrer Krossens Dauda hafde afmaad allann Ovinskap, sem hañs Utvallda maatte fra eilijfum Fride hindra, þa lijser hañ sialfur þessum Fride yfir sijnum Elskulegum Læresveinum, hvor-ier ad sijdann fooru med þetta Fridar Bod wt um allann Heimenn, epter hañs Skip-an. Enn fyrer þvi, ad vier erum og þessa Fridar Bods Hluttakande vordner, þa vil-tum vier af Gudspiallenu hugleida. 1. Hvilijkur ad sie þesse Fridur. 2. Hvorn-enn vier eigum honum ad taka. Þar til hialpe oss hinn goode Gud, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Hvilijkur ad þesse Fridur sie, Brædur mijner, þad sia Meñ, nær Menn athuga hvilijk ad var Sekt Mañkynsins, er þad styggt hafde hinn Almaattuga Gud. Er Fridur Jehu? Sagde Fordum Joram Israels Konungur, er hann mætte honum a Veigenum, eñ Jehu svarade: Hvad gillder þig um Frid? Þar Hoordoomar og Tofrar Moodur þiñar vara eñ nu, 2. Kong. 9. Ad vijsu er þad satt, ad vor fyrsta Mooder hafde ecke þær Skamer adhafst sem Jessabel, eñ þo maa ecke þvi neita, ad af heñ-ar fyrstu Synd, eru komnar allar þær Synder, er i Heimenum hafa sijdañ drygdar ver-ed. Þeirra Sekt varde allt til þess, ad vor Fridar Hofdinge neglde þa Handskriftena a Tried, sem i giegn oss var, under eins og hañs blessudu Hendur og Fætur voru a Kross-eñ negldar. Þar var engeñ riettkalladur Fridur ædur, fyrer syndugt Mañkyn, jafn-vel þoott ad Syndeñ være allt þangad til under Guds Poleñmæde, Rom. 2. Noe byg-de DRottne eitt Altare, epter þad hañ var frelsadur af Vatns-Floodenu, og Fornfærde þar a allrahanda hreinum Dijrum, so ad Gud lyktade einn Sætleiks Ilm og lijste Fride yfir Mañkynenu, segiande: Ecke vil eg framar bolva Jordunne fyrer Mannsins Saker, Gen. 8. Þesse Fridur næde þo ecke nema til Lijkamlegs Frelsis, enn þa voru Saalernar Okvittar vid Gud, nema hañ hefde vitiad vor, upprunneñ af Hædum, i sijn-um Myskunar Ydrum, med Sendingu sijns Eingietens Sonar i vort Hoild, þegar þad saklausa Guds Lamb var a Krossenum foornfært fyrer allar Veralldareñar Synd-

er, med hvoriu ad bæde Noa og allar adrar Gamla Teſtamenteſins Foorner eru helgad-
ar og fullkomnadar, þa lyktade Gud til fulls einn Sætleiks Ilm. Og þegar hañ hafdi
hiꜳlpad honum wt af Daudanum, ſem Paulus ſegier, Hebr. 5. wt af þvi Reidennar
Floode ſem gieck iñ ad hanns Sꜳlu i Kvøleñe, þa hefur þeſſe mikla Hetia, ad uppleyſtum
Daudans Fiøtrum, med øllum Riette lijſt þeſſum Fride yfir ſijnum Brædrum. Þegar
Brædur Joſephs høfdu funded Fied i Seckiunum, er þeir ecke ꜳttu Von ꜳ, þa urdu þe-
ir Ottaſlegner, ſo þeir viſſu ecke hvad þeir ſkylldu til Rꜳds taka, Gen. 43. þa ſagde
Rꜳds-Madur hañs til þeirra: Fridur ſie med ydur, otteſt þier ecke, ydar Gud og ydar
Fødurs Gud hefur ſendt Fied i ydar Sioodu. Þeir høfdu i þad Sinn eckert illt giørt,
ſamt ottuduſt þeir og meintu ſier munde kieñt verda uñ þeſſa Varmeñſku. Eñ hvad haf-
de ſyndugt Mañkyn i moote Gude giørt? Þad hafde rænt hañ ſijnum Heidre, þad hafde
lijflꜳted hañs Eingietenn Son med ſijnum Illgiørdum, og, ofann ꜳ allt þetta, ecke
þeckte meir ſinn Vitiunar-Tijma, Luc. 19. helldur enn Jacobs Syner viſſu, hvørnenn
Fied var apturkomed i Secke þeirra. Veralldlegir Høfdingiar, er þeir giøra Frid vid
añañ, þa ſtadfeſta þeir hañ med Briefum og Ritningum, edur og ſeliaſt Giſla ꜳ. Þeſs
þurfte ei hier af vorre Hende, þvi vier ꜳttum vid þann einn ad ſkipta, ſem einga Viſſu
þurfte af vorre Alſu og ꜳ alls Koſte vid oſs, ef vier ecke holldum hañs Fridar Sꜳttmꜳl.
Eñ ſo hañ tæke allañ Efa frꜳ ſijnum Læreſveinum uñ þetta Fridar-Bod, þa ſijner hañ
þeim þad, ſem øllu ſterkara og Obrigdulla var, eñ nockurs Konungs Hønd edur Iñſigle,
er hann ſijnde þeim ſijnar Hendur og Fætur. Gledelegt var þetta Fridar-Bod Lære-
ſveinunum, Br. M. Eñ ecke høfum vier miña þeiged i þvi, hvørra Fedur voru ꜳn Guds
i Heimenum, Eph. 2. Hvilijkur er hañ, ſem vier høfdum flwed frꜳ, Jꜳ, frꜳ hvørium
vier daglega flijum, og briootum hañs Rꜳd af oſs med Syndunum? Þad er Konung-
ur Himens og Jardar, DRottenn ſterkur Vandlætare, vitiande Rꜳnglætis Fedrañа
ꜳ Sonunum i Þridiu og Fioordu Ættkvijſl, Exod. 20. Jꜳ, munde vitiad hafa i Þuſ-
und Lidu, allt til Enda Veralldar, nema ad vier, riettlætter fyrer Trwna, hefdum Frid
vid Gud fyrer DRotteñ vorn JEſum Chriſtum, Rom. 5. Nu er þad vijſt, ad Synden̄
reiknaſt ſo ſtoor ſem hann er til, ſem hun er ꜳ moote giørd. Enn uñ Guds Hꜳtign er
kunnugra, enn frꜳ þurfe ad ſegia. O Guds Barn! Hvilijk Glede er þad þa, ad hafa
Frid fenged vid ſvoddañ Konung, og ſvoddañ einn Frid, ſem alldrei uñ Æfe mꜳ riwf-
aſt, nema hañ af oſs rofenn verde! Hvar fyrer þvi er ecke ad gleyma, ad ſkomu ꜳdur enn
DRotteñ fieck Læreſveinunum i Hendur Lykla-Vallded til ad fyrergiefa og apturhallda
Syndunum, þa lijſte hañ Fride yfir þeim, Joh. 20. Þar fyrer nær þeſſe Fridur til allra
þeirra, ſem taka Kvittun Synda ſiña af Gude, fyrer hañs Rꜳds-Manna Þioonuſtu.
Hun er eitt Aflꜳts-Brief, ſem Chriſtur underſkrifar med þeirra Hende ꜳ Høfud allra
Riett-trwadra, eñ iñſiglar þad ſiꜳlfur i þeirra Hiarta med Heiløgum Anda, hvør ad
er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þeſs gietur Paulus, 2. Cor. 5. ſegiande: Gud
hefur i Chriſto ſætt Heimenn vid ſiꜳlfann ſig, tilreiknande þeim ecke þeirra Yfer-

trodslur, og leggiande oss uppaa ad boda Forlijkun þessa. Þvi hvers Synder kvittar eru, hañ hefur Frid vid Gud, Frid vid hanns Logmaal, og Frid vid Samvitskuna. O! hvorsu fagrer eru þa Fætur þeirra sem Frideñ boda, Esa. 52. Og hvad kunne gledelegra þeim ad bodast, er sitiu i Myrkrunum, eñ þesse Fridur! Nah. 1. So vier meigum þvi fagna, er Zacharias skrifar, Cap. 9. Hañ mun fyrer Testamentesins Blood wtleida hina Bundnu af þeirre Grifiunne, hvar eckert Vatn var inne, og boda Heidingiunum Frideñ. Og hefur hin eilijfa Giædska ecke lꜳted þar med bwed, ad hañ hefur giefed oss Syndernar kvittar, og giort Frid vid oss i sijnum Syne. Pad dijra Gialld, sem hin eilijfa Hꜳtign lauk i voru Hollde aa Krossenum, mꜳtte enn þa meire Blessan, meire Sælu, og meire Fognud afreka, þad var, ad hañ sette oss i sijns Sonar Rijke, Col. 1. Hvort ad ecke er Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, Rom. 14. Þegar Veralldleger Hofdingiar giefa einhvorium Grid, þa þyktast þeir vel giora, ef þeir lꜳta hañ hallda Lijfe og Lands-Vist. David gaf Simei Lijf, 2. Sam. 16. og þootte vel giort, wr þvi sem rꜳda var. Salomon gaf honum Lands-Vist, þo med þvi moote, ad hann fære ecke wt af Jerusalem, 1. Kong. 2. Josua gaf Gibeonitunum Frid, og þad til ad hallda Loford sitt er hañ villde ecke bregda, og lagde hañ þeim þo nockurskonar Prældoom uppaa, ad hoggva Trie og bera Vatn til Þioonustugiordarennar, Jos. 9. Enn hvad er Gud skylldugur ad hallda vid oss Mennena, sem daglega brioota hañ Eid, er vier unnum honum i Skijrneñe, nær hañ trwlofade oss sijnum Syne fyrer hañs Blood med Heilogum Anda? Jaa, hvad opt hofum vier rofed þad Heit, er vier so tijdt hofum giort honum i Skrifta-Stoolnum, ad aflꜳta og sia vid Syndunum? Og samt hefur hann ecke einasta uppgiefed oss, og daglega uppgiefur ollum þeim, sem vid hann fridmælast, alla Skulldena, og þau morg Tiju Þusund Punda, er vier so tijdt verdum honum skyllduger, Matth. 18. helldur lofar oss Omælannlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, fyrer Munn sijns Þienara St. Paals. 2. Cor. 4. ollum þeim sem bera vilia hid sæta Ok Christi, og hanns liettu Byrde; Jaa, ollum þeim ed sier til hanns snwa vilia fraa sijnu illu Athæfe og vondre Breitne, allt fram under Daudastundena. Hvilijkur er þa þesse Fridur? Edur hvor fær hann nooglega prijsad? Ecke hefur DRottenn heited sijnum Bornum Veralldarennar Fride, miklu helldur segier hann, þeir skule hafa Angist i Heimenum, Joh. 16. Enn þvi hefur hann lofad, ad þeir skylldu hafa Frid i sier, Joh. 15. Jaa, þann Frid sem Verolldenn kann ei ad giefa, og þann Frid sem engenn kann af oss ad taka, Joh. 16. So leinge vier hofum Frid vid hañ, sem oss þeñañ Frid alleina giefed hefur og giefa kann, eñ engeñ añar. Þar verdur alldrei so tryggelega bwed um nockra Veralldareñar Sꜳtt edur Fridar-Giorning, ad Meñ kuñe ad segia ad hañ skule leinge stadfastur vera. Hañ kañ ad vara i Tveggia Konunga Tijd þeirra aa mille, medañ þeir lifa bꜳder, og þo ecke alltijd. Hvad leinge hiellst Sꜳtteñ aa mille Syrlands og Samariam, er Achab og Benhadad giordu, 1. Kong. 20. Hvorsu vel efnde Ptolomeus þad hañ heited hafde Doottur-Manne sijnum Alexandro, edur Rom-

verjar

veriar Gydingum, 1. Maccab. 10. og 11. Enn uppaa þann Frid maa reida sig er Gud heitir oss syndugum Mońum, þar er alldrei Lijge fundenn i hańs Muńe. Eckert er tijdara enn þad i Heiminum, ad þegar Tveir hafa Osaatter vered, og þeir laatast þo sættast heilum Saattum, og jafnvel sveriast Eida aa, ad saa bregdur af, er sijdann fær Vallded meira, og finnur sier allt til Ordsaka, helldur enn ad hań ecke hefne sijns Vansa, sierdeilis ef hań þykest hafa vorded under i Sættińe; Þvi er þesse Maals-Hættur Heimsins: Vakta þig fyrer þeim Vin, er þu hefur sættst vid. Eń þetta er ecke ad Ottast hiaa Gude; Øll hańs Verk eru Myskun og Sańleike, Ps. 25. Hań er trwr, sialfum sier kann hań ecke ad neita, 2. Tim. 2. Nema ef vier kollum þad Brygdmælge, ad þær Hefnder koma ecke strax yfer vondar Giorder, sem hań hefur hootad þeim; Enn vier bregdum daglega af, og ecke gietum vier uḿ eitt Augnablik hallded vor Sære, þo hefur hań ecke vtskwfad oss, ecke hefur hann enn nu broted þann Frid vid oss, sem hań giort hefur vid aumt Mannkyn fyrer sijns Sonar Dauda, Rom. 8. Jafnvel þott þad jaata megi, ad aa þessum Tijmum hafe allt Holld fordiarfad sinn Veg, ei sijdur enn aa Døgum Noa, Gen. 6. Svo Menn kuńa eingva Ordsøk til þess ad færa, ad hinn straange og riettlaate Doomare ecke kollsteipe þessare vondu Verolld, nema þa, ad hann er Gud og ecke Madur, Hos. 11. Þetta munu Øsgar þykia, er eg tala: Enn giætum ad, hversu fleire Manneskiur þar eru nu i Heiminum eń aa Døgum Noa, hversu lijtell ad er Christenndoomurińn hiaa Heidingiunum; Hvad fæer af Christinndoominum sem jaata þaa riettu Trw, og hvad fæer af þeim sem hana jaata, er færa verduga Avoxtu heńi. Hverninn aa stendur, veit Gud eiń, þad er ei Mońunum uńt ad vita. Verda maa ad þar sieu fleire Guds Børn enn Meń hyggia; Þvi Elias visse jafnvel ecke, ad þar voru so morg Þwsund i Israels Rijke, sem ecke hofdu beygt sijn Knie fyrer Baal, 1. K. B. 19. Eń ættu Meń eptir ytra Alite, edur mańlegre Skynsemie, ad dæma, þa kyńi einhver ad vijsu ad ætla, ad i Verolld þessare mundu ecke ollu fleire vera riettlaater, epter þvi sem Tala reńur til, helldur eń fyrer Flooded. Þetta skrifa eg alleina til þess, ad Meń þecki Guds Oumrædilega Giædsku og Trwfesti, ad hań helldur vid oss eń nu i Dag þad Saattmaal, er hań giordi vid Noa. Hvad miklu framar mun hań hallda þaa Saatt, er hań giort hefur vid sijna Utvallda i Christo. Þess er og ad giæta, Brædur miner, ad þoott vier giorum Frid vid Meńina, sem oss volldugre, gofugre og sterkare eru, þa er ecke trwtt uḿ, ad þeir kuńi ad duga oss, þoott þeir villdu, nær adrer þeim sterkare rijsa aa mooti oss; Þvi allt Holld er Hey, seger Rødd Hroopandans, Esa. 40. Lijted gagnade þad Juda og Ephraim, ad þeir sendu til Konungsins af Assyria og Egyptalande, þvi DRotteń sagde: Hann skal ecki kuńa ad græda ydur, og ecki ad lækna ydar Saar, þvi eg em so sem grimt Leon aa mooti Ephraim, og so sem ungt Leon aa mooti Juda, Os. 6. Soddań Munur er nu aa þeim Fridi, sem Verolldiń giefur, og þeim er Gud giefur: Sieu þeir so Maattuger, so Vinsterker, so Frændmarger, sem þeir vera vilia; Eg aa eiń Vin sḿ alldrei skal bregdast; Eg em hanns, og hann er minn, Ljóð. 6. Hann er megnugur uḿ ad setia Krook i Zenacheribs

nacheribs Naser, Es. 27. Hann gietur dreckt Pharao og hanns Vognum, og Reid-Monnum, Exod. 14. Hann kann ad slaa Jeroboams Her, þoott hann hafe umkrijngt Abiam, 2. Kron. 13. Og þockneſt honum ad laata vonda Meñ hafa Yfer-Hondina, þa vil eg segia med David: Giori hañ vid mig hvad Gott er i hañs Auglite, 2. Sam. 15. Þad næger mier, ad eg hefi Frid vid hann, sem er Gud Fridarins, 2. Cor. 13. Hañ giefur mier Frid i Offsooknunum, Rijkdoom i Armoodnum, Virdingu i Forsmaaninne, Heilbrygde i Siwkdoominum, Sadning i Hwngrinu, Gledei Sorginne, þad næger mier ad hann er minn Vinur, þegar aller mijner Viner hafa mig yfergiefed. Seged mier, hvad vill Verolldenn giora þeim, er Gud hefur giort so lynda? Ecke meir eñ eitt Barn einum Risa, edur Skollahvelpurenn Liooninu. Ef eg er i Lande einhveriu þar sem Herskaatt er, enn veit þo, ad þar er Fridur i mijnu Lande, hvar eg hefi Bw mitt, mijna Vine og Frændur og allañ Lijkamlegañ Varnad, þa er eg þo betur til Frids þott eg sie medal Ovina staddur; Eg er ei nema ein Manneskia; Eg vil segia med Spekingnum; Eg ber allt mitt med mier, eg vil aa einhvern Haatt siaa til, hverniñ eg Lijfs afkomiſt og naae mijnu Fodur-Lande. Guds Born eru ad soñu i Hers-Hondum i Utlegd þessare, eñ þeirra Umgeingne og þeirra Borgar-Riettur er aa Himnum, Phil. 3. Allt hvad þau hafa i Verolldinne, þad er ecki þeirra, Gud gaf þad ad soñu þeim til Brwkunar og Medferdar, enn þau hafa ecke fest Hiarta sitt þar vid, helldur hafa þau þad Gude aptur giefid, eru þad Gots edur Gardar, Metord og Virdingar, Gull edur Silfur, þad er ecki þeirra eiged, þad er Christs Fie allt samann, og jafnvel sialft Lijfed, enn þeirra Fasta-Eign er aa Lande Lifande Manna. Eg vil siaa til hverninn eg kunne ad naa þaangad Lijfs, hvar eingenn skal Lijfed fraa mier taka, hvad mier alldrei mun bregdast, so leinge sem eg hefi Frid vid hann, sem er Fridarins Gud, sem er Lijfsins Hofdinge, P. G. 3. JEsus Christus, hver ed daudur var, og siaa hañ lifer, Op. B. 1. So leinge eg veit minn Endurlausnare lifer, so Ottast eg eckert Strijd, honum er ecke um Megn ad Leidsegia mier i giegnum minna Fiandmanna Hendur, Jaa, i giegnum sialfañ Daudann inn til Lijfsins, og ad laata mig lifa þoott eg deye, þvi hvert eg life edur dey, þa er eg þo hanns, Rom. 14. Þvi vil eg segia: Daude! Hvar er þinn Broddur, Helvijte! Hvar er þinn Sigur? 1. Cor. 15. Gud er saa sem oss hefur Sigurenn giefid fyrir DRottinn vorn JEsum Christum; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad Eilijfu, Amen. Og er nu þetta sagt þar um, hvilijkur ad þesse Fridur sie; Epterfylger ad taka um, hverninn vier eigum honum ad taka.

Þad er ecke noog, Guds Born, ad þyggia Grid af einum Konunge, nema Meñ halldeþau. Zedechias Konungur took Grid af Nebuchadnezar, hver ed gaf honum Konungs Rijke i Juda eptir Frænda sinn Joachim, 2. K. B. 24. Enn hañ giorde Uppreist aa mooti honum og hiellt ecke Saattena, hvar fyrer hann took hañ faangiñ, stack hanns Augu wt og flutte til Babylon, 2. K. B. 25. Margur hefur saa tekid Grid af Gude, i Skijrninne, fyrer Christi Blood, sem skytst undann honum aptur og gioriſt Satans

Madur,

Madur, med Vantrw og ſyndſamlegu Athæfi, og verdur þa hin ſeirni Villann argare hinni fyrri, Matth. 27. Hvar med gietum vier þa vid hinn Almaattuga Frid hallded? Ef vier erum hanns Þegnar vordner, þa eigum vier honum Skylldur ad giallda.

Hin fyrſta Þegnſkyllda vor vid hann, er audmiwkt Þacklæte Hiarta vors fyrir þeñañ haaleita Velgiorning; Offred DRottne Lofgiordinne, ſegier David. Varla maa minna vera, Br. M. enn ad vier Offrum honum Kaalfum Vara vorra, Oſ. 14. Þad er Lofgiordenne, er ſijnum Eingietna Syne, þvi ſaklauſa Guds Lambe, liet ſlaatra aa Kroſsins Altare, til ad forlijka Heimiñ vid ſiaalfann ſig. Margur þykeſt ad ſoñu þeñann Skatt lwka Gude, ef hañ ſijngur honum eitt Pſalm-Vers med Muñinum alleina, enn hvert ad Hugur fylge Maale, þad athuga Meñ ecki ſo giarna, ſo hañ mun hafa Orſok til ad ſegia vid marga þaa, ſem laataſt þacka honum hier fyrer: Þetta Foolk naalægiſt mig med Vorunum, eñ þeirra Hiarta er laangt þar fraa, Eſ. 29. Eñ hverſu miog ad Meñ brioote Guds Frid af ſier med þeſſu Oþacklæte, þad ſiaaum vier medal añars aa þeim Tiju Lijkþraau, er JEſus hreinſade, uñ hveria hann ſagde: Voru ecke Tiju hreinſader, enn hvar eru hiner Niju? Luc. 17. Fannſt eingenn ſaa ed aptur ſnere og giæfi Gude Dijrdena, nema þeſse Utlendingur? Og hann ſagde til hanns: Statt upp og gack burt, þijn Trw giørde þig hoolpinn. Hiner voru alleina aa Lijkamanum hreinſader, þeſſe bæde aa Saalu og Lijkama, þvi eckert talade DRottenn uñ Trw þeirra, og mun Saalarinnar Heilbrigde hafa farid þar epter. Eg er og nærſta miog uggande uñ, ad þar finneſt varla Eiñ aa medal Tiju, ſem þetta Hiaalpræde, þennañ mikla Frid, ſem oſs er i Chriſti Dauda og Uppriſu bodadur, ſo þecke ſem byriar. Fleſter laata ſier nægia med þad, ad ſijna ſig Kiennimanninum i Kyrkiunne, i Skripta-Stoolnum, i wtvortis Jaatningu Trwar ſinnar, Einuſinne edur Tviſvar aa Are, enn hvert ad Samvitſkann kiemſt vid af Tilfinningu Syndanna, hvert Elſkann til Guds er ſo miog heit, þar uñ mætti efaſt hiaa allmorgum; Þvi añars mundu Meñ hafa meire Vidleitne aa ad hafna Syndunum, og Elſkañ til Guds munde framar ſpretta wt med Verkunum, ſo hañ þar med yrde dyrkadur; Þad er ad ſnwa aptur og giefa Gudi Dijrdina, ad ſnwa ſier fraa ſijnu Oguđlegu Athæfi, og taka ſijna Illſku Breitne fraa hañs Auglite, Eſ. 1. Ef hañ er vor Fader, hvar er þa hañs Heidur? Ef hañ er vor Herra, hvar er þa hañs Virding? Mal. 1. Þad er miñſt verdt ad lofa Gud og þacka honum med Munninum, þad giøra og Hrafns-Ungarner, ſegier David, Pſ. 147. og eru þeir ecke med hañs Sonar Bloode afrekader. Ecke koſtade Gud þad nema eitt Ord ad ſkapa þaa og allañ Heimiñ, Gen. 1.

Enn hvad ſeger Paulus vid oſs? 1. Cor. 6. Þier erud Verde keipter, þar fyrer dijrked Gud i ydar Lijkama, og i ydar Anda, hverier ad eru Guds. Hverninn ſkulum vier hann dijrka i vorum Lijkama? Hvad ſeger hann eñ aptur, Col. 3. Deyded ydar Jardneſka Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, Lauslæte, vonda Gyrnd, Agyrne ſem er Skwrgoda Dijkan, fyrer hvert ad kiemur Reide Guds yfer Børn Vantrwarinnar. Legged af allt þvilijkt, Reide, Grymd, Illſku, Gudloſtun, Nijdyrde, fraa ydar Munne,

Pad er ad dyrka Gud i sijnum Lijkama, ad affnijda þessa Limu hinns gamla Mañsins: Postuleñ seger, ad fyrer þvilijkt komi Guds Reide yfer Born Vantrwarinnar: Sioaed hvad Omogulegt þad er, ad hafa Frid vid Gud, nema Meñ aflegge þesse Verk Myrkranna, sem Von er aa, þvi ecki hefur Gud laatid kvelia sinn Son til þess, ad vier þioonum Syndinne i hennar Gyrndum, edur laatum hana drottna i vorum daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þvi hann hefur ecke kallad oss til Ohreinleika, helldur til Helgunar; segier Postulenn, 1. Tess. 4. Enn hverninn megum vier Gud vegsama i vorum Anda? Þad er i Saalum vorum, nema ef vier færum Andans Avexte. Hverier eru þeir? Þad seger oss Paulus, Gal. 5. Þad er Kiærleike, Fognudur, Fridur, Þolinmæde, Goodgyrne, Goodsijse, Trw, Hoogværd, Bindinde; Og endar hann so þetta Tal med aññare Maalsgrein, sem alla Guds Þioonustu i sier innibindur, segiande: Enn þeir sem Christi eru, krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum. Hver sem þad daglega giorer, epter þvi sem Guds Ande fær i hanns Breiskleika verkad, hann maa vera fullviss uñ Guds Vinaattu, jafnvel þoott eingenn giete Fullkomenn vered i þessu daudlega Hollde, þvi ef vier gaungum i Andanum, þa erum vier ecke under Logmaalinu, Gal. 5. Enn þetta Frelse eigum vier ecke ad brwka til þess, ad laata epter oss Smaa-Syndernar, er vier so kollum, og ætla þad sie noog ad varast Stoor-Glæpina. Þar er eiginn so lijtel Synd til, ad ei sie hun noog til ad fordæma Mañeñ, ef Gud vill i Doom vid oss gaanga. David bad Gud Forlaats aa sijnum heimuglegum Syndum, Ps. 19. Þvi mun þad ecke Ohullt ad drija hinar Smaau vijsvitande. St. Paull sagdest jafnvel ecke skyllde Kiot eta, ef hann visse sinn Brooder hneixladest, 1. Cor. 8. Og mun margur hallda þad fyrer litla Synd: Þad er alldrei lijtil Synd, sem Guds Riettlæte fordæmir, enn hann fordæmer allar þær, sem vier litlar edur eingvar kollum. Þad er allt Synd, sem Helvijte forþienar, enn þær forþiena allar þad, sem Madurenn lætur vijsvitande epter sier, og liggur i þeim viliande, jafnvel þoott ei sie þvilijkt af Monnum kallad nema Guds Barna Brester. Smaa-Regned væter eins miog og Stoor-Droparner; Þær smaau Syndernar kuña ad verda hvad skadvænastar, þvi vier reiknum þær ecki, og verda þvi flestar, og þoott þær sieu smaar i vorum Augum, þa verda þær þo stoorar, nær vier byggium þeim leinge heima. Eiñ lijtill Ormur, þegar hann er svolgiñ i Magann, þa etur hañ so leinge uñ sig, ad hañ verdur stoor, nema hann aññadhvert sie drepiñ, eda honum sie uppsellt: Einn lijtill Pwki, þegar hann er einusinne innkominn i Hiarta Mannsins, gietur vorded ad stoorum Diofle, ef hañ er laatinn hindrunarlaus, og þegar hann er svo vaxiñ, gietur hann tekid Sio Anda sier verri, Luc. 11. Menn taka eiñ lijtinn Dreing til Foosturs; Ef hañ er Skaalkur, sem marger eru, þa giorir hañ sig ad Hwss-Bonda, nær hann er fullordenn, og rædur sijna Lijka inn i Hwsid, þar til hann med sijnum Fielogum drepur Hwsbondann, ef hann þorer, og giorer sig Herra af Gotzenu: So eru hinar litlu Syndernar; Þau daalitlu Born Satans, er vier leikum oss ad, medañ þau ung eru, þau verda vor Ofmeñe uñ sijdir, og taka vort andlegt Lijf fraa oss, og

eyda

eyda þeim Fiesiood wr voru Hiarta, sem med Guds Bloode keiptur er. Sumt Gaman og Gledskapur, sem heiter Kurteyse i Fyrstunne, kann ad verda ad Hædne og Spieskap, so þegar Meñ hafa leinge vaned sig aa ad hæda Meñena, og þvi er hroosad af þeirra Lijkum, er leita sier Fordilldar i slijku, þa fer þeim so fram̃ i Kunstenne, ad þeir fara ad hæda ad Gude og hanns Heilaga Nafne. Þad þyker hiaa oss saklijted, ad leggia Guds Nafn vid Hiegooma ad Gamne sier i Daglegu Tale, edur kalla aa Andskotann; Enn sia sem hefur þetta leinge tamed sier, honum mun ecke þykia miked fyrer ad brwka þad sama til ad liwga Lijf og Æru af sijnum Naunga: Hann sem reiknar þad fyrer einga Synd, ad hañ forsoome ad gaanga til Kyrkiunnar, og leikur sier ad Hiegoomanum aa Guds Helgum Dogum, hañ kañ ad verda yfirgiefinn i so fraaleitt Siñe, ad hann þeinke, ad þad sie ecke nema fyrer Sida Saker, ad Menn brwke Helgar Tijder. Eg segie þetta til Dæmis, um̃ allt þad er Meñ giora aa moote hinum Bodordunum, sem hvor eiñ kann ad skilia, ef hann vill giefa nockurn Gaum ad sijnu Fram̃ferde, og taka vara aa Saalu sinne. Fyrer þvi, ef þier vilied hafa Frid vid Gud, Br. mijner, þa drepeð þessa Smaa-Pwka, edur ad vijsu giored þa so vanmeta, ad þeir ecke verde ydar Ofur-Efle; Annars munud þier ecke Frid vid Gud hafa. Enn sokum þess, ad engenn af oss er so adgiætenn edur varkaar, ad ecke falle Blettur aa vort Skijrnar-Fat aa hvorre Stundu, jafnvel þeirra sem bester eru, þa eigum vier i hvort sinn, sem vier af nockurre Hrosun verdum yferstigner, ad þvo hann af med beiskum Ydrunar-Taarum, ef vier vilium Frid vid Gud hafa. Jaa, vier eigum ad gaanga streingelega i Doom vid sialfa oss, og ecke laata vora Ydran stijga fram̃ yfer almeñelegar Synder, þvi þær fordæma eins Mañeñ og hinar stooru, nema Menn þeirra af Hiarta ydrest: Giætum þess, ad Gud er riettlaatur, hañ er eptergaangssamur og straangur Sooknare, hann heimtar ecke alleina Stoor-Sum̃urnar, helldur vill hann laata giallda hinn sijdarsta Pening, Matth. 5. Hvar med faaum vier þessa Sekt loked, nema med Christi Forþienustu, sem er Oendañleg? Enn hun verdur eingum tilreiknud, nema þeim, sem ydrast af Hiarta Syndanna. Ad soñu kuña Menn ecke allra ad ydrast sier i Lage, hvor veit hvad opt hañ fellur? Ps. 19. Gietur þu uppreiknad alla þijna Ungdooms Breste? Hvör maa telia alla sauruga Paanka og Onytiu Ord? Þad er ad vilia telia Sandenn og Bylgiur Siaafarins; Eñ þar vier erum oss þess Samvitande, ad vier so opt hrosum, so ad oll vor Reisa, fraa Vogguñe til Grafareñar, er varla añad eñ eiñ sijfelldur Blood-Vadall, þa eigum vier ad laata oss þad af Hiarta aangra, ad vier erum so under Synd'ena sellder, Rom. 7. Jaa, i Samtale vid vora Vine og Naunga, edur og nær vier sleppum oss i Gaman og Gledskap, þa byriar Riett-christnum Mañe ecke einasta adgiætnum ad vera, ad ei styggi hann Gud med Muñe sijnum, helldur og i hvort sinn, nær hann kiemur til sialfs sijns aptur, ad hugleida hvort ecke hafe hann rasad med sinne Tungu, og finne hann þad, sem aan efa optlega finna maa, ad laata sig þess af Hiarta ydra og bidia Gud um̃ Naad, ef vier vilium vera fullvisser um̃ hanns Vinaattu; Og ecke einasta eigum vier þær Synder ad

fordast,sem eru Riettlijnis œ moote Guds ſkielſelegre Hœtign, helldur og,ef vier vilium hañs Viner vera, þa eigum vier ad kappkoſta ad hallda Frid vid vora Brædur i Heimenum, Rom. 12. Hvad er þad fyrer Fridur, er O Rottenn ſpœer uñ ad verda mune i Rijke Chriſti? Eſ. 2. Ad þeir mune giora Sverdenn ad Ploog-Iœrnum,og ſijnar Stœnger ad Liœum,og ein Þiood ſkule ecke ryckia Sverde moote annare, og þeir ſkule ei framar læra Strijds-Atferd. Hvad ſijneſt ydur,Born mijn? Mun þetta vera ſœ Fridur,ſem Verolldenn giefur? Ecke Teiknar til þeſs nu uñ Stunder, þar ein Þiood rijs upp i moote annare, og Frændur og Nœungar beraſt Bana-Spioot epter, helldur er þad Fridur Guds,ſœ ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Þad er oll Andleg Farſælld, ſem Guds Poſtular,Paulus, Petrus, Judas, og Johannes i ſijnum Opennberunum jafnañ oſka Guds Soſnudum, enn ecke er þad ſijſt Eindrægne Andans,ſem oll Guds Born hafa œ mille ſijn, hvar hellſt þau eru i Heimenum: Sœ ſem ecke er i þeſſum Fridar-Sœttmœla innebundeñ, hañ er ecke Limur hinnar ſoñu og Oſijnelegu Guds Kyrkiu. Vakte ſig þvi hvor og eiñ, ſœ er vill Chriſti Limur heita, ad ei ale hann nockurt Hatur til ſijns Nœunga: Og er þad ecke noog, ad vier holldum Frid vid Vine og Frændur; Tollheimtumenn og Pwtur giora og þad hid. ſama,Luc. 6. Helldur bijdur Endurlauſnarenn oſs, ad vier elſkum Ovine vora, Matth. 5. Þad Logmœl er þwngt ad ſoñu Hollde og Bloode, enn ecke ſo miog þeim,ſem epter Gude er ſkapadur, og leitaſt vid ad breita epter ſijnum Lauſnara,hvor ed beidde fyrer þeim er hañ kvoldu,Luc.22. Eiger þu nockurn Ovin,Chriſteñ Madur,þa giæt þeſs, ad Gud er þinn beſte Vinur,og Andskoteñ hiñ argaſte Ovinur; Gior þvi ecke þad hinum til Stygdar, enn þeſſum til Þægdar,ad hataſt vid þañ,ſem er þinn Brooder epter Nœtturuñe, fyrer hvorn Guds Sonur hefur Kvol og Dauda lided eins og þig. Ef þu hatar þinn Ovin og þad ſo miog, ad þu villder hanns Dauda, þa gior honum gott, ſœ til ad þu fœer giort þier hañ ad Vin med goodu Atlæte; Fœer eru ſo hreckvijſer, ad þad takeſt ecke; Enn ef þu fær þvi til Vegar komed,þa hefur þu dreped Ovinenn, enn frelſad þinn Broodur og giefed honum Lijfed, 1.Joh.5. og afrekad Sœlu eina Gude til Handa, ſem er ſtærre Sigur enn þoott nockur hefde Kongarijkenn under ſig broted,þvi hun hefur Guds Sonar Blood koſtad, hiœ hvoriu oll Verolldenn er Fis ad reikna. Soddann Hefnd er ecke einaſta ſaklaus, helldur og Gude kiær,og af ollum hanns Bornum vel œliteñ. Gud giæfe ad Chriſtner Meñ villdu temia ſier þetta Hugarfar! Þa munde Fridur og Eindrægne halldaſt betur Maña œ medal,helldur enn ſkiedur nu uñ Stunder, þa mundu Menn Frid hafa vid ſiœlfa ſig og Samvitſku ſijna, Frid fyrer Heimenum, þvi ſœ ed þvilijkt giorer,hann er af Gude fæddur, og yfirvinnur Heimenn, 1. Joh. 5. Frid fyrer Dioflenum, þvi hann er Chriſti Barn, ſem Dioflenum hefur œtſnarad, og troded hann under ſinna Barna Fætur, Rom.16. Jœ, Frid vid hinn lifanda Gud ſem ollu rædur bæde œ Himne og Jordu: J hvors Rijke ad Fridurenn og Riettlæted kyſſa hvort annad, Pſ.85. hier i Tijmanum, enn i Eilijfdenne mun œ Fridnum engenn Ender verda, Eſ.9.

Þeirrar

Peirrar Sælu-Vistar niootande ad verda, unn þu oss þijnum Børnum, O þu Stoore Gud Fridarens! Rom. 16. Fyrer hinn sanna Fridarens Hofdingia JESUM CHRISTUM, Es. 9. Amen.

# Fyrsta Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 20. Cap.

Og ad Kvøllde þess sama Þvott-Dags, þa ed Læresveinarner voru samannkomner ad luktum Dyrum fyrer Hrædslu Saker vid Gydinga, kom JEsus þar, og stood i Mided og sagde til þeirra: Fridur sie med ydur! Og þa hañ sagde þetta, sijnde hann þeim Hendurnar og sijna Sijdu. Eñ Læresveinarner gløddust vid, ad þeir sáu HErrañ; JEsus sagde þa eñ aptur til þeirra, Fridur sie med ydur! Lijka sem Fadereñ sende mig, so sende eg ydur. Eñ sem hañ sagde þetta, blies hañ a þa og sagde til þeirra: Medtaked þier Heilagañ Anda; Hvørium hellst þier fyrergiefed Syndernar, þeim eru þær fyrergiefnar, og hvørium hellst þier apturhalld: ed þær, þa eru þær þeim apturhalldnar. Eñ Thomas einn af þeim Toolf, sem kalladest Tvijbure, var eige med þeim, þa JEsus kom. Eñ hiner adrer Læresveinarner søgdu til hañs: Vier høfum sied HErrañ. Eñ hañ sagde til þeirra: Nema ad eg siae Naglaføreñ i hanns Høndum, og ad eg laate miñ Fijngur i Naglaføreñ, og legge mijna Hønd i hañs Sijdu, þa trwe eg ecke. Og epter Atta Daga, voru enn aptur hañs Læresveinar þar iñe, og Thomas med þeim. Þa kom JEsus ad luktum Dyrum, stood i Mided, og sagde: Fridur sie med ydur. Sijdañ sagde hañ til Thomam: Riettu þiñ Fijngur hijngad, og skoda mijnar Hendur, lypt upp þiñe Hende og legg i mijna Sijdu, og vert ecke Vantrwadur, helldur Trwadur. Thomas svarade og sagde til hañs: DRotteñ miñ og Gud miñ! JEsus sagde til hañs: Af þvi þu saast mig Thoma, trwder þu; Sæler eru þeir sem ecke siaa og trwa þo. Morg oñur Teikn giørde JEsus i Augsyn siña Læresveina, hvør ad eige eru skrifud i þessare Book, eñ þetta er þvi skrifad, so ad þier trwed, þad ad JEsu s sie Christus Sonur Guds, og ad þier, so trwader, hefdud Lijfed i hanns Nafne.

Exordium.

ÞEgar JESUS hafde læknad hiñ Limafallssiwka med þvi Orde, ad hann sagde til hanns: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. þa prijsade Foolked Gud, er þvilijka Makt hafde Mønnunum giefed. Ecke hefur þetta Foolk so undrast yfir sialfu Krapta-Verkenu, þvi þeir voru þessu Alvaner af Frelsaranum, annars mundu þeir ecke hafa fært þenna veika Mañ til hanns; helldur yfir þvi, ad hann læknade med Orda Tiltæke þessu, þvi þad hafde a þeim Døgum ecke heyrst ad nockur Madur hefde Valld til ad fyrergiefa Syndernar, hvar af Pharisæi tooku Ordsok til ad bera sier þa Ohæfu i Muñ ad hañ Gudlastade. Eñ hann sem auglijste sitt Valld til ad fyrergiefa Syndernar med þessu Krapta-Verke, so ad þeir ed þad sau, undrudust og prijsudu Gud, er þvilijka Makt hefde Mønnunum giefed; Hann same hefur og þetta Valld i Hendur feinged syndugum Mønnum, sijnum Postulum, so sem vier strax heyrdum af Gudspiallenu, og ecke einasta þeim, helldur og øllum þeirra Epterkomendum, allt til Veralldarennar Enda, Matth. 28. ad þeir, i hanns Nafne, fyrergiefa Syndernar, ecke so sem af sialfum sier; helldur so sem Christi Þienarar, og Raads-Menn Guds Leyndardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Eñ so miked, so haaleitt og so Guddoomlegt sem þetta Valld er; so vanfared er og med þad, bæde fyrer þa sem þad i Hende hafa, og so hina er under þvi eru, ad hvøruger forgrijpe sig a hanns Dijrdlegre og Ognarlegre Hatign, sem ad er Høfundur þessa mikla Umbods; Og fyrer þvi, ad a þessu rijdur øll Velferd Christenna Manna, (sem er ad faa Kvittun Syndaña) þa vil eg nu ad þessu Siñe tala um þetta Tvennt, sem er: 1. Hvør ad sie Skyllda þeirra, er ødrum eiga ad boda þeirra Fyrergiefning, og 2. Hinna sem hana þyggia eiga. Gud styrke oss i þessu Verke med Naad sijns gooda Anda, i JESU Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

TVeñt er þad sem Christi Þienarar eiga i þessu Guds Eyrende ad athuga, sem er, 1. Ad ecke bode þeir Kvittun Syndaña þeim, sem heñar eru Overduger. 2. Ad þeir hallde heñe ecke fyrer hinum, er hun med riettu tilheyrer. Hiner Fyrre eru med Tveñu moote, añadhvort eru þeir faafrooder, edur og Ogudlæger og hardsvijrader. Hverigum af þessum a Raads-Madur Christi ad boda Syndaña Kvittun: Ecki þeim Fyrre, þvi sa sem etur og dreckur Overdugur, hann er sekur vid Holld og Blood DRottens, segier Paulus, 1. Cor. 11. Eñ sa etur og dreckur Overdugur, sem ecke reyner og proofar sialfañ sig; eñ hvorneñ ma sa reyna sialfañ sig er ei þecker Syndena? Eñ hvorneñ ma hañ Syndena þeckia an Løgmaalsins Þeckingar? Au hvørs ad jafnvel St. Paall ecke þeckte ad Girndeñ var Synd, Rom. 7. Þad er øllum Mønnum kuñugt, ad engeñ fær kvitta Syndina i Himnenum, utañ hañ bere Angur og Trega fyrer hana, enn hvornig ma hañ laata sig angra þa Synd, er hañ þecker ecke? Og er þetta þo ecke nema Helfteñ af Skylldu vorre. Ecke er þad noog ad þeckia Syndena og angrast af heñe; Litlu gagnade þad Cain og Judas, þoott hinn segde; Mijn Synd er meire eñ ad

hun fyrergiefinn verdi, Gen. 4. Eñ þesse; Eg hefi illa giort þad eg sveik saklaust Blood, Matth. 27. S. Petur, Matth. 26. Davids, 2. Sam. 12. Hinnar Bersyndugu, Luc. 7. og añarra soddann Manna Þeckingu, skal hafa til þess ad sia Syndina kvitta; Þar fyrer, sokum þess ad Blooded JEsu Christi hreinsar oss af ollum vorum Syndum, 1. Joh. 2. og ad i eingvum odrum er Saaluhiaalpeñ, P.G. 4. Þa kann einginn ad faa hiaa Gudi Lausn Syndaña fyrer utañ hañs Þeckingu; og er þad ad soñu ecke noog, ad Meñ vite, ad haun sie fyrer Syndernar dæenu, Rom. 4. helldur og ad tileinka sier hañs Forþienustu, og trwa þvi fastlega, ad þad saklausa Guds Lamb hafe eiñig sijnar Synder i burtu tekid, Joh. 1. Þeim sem ecke er uñ þetta hverutveggia aldeilis Sannfærdur i Hiarta sijnu, honum aa Guds Þienare ecke ad boda Kvittun Syndaña, helldur ad undervijsa honum med allre Kostgiæfne Veg Saaluhiaalparinnar, og leida hann til Christum med heilsusamlegre Kienningu. O Gud giæfi! ad þessu villdu giæta ecki einungis Kieñimeñirnir, helldur og þeir, ed Bornum og Hiwum eiga ad undervijsa og uppala i Aga og Uñvondun til DRottinns, Eph. 6. Þa væri eg viss uñ, ad ecki mundu so optlega verda Helgidoomarner Hundum giefner, Matth. 7. nie Perlum fyrer Svijn kastad, sem mig uggir ad aa Stundum skie muni fyrer Vanræktarsakir þeirra, er Gud hefur umboded ad taka Vara aa slijku: Hveriu vill einn Saalaus og Toomlaatur Leigulidi svara hinum Alvallda Konungi aa sijdarsta Dege, þegar hañ krefur siña Sauda Bloods af hañs Hende? Enn hañ hefur forsoomad ad undirvijsa þeim, og ad giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad honum byriad hefur, hañ hefur talad fyrer þeim þad sem var Hiegoome, haft fyrer þeim nockrar faanijtar Spurningar, sem lijtt til Saaluhiaalpar gagna, til þess ad siinast vid ad giora eitthvad, og ad fyrra sig Vijtum, enn alldrei lagt hiñ rietta Grundvoll Saaluhiaalpariñar i Mañaña Hiarta, ei kieñt þeim Syndina ad þeckia, ecki wtlistad fyrer þeim heñar Greiner og Tegunder, ecki wtmaalad hversu ad hun er vidurstyggileg fyrer Gude, ei sijnt þeim Veginn til ad faa heñar Kvittun, edur vakid Angur og Trega fyrer sijn Afbrot i þeirra Hiarta, nie Krapt hinnar sonnu Trwar, er verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Og i þessari Faakiænsku bleipur Vesælingurinn inn ad Skrifta-Stoolnum og þyggur Kvittun Syndaña af Prestinum, jafnvel þoott ecke sie hann henni nær, helldur eñ eiñ Heidinge, sem eckert af Gudi veit nie hañs Christe, og i þessu uppelst hañ, i þessu lifir hann, og i þessu deyr hañ, og uppvaknar i Helvijte og Kvolunum, nema Gud vilie meire Myskun aa giora, og ætlar sig þo ad vera Full-Christenn, og ad Saala sijn muni strax i Himiniñ uppfliwga, sem hun skreppur wt af Lijkamanum, af þvi einginn sagde honum þad, og einginn ad þvi fann, hversu sem hann var Ofroodur i sijnum Christiñdoome. Þetta hid sama vil eg sagt hafa Forelldrum og Hwsbændum, hverier i þessu vera eiga so sem Prestaña oñur Hond; Þvi, ef satt skal segia, þa er þad Ofotlun fyrer eiñ Guds Ords Þienara, ad hann giete lagt hvert Barn sier aa Knie, og ollum allt þad kieñt sem þeir vidþurfa, sierdeilis i þessu faatæka Lande; Eñ ad hafa alvarlega Uñsioon hier uñ, rannsaka hvernig þad tilgeingur, aaminna þaa sem eru

Hyrdu-

Hyrdulauser, leidrietta þaa sem villt fara, straffa þaa sem mootemaala, vijsa þeim wt af Guds Kyrkiu og Samneyte Christeña Manna, er ecki laata sig leidrietta med hoogværum Anda, Gal. 6. Þad aa þeim ecke ad vorkynnast; enn Gud naade hveria Adstod þeir faa i slijku hiaa allmorgum! Oskande være ad ecke finnust þeir, ed reidast, ef ad slijku er fundid, og leggia Hatur aa Guds Þienara, nær þeir vilia forda Saalum þeirra vid eilijfum Helvijtis Pijslum, þeir hafa þeirra gudrækilegar Amiñingar i Skimpi, og kalla þad Presta Firrur og Hlutsemi. Hvar fyrir? Af þvi þeir siaalfer eckert kunna, eñ skamast sijn ad læra þad gamlir, er þeir nenntu ecki ungir ad nema, og vilia helldur steipa sier og Bornum sijnum og Hiwum i Afgruñ Helvijtis, enn ad laata sig leidrietta, og er þad allt of-kuñugt af Faafrædi hiña Ungu i þessu auma Lande, hvad lijtid ad hinir Gomlu kuña muni. O þier skynlausar Mañeskiur! Kallid þier ecki þad hid hid argasta Mord, ef nockur fargar sijnu Lijfs-Afkvæmi vijsvitande, og þo er þad Kiærleiks-Dygd, hiaa þvi, ad spara þeim þad er þeim megi verda til Saalar-Gagns, þvi þad er ad myrda Saalina, hver ad er med Guds Bloode endurleyst, P.G. 20. Og er miklu miñi Synd ad bera wt Born sijn nijfædd, sem þo er hiñ versti Glæpur, þvi þaa eru þau under Guds Myskunsemi, helldur eñ ad klekia þeim upp Fiandanum til Þioonustu. Hafid þier ecki heyrt hversu ad DRottinn vard reidur þeim, er Offrudu Bornum sijnum Moloch Fordum Daga, Levit. 20. og lietu þau gaanga i giegnum Elldiñ þeim Andskota til Dijrdkunar, Devt. 18. Enn hvad giora þeir betur, sem laata sijn Born uppalast i ollu Reidileyse? Vited þier ecke ad þier hafed þau i Syndiñi gietid og fædt? Ps. 51. Hvad liggur þa añad fyrer honum, sem af Naatturuñe er Reidinnar Barn, Eph. 2. helldur eñ eilijflega ad fyrerfarast, nema hañ læri hiñ saña Christiñdoom, so ad hañ mege umflija tilkomande Reide? Þier seged vel: Þau eru i Skijrniñi endurfædd og Guds Born vordinn, þad er vel, enn hversu illa kiennid þier þeim ad hallda sinn Skijrnar Saattmaala, nær þau alldrei faa ad vita hvad Skijrninn er, edur hvad þeim er veitt i henni, hveriu þau hafi þar Gudi lofad, edur hvernig þau eigi ad bera sig ad hallda þad, edur faa þess Kvittun er þau afbrioota? O Vei! O Vei! Hversu aumur er þesse Christinndoomur? Bærilegra mun einum Tyrkia verda aa Doomsins Dege, enn slijkum Forelldrum, og eg vil hafa þetta sagt til þeirra einungis sem hyrdulauser eru um Velferd sijna og siña, og meina ad Gud hafi giefid sier Borninn, alleina til ad leika sier ad, enn ecke til hinna, sem leggia nockra Rækt hier vid, er Gud giæfi ad sem flestir væri! Hiner adrer sem Guds Þienarar eiga Syndunum aptur ad hallda, eru þeir, sem kannskie hafa noog Vit aa þvi er þeir eiga ad trwa og giora, enn lifa alldeilis ecke þar epter, helldur gaanga fram i allskonar Syndum og Glæpum Ydrunarlaust, forsmaaande Gud og hañs dijrmæta Ord, og hafande ad eingu þad þeim sagt verdur i Guds Stad. Slijker eiga med riettu eckert Samneyte ad hafa med odrum Guds Bornum, hverier hellst sem þeir eru, Rijker edur Faatæker, Vesæler edur Vollduger, þvi ef Paall seger, 1. Cor. 5. ad ef nockur saa, er Brooder (þad er Christenn) kallast, sie Frillulijfes Madur, Lastmaall, Agiarn, Skurgoda

goda Dijrkari edur þess Hættar, þa skulu Menn eingva Umgeingni med þvilijkum ha-
fa, þa er þad augliooft ad þvilijkum æ ecki Synda Kvittun ad boda, nema þeir ydrest af
Hiarta og aflæti Glæpunum; og sæ Kiennimadur er seger þeim sijnar Synder kvittar
i Guds Stad, hann lijgur uppæ Gud, er hann leyser þad sem Gud hafde honum alldrei
umbodid, hann tekur fram fyrer Hendur æ Christe, sem Menn plaga ad segia, og gi-
orir hann ad þeim Gudi, sem ad þocknast Ogudlegt Athæfi, Ps. 5. Stoor Vande
liggur æ einum Kiennimanni i slijku, ef hann vill finnast Trwr. Ecki segi eg, ad þeim
skuli frævijsa Aflausn Synda sinna, sem misgrunadur er um einhvern Glæp, þad mæ
hinum besta Manni giora. Ein stiæd Twnga kann snarlega ad lioosta upp einhverium
Ohroodre um goodan Mann, hvar til Þusund Dæmi eru, slijkt æ ad eingvu ad hafa,
helldur ad afstijra þessu vondu Umtale um Næungann. Ein Guds Þienare æ ad ve-
ra Vandlætingasamur, enn þo med Skynseme, og ecke byggia so vigtugann Hlut, sem
ad er Lyklavalldsins Brwkun, æ hverium Þvættinge, Rom. 10. En þessa þarf ecke
vid, Br. mijner. Þar eru opinberer Lester og Skamer, sem ad eingu eru aktader, hverke
af þeim, er þær fremia, og kannskie ecke helldur so sem vera ætte af sumum, sem þær ættu
ad straffa. Hverninn mun þad tilgæanga med Guds heilaga Nafns Vanbrwkun med-
al Ohlutvandra Manna med Ydkun hans heilaga Ords? Munu ei finnast þeir, ed hafa
þann Dijrgrip ad Athlætri og i Fijfliskapar Mæalum? Hvad er tijdara enn Ohlijdni
og Otrw Barna og Hiwa vid Forelldra og Hwss-Bændur, vond Forlijkun milli Hioo-
na, Hardydge Yfirbodaranna vid hina aumu og vesælu, sem undir þeirra Vallde eru,
so Menn læta Vargana hlaupa frij enn straffa Dwfurnar? Hatur og Ulfswd eru
ordin ad Karlmennsku og Hugprijde, Men bera þad ecki einungis heimuglega med sier,
i Hiartanu, hvar um Kiennimadurinn ei kann ad dæma, helldur sijna þad Daglega i Ver-
kunum, i Ordunum, i Umgeingninne: Okur og Asælne, Myskunarleyse vid hinn Volada
og Naudstadda, Bakmælge og illur Munn-Sofnudur vid Næungann, allt þetta eru
daudlegar Synder: Og mæ ollum kunnugt vera, ad þær ei verda fyrergiefnar i Himn-
inum, nema Men ydrest þeirra æ Jordunne, og þad vita Guds Þienarar, ad fyrir slijkt
kiemur hans Reide yfer þæ ed þad fremia, Eph. 5. Nu sege eg þad ecke, ad Men skule
strax frævijsa þeim, er i þessu kunna seker ad finnast, ef þeir sijna æ sier nockur Ydranar
Merke, jafnvel þoott Betruninn verdi ecki i einu so merkileg; Hitt sege eg, ad þeir eiga
þvilijka Syndara med allri Alwd og Kostgiæfni ad æminna og leidrietta þæ med Hoog-
værum Anda, er fundnir verda i nockurri Hrosun, Gal. 6. Fyrst i Ein-Rwmi; vilie þeir
ecki þar vid skipast, þa i Tveggia Gudhræddra Manna Vidurvist; Læte þeir enn þæ
ecki af nie leitist vid ad betra sig, þa veit eg ei betur en soddann þverbrotnum Manneskium
eige Syndirnar aptur ad halldast; þad kiennir oss ecki einasta D Nottinn JEsus, Matth.
18. med þessum Ordum: Ef þinn Brooder syndgar æ mooti þier, þa far þu og ætel
hann æ milli þijn og hanns, ef hann heyrer þier, þa hefur þu æunnid þinn Broodur:
Enn ef hann heyrer þier ecke, þa tak med þier Ein edur Tvo, svo ad i Munni Tveggia edur

Þriggia verde oll Ord stadfest, enn vilie hann ecki þeim heyra, þa seig þad Sofnudinum, eñ vilie hañ ecki Sofnudinum heyra, þa hallt hañ so sem Heidingia og Tollheimtumañ; helldur er og þessu alldeilis samhlioodа Konunglegt Logmaal i þessum Londum og Rijkium, um̃ þau Afbrot, sem ecki verda so hentuglega med Veralldlegum Rietti strоffud, og ef DRottinn skipar einum af Sofnudinum þannig ad breyta vid þann, er honum aa mooti brijtur, hvad miklu helldur mun þetta sagt vera Kieñimoñunum, sem i Guds Stad vandlæta eiga. Taki þvi ecki eiñ DRottinns Þioon Vara aa slijku, þa er næsta hætt vid, ad hann giori sig Hluttakara i Annarlegum Syndum, og hafi Samfielag vid Ofrioossom Verk Myrkranna, þvert aa mooti Postulans Bode, Rom. 1. Og er þetta nu sagt um̃ þaa, sem Guds Þienarar eiga ad apturhallda Syndina. Eñ þar fyrir hefi eg um̃ Kieñimañaña Skylldu talad i þessum Stad, ad eingiñ hati þaa edur Ovirde, þoott þeir giore Skylldu sijns Embættis i slijku, þar þeim er so mikill Vande aa Hende.

Hverier ad hiner sieu, er Syndina skal leysa hiaa, er audsært af þvi, sem allareidu er sagt um̃ hina, sem er, alla synduga Meñ, hversu herfilega edur stoorkostlega sem þeir syndgast hafa moote Gude; Jaa, hversu leinge sem þeir hafa vellt sier i Syndunum, þa sem ad fulla Grein hafa aa ad Reyna og Proofa sialfa sig, og laata sig af Hiarta Syndirnar aangra, og lofa Um̃boot med sannre Trw aa Christi Forþienustu, þvi hinn naaduge Giædskunnar Bruñur vill eingvañ þann fraa sier reka sem til hañs kiemur, Joh. 6. Þvi kallade hañ haarri Raustu Fordum Daga og sagde: Komid til mijn aller þier sem Erfided og Þwnga erud þiaader, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Og gyllder þetta ecki einasta um̃ þaa, sem enn þaa eru Fullhrauster og kunna fram̃vegis ad betra sig, helldur og um̃ hina sem fyrer Daudanum liggia, og jafnvel þaa sem Maalinu tapad hafa, ef þeir eru med Ræнu, og einn adgiætiñ DRottins Þienare merker þeirra Hiartannlega Eptirlaungun, Angur og Trega fyrer Syndirnar; Þviad aa hverium Tijma, sem hiñ Ogudlege snijr sier fraa sijnu Ogudlegu Athæfi, þa skal hañ lifa og ecki deya, allra hañs Synda skal ecki ad Eilijfu miñst verda, seger DRotteñ fyrer Muñ Ezechielis, i 18. Cap. Og þoott hiñ naaduge Gud, saa allañ Dageñ wtbreidir sijnar Hendur til Ohlijdugs Foolks, Es. 65. sie jafnañ reidubwiñ ad taka vid Syndaranum, nær hañ ydrast af Hiarta, þa eru hañs diwpu Myskunar-Ydur þo alldrei naakvæmare eñ i Daudanum; þvi þa veit hin eilijfa Giædska, sem ecki vill syndugs Mañs Dauda, ad ecki er Tijmi til ad draga Naadina undañ. Og er þetta nu þañig sagt um̃ þad hellsta, sem ad Guds Ords Þienarar eiga ad taka Vara aa i þessu haaleita Efni. Eñ fyrir þvi ad margur einfalldur, edur og so hyrdulaus, kañ ad steita sig aa þessu Naadariñar Frelse, þoott alldrei giori Kieñimaduriñ sitt Embætte so Athugasamlega, þa verd eg þo nockud hier um̃ ad tala, og þad þess helldur, ad Andskotinn er Þusund Viela Smidur, vinni hañ eckert aa þaa einu Sijduna, þa leitar hañ aa hina. Þesser eru og med Tveñu Moote, añadhvert eru þad þeir, sem af Hyrduleyse og Ostrauste meina, ad þeir faae Kvittun Syndaña, ef

Prest-

Presturenn þeim hana alleina tilsegier i Guds Nafne; edur og hiner, sem vegna Fiollda og Stærdar siña Misgiorda faa þvi varla trwad, ad Guds Þienare hafe Walld hier til, þoott þeir ydrest. Hvad viðvijkur hinum Fyrra Hoopnum, sem vera mun ollu stærre, þa vite þad sierhvor eiñ, ad lijka sem Christur sagde vid Læresveinana Fordum, Luc. 10. Hvor ydur heyrer, hañ heyrer mier (og meinte þo, alleina i þeim Hlutum, sem þier boðed i minu Nafne, og epter minne Skickan); so er þvi og vared, ad ef nockur Guds Ords Þienare, bodar þeim Kvittun Syndanna, sem ecke ydrast og ecke trwa aa Guds Son og hanns Forþienustu, þa er hanns Þioonusta Onijt, og verdur baadum þeim til Dooms Afellis, Prestenum, ef hann þad veit, og hinum, þoott Presturenn þad ecke vite; Þvi maa hvors eins Samvitska bera honum liioosast Vitne hier uñ; Enn ef Presturenn afleyser Ogudlegañ aan Vitundar sinnar, þa er hanns Þioonustu haattad eins og einum Doomara, þeim ed gengur raangañ Doom epter folsku Vitne, samt er ecke Doomurenn riettur, þoott hiñ, er dæmde, sie saklaus; So er og þess Blood yfir hanns Hofde, Ezech. 33. sem jaatar Synder sijnar fyrer Prestenum, enn þo ecke af Hiarta edur med verdugre Ydran; Enn Guds Þienare er sykn Saka, jafnvel þoott hanns Þioonusta sie Ogilld i Himnenum, sokum þess Ydrunarleisis, er hana þyggur. Þad er nærsta saavijslegt, ad einn Syndare meinar ad sier verde sijnar Yfirtrodslur fyrergiefnar, þoott ecke ydrest hañ þeirra, edur hafe nockurn Asetning edur Vidleitne til ad betra siñ Lifnad, ef Kieñemadurenn alleina leggur honum Hond i Hofud og bodar þeirra Kvittun. Giæt þess, O aumur Madur! Ad engenn hefur meire Myndugleika enn saa vill, er honum gaf hann. Nu er þad vijst, ad Gud tekur ecke vid Syndaranum, nema hañ laate sig angra Syndernar, og lofe ad betra sig: Þad skal alldrei finnast i allre Ritningunne, ad Gud lofe Naad sinne, nema ydrande Manne. Hvernig villt þu þa vænta þess af Kienne-Mañsins Hende, sem Gud hefur honum alldrei i Hendur feinged, og hann ecke sialfur vill edur kann giora, vegna sijns straanga Riettlætis, sem honum eins skyllder er og Myskunsemeñ; Og maa þad þier ecke gagna, þoott Presturenn sie þier samvitande i Hyrduleysenu: Laat hann ei draga þig aa taalar, þoott hann eige ad vita betur enn þu, þvi hann giorer i þvi Andskotans, og ecke Guds, Verk, ad boda þeim Kvittun Syndaña sem heñar er Overdugur. Þad er Diofulsins Slægd, ad giora lijted wr Syndeñe fyrer Mañenum, og kalla, ad Meñ meige komast af vid Gud med eintoomre Jaatningu edur wtvortis Hegdan Lijkamans. Vara þig i Guds Nafne, vara þig! Slijkt vill þier lijted gagna aa þinne Dauda-Stundu, þvi hinn Ogudlege skal deya fyrer sijnar Synder, segier DRottenn, Ezech. 13. Jafnvel þo hiñ riettlaate Gud, vilie krefia hanns Bloods af þess Kiennemanns Hende, er forsoomar ad segia honum til Syndarennar.

Þad er merkelegt sem hier stendur i Gudspiallenu, ad aadur enn DRottenn fieck Læresveinunum i Hendur Lykla-Vallded, þa blies hann aa þa og sagde: Medtaked Heilagann Anda. Nu þoott Andans Gaafa sie ecke so rijk aa þessum Dogum hia Guds Þienurum, so sem hun þa var, þar Vitnisburdurenn JEsu Christi er vidtekenn af ollum þeim

er Christner kallast, og jafnvel af þeim medkiendur, sem ecke epter hønum lifa, samt er eingeñ Efe ꝏ þvi, ad Guds Ande er i þeim og verkar med þeim sem hañ þar um bidia af Hiarta, og rækia sitt Embætte. Enn hver sem ad bodar Ydrunarlausum Kvittun Syndanna, og hann veit þad, hañ talar ecke af Guds Anda; Þvi Andans Embætte er ad straffa Heimeñ um Syndena, Joh. 16. Eñ eckert er Stioornleise meira, eñ ad segia þa Synd kvitta, sem ei er; Og sꝏ þad giører, hañ stioornast ecke af Heilogum Anda, helldur dregur bæde sialfañ sig og adra ꝏ tꝏlar. Nu kann einhvør ad þeinkia, fyrst ad Kvittun Syndanna er þar i foolgenn, ad Madur ydrest þeirra og trwe Christs Forþienustu, hvad þarf eg þa Prestsins Þioonustu vid? Mier næger þad, ad eg ydrast og trwe. Ei er hun þar fyrer Gagnlaus, christeñ Madur, helldur Omissande; Þvi fyrer utann þad, ad margur er Veikur, margur Trwarlijtell, margur Sturladur, margur Freistadur, margur Efasamur, þa eru þetta Guds Ord og Fyrerheit. Hver ert þu þa sem forsmꝏer Christi Skickan? Veist þu betur hvad syndugum Manne gagnar til Sꝏluhiꝏlpar, helldur enn hann, sem þier hefur hana afrekad med sijnum Dauda? Þad er vijst, ad Gud bæde vill og kañ ad giora þañ hoolpeñ sem ecke nær heilagre Skijrn; eñ hvør sem hana forsmꝏer, þad verdur hønum til Fordæmingar; og vidlijkt er i þessu: Sꝏ sem ei kañ ad nꝏ Prests Funde, þa er hønum þad fullt, ad Guds Ande uppvekur i hønum sanna Ydran fyrer Syndernar, og Trwna ꝏ JEsum, og hann hefur noog i hinne Andlegu Nautn, er DRottenn talar um hiꝏ Johannem, Cap. 6. Segiande: Hvør sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann skal ecke Daudann smacka ad eilijfu; under hvoria ad Ande DRotteñs afleyser hann med þeim Vitnisburde, ad hañ sie Guds Barn, Rom. 8. Enn sꝏ sem forsmꝏer þau Medøl, er Guds Sonur hefur skickad og innsett hier til, edur þykest þeirra ei vidþurfa, hann mꝏ ei christenn Mañ nefna; Eñ þad munu þeir einer þykiast giora meiga, er Syndeñ ecke miøg til Hiarta geingur, og heiter þad þa so, ad heiler þurfa ecke Læknarans vid, Matth. 9. Hiner, sem ad hun er Ofþung Byrde vordenn, so ad þeir hafa ecke Frid i Beinum sijnum fyrer henne, Ps. 38. Þeir munu Alls-Hugar fegner verda þessum Myskunar Ordum: Hvad þier leysed ꝏ Jordu, þad skal ꝏ Himnum leyst verda, Matth. 16. Þeir þiggia med allre Hiartans Audmykt eina Huggunar-Grein af Munne Guds Ords Þienara, so sem einn Svala-Dryck, af Guds Nꝏdar-Brunne uppausenn. Enn hvørier eru hiner? Eg Ottast þad mune meir vera Dofe Samvitskunnar, helldur enn Heilbrygde, er þeir veida sig uppꝏ. Eg hefe talad vid suma Menn, sem hafa lꝏted sier um Munn fara, ad þau Ord, er standa i vorum Skriptargꝏnge: Eg er hin syndugasta og svijvirdelegasta Mañeskia, sem verda mꝏ bæde fyrer Gude og Mønum; þau villdu þeir ecke so vidkañast, þviad þeir væru frijer fyrer sumum Glæpum sem adrer drygia, og sijnest þess vegna ad þad sie nockurskonar Hræsne fyrer Gude, ad jꝏta sig ad vera hiñ stærsta Syndara: Eñ eg Ottast ad slijkt kome nockud af Rannsooknarleyse sialfs sijns. Hver þecker Mannanna Hiørtu, nema sꝏ sem þau skapad hefur? Hvør kann ad vita hvørsu mikla Krapta

einn hefur til ad mootſtanda Syndenne, nema hañ, ſem þa giefed hefur? Hvor veit nema eg ſie ſtærre Syndare, ſem hann meira laanad hefur, helldur enn hiñ, ſem ad verr lifer fyrer Moñunum? Eg ſie margañ drygia þær Synder, ſem eg vil bidia Gud ad vardveita mig fraa; Eñ kañſkie ad miñ Skapnadur ſie þañig, ad eg hafe Vidbiood aa þeim, og er þad ecke mier ad þacka, eñ life þo epter Gyrndum mijnum i odru, ſem eg er lundlageñ aa og hañ er ecke giefeñ fyrer, verda maa og ad hañ hafe ecke þeiged ſo mikla Andans Naad til ad ſtrijda i giegn Syndenne ſem eg. Eñ hvorſu opt mootſtend eg nu Guds Anda, þegar hann minner mig aa ad giora þad ecke, ſem eg kalla litla Synd, edur laata af þvi ſem eg er vanur til, enn þyker ecke ſtoort i ſpunned vera? Þegar eg þetta ſkoda, þa vil eg ſiaa til, hvort þeſſe Synd kann ecke ad verda ſo fordæmannleg i Guds Auglite, ſo ſem hid verſta Mord hiaa þeim, ſem ad Gud kañſkie ecke enn þa ſo alvarlega tiptad hefur med Stroffun ſijns Anda; Og hvorneñ ſem þeſſu er vared, þa veit eg eitt, ad engeñ veit betur hvar Skoorenn ad honum krepper, helldur eñ ſaa ſem hann ber aa Fætenum. So þecke eg og hiaa eingum fleire Synder enn hiaa mier, þvi eg er eingum ſo margra ſamvitande, og þad munu aller ſegia, er rannſaka Hiarta ſitt ytarlega; Enn ſieu þar adrer ſyndugre, þad veit Gud, eg veit þad ecke, og fell eg þa i Forundran yfir hanns Giædſku og Poleñmæde yfir þeim, þvi mier þyker varla meiga aa þad auka, ad hann mig ſparar. Hier ſegieſt og ecke; Eg hefe allar Synder drygt, helldur, allskyns. Margur er ſaa, ad ecke hefur Mann veiged, ecke kreinkt ſijns Naunga Hwsfrw, ecke ſtoled med Leynd, ecke Fals-Vitne bored; Enn ſaa ſem vill ſegia, ad hañ ei drygt hafe neitt þvilijkt, hann ſegier under eins, ad hañ hafe þeſſe Bodord hallded, ſem eg þore ad ſegia valla mune nockur vera, og þvi er þeſſe Jaatning riett, og ecke einaſta riett, helldur þarfleg hvorium Chriſtnum Mañe; Og hafe Menn ecke añad til Dæmis hier um, þa hafa Meñ Ord Pauls, er hañ ſegier: Þad er ſañarlegt Ord og i allann Maata verdugt ad medtakaſt, ad JEſus Chriſtus er komeñ i þeña Heim ſynduga Meñ Saaluhoolpna ad giora, aa medal hvorra eg em hiñ meſte, 1. Tim. 1. Og er þetta nu ſagt um þa, ſem ad kalld-ſinnader eru i þeirra Jaatningu og Ydran fyrer Gude. Eñ þoott ad hiner, ſem ad ofbijdur Stærd ſiña Jllgiorda og Guds Reide, er þeir forþienad hafa, þoott þeir (ſegie eg) ſieu nær Guds Rijke, þa er þeim ſamt nærſta hætt, nema þeir ſtiorneſt af Anda DRottens, ſem bijr i hañs Orde, þvi Dioffulleñ er ſlægur: So ſem hañ kañ ad mijnka Syndena fyrer hinum toomlaata og hyrdulauſa, ſo gietur hann og ſtækkad hana fyrer hinum Angraada og Hugſiwka. Eñ laat þier til Hugar koma, Guds Barn, ad þad eru ecke Kraptar þinnar Naatturu, ſem ad uppvekia i þier ſoddañ Trega, helldur er þad Ande Guds, ſem ad ſtraffar Syndena þier til Leidriettingar. Hañ ſem ad ſært hefur Hiarta þitt med Brodde Logmaalſins, Oſ. 6. Honum er ecke um Mean ad græda þig med Smyrſlum Evangelii. Saa ſem vill giora einhvorn Koſtulegañ Grip af Gullenu, hañ ſmellter þad aadur med Elldenum; So lætur Guds Ande þitt Hiarta braadna i þier ſo ſem annad Vax med Þeckingu Syndarennar, ſo þu verdur þeſs Koſtulegre i Guds Auglite, nær hann ſvalar þier aptur

med Huggun sinne. Sọa sem meir er fyrergiefed hann elskar meir, sagde DRottenn forðum vid Simon, Luc. 7. Enn þu veitst ecke hvad miked þier er fyrergiefed, nema þier hitne alvarlega umm Hiartaræturnar wt af Tilfinningu eilijfra Pijsla, sem þu hefur forþienad. Vert þvi Efalaus umm Kvittun Synda þinna, nær þu ert so a þig komenn. Ad sönnu er þad satt, ad stoor Sar þurfa mikla Grædslu, og ad Synder vorar sieu hin verstu Saar, þad verdur ei wtskafed. Enn David segier, forlaat mier Synd mijna, fyrer þijns Nafns Skulld, þvi hun er mikel. Sieu þær nu miklar, þa er þo hanns Nafn meira, hvorium Gud hefur giefed Nafn yfir öllum Nöfnum, Phil. 2. Hvort er hanns Nafn? Eilijfur Fader og Fridar Höfdinge, Es. 9. Þar fyrer, so sem Faderenn er Börnunum Lijknsamur, so vill hann vera oss myskunsamur. Hanns Naad yfirgnæfer allann Skilning: Þar fyrer kann Syndenn alldrei ad vekia so mikla Styriölld, i angrادu Hiarta, ad hvar sem ad hun yfirgnæfer, þar yfirgnæfe þo Naadenn ei miklu framar, Rom. 5. Gud doo ecke til þess, ad þu skyllder örvænta, helldur trwa. Meira kostade hann ad giallda fyrer þijnar Synder, helldur enn fyrergiefa sijdann. Vært þess vegna ecke þvi ofann a allar þijnar Synder, ad þu giorer honum þann Oriett, ad hann, sem þolde hinn smaanarlega Dauda og bitrustu Helvijtis Pijsler fyrer hinar Verstu og Hrooplegustu Skammer sinna Ovina, hann mune burtu reka fra sier einn ydrande Syndara, sem til hanns kiemur i Nafne hanns Forþienustu. Hvorke Ydranena nie Trwna tekur þu af sialfum þier, hann sem kveikte i þier Ydranena, hann mun ei laata Trwna vanta, þvi hann veit ad hin er Onijt an þessarar. Þar fyrer, nær þu hefur hinn mesta Ohocka a sialfum þier, þa ert þu Gude hvad þeckastur, þvi meire Glede er i Himnenum yfir einum Syndugum sem Ydran giorer, helldur enn yfer Niju og Nijutijger Riettlaatum, Luc. 15.

Nu þecke eg suma Menn og hefe þeckt, sem ad sönnu ecke efast umm Krapt og Verdugleika JEsu Forþienustu, nie Guds Omælannlega Myskunseme, ad þeim mune Syndernar fyrergiefast, ef þeir giora verduga Ydran, enn þad liggur þeim yfirmaata þrongt i Skape, ad þeir faae ei so heita Ydran giort, ad hun sambioode Stærd og Fiollda Syndanna, af þvi þeir eru sier hinna verstu Glæpa og Bodorda Brota medvitande, enn þeir faae ecke so Hiarta sitt i sundurmared med Lögmalsins Hamre, sem honum lijke, er ecke bijr nema i sundurknosudum Hiortum, Es. 57. Og er þetta ad sönnu ecke Ofyrersyniu, þvi eiga soddann Manneskiur ad kosta öllum Saalar og Lijfs Kroptum til ad sundurslijta og plaaga Hiarta sitt med yduglegre Minningu þeirra Glæpa, er þeir drygt hafa, og ecke sijdur Giædsku DRottens, er þeir hafa stygt, helldur enn hanns Reide, og mun þess haattar Manneskia, fyrer yduglega Bæn og Vana, aan alls Efa faa Gyrnd sijns Hiarta af honum, er þesse Foorn alleina lijkar, Ps. 51. Enn þoott ad Taarenn renne ecke af Augunum, þa er þad a Stundum Naatturunnar Brestur, og heimtar Gud þad af engum sem hann hefur ecke giefed honum. Noog er þad, ef hinn innre Madurenn klagar sig, aasakar, sakfeller og straffar. Enn ef þier virdest þijnar Synder enn þa stærre, enn ad þier lijke vid sialfann þig, þa vit, ad þetta er hin þægelegasta og mesta Ofirboot hia Gude, sem af þinne

Hende maa framkoma, og munt þu heyra med St. Paale; Laat þier nægiast mijna Naad, minn Kraptur er i Breyskum mattugur, 2.Cor. 12. Og er ei Olijkt, ad hiñ Alvijse Gud giøre þier slijkt til gooda, þvi ef þu þætrist hafa ad fullu Ydran giort fyrer Syndernar, þa maa skie, ad þier være hætt vid ad falla til þeirra aptur. Hallt þier þess vegna vid hans Myskunar Fætur, og slepp honum ecke fyrr enn hann hefur blessad þig. Hier er oss gott ad vera, sagde Petur, þegar JEsus forklaaradest a Fiallenu Helga; Vier vilium giora hier Þriar Tialldbwder, þier Eina, Moysi Eina og Eliæ Eina, sagde hann, Matth. 17. Eg gledst ad sonnu med Petre af þessare Dijrdar Sioon, 2.Pet. 1. og daaest ad henne i allann Maata, enn þore þo ecke ad Oska mier hiñar somu, a medann eg ber epter mier Lijkama þessa Dauda, þennann fwla Synda-Seck, þeñann vonda Ham, fullañ allra Gyrnda og Lasta, þvi eg kvide vid, ad mijn syndug Augu, er so margt Illt hafa sied, og vænt um þoott, ad þau mundu ecke standast þañ himneska Dijrdar Liooma, mier mundi sama i Hug koma og Manoha sagde fordum Daga vid Kvinu sijna: Vid hofum sied Engil DRottiñs, þvi munum vid eflaust deya, D.B. 13. Eñ mætte mier þad heppnast, O HErra JEsu! sem hinne Bersyndugu Fordum, ad skrijda ad þijnum blessudu Footum, og þvo þær i Taarum mijns Hiarta, og smyria med Oleo minnar Ydranar, Luc. 7. Þaa villda eg segia: Hier er mier gott ad vera, þar vil eg flatur liggia, þadann skal mig einginn draga, þar skal mig einginn fordæma, þar skal engiñ mier um mijnar Syndir brijxla, helldur mun eg heyra þau Fagnadar Ord: Honum fyrergafst mikid, þvi hañ elskade mikid; Far i Fride, þijn Trw giørde þig hoolpinn. O HErra! þegar vier kostum oss flater til Skarar Foota þinna, Ps. 110. Ecki med Ovinum þijnum, helldur med þessare Saka-Konu, þa laat þiñ gooda Anda mæla þesse Huggunar Ord i vorum Hiortum. Bænheyr þad Naadarfulle Gud, fyrer JEsu þijns Sonar Forþienustu, og gief oss þar til þessa þijns sama Anda Styrk og Adstod, i hanns Nafne, Amen.

# Annann Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 10. Cap.

JEsus sagde til Gydingaña: Eg em goodur Hyrder. Goodur Hyrder giefur sitt Lijf wt fyrer sijna Saude: Eñ Leigulideñ, og hañ sem ecke er Hyrder, hvers ad Sauderner eru ecke Eigiñleger, nær hañ sier Ulfeñ koma, þa yfergiefur hañ Saudina, og flijr i burt. Og Ulfuriñ grijpur Saudina, og sundurdreifer þeim. Eñ Leigulideñ flijr, af þvi hañ er Leigulide, og giætir ecki Saudaña. Eg em goodur Hyrder, og eg þecke mijna Saude, og eg þeckest af mijnum; So sem Fadiriñ þecker mig, og eg þecke Fodurenn, og eg legg mitt Lijf wt fyrer mijna Saude. Eg hefi og adra Saude, sem

sem ei eru af þessu Sauda-Hwse, þær byriar mier og hier til ad leida, og þeir munu heyra mijna Rodd. Og þar mun verda eitt Sauda-Hws, og eiñ Hyrder.

## Exordium.

Hinn Fyrra Pistle til Tim. 3. seger Postulenn, ad þad sie mikell Leyndardoomur Gudhrædslunnar, ad Christur sie Heidingiunum predikadur. Gudhrædslu nefner hañ hier Christinndoomenn, svo sem vijdar añarstadar i sijnum Pistlum, þad er hinn sanna Lærdoom um Frelsara Heimsins. Þad er sw gledilega Hyrdersins Raust, er DRottenn talar uñ hier i Gudspiallinu, hvor og hefur fagurt lâted æ medal vor, þvi seger hann: Eg Hefi Og Adra Saude, Sem Ecke Eru Af Þessu Sauda-Hwse, i hverium hann bender til Spædooms Ezechielis, 37. Cap. Hvar DRottenn so talar: Minn Þioon David skal vera Konungur yfer þeim, og þeir skulu aller hafa einn Hyrder, ad þeir gange i mijnum Riettindum. Gledilegt er þetta ad heyra, B. M. fyrer þad Foolk er sat i Myrkrunum, Esa. 9. og fyrer þeirra Epterkomendur, sem erum vier. Enn so gledilegt sem þad er, so hryggelegt er til þess ad vita, ad þeir eru so fæer sem þad vill rætast æ, nu æ þessum verstu og sijdurstu Dogum; þvi svo feigens Hende sem ad marger af Heidingium tooku æ moote hinu Fyrsta Christne-Bode, svo fæer eru nu þeir vordner, sem ecke drepe Hendenne vid þessare Guds Nææd, og so sem ad Christur fann varla þann er hann þeckte i sinne Fyrre Tilkomu, so er ad ugga, ad hvad sem hann tefur wr þessu ad koma, þa muni hann varla finna Trw æ Iordu, Luc. 18. edur þæ er hann þecke fyrer sijna. Og fyrer þad, ad þad er so Almennt vorded, ad daufheyrast vid Raustu hinns gooda Hyrders, þa vil eg wt af Evangelio tala uñ þær Hlute er kunna ad uppvekia oss til ad liæ henni vor Eyru, so ad vier ecke wt af sofnum i Daudanum. Gief oss þar til þinn Anda, himneske Fader, fyrer IESU Forþienustu, Amen.

## Utleggingenn.

Vakna upp þu sem sefur, og rijs upp af Daudum, seger Postulenn, Eph. 5. so mun Christur upplijsa þig. Enn hvar vid skyllde sæ vakna er sefur i Syndunum? Hvar vid skylldi hann upprijsa sem er daudur i þeim? Nema vid Raust hiñs gooda Hyrders, er sagde Fordum Daga, þa hann framsette Epterlijkinguna uñ Sæded, Matth. 13. hvert ad er Guds Ord, Hver Eyru hefur ad heyra hann heyre. Guds Rodd er þetta eñ ecke Mañа, sagde Foolked, þad er heyrde æ Tal Herodis, af þvi hann talade so sniallt, P.G. 12. Eñ eg mææ þad ollu helldur færa heim til þessa gooda Hyrders Saudaña, þess Biskupsins med þær vellærdu Twnguna, Esa. 50. Þad eru Guds Ord, eñ ecki Mañа, er hañ talar, og þykest eg noog hafa sagt, þegar eg segi ad þad Guds Ord sieu. Þu syndugur Madur, er þetta heyrer, lææt þier þad til Hiarta gææga, og hugsa hver sæ er, sem vid þig talar, þad er eingeñ jardneskur Hofdinge eda Konungr,

edur

edur Keysari, og mundir þu þo heyra þaa med hiñi mestu Athygli; Eñ þad er DRottiñ Himins og Jardar, sem ed hefur Konungaña Hiortu sier i Hende, og øll Verølldenn leikur fyrer honum aa Reide-Skiaalse þegar hañ talar, Ordsk. 21. Mikill maa vera Munur Abrahams Forfødurs og þijn, ad þegar hañ talade vid DRottiñ, og þo i Mañs-Lijki, þa vard hañ so audmiwkur, ad hañ sagde: Nu villda eg þo tala vid DRottiñ þoott ad eg sie Molld og Aska, Gen. 18. og rak saa Guds Madur þo añarra Eyrende og ecki sitt, i þad Siñ; Eñ þu sem ad liggur hrasadur medal Ræningia, Luc. 10. og gietur þier einga Biorg veitt, jaa, þu sem vellter þier i Syndunum daglega, eins og eiñ Madur i siñi Hvijlu, þu villt ecki heyra, þegar DRottiñ kallar i sijnu heilaga Orde. Hugleid, ad ef þu ættir ad taka Eyrinde nockru af Hofdingia einhverium, og þu svarader honum ollu ødru enn þvi sem til þess heyrde, edur þu lietist þad ecki heyra, munde hann ecke bræadlega reidur verda og reka þig aa Dyr? Edur laata i Fiotur kasta? O! hvad miked skilur þa Gud og Mennina! Hversu opt kallar hann oss fyrer sig i sijnu heilaga Orde! Hversu opt verda oss hanns Eyrinde aa Hendur falinn! Hvad tijdt bijdur hann oss hvad vier giora skulum, og Ogiort laata! Enn þad geingur eins fyrer morgum af oss, eins og Syrach skrifar um hinn Heimska, ad þad er eins vid hañ ad tala og þañ ed sefur, nær þu hafder lokid Ræduñe, spyr hañ epter hvad þu sagder, Syr. 22. Eins geingur þad morgum þeim, ed Ordid heyra edur lesa: Menn muna þad varla medañ þad heyrt edur lesed er, auk helldur ad þeir færi þess nockurn Avoxt, riett eins og St. Jacob talar hier um; Ad ef nockur er Ordsins Heyrare og ecke Giorare, hann sie lijkur þeim Manne, er siñ naatturlegann Yferlit i Speigle skodar, Jac. 1. þvi hann skodade sig, gieck burt og gleymde hvilijkur hañ var. So sioaum vier (ef vier þo sumir ad þvi giætum) i heiløgu Guds Orde, hañs Giædsku og vora Illsku, hañs Polinnmæde og vora Þvermoodsku, hañs O-wtsegiannlegañ Kiærleika og vort Hatur og Leida, sem vier berum til hanns Riettinda, eñ vier gleymum þvi fliott, ad þad hefur lijtinn Stad hiaa oss til Apturhvarfs fraa Syndunum nie Lifnadarins Leidriettingar. Giætum þo ad þvi i JEsu Nafni, giætum ad, hversu dijrmætt ad þetta Ordid er, og hvad miked þad hefur kostad oss ad byrta! Þad er ecki eins og þad Ordid, er Gud talade i Upphafe, og skoop þar med Himin og Jord, Gen. 1. Ecke eins og þad, hann talade til vorra Fyrstu Foreldra, er hañ straffade þau fyrer Syndina, og rak wt af Paradijs, Gen. 3. Ecke eins og þad, hann talade til Israels Sona i Eydimorkunni, og þeir beidduſt undañ ad heyra þad, Exod. 20. helldur er þad Lijfsins Ord, Joh. 6. fyrer hvert ad Guds Sonur hefur uppaa sig tekid vort auma Holld og Blood, og i þessu sama Holldi lidid allar Eymder mannlegs Hollds, Hwngur, Þorsta, Klædleyse, Utlegd, Orbyrgd, Hæadungar og Brijxl Ogudlegra Manna, Ossooktner, Fiotur, Hraaka, Hwdstrokur, Hogg og Slog, og ad sijdurstu hinn smaanarlega Dauda aa Krossins Gaalga. Allt þetta vann hin eilijfa Hæatign til þess, ad opinnbera þetta Lijfsins Ord sijnum Fiand-Moñum, er geinged hofdu i Sveit med Andskotanum. Og þo skamast sijn ecke eiñ Giaa-

lijfur og þverbrotenn Syndare ad troda þessa Guds Gaafu under Footunum, lætur naudga sier til ad heyra þad og læra, og kallar þeim veitt i, sem Guds Sonar Umbod aa Hendi hafa, ef þeir faa þrijtst honum til ad sijna sig under Heyrn Guds Orda. Seig mier, þu sem ekur þier vid ad sitia undir eiñi Predikun, hvert mun Guds Son hafa kostad meira ad faa sitt Ord þier opinnberad, edur þig ad heyra þad? Þu munt nærre gieta, er þu les hañs Pijslar-Sogu; Hitt veit eg, ad hañ laangade til ad lijda allar þær Kvaler, sem þar i ritadar eru, þiña vegna; Eñ hvert þig laangar so til ad heyra þad Ordid af Krossinum, þad bid eg sialfañ þig ad hugleida. Segied mier eñ aptur; Hvers vegna mun hinn goode Gud hafa unnid so mikid til aumra Maña Saaluhiaalpar? Þurfti hann þess sialfur vid? Fiærri sie þvi. Himnarner wtskijra hans Dijrd, og Festingiñ Verk hañs Handa, Ps. 19. Munde hañ hafa lided nockurn Skort aa Dijrd siñi, þoott Mañeskiañ hefdi eilijflega kvalest i Helvijte? Nei, eins vegsamlegt hefdi verid hanns Riettlæti, so sem nu er hañs Giædska, þoott eingum hefde hann myskunad. Er honum nockud veitt i vorre Þioonustu? Laangt fraa, þar standa frame fyrer honum Otal Þusund himneskra Herkara, sem lofa hañ og prijsa aan Aflaats Noott og Dag, hverra dijrdlegar Radder og Lof-Saungvar laangt yfergaanga vort syndugt Kvak, er vier laatunst vegsama Gud med hier aa Jorduñe. Hvar fyrer lætur hañ þaa sitt dijrmæta Ord predika? Hverium til Gagns og Gooda? Þier, þier, O þu rænulaus og þverbrotinn Syndare! og þad wt af einskiærre Naad sinne; og þo leggia syndugir Meñ þeña himneska Leyndardoom ad so litlu, ad Menn vilia naalægt allt annad heyra. Sie þad ei annad, sem kunni ad þvijnga oss til ad hafa Mætur aa Guds heilaga Ordi, þa lijtum til vorrar saurugrar Fædingar. Hvad vorum vier nær vier fæddunst i Heim þeña af Moodur-Lijfe? Reidinnar Born, Eph. 2. Eintoomis Holld og Blood, Joh. 3. sem ei kañ Guds Rijki ad erfa, 1. Cor. 15. Eñ hvad erum vier nu? Guds Born og Erfingiar eilijfs Lijfs, Gal. 4. ef vier trwum aa Guds Son og vardveitum hañs Ord; Enn hvar fyrer er þad skied? Mun ecke fyrer Guds heilagt Ord? hvert ad er i Vatninu og med Vatninu, nær vier giorunst Guds Born af Reidiñar Bornum i heilagre Vatns-Laug. So er þa Guds heilaga Ord hin Fyrsta Mioolk, hveria vier inndreckum strax med Moodur-Mioolkinne, fyrer hveria vier odlunst hid andlega Lijf, aan hvors hid Lijkamlega er eckert annad eñ Daude. Enn Gud naade oss auma og synduga! Ad þegar vier drogunst aa Legg, þa velgir oss vid þessare Barna-Fædu, aan hverrar einginn Spekingur, eingiñ Meistare, eingiñ Doctor hefur þo fullordinn giorst i Guds Þeckingu. Eñ hvad velldur þvi, Br. M? Þad, medal annara, ad margir Ovitrer og hyrdulauser Forelldrar, er sialfer kann skie lijtid edur eckert vita sier til Saaluhiaalpar, þeir leifa Bornunum fyrr ad veniast aa Brioost hinnar Giaalijfu Hooru Veralldarinnar, helldur enn aa hina skynsamlegu og Osviknu Mioolk, er St. Petur dreckur þeim til af, 1. Pet. 2. ad þau vaxi i henni. Giætid þo ad Saalum ydar, Christner Menn, þoott þier ecke miked hyrdid um Saaler Barna ydar, þvi Gud mun eflaust kref-

ia

ia þeirra af ydar Hende, Ezech. 33. ſem vegna ydar Forſoomunar eilijflega glatadar verda. Enn þoott ad þad hafe vered Forelldranna Skulld, ad þeir hafe ei uppfrædt nockurn aa hañs Ungmennis Alldre, þa vite hañ ſamt, ad þad verdur hanns eigenn Skulld, þegar hañ kiemur til Vits og Ara, ef hann fer aafram i ſlijku Ovite og Hyrduleyſe: Þar fyrer ef nockur er ſaa, ad hann vante þad, er hann vita þarf til ſinnar Saaluhiaalpar, ſem eg dylſt ecke vid, ad fleire enn færre vera mune, þa laate hann ſier um̃ alla Hlute fram̃ vera ann̄ um̃, ad ſaa þeſs Leidrietting hiaa þeim ſem betur vita, ef hann elſkar Saalu ſijna, og ſkamm̃eſt ſijn ecke; þvi fyrer hvorium vill hañ ſkammaſt ſijn? Ecke fyrer ſijnum Saaluſorgara; þvi ef þar er nockur Guds Anda Neiſte i honum, þa mun hañ fagna þvi, ad eiñ Faafroodur Veſælingur vill leita Raads til hañs i ſijnum Saaluhiaalpar Efnum; Ecke fyrer neinum Gudhræddum edur Vitrum Mañe, þvi ſo laangt er fraa þvi, ad nockur ſaa ſem Gud elſkar, mune hlæa ad þvi, ad þeir mundu kalla þad Lofs verdt, og vera eins lynder og þeir ſem i Himnenum eru, hvar meire Fognudur er yfer einum Syndara, ſem Ydran giorer, helldur eñ yfer 99. Riettlaatum, Luc. 15. Fyrer hvorium ſkyllde hann þa ſkammaſt ſijn? Fyrer Gaarungum Verralldareñar, ſem jafnvel hlæa ad Gude og ollu þvi honum tilheyrer. Eñ þeſs er ſtoor Munur, ad taka aa moote þvi Spotte, ſem einkis er verdt, og ad ſtanda med Kliñ-Roda fyrer Guds Doome aa ſijdarſta Deige: Og hvernig ſem ollu þeſſu er vared; Þa hygged ad, hvort ad ſie miñe Mijnkun ad aller vite þad eiñ verde ad fara til Helvijtis fyrer Vanvitſku ſaker, ellegar ad leidriettaſt af odrum, ſem betur vita, ſo Menn kunne ad verda Erfingiar eilijfs Lijfs. Nu er þad ecke noog, Guds Barn, ad þu kunner þinn Barna Lærdoom, og viter hvad þu aatt ad trwa, og nockurn veigenn ad giora; Þar eru ſo morg Tilfelle, ſem ad oſs mæta aa hinne Hættuſomu Reiſu fraa Vogguñe til Grafarennar, bæde i andlegann og lijkamlegann Maata, ad ſaa ſem vill fara hina riettu Leid, hañ gietur ecke vered aan Leidarvijſers Guds Heilagra Orda, hvort David ſegier ad ſie Lioos aa ſijnum Vegum og Lampe Foota ſiña, Pſ. 119. Hann ſem þo var eiñ vitur Konungur. Med Guds Orde verdum vier Endurfædder, med Guds Orde Uppfrædder; Þau temia vorn Ungdoom, ſtyrkia Fullordens Areñ, hugga Ellena. Hvad er eiñ Unglingur, ſaa er ecke hefur Gud ſier fyrer Augum? Hann er eitt Raadlauſt Villudijr, einn galeñ Fole; þvi ſegier David: Hvernig kañ Æſku-Madurenn ad gaanga ſinn Veg Oſtraffañlega? Ef hann helldur ſier vid þijn Ord, Pſ. 119. Þvi verdur morgum þeim, er Guds Ord og goodar Menter forſmaa i Ungdoomenum, ad þeir elldaſt alldrei þoott þeir Attræder verde; Enn hvar eiga þeir Gud ad ſiña? Hvar eiga þeir hann ad ſiaa? Neina i hanns Orde. Hvad er Madurenn þa hann er fullordenn aan Guds Orda? Laatum honum Rijkdoom hlotnaſt, hañ er Satans og Mammons Þienare, nema hañ lære i goodum Verkum rijkur ad vera, ſem Paulus bijdur, 1. Tim. 6. Eñ hvar ſkal hañ þad læra nema i Guds Orde? Laatum hann ſetiaſt i Metord og Virdingar, hvad er hann fyrer utañ Leid-Sogu Guds Orda? Eitt Skip fyrer utañ Stijre, nockurskonar Rik ſem Vindureñ upp i Lopted feiker: Þad ſiaaum vier (þvi

 verr

verr) ꝍ morgum Afglapa, sem ad Luckañ tiller upp i hꝍann Sess, sialfum sier ꝍ Stundum til Spotts og Mijnkunar, enn ødrum til Skada og Meinsemdar. Elleñ er ad soñu i sialfre sier heidarleg, jafnvel epter Guds Bode, Levit. 19. Oskandevære, ad hiner Ungu hefde þar epter Vilia edur Vit ꝍ ad sijna heñe tilheyrelegañ Heidur. Enn einn gamall Madur, fyrer utann Otta DRottens, er Vidundur Verralldar, þvi Guds Otte er þad sem hañ ꝍtte framar øllu ad læra ꝍ sijnum Æfe-Stundum og kuña ødrum ad kieña sem yngre eru; Mꝍ þvi sijnast ad hann hafe lijteñ Avøxt Æfe sinnar, ef hann er Ungum verre i Þeckingu Guds og hañs Heiløgu Orda. Segied mier; J hvøriu er vor Christeñdoomur mest foolgeñ? J þeim Þremur Hlutum, ad eg meina, ad ydrast Syndanna, ad trwa þær verde sier fyrer Christum fyrergiefnar, og so ad lꝍta af þeim framveigis. Enn hvørnig villtu þeckia Syndena, nema Guds Ord sijne þier hana? Þad er eiñ Speigill, i hvørium Madurenn kañ ad skoda hvilijkur hann sie. Ared edur Agnernar i Loptenu sꝍum vier ecke sied, nema i Soolar-Geislanum. Giætum þess, Brædur mijner, ad þott oss sie i Bodordunum sagt, hvad vier eigum ad giøra og Ogiørt lꝍta, þa er þad margt smꝍtt i Fare voru, sem Bodordunum er mootstædelegt, og vier mundum ecke skynia, nema oss være þad framar sijnt af Guds Heilaga Orde, sem ad er hinn fegurste Geisle þeirrar blessudu Riettlætis Soolar. Enn engenn er afsakadur, þoott eige vite hañ Guds Vilia, þvi sꝍ sem ꝍn Løgmꝍls syndgar, hañ skal ꝍn Løgmꝍls fyrerfarast, segier Postuleñ, Rom. 2. Hvad eigum vier uñ sialfañ Gud ad tala? Lijted til hinna fyrre Dagaña, sagde Moyses vid Jsrael: Lijtum til Heidingiaña, Fedra vorra, hvørier ed geingu til Mꝍllausra Skwrgoda og þioonudu þeim, 1. Cor. 12. O! hvørsu mættum vier þa hinum Allsvalldanda Gude Þacker kunna med grꝍtande Tꝍrum, ad hañ hefur oss sijna Hꝍtign, sijna Giædsku, sitt Riettlæte, sijna Þolennmæde og sijna Guddoomlega Speke opeñberad i sijnu Heilaga Orde, so ad nær vier berum vort saurugt Lijferne, er vier skodum i Speigle Løgmꝍlsins, samann vid hañs Guddoomlegann Tignar-Lioma, þa sꝍum vier Vit ꝍ ad skamast vor, ad ydrast, ad audmykia oss under vollduga Guds Hønd, og Offra hønum þeirre Foorneñe, er hønum alleina lijkar af vorre Hende, sem er harmþrwngenn og sundurknosadur Ande, Ps. 51. Nu þegar vier høfum so þeckt Syndena, og sꝍum oss ecke annad bwed enn eilijfar Helvijtes Pijsler, hvar villdum vier sꝍ Boot vid þessu? Være oss þad ecke opennberad i Guds Orde, ad hanns Sonur være i Heimenn komenn til ad kalla synduga og ecke riettlꝍta til Ydranar, Matth. 9. Þegar Andskotenn lætur einum Glæpa-Manne, sem allann sinn Alldur hefur i Vondskuñe aled, ofbiooda þær Syndernar, sem hañ hefur lockad hann til, so hañ ꝍ skamt til ad Ørvænta sier Guds Nꝍdar; Hvar vill hañ sꝍ Boot vid þessu? Ef ei hefde hañ þau Lyknar-Ord Guds; Ad so sannarlega sem hann life, vilie hann ecke Syndarans Dauda, Ezech. 33. Og oñur þvilijk. Nu þegar þu ꝍtt ad uppbyria hina niju Hlijdne, og sijna ad þu siert Guds Barn vorden af Þræl Syndarennar, enn Andskoteñ, Heimureñ og Hollded freista þijn; hvar villt þu sꝍ Nꝍd til ad wtslockva øll

Elld

Ellldleg Skeyte hiñs prettvijsa, Eph. 6. Nema i Guds Orde? Hvor kienner þier ad krossfesta Hollded med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Nema Guds Ord? Hvor yferviñur Heimeñ, nema saa sem fæddur er af Gude? 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þvi hañs Sæde er i honum, segier Johannes, 1. Pist. 3. Hvort er þad Sæded? Þad er Guds Ord, segier DRottenn i Epterlijkingunne, hiaa Lucam, Cap. 8.

Hier verd eg og ad minnast nockud aa vora Kyrkiugaungu, og Heyrn Guds Orda i hañs Hwse. Þad er oss øllum vitannlegt, ad i sijnu Mustere hefur Gud sett Minning sijns Nafns, þar vill hañ dyrkast og tilbidiast, Exod. 20. Þar eigum vier ad tala vid hañ i vorum Bænum, og heyra hañ aptur til vor talande i sijnu Heilaga Orde, þar eigum vier ad taka Riettindeñ af Kieñemañsins Munne, þvi hann er Engell DRotteñs, Malach. 2. Ritningeñ er ad søñu Brunnur hinns lifanda Vatns, er Christur vill oss giefa, hvor sem af þvi dreckur, hann mun ei þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. Enn vier meigum flester segia, eins og hin fraavijsa Samariska Kvinna sagde vid JEsum Fordum: Þad er diwpt ofañ i Bruñenn, eñ vier hofum eckert ad ausa med. Guds Ords Þienarar eiga ad vera oss i þessu, so sem Rebekka var Eleazar Abrahams Sendemanne, ad hun joos Vatned upp af Bruñenum fyrer hann og hañs Ulfallda, Gen. 24. Eins og Jacob var Rachel, er hañ vellte hinum mikla Steine af Brunnenum, so hennar Fodur Hiord kuñe ad drecka, Gen. 29. Þeir eiga ad sundurkliwfa Ord Sañleiksins fyrer oss, 2. Tim. 2. og giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad þeim byriar, Luc. 12. Þvi hvernig meiga þeir trwa nema þeim sie predikad, segier Paulus, Rom. 10. Haf þvi Raad Salomonis er hann segier, Pred. 5. Vakta þijna Fætur, nær þu geingur i Guds Hws, og vert helldur bwenn til ad heyra, enn til ad giefa Offur hinna Heimsku. Soddann Offur maa kalla þeirra Guds Þionustu, er byrtast i hañs Hwse, alleina fyrer Sida-Saker, eñ hugsa allt añad enn um̃ þad sem talad er. Nu veit eg þo, christenn Madur, ad þu segier: Þoott mijner Þaankar kuñe ad hvarfla hijngad edur þaangad, jafnvel under Predikuneñe, þa fæ eg ecke vid þvi giort, hvorsu vel sem eg villde. Eg veit þad er satt, og þad maa hvor Madur ødrum jaata, þvi Mannsins Þaankar eru vonder fraa Barndoome, Gen. 8. Enn hitt gieta Menn vidgiort, ad þeir sieu ecke Laangdvølum i burtu, nær Meñ under Guds Orda Heyrn sitia. Þvi Raad eru nockur vid þvi, B. G. ad minna verde af þessu, helldur eñ kañskie almeñelega skiedur. Eg vil ecke hier tala um̃ Ogudlegar Mañeskiur, er setia sig til ad hugsa allt añad enn þad sem af Guds Orde talad er, til ad stytta sier med þær Stunder, er þeir ættu Gude ad giefa. Um̃ soddann Andskotans Mustere vil eg ecke tala; Hinum vil eg Raad leggia, er giarnañ vilia Orded heyra, eñ faa þad ecke giort sem villdu þeir, fyrer Naatturuñar Breiskleika Saker: Hid fyrsta er, ad nær þu geingur i Guds Hws, þa gior þad ecke af Yferdrepskap, helldur Alvoru. Eñ fyrer þvi ad soddañ Hugarfar tøkum vier ecke af siaalfum oss, þa bidium Gud iñelega um̃, ad giefa oss Astundan og Epterteckt sinna Heilogu Orda, nær vier inngaungum i hanns Hws; hvad nær vier giørum̃ af Hiarta, þa er engenn Efe aa þvi, ad hanns Ande bidur fyrer oss

med Dumrædeleǵum Andvorpunum, Rom. 8. og framkvæmer i oss þad gooda Verked. Hid Annad er Elskan til Guds, hvoria vier ødlunst bæde med Bænenne, ef hun er alvarleg og ydugleg, svo og med siifelldre Jhugan Guds Tignar og vors Overdugleika, hanns Orlætis og vorrar Parfár, hans Giædsku og vorrar Illsku; hans Þolennmæde og vorrar Þvermoodsku, og kan oss alldrei ad bresta Ordsok til þessa, þvi a hvoriu Augnablike medtokum vier hanns Naadar Velgiorninga, og a hvoriu Augnablike syndgunst vier a moote honum, so þegar vier berum þetta samann i Hiarta voru, þoott ei sie nema Kvolld og Morgna, þa kunnum vier ecke ad fara a mis vid þad, ad fa eina brennande Elsku til hans, sem oss Ogudlega og synduga Orma sparar i Naad sinne, og giorer oss ei ad siidur allt til gooda, þoott vier hann viisvitande til Reide reitum. Nu er þad vitannlegt, ad ef vier elskum nockurn og virdum, þa vigtum vier hvort Ord, er hann talar, og þyker vænt um þad, og þoott þad sie Heimska a stundum, þa er vor Breiskleike so mikell, ad vier holldum þad Gullvægt, hvad sem wt af hans Munne kiemur; Og þvi skylldum vier þa ecke elska Guds Ord, ef vier han elskum, þar þau eru i sialfum sier diirmætare enn hid besta Gull, og sætare en Huna̋ng og Huna̋ngsseimur, Ps. 119. En þa framar: Hofum vier ecke Ynde og Gaman af ad heyra talad um þa Hlute er oss þyker vænt um? Sioo-Madurenn talar giarnan um Siglingar, Striids-Madurenn um Orlog, hinum agiarna leidest alldrei ad heyra rædt um Fiaar-Aflan, Viisenda-Mannenum um Heims-Speke, Logvitringnum um þess-hattar Hyggende, þvi hvar ydar Fiarsioodur er, þar er ydar Hiarta, sagde JEsus, Matth. 6. Aller erum vier Onæmer a hid Gooda i Fyrstunne. Ein Unglingur, þa han er fyrst settur til Menta, þa er honum leid sw Ydia, enn epter a fær han so mikla Lyst þar til, ad han gietur varla annad giort; So skal fa vita, ad sier er vel framfared a Guds Veige, sem elskar hans Ord; Fæe Men fyrst Elskuna, þa er ecke ad ugga um Epterteektena, þvi miiner Sauder heyra miina Raust, segier Guds Sonur hier i Evangelio. Og segied mier, B. M. Um hvad ætte oss vænа ad þykia, enn um Saaler vorar, sem vier þo ecke vitum nema fra oss teknar verde a hvoriu Augnablike; Þvi skylldum vier þa ecke giefa hin mesta Gaum ad þvi, er þeim hialpa kan, ecke til nockurs Stundargagns, helldur til eiliifra Nota? Enn þessa Elsku og Rækt til vorra eigen Saalna, munum vier odlast, ef vier venium oss a ad bera saman þa Diirdlegu Vist, sem ollum Guds Bornum er fyrerbwen med Christo i hanns Riike, og so Fordæmdra Piisler i Helviite, hvar þeir eta siinar Tungur wt af Piinu af Ofraun Kvalanna, Openb. 16. J Þridia Maata, Barn Guds, nær þier annarleget edur synduger Þankar i Hug fliwga under Guds Orda Heyrn, þa lat þa somu verda þier til Uppvakningar, ad þu skamest þiin, ad þu hafer þannig saurgad Guds Mustere, og sla þannig Andskotan med siinu eigen Sverde, þvi ad viisu mun þig angra þad, ef þu ert Guds Barn, ad þu ert so under Syndena selldur, Rom. 7. ad þu gietur ecke eina Stund vakad med DRottne, Matth. 26. Og nær þig þad angrar, þa munt þu braadlega leita aptur til ad finna Hugsvolun Saalu þine i þvi sem fyrer þier er talad

af helgum Stad. Villdu Menn nu þetta Þrennt gaumgiæfilega athuga, þa er eg fullkomlega viss um, ad margur fære betre heim aptur i sitt Hws, Luc. 18. undann Guds Orda Heyrn, helldur enn mig ugger ad Menn almennilega giore; Hvad Gud næde!

Nu er þad þo ecke noog, B.M. ad Menn heyre Guds Ord med Athygle, nema Menn fære þar af Avoxt i Þolinmæde, Luc. 8. Vier eigum ad Rootfesta þad, so og groodursetia i Hiartanu, ad nær vier freistunst af einhverre Synd, ad vier þa strax hofum oruggt Vijge a moote henne, i þvi sem vier hofum numid af Guds heilagre Kienningu. Hvad giorde vor goode Meistare, nær hann var freistadur? Þoott ecki væri honum hætt vid ad sigrast af Dioflinum, þa sloo hann samt þann Ovin med Guds Orde, i heilar Þriaar Reisur, so ad hann skammadist sijn, og forliet hann, seger Gudspiallamadurenn, Matth. 4. Gior þu eins, Christenn Madur: Enn hvernig villtu faa þad giort, nema þu hafer numid þad og geymt i Hiarta þijnu? Og kuner þu af einhverri Freistingu yferstijgenn ad verda, hvernig villt þu faa Lækning þar vid, nema af þvi sem þu kant af Guds Orde? J sama Maata, nær þu fær Ordsok edur Tækifæri til ad giora nockud gott, þa eiga heilog Guds Ord, er þu hefur safnad i Fiesiood Hiarta þijns, ad minna þig þar a, og giorer þu ecke þetta, þa maa þier þad ad litlu gagna, hversu Bænheitur, hversu Gudrækinn sem ad þu situr undir einne Predikun, þvi þad vill eins gaanga og um Sæded, Luc. 8. þad er fiell i grijtta Jord og a medal Þyrna, ad soddann Manneskiur annadhvert medtaka Orded med Fagnade, enn hafa þo ecke nockra Root, þvi um Stundarsaker trwa þeir, og falla fraa a Tijma Freistingarinnar; Edur og ad Þyrnenn, þad eru Sorg, Audæfe og Gyrnder Heims þessa, vaxa upp med þvi og kefia þad, so ad þad færer eingann Avoxt. Eg efast ecki um, ad þar mune nockrer vera, sem æsetia sier gudrækilegann Lifnad, nær þeirra Synder eru straffadar i Guds Orde; enn hvad fæer þeir sieu, er fylla þad med Verkinu, er audsært af Ogudlegu Mannanna Framferde i Heiminum. Gud giæfi þar væri einn Samaritan medal Tiju Gydinga, Luc. 17. Einn Abraham i Gerar, Gen. 20. og Tiju Gudhrædder i Sodoma, Gen. 18. Þig ydrar af Hiarta þess, er þu hefur Gudi a mooti brotid, og þu lofar ad syndga ecke vijsvitande framvegis. Enn seig mier, Kiære, nær ætlar þu til þess ad taka, ad lifa betur? Munu þeir ei fæer er hlaupa strax wr Tollbwdinni med Levi, og fylgia Christo epter, Luc. 5. Nær ætlum vier ad taka til ad elska Gud og hans heilaga Ord, ad virda og Ottast hans Nafn, sem oss byriar, ad heidra Forelldra og Yferbodna, Exod. 20. ad aga Born sijn og uppala þau i Otta DRottins, Eph. 6. Nær ætlar hinn Heiptræke ad taka til ad elska sinn Ovin, Matth. 5. Hinn Lauslaate ad giora Saattmaala vid sijn Augu, Job. 31. Hinn Agiarne ad laata af ad stela, ræna og svijkia, Eph. 4. Ligarenn ad rægia og baktala, 1. Pet. 2. Nær ætlum vier ad hreinsa Hiortu vor af þessum daudlegum Verkum og Svivirdingum? Kann skie nær vier gietum ecke leingur, edur nockru epter þad vier erum dauder. Enn David seger, Ps. 115. ad þeir prijse ecke Gud sem ofann fara i Helvijted, og mun þad þa verda nockud um seinna, ad giallda honum þaa Skulld, er honum atte hier ad lwka.

O þu

O þu Naaduge Gud, skapa þu i oss hreint Hiarta, og gief oss eiñ nijann vissañ Anda, Ps. 51. Snw þu oss, DRottenn, þa er oss snwid, Jer. 31. Laat oss hafa Lysting vora i þijnu Lögmaale, og tala um þad Daga og Nætur, Ps. 1. Sieu þijn heilögu Ord Epterlæte vorra Saalna, og þijn Riettinde framar af oss metiñ eñ Gnægd allra Audæfa! Israel sagde fordum Daga vid Moysen, er Guds Reider sloou i Horeb: Vier vilium ecki framar heyra Raustina DRottinns Guds vors, tala þu til vor, Exod. 20. Enn Moyses hefur ecki forgiefins sagt til þeirra: Einn Spaamann mun DRottenn Gud ydar uppveckia ydur af Brædrum ydar, lijkann mier, honum skulud þier hlijda, Deut. 18. Lijkañ þier ad soñu, O Moyses! eñ þo miklu betre, miklu ædre, miklu fullkomnare, hver ed einn lijttlogande Hör-Kveik mun ecki wtslockva, edur braakadann Reyr i sundurbriota, Es. 42. Þad ert þu, O HErra JEsu Christe, sannur Gud og sannur Madur! Þar fyrer segium vier med fullu Trauste, ecke med Israel, helldur med Samuel: Tala þu DRottinn, þijner Þienarar heyra, 1. Sam. 3. Vier vilium hanns Roddu heyra, er lætur oss segia: Giored Ydrau, þviad Guds Rijki er naalægt, Matth. 3. Enn ecki ofmiog Ottast Rodd hanns er seger: Bolvadur sie saa sem ecke helldur allt þad sem skrifad stendur i Lögmaalinu, Deut. 27. Vier aumer og vesæler Jardar Madkar, vilium honum heyra, er seger: Komed til mijn aller þier sem Erfide drijged, og Þwnga erud þiaader, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Enn vier skielfunst ad heyra hanns Raust, er seger: Hver sem þetta giorir hann mun lifa i þvi, Levit. 18. Þar fyrer tala þu til vor DRottenn, hvert helldur þad skiedur med Þrumu Lögmaalsins, til ad straffa i oss Syndina, edur i Blijdvidre Evangelii, til ad hugga oss aptur, þa vilium vier allshugar fegner segia; Blessadur sie saa, sem kiemur i Nafni DRottenns, Matth. 21. Gief oss þad Hiartalag, O HErra JEsu! fyrer þijna Forþienustu, Amen.

# Pridia Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

I Þañ Tijma. Sagde JEsus til siña Lærisveina. Iñañ lijtils Tijma munud þier ecke siaa mig, og þa eñ iñañ lijtels Tijma munud þier eñ siaa mig aptur, þvi eg fer til Fodursins. Þa sögdu sumer af hañs Lærisveinum sijn a milli; Hvad er þad ad hañ seger til vor: iñañ lijtils Tijma þa munud þier ecke siaa mig, og þa iñañ lijtils Tijma munud þier siaa mig aptur, þvi eg fer til Fodursins? Þa sögdu þeir: Hvad er þad hañ seger oss: iñañ lijtels Tijma? Vier vitum ecke hvad hañ seger. Eñ JEsus formerkte, ad þeir villdu spyria hañ ad, og sagde til þeirra: Þier spyried ad þessu ydar a mille, þad eg sagda ydur: Iñañ lijtils Tijma munud þier ecki

siaa

siaa mig, og þa aptur iñañ lijtils Tijma munud þier siaa mig. Sañlega sege eg ydur, þier munud sijta og graata, eñ Heimuriñ mun fagna, og þier munud hryggver verda, eñ ydar Hrygd skal snwast i Fognud. Ein Kona, nær hun skal fæda, þaa hefur hun Hrygd, þvi heñar Stund er komiñ. Eñ þa hun hefur Barned fædt, miñist hun ecke þess Harmkvælis fyrer Fagnadar Saker, þviad Madur er i Heimiñ borniñ. Og þier hafid nu ad soñu Hrygd, eñ eg vil siaa ydur aftur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingiñ fraa ydur taka. A þeim Dege munud þier mig og einskis spyria.

## Exordium.

Had verdi mier ecke, ad eg hroose mier af nockrum Hlut, nema af Krosse DRottenns vors JEsu Christi; seger St. Paall, Gal. 6. Adrer hroosa sier af Audlegd sinni og Rægtum, eins og hinn rijki Maari, Luc. 12. Nockrer af Metordum sijnum, eins og Nebuchadnezar, Dan. 4. Sumir af Afle og Kallmennsku, eins og Goliath, 1. Sam. 17. Herodes af sinni Maal-Snille, P.G. 12. og gaf eige Gude Dijrdina: Pilatus af Makt sinni, Joh. 19. er hann þoottist hafa Valld til ad krossfesta JEsum og ad laata hann lausann: Hinir af stoorum Ættum, eins og Gydingar, er sogdust hafa Abraham fyrir Fodur, Matth. 3. Og hvad er þad, sem ad Drambsemi þessarar giaalijfu Veralldar telur sier ecke til Gylldis, jafnvel vonda Hlute? Hiñ Ogudlege Lamech hroosade sier af Foolskunni fyrer Kvinnum sijnum, Gen. 4. og eru honum aller þeir lijker, er stæra sig af Odygdunum; Þa hefur Andskoteñ sijnt Meistara-Stycke sitt i Hiarta Syndarans: Hañ fyrst kiemur honum til ad drygia Glæpenn, og sijdañ ad laata sier vænt um̃ hann þykia, þvi ef ad Hroosuninn giorir jafnvel hina bestu Hluti ecke einungis Onijta, helldur og ad Synd, so sem Lausnarinn vottar, Matth. 6. um̃ þaa, er giordu Goodverk til Fordilldar sier, ad þeir hafa sijn Laun wttekid; Hvad mun þad vera þaa, ad stæra sig af Klækiunum? Enn Paulus er ecke so lyndur; hann hroosar sier af þvi sem Verolldinn kallar einkis Hools vert, af þvi sem hun forsmaaer, þvi sem hun undann flijr med Seglum og Arum, og skal helldur fremia allar Odygder, enn ad hun verde fyrer þvi, þad er Krossinn DRottinns JEsu Christi; Og þvi segir Postulinn hier strax eptir: Fyrer hvern mier er Heimurenn krossfestur, og eg Heiminum. Þad er alkunnugt, ad Krossinn var hid smaanarlegasta Pijslarfære i þaa Daga, og þvi var þad honum valid, sem er Konungur Dijrdarinnar, til þess ad bera þar uppaa vorar Synder. Enn so haaduglegt sem þad var, so mikla Andstygd segest Paulus hafa aa Heiminum, og slijkann Vidbiood hafi hann aa sier. Lijtid hier, christner Menn, hvernig þeir eru Skapi farnir, sem ordnir eru eitt med Christo, og hverra Kosta þeir eige ad vænta sier i Heime þessum. Einga mun hann kiærari hafa hafa af Moñunum, eñ sijna elskulega Lærisveina, sem hofdu yfirgiefid alla Hlute fyrer hañs Skulld,

Matth. 19. Og þo seger hann þeim fyrer i þessu heilaga Evangelio, ad þeir muni sijta og grææta, enn Heimurinn muni fagna: Sama vill hann hafa sagt enn nu, þeim er hann af Hiarta elska. Og vil eg þvi alleinasta wt af Gudspiallinu tala um̃ þær Hlute, sem oss megie leida til ad bera hanns Ok þolinnmoodlega. O þu Krossfeste JEsu! Hiaalpa oss þar til med Naad þijns Anda: Bænheyr þad, O Herra! fyrer þijna Forþienustu, Amen.

## Utleggingen̄.

HOtt eckert annad være, sem kynni ad verka hiaa oss Þolin̄mædina i Mootlætinu, þa mættum vier þo hugleida, hvadann þad kiemur, sem er, fraa Gudi; Hvort villt þu fyrer honum flija? Seger nockud Leyr-Kierid til þess er þad giort hefur: Hvar fyrer giorder þu mig so? Rom. 9. Og fyrst ad vier erum i Guds Hende so sem Leir, þa er þad Oviturlegt ad mogla aa mooti honum, hvad hellst sem han̄ vid oss giorer; Han̄ typtar oss, sem oss giort hefur, han̄ sem oss giort hefur, han̄ hefur giort Himin̄ og Jord, stioornar þeim, rædur þeim, og kan̄ ad eydileggia þau, nær sem han̄ vill; Þvi mun eg kieppa vid þvilijkan̄ Herra? Þvi vil eg glijma vid siaalfan̄ mig, og giora mijna Mædu en̄ þa stærre med Oþolin̄mæde? Øll Veralldarin̄ar Raad duga ecki aa mooti han̄s Vilia, Ordsk. 21. og allir Helvijtis Kraptar meiga ecke auka hinu min̄sta vid mijn̄a Plaagu, fram̄ yfer þad sem han̄ aasett hefur, þvi vil eg þaa kijsa vid svoddan̄ Haatign, svoddann Speki, svoddan̄ Almætte, sem varir, rædur og stioornar? Þegar Otal Hundrud Þusund (þvilijkir Ormar sem eg) eru ad Molldu vordnir, þvi mun eg þa beria Hofdinu vid þann Stein, sem aa mig er kastadur af so volldugre Hende? Þar fyrer, Br. M. nær Mootlæted oss ad Hondum ber, þa hugsum til þeirrar Skylldu, er vier eigum Gudi ad gialldа, sem er, ad audmykia oss undir hanns vollduga Hond, 1. Pet. 5. Hvad ecke er so stoor Kunst i Medlætinu, jafnvel þoott vier gleymum þvi optlega: Enn i Mootgaanginum siest þad, hveria Virding vier hofum aa honum, og hvad miked vier vilium fyrer hann vinna. Lijtum til Jobs, þvi hanns Þolinnmæde verdur oss af Postulanum sett til Eftirdæmis, Jac. 5. Þegar Guds Hond hafde svipt han̄ ollum sijnum Bornum, allre sinne Aleigu, Þrælum og Ambaattum, þaa sagde hann: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafn DRottin̄s vegsamad ad Eilijfu, Job. 1. Honum var David lijkur, þaa hann flwdi fyrer Absalon og sagde, 2. Sam. 15. Sege hann so: Eg hefi ecki Þocknan aa þier, siaa, hier em eg! Giori han̄ vid mig, hvad Gott þyker i hanns Augliti! hvar fyrer han̄ og seger, Ps. 39. Eg vard Maallaus og opnade ecke min̄ Mun̄, af þvi þu giorder þad. Eins eigum vier Skapi farnir ad vera, Br. mijner, ef vier wt af Grunni Hiartans vilium tiaa vora Audmykt fyrer Gude, og ef vier erum nu skyllduger til þessa alleina fyrer þvi, ad han̄ er vor Gud og HErra og vor Skapare, hvad miklu framar erum vier þa skulldbundner, þar ed hann typtar oss alldrei nema sialfum oss til hin̄s Besta? Seged mier; Mun nockud Gud, sem ad er Brun̄ur allrar Giædsku, mun hann hafa nockud Ynde af þvi ad plaaga sijn Born? Og ecke giora þad miklu helldur þeim

siaalfum

sialfsum til gooda? Laatum oss ecke eigna Fodur Myskunsemdaña, 2. Cor. 1. Þa Hardyδge, sem vier kollum hid versta og grimelegasta aa Fiandanum og hañs Limum, sem er, ad hafa Gaman af Symdum og Mootgaange syndugra Maña. Hvad þa? Munde oss þykia þad Stefulegt Barn, sem fliige i Haared aa Fodur sijnum, nær hañ agar þad? Og er þvi verr og midur, ad vier stroffum optlega vor Born og Pienara alleina til þess ad skeita Skape voru aa þeim: Eñ hañ plaagar ecke af Hiarta, edur straffar Mañaña Born, Harmag. 3. Þar fyrer er þad hid mesta Rænuleise fyrer oss, ad mogla under hañs fodurlegre Hyrtingu. Segied mier eñ aptur; Þegar eiñ Lækner byrlar oss swrann Dryck, til ad giora vorn Lijkama heilbrigdañ, edur hañ skier upp Saareñ, so ad þau skule grooa þess sliootara, styggiunst vier nockud vid hañ, edur mootmælum þvi er hañ vill giort hafa vid oss? Þad giorer engeñ saa sem Heilvita er, og elskar Heilsu sijna, helldur þockum vier honum þar fyrer, og giolldum honum Laun þar aa ofañ, jafnvel þoott honum mistakest, sem optlega skiedur. O Guds Barn! Skyllder þu þa espast vid hinn gooda Lækner? Hvers miwka Græders Hond ad ijser þijn daudleg Saar, til hvorra þu ecke kieñer, fyrr eñ hañ lijfgar þau med Beyskiu Kross-Burdarens, og ecke miklu helldur taka feigens Hende þar aa moot, og giallda honum allar Packer þar fyrer? Ef eiñ Fader sæe sitt Barn framfara i allre Vondsku og illu Athæfe, og hann ecke straffade þad, ef skie mætte ad þad Leidriettest þar vid, munde honum ecke aa Hraalse leiged vera af ollum Moñum? J Sannleika; Þvi hann være þess verdur; hann være Bodull og ecke Fader, er þannig breitte vid sitt eiged Holld og Blood; og þo vilium vier heimta af Gude, ad hañ laate oss bada i Roosum og lifa ad Munudum vorum: Jaa, fara fram i allskonar Syrndum og Glæpum, og heita samt vor Fader, þar hann er þo saa Gud, er ecke þocknast Ogudlegt Athæfe, Ps. 5. Værum vier aan Typtunar, þa værum vier Hiaa-Born og ecke Syner, Hebr. 12. Dæmed þvi sialfer, Br. M. hvort helldur þier vilied eiga Gud fyrer Naadugañ Fodur og þola Hyrtinguna, edur ad hann kannest ecke vid ydur, og laate ydur lifa ad eigenn Villd ydar, og verde ydur so einn straangur og Ognarlegur Doomare, þegar þier eiged honum Reikningskap ad standa af Ordum og Giordum, sem ad er hin allra herfelegasta og skielfelegasta Olucka. Hvad sijnest ydur þa, christner Meñ? Mun þad ecke vera tilviñande ad þyggia eina naaduga Refsing af sijns Fodur Hende, og þoott hun ætte ad vara um allañ vorn Alldur, sem miog siall dann er, til þess ad verda kvittur vid oll þau Oskop, sem ad dynia munu yfir Sælkiera Veralldar þessarar i Helvijte og Kvolunum fraa eiñe Eilijfd til annarar? Gud naade oss auma og synduga! Vier berum opt og tijdum eina Vañheila Saal i Heilbrygdum Lijkama. Þegar Lijkamanum lijdur vel, þa hyrdum vier aa stundum lijtt um Saalena, hvor þo ætte ad siaa bæde fyrer sier og honum, þvi bæde skulu þau hin somu Kior hafa um alla Eilijfd; Enn ef hun lætur epter honum þad hann vill, þa velltest hun miog wr Tign sinne, baadum, þeim til Obætannlegs Skada. Hvor veit nema Þrote Drambsemeñar edur Vatns-Siike Agyrndareñar, edur Kallda Ohoossemeñar, edur Brioost-Veike Ofundareñ-

ár, edur Dose Leteñar, edur Æde Reidennar og Heiptræknennar, plaage Saalu þijna, og þu finner þar ecke til. Varla er nockur sw Saala, a medal vor, sem ecke hafe Snert af einhvoriu þessu, eñ Krossen er sw eina Heilsu-Boot, sem a vid ollu þvilijku. Vid Lijkamans Siwkdoomum eiga adskiliañleger Drycker, epter þvi sem hvorium er hættad; Eñ vid Saalareñar Meinum a alleina Kross-Bikar DRottens JEsu; Þoott hañ sie beiskur nockud, þad ætte oss einu ad gillda, þegar hañ giorer oss heilbrigda, nema vier elskum meir Daudañ eñ Lijfed, Soottena meir eñ Heilsuna, Kroppeñ meir eñ Saalena, og er þad þo ecke ad elska hañ, ad laata þad epter honum, sem heñe maa til Skada verda, þvi hañ skal þess eilijflega Giolld hafa, sem hañ i þessu fraa heñe dregur, sier til tijmañlegs og saafeingelegs Munadar. Þar fyrer, ef vier elskum vora Lijkame, og þad so miog, sem ad sijnelegt er a flestum, þa giorum þad þo fyrer þeirra Skulld, ef eige annars vegna, ad vier þockum Gude fyrer þad hañ typtar þa hier, so þeir ecke sijdañ mæte eilijfum Plaagum i Helvijte, 1. Cor. 11. Þar fyrer, Guds Barn, nær DRottens millda Hond slær þig a einhvorn Haatt, til ad græda Saalu þijna þar med, þa tak ecke alleinasta þar a moot med Þoleñmæde, helldur og þacka honum fyrer þañ Naadar-Giorning, ad hañ ecki vill yfirgiefa þig i fraaleitt Sinne edur i Gyrnder þijns Hiarta, Ps. 18. Og ef þu villt þacklaatur vera fyrer so stoorann Velgiorning, þa sijn þad i Verkunum, er þu jaatar med Munnenum. Vier hofum allareidu heyrt nockud um þad, hvar til ad Gud sender oss Krosseñ, sem er, til þess ad vier eige skulum hallda oss saklausa, helldur betra vort Lijferne. Sviptum þvi ecke Gud sijnum Asetninge, edur sialfa oss þeirre Naad, er hañ hugde oss ad veita. O! hversu illa er þa fared med þessa Heilsusamlegu Guds Naad, og hvad lijtel Not munt þu þa hafa þess, syndugur Madur, er þu lided hefur; Ja, stoor Giolld; Þvi þad er ad giora DRottens Kross ad Ræningians Krosse; Þad er riett so sem Petur segier, 1. Pist. 4. Ad lijda so sem Þioofur og Illvirke, og so sem hann, ed fellur inn i annars Embætte. Hallt þad og ecke noog, ad þu laater af ad syndga þess vegna, ad þu gieter ecke syndgad, annad hvort fyrer Heilsu-Breste, vegna Fatæktar, edur fyrer Otta Saker vid Mennena. Þioofurenn stelur ecke helldur, þegar hann er bundenn, og ecke fremur Hoorkallenn sijna Gyrnd, nær hann er vtelokadur, hvad ecke er þeirra Dygdum ad þacka; helldur rañsaka sialfañ þig, hvad þier mune hafa asatt orded, hvors vegna Gud mune hafa lagt þeña Kross a þig, og munt þu þad skioott fiña, þegar þu stijngur Hendeñe i þinn eigeñ Barm, Exod. 4. Og nær þu þad fiñur, þa raad Boot a þvi, ydrast þess af Hiarta, og frem þad alldrei optar, helldur bid Gud ad giefa þier Naad sijna, til ad standa a moote þvilijkre Synd; med soddañ moote verdur þessum Himneska Lækner launad, añad heimtar hañ ecke af oss. Þegar JEsus saa þañ Mann gaangande i Musterinu, er hañ skomu aadur hafde læknad hia Vatnenu Bethesda, þa krafde hañ einkis af honum, helldur sagde alleina: Sia, nu ert þu heill vordeñ, syndga ecke framar, ad ecke hende þig añad verra, Joh. 5. Þar fyrer, Christeñ Madur, hafer þu siwkur vered, hafer þu ratad i Armood og Fiaarmissu, hafer þu vorded fyrer Araasum

og

og Ossooknum Veralldar Maña, eñ ert aptur vordeñ Fullhraustur, Fullrijkur, og hefur feinged Makt yfer Ovinum þijnum, þa gialld eige þa Vanþock aptur a moote Gude þijnum, hvor ed sende þier Krossen til ad betra þig, og liette honum af þier, til ad sijna þier Giædsku sijna, gialld honum ecke so illa (segie eg) ad þu brwker Heilsuna til ad drijgia somu Synder, med hvorium þu vañst til Siwkdoomsins, Audlegdena til Ohoofs og Metnadar, Valdded til ad hefna a þeim, sem vid þig ofgiort hafa; Þvi ef vier slijkt giorum, þa hefde þad vered betra fyrer oss, ad vier hefdum leiged i Kor, og lifad i Armood og Forsmaan alla vora Daga, so ad Saaleñ hefde kuñad hoolpeñ ad verda a Deige Drottens, 1. Cor. 5. Nu eigum vier ecke alleina ad lijta til Guds Fodurlegrar Giædsku, i þvi ad lijda þolennmoodlega allt þad sem hann lætur oss til Handa bera, helldur og til hanns Oraskañlegu Speke og Vijsdooms, sem ad yfirgnæfer allann Skilning. Eiñ Fader kann ad vilia Barne sijnu vel, enn brestur kann skie Vitsmune til ad sia, hvad þvi gagnar, og þo hann bere Skyn þar a, þa blindast vor Skynseme optlega af Holldlegre Elsku, enn vid þessu er ecke hætt hia hinum Alvijsa Gude.

Þar fyrer laatum oss þad sagt vera, ad þoott vier eige skynium nie siaum Guds Tilgaang, þegar hañ neitar oss um̃ þa Hlute, er vier oskum epter, þa er þad oss til hins besta, og eckert kañ fyrer oss gagnlegra ad vera edur upp ad hugsast, eñ þad sem hañ lætur vid oss framkoma, ef vier giefum oss olldungis a hañs Valld, og laatum hañ raada. Israel beidde Gud um̃ Kiot i Eydemorkeñe, Num. 14. og hañ gaf þeim þad til Hegningar þeim; Þeir beiddu hañ og um̃ Konung, 1. Sam. 8. er þeim leiddest ad vera under hañs allra Vijsustu og Naadugustu Stioornan, og hañ gaf þeim eiñ Konung i Reide siñe, Os. 13. Þar er engeñ Efe a, ad ef Barned mætte sialft raada, þa fære þad sier optlega ad Voda, og eins erum vier faavijser eins og Born i vorum Andlegum Efnum; Vier oskum oss Heilbrygde, Audæfa, Metorda, allt þetta eru ad soñu Guds goodar Gaafur, eñ skadsamar þeim sem ecke kuña med ad fara; so ad Endurlausnareñ segier: Jafnvel ef þijn Hond edur þiñ Footur hneixlar þig, þa snijd þau af og snara þeim fra þier, þvi betra er þier halltur og Handarvane iñ ad gaanga til Lijfsins, eñ ad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i eilijfañ Elld kastadur, Matth. 5. Ad soñu heimtar eige DRottenn af oss, ad vier so stoort iraadunst, vid hvoria þa Tilhneiging, er vier freistunst af, þvi hañ hefur giefed oss oñur Medol til þess, ad krossfesta Hollded med, adur enn til þessa kome, eñ þad er hañs Meining, helldur eñ ad vier skylldum i eilijfum Ellde pijnast, þa være oss þarfara ad laata Lijf og Limu. Hvorsu vijs og hvorsu Naadugur er þa hinn goode Gud, ad hann agar oss i Maata, og so sem oss ad minnstum Skada verda meige, til þess ad vier kunnum ad um̃flya Helvijtes Pijsler, enn verda Hluttakandi Guds Barna Sælu a Himnum med honum eilijflega? Og i þessum Guds Orannsakanliga Vijsdoome, hofum vier jafnañ eina stadfasta Huggun, þvi hanns Giædska og Medaumkan verdur hann alldrei vidskila. Fyrer þvi, þoott ad Mootlæted ofbioode oss a Stundum, og vier saum varla under þvi rised, þa laatum oss til Hugar koma, ad þad er oss af hon-

um Uppaalagt, sem veit hye mikels ad vier þurfum og þolum. Stoor Saar þurfa mikla Græðslu, enn hañ er trwr og freistar einkis yfir Megn fram; 1. Cor. 10. Ecke eitt Haar fellur af voru Hofde aan hañs Vilia, Matth. 10. Og miklu sijdur hefdum vier vid so margar Þrauter ad beriast, nema þad være epter hañs Skamte og epter hanns Velþocknan. Vier þurfum og ecke ad efast um, ad vier faaum Mootlæted stadest, þoott alldrei þyke oss so Ovænlega aahorfast, þegar vier kostum oss i hanns Myskunar-Fadm, og under hanns blessada Umsioon og Fyrerhyggiu. Þar fyrer sagde David: Þo eg raafe i myrkvum Dal og Daudans Skugga, þa hrædest eg einga Olucku, þvi þu ert hiaa mier, þinn Vondur og Stafur hugga mig, Ps. 23. Og D Rottenn segier vid hañ: Þoott Þusund falle þier til annarar Handar, og Tiju Þusund til hiñar hægre, þa skulu þeir ecke nær þier koma, Ps. 91. So oruggur Kastale er D Rotteñ þeim, er hann Ottast, jafnvel midt i Hormungunum, og þad geingur til, eins og hann sagde vid Læresveinana hier i Gudspiallenu: Innann lijtels Tijma, munud þier ecke siaa mig, og aptur innañ lijtels Tijma munud þier siaa mig. Og so sem ad Læresveinarner skylldu ecke i þad Siñ hvad hann sagde, helldur uppfylltist þeirra Hiarta af Hrygd, af þvi ad hann sagde þad; So geingur þad og til fyrer Guds Bornum optlega i Mootlætenu, ad þau meina þa, þau sieu yfirgiefenn, enn samt heyrer hañ þeirra Graatbeidne, og þeirra Bæn er þocknanlig fyrer honum, enn hanns Tijme er eñ þa ecke komenn, Joh. 2. Hvort helldur ad eg lijt þenna fagra Heim, sem ad er harla goodur, so sem oll Guds Skiepna, edur eg þenke um hiñ Ogudlega, sem Diofulleñ hefur tilbwid og nidursockt i hid Vonda, þa kañ eg hvorke ad orvænta i Mootgaangenum, eige helldur ad efast um Kvittun minna Synda, sem eru Ordsok til Mootlætesins, þviad i hinum, og jafnvel aa hinu minnsta Skrid-Kvikinde, sie eg auglioost Dæme hiñs Guddoomlega Almættis, Speke og Giædsku, ad þvi er ollu af honum so vijslega stioornad og nidurskickad, ad hañ þvi ollu vid Magt helldur, hvoriu i sinne Tegund, fraa Heimsins Upphafi i so morg Þusund Ar, ad þar er ecke ein enn nu undergeingeñ, og so veit eg þa fyrer vijst, ad honum er ecke um Megn, ad vardveita mig syndugañ Orm, sem ad epter hanns Mynd var i Adam skapadur, Gen. 1. Og med hanns Sonar dijrmæta Bloode endurleystur, 1. Pet. 1. Jafnvel midt i Sorgunum, midt i Araasunum, midt i Saalar og Lijfs sterkasta Ofbode, ef hann vill laata þad yfir mig koma. Eñ nær eg þenna fyrer mier virde, og allar þær Odaader sem af honum i frame eru hafdar, Villur, Meinsære, Gudlastaner, Mañdraap, Hoordooma, Lijge, Þioofnad, Ofbellde, Raangsleitne, og alla þa Ohæfu, er Satan faer plantad i Hiortum Vantrwarennar Barna, þa tek eg mier þar af Huggun og fullnadar Traust um hiñs Myskunsama Guds Fodurlega Giædsku, ad hañ ecke Kollsteyper þessare vondu Verolldu, helldur med Rijkdoome sijns Langlundar-Gieds, Rom. 2, vill leida so marga til Yfirbootar, sem aptur suwa vilia. Þvi veit eg, ad hann mune ecke wtskwfa mier Overdugum Synda-Þræl, edur laata mig einann i Moolætenu, þoott þad sie Straff miña Synda og Illgiorda, þar eg læt mig fyrer Krapt hañs Anda wt af Hiarta ydra

Synda minna, og aa daglega Baraattu vid eitt Ostijrilaatt Holld, sem kiepper i giegn Andanum, Gal. 5. Þvi hafe hann veitt mier hid meira, sem er ad ydrast Syndanna, þegar eg var enn þa Satans Barn, þa mun hañ ecke synia mier hins minna, sem er ad vardveita mig i Mootgaanginum, þa eg er hañs Þienare vordiñ fyrer hañs Naad, hveria hañ ecke hefur giefid mier til þess, ad hun skyllde aa mier Onijt verda, helldur til Lofs og Dijrdar sialfum sier, enn mier til eilijfs Saalar Fagnadar. DRottenn sagde Lærisveinunum fyrerfram þessar Hormungar, af hveriu, medal annara, siaa maa hanns Guddoomlegann Vijsdoom og Giædsku ecke minne. Heimurenn feger alldrei nema Ogiæfu fyrer fram, jafnvel þoott hun sie honum vijs so vel sem ollum þeim er hañ elska, hañ predikar eins og hiner Ogudlegu, Ordsk. 1. sem Von er aa, þvi hañ er ecki añad eñ Samkunda, Op.B. 1. Andskotans, er hañ hefur safnad sier af Guds Utlægum og Ogudlegum Synda-Prælum: Þeir segia: Far þu med oss, vier vilium fiña mikid Herfaang, og aller eiñ Siood hafa, Ordsk. 1. Eñ ecke leggia þeir til hiñs, ad þeir skulu og aller eitt Hlutskipte hafa i þvi Dijkinu, sem vellur af Elldi og Breñisteini, Op.B. 21. Þad vill ecki DRottiñ; Hañ sagdi fyrirfrañ, bædi hier og optlega añarstadar, Lærisveinunum, hvad aa þeirra Daga drijfa mundi, og hid sama hefur hañ ollum þeim sagt, er honum vilia epterfylgia, med þessum Ordum: Hver sem vill miñ Lærisveiñ vera, hañ taki siñ Kross uppaa sig og fylge mier epter, Matth. 16. Eckert er þvilijkt Naad vid Mootgaanginum, so sem ad bwast vid honum; Saa sem þad giorer daglega, hann hefur mikiu liett af Byrdinne, nær hun dettur aa. Bwunst vid Illu, þvi hid Gooda skadar oss ecke, segia Meñ i gomlu Ordtæke. I Dag em eg heilbrygdur, og vil þenkia med mier hvernig eg verda munde, ef eg vanheill yrde, eg vil venia mig aa ad laata eige allt eptir mier, þad mig gyrner, so mier bregde sijdur vid, ef þad kyñi mier ad Hondum koma, sem eg giæte ecke af mier kastad, þoott eg villde: I Dag em eg full-rijkur; Eg vil þo brwka Heimiñ, so ad eg ecke vanbrwke hañ, og so mikid af þvi, sem Gud hefur laanad, sem mier næger og mier soomer ad brwka, þaa skal Faatæktenn alldrei kasta mier i neitt Hugar-Vijl, ef eg kann i hana ad rata; Eg vil hyrda þad Gud giefur, enn ecke festa þar vid Hiarta mitt, þa mun mier þykia minna fyrer ad missa þad. I Dag ræd eg fyrer odrum, so ad aller hlijda mijnu Bode og Bañe, sem eg er yferskipadur, þad Valld vil eg brwka i Hoofe og ecki med Offa neinum, þvi þar kañ ad koma, ad þeir raadi fyrir mier og kuñi eg af þeim nockurn Ojofnud ad þola, þa lijd eg hañ med betri Samvitsku, hafi eg ecki aadur til hañs uñid. So skal Madur bwa sier i Hagiñ, aa medañ allt leikur i Lyndi, komi þad ecke uppaa, er vier Naad fyrer giorum, þa er þvi Omake vel spillt; Alldrei visse eg Abatameire Skada, þvi ad miñsta Koste hugsum vier ege illt aa medañ, og lijklegt er, ad vier munum ecki stæra oss so miog af Velmagtenne, þegar vier bwunst vid hveru tveggiu. Nu þoott ad allt þetta, sem eg hefi sagt, eige ad fijsa oss aa ad lijda þolinnmoodlega þann Kross, er Gud oss aa Herdar leggur, þa er þo ad hroosa þeirra Kiorum fram yfir alla DRotteñs Krossberendur, sem ecki einasta taka aa moote hañs Ogun aa

Moglunar, helldur og hafa Glede og Ynde af þvi ad lijda nockud fyrir Christi Saker. Eg vændist i Upphafi St. Paals Orda, er hann skrifar, Gal. 6. Þad verde mier ecki ad eg hroosi mier af nockrum Hlut, utann af Krosse DRottiñs vors JEsu Christi. Þegar Paall brwkar þetta Ord, sem hier stendur, ad hroosa, þa merker þad ecke so ad stæra sig af einhveriu, so sem ad fagna og glediast af þvi, og ad hafa Ynde þar af. Sama Ordatiltæke brwkar hann, Rom. 5. segiande: Og ecki einasta þad, helldur hroosum vier oss eirnig (edur gledium oss) af Hormungunum, vitande ad Hormungenn verkar Þolinmædina, enn Þolinmædinn Reynsluna, enn Reynslann Vonina, enn Voniñ lætur alldrei til Skamar verda, þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum fyrer Heilagann Anda, sem oss er giefiñ. Þetta eru merkileg og gullvæg Ord, sieu þau riett yfervegud. Hvar fyrer gledur hann sig i Hormungunum? Þviad Elska Guds var wthellt i hañs Hiarta fyrer Heilagañ Anda, sem honum var giefinn. Heyrum þad Endurlausnareñ sagde til sinna Lærisveina: Eg skal ecki lꝏta ydur Munadarlausa, helldur skal eg sꝏ ydur aptur, Joh. 14. Þad giorde sꝏ blessade Herra ad soñu epter sijna Uppriisu, eñ hañs sijnileg Vist med þeim droo þꝏ ecke lꝏngt ꝏ Veg, hefdi hañ ecke sendt þeim H. Anda af sijnum Fodur; Þvi sagde hañ: Þad batar ydur ad eg fari i burt hiedañ, þvi nema eg fare i burtu hiedañ, kiemur ecke Huggareñ til ydar. Þesse er hinn same H. Ande, fyrer hvern ad Paulus seger, ad Elska Guds sie wthellt i sitt Hiarta, hun giorer Christi Ok sætt, og hañs Byrde lietta Matth. 11. Hun velldur þvi, ad hanns Bodord eru ecke þwng, 1. Joh. 5. Hun deyfir alla Kvol, alla Hrygd, alla Armædu Veralldar þessarar, sꝏ ed hana hefur fyrst ødlast, hann þarf ecke Mootlætinu ad kvijda, hann foottredur allar Hørmungar, honum er Heimurenn krossfestur og hañ Heiminum; Þad sie eg bersynilega ꝏ Christi Postulum, er þeir voru glader af þvi, ad þeir mꝏttu lijda fyrer JEsu Nafns Skulld, P. G. 5. Þad sie eg ꝏ hañs H. Piislar-Vottum, lꝏngt frañ epter Æfi Christnennar, ad þeir gengu til herfileguſtu Kvala og Piisla, miklu gladare helldur enn adrer til Giestabods.

O HErra Gud! Fagurt mꝏ þeim vera Himnarijke ꝏ sijdann, hverium Gud er so sætur midt i Hormungunum, ad þeir finna ecke til þeirra fyrer Elskuñe til hañs, sem typtar þꝏ. Ad þetta sieu ecke Ykiur, helldur ad þvilijker Guds Viner sieu til, þad votta eg med Paals Ordum, er hañ seger, 2. Cor. 12. Eg em vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmꝏninne, i Naudunum, i Ofsooknunum, i Angistinne fyrer Christum, þvi þa eg em Veikur, þa em eg Mꝏttugur; Og þad er þad sama sem DRottenn heiter hier Lærisveinunum, er hañ sagde: Ydar Hrygd skal snwast i Fognud. Ecke meinte hañ einasta þꝏ Sælu-Von, er þeir ꝏttu vijsa med honum eilijflega i hanns Dijrdar-Rijke, helldur og Huggun Guds Anda i Mannraununum, þvi alldrei voru þeir ꝏn Mootlætis hier ꝏ Jordunne, og samt skrifar Paulus, ad þeir sieu so sem hryggver og þo jafnañ glader, 2. Cor. 6. Nu þoott oss vante miked ꝏ ad vera so algiorder i Elskuñe til Guds, sem þessar DRotteñs Hetiur voru, þa eigum vier samt ad kieppast epter þeirra fullkomnu

Dæme,

Dæmi, so miked sem oss er mögulegt, og hugga oss i öllum Mannraunum vorum vid epterkomande Sælu, vitande þad, ad hin lietta Byrde Hörmungarinnar, sem varir um̃ Augnablik, hun aflar oss yfergnæfañlegrar Dijrdar eilijfrar Þijngdar, 2. Cor. 4. Og þetta er þad Paulus seger, Rom. 5. (er eg strax áminntist) ad Þoliñmædiñ verki Reynsluna, Reynslañ Vonina, enn Voninn læti eige til Skamar verda. Hvar fyrer? Þviad Trwiñ, er Voniñi jafnañ fylgir, hun er Vera þeirra Hluta sem koma skulu, Hebr. 11. Hversvegna þeir, ed bera Christi Ok, þeir eiga vijst Himnarijke, þad er Pantur eptirkomande Farsælldar, vid hvern hanns Brwdur gledur sig, þar til hann kiemur, og innleider hana i Lambsins Brwdkaup, so þegar hun hryggest af Mootlætinu, þa gledst hun eins miked, edur meira af þeirre Dyrd, sem vid oss mun frañkoma i eilijfu Lijfe, hverrar eige eru verdar Mootlætingar þessara Tijma, Rom. 8. Þetta wtmaalar vor Lausnare med nærsta fögru Dæmi hier i Gudspiallinu, þar ed hann segier: Ein Kona, nær Hun Skal Fæda, Þa Hefur Hun Hrygd, Þviad Heñar Stund Er Komiñ, Enn þaa Hun Hefur Barnid Fædt, Minnist Hun ecke Þess Harmkvælis Fyrer Fagnadar Saker, Þviad Madur Er i Heiminn Borinn. Hvad viña Menn ecke i þessum Heimi fyrir Veralldar Höfdingia, og þad fyrer lijtil og Oviss Laun? Jaa, margur vogar Lijfenu og kannskie siñe eilijfre Velferd aa Stundum, og endist ecke til ad niota þess, er hañ ætlar sier til Launa. O Guds Born! Þvi skylldum vier þa telia eftir oss ad lijda nockud fyrer Himnarijke, fyrer hin eilijfu Launiñ, fyrer þad dijrmæta Hnossed, af hveriu þeir alldrei sleppa kunna, sem riettilega Skeided hlaupa? 1. Cor. 9. fyrer hina kostulegu Riettlætisins Coronu, 2. Tim. 4. sem þeim er assijdis lögd, er hafa barist goodre Baraattu, hallded Trwñe og goodre Samvitsku? Eiñ Madur, saa ed situr i Tign og Heidre, mun hañ ecki þacka sijnum Fodur, ad hañ hefur hañ so vijslega uppalid, ad hañ maa reiknast þeirrar Æru verdur aa sijnum Fullordins Alldre? Mun hañ nockud telia þau Vandar Hoggenn, er hann hefur sleiginn verid? Og hversu ættum vier þaa allar Þacker ad kuña vorum himneska Fodur, saa ed tugtar sijn Born upp til eilijfs Lijfs, til himneskrar Konungs Tignar, til ad lifa og rijkia med honum eilijflega? Hver mun þaa miñast þeirra Taaraña, sem hañ hefur fellt i þessum Eymdar-Dal, nema hañ, sem ad hefur hellt þeim i sijnn Siood, Ps. 56. og þaa allareidu þerrad þau af siña Barna Augum, Op. B. 7. Þa mun þad verda uppskorid i Dijrdiñi, sm̃ hier var saad i Hörmungiñi, Ps. 126. Þa mun þeirra Gledi-Saungur fagurt læta i hinni biortu Jerusalem, er Guds Dijrd upplioomar, Op. B. 21. Hverra Op og Veinan ad Heimsins Bornum var til Spotts og Athlaaturs hiaa Sorgar-Votnunum i hiñi diñu Babylon, Ps. 137. Verolldu þessare. Hverrar Æru og Vegsemdar oss uñi ad niota hin blessada Guddoomsins Þrenning, fyrer JEsu Christi Bloods Krapt og Forþienustu, Amen.

# A þann Almennilega Bæna-Dag.

Pistillenn, Esajæ 55. Cap.

Leited DROTTINNS a medan hañ er ad fiña, kallid a hann, a medann hann er nalægur. Sa hinn Ogudlege vlati af sijnum Vege, og Illvirkinn af sinni Hugsan, og snwi sier til DROTTINNS, þa mun hann myskuna honum, og til GUDS vors, þviad i hia honum er mikel Fyrergiefning.

## Exordium.

I Gamla Testamentinu tilsetti DROTTinn eina Hatijd, sem halldast skyllde Arlega i hinum Sioũda Manudi, og a Tijunda Dege sama Manadar, er Menn sijdann kallad hafa Hreinsunar Hatijd. A þeim Dege var boded, ad Israel skyllde þvijnga Saaler sijnar, þad er sialfa sig, so sem þar um ma lesa, Levit. 16. Þesse Hatijd er ad sonu aftekiñ i Nija Testamentinu med ollum sijnum Fornum. Oss næger sw eina og algiorda Foorn, sem Einusinne er innboriñ i þad Allra Helgasta af hinum ypparsta Biskupi Saalna vorra, Ebr. 9. Eñ samt er þo Ydraninn fyrir Syndernar ecke aftekinn; so lenge sem vier ecke leggium af ad syndga, so lenge megum vier ecke leggia af ad ydrast, enn þad mun ei verda fyrr enn Lijkami Syndarinnar verdur med ollu afmadur, Rom. 6. Þvi ætti med riettu alls Christeñs Mañs Lijf ad vera ein Hreinsunar Hatijd, edur, ad minnsta Koste, ættum vier ad giefa oss nockra Stund a hverium Dege til ad ydrast og jata Synder vorar. Sa sem ætlar sier ad syndga nær Syndenn flijgur honum i Hug og ydrast sijdann, hann er ecke betre enn sa, sem ætlar ad dragga Ydranena undann til Daudans, þvi hann veit ei nær hann deya muni. Nu erum vier oss medvitande þess, Brædur mijner, ad þar falla so margir Dagar wr hia oss, og kannskie, þvi verr, ad nockrer þenkia hier allsialldann til; Þvi er nu þessi Dagur af Konunginum tilsettur, ad hann sie vor Fostu og Bæna-Dagur. Gud giæfi, ad hann være þar epter halldenn af oss med allre Gudrækne, so sem hann er Naudsynlegur, og ad ecke finnduft þeir, sem giora Haad wr Fostunne, med hvorre þo Guds Heilager Menn hafa þreingt Bænum sijnum i giegnum Skijenn Fordum Daga, medann Guds Foolk hiet Guds Foolk og Christnenn Christne, enn sijdann hun hiet Loammi, þad er, ecke mitt Foolk, og Menn yfergafu hinn lifanda Gud, margur hver, enn giordu Magann ad sijnum Gude, þa er Fastann ordinn ad Athlatre, so vel sem oll Alvorugiefne i Guds Þionkan: Menn hallda epter Blodunum, enn hafa sleppt Avextinum, so David munde segia, ef hann nu lifde: Eg hulde mijna Saalu i Fostum, og þad vard mier ad Brijxle, Ps. 69. O oss Aumar og Ranulausar Manneskiur! Mun honum Fastann mislijka? er seger hia Joel, Cap. 2. Snwist til mijn

mijn af ollu Hiarta med Føstum og Grææte og Harme. Og so ad þier vited, ad þad ecke er odruvijs i hinu Nija Testamentenu, þa vil eg spyria ydur ad; hvert Gude mune ecke hafa þocknast Fasta Cornelii, sem var Heidenn Madur? Er hann sagde vid Petur, P.G. 10. Nu er allareidu hinn Fioorde Dagur ad eg hefe fastad, og er eg beiddest fyrer um̃ hina Nijundu Stund i mijnu Hwse, þa stood hiaa mier einn Madur i hvijtu Klæde, er sagde vid mig: Corneli, þinna Bæna og Olmusugiorda er minnst i Guds Auglite. Mun Endurlausnaranum hafa þoott Fastann Onijt? Er hann sagde vid Læresveinana, þegar þeir gaatu ecke wtreked Tunglmeina Diofulenn: Þetta Diofla-Kyn verdur ecke wtreked nema med Føstum og Bænahallde. Verde Diofullenn wtrekenn af ødrum med Føstum og Bænahallde, Matth. 17. Þvi skylldu Menn ei kunna ad reka hann wt fraa sialfum sier? Verde Diofullenn wtrekenn med Føstunne, þvi skylldu Menn þa ei kuña ad faa Gude innbygt med heñe? Þvi þad er vijst, ad hvadañ sem Satan er wtrekeñ, þar vill Gud byggia; Þetta segie eg ei þess vegna, ad Fastann vinne til nockurs, i sialfre sier, enn þad vitnar allt Guds Ord, ad Bæneñ verde kroptugre fyrer hana; Fastañ maa eckert aan Bænarennar, Bæneñ verkar optlega aan Føstunnar. Fastañ hialpar til ad drepa hiñ Gamla Mañeñ, sem er Andskote Bænareñar og alls Gudrækelegs Framferdis; Sie hun ecke i þeirre Veru giord, þa er hun Hræsne. Heyrum hinn Gamla Syrach hier um̃; Saa sem þvær sig epter hinn Dauda, og snerter aptur Daudann Mann, til hvørs gagnar hanns Þvottur? Syr. 35. So er og saa Madur, er fastar i sijnum Syndum, og giorer aptur þær somu; Hvad vann hann med þvi, ad hann audmykte sig, hvør mun heyra hanns Bæn? Esaias kiennir oss i upplesnum Pistle, hvernig þeirre sonnu Føstu eige hattad ad vera, sem er, ad hinn Ogudlege faste fyrer sijn vond Verk og Illvirkenn fyrer sijna Hugsan, og þannig skipar hann DRottenns ad leita. Vil eg þvi wt af þessum Esaiæ Ordum hugleida ad þessu Sinne, hvernig vier eigum ad leita Guds, hvørn vier so margfalldlega styggt høfum.

Hialpa oss, O! HErra, til ad giora so þetta þitt Verk, ad vier þig funded, og fundnum hallded gietum. Bænheyr þad goode Gud, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Hvernig vier eigum DRotteñs ad leita, þarf ecke laangt epter ad leita, þad segier sialfur DRotteñ oss, Jer. 50. med þessum Ordum: A þeim Døgum skulu Israels Syner koma med Børnum Juda, þeir skulu gaanga aan Aflaats graatande og leita DRottenns Guds sijns. Gydingar leitudu hanns a hiñe sijdurstu Kvalaña Noottu med Sverdum og Staungum, med Lyktum og Log-Brondum, Matth. 26. Vier skulum ei þañeñ leita DRotteñs, sem medkiennum ad vorar Synder hafa kvaled hann, sem var fraaskileñ Syndurunum, Ebr. 7. Hvernig skulum vier hanns þa leita? Med Harmþrwngnum og Sundurknosudum Anda, þad er, med sannre Ydran. Veigeñ vitum vier ad sonnu aller til Christum, eñ þad fellur ecke ollum so liett ad gaanga hañ. Eina Christelega Ydran er hægt ad nefna, eñ þad veiter morgum baagt ad giora hana,

jafnvel þoott oss breste alldrei Efne þar til, sem eru Synder vorar og Ranglætingar, er daglega stijga upp i Himeneñ fyrer Gud. Margur lætst ydrast og játa sijnar Synder fyrer Gude; Enn eg Ottast, ad þegar Gud lijtur af Himnum ofann yfir Mannanna Sonu, þa mune hañ finna so marga Pharaonis, Exod. 20. Sauls, 1. Sam. 24. Jeroboams, 1. Kong. 13. og Achabs, 1. Kong. 21. Ydran; Þad er, Nytur fyrer utann Kiarna, Skij fyrer utann Vatn, visnadar Eikur, avaxtarlausar, tvisvarsinnum upprættar, so sem Judas Postule ad Orde kiemst i sijnum Pistle. Enn Davids, 2. Sam. 12. Josuæ, Jos. 7. Ezechiæ, Esa. 38. og Peturs, Matth. 26. Lijkar munu færre vera, hvad Gud nádarsamlega betre! Hvad er þad þa, Br. M. sem eins Christens Manns Ydran á ad hafa til ad bera? Tveñt er þad sierdeilis. 1. Ad hun sie heit og alvarleg. 2. Ad hun sie ecke offein. Hvad hinu Fyrsta vidvijkur, þa veit eg ad sonnu, ad hinn nádüge Gud þyggur opt af oss Viliann fyrer Verked, þvi hañ þecker vorn Vanmátt og Ofullkomlegleika; Enn i Ydranar Verkinu heimtar hañ af oss, ad vier framleggium allt þad vier tilhøfum og drøgum ecke af. Sá sem kiemur fram fyrer Gud, til ad játa sijnar Synder, og ad bidia um Kvittun á þeim, og ecke wtheller sijnu Hiarta af fremsta Megne fyrer honum, ecke lætur Sálar og Lijkamans Krapta verda samtaka i þvi ad sundurmeria sitt Hiarta med Jhugan siña Illgiørda og Guds Giædsku, sijns Toomlætis og hañs Riettlætis, siña Lijta og Helvijtes Ellds, sem þau hafa forþienad; Eg veit ecke hvad miklu hann er betre enn Ananias og Saphira, sem leyndu af Verde Akursins, P. G. 5. Þvi eins og þau lugu ad Heilegum Anda, er skynbarlega bioo i Postulunum; So mátt þu og vita, ad nær þu kiemur i þinn Bænastad, þa stendur þu i Guds Auglite, sem alla Hlute sier, og jafnvel hin innstu Filsne þijns Hiarta rannsakar. Gabba þvi ecke Gud, med eintoomre wtvortis Hegdan, þvi hann lætur ecke ad sier hæda, Gal. 6. Og hafe þig sá Glæpur nockrum Sinnum hendt, þa vit, ad þad er ein hroopleg Synd i Guds Auglite; Já, stærre enn allar þijnar Synder, þvi hun apturhelldur øllum hinum, er þu átter ad afþvo med heitum Ydranar-Taarum. Giør þu Ydran i Nafne DRottenns, giør Ydran, segie eg, og lát þig angra þad af Hiarta, ad þu hafer kastad Høndunum til so veglegrar Guds Þioonustu. Villt þu vita hvad mikla Ydran ad Gud heimtar af þier fyrer Syndena, þa vill hann ad Beiskia Ydranareñar skule sambiooda Stærd Syndareñar; Þar fyrer, nær þu med sialfum þier les þitt Synda-Registur fyrer Gude, þa hugleid, hve miked Gaman edur Glede þu hafder af sierhverre Stoor-Synd, sem þig rekur Miñe til, og bid Gud ad slá á Hiarta þitt med Moysis Sprota, ad þu meiger hryggiast so miked sem þu gladdest ádur, og verder þu hier um Bænheyrdur, sem án alls Efa verdur, ef þu bidur heitt, bidur iduglega, Joh. 16. og bidur i JEsu Nafne, þa munt þu einkis Jmissa, þvi su Glede, er þu á syndsamlegu Athæfe hafder, og aflade þier Hrygdar i Guds Auglite sijdann, hun mun þier med einum ædre og meire Fognude endurgolldenn verda, nær þu finnur ad þu ert kvittur vid Gud, enn sloppenn wr Dioflsins Nete. Þess gietur Paulus, 2. Cor. 7. Þier erud epter

Gude

Gude hryggver vordner, so þier hafed eingañ Skada af oss feinged, þvi su Hryggd, sem epter Gude er, hun verkar Ydran til Hiælpræðis, hvorrar ei þarf ad ydrast: Þegar þier vilied ydrast, Bræður mijner, og þier setied ydur uppa Doom-Stool ydar Hiarta til ad dæma siælfa ydur, so þier verded ecke af DRottne dæmder, 1. Cor. 11. Þa ǽlijted ecke Syndena epter Mañlegum Þæanka; Vier fyrergiefum oss alltijd nockud siælfer, og finnum eitthvad til Afsokunar. Konañ bar Sokena uppa Ormenn, enn Madurenn gaf Konunne Skulldena, Gen. 3. Aaron segier: Eg kastade Gullenu i Elldenn og þar af vard þesse Kalfur, Exod. 32. Eins erum vier aller Skape farner eñ nu i Dag, er vier lǽtum oss siælfrǽda, og vilium ecke lǽta Guds Anda vid oss rǽda. Metum þvi ecke Synder vorar epter vorum Þootta, helldur epter hanns Heilagleika, hañs Riettlæte, moote hvorium þær giordar eru. Metum þær epter JEsu sǽru Pijslum, epter þvi Lausnar-Giallde, sem Gud hefur loked i voru Hollde, þa munum vier sia hvad reidur Gud er þeim Syndunum, sem oss jafnvel þyker lijted i spuñed a stundum; Þoott allur Heimurenn flite i Tǽrum um allañ siñ Alldur, þa megnade hann ecke hina miñstu Synd ad hreinsa i Guds Auglite, nema hañs Sonar Forþienusta giorde þau gylld. So stoor, so afskræmisleg er Syndenn fyrer hanns Doome; Enn Christs Forþienusta verdur eingum til Lids, nema þeim, sem af Hiarta lætur sig ǽngra Syndena. Ætla þvi ecke, ad þu muner komast af vid Gud med eintoomis Jǽtningu Munnsins, nema Hugur fylge Mǽle. Sǽ sem alleina jǽtar Syndena med Munnenum, eñ ǽngrar hana ecke i Hiartanu, hann er eins og sǽ, er tekur Umbwdernar af Sǽrenu, eñ leggur ecke Plǽsturenn þar vid. Guds Sonur er ad sonnu komenn til ad lækna þad sundurknosada, Esa. 61. Enn hvernig a hann ad lækna þig, Barn mitt, ef Hiarta þitt er heilt og Obroted?

Þar er eiñ Gull-Kalfur nærre þvi i hvors Mañs Hiarta, þad er Verolld þesse, sem ad sierhvor af oss hefur einhvorn Atrwnad a, epter þvi sem hvor er lyndur til, og jafnvel þeir sem Gud elska vilia, þeim er eins hǽttad og þeim, er ad soñu tilbǽdu Gud i Jerusalem, enn offrudu þo a Hædunum, 1. Kong. 22. So er þad fyrer oss aumum Mǿnnum; Vær segiunst lǽta Gud gǽnga fyrer, eñ flester af oss hafa þo einhveria Hia-Trw; Sumer Rijkdoom, sumer Metord, og sumer Munade sijna, og a medañ vier hofum þa framhia Gude, þa er hætt vid, ad vier ecke af Hiarta ydrunst, þvi eigum vier ad breita vid þa eins og Moyses giorde vid Kalfeñ; hañ brende hañ til Osku, kastade honum i Vatn, og liet allann Jsrael drecka hann i sig til Bligdunar siælfum þeim, ad þeir hofdu teked Ægyptalands Svijvirdingar fram hia hinum lifanda Gude, Exod. 22. So eigum vier ad hondla vid Rachels Skwrgod, þeim er hun situr a og leyner, Gen. 31. Þad eru heimuglegar Gyrnder Sǽlna vorra, sem ecke eru audsienar ollum. Vier eigum ad lǽta Moysen breña þær til Osku med Elldingum af Sinai, og kasta þeim i Flood vorra Ydranar-Tǽra, og drecka þær siælfer upp, so þær hverfe, Exod. 32. alldeilis, og verde ad eingu: Þad vardar ad litlu, þoott vier stondum rauder af Ovirdingu i

Guds Auglite med Ephraim, Jer. 31. þvi hann sier þær hvort sem er; Laban og Jacob kunnumi vier ad pretta, Gen. 31. enn ecke Jacobs Gud, Ps. 94. þvi hann er Hiartnanna og Nijrnanna Rannsakare; og sier hvad i Myrkrunum er huled. Sundur-rijsed ydar Hiortu, og ecke ydar Klæde, segier DRottenn, Joel. 2. Gydingar plogudu a þeim Dogum ad rijsa sijn Klæde, nær þeim rann i Skap, añadhvert þegar þeim bar nockur Sorg til Handa, edur þeir vandlættu i Guds Stad, eins og Hræsnareñ Caiphas lietst giora, Matth. 26. Enn hvor Sorg skyllde oss meire tilfalla enn sw, ad vier hofum hinn gooda Gud stygdañ, um hvorn skylldum vier meir vandlæta enn um sialfa oss, þvi eingum erum vier so margs ills medvitande, ef ecke i Verkunum og Ordunum, þa samt i Hugreñingunum. Eitt sundur-rifed Fat gagnar til lijtils: Sundur-rijsum vor Hiortu med Idraneñe, og þa munum vier fiña, ad jafnvel vort Riettlæte er ecke betra eñ Nidlags-Fat, sem Esajas vottar, i 64. Cap. Þa munum vier hvad best wtlijta i Guds Auglite. Þegar vier athugum hvar fra vier erum fallner, þa mun hann giefa oss einn nijann Klædnad, so ad Mijnkun vors Fatleysis ecke siaest.

Nu er þad ecke noog ad Hiarta vort klockne fyrer Gude um Stundarsaker, ef vier hversum þo aptur til somu Synda; þa vill þad lijted gagna, ad vier hofum audmykt oss fyrer Gude. Þeirre Ydran er illa vared, sem leggur Mañenum alleina uppa Hrygdena eñ ecki burt tekr Sektena. Eñ vid þad er ecke ad dyliast, Br. mijner, ad þeirre Ydran er so hattad, sem leifer Mañenum ad vellta sier aptur i sama Saur. Sa hiñ Ogudlege lrate af sijnum vondum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugsan, og snwe sier til DRotteñs, segier Texteñ. Hier er þad ad merkia, Born mijn, ad Spamadureñ kallar ecke, ad Meñ hafe snwed sier til DRotteñs, nema vier tokum vora Illsku Breitne fra hañs Auglite. Þad er alkuñugt, hvorsu ad hiñ gudlause Amnon Sonur Davids Konungs breitte skamarlega vid Systur sijna Thamar, ad hañ rak hana wt af Hwsenu, er hañ hafde vanbrwkad heñar Lijkama, 2. Sam. 13. Eñ þo eigum vier eins vid Syndena ad breita, þvi hun er ecke betra verd, vier þeckium ecke heñar Lijte fyrer Blindu Holldsins, fyrr eñ Guds Ande ridur Smyrslum Ydranareñar a Augu vors iñra Mañs, Openb. 3. Eñ nær hañ so giort hefur, og vier fyrer Naad Guds þeckium vora Blygdan, þa eigum vier med ollu ad rydia Glæpunum burt wr Hiortum vorum, og eingu ad leyna af þvi Satans Herfange, sem Gud hefur bolvad, Jos. 6. helldur breña þad upp til kalldra Kola, ad so miklu Leite sem mogulegt er i þessum Daudlega Lijkama, og Guds Giædska fær i oss verkad. Og fyrer þvi ad þessu er so vared, þa eigum vier Daglega ad Endurnya vora Ydran, þvi Daglega a hiñ gamle Adam i oss ad dreckiast og deydast. Ecke segie eg þad, ad Meñ giete Syndlaust lifad, þad er Guds eins ad syndga ecke, enn þad er Gudhrædds Mañs ad ydrast Syndareñar og rada Boot a heñe, eñ Gud tilreiknar ecke þeim, sem eru i Christo, þær Syndernar, sem ad Ovilia edur mañlegum Breiskleika kuña ad henda oss; Hitt vill hañ ad Menn skule Daglega ydrast, þvi Daglega syndgum vier og forþienum ecke añad eñ Straff. Gud hialpe oss! Ef vier segdum ad vier hefdum ei Synd,

segier

seger Johannes, 1. Pist. 1. þa drögum vier oss sialfer a Taalar, og Guds Sannleike er ecke i oss. Ja, allt vort Lijf er ei nema Synd, være þad ecke bætt fyrer Guds Sonar Dauda; Þegar vier hugdum ad lifa einn Tijma Syndlaust afram, og vier lijtum aptur nær hañ lidenn er, þa mætte oss hrylla vid þvi sem vier hugdum best ad giora, og so margt Augnablik sem þar er i, so margur Þyrne-Broddur munde stijnga Saal vora, nema DRottens Forþienusta hefdi giort Athafner vorar gylldar i Auglite hiñs strannga Doomara. Gud naade oss saarvadar Mañeskiur, hverþu ad vier erum under Syndena sellder! Sa sem vill skoda Stiornu nockra i einne Sioonar-Pijpu, hañ skal leita lenge ad henne adur enn hann fær komed Auga a hana, og nær hönum hefur þad tekist, er hann so skialfhendtur ad hann varla fær vidhalldest, so ad hañ ecki missi heñar aptur: So erum vier i andlegum Efnum; Vier skulum fyrst leinge þvijnga hinn Gamla Manneñ, adur eñ vier saum hina blessudu Jacobs-Stiornu, Num. 24. JEsum, riett siena, og nær vier þad ödlast höfum, þa eru vorar Trwar-Hendur so Ostyrkvar, ad þar er nærsta hætt vid, ad hun kunne ad hverfa oss aptur, nema Gud styrke vora Armlegge. Ja, hiner bestu af oss eru eins og fylgespakur Hundur, hann rennur ad sönnu Veginn epter sijnum Hwsboonda nockra Stund, eñ ef hann sier eitt Dijr, einn Saud, einn Hest, eiñ Titling, þa hleipur hann epter þvi; So eru og vorar Hugreñingar; Vier rennum heim til Guds i vorum Bænum, under hañs Orda Heyrn, a vorum Ydrunar-Tijmum, og kañ skie nockrer optlega þar fyrer utañ, enn strax sem þar flijgur fyrer oss eitthvort Glis Veralldarinnar, einhver Abata Vön, eitthvört Reide-Efne, eitthvört broslegt, sem oss þyker Skiemtan ad, jafnvel þoott þad a Stundum sie Naunganum til Hneisu og Ohroodurs, þegar þetta og annad þvilijkt, sem Veröllddinn er full af, bregdur fyrer oss, þa bregdum vier opt af Veginum, og hlaupum epter þessu, og giætum þa lijtt undannfarenna Synda, er oss urdu so beiskar i Ydraninne, ad þar var ecki Fridur i vorum Beinum fyrer Guds Ognan, Ps. 38. ef vier laatum oss villa oflaangt epter slijkum Hiegoomа. Nu er þar þo enginn, sem kunne ad vardveita so vel sitt Hiarta, ja, eg maa segia Muñ og Hendur, ad ecki verdi a fyrer hönum i þesshattar Hlutum, og þad daglega; fyrer þvi siaum vier og, ad vier hvern Dag, ja, a hverri Stundu, höfum noog Ydranar-Efne, og er þess betur þess optar, þvi sa er temur sier þad Hugarfar, hañ lærer bædi ad sia gior epter Athöfnum sinum, so er og lijklegt, ad hann muni ecke hverfa aptur til Stoor-Glæpaña, þvi ef hann so lærer ad ydrast daglega þeirra Bresta, sem hann fær varla edur ecke vidgiort, þa mun hönum i Hug koma, hvad saart þad muni kvelia hanns Samvitsku, ef hann skyllde rata i nockurn Ogiörning. So eigum vier nu ad leitast vid ad afmaa Lijkama Syndarinnar, Rom. 6. Þad er illa byggt, ad brioota eitt gamallt Hws nidur, og tilla þvi upp aptur af sömu Rofum. Menn skulu ecke einasta deyda hiñ gamla Manniñ, er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, helldur a þar ad upprijsa einn nijr Madur, sa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude æfiñlega, annars geingur hinn aptur, og eiñ Diofull, sem einusinne er wtrekiñ, hañ tekur Sio

adra

adra Anda sier verre, Luc. 11. og hverfur aptur i þad Hws hvadann hañ wtfoor. Giæ-tum ad hvernig þeir hafa breitt, sem af Hiarta hafa ydrast. Petur var miklu Trwar-sterkare, epter þad hann hafde til fulls grœted þad hann hafde Trwna mist, Matth. 26. og fieck so meire Nœd eñ hañ mist hafde, P.G. 2. Eiñ Stoor-Syndare, sem af Hiarta ydrast hefur, hann er miklu liiklegre til ad standa stodugur, helldur eñ eiñ, sem meinar ad sier hafi eckert œordid, og er af Monnum goodur halldiñ. Gudi er og miklu þægre sodd-ann Stoorbrota Mañs Ydran og Elska til Guds, sem optast mikel er, af þvi honum fyrergafst miked, Luc. 7. helldur eñ ydrunarlaust Meinleyse þess, er lijted edur eckert siñur til Synda fiña. Þar fyrer sie Ydraneñ so heit, so kroptug og so alvarleg, ad þad beyst-est i vorre Saalu, sem œdur þootte sætt i Lijferninu, og þad kvelie oss i Hiartanu, er œd-ur gladde i Holldinu, so opt sem vier minnunst œ vorar eigenn Synder, edur heyrum þær af odrum drygdar, og þa munum vier sijdur aptur œ nij sambyckiast þeim Glæpum-um, er DRottenñ hefur oss eitt Siñ kvitta giefid. J Exod. 29. stendur ritad um Breñe-Foornernar, sem og voru Synda-Foorner, ad þær œttu med heilu Lijke ad uppbreñast. J Levit. 1. er Kiennimonnunum skipad ad þvo Innible soddañ Breñefoorna og so Fæt-urnar. Nu bijdur St. Pœll oss, Rom. 12. ad vier skulum offra Gude Lijkame vora, eina lifande Foorn, Heilaga, Gude þægelega; Pad er sw Breñe-Foorn, er honum lijkar i hinu Nya Testamentinu. Þvoum þvi Innibliñ, þvoum Hiarta vort, bleytum þad wt i heitum Ydrunar-Tœrum, þvoum Fætur vorar af þeim Saurendum, er þær hafa at-ast i, œ hinum breida Vegenum, sem liggur til Glotunarennar, Matth. 7. DRottenn sagde vid Petrum, Joh. 13. Sœ sem þvegenn er, hañ þarf ecke ad þvo nema Fæturnar. Frelsarenn droo hier Dœme af þeim, sem Laug edur Bad taka, þeir þvo Fæturnar sijd-arst, þegar Lijkameñ er allur þvegeñ. O Guds Born! Vier erum ad soñu aller þvegn-er i Skijrnar-Laugenne, i hveria JEsu dijrmœta Blood er wtrunned, eñ vorar Fætur hafa sijdann gengid œ vondum Vege, og daglega eigum vier Leid i giegnum Fen og O-vege þessarar Verálldar. Eingenn er so vel Skoosatadur, Eph. 6. so reidubwinn, ad framfylgia Evangelio Fridarins, ad eige sletteft nockud uppœ. Forgiefins erum vier i Skijrñenne af-þvegner, nema vor innre Madur skijrest daglega i Tœra-Floode vorrar Ydranar. Pad er ecke noog ad vera skijrdur i Jordan, vær skulum og skijrast i Mara, Exod. 15. Þvoum þvi Hiartad, sem ad er Brunnur Illskunnar, af hveriu fram koma vondar Hugsaner, Matth. 15. med Christelegre Ydran, hreinsum Fæturnar med sama Hætte, og hiñ Ogudlege lœte af sijnum Vege, leggium so þessa Foorn uppœ DRott-eñs Altare. Þegar Aaron hafde helgad Samkundu Tialldbwdena og Verkfære Þioonustugiordariñar, og lagt Brennefoornena uppœ Altared, þa gieck Elldur wt frœ DRottne og fortærde þvi, Levit. 9. Þegar hin nya Tialldbwd Guds, sem er Hiarta eins œngrœds Syndara, þegar hun er helgud og hreinsud med Ydranenne, þa mun H. Andi þvi byrtast i einum Ellds-Loga, og uppkveikia i þess Mañs Hiarta eina brennandi Elsku til Guds, er honum so margar Synder hefur tilgiefid, sœ sem henni hefur eitt

Siñ

Siñ nǣd, hañ hefur nǣd þvi gooda Hlutskiftinu, honum nun hægra ad mootstand a Syndinni; So lenge hun ecke slocknar, þa er ecke hætt vid ad hann læti Syndina i sier drottna; Hun uppbrenner allt Sorp veralldlegra Gyrnda i Hiartanu. Þegar Gedeon hafde lagt Brennefoornena uppa Klettinn, epter þvi sem Engill DRottiñs baud honum, þa rietti Engillinn sinn Staf wt, er var i hanns Hende, og snerti Foornina, og þar spratt Elldur upp af Biarginu, og fortærde Kiötinu og hinum Osijrdu Braudunum, Dom.B. 6. Legg þijna Foorn, Christiñ Madur, uppa þañ Stein, sem Uppbyggendur forsmaadu, Ps. 118. Þañ wtvallda Hyrningar-Stein, er Gud hefur sett i Zion, JEsum Christum, Es. 28. Þar mun Elldur wt fra honum gānga; Ja, eiñ brennande Elskunnar og Trwarinnar Elldur, sem upptendrar þijna Foorn, so Gud, sem bijr i Hædunum, lukti eiñ Sætleiks Ilm þar af: Og hefi eg nu so uñ þad nockud talad, hversu ad Ydraniñ eigi kroftug ad vera til Afturhvarfs fra Syndunum og til Mootstödu þeim.

Nu þoott ad Menn sieu uñ þad sañfærdir i Hiarta sijnu, ad eingiñ kuñi ad eignast eilijft Lijf, nema sa sem af Hiarta ydrast Syndaña og lætur af þeim, þa erum vier so treger til þessa Verks, og vier lātum oss allt annad meir umhugad vera. Seged mier: hver er sa ed sege: þar er noogur Tijmi til ad verda rijkur? Til ad taka Veitslur og Virdingar? Til ad reisa til Giestabods? Seger ein Jomfrw, þar er noogur Tijmi til ad giftast, ef henni bijdst þad Rād sem heñi lijkar? Edur sa, hvers Asni edur Naut ad fellur i Pitt, ad þad sie noogur Tijmi til ad draga þad upp? Eda ef Elldur kvikn ar i eins Manns Hwsi, ad noogur Tijmi sie til ad slöckva hañ? Enn til þess ad kveikia vora Lampa, til ad fagna Brwdgumanum Christo, Matth. 25. til ad draga sialfa oss upp wr Feni Syndaña, til ad slöckva Bāl Gyrndaña, sem Diöfulleñ hefur upptendrad i Hiarta voru, til þess köllum vier ad alltijd sie noogur Tijme, eins og hefdum vier Festi-Bref af Gudi uppa Lijfdagana. Þier vited hvad St. Pāll seger, Gal. 5. Holldsins Verk eru opinnber, sem eru Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda-Dijrkan, Fiolkijngi, Fiandskapur, Þrætur, Kappgyrni, Þrattan, Sundurþyckia, Flockadrattur, Ofund, Manndrap, Ofdryckia, Ofneytsla, og þessu lijkt, hvad eg sege ydur fyrer, og hefi adur sagt, ad þeir ed þvilijkt giora, erfa ecke Guds Rijke; segir hann. Nu hafa aller af oss framed eitthvert af þessu edur þvilijku, kannskie leingst Alldurs sijns, og sumir ecke enn nu aflatid, enn vier vitum ecke nær sagt verdur: Þu Dare, a þessare Noottu munu þeir þijna Saal fra þier taka, Luc. 12. og sumir fa einga Advorun. Ecki kastar Daudiñ öllum fyrst i Bana-Sængina. Margur deyr so hañ sier ecke Daudañ fyrer Augum sier. J einu Auga-Bragde, i Svefne, midt i Syndunum kippir hann sumum i burtu; Enn þu veitst ecke hvad hellst af þessu ad þier muni ætlad. Seig mier þa, i Guds Nafne, seig mier, er þar alltijd noogur Tijmi til ad ydrast? Er þad viturlegt, ad draga sijna Umboot undann i Trausti lāngra Lijfdaga, eins og hefdum vier giört Sattmala vid Daudann? Vor Dauda-Stund er alltijd, þvi skylldi vor Ydrunar-Stund alltijd vera: Þu seger; Þad tekst mier ecki, þvi medañ eg

syndga giet eg ecki ydrast: Þad er satt, þvi Ydraneñ kiemur ecki fyrr enn eptir Syndina, Gud giæfi ad hun kiæmi þo jafnann strax ad henni drygdri, og mundum vier sialldnar syndga, fyrst þvi verdur ecke ækomid, ad vier hugsum til þess, nær Syndinn griipur oss, hvad beyst Ydran þar verdi æ eptir ad fylgia, ef Syndinn æ ad verda oss fyrergiefiñ. Gud giæfi vier villdum giora eins og Dwfa Nooa, Gen. 8. Hun flaug wt og kom aftur strax med Oliu-Kvist i Munninum, sem var Fridar-Merke. Gud giæfi, sege eg, ad vier villdum eins giora þegar vier fliwgum wt af Guds Ørk med syndsamlegu Athæfi, ad vier villdum þæ hverfa strax aptur i Ørkina, og fridmælast vid Gud, og ecke liikiast Hrafninum, er alldrei kom aptur, Gen. 8. Br. M. So lenge sem vier erum i Syndunum, so lenge erum vier under Guds Reide, Joh. 3. So lenge vier æn Ydrunar lifum, erum vier undir Satans Valldi, P. G. 26. Vitstola mæ sæ vera sem þetta vill eiga yfir Høfdi sier: Enn Gud frambiidur siina Myskunsemi med þeim Skilmæla: J Dag, J Dag, medann þu heyrer miina Rødd, þæ forherd ecke þitt Hiarta, Ps. 95. Diofulleñ heiter oss og Guds Myskunsemie med þessu Skil-Yrde: A Morgun, æ Morgun; eñ ædur eñ þessi Morgun kiemur, þa kañt þu ad vera uppvaknadr i Helviite og Kvølunum. Esau kom seint med Blædina, þvi foor hañ æ Mis vid Blessanena, Gen. 27. Pharao þuste epter Jsrael wt i Hafid Rauda, Exod. 14. Eñ villdi fliita sier aftur til sama Lands er Sioorinñ gein yfer Høfdi honum, eñ þad var þo allt um seiña. O þu syndug Mañeskia! þu sem meinar ad þar sie alltiid noogur Tiimi til ad ydrast, þeink æ þetta Dæme; ef þu gengur Ottalaust æfram i hinu rauda Hafi blodugra Synda og Jllgiorda, og þenkir alldrei til Afturhvarfs; hvad veitst þu, nær Guds Reidi-Flood steyppist yfir þig, ad þier Ovorum, so þu gietir ecki aftur snwid? Sparid Tiimañ seger Paulus, Eph. 5. Þegar vier høfum miked ad siissla, Br. M. er oss þykir æliggia, þa kollum vier hvern Tiima, hvert Augnablik ad vera diirmætt. O seged mier! Liggur oss æ nockrum Hlut so miøg, sem ad komast i Sætt vid hiñ Almættuga? Þo lætum vier oss so liited þar um annt vera. Ef nockur slepper goodu Tækifæri til ad framkvæma einhvern Hlut sier til Gagnsmuna, þa hlæum vier ad honum, ef vier ecke hyrdum um hañ, aumkum hañ og ætelium, ef hañ er vor Vinur, hendi þad oss sialfa, þæ ydrunst vier epter, eñ Diofullenn hlær ad oss ad vier forsoomum ad taka æ mooti Guds Giøf, medañ hun er fyrer Hondum. Margt kalla Menn Heimsku i Verølldeñe, og hver af oss hlær ad ødrum, enn einginn er þviliikur Dæraskapur sem sæ, er oss marga hender, þad er ad skioota Ydraneñe æ Frest. Hañ er syndgar i þvi Trauste, ad hañ muni gamall verda, hañ er liikur þeim, er briitur Skip sitt i þeirre Von, ad hañ muni komast til Lands æ Flaka einum. Eg hefi ædur sagt, ad Syndiñ verdi ecki fyrergiefiñ, nema ad Ydraniñ ad nockru Leite sambioode heñi. Hverium Dege næger siin Piaaning, seger Endurlausnareñ, Matth. 6. Mundi þad ecki verda oss noogu þwngt ad ydrast æ hveriu Kvølldi fyrer hvers Dags Synder, ef vier hefdum þeirra Registur vel uppskrifad i Hiartanu? Þoott ecke skiootum vier þvi æ Frest Dag epter Dag, Ar

efter

epter Ar; Mun ecke þesse Byrde verda nockud þwng um̃ sijder? Sem sem er odrum hæd-ur og ꝏ ad viña Dags-Verk, ef hañ forsoomar framañ af Deigenum, mun hann ecke þess betur meiga herda ꝏ sier, þegar hañ tekur til Verksins? Sem sem hefur i Ungdoo-menum lijtels aktad Syndena, mun ecke Ydraneñ verda honum þess þijngre i Elleñe, ef hañ ꝏ Guds Rijke ad erfa? Vier vitum ecke hvad gamall David var, þegar hañ sagde, ad Syndernar være sier of þwng Byrde vordnar; Hvad mundu þær ecke vorded hafa, hefde hañ dreged þær undañ allt til Daudans. Engeñ er ſꝏ af oss, ad hañ legge hinar þijngstu Klyfiar ꝏ hinn veikasta Eyk, og þo vilium vier kasta allra vorra Lijfdaga Syndum uppꝏ vorn Hrygg, þegar vier erum so Ellemooder, ad vier hösum noog ad bera sialfa oss. O! hvörsu vijslega var þad þvi giort af David, er hann beidde Gud ad lꝏta sig ecke gialda sinna Ungdooms Synda, Ps. 25. Eitt Sꝏr er hægast ad græda, medann þad er Nijtt. So er og Syndenn, hun verdur best læknud ad serskum Gior-ninge. A Morgnana taka Menn Læknisdoom inn ꝏ toomann Maga. Ydraneñ er Lækning Syndareñar: Tem þier hana, Barn mitt, ꝏ Morgne þijns Alldurs, medañ þu fullhraustur ert; Peink ꝏ þinn Skapara i Ungdoome þijnum, ꝏdur eñ þeir vondu Dagarner koma, og þu segier: Þad lijkar mier ecke, Pred. 12. Paulus skipar oss ad krossfesta Holdded, Gal. 5. Eñ þad er lijtell Kross fyrer hiñ Gamla Adam ad baña hön-um þad sem hañ gietur ecke haft Skiemtan af leingur, þad er ad vijsu ad offra Gude þvi Hallta og Lamada, Mal. 1. og mæla honum med Mæler hinns Framanda, enn Fiand-anum med Israels Mæler. Pyrm Elle þiñe, ef þu kannt hennar ad bijda, og bijder þu ecke, þa munt þu fiña, ad þu hefur eingann Skada, nær Kvölld þinnar Æfe kiemur, þoott þad sie um̃ Middeige þijns Alldurs edur jafnvel fyrr. Veit eg ad Gud hefur mör-gum snwed ꝏ sijnum gomlum Alldre, eñ under þvi er ecke ad eiga, þoott hann sie mysk-unsamur, hann hefur alldrei lofad ad lꝏta hañ kasta Elle-Belgnum til ad ydrast, sem alldrei þeinker til ad afklædast hinum Gamla Adam, medann hann fullhraustur var. Þu giorer mig Ungann aptur so sem einn Orn, segier David, Ps. 103. Þad er ꝏn Efa þess vegna, ad David endurnijade sijna Ydran Daglega. Eru ecke Toolf Stund-er i Deigenum? segier Endurlausnareñ, Joh. 11. Eg heyre Vijngards Herrann liet Verka-Menn leigia um̃ Elleftu Stund, Matth. 20. eñ sijdar ecke. Veit eg ad Gud hefur morgum i Andlꝏtenu myskunad, og hañ myskunar öllum sem hañs Nꝏdar leita, enn þau munu Dæmeñ særre vera, ad sꝏ hafe snwed sier af Hiarta til Guds i Andlꝏt-enu, sem hañ forsmꝏd hefur alla Æfe sijna. Spꝏmadureñ segier i Textanum: Leited DROTTENNS Medañ Hañ Er Ad Fiña, Kalled A Hañ, Medañ Hañ Er Nꝏ-lægur; So sem giore hann Nꝏd fyrer þvi, ad su Tijd kunne ad koma, ad hañ lꝏte sig ei leingur finna, ad hañ vilie ecke framar vera nꝏlægur, ad hann vilie ecke heyra þoott vier margtalader sieum, og wtbreidum bꝏdar Hendur vorar, Esa. 1. ad hañ iñeloke sig i ei-nu Skije, sm̃ eingeñ Bæn kiemst i giegnum, so sm̃ Jeremias ad Orde kiemst, Harmg. 3. O! Guds Born, lꝏtum oss, lꝏtum oss ecke bijda epter þeirre Tijd, hver veit nær hun

er? Hver veit nær Mæler Syndanna er uppfylltur? Hver veit nær Hofud-Engelsins Lwdur kvedur vid i Skijum Himens? Snwed ydur þvi til Drottens Unger og Gamler, Rijker og Fatæker, Vollduger og Vesæler, Þa Mun Hañ Myskuna Oss, Og Til Guds Vors, Þvi Hia Honum Er Mikel FYRERgiefning. Engeñ Hlutur er honum Omaattugur, Luc. 1. So er og engenn Mæler hanns Myskunar, fra hanns Kniaam hefur engeñ syniande fared, sem hañs leitad hefur med Angre og Trega. So fliott sem David jaatade Afgiord sijna, so fliott liet DRottenn segia honum: Gud hefur þijna Synd i burt-teked, 2.Sam. 12. Manasses stynur ecke fyrr i Bøndunum, 2.Kron.33. eñ ad hanns Misgiørder eru fyrergiefnar i Himnenum. Minn HErra JEsu, þu sagder Fordum vid Simon, Luc. 7. Þeim sem lijted er fyrergiefed, hann elskar lijted. HErra, þar er engenn af oss, sem hier liggium a þiñe Foot-Skør, sem lijted er fyrergiefed. Morg Tiju Þusund Punda eru oss uppgiefeñ hinum verstu Skullda-Þriootum. HErra, ef þad er mogulegt, þa gief oss ad vier elskum so miked, sem oss er til-giefed. Vier erum Fortapader Syner, sem høfum sooad vorre Fodurleifd, eñ leitum þo aptur til Fodur-Hwsa, Luc. 15. DRottenn, þu hefur runned a Veg fyrer oss, og breidt wt þiñ Fadm a moote oss, þu hefur mætt oss a midre Leid, og teked fagnande i moote oss; Laat oss þvi alldrei gleyma, og alldrei verda i so fraaleitt Sinne yfirgiefna, ad vier hverfum burt aptur til ad eta Draf med Svijnum, helldur ad oss smacke st so þijnar Vister, þijner Uxar og aled Fie, Luc. 14. er þu tilreider oss hier i Naadenne, ad vier meigum sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob i Dijrdenne, Matth. 8. Bænheyr þad goode Gud, fyrer JESU Christi Forþienustu, AMEN.

# Fioorda Sunnudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

JEsus sagde til sinna Læresveina: Nu fer eg til hañs sem mig sende, og eingenn af ydur spyr mig ad, hvørt fer þu? Helldur af þvi ad eg talade þetta til ydar, þa uppfyllteft ydar Hiarta af Hrigd. Eñ eg seige ydur þo Sañleikeñ, ad þad batar ydur, ad eg fare hiedañ. Þvi ef ad eg fer ei i burt hiedann, þa kiemur eige Huggareñ til ydar. Eñ ef eg fer i burt hiedañ, mun eg senda hañ til ydar. Og þa ed hañ kiemur, straffar hañ Heimeñ um̃ Syndena, og um̃ Riettlæted, og um̃ Doomeñ. Um̃ Syndena, af þvi þeir trwdu ecke a mig: Eñ um̃ Riettlæted, þviad eg fer til Fodursins, og epter þad siaaed þier mig ecke: Eñ um̃ Doomeñ, þviad Hofdinge þessa Heims er dæmdur. Eg hefe eñ nu margt ad segia ydur, eñ þier kunned ecke ad siñe ad bera þad. Eñ nær ed sa Sañleiksins Andeñ kiemur, þa mun

hañ

hañ kieña ydur allañ Sañleik, þviad hañ talar ecke af sialfum sier, helldur hvad hañ heyrde, þad talar hann, og hvad Epterkomande er, þad kuñgiører hañ ydur, hann same mun og auglijsa mig, þviad af mijnu mun hañ þad taka og kuñgiøra ydur. Allt hvad hellst Fadereñ hefur, þad er mitt. Þar fyrer sagde eg ydur, ad af mijnu mun hann þad taka, og kuñgiøra ydur.

## Exordium.

Og mun bidia minn Fødur, segier Endurlausnarenn, Joh. 14. Og hann mun senda ydur einn annañ Tals-Mann, þann er blijfe hiaa ydur Eilijflega, Anda Sannleiksins, hvern Heimurenn fær eige medteked, þvi hann sier hann ecke, og þecker hañ ecke, enn þier þecked hann, þvi hañ mun blijfa hiaa ydur og i ydur vera. Læresveinar HErrans voru Sorgbitner af þvi hañ sagde þeim fyrer sijna Burtfør til Fødursins, Joh. 16. So sem vier strax heyrdum af Evangelio. Eñ til þess ad þeir skylldu ecke allt Ofniog Sturlast þar af, þa gaf hann þeim þetta blessada Fyrerheit, hvert hann efnde strax epter sijna Himnafør, þar hann sende Heilagann Anda yfir þaa med miklum Krapte og Undrunum, P. G. 2. er fylgde þeim æ sijdann i øllum þeirra Embættis Utriettingum; Og kañ hiñe Pridiu Guddoomsins Persoonu eckert Huggunarsamlegra Nafn ad giefast enn þetta, ad hann sie vor Tals-Madur, Rom. 8. Þvi ef Gud er med oss, hvor er þa aa moote oss? Segier Postulenn. Enn ad H. Ande sie Gud, ber Skijrnenn vor lioosast Vitne um̃, þoott eige væru þar til ønnur Rok, þar vier verdum i hanns Nafne skijrder aasamt Fødur og Sonar, Matth. 28. Hann er vor Tals-Madur i Hørmungunum, þvi hann kienner oss, ad fyrer þær byrie oss inn ad gaanga i Guds Rijke, P. G. 14. Vor Tals-Madur i vorum Veikleika, þvi hann ber vorum Anda Vitne um̃, ad vier sieum Guds Børn, Rom. 8. Vor Tals-Madur hiaa Gude, þvi hann bidur fyrer oss med Oumræðelegum Andvørpunum: Vor Tals-Madur i þvi ad undervijsa oss, þvi hann leider oss i allann Sannleika: Vor Tals-Madur i Efasemdenne, er oss optlega hender, søkum vors Overdugleika, þvi hann er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. Enn so sem þad, ad einum Tals-Manne heyrer ecke alleina til ad forsvara og afsaka þann er hann ad sier tekur, og hughreista hann og undervijsa, hvernig hann skule haga sier fyrer Doomaranum edur sijnum Herra, helldur og er þad hanns Embætte, ad mootstanda hanns Ovinum, og ad sañfæra þaa sem aa moote mæla; So er þad og Heilags Anda Verk, ecke alleinasta ad hugga Guds Børn, og leida þau i allañ Sannleika, helldur og ad straffa og byrgia Munnenn aa þeirra Ovinum. Þetta Embætte H. Anda er innefaled i þeim Ordum, er Guds Sonur talar hier i Evangelio, ad hann mune Straffa HEimenn Um̃ Syndena og Um̃ RJettlæted Og Um̃ Doomenn: Og fyrer þvi, ad þau þykia ecke so audskilenn, þa vil eg laata þad vera Inntak minnar Einfalldrar Rædu i þetta Sinn, ad wtskyra þau.

O Drottenn hiealpe þar til med Naad siins Anda, i JESU Nafne AMEN.

## Utleggingen.

NAer hañ kiemur mun hañ straffa, edur sañfæra, Heimeñ um̃ Syndena; segier Endurlausnareñ. Engeñ Efe er aa þvi, B. M. ad þetta aa ad skiliast um̃ hina stooru Vantrwareñar Synd, hver ed drottnadi i Heimenum framar Veniu aa Hiervistar Dogum vors Lausnara: Eg segie, i Heimenum, þad er i Vantrwareñar-Bornum, Eph. 1. svo ad bæde Gydingar og Heidingiar voru under þessare Synd, þar Gydingar Oskudu Teikns, segier Paall, 1. Cor. 1. Eñ Gricker (þad eru Heidingiar) leitudu ad Speke: Hiner villdu ecke trwa nema þeir sæe Teikn og Stoormerke, og þoott þeir morg sæe, oskudu þeir samt Teikns af Himne: Þesser leitudu ad Speke og meintu ad þeir med Naatturuñar Skilninge feinge griped hiñ Oraññsakannlega Guddooms Dijrdar-Liooma, sem uppfyller bæde Himen og Jord, hvorn Guds Sonur var sendur til ad opeñbera. Eñ fyrer þvi ad hañ vard Gydingum ad Hneixlan, enn Grickium ad Heimsku, fyrer þeirra Vantrwar Saker, þa var Heilagur Ande wtsendur til ad sañfæra Heimeñ um̃ þennañ Sannleika. Ad þetta so eige ad skiliast, er Deigenum lioosara, af Ordsokeñe er DRotteñ færer hier til, sem er þesse: Af þvi þeir trwdu ecke aa mig. Hann talar um̃ þetta so sem eiñ undañfareñ Hlut, eñ þa var allareidu komed ad hañs Burtfor til Fodursins. Nu er þad kuñugt hvorsu liooser ad voru Spaadoomarner og Ritningarnar sem af honum voru, hvoriar hañ baud þeim ad rañsaka, Joh. 5. Samt villdu þeir ecke laata hañ drottna yfir sier. Þeirra eigeñ Sende-Meñ baaru Vitne um̃, ad alldrei hefde nockur Madur talad so sem þesse talade, Joh. 7. Þo sogdu þeir ad hann Gudlastade, þeir saau hañs Kraptaverk, og jaatudu ad engeñ kyñe þvilijkt ad giora, nema Gud være med honum, Joh. 3. Samt baaru þeir sier þa Ohæfu i Muñ, ad hañ være Samverskur og hefde Diofuleñ, Joh. 8. Þeir hofdu fyrer Augunum hañs Allra Heilagasta Lijferne, þo kolludu þeir hañ Ofneytslu-Mañ og Vijnsvelgiara, Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra, Matth. 11. Þeir kuñu ecke ad straffa hañ um̃ nockra Synd, Joh. 8. þo klogudu þeir hañ, so sem þañ ed fraasnere Foolkenu og bannade ad giefa Keysaranum Skatt, Luc. 23. Þesse var sw Gudlausa Vantrwareñar Synd, sem JEsus hier um̃ talar; Hun verdur og aa stundum kollud Synd i Ritninguñe framar odrum Syndum. Um̃ Jeroboam stendur vijda i Kongaña Bookum, ad hann hafe komed Jsrael til ad syndga, 1. Kong. 12. þad er til Vantrwar og Afguda-Dyrkanar. Ef þier værud blinder (segier Lausnareñ vid Gydinga) þa hefdud þier ecke Synd, eñ nu þar þier segied, vier siaaum, þa bliifur ydar Synd, Joh. 9. Hvar eige kañ añad meint ad vera eñ Synd Vantrwareñar, þvi fyrer wtañ hana hofdu þeir þo margar Synder; Jaa þesse er sw hrædelega Synd er hañ um̃-talar, Joh. 15. v. 22. 24. Hefde eg ecke komed og talad til þeirra, þa hefdu þeir ecke Synd, eñ nu hafa þeir ecke þad þeir kuñe ad skijla Synd siñe med. Hvar fyrer miñ HErra? Þvi hefde þesse eina Synd i burtu vered, þa hefdu allar hinar afmaadar orded: Jaa, enn aptur, hefde eg ecke giort

þau

þau Verk a medal þeirra, sem einginn kann ad giora, þa hefdu þeir ecke Synd, enn nu hafa þeir sied þau og hata bæde mig og minn Fodur: Þetta er sw stoora Vantrwarinnar Synd, sem ollum odrum framar Synd kallast i Ritninguñe. Hvar fyrer? Þviad medann hun blijfur, blijfa allar adrar. Lækning Saalarinnar og allra vorra Meina er alleina sw Forlijkun, sem JEsus giort hefur, er hann bar vorar Synder uppa Tried, 1. Pet. 2: Hver sem þvi ecki trwir, þann vill DRottenn ad H. Ande sannfære, þviad med þvi ad trwa riettilega a hann, verda allar adrar Synder i burtu teknar; Vill hann þvi ad Heimurinn verde sannfærdur um þessa einu Synd, þviad fyrer hana eina verda allar hinar bundnar og apturhalldnar; Þad giorer JEsus bert, Joh. 3. segiande: Sa sem ecke trwer, hann er þegar dæmdur; Og aptur seger hann i sama Cap. Sa sem ecke trwer Syninum, hann mun ecke sia Lijfed, helldur blijfur Guds Reide yfer honum; Ja, enn framar: Ef þier ecke trwed þvi ad eg sie, þa munud þier deya i ydar Syndum, þad er, ad eg sie Lioos Heimsins, so sem hann hafde skomu adur um sig vitnad, Joh. 8. Siaed hier, Br. M. ad Vantrwenn er ein Hofud-Synd, og ollum odrum meire. Og er nu audsært hier af, ad hun er sw Synd, er DRottenn umtalar hier i Evangelio, og þoott eckert væri annad til Vitnis hier um, þa eru þau Undur og Stoormerke, er H. Ande byrte med sinn Guddooms Krapt under eins og Sakleyse, Almætte og Guddoom Christi, strax epter hanns Himnafør, til ad sannfæra Heiminn um þessa skielfilegu Vantrwarinnar Synd; Edur hvad synest ydur um hina miklu Raust, er kom af Hinne, so sem þiootande Stormvidres, og fyllte upp Hwsed þar Postularner inni voru? um þær elldlegu Twngur, er settu sig yfer sierhvern þeirra? um þau adskiliannlegu Twngumaal, er þeir toludu, epter þvi sem H. Ande gaf þeim wt ad tala? P. G. 2. Seger ecke Lucas, ad þeir ed þad heyrdu hafe vorded fra sier number og Tvijlraader, segiande hver vid annann: Hvad er þetta? Hvad virdest ydur um hina fyrstu Predikun St. Peturs, er hann giordei sama Sinne? Hvernig hann sagde þeim ad JEsus af Nazareth hefdi odlast Anda Fyrerheitisins af Fodurnum, og wthellt þvi er þa saa og heyrdu, og hvernig ad þeir skaarust i sijnum Hiortum, er þeir heyrdu þetta, og sögdu: Gooder Brædur, hvad skulum vier giora? Seged mier, var ecke þetta ad sannfæra þa um hina hrædilegu Synd, ad þeir hofdu ecke trwad honum, helldur krossfestu Hofdingia Lijfsins? Ad eg tale ecke um oll þau Undur og Jarteikn, er fylgdu Christne-Bodinu i þa Daga, so ad hiner grimmu Heidingiar, sem voru an Guds i Heiminum, Eph. 2. gengu DRottne til Handa og medtooku hanns Vitnisburd. Þvi hroosar Paall, segiande: Eg hefe allt fra Jerusalem og þar um krijng, allt til Illyricum, fullkomnad Evangelium Christi, Rom. 15. Nu þoott ad þetta sie eigennleg Meining Lausnarans i þessum Ordum, sem nu hefi eg sagt og sijnt med nockrum Rokum, þa eigum vid þo ad vita, Br. M. ad þetta Embætti H. Anda nær eirnig til vor, þvi Frelsarenn sagde vid þa, ad þesse H. Ande skyllde vera hia þeim æfinnlega, Joh. 14. Enn þeir eru fyrer laungu komner til Hvijldar DRottinns; samt hefur ecke Gud yfergiefed sijna Christne, þvi eigum vier enn nu ad leita ad honum i

hanns

hañs H. Orde, sem i Fyrstuñi var predikad ad honum samverkanda og styrkianda med epterfylgiande Teaknum, seger Marcus, Cap. 16. hvert hann er eñ nu ecke vidskila orden. O! hversu værum vier faavijser ad þeckia Syndena, nema H. Ande sañfærde oss þar uñ i Guds Orde, Jaa, enn þa epter þad vier hofum lært vorn Christiñdoom i Barna-Lærdoominum, þa kollum vier margt þad syndlaust ad vera, sem þo er ein fordæmanneg Synd fyrer Gude, ef hann vill i Doom vid oss gaanga; og þar ad auke, þa maa þad kuñugt vera, hversu ad Christinndoominum er almeñilega haattad Maña aa medal, þad sumer kalla sig vel Christna, ef þeir trwa aa Gud, og þvi ad Christur hafi pijnst fyrer Synder Heimsins. Enn St. Jacob helldur þad laangtum odruvijse, þar hañ seger: Ad Trwenn sie daud aan Verkanna, Jac. 2. Nu ef sw Trw er daud, sem ad ecke verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. so sem Paulus giorer Raad fyrer hinni somu Trw, er þad þa ecki Vantrw? Jaa, i Sañleika, hun er Vantrwnni verri, þvi sw Trw, af hverri Madurinn alleina þeckir Gud, og veit ad hann er bæde goodur, og þo under eins Riettlaatur, eñ forsmaaer þo hañs Vilia og ecki aastundar ad læra hann, so hañ ad miñsta Koste þeckia megi hvad laangt hañ sie fraa þvi, ad hañ gieti honum Fullnægiu giort, hun hiaalpar meir til ad fordæma einn helldur enn Saaluhoolpinn ad giora, þviad Dioflarner trwa þvi einnig og skielfast þar af, seger St. Jacob, Cap. 2. Enn seged mier, hvar aa Holldlegur Madur ad faa slijka Þeckingu, nema hann sannfærdur sie þar uñ af H. Anda? Petur seger til Safnadaña i Asia: Þier foorud allir villt sem Saudir, enn nu erud þier uñhverfder til Hyrders og Biskups Saalna ydar, 1. Pist. 2. med honum tekur Paulus under, segiande: Þier vorud Myrkur til Forna, enn nu erud þier Lioos i DRottne, Eph. 5. Hvar fyrer munde þad skie, nema fyrer Verkan H. Anda, sem bioo i Ordinu og straffade Heimiñ uñ Syndina. Holld og Blood hefur ecke opinnberad þier þetta, sagde DRottenn vid Petur, helldur minn Fader sem er aa Himnum, Matth. 16. Og hid sama maa eg segia uñ Þeckingu Syndarinnar. Fyrer Guds Anda erum vier endurfædder i Skijrninne, Joh. 3. og endurnijader i Hugskotum vorum. Hañ skapar i oss nijtt Hiarta, Ps. 51. Hann leider oss til JEsum Christum, aan hvers vier feingium ecke til hanns komest, so sem vier medkiennum i hiñe Pridiu Grein vorrar Trwarjaatningar: Eñ hvar med giorer hañ þetta? An Efa i Fyrstuñe med Þeckingu Syndarennar. Seged mier! hvert er þad Offred sem Gude þocknast? Er þad ecke Harmþrwngenn og sundurknosadur Ande? Sem David seger, Ps. 51. Sw Saal sem ad hrygg er wt af Stærd Illskuñar, og geingur bogenn og veik; Þau Augu sem þreitt eru, Ein hwngrud Saal mun giefa þier Dijrdina og Riettlætid DRottinn, seger Baruch, Cap. 2. Enn hvar vilium vier faa þessa Hrygd, hver vekur i oss þetta andlega Hwngur? Þad giorer Ande DRotteñs med Þeckingu Syndariñar, bæde i Guds H. Ordi og so med sijnum kroftugu iñvortis Hræringum, þegar hañ dreg þa Skijluna fraa Augum Saalarinnar, sem Andskotenn hefur heingt þar fyrer, og vier siaaum hversu vier hofum hinn gooda Gud til Reide reitt med margra Ara Ohlijdne, og sijner oss under eins

Guds

Guds Ovmrædilega Giædsku og Þolinnmæde yfir ollu þessu, sem morgum þeim hefur ad Skyndingu i burtu kippt, sem kañskie ecke hafa meir syndgad enn vær. Hvad meined þier, Br. M. Munum vier taka þessar Hugrenningar af siaalfum oss? O Nei! þvi vier erum ecke megnuger um̃, af siaalfum oss til neitt gott ad hugleida, 2. Cor. 3. auk helldur ad fram̃kvæma: Hvadañ þa nema af H. Anda? hver ed sannfærer oss um̃ Syndena. Gydingar hofdu Logmaaled, af þvi þecktu þeir þo ecki Syndina; Eigi meintu þeir sumir hverier, ad illar Hugsaner væru Synd, jafnvel þoott Logmaaled segdi þeim: Þu skallt eige gyrnast, Exod. 20. Þar fyrer lijker DRottenn þeim vid Grafer Fram̃lidenna, sem wtann voru prijdilegar, eñ iñañ fullar af allra handa Oþeckt, Matth. 23. Þeim mundi hafa þoott þad undarlegt, ad sa sem reiddest Broodur sijnum, skylldi vera Raads sekur: Sa sem liti eina Kvinnu til ad gyrnast hana, hann hefdi allareidu drijgt Hoor med henni i sijnu Hiarta, Matth. 5. Edur ad Madurinn væri skylldugur til ad giora þeim Gott, sem vid hann misgiorir. So mikill er nu Munur Bookstaffsins og Andans; Hiñ deydir, ef hañ er einsamall; þessi lijfgar, eñ brwkar Logmaalid fyrst til ad deyda, þad er, ad sundurmeria og kieña Syndaranum, ad hañ sie Dauda sekur, og þañig iñilykur Gud alla undir Ohlijdniñi, uppa þad hann myskuni ollum, Rom. 11. Vitid þier ecki, ad þier erud Musteri Guds? Seger Paulus, 1. Cor. 3. Eg ætla ad so fari best Guds Pioonustañ i þessari Kyrkiu, ad Moyses hafi Bassañ i Logmaalinu, eñ Christur Tenorinn i Evangelio, þvi hinns gooda Hyrdirs Raust mun þo yfertaka og hærra laata eñ Moysis Reidarþruma. Þad er eiñ gledilegur Tviisaungur i Eyrum mæddrar Samvitsku, og þa rætist þad med fullu og ollu, er DRottiñ sagde Fordum Daga, Guds Rijki er iñi hiaa ydur, Luc. 17. Jafnvel Angrid fyrer Syndina er Guds Bornum þeckara eñ oll Heimsins Kæte hañs Sonum, og þau Taarinn, er eim Syndare fellir i Guds Siood, þau smacka honum betur, eñ Vijn hiñar flaaraadu Dalilæ Veralldariñar heñar Fylgiu-Moñum. Og þvi seger Lausnariñ hier strax epter: Ad H. Ande muni sañfæra Heimiñ um̃ Riettlætid, af þvi hañ fari til Fodursins. Christur meinar hier i Fyrstu sitt eiged Riettlæti og Sakleysi. Þad hlaut aa eptir ad fylgia, þegar Guds Andi hafdi straffad Heimiñ um̃ þaa skielfilegu Synd, ad þeir trwdu honum ecki, helldr festu hañ uppa Gaalgañ, er þeir kuñu þo ecki ad straffa um̃ nockra Synd, þa hlaut þad aa eptir ad fylgia (sege eg) ad hañ sañfærde þann sama Heim um̃ hañs Riettlæte, ad þeir hofdu Lijfsins Hertoga krossfest, so sem Petur sagde þeim, P. G. 3. Þa kunnu þeir ad segia ad hann væri Timburmañsins Sonur, Matth. 13. ad þeir þecktu Fodur hañs og Moodur, ad hann væri Samverskur og hefdi Diofulinn, Joh. 8. ad hañ fyrer Beelzebub Diofla Hofdingia ræki wt Dioflana, Luc. 11. Þa kunnu þeir ad giefa honum þad ad Dauda-Sok, ad hañ kalladi sig Konunginn Christum, Luc. 23. Ja, ef hañ være Guds Sonur, ad hann skyllde stijga ofañ af Krossinum, Matth. 27. Þa var þad Tijmi fyrir þig, O þu hiñ Gudlause Biskup Caipha! ad rijfa þijn Klæde, af þvi hañ jaatade sig Guds Son ad vera, Matth. 26. Þa var Tijmi til alls þessa þegar hañ,

 ad

ad sigrudum Dauda, Dioffi og Helviiti, upphafinn yfir alla Himna, hafde sett sig til Kraftarins hægri Handar, og til Vitnisburdar um̃ sitt Almætti, sitt Riettlæti og Dijrdarfulla Hœtign, sendi siñ H. Anda yfir sijna Þioona og Ambœttir med stoorum Undrunum og Tœknum: Jœ, yfir sijna Fiandmenn og Offooknara, so ad marger af Kiennimønnunum hlijdnuduft Trwnni, seger Lucas, P.G. 6. Þegar Um̃komulausir Fiskimenn rœku wt Dioflana, læknudu Siwkdooma, opinberudu leynda Hluti, sem eingenn Mañа kuñi ad vita, so sem Ananiæ og Zaphiræ Dœmi vitna, P.G. 5. Og þetta skiedi allt i hañs Nafne, sem hinir ædur hofdu kvalid, hwdstrijkt og a Gaalgañ uppheingt milli tveggia Spillvirkia. Med øllum þessum Guddoomlegum Furdu-Verkum sannfærdi nu H. Ande Verølldina i þa Daga. Þvi eg fer til Fodursins; segier Herrann. Þetta hid sama brwkade H. Ande fyrir Muñ Peturs til ad sañfæra þa um̃ Christi Riettlæte, er heyrdu a Tal hañs, P.G. 2. er hañ vitnar af Spaadoomi Davids Konungs um̃ Uppriisu og Uppstigning DRottinns vors JEsu, segiande: Ecki er David uppfarinn i Himininn, er hann seger sialfur: DRottiñ sagde mijnum DRottni, sit þu mier til hægri Handar, þar til eg legg Ovine þijna til Skarar Foota þier. Viti þvi allt Israels Hws fyrer vijst, ad Gud hefur giort hañ ad Christo og HErra, þeña sama JEsum, er þier krossfestud. Og ad þessi sie Meiningiñ i Ordum DRottiñs, vottar þad sem hier epterfylger: Og Eptir Þad Siaid Þier Mig Ecki. Ad soñu saau hañ Lærisveinarnir eftir hañs Uppriisu, eñ ecki med somu Asynd og ædr, ecki i Þioons Mynd, helldur so sem eiñ Sigurvegara, ecki so sem þeir saau hañ i Grasgardinum bundiñ og fiotradañ, helldur Englunum lijkañ, þar hañ gieck iñ ad luktum Dyrum til þeirra, Joh. 20. Ecki so sem eina Bolvan a Krossen uppheingdañ, Devt. 21. helldur uppriseñ af Daudum, ad Daudans Pijnu upplеystri. Allt þetta vottade hañs Riettlæti og Sakleysi, þvi þad var Omøgulegt, so sem Petur sagde, ad hañ kynni af Daudanum halldinn ad verda, P.G. 2. Enn allra hellst meinar DRottenn hier sijna Himnafor, ad þeir mundu hann ecki siaa wr þvi, ad hann giordist fyrer þeim Osijnilegur, og Skijed took hann burt fraa þeirra Augum, P.G. 1. Og er nu af þessu ollu Riettlæti DRottiñs sannbevijsad fyrer Vitnisburd H. Anda, sem faam Døgum þar epter kom yfer Postulana med sijnilegum Guds Krapte, so ad þeir Twngur toludu, Diofla wtrœku, løgdu Hendur yfir Siwka og þeim batnade, søgdu fyrer Oordna Hlute, so sem hann ædur fyrersagde og seger berlega hier i Gudspiallinu med þessum Ordum: Nær Ed Saa Sannleiksins Andinn Kiemur, Þa Mun Hann Kienna Ydur Allann Sannleik, Þvi Hann Talar Ecki Af Sialfum Sier, Helldur Hvad Hañ Heyrde, Þad Talar Hann, Og Hvad Eftirkomande Er, Þad Kuñgiorir Hann Ydur, Hañ Sami Mun Og Vegsama Mig, Þvi af Mijnu Mun Hañ Þad Taka Og Kunngiora Ydur. Hvad sijnist ydur Br. M.? Er ecke þvilijkt ad sañfæra Heiminn um̃ Riettlæti DRottiñs JEsu? Og af þessu JEsu Christi allra helgasta Riettlæte haangir vort Riettlæte, eg meina þad oss tilreiknad verdur, þvi þad, er raunar hañs Riettlæti, og þar fyrir heyrir oss og so til þetta

Em-

Embætte H. Anda eige siidur eñ þeim sem lifdu á Postulaña Dogum: Og byriar oss hier fyrst ad athuga þau Ord, er hañ talade til Læresveinaña, skoñu siidar, Joh. 16. Iñañ Lijtels Tijma munud þier ecke sia mig, og aptur Iñañ Lijtels Tijma munud þier sia mig aptur, þvi eg fer til Fodursins. Af hvorium Ordum þad audsært er, ad DRottenn kallar sijna Pijnu, sinn Dauda, sijna Greptran og Uppristu, i þessum Stad, sijna Burtfor til Fodursins, asamt Himnaforenne.

Nu er þad ollum Moñum augliooft, ad Riettlæte syndugs Manns er i þvi foolged, ad Christur er fyrer oss dæenn, uppriseñn og til Himna fareñ: Þvi segier og Paall, ad hañ sie dæeñ fyrer vorar Synder, og uppriseñ oss til Riettlætis, Rom. 4. Enn forgiefens være hañ dæeñ og uppriseñ, være hañ ecke til Himina fareñ og setstur til Kraptarens hægre Handar til ad bidia fyrer oss, hvadañ hañ og hefur sendt oss siñ Anda, sa ed Trwna i oss verkar, fyrer hvoria Madureñ alleina verdur riettlaatur fyrer Gude, Rom. 3. Allt þetta kieñer hañ betst sialfur, med sam Ordum, Luc. 24. er hañ sagde vid Læresveinana under sijna Himna-For: So er þad skrifad, og so byriade Christo ad lijda og upprijsa af Daudum a Pridia Deige, og predika læta, i sijnu Nafne, Ydran og Syndaña Fyrergiefning hia ollum Pioodum: Og kiemur þesse Partur Embættis H. Anda miog samañ vid hiñ fyrra, þviad i Þeckingu Syndareñar er Ydraneñ foolgeñ, eñ Riettlæted i Fyrergiefningu Syndaña: Og þvi vil eg taka mier hin gledelegu St. Paals Ord i Muñum þetta Efne, er hañ segier, Rom. 8. Hvor vill asaka Guds Utvallda? Gud er sa sem riettlæter. Hvor er sa ed fordæmer? Christur er sa sem dæeñ er, Ja eñ framar, uppriseñ, hver einnig er a Hægre Hond Gude, sa einnig er Medalgangare fyrer oss. Sie þvi mitt Riettlæte ecke betra eñ Nidlags Fat, Es. 64. Guds Heilagur Ande hefur sañfært Heimenn, sañfært Logmaled, sañfært Diofuleñ, Ja, sannfært mijna angrada og sturlada Samvitsku, sem klagar mig uñ Fiollda minna Synda Daglega, hañ hefur sañfært þau, segie eg, uñ JEsu Christi Riettlæte, sem vorded er mitt, þvi hañ er Jehova vort Riettlæte, Jer. 23. Og bæde mier og ollum stoor-Syndurum af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Hafe Adam forþienad med hinne Fyrstu Synd ad verda wtrekenn wr Paradijs med sijnu Ranglæte; hafe hañ lokad heñe aptur epter sier og ollu sijnu Afkvæme; hafe eg, hanns Syndugur Nidie, fylgt honum epter i Ranglætenu, so þar er eckert nema Fordæmañlegt i mier, þad eg hefe af hinum Fyrra Adam medteked, hvoru Lucas kallar Guds Son, Luc. 3. eñ giorde bæde sig og mig og allt sitt Hyske ad Diofulsins Bornum fyrer Yfirtrodsluna: Þa sañfærer þo Guds goodur Ande mig uñ þad, ad hiñ eilijfe Guds Son, hinn añar Adam, sem er DRotteñ af Himne, 1. Cor. 15. hvor ad hefur Davids Lykil og upplijkur so eingeñ kañ aptur ad læta, Op. B. 3. Hañ hefur bæde mier og ollum þeim uppluked Rijke Himnaña, sem med Angre sijns Hiarta skrijda ad Footum hañs og segia: Fader, eg hefe syndgast i Himeneñ og fyrer þier, eg em ei verdur ad kallast þiñ Sonur giør mig svo sem einn af þijnum Leigu-Moñum, Luc. 15. Hvorier eru mijner Ovin-

er? Hvar eru mijner Aklagendur? Pad er Logmaaled, pad er Heimurenn, pad er Dioful-lenn, pad er mijn eigenn Samvitska; Eg Ottast pa ecke, pegar D Rottenn er mier Naadugur, fyrer mijns Endurlausnara Riettlæte. Peir eru Bodlar Guds, nær hann er reidur, enn peim sem i JEsu Christo er vid hann saattur og kvittur, gieta peir eckert Mein unned; Ecke Logmaaled, pvi hann er komenn Logmaaled upp ad fylla, Matth. 5. Ecke Heim-urenn, pvi hann segiest hafa Heimenn sigrad, Joh. 16. Ecke Dioffullenn, pviad Hofdinge pessa Heims er dæmdur, Joh. 14. Ecke mijn Samvitska, pvi Johannes segier: Ef ydar Hiarta fordæmer ydur, pa er po Gud meire ydar Hiarta, 1. Joh. 3. Og Petur segier um Skijrnena, ad hun sie Saattmaale goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Poott eg hafe hann yfirtroded, pa veit eg po ad hanns Blood er wtruned i Skijrnar Saaenn, sem mig Overdugann Præl hefur elskad meir enn sialfann sig. JEsus er bæde Gud og Madur, Guds Eingieten Sonur og po Davids Sonur, Matth. 1. Par sie eg Gud hefur straffad aa Gude mijnar Synder, og pann Mann og minn Broodur epter Holldenu, i hvorium ad bijr oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. hefur hann, ad afrekadre minne Endurlausn, sett sier til Hægre Handar; Par fyrer gietur hann ecke straffad hanns Riettlæte aa mier, hvors Ranglæte hann straffade aa honum, pegar hann giordest Bolvan fyrer mijnar Synder, Gal. 3. sem eilijfa Bolvan forpienad hefe. Gud hefur alldrei unned meira Frægdar-Verk, helldur enn pa hann leyste oss synduga Orma wr eilijfu Banne. Odrum Sinnum hefur hann aatt ad skipta vid pad sem eckert var, so sem pegar hann giorde Himen og Jord af eingu Efne, Gen. 1. Edur vid Skiepnur sijnar, so sem pegar hann liet Soolena standa kyrra, Jos. 10. Klauf Hafed i sundur, Exod. 14. Sende Plaagur yfir Egyptaland, og annad pvilijkt: Enn i vorre Endurlausn aatte hann ad bijta vid sialfann sig og sitt Riettlæte, hvoriu eige maa raska, pvi eg er pess full-oruggur, ad hann lætur ecke soddann Stoorvirke til Onijtes verda aa peim, sem treysta aa Forpienustu hanns Eingietins Sonar, poott ad synduger sieu, pviad Synduga og ecke Riettlaata er hann komenn ad kalla til Ydranar, Matth. 9. Hvad skulum vier pa hier til segia? segier Paall, Rom. 6. Skulum vier dvelia i Syndunum, so ad Naadenn yfirgnæfe? Fiærre sie pvi.

D Rottenn segier hier i Gudspiallenu, ad Heilagur Ande mune sannfæra Heimenn um Doomenn, af pvi ad Hofdinge pessa Heims sie dæmdur. Hvor ad sie pesse Hofdinge, er audvitad: Pad er Satan, hvor hinn same kallast Diofla Hofdinge, Matth. 12. Enn par fyrer kallast hann so, ad Heimurenn liggur i hinu Vonda, 1. Joh. 5. Enn hann er alls Ills Hofundur, honum pioonar mikill Herskare i Heimenum, allra hellst Manneskiann, med adskiliannlegum Syndum og Glæpum, so ad hann er megtugur i Bornum Vantrwarennar, segier Paall, Eph. 2. Pad er, i Heimsins Bornum, hann er dæmdur; Tonn fyrer Tonn, Auga fyrer Auga, segier Logmaaled, Lev. 24. Satan var oll Ordsok i pvi, ad Christur var deiddur, kvalenn, hwdstryktur, og maatte Helvijtis Pijsler pola, er Synden hafde tilunned; Par fyrer er hann dæmdur til Myrkrana-Hlecckia eilijflega i Helvijte, 2. Pet. 2. Hann er dæmdur, pad er, sigradur og wtrekenn:

So

So segier DRottenn hiaa Joh. 12. under siina Pijnu. Nu er Doomur Heimsins, nu mun Hofdinge þessa Heims verda wtsnaradur. Þad er alkunnugt hvorsu ad Satan drottnade i Verolldenne aadur enn JEsus kom i Heimenn, Jaa, aadur enn hann sigrade Dioffulenn aa Krossenum, hvorsu ad øll Lond voru full af hinne verstu Afgudadyrkan, og siaalfre Guds Pioonustu aa medal Israels Barna hafde hann so spillt, ad þegar hann, sem Logmaaled hafde wtgiefed, kom i Heimenn, hann þeckte ecke Guds Logmaal hiaa siinu Foolke, þar fyrer klagar hann, Marc. 7. segiande epter Esaja: Þeir dyrka mig forgiefens, er þeir kienna þann Lærdoom sem er Manna-Setningar, þvi þier gaanged framm hiaa Guds Bodordum, og hallded Manna-Setningar; Þvott Bikara og Kiera, og margt annad þvilijkt giored þier. Enn þegar Guds Ande var wthelltur yfir allt Holld, so sem Joel hafde fyrerspaad, Cap. 2. Þa urdu hier aa snogg Umskipte, so sem Lucas skrifar i Postulanna Giorningum, 2. Cap. So hefur nu DRottenn JEsus utreked Diofulenn ur siinu Rijke med Guds Fingre, Luc. 11. sem er H. Ande, vordenn siaalfur Hofud alls Hofdingiadæmis, og hefur flett hinn sterka Hervopnada øllum siinum Herklædum, aa hvor hann treiste, Matth. 12. So Diofullenn hefur siaalfur naudugur bored Vitne umm hanns Almætte og Guddooms-Krapt: Þvi lijste hann, medal annara, af Munne Stwlkunnar, sem rann epter þeim Paale og hanns Forunautum i marga Daga, og hroopade: Þesser Menn eru Pioonar Guds hinns Hæsta, sem boda ydur Veg Velferdarennar, P. G. 16. Þannig aat Diofullenn siaalfur ofann i sig allar Gudlastaner sinna Verkfæra. Og þegar þeir flettu hinn H. og Riettlaata siinum Klædum, og heingdu hann nakenn uppaa Tried, þa hefur hann under eins afklædt Hofdingia-Dæmenn og Magtar-Volldenn, og þau opennberlega til Skodunar frammleidt, Col. 2. hroosande Sigre yfir þeim aa Krossenum. Og umm þennann Doom, sem nu þannig er yfir Dioflenum geingenn, sannfærde Guds H. Ande Heimenn, ecke einasta þa Ogudlegu, sem maattu þreifa aa slijku, helldur og alla þa, sem hann umsnere til Hlijdnis Christo og giorde honum Pioonustu-bundna, og þad sama verkar hann enn nu i Dag i Guds H. Orde, þegar þad er hreint og klaart, og med Alvoru nockurre og Roggseme kiennt og predikad; Þvi jafnvel þoott ad Diofullenn sie bundenn, þa lætur hann þo ecke af ad skioota siinum Ørvum aa Guds Her. Þar fyrer, Christner Menn! Fyrst ad vor Konungur hefur so mikenn Sigur unned aa Dioflenum, og so vegsamlegann Doom yfir honum feinged, þa laatum oss ecke þa Skomm henda, ad vier yfirgiefum Hertoga Lijfsins, enn gaungum i Sid med Fiandanum aptur, edur þioonum honum frammveigis i Syndenne og Ogudlegu Athæfe aa moote Samvitskunne; Verum minnuger þess Eids, er vier soorum hinum Lifanda Gude i Skijrnenne, ad vier jaatudum honum og øllum hanns Stoormerkium, enn afneitudum Fiandanum og øllum hanns Svikum og Vielum.

Ecke hefur Guds Sonur þenna dijra Sigur unned fyrer siaalfann sig; Þeirrar Haaleitu Guddoomsins Þrenningar Oraskanliga Riettlæte var fullnægt fyrer hina Fyrstu Synd Diofulsins, þegar hann var wtsnaradur af Himne. Gud took Riett sinn af honum fyrer siaalfann sig i eilijfum Kvolum; Fyrer oss synduga Orma og Guds Ovine er þesse

 fræge

frægre Sigur uñeñ; Sijnu Lijfe, siñe bitru Kvol og Dauda hefur hin eilijfa Giædska til þess kostad ad fra Herleidinguna ad Herfange teked, Eph. 4. Og oss Sigureñ giefed. Med þessu dijrmæta Lausnar-Gialldi hefur hañ oss Heilagañ Anda afrekad, til ad kieña oss ad þeckia Syndena, ad þeckia hid saña Riettlæte, sem er af Trwnne, og til ad Endurnya vor Hugskot, so ad vier gietum, ef viljum, Gude þioonad.

Verum þvi eige so Oþacklaater edur sialfum oss vonder, ad vier slockvum H. Anda, 1. Thess. 5. med vijsvitande Glæpum og Illgiordum i giegn vorum Frelsara, sem oss hefur so dijru Verde keypta, og þar hañ hefur wthellt honum i vor Hiortu, fyrst i Skijrneñe, sijdañ Daglega nalægt i sijnu H. Orde, ef vier forsmaaum þad ecke, þa segium ecke ad þad sie oss Omogulegt Gude ad þocknast, 1. Cor. 3. Þvi hann kann alla Hlute framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla, þar sem hañ finnur goodañ Vilia. Þad er Slægd Diofulsins, ad hann breiter vid oss, eins og þeir sem Moyses giorde fraa sier inn i Canaans Land; þeir sogdu illa af Landenu, Num. 13. So breiter og Satan; hvar sem hañ hefur vaned Hollded aa sijnar Kræsingar, þad eru Skañer og Lester, ad hañ kallar þad Omogulegt Gude ad þocknast, þar hañ sie eiñ straangur Herra, sem ad uppskiere þar hañ ecke saade, Luc. 19. Þad lijgur þu Satan! Þvi fyrer utann þad, ad allt hvad vier giorum, er ecke utann Haalfverk, sem Postuleñ vottar, 1. Cor. 13. og verdur þad so af Gude þeiged; þa styrker Andenn vorn Vanmaatt, segier Paulus, Rom. 8. Og hann bregdst alldrei þessum sem bidia uñ hañs Adstod, og allt hvad vier giorum gott, ef so maa nockurt heita, af þvi vier giorum, þad er hañs Verk i oss, hann verkar þad ad Guds Bodord eru eige þwng, 1. Joh. 5. Hvar fyrer? Þviad Elska Guds er wthellt i vorum Hiortum fyrer H. Anda, sem oss er giefenn, Rom. 5. Hann giorer Christi Ok sætt, og hanns Byrde lietta, Matth. 11. Hvar fyrer? Þviad Elskann til JEsum yfirvinnur alla Hlute, og þad er eins og St. Paall segier: Eg formaa alla Hlute fyrer hann, sem mig maattugañ giorer, Christum, Phil. 4. J Christelegu Lijferne er miklu meire Glede og Unadsemd, jafnvel i þessum Heime, helldur eñ i allskyns Fullsælu Veralldareñar; Enn ef vier eige til þessa finnum, þa velldur þad þvi, ad Vane Syndareñar er allt ofrijkur i oss vordenn; Reynum til fyrst og tokum til ad beriast Kallmannlega, siaaum til hvort vier ei finnum Adstod H. Anda, og þegar vier fyrer Guds Naad hofum yfiruñed, hvad aan alls Efa skiedur, ef vier leggium nockurn Hug aa vort Maal, þa munum vier ecke vilia uñskipta þoott allur Heimureñ i Bode være, og kalla Strijded lijtels verdt hiaa þeirre Glede er vier finnum i Vinaattu Guds, og i goodre Samvitsku, eñ þad maa eige undanndraga, Christenn Madur! Tef ecke ad snwa uñ til DRottenns, segier hinn gamle Syrach, 5. Cap. og skioot þvi ecke aa Frest Dag fraa Deige. Giorum oss vidskila Ogudlega Verolld þessa og heñar Athæfe, strax sem Andeñ kallar til vor af Opennberingar Bookenne segiande: Gaanged wt af henne, mitt Foolk, ad þier verded ecke hluttakande i hennar Syndum, og medtaked af hennar Plaagum, Openb. 18. Og þetta lætur Gud aa hvorium helgum Deige klijngia fyrer vorum Eyrum. Þegar Loth ford-

um

um Daga tafde ad gaanga wt af Sodoma, þa took Engillenn i Hønd hønum, og droo hañ haalfveigis naudugañ wt þadañ, so ad hañ ecke tijndest i Baalinu med ødrum, Gen. 19. O! hversu opt tekur hiñ naaduge Gud i Hønd vora med Krossenum, med Epterdæmunum, med hinum straungu Løgmaalsins Hootunum, og dregur oss naudugag wt af vondre Verolldu þessare, ad vier ecke fyrerfoꝛunst med henne. Loth beidde Leifes ad hañ mætti bwa i Zoar, sem var naalæg Sodoma, Gen. 19. Enn hañ tafde þar ecki leinge, hefur og ecke þorad, Sokum þess hrædilega Straffs, er kom yfer hinar Borgernar. Gior slijkt hid sama, Barn Guds! Þegar þu ert Einusinne, fyrer Guds Naad, wtgeingenñ fraa Heimenum, sem er riett ein Sodoma, þa stadnæmst ecke i Naagreñinu, þad er, kappkosta ad deyda aldeilis hinar fornu Girnder; Rek wt Ambaattina, Gal. 4. þad er, syndumspillta Naatturu, med Syne heñar, vondum Vana, ad so miklu Leite sem þier er møgulegt. Drep hiñ gamla Mañiñ, so ad Christur mege i þier lifa, añars er hætt vid, ad þoott Zoar sie lijtil, þa kuñe hun ad verda ad Sodoma fyrer Naagrennis Saker, og þig mege aptur laanga til Kiøt-Katlaña i Ægyptalande. Og hefe eg nu so talad uñ þetta Þrefallda Embætte H. Anda, hvad eg hygg Guds Orde samhlioodа vera, og under þvi er faliñ allur vor Christiñdoomur, sem er: J Fyrstu ad þeckia Syndina til ad ydrast; JEsu Christi fullkomna Riettlæte, til þess ad trwa, ad oss verde huñ fyrergiefinn; Og Doom Andskotans, til þess ad afneita hønum og øllu hañs Athæfe: Og haanger þetta so hvert af ødru, ad eckert maa añars missa, ef vor Christiñdoomur aa fullkomeñ ad vera. Eñ, þu vor Gud, sem rijkur ert af Naad, kienn þu oss ad þeckia Synder vorar, og ad ydrast þeirra af øllu Hiarta, og nær þu reiser oss aa Fætur aptur wr voru Dupte og Øsku, med Trwnne aa þiñ Eingietiñ Son, þa gior oss hinar fyrri Synder so leidar, ad vier styggum vid þeim, so sem añare Oþeckt, eñ kieñ oss ad lifa sparsamlega, gudrækilega, og riettferduglega i Heime þessum, ad vier mættum Ostraffannleger finnast i Tilkomu JEsu Christi vors Frelsara, og af hønum innleidder verda i hid fagnadarsæla Lambsins Brwdkaup. Gief oss þar til þinn H. Anda, Naaduge Fader, fyrer þañ sama þiñ Eingietiñ Son JEsum Christum, Amen.

# Fimta Suñudag epter Paaska.

Gudspialled, Joh. 16. Cap.

OG JEsus sagde til siña Lærisveina? Sañlega, Sannlega, sege eg ydur: Hvers þier bidied Fødureñ i mijnu Nafni, þad mun hañ giefa ydur. Hijngad til hafid þier Einskis bedid i mijnu Nafne; Bidied, þa munud þier medtaka, so ad ydar Fagnadur sie fullkomlegur. Þetta hefi eg talad i Ordskvidum til ydar; Sa Tijme kiemur, ad eg tala eige leingur i Ordskvidum

til

til ydar, helldur mun eg kuñgiora ydur opiñberlega af mijnum Fødur. A þeim Dege munud þier og bidia i mijnu Nafni. Og eige segie eg ydur adeg muni bidia Føduriñ fyrir ydur, þviad siælfur Fadiriñ elskar ydur, af þvi þier elsked mig, og trwed þad, ad eg sie af Gudi wtgeingiñ. Eg em af Fødurnum wtgengiñ, og komiñ i þeñañ Heim. Eg fyrerlæt og aptur þeñañ Heim, og fer til Fødursins. Og hañs Lærisveinar segia þa til hañs: Siæ, nu talar þu berlega, og mæler einga Ordskvidu. Nu vitum vier, ad þu veitst alla Hlute, og þu þarft eige ad nockur spyrie þig. Fyrer þad trwum vier, ad þu siert af Gude wtgeingeñ.

Exordium.

DROTTenn Gud þinn er Einn Fortærande Elldur, sagde Moyses Fordum Daga vid Israels Sonu, Devt. 4. Kvijda mætti Einn aumur Syndare fyrer, sem eckert annad giører enn ad forþiena Daudann, ad koma fram fyrir so Dijrdarfullann, so Ognarlegann Gud, hvers Reide ad brennur yfer þeim sem hañ hatar, allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Hvernig mun Eitt Hææm-Stræ, Ein Vatns-Boola kunna ad bwa vid soddann Einn fortærande Elld? Þo skulum vier fram fyrir hann koma, þvi hver vill dyliast fyrer hanns Auglite? Nu þoott ad þad vitannlegt sie, ad vorar Synder adskilie millum vors Guds og vor, Esa. 59. þa hroopade þo Fader Myskunsemdanna: Komed til mijn aller þier sem erfided og Þwnga erud þiæder, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Hvar fyrer þoott ad Gud sie einn fortærande Elldur, sem Paulus ad Orde kiemst, Hebr. 12. þa meigum vier jæta þad um oss satt ad vera, er hann skrifar Gydingum til, i sama Brefe og sama Cap. Þier erud komner til Fiallsins Zion, og Borgar Guds lifanda, Jerusalem hinnar himnesku, og til margra Þusunda Englanna: Af hveriu vier siæum, hvad miked oss er veitt i Christo JEsu DRottne vorum, ad vier, sem siærre vorum, hverra Fedur ad voru æn Guds i Heiminum, Eph. 2. Vier erum fyrer hann vordner Guds Heima-Menn, og vor Borgar-Riettur er æ Himnum, so sem Pæll seger, Phil. 3. Enn med hveriu Moote sæum vier þa saurugar Manneskiur hellst nærri komid þessum Guddoomsins Dijrdar-Liooma, sem ad bijr i þvi Lioose sem eingenn fær til komest? 1. Tim. 6. Þad skiedur i hanns H. Orde og Sacramentunum, enn ecke sijdst i einne audmiwkre Christens Manns Bæn, þar hinn Vesæle talar vid hinn Vollduga, hinn Lijflause vid Doomarann, Þrællinn vid HErrann, Einn syndugur Ormur vid Himins og Jardar Skapara, so sem þa Madur vid Mann talar, og Einn Vinur vid annañ, Exod. 33. hvar einn harmþrwnginn og sundurkramenn Ande þreinger sier i giegnum Skijenn med Ourmædilegum Andvorpunum fram fyrer Guds Tignar-Stool i Himninum, og verdur af honum bænheyrdur, so ad Himnarijke lijdur Ofrijke, Matth. 11. Og til þessa Samtals bijdur oss nu hier i Dag Engill hinns mikla Ræds; þar hann seger hier i Gudspiallinu:

Sañ-

Sannlega Segie Eg Ydur, Hvers Þier Bidied Fodurenn J Mijnu Nafni, Það Mun Hann Giefa Ydur. Enn hier er nockur Vande a, Br. M. sem er, ad vier høgum so Bæninni, ad vier sieum vısser um Bænheyrsluna, og finnum til hennar (þvi hanns Fyrerheit bregdast alldrei). Þvi vil eg nu tala nockud þar um a þessu Stundarkorni, hvernig Bæninni eigi hattad ad vera; Og er sierdeilis i þvi Tvennt ad athuga, sem er: 1. Ad hun sie Heit og Alvarleg. 2. Ad hun framkomi af Trwudu Hiarta. Enn hann, sem alla Hlute kann framar ad veita, enn eg kann fyrir ad mæla, hann styrke oss hier til med Naad sijns Anda, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingen.

Hegar vier vilium offra Gude Bænum vorum og Þackargiordum, þa hugleidum fyrst allra, hversu skielfileg Hatign það er, sem vier komum fyrir, sem er Konungur Konunganna og DRottin Drottnana, 1. Tim. 6. sa ad er allrar Veralldarinnar Doomare, Gen. 18. og i hvers Augum ad Himnana Himnar eru ecke hreiner, Job. 15. So langt er fra þvi, ad nockurt Saurugt megi nærre honum koma, þegar han er reidur, enn vier erum aller so sem sa Ohreini, segier Esaias, 64. Cap. og jafnvel vort Riettlæte er so sem Ridlags Fat. Hvad hellst sem ad snerter þetta Fiall, það skal Dauda deya, þar skal eingenn Hond snerta það, annars skal það grijtast edur i Hel skotid verda, hvert helldur það er Madur edur Kvikinde, sagdi DRottin Fordum vid Moysen, under það hann wtgaf sitt H. Logmaal a Fiallinu Sinai; Exod. 19. So hrædilegt, so Ognarlegt er hans Tignarvelldi, þegar han vill það sijna. Nu vilium vier segia, ad han sie blijdkadur fyrer Sonarins Forþienustu, sem satt er, en þess er ad giæta, B. M. ad þeim einum mun han blijdlega taka, sem fyrer Christi Blood framkoma, enn þeim einum mun Christi Blood og hans Forþienusta þar til gagna, sem hennar leita med angrædu og sundurknosudu Hiarta. Lat þier þvi til Hugar koma, syndugur Madur, þegar þu fellur fram fyrer Gud i þijnum Bænastad, hvilijkur Haski það sie ad koma nærri þessum brennandi Elldi, nema þu adur so tilreiddur siert, ad þu fair hann slocktan med Tarum þijns Hiarta. Þegar þu hefur nu Jhugad hvilijkur ad Gud sie, og hversu reidur syndsamlegu Athæfe, þa athuga hvilijkur ad ert sialfur þu, Molld og Aska, so sem Abraham sagde, Gen. 18. Gietinn og fæddur i Syndinni, Ps. 51. og af Natturunne til Reidinnar Barn, Eph. 2. ad sonnu Endurfæddur i Skijrninni fyrer Christi Blood og Guds Vinur kalladur. En hversu opt hefur þu nu rofid þinn Skijrnar Sattmaala, og ecki lokid þijn Sære hinum allra hærsta? Þu hefur verid bwinn til ad giora allt það sem han hefur bannad, og nærsta tregur til ad framkvæma það han bodid hefur, og hafi Guds Naad verkad nockud Gott med þier, þa hefur það þo af þinni Hendi verid Ofullkomid, og gietur einganveiginn stadist i hans Augliti, sem er fullkominn og heilagur; So langt er fra þvi, ad það megi sambiooda þvi Illa, sem þu giort hefur, edur afplaana það, þvi þu giorder þo eckert annad enn það þu attir ad giora, Luc. 17. og er þo vel, ef það so er, þegar þu hefur hvad bestur vered; En reikna nu upp med sialfum þier

 allt

allt Ydiuleysi i Guds Vijngardi, alla Hiegooma Þænka, øll Onytiu Ord fyrir utann Stoor=Glæpina, ogudlegañ Verknad, Ord og Hugsanir. Og þoott ad Guds Reidi og hañs Doomur sie enn nu ecki felldur yfir þijnar vidurstyggilegar og Klækiafullar At=hafner, þa er hañ ecke þier lijkur, þoott hañ siœe þad og þeige, Ps. 50. Helldur er þad añadhvert, ad haun med Þoliñmæde sinne vill draga þig til Ydrunar, Rom. 2. Ellegar og ad hañ lætur þig vaxa til Kornskieru Tijmans, þar til þu, ásamt hinu Illgresinu, ver=dur upphøggveñ og i Elld kastadur, Matth. 13. til ad giallda hønum þar, med eilijfum Pijslum, þad sem þu ecki villdir lwka hønum hier i Nœdinni med Angre þijns Hiarta, og Aflœti vondra Verka, á medañ þar sagdist eñ nu i Dag, Ebr. 3. Ber nu allt þetta samañ vid hañs Guddoomlega Hœtign, nær þu villt bidiast fyrer; Hversu hañ er vold=ugur enn þu vesæll, hann heilagur eñ þu allur i Synd, hañ hreiñ eñ þu hefur saurugar Varer: Og þegar þu þetta giørir med Athygli nockurri, þa er lijklegt ad þier muni helld=ur enn ecki renna i Skap vid sialfann þig, ad þu syndugur Ormur hefur so moodgad hañ, á hvørs Foot=Skor þu liggur, og Valld hefur til ad spyrna þier med Lijfi og Sœ=lu ofañ i eilijfañ Elld, Matth. 10. Og framar þessu, þa hugleid hañs Giædsku vid þig framkomna; Þviad þu ottist alleina hañs Makt og Velldi, þad er Þræls Otti eiñ, er jafnvel Dioflarner hafa og skielfast þar af, Jac. 2. Enn þoott hann sie ecki Onijtur Manninum, sem alltijd á afturkvœmt til Guds, ef hañ ydrast, og er i þvi øllu betur var=id eñ Dioflinum, þa er hañ þo ecki einhlijtur til Sœluhiálpar, þvi Meñ eiga ecki einung=is ad Ottast Gud, helldur ad elska hañ eiñig, og kiemur Ottiñ hellst af Ihugan hanns Mœttar og Riettlætis, enn Elskann af Tilfiñingu hanns Giædsku.

Vilier þu þvi audmijkia þig fyrer hønum wt af Hiarta i Bæniñe, þa lœt þier i Hug koma, hvilijkur þu varst, þegar þier var kastad iñ i Heiminn so sem ødru Hræe, i Andleg=ann Mœta daudum i Uppruna Syndinni, og hvernig hann hefur þig med Vatne og Anda endurgietid i Skijrninne, Joh. 3. Til eiñrar lifande Vonar, 1. Pet. 1. Og giørt þar vid þig Sœttmœla goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Eg vil eige fœ mier þad til Orda, hversu ad hann goodur er, og ad hanns Myskunsemi varir eilijflega, Ps. 118. Og ecki einasta fœdir allar lifandi Skiepnur, Ps. 145. helldur og Manninn, hver ed, af sialfum sier til, er hinn allra versti og Oþacklœtaste af øllum Guds Handaverkum, sem hañ er yfir skipadur. Og þoott ad vier allt þetta heimtum af hønum, so sem med Sialfs=Skylldu, og moglum þegar nockud kañ ad bresta, þa miñist hann ecki á vorar Illgiørd=er, ecke á þœ Glæpina, sem ad hanns eingietinn Son kvalid hafa, helldur á sijna miklu Myskunsemi, sem verid hefur i frœ Upphafi, Ps. 25. og œlijtur Forþienustu Sonarins, hveria Syndarinn þo margopt forsmœir, og sviptir oss ecki i burtu midt i voru Ogud=legu Athæfi, til þess ad hann fœi dreiged oss til Ydranar, jœ, sparar margann þann, sem hefdi forþienad ad eiga Sœlu=Felag med Core, Dathan og Abiram, hveria Jord=enn svalgi i sig lifande, Num. 16. af þvi þeir forsmœdu hanns Bodord. Lœt þessa O=umrædilega Giædsku þijns Skapara smellta þitt Hiarta, nær þu kiemur fram fyrir hañ

ad

ad bidia þier Fridar af hønum, er þu so stoorkostliga hefur til Reide reitt, og Daglega moodgar, og hallt þad fyrer vijst, ad þu muner Eyrendislaus fara, um̃ hvad hellst sem þu bidur, nema þu fyrst af Alvøru bidier um̃ Kvittun Syndaña, þvi hier um̃ maa eg segia þad sem hann sagde, er blindur var borenn og JEsus læknade, Joh. 6. Eg veit ad Gud Bænheyrer ecke synduga: og meinte hann ecke þar med Heidingia og Ogudlega Menn. Eñ hvad skulum vier segia? Þar er engenn Christenn so Heilagur, ad hann sie ecke Heidingium verre, nema hañ þigge Kvittun Syndanna af Gude med sannre Ydran, þvi hañ veit Veigenn til Lijfsins og geingur hann ecke, Luc. 12. O Rottenn hafde þann Formaala fyrer þeim Haalfvisna er þaade Heilbrigde Lijkamans af hønum: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, Matth. 9. Enn miklu sijdur meigum vier odlast Lækning Saalareñar, nema vorar Synder verde i burtu teknar. Og þessar Hugreñingar ættu nu ad bleita vort Hiarta fyrer Gude, þegar vier offrum hønum vorum Bænum, so ad ecke hende oss þad, sem David bidur hinum Ogudlega, Ps. 109. Ad hañs Bæn verde ad Synd; Hvad þo aan Efa skiedur, nær vorar Bæner eru eige nema Flapur Munnsins, og ecke af Root Hiartans. Eg vil eige um̃ þad tala, hvada Þorf ad Syndarenn hefur aa ad bidia Gud. Vitum vier ecke, ad allar vorar Lijfs og Saalar Heiller þær haanga alleina af hañs Myskunseme? Hvad er Madurenn? Ein Vatns-Boola, ein Gufa, er siest um̃ Stündarsaker og hiadnar sijdann, Jac. 4. Enn hve miklum Haaska er þesse Vatns-Boola, þesse Reikur underorpenn? Þar er ecke so vesæl Skiepna i Heimenum, ad eige kunne hun ad vinna oss Mein, nema Gud sæe fyrer Raade voru: Ein Mijsfluga kann ad taka af oss Lijfed, þad vier etum og dreckum kann ad saalga oss, ef til vill; enn hvad vilium vier þa tala um̃ hina Megtugu Ovine Saalna vorra, Diofulenn, sem er Þusund Viela Smidur, Heimeñ, sm̃ er hañs Eyrends-Reke, og vort eiged Holld, hvers Gyrnder ad i moote Saaluñe strijda, 1. Pet. 2. Hvernig kunnum vier þessum ad veriast, nema med Bæninne? Vier siaaum þad aa hinum Bænarlausu; hvoria Gud hefur ysergiefed i fraaleitt Sinne, og einkis svijfast ad giora Gude aa moote, sleppande Taumunum vid Andskotann, Heimeñ og sitt eiged Holld, leisande þvi sijnar Gyrnder ad rækia, Rom. 13. þar til þeir um̃ sijder af þvi Skadsemd, Jaa, eilijfa Fyrerdæming uppskiera, Gal. 6. Og þvi munde Endurlausnarenn leggia so rijkt aa vid sijna Læresveina um̃ þenna Hlut, hefde hann eige vitad, ad þeir mættu ecke þess aan vera, ad bidia? Vaked og biedied, so þier falled ecke i Freistne, Matth. 26. Og aptur, Vaked og biedied, þvi þier vited ecke nær Tijmenn er, Marc. 13. Nu kann einhvor ad þeinkia: Eg giet ecke ydrast Syndanna, og ecke rækelega edur heitt beded, nema Gud giefe mier þad, og verd eg þad af hønum med Bæn ad þigaia i fyrstu, enn þa er eg syndugur, kalldur og hardur og i allañ Maata illa skickadur til ad bidia Gud. Allt kañ þetta satt ad vera; Eñ seig mier, Christenn Madur, gietur þu ydrast þess er þu tilgiorer Monnunum? Vijst gietur þu, þad siaa Meñ jafnvel a morgum Skaalk, ad hañ ydrast epter, þegar hañ er bweñ ad fremia Glæpeñ; Þvi skyllder þu þa ecke laata þig aangra þad þu hefur Gude aa moote broted, ef þu

neñter einhvorn Tijma ad huxa um̃ Fram̃ferde þitt og Guds Riettlæte. Gietr Stoorbrota Maduren̄ beded Konungen̄ um̃ Lijf sitt? Edur saa Hwngrade um̃ Mat? Þad gieta baader þeir, og þad af Alvoru, jafnvel med graatande Taarum. Hvad mun þvi vallda, ad þu gietur ecke beded hinn Almaattuga Gud þannig? Þad gaatu þo Heidingiar, þeir Taarudust fyrer sijnum Afgudum, þegar Hwngur edur Drepsoott þrijste þeim þar til, so ad Livius skrifar, ad jafnvel þeirra Hofdings Kviñur hafe soopad Goda-Hofen̄ med sijnum Haar-Lockum, med vidlijkre Atferd, þoott Olijku sie samañ ad jafna, so sem þegar hin Bersynduga kraup ad JEsu Footum, og þvode þær med Taarum sijnum, og þerrade þær med Haar-Lockunum, Luc. 7. Nu er oss Christnum Moñum i slijku ollu betur vared, þar vier hofum medteked Heilagann Anda i Skijrneñe, so ad eg þore ad segia, ad þar er eingen̄ til Vits og Ara komenn, hvors Hiarta ad Guds Ande hafe ecke einhvern Tijma, Jaa, optlega snert og skored med Þeckingu Syndanna og sijns eigen̄ Overdugleika; eñ hvad velldur þvi, ad hier er ecke meira af vorded hia sumum? Þad, ad vier hyrdum ecke um̃ ad foostra Andann med Bænenne, miklu helldur slockvum hann med Ogudlegum Þaunkum, so hann fær ecke Rwm i oss, þeirra Hluta vegna, sem honum eru so gagnstæder, og hañ hefur Andstygd aa, sem eru Agyrnd, Ofund, Heift, Hatur, Loste, Drambseme, Elskann til þessa fallvallta Heims, og þvilijker Giester, sem hann vill ecke eiga Samsæte med, enn vier hofum einga Vidleitne aa ad rijma wt wr Hiarta voru, hvad þo morgum Heidingia hefur tekest ad miklu Leite. Ecke var Hundrads Hofdingenn um̃skorenn, so Meñ vite, og þo verkade Gud Audmyktena og Trwna i hañs Hiarta, jaa, þvilijka Trw, sem ad Hofundur Trwareñar hafde ecke funded i Jsrael: Eñ hvern Vitnisburd hafde þesse Madur af Olldungum Gydinga? Þad segier oss Lucas, Cap. 7. Verdur er hann þess (sogdu þeir) ad þu veiter honum þad, þvi hann elskar Þiood vora, og hefur vora Samkundu uppbyggt: Ecke var Cornelius skijrdur, þegar hanns Bæner og Olmusugiorder stigu upp fyrer Gud, P. G. 10.

Sia hier, hversu reidubwen̄ ad Gud er til ad hiaalpa goodum Vilia; Laat vera ad þijn Bæn sie kolld i Fyrstuñe: Meinar þu ecke, ad Gud þecke ad Mannsins Þaankar eru vonder i fraa Barndoome, Gen. 8. Eñ laat hañ siña Viliañ hia þier; Sijn honum ad þu hafer Astundan til ad bidia, og vert þess fulloruggur, ad hann mijne hiaalpa þier med Naad sijns Anda. Heidenn var hin Canaaniska, Matth. 15. Samt þreitte hun med Bæneñe vid JEsum, eige hefur hun teked þad af sialfre sier, enn þad Ord stendur stodugt segier Postulen̄, 2. Tim. 2. Gud þecker sijna; Hañ þeckte Hiartans Gyrnd hennar og Epterlaangan, og þvi hefur hann hiaalpad henne til ad strijda vid sig: Orvænt þier ecki slijkrar Myskunar af honum, þar þu ert hanns Barn vorden̄ og Christo innplantadur i Skijrneñe. Þu segier; Eg villde giarnañ af Alvoru beded gieta. Seig mier; Hefur þu beded Gud um̃ ad hiaalpa þier til ad bidia? Þu segier: Jaa, eg hefe beded; Eñ eg maa spyria, hvad opt? Hvad marga Daga? Vikur? Maanude? Ar? Edur hvorsu opt aa Deige hefur þu beded? Hefur þu þreitt vid Gud med Bænenne? Hefur þu kostad

til

til þess ollum Saalar og Lijfs Kroptum ad bidia ? Vera maa ad so sie, enn eige trwe eg þvi, ad þu siert þa ecke Bænheyrdur, og fiñer þu ecke til þess, þa er ad vijsu nockurs Abootavañt, af þvi sem þu ætt til ad leggia, þviad ef hinn Rangláte Doomare, sem JEsus tekur Dæme af hiaa Lucam, Cap. 18. Ef hann liet þo sigrast af Eckiunnar Bæn til ad giora henne Riett, þa gior þu ecke Fodur Myskunsemdanna, 2. Cor. 1. þann Oriett, þad þu ætler, ad hann sie hardwdugre, enn þesse Gudlause Madur var. Miñ Tijme er eñ þa ecke komeñ, eñ ydar Tijme er jafnann til Reidu, sagde Lausnarenn, Joh. 7. Madureñ er nockud gruñsær til þess, ad skignast i Underdiwp Guds Leindar-Raads, edur ad þeckia Tijma og Hentugleika, sem Fadereñ hefur i siñe Hende, P.G. 1. Þu segier: Drotteñ bañade sijnum Læresveinum ad bidia morgum Ordum eins og Heidingiar, Matth. 6. Þad giorde hañ blessadur til ad vorkyña þier og mier, þvi hann visse, ad Hiarta Mañsins er fraasnwed Gude, enn fwst aa Hiegoomann. Eñ ecke misþocknast honum langar Bæñer, þær sem af trwudu Hiarta framkoma; Þess vegna var hañ og sialfur allar Nætur aa Bænum, Luc. 6. Þar fyrer segier og Lucas. 18. Cap. Ad hañ hafe framsett þessa Epterlijking uñ Doomarañ til þess, ad þeim byriade yduglega ad bidia og ecke Toomlaatum ad vera. Eg segie ecke helldur, ad þu skuler so miog leinge i einu bidia, þvi Illska Mañlegs Hiarta þoler þad ecke, enn bid þa þess optar, og heiter þad samt yduglega ad bidia. Þu segier; Eg fæ eige vid þvi giort, ad mier flwga i Hug marger añarleger Þaankar, nær eg bid: Þad er illt; Bid Gud ad taka slijkt fraa þier, ad ecke verde þijn Bæn ad Synd, þvi soddañ er ad vanhelga hina bestu Guds Þioonustu. Eñ seig mier; Þegar þu lijdur Hwngur og Þorsta, edur hefur Brest aa Lijkamlegum Munum, gietur þu þa ecke beded so ad þu ecke uñ añad hugser ? Ad vijsu gietur þu; Eñ trw þu mier, ad hid sama munde verda, ef þu lieter þig hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, Matth. 5. Hvad þu munt braadlega odlast, ef þu af Hiarta rañsakar, hversu stoorañ Skort þu hafer aa þeirre Hroosan, sem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Og hver sem ad þessum Veikleika er undervorpeñ, honum vil eg raada til, ad bidia helldur optar, eñ leinge i einu; Þvi nockud af slijku kañ ad Ordsakast af Skapsmunum, sem ecke er so hægt vid ad giora, jafnvel þoott Guds Kraptur kuñe alla Hlute ad verka i þeirra Breyskleika, sem hañ af Hiarta Ottast, og engeñ Efe er aa þvi, ad saa sem elskar Gud uñfram alla Hlute, hann hefur Ynde af þvi ad tala vid hañ i sijnum Bænum, og þarf ecke stoorum ad þvijnga Natturuna þar til, þegar hañ hefur fyrst eignast Elskuna aa Gude, og hann kañ alldrei ad vanta Ordsok til ad bidia Gud; Elskañ miñer hañ aa sierhvorn Guds Velgiorning til Þacklætis, aa siñ eigeñ Vanmaatt til ad bidia uñ Hiaalp, aa sijnar Synder til ad ydrast þeirra, og aa Guds Daasemdarverk honum til Lofgiordar; Svo ad þoott ecke hafe hañ langar Bænagiorder, sem og kañskie eige leife sumra Mañа Umsvif og Annrijke, jafnvel þoott eitt ætte ad vera Naudsynlegt, Luc. 10. Þa samt bidur hañ Oaflaatañlega, og er þolugur i Bænenne, epter Bode Postulans, Rom. 12. Hver þegar hann Jklæder Riett-trwadañ Mañ, Guds Herskrwda, Eph. 6. Þa giefur hann honum þessa Yfirhofn ad

Endingu, segiande: Med allre Bæn og Fyrerbeidslu, bidiande a hvorium Tijma i Anda, og verande varvakrer til þess sama med ollu Polgiæde. Og er nu so wt-talad um þad Fyrra er eg hiet a ad minnast. Enn þad Sijdara epterfylger med faam Ordum af ad segia:

Ecke þyrfte Riett-Christeñ Madur annad til þess ad taka fra Saalu sinne allañ Efa uñ Bænheyrsluna, helldur enn þesse blessud Ord, er vor Endurlausnare hier talade til siña Læresveina: Hvors Þier Bidied Fodurenn J Mijnu Nafne, Þad Mun Hann Veita Ydur: Eñ fyrer þvi ad JEsus talade þetta til siña Astvina, hvorium hann gaf þann Vitnisburd, ad Fadereñ elskade þa, af þvi þeir elskudu sig, Joh. 16. Þa kynne Syndaranum, sem daglega reiter Gud til Reide, ad sliwga i Hug, ad þetta Blessada Fyrerheit nææ ecke til sijn, þviad hañ sie þess Overdugur; Enn eg mun framveigis sijna ad þad ollum þeim tilheyrer, er hañs leita med angrædu Hiarta, ollum þeim er hañ bidia i Anda og Sannleika, Joh. 4. Ollum þeim, sem eru stadfaster i Bænenne, Rom. 12. So sem eg nockud umtalade i hinum Fyrra Parte Rædu minnar. Þad kienner JEsus sialfur oss, er hañ sagde i Bæneñe til sijns Himneska Fodur fyrer Læresveinunum: Eg bid ecke einasta fyrer þeim, helldur og fyrer þeim, sem fyrer þeirra Ord munu a mig trwa Joh. 17. Guds Sonur kom ecke i Heimenn til þess ad kalla Riettlaata, helldur Synduga til Ydrunar, Matth. 9. Þvi vill hann allar ydrande Manneskiur Bænheyra, og hvad meira er, ad þar er meire Glede i Himnenum yfir einum Syndara sem Ydran giorer, helldur enn yfir Niju og Nijutijgu Riettlaatum, Luc. 15. Ecke hamludu Syndernar Hoor-Konunne, sem Judar villdu grijtt hafa, ad faa þeirra Kvittun hia Guds Syne Fordum, er hann sagde vid hana: So fordæme eg þig eige, far burt og syndga eige framar, Joh. 8. Ecke bægdu Syndernar Tollheimtumannenum fra ad ganga Riettlaatare heim aptur i sitt Hws, helldur enn Phariseenn, Luc. 18. Ecke leit JEsus til Synda hiña añarra Tollheimtumañaña og Bersyndugra, ad hañ ecke þar fyrer æte og drycke med þeim, Matth. 9. Hvar fyrer? Af þvi þeir ydrudust Syndanna. So er þad nu vijst, ad Syndeñ gietur ecke hindrad Bænheyrsluna, þegar hun er jatud fyrer Ydrauena, og afþveigeñ fyrer Forþienustuna, þvi þad Ord blijfur Æfeunlega stodugt: Hvorn þañ sem til mijn kiemur, vil eg ecke fra mier reka, Joh. 6. Nu þott ad þessu sie so vared, Br. M. þa eigum vier ad giæta ad, hvar um vier bidium, ef vier viljum ad Trwenn sie bygd a hinum rietta Grundvelle, og ad vier ecke bidium af Gude þeirra Hluta, sem añadhvort i sialfum sier eru Oleifeleger edur oss skadleger, so ad vier ecke reyngium Sañsogle Guds, þott vier ecke Bænheyrder verdum, nær vier þannig bidium. Þad sem vier eigum um ad bidia, er añadhvert Lijkamlegt edur Andlegt. Um Lijkamlega Hlute eigum vier med Fororde ad bidia, so sem vier optlega heyrt hofum, þad ber til þess, ad vier ecke vitum hvors vier eigum ad bidia, vier meigum og ecke alls þess bidia af Lijkamlegum Hlutum, sem Hollded edur Lijkameñ heimtar; Riett er ad bidia um Heilsu og Heilbrygde, Fot og Fæde, Vernd og Vardveitslu fyrer Lijkamleg-

um Ovinum vorum, Lucku og Framgaang i voru Ervide, þviad allt þetta a ad skiliast under daglegu Braude i DRottinnlegre Bæn, enn um allt þetta a med Fororde ad bidia; Þvi jafnvel þoott ad ecke ste þad lagt til hinnar Fioordu Bænariñar, þa stendur þar þo strax fyrer framañ: Verde þiñ Vilie so a Jordu sem a Himne; so ad ef hinum gooda Gude, sem veit hvad oss er fyrer bestu, ef honum þocknast ad vier skulum hafa nockurn Brest a þessu, a Heilsunne, a daglegre Atvinnu, ef vier hliootum Oriett ad lijda og vera Forsvarslauser i Heiminum, þa eigum vier samt eingañvegenn ad efast um Guds Trwfeste, þvi hann hefur aan Efa heyrt vorar Bæner, þar eckert hender oss aan hanns Vilia, og komande mun hañ koma og ecke tefia, Hab. 2. Og þetta a ad vera Grundvollur Trwar vorrar, þegar a moote blæs; Þvi ef vier vilium i þvi Bænheyrd-er verda, ad hañs Vilie verde a oss, so sem i ollu odru, þa eigum vier ecke ad vantreysta þvi, ad vier sieum bænheyrder, þoott oss nockud vante, og þad þess sijdur, ad værum vier aan Typtunar, hverrar aller eru hluttakande vordner, so sem Paulus seger, Heb. 12. (hann meinar, Guds Viner) þa hefdum vier Ordsok til ad efast um, hvert vier værum af honum elskader edur eige; Þvi hvern þañ Son sem hañ elskar þann agar hañ: Paulus seger enn aptur: Ad vier værum aumaster allra Maña, ef vier trydum alleina a Christ-um i þessu Lijfe, 1. Cor. 15. Eñ eg vil þvi vid bæta, ad vier værum og allra Maña heim-skaster, ef vier elskudum Gud, alleina fyrer þessa Heims Velgeingne, eins og hann hafe ecke Þusundsiñum betra tilbwed þeim sem hañ elska, 1. Cor. 2. Þar er ecke nema Svik-ræde a þeim Hædunum, sagde Jeremias vid Juda, Cap. 3. Talande um Skwrgoda Hoseñ; Og so er þvi vared um Velgeingne þessara Tijma, þegar hun geingur sem hædst, þa er hun a Stundum eige nema Svik og Pretter, hveria þo margur Daare giorir ad sijnum Gude, edur, ad miñsta Koste, þeir sem Gudhrædder þykiast vera, elska hiñ sanna Gud, alleina fyrer þaa Hlute, sem hann jafnvel giefur Ovinum sijnum, og verda þeim Ordsok til eilijfrar Glotunar, sem þad misbrwka. Þar fyrer Ottast eg, ad þeir sem all-eina elska Gud fyrer slijka Hlute, ad þeir elske hañ ecki riettilega, jafnvel þoott hañ eigi fyr-ir allar sijnar Gaafur ad elska; Eg veit og hvergi i Ritningunni boded ad Meñ skuli bid-ia um mikiñ Veralldar-Aud, edur Metord, og allra sijst um Fall edur Slis Ovina siña, er margur heiptrækur virder þo meir enn stoora Fiesioodu, ja, kostar ollu þvi hann a til ad svala Giedi sijnu a þeim hann hatar. Mikku helldur ste eg, ad Gude fiell vel i Gied Bæn Salomonis, er hann beidde hann um Speke til ad dæma Foolked med. So veit eg nu hverke leyft nie bodid i Guds Orde, ad bidia um þvilijkt, og ecke er þad i hiñi stuttu, enn þo fullkomnu Bæn, sem DRottenn hefur oss epterlaated: Gief Oss i Dag Vort Daglegt Braud; Þad er hañs Atkvæde, hvad Paulus best wtleggur, 1. Tim. 6. Nær vier hofum Fæde og Klæde, þa verum aanægder þar med. Miklu helldur sie eg hitt bod-ed, ad Meun eige skule vera hugsiwker um, hvad þeir skule eta edur drecka, edur hveriu vier skulum klædast, þviad vor himneskur Fader veit ad vier hofum alls þessa Þorf, Matth: 6. Ja, ad vier skulum leita fyrst Guds Rijkis og hanns Riettlætis, þa mune

oss

oss allt gott til=leggiast; Þvi eigum vier ad trwa, þvi Gud kañ ecke ad liwga, og gyrnast eige framar, vilie Gud veita oss meira, þa tokum þad med Packlæte, og brwkum so, ad vier sieum rijker i goodum Verkum, epter Postulans Bode, 1.Tim.6. Og sa sem nu bidur Gud um̃ tijmannlega Muni, hañ hafi þetta fyrer Grundvöll Trwar sinnar, og þenke under eins til þess, er Jacob skrifar; Þier gyrnest og þier hafed þo ecke, þier ofundid og metest, og megned þo ecke ad hreppa, þier strijded og beriest, og hafed þo ecke, af þvi þier bidied ecke, þier bidied, og faaed þo ecke, af þvi þier bidied illa, til þess ad þier hafid til ad kosta uppaa ydvarn Mundd, Jac. 4. Hvad hinum andlegu Gaafunum vidvijkur, Trwnne, Voninne, Polinnmædinne, Kiærleikanum og ödrum goodum Dygdum sem þar af spretta, þa eigum vier þeirra ad bidia aan Forords; Hvar fyrer? Þviad þar af maa allann Efa draga, ad þær eru Gude þacknæmlegar; Þad er Vilie Guds ydar Helgun, seger Paulus, 1.Tess.4. Enn vor Helgun gietur eige framkvæmst nema fyrer H. Anda; Þar fyrer, hver sem vill heilaglega og Christilega lifa, hann bidie Gud af öllu Hiarta um̃ sinn Anda, og trwe Ordum Frelsarans aan allrar Efaseme, er hann sagde: Ef ad þier, sem vonder erud, kunned ad giefa Börnum ydar goodar Gaafur, þvi mun ecki Fadir minn himneskur giefa þeim heilagann Anda er hañ þar um̃ bidia, Luc. 11. Hier um̃ talar so Jacob Postule, Cap. 1. Enn ef nockur af ydur þarf Skynsemdar vid, þa bidie hañ Gud, hver ed giefur öllum einlæglega, og telur ecke epter, og mun honum giefed verda: Eñ bidie hañ i Trwñe, efande um̃ eckert. Hver er þesse Skynseme, er Jacob talar hier um̃? Þad er aa þeim Hlutum, er hann framann til i sama Cap. eggiar Christna Meñ, segiande medal añarra, v. 2. Hallded þad fyrer hiñ mesta Fögnud, Brædur mijner, þegar þier falled i adskiliañlegar Freistingar: Og þoott hann meine hier sierdeilis wtvortis Mootlætingar, þa verdur þo Guds Börnum hid mesta Mootlæti, ad þeirra eigiñ Hollds og Bloods Freistingum og Tilteigingum; Enn Guddoomlega Speke H. Anda skal til þess hafa ad yfervinna slijkt, og til ad skynia hvilijkt Gagn ad Freistingenn epter sig leider, nær hun er sigrud; Eñ þa Skynseme er ecke ad fiña hia holldlegum Manne, þvi hann skyniar ecki þad sem Guds Anda er, seger Paulus, 1.Cor. 2. Og eige verdur hun feingenn nema med Bæn af Gude, og er þad nu aan alls Efa vijst, ad sa sem bidur Gud um̃ H. Anda þar til, hann gietur ecki hia þvi sneidt ad verda Bænheyrdur, þvi hann, sem þvi lofad hefur, er Jehova, Mal. 3. og um̃breitest ecke, og eckert hañs Ord mun aa Jordu falla. Hvad velldur þa þvi, Br. M. ad þar finnst Skortur hia allmorgum aa slijkum Astgiofum Andans? Hvar er hin forna Trw? Elskann til Guds, Kiærleikenn, Polinnmædenn og adrar Christilegar Dygder? Meñ verda so lijtt varir vid þær i Heiminum, so ad hætt er vid, ad Mañsins Sonur muni eige fiña Trw aa Jordu, Luc. 18. nær hañ kiemur, hvad af hveriu. Eñ hvad mun þvi vallda, B. G.? Nema ad Menn eru so almennilega toomlaater i þvi ad bidia Gud um̃ hiñ heilaga Anda, sa ed plante þesse himnesku Aldine i Akre vors Hiarta.

So sem þad ad Gudhrædslañ (þad er hiñ sañi Christiñdoomur) er eiñ Hlutur, sem

er

er til allra Hluta Nytsamlegur, 1. Tim. 4. So verdur hun ecke feingeñ, nema med riett-trwadre Bæn af Gude. Þetta Diofla-Kyn verdur ecke wtrekid nema med Fostum og Bænum, sagde DRottinn, Matth. 17. uñ Mein hinns Tunglssiwka, hvern hanns Læriſveinar gaatu ecki læknad, søkum Vantrwar sinnar, v. 20. Og so er þvi hættad uñ Þvermoodskunnar Dioful, er synduger Meñ eru plaagader med, hann verdur ecke wtrekinn nema med Bæn og Andvarpan. Þu lætst vel bidia Gud, eñ hve mikil Alvara þvi fylgi, er af Bænheyrsluñi audsied, þvi ecke eru Guds Fyrirheit Onijt vordiñ, seger Paall. Phariſæarner villdu hafa grijtt HErrann, er hañ sagde þeim Sannleikañ, Joh. 8. Eñ hversu opt seger hann þier satt i sijnu H. Orde uñ sijna Reide, sitt Riettlæte, sitt Vandlæte yfer Syndinni, og aptur uñ sijna Giædsku, sijna Elsku og Myskunsemi vid þaa sem Ydran giora; Sjaa til, ad þu ecki grijtir Christ DRottiñs, er þu tekur aa mooti ollu þessu med einu Stein-Hiarta; Edur hvernig villt þu Bænheyrdur verda ef þu so giorir? Hvad velldur þessu, nema ad Menn ransaka ecke Lifnad sinn, so þeir megi ydrast, ecki rootfesta Guds Ord i Hiarta sijnu, so þeir mege trwa, og ecki kieppast vid ad lifa þar epter, so Menn færi Avoxt i Poliñmæde; Og þo undrast Menn, ad þeir ecke Bænheyrder verda. JEsus kom til hinnar Samarisku Fordum Daga vid Jacobs Brunn, og beidde hana uñ ad drecka, Joh. 4. Hann kiemur enn nu til Saalar þinnar i Dag, hann þyrster epter hennar Velferd, og gyrnist ad dryckiast af Taarum þijns Hiarta, so hañ mege giefa þier lifande Vatn, ad þig eige þyrste eilijflega. Bid Moysen ad vellta Steininum af Brunninum med Hende Logmaalsins, og mun Hofudid verda braadlega fullt af Vatne, og þig laanga epter DRottne, sem er þinna Meina Grædari; Þvi betra er þier ad Ormur Samvitskunnar stijngi Saalu þijna hier i Naadinne, so hun vakni vid og faae lited uppaa hann, sem fyrermyndadur var i Eyrorminum, er Moyses heingde uppaa Tried þeim til Lækningar, sem af Eitur-Ormunum bitner voru, Num. 21. helldur enn ad hinn eilijfe Ormur kvelie þig, saa ed alldrei deyr, og saa Elldurinn þijni þig, sem alldrei slocknar uñ Allder Allda, Esa. 66. Giæt þessa, Barn Guds, og hreinsa Hiarta þitt af daudlegum Verkum med sañri Ydran, ef þu villt Bænheyrdur verda; Þvi nema þu leitest vid af ollu Hiarta, þa hefur þu eckert Fyrerheit uñ Bænheyrsluna i andlegum Efnum, sem þu kuñir ad styrkia Trw þijna vid, verdur so Bæniñ forgiefins, þvi aan Trwarinnar er Omogulegt Gude ad þocknast, Ebr. 11. Og hier siaaum vier Ordsokina, hvar fyrer Menn ecke uñ andlega Hlute Bænheyrder verda. Þar fyrir nær þu kiemur i Guds Hws, edur hvern añañ Bæna-Stad, til ad færa Gudi þitt Offur, þa siaa til, ad þu flytier ei þaangad med þier nockurt þad sem Gudi mislijkar; Syndlaus gietur þu eige framkomed, og þad er þar fyrer ad þu kiemur til Guds, ad þu ert syndugur, eñ laat eckert Groom Illskunnar drottna i þijnu Hiarta; Ransaka þau innstu Fylsni þinnar Samvitsku, hvert þar er einginn Gyrnd, einginn syndsamlegur Asetningur, og eingiñ saa Giestur, sem H. Ande ecke vilie bwa vid, og finnir þu nockurn, þa rek Dioflenn fraa þier med Reidi-Svip, so ad þu Guds Vinur verdir. Og nær þu

ſo giorir, maatt þu vera fylltrwa um̃ Ord DRottiñs,er hann ſagde,Matth. 21. Hvad hellſt ſem þier umbidied,ef þier trwed,þa ſkulud þier þad odlaſt: Og er þad Maala ſañaſt,Br.M. ad þetta eru ecke lijtil Fyrirheit, ad hafa ſoddañ Frelſe,hiaa honum,ſem ollum Hlutum ſtioornar bæde aa Himne og Jordu. Eñſo ſm̃ þad er miked, ſo ſkal og mikid til þeſs viña; Himiniñ er hærre eñ ſo, ad þar ſie ſo audſtocked uppi hann; Guds Jeruſalem er ram̃bygdare eñ ſo og hennar Port þreingre, eñ ad eiñ Veralldar Aſne,klyfiadur af Syrndum og Sorgum þeſsa Heims,gieti brotiſt þar iñ,og þvi er þad Oſka Raad, er Syrach giefur,Cap. 18. ſegiande: Adur enn þu bidſt fyrir,þa tilbw þitt Hugſkot ad ecke ſiert þu eins og ſaa Madur ſem freiſtar DRottiñs: og þad med þvi Moote, ſem nu ſtrax ſagda eg; Þvi ſo ſem Gud giefur einlæglega, ſo vill hann og bediñ vera af einlægu Hiarta. Edur,ſeged mier i Guds Nafne, ſeged mier! Hvad er þad, ad Meñ bidia Gud ad taka fraa ſier hinar vondu Syrnder, Ofund, Drambſemi, Agyrni, Reidi, Heiptrækne, eñ bera kañſkie Hiartad fullt fram̃ fyrer hañ af ollu þeſſu? þad er ad gabba Gud og riett ad freiſta DRottinns, ſo ſem Syrach ſeger: Alldrei hefur Gud heited þvilijku Skapi neiñi Bænheyrſlu: Þar er ecke vid ad dyliaſt. Paulus ſkipar oſs ad bidiaſt fyrir i ollum Stodum, upphefiande heilagar Hendur aan Reide og Efaſeme, 1. Tim. 2. Poſtulinn fraaſkilur þad Tveñt,ſem hañ viſſe ad meſt hindrar Bænina,ſem er, Reidina og Vantrwna; Og er ſiaalfſagt um̃ Reidina,þvi þad er vor gamall Skilmaali vid Gud, ſem aa hverium Dege endurnijaſt, ad Gud fyrergiefe oſs vorar Skullder,eins og vier fyrergiefum vorum Skulldunautum: Og vil eg raada hinum Hefnigijruga, ad hann alldrei leſe Drottiñlega Bæn, aa medann hann er þannig Skapi fariñ,þvi eingiñ af ollum hañs Bænum mun verda heyrd,nema ſw eina,og hañs Synder med ſoddañ Mooti ecki ad Eilijfu fyrergiefnar. Vier bidium Gud fyrer allañ þañ Oriett, ſem hañs eingietiñ Sonur ſaklaus þoldi,ad hañ ecke vilie miñaſt vors Raangklætis,eñ vier laatum oſs alldrei wr Minni falla þad Lijtilræde, ſem vor Broodir oſs tilgiorde. Er ecke þetta ad heimta af ſijnum Samlags Þioon,þad ſem miklu minna er,eñ DRottiñ hafdi oſs uppgiefid? Matth. 18. Hvilijkt Raanglæte er þetta? Þvi er einſætt fyrer þañ, ſem vill þyggia Bæn ſijna af Gude,ad hreinſa vel Hiarta ſitt af ſlijku; þvi ef vier eigum ad bidia fyrer Ovinum vorum, Matth. 5. undir eins og vier bidium fyrer ſiaalfum oſs, ef vier viliüm kallaſt Born vors Fodur,ſem aa Himnum er; Þa er lijkaſt,ad vier munum ecki eiga ad ala Hatür til þeirra i Hiarta voru,og er þeim beſt,ſem hætt er vid ſlijku, ad hañ ſnwe þeſſu Hatre aa ſiaalfañ ſig og Metnad ſinn,þad hann ſyndugur Ormur dyrfiſt ad koma fram̃ fyrer hid hrædilega Tignarvellde hinns lifanda Guds med þvilijku Skape; Ad ſonnu er Efaſeminn til mikillrar Hindrunar i Bæniñe; Enn þo er lijklegt, ad hinn goode Gud vorkyñi heñi meir og hiaalpi henni, ſierdeilis ef hun framkiemur af Hugleidingu vors Overdugleika, þvi honum er vor Vanmaattur kunnur. Ecke rak DRottinn fraa ſier Fodur hinns Tunglſiwka,er ſagde: Eg trwe Herra, enn hiaalpa þu Vantrw miñe, Marc. 9. Ecke Læriſveinana,er þeir badu: Auk þu oſs Trwna, Luc. 17.

Ecke

Ecke Konungs-Mañenn, þoott hann ævijtade hañ uñ Vantrwna, Joh. 4. Ein veik Trw, hun er þo Trw, eñ hañ vill ecke brækadann Reyr i sundurbrioota, nie lifttlogande Hor-Kveik wtslockva, Esa. 42. So heyred nu þetta, Br. M. og læted ydur Mal mitt i Eyrum loda. Enn þu, fyrer hvorn ad allar vorar Bæner eru Jæ og Amen, HErra JEsu Christe, bid þu þinn Himneska Fodur fyrer oss, ad vor Trwa þrotne ecke, Luc. 22. og veit oss, epter afstadna Barættu þessa Heims, ad odlast Verdlaun vorrar Trwar, 1. Pet. 1. Þier med Fodur og H. Anda sie Lof, Prijs, Heidur og Þackargiord, nu hiedañ i fra og uñ alla Eilijfd, Amen.

# A Uppstigningar Dag.

Gudspialled, Marc. 16. Cap.

ENN seinast, er þeir Ellefu sætu til Bords, opeñberade hann sig, og ævijtade þeirra Vantrw, og Hiartans Hardwd, þad þeir hefdu eige trwad þeim, sem hañ hefdu sied Uppriseñ. Og hañ sagde til þeirra: Fared wt uñ allañ Heimeñ, og prediked Evangelium allre Skiepnu. Hvør hañ trwer og verdur skijrdur, skal hoolpeñ verda. Eñ hvør eige trwer, sa skal Fordæmdur verda. Eñ Teikneñ, er þeim muun fylgia, er trwa, eru þesse: J mijnu Nafne skulu þeir Diofla wtreka, nijar Twngur tala, Hoggorma upptaka, og ef þeir drecka nockud Banvænlegt, þa skal þad þeim ecki granda, yfer Siwka munu þeir Hendur leggia, og þa mun þeim batna. Og epter þad, ad DRotteñ JEsus hafde talad vid þa, vard hañ uppnumeñ til Himens, og situr til Guds Hægre Handar. Eñ þeir geingu wt, og predikudu allstadar, DRottne Samverkanda, og Orded Styrkianda, med epterfylgiande Teiknum.

Exordium.

HJa DRottne er þad Riettvijst, segier Paulus, 2. Thess. 1. Ad Endurgiallda Þvijngunena, þeim sem ydur þvijnga, eñ ydur, sem þvijngader erud, Endurnæring medur oss i Opeñberan DRotteñs vors JEsu Christi af Himnum, med hañs megtugum Englum. Eñ ef þad er Riettvijst hia Gude, ad endurgiallda oss þañig, sem þo til einkis unned hofum, nema fyrer hañs Forþienustu, sem hefur erfidad i vorum Syndum, Esa. 43. Hversu vár þad þa maklegt og riettvijst, ad Christur Inngeinge i sijna Dijrd, epter þad hañ hafde lided þad, sem vier med vorum Syndum hofdum forþienad? Ef þier elskydud mig, þa mundud þier glediast af þvi ad eg segie ydur þad, eg fer til Fodursins, segier DRottenn, Joh. 14. Vier hofum heyrt, Br. M. æ fyrerfarande Hætijdum og Helgum Dogum, hvorsu DRotteñ vár i Fatækt aleñ, Luc. 2.

 ad

Ad hañ var Landflootta fyrer Ofrijke Herodis, Matth. 2. Ad hañ var lastadur, þa hañ gott giorde, Matth. 12. Offsooktur, þa hañ talade Sannleikann, Joh. 8. Hvernig hann var Bundenn, Hwdstrijktur, Þyrnum krijndur, Hrakenn wt af Jerusalem, berande siñ Kross, og ad sijdurstu a Gaalgann uppfestur so sem añar Illrædis Mádur, og midt i þessum bitru Pijslum hæddur, og med Galle og Edike drickiadur, og oll þesse Hegning laa a honum, til þess ad vier hefdum Fridenn, Esa. 53. O hversu byriade oss þa ad fagna og glodum ad vera! Þar vier heyrum i Dag, ad hann er Inngeingenn i sijna Dijrd, vordenn Himnum ædre, og setstur a Hægra Veg Gude Fodur, sierdeilis þar hann ecke einasta er i Hædernar uppstijgenn, Ps. 68. helldur og hefur Gaafur odlast handa Monnunum, Eph. 4. hvors vier hofum noted, yfir hvoria lijklegt er ad. Heims Enderenn sie komeñ, 1. Cor. 10. hverium hañ ecke sijdur eñ nockrum odrum hefur bwed Braut til Himnarijkis og eilijfrar Guds Barna Sælu med sinne Himnafor. Og þar oss verdur nu slijkur Fognudur bodadur a þessare Dijrdlegu Haatijd, þa laatum oss gaanga nær Evangelio, og af þvi hugleida hina sierlegustu Velgiorninga og Avexte DRottens Uppstigningar. Hiaalpa oss til þessa Gudhrædsluñar Eyrendis, naaduge Fader, med Krapte þijns Anda, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þesser dijrmætu Avexter Uppstigningarennar vors DRotteñs, eru med Tvennu Moote. Adrer koma mest honum vid, enn adrer oss alleina. Hvad vidvijkur þeim fyrre, þa er þad ecke mijn Meining, ad DRotteñ JEsus hafe siaalfum sier nockud forþienad med siñe Kvol og añare Piaaning hier a Jorduñe. Oss er hañ fæddur, oss er hañ giefenn, segier Esaias, Cap. 9. Fyrer oss er hann bundenn, hwdstrijktur og a Krossenn negldur, hañs Eyrende a Jardrijke var ecke ad afreka siaalfum sier nockurt Agiæte, þvi hañ kuñe ecke agiætare ad verda, enn hann var i Upphafe sinna Vega, helldur ad leysa Mannkyned wr eilijfum Þrældoome. Þa Vegsemd, er hann augliјste i sinne Dijrdarfullu Himnafor, hana meddeilde hañ Mañdoomenum strax sem hann var gieteñ i Moodur-Lijfe, þoott hañ sijnde hana miog sialldañ a sijnum Hiervistar-Dogum, so hañ yrde oss ad ollu samlijkur, ad fraatekeñe Syndeñe. Þvi er hañ þa med Dijrd og Heidre Coronadur? Ebr. 2. Þvi þad var Omogulegt, ad hañ kyñe af Daudanum halldeñ ad vera, P. G. 2. Þegar Gud, blessadur um Allder, hafde afloked hinu stoora Þrekvirke Mañkynsins Endurlausnar i voru Hollde, þa var allt fullkonnad, þa þocknadest Gude ad upphefia vort Holld, er hañs Sonur Jklæddest, a siñ Tignar-Stool sier til Hægre Handar. Hvorier eru þa Avexter þesser, er Christur epter Mañdoomenum hefur odlast i siñe Himnafor? Þad segier oss Marcus hier i Gudspiallenu: Ad hañ hafe vered Uppnumeñ til Himens og sitie til Guds hægre Handar. Þetta er ei so ad skilia, Born mijn, ad DRotteñ sie uppfareñ i þeña sijnelega Himen, er vier lijtum med Augum vorum, jafnvel þoott hañ, epter alvijsre Raadstofun Guds, sijnelega uppnumeñ være fraa Jorduñe allt þar til Skijed took hañ fraa Augum Læresveinaña, P. G. 1. Vor Lausnare

er uppfareñ yfir alla Himna, sem Paulus skrifar, Eph. 4. Þad er, i þañ dijrdlega Himen, hvar Guds Oumrædeleg Hætign lioomar, hveria engeñ Madur kañ ad siä og lifa, Exod. 33. Þvi er hañ ecke i þeña sijnelega Himen uppstijgeñ, hañ er uppfareñ i þañ Himen, hvar hañ uppfyller alla Hlute, sem Paulus vottar, Eph. 4. Eñ aller Hluter eru ecke i hinum sijnelega Himne, þvi skulum vier ecke meina, ad hañ sie vid hañ bundeñ, jafnvel þoott hañ uppfylle hañ, so sem allt añad. Hañ er setstur til Guds hægre Handar; sem hier stendur. Nu er Guds hægre Hond allstadar, þad er hañs Dijrd og hañs Almætte, þad er hann siælfur, sem ecke er nema Mæattur og Dijrd; Enn Himnaña Himnar taka hañ ecke, sem Salomon vottar, 1. Kong. 8. Nu fyrst DRotteñ JEsus er upphafeñ til Guds hægre Handar, þa er hañ ecke so i þeña sijnelega Himen uppfareñ, ad hañ ecke under eins sie allstadar; J þañ Himen, hvar Gud bioo ædur eñ Heimureñ var skapadur, þæangad er Christur upphafeñ; Hverniñ kañ hañ þa ad vera iñeluktur i þeim skapada Himne? J þañ Himen, hvar Gud nu um Alldur og Eilijfd stioorna, ræda og skijna, þegar hiner skopudu Himnar forgæanga, og hañ hefur þa eins og añad Fat samañbroted, Hebr. 1. J þañ sama Himen er Guds Sonur uppstijgeñ: Þvi er þad of-sinæatt ad hugsa um þa Tign, sem Gud hefur siñ Eingieteñ Son prijddañ med, ad ætla, ad hiñ skapade Himen sie alleina hañs Hæsæte. Vier skulum og ecke þad meina, ad þoott so kvede ad hier i Textanum, ad vor Frelsare sitie til hægre Handar Guds, ad Gud hafe Hendur, edur ad hañ sitie so sem Madur, ad vier ei follum i þa Villu, sem Paulus ber uppæ Heidingiana, Rom. 1. ad þeir hafe breytt Dijrd Oforgeingelegs Guds i Mynd forgeingelegrar Mañeskiu: Þvi jafnvel þoott Ritningeñ tale þañig æ Stundum, þa talar hun so ad Manna Plagsid. Og þoott ad Gud hafe sig i Mañs Lijkan Opennberad (so sem Esajæ 6. J Openberunum Johañis, og vijdar) þa eru þad Okvæde ad hugsa, ad hañ so i Raun og Sannleika sie, helldur er Gud einn Ande, so sem Johannes vottar, 4. Cap. Hverneg vilium vier þa Jmynda oss nockud hægra edur vinstra hiæ honum, sem uppfyller Himen og Jord, og er allt i ollu Omælannlegur, Osynelegur og Orañsakañlegur? Helldur er þetta sagt, til ad wtmæala þa Tign, sem Guds Eingieteñ Sonur hlaut i Uppstigningunni epter Mañdoomenum. Hin hægre Hlid var hiæ ollum Þioodum virduglegre æ þeim Dogum, eñ sw vinstre. Þegar Bersabe gieck inn til Salomons Konungs, fagnade hañ Moodur siñe, og sette hana æ hægra Veg sier, 1. Kong. 2. An Efa þess vegna, ad hann hefur viliad veita heñe hiñ mesta Heidur, næst siælfum sier. Drottningeñ stendur þier æ hægre Hond, segier David, Ps. 45. er hañ kvedur um Brwdkaup Christi og hanns Uñustu Christnennar. So er nu med þessu meint, ad Frelsareñ, epter Mañdoomenum, sie Gude nærstur ad allre Tign, Makt og Vellde: Gud Fader og Guds Sonur eru jafner epter Guddoomenum ad allre Tign, þeirra Hæsæte, þad er, þeirra Dijrd, hun er ein, þvi Faderenn er i Synenum, og Sonurenn i Fodurnum, Joh. 14. Þvi nærst er Guds Sonur epter Mañdoomenum, er situr honum æ hægra Veg siælfum Gude nærstur, siælfur siælfum sier nærstur, hann er siælfum sier ædre og siælfum sier lægre, þvi

hañ er bæde Gud og Madur, og er þo hañs Manndoomur øllum Skiepnum ædre; þvi hverium af Englunum hefur hann nockurn Tijma sagt: Sit þu mier til hægre Handar? segier Paulus, Ebr. 1. Og þessa Tign Mañdoomlegrar Naatturu Christi wtmaalar hañ greinelega med fogrum Ordum, Eph. 1. segiande: Gud Fader hefur sett Christum aa hægre Hond sier i Himnenum, laangt fyrer ofañ allann Høfdingskap, Valld, Magt og Herradæme, og øll þau Nøfn sem nefnast, ecke einasta i þessare Olld, helldur og i hinne sem verda mun. So er þa DRottenn JEsus sitiande til Fødursins hægre Handar, afklæddur øllum þeim Eymdum og Harmkvælum, er hann bar i voru Hollde, vordenn Konungur og Kiennemadur ad eilijfu, so ad i hanns Nafne skulu øll Knie sig beigia, bæde aa Himne og Jordu, og under Jordunne, Phil. 2. Þad er, ad hann Lifer og Rijker ad eilijfu; Þvi þad sem David kallar ad sitia aa hægra Veg Gude, Ps. 110. Þad kallar Paulus ad rijkia, segiande: 1. Cor. 15. Honum byriar ad Rijkia, þar til hann leggur alla Ovine til Skarar Foota hañs. Og er nu þetta sa Avoxtur og Nytseme er DRottne sialfum tilheyrer, jafnvel þoott ad ei sieum vier helldur Hlutlauser af henne, sem sijdar mun sagt verda.

Enn hvad vidvijkur þeim Avoxtum, sem oss syndugum Mønnum til Gagns og Nytseme spretta af DRottenns Himnafor, þa er hiñ Fyrste: Sending H. Anda. So segier hann sialfur: Nema eg i burtu fare, þa kiemur ecke sa Huggareñ til ydar, Joh. 16. Þetta sitt Fyrerheit efnde DRotteñ aa Hvijtasunnudøgum, so sem alkunnugt er; Og er þad ecke lijtill Velgiørningur, Br. M. ad hañ sende siñ H. Anda yfir sijna Postula, hann leidde þa i allañ Sañleika, so ad þeir skylldu Leyndardooma Guds Rijkis, ad oss yrdu þeir sijdañ Opeñberader, hañ giørde Kraptaverkeñ fyrer þa, og styrkte þar med Christne-Boded, so ad þad Hiaalpræded, sem fyrst var bodad af JEsu Christo, yrde og stadfest hiaa þeirra Epterkomendum, sem Paulus vottar, Heb. 2. Hann kiende þeim ad forsmaa alla Hlute hiaa DRotteñs Krosse, og hallda þa fyrer Þreck ad vera, til ad aavinna Christum, oss til Epterdæmis, so ad þeir uppfylldu Leyfar JEsu Christi Pijsla aa sijnum Lijkama, sem er hañs Christne, Col. 1. Nu þo ad þetta sie einn Haaleitur Velgiørningur, ad hañ wthellte sijnum Anda so rijkuglega yfir Postulana, þa høfum vier eingu minna þeiged, ef vier riett adgiætum. Hid mesta Erfide skal til þess hafa, ad leggia Grundvølleñ under eitt Hws; So var og ad Christs Kyrkiu. Hiñ fyrsta Stein lagde Gud i Pijnu sijns Sonar, þegar hiñ dijrmæte Hyrningar-Steiñeñ var af Uppbyggendum wtkastadur, 1. Pet. 2. Þar uppaa byggdu Postularner og adrer Helger Menn, er vordu Lijfe sijnu og allre Tijmañlegre Velferd sinne til þessarar Byggingar. Þess gietur Paulus, Eph. 2. segiande: Ad vier sieum bygder uppaa Grundvoll Postulanna og Spaamannanna, þar Christur er sialfur Hyrningar-Steinnenn. Giæted ad þessu, er eg segie, Br. M. Þess meira sem lijdur aa Bygginguna, þess miñe Þwnga hefur þad ad bera, sem Ofarlega er lagt. Þoott vier eigum Daglega ad þiaa vorn eigenn Lijkama fyrer Guds Rijke; Hvad er þad hiaa þvi sem Postular Guds og adrer Helger Menn urdu ad lijda

oss

oss til Eptirdæmis? Þeir bæru Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. medann heitast var, medann Hœdege var Christneñar. Vier erum um̃ Elleftu Stundu kallader: Gud wthellte yfer þa synilegum Astgiofum Andans, til ad styrkia Kienninguna, til ad styrkia þa, so þeir giæte Offsooknernar þolad. Þu hefur ecki miñe Astgiof þeged, Christiñ Madr. Fagned ecke yfer þvi, sagdi JEsus, ad Andarner eru ydur undergiefner, helldr hinn, ad ydar Nofn eru skrifud a Himnum, Luc. 10. Bileam, Num. 22. Saul, 1. Sam. 10. og Judas, Matth. 10. hofdu og soddann Gaafur um̃ Hrijd, þar fyrer voru þeir þo ecke sullsæler. Sw var hin ædsta Gaafa DRottiñs, ad hann gaf sijnum Þienurum ad vera eitt med sier, eins og Fadirinn og hañ eru eitt, ad hann vardveitte þa fyrer Heiminum, þoott hann tæke þa ecke burt wr Heiminum, Joh. 17. Og þessa Gaafu hefur hann þier og sendt, Christenn Madur, ef þu villt moote taka; Hann hefur so endurgieted þig i Skijrnar Laugeñe med heilogum Anda, ad þu gietur samsinnt hañs Ordi; Hañ endurnijar þig daglega med hinum sama Anda (nema þu mootstander honum), so þu gietur trwad a Gud, heyrt hanns Ord, tamed þitt Holld, bored hanns Kross og elskad Naungann. Mier virdest DRottenn hafi somu Atferd vid sijn Børn i Sendingu heilags Anda enn nu i Dag, so sem hann hafde vid sijna Lærisveina, sem Von er til, þvi DRottinn hiet þeim þvi, þar hann segier, hia Joh. 14. Eg mun bidia Fodureñ ad hann sende ydur einn añañ Huggara, ad hañ blijfe hia ydur eilijflega. Þegar hañ kom til þeirra ad luktum Dyrum og opinnberadist þeim, þa blies hañ a þa og sagde: Medtaked þier heilagann Anda, Joh. 20. Ecke var þesse Blaastur H. Ande, helldur hefur hann bwed i honum eins og i hinum mikla Storme a Hvijtasunnu; Þo var mannlegur Breiskleike so mikill hia þeim, ad þeir ecke trwdu fyrer Fagnadar Saker; Ja, þoott hann opinnberade sig fyrer þeim Nijusiñum epter Upprisuna, þa trwdu þeir varla, so ad Matthæus seger, ad þegar hann talade vid þa a Fiallinu i Galilæa, þa hafi sumir efast, Matth. 18. Og undir hanns Uppstigningu voru þeir so Ofrooder i þessu, ad þeir spurdu hañ, hvert hann þa villde upprietta Israels Rijke, P. G. 1. Eñ er hañ hafde meddeilt þeim ad nyju heilagann Anda, og blessad þa, og þeir saau hann til Himins faranda, þa jookst þeim so Kraptur, ad þeir geingu glader heim og prijsudu Gud, seger Lucas, P. G. 2. Eñ eptir Tiju Daga wthellti hañ yfir þa hinum sama Anda med miklum Undrunum og Taaknum, so þeir efudust alldrei sijdañ; So fer Madurinn eñ nu ad vaxa, þar til hañ verdur fullordiñ, epter Maata fullkomins Alldurs JEsu Christi, sem Paulus adkvedur, Eph. 4. J Skijrniñi medtokum vier heilagañ Anda: Ecke er Vatned Ande, helldur bijr hann i Ordinu, hvert ed samlagast Vatninu; hanns giætir ecke miked i Hiarta Ungbarnsins, þo vita Menn ad hann bijr þar, þviad slijkra er Guds Rijke, seger JEsus, Luc. 18. Þegar vier droguñst a legg, verdur hann jafnann samfara Ordinu hia þeim sem þad læra, þoott ei þecke Børninn JEsum grannt, helldur enn Lærisveinarner hier. Þegar oss aukast Vitsmuner, og vier faaum Eptertekt nockra, þa samverkar hann jafnann Guds Orde. O Børn mijn! er ecke þetta ein stoor Astgiof heilags Anda?

Anda? Ad eitt Ungmenni lætur sier skiliast þad, sem ei gætu skiled edur villdu skilia hiner vijsu Heims-Spekingar, Philo, Celsus, Porphyrius, Lucianus, og adrer miklu fleire, og þoott þad ecke skilie so grañt, þa temur Guds Ande so mannlega Skynseme og verkar so i Einfelldne Barnsins, ad þad giefur sinn Skilning fangenn undir Hlijdne Trwarinnar, 1. Cor. 10. so þvi duger til Sæluhiálpar. Er þad ecke ein stoor Guds Giof, ad vier, sem fæddunst Reidinnar-Born, Eph. 2. Vier siaum þo, hvilijkann Kiærleika Faderenn hefur oss giefid, ad vier meigum Guds Born kallast, 1. Joh. 3. Hver kiennir oss þad? Mun ecki heilagur Ande, sa ed ber Vitne vorum Anda hier um? Rom. 8. Er þad ecke ein Oumrædileg Guds Gæfa, ad þegar vier syndgunst og hofum forbroted vora Arfleifd, jafnvel med Stoorglæpum, sem vorri Sæalu verda a Stundum ofur þwng Byrde, ad vier hofum þa Tals-Mañeñ a Himnum, Mañiñ JEsum Christum hiñ Riettlaata, 1. Joh. 2. sem oss sendir siñ H. Anda af sijnum Fodur, til ad straffa i oss Syndina so vier ydrunst, til ad kienna oss ad hañ sie Forlijkun fyrer allar Veralldarinnar Synder, so vier trwum, til ad endurnya oss i Anda vors Hugskots, so vier getum lifad einum nijum Lifnadi. Þegar Tveir Konungar sættast, þa seliast þeir Gisla a, so ad Vinaatta þeirra skule tryggvare vera, edur sa meire tekur af þeim miña til þess ad treysta sier hañ. Eñ Gud naade oss faaraadar Mañeskiur! Hvad þurfte Gud ad taka Pant af oss Prælunum? Utlogunum? Oboatamonnunum? Hvad þurfte hañ oss Pant ad setia? Og þo hefur hann so giort. Hánn hefur tekid af oss eiñ Pant, sem er vort Holld og Blood, og sett þad a hægra Veg sialfum sier, ecke til þess ad hañ tryde oss betur, þvi hañ visse ad vier daglega mundum riwfa vor Sære, helldur ad vier kynnum honum þess betur ad trwa. Eingenn hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad, helldur fooſtrar hann þad og nærir, seger Paulus um Mañ og Konu, Eph. 5. Fyrst Guds Eingietinn Sonur hefur giort vort Holld ad sijnu Hollde, fyrst hann hefur trwlofad sier Christnena so sem adra Brwde, þa er þad vijst, ad hann elskar þaa sem eru Holld af hañs Hollde og Bein af hañs Beinum, er so heitt elskade oss, ad hann gaf sitt Lijf i Daudann fyrer sijna Ovine, Rom. 5. Hann mun ei forsmaa sijna Brwde, sem skipar fyrer Muñ St. Paals syndugum Monnum ad elska sijnar Egta-Kvinnur eins og Christur Sofnudiñ, Eph. 5. helldur laata Drottninguna standa sier a hægre Hond, Iskrijdda hinu besta Gulle, Ps. 45. Og til frekare Stadfestu hier um, hefur hañ, upphafenn a siñ Tignar-Stool, sendt oss einn Pant af sinne Hende, þad er heilagur Ande, sem er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. hver og bidur fyrer oss med Oumrædelegum Andvorpunum, seger Paulus, Rom. 8. O! hvilik er Astgiof þesse? Hver vill skipta henne vid Læknisdoomana? Vid Tungumaalinn? Vid Jardteiknagiordina? Og siaum vier af þessu, ad Guds Sonur hefur engvu minna veitt oss i sinne Uppstigningu enn Postulunum. Honum sie Dijrd og Prijs ad eilijfu, Amen.

Hin Onnur Nytseme, sem vier hofum af Christi Uppstigningu, er su, ad hañ situr til Fodursins hægre Handar og bidur fyrer oss. DRottinn baud i gamla Testamentenn

enu Aroni og hanns Sonum, ad þeir skylldu blessa Foolkid, Num. 6. Þeirra Embætti var ad bidia fyrer þvi. Lucas skrifar, Cap. 24. Ad þesse vor ædste Kieñimadur (hvers Fyrermynd ad var Aaron i mørgum Hlutum) ad i þvi hann var ad blessa þaa, hafi hañ verid numiñ fraa þeim. O einn gledilegann Vidskilnad! O eina Elskurijka Kvediu! O eina kroftuga Blessan! Þesse dijrmæta Blessan, liggur enn nu i Dag yfir hinum andlega Israel, þegar hann tilbidur Gud i Anda og Sannleika, Joh. 3. So ad hvors vier bidium Fødurinn i hanns Nafne, þad vill hann giora, Joh. 16. DRottinn stie upp af Fiallinu Oliveti, P. G. 1. Þvi hann hafde þaa wt til Bethania (seger Lucas, Cap. 24.) er stood aa sama Fialli; fraa þessu Fialli reid DRottinn sijdarst iñ til Jerusalem, ad hann offrade hinni dijrmætu Foorn sijns Lijkama, med hverri hañ Verolldina endurkeypte, fridstillte Gud, enn braut undir sig Diøfulinn og allann hañs Her, og trood hañ under siña Barna Fætur. Med þa sømu Foorn uppstijgur hann hier, vordinn Kiennimadur ad eilijfu, Ebr. 7. Ecki eptir Skickan Aaronis, helldur Melchizedechs, og byrtist med henni fyrer Guds Auglite jafnadarlega, so opt sem einn ydrande Syndare vidþarf. Þess gietur St. Paall, Hebr. 9. segiande: Ei er Christur inngeinginn i þad Heilaga, sem med Høndum er giort, hvort ad er Fyrirmyndan þess sannarlega, helldur i sioalfann Himininn til ad byrtast nu Augliti Guds fyrer oss. Hann byrtist nu Guds Auglite, seger Postulenn, og var þad nockru epter hanns Uppstigningu, teiknande þar med, ad þetta sie eitt sijfellt Offur, Olijkt þvi sem umgietur Num. 28. hveriu Israelis Synir aa Stundum ræntir voru af sijnum Ovinum, 2. Kron. B. 39. Enn þetta kann einginn ad hindra, einginn fraa oss ad taka. Diøfulliñ, med allri siñi Makt, fær þvi ecki spillt, so leinge vier trwum aa Guds Son. Nøfn Israels Sona voru ritud aa Brioost-Skiølld Aaronis, Exod. 28. med hvern hann inngieck i þad Allra-Helgasta, so sem til eins Miñis-Teikns fyrer Gude. Minn HErra JEsu, þu eilijfe Kieñimadur! Þu blessader þijna elskulega Lærisveina med Kiennimannlegre Blessan, aadur eñ þu iñgieckst i Himininn, þu barst þaa ecke aa þijnu, helldur fyrir og i þijnu Brioste til eilijfrar Miñingar fyrer þijnum himneska Fødur; Jaa, ecke einasta þaa, HErra, helldur og alla þaa, sem aa þig sijdann trwad hafa, og trwa munu allt til Enda Veralldarinnar, þar þu ert einn Kiennimadur freistadur aa allann Haatt, lijka sem vier, þo aan Syndar, Ebr. 5. uppaa þad þu kunnir ad sampijnast vorum Eymdum. O! hversu er þese Guds Giof ætkileg? Hvad maa gledilegra veitast einum Syndara, sem eckert hefur annad enn Daudann og Helvijtis Pijsler forþienad, þegar hann aa ad mæta fyrer þeim hrædilega Doome, hvar ed tebla er um hanns eilijfu Saaluhiaalp, hvad maa hønum, sege eg, gledilegra veitast enn þad, ad hann hefur Doomarann fyrer Fødur, og sinn Broodur fyrir Tals-Mañ, hver vill laata sier þar Hug fallast, hver vill mistreysta þar Søk siñi? Þvi vil eg aalykta med Paals Ordum: Hver er sa ed fordæmer? Christur er sa sem daaiñ er; jaa, hver ed uppriśiñ er, hver og situr aa hægri Hond Gudi og bidr fyrir oss, Rom. 8.

Hin Þridia Gagnseme, er vier synduger Meñ høfum af Uppstigningu vors Frelsara

er sw, ad hann hefur þar med afrekad og tilbwed oss eilijfa Dijrdar-Vist i Himninum. So seger D Rotteñ sialfur hia Johañem, Cap. 14. J mijns Fodurs Hwsi eru margar Verur, annars segda eg ydur: Eg fer burt og tilbij ydur Stad, enn eg mun koma aftur og taka ydur til mijn sialfs, ad þier sieud þar sem eg er. Þad er merkilegt ad hañ seger: Ad þier sieud þar sem eg er. Nu er þad vitannlegt, ad hann er i Guds Himin uppfarinn, og situr til Kraftarins hægre Handar; Þad er ad sonnu honum einum ætlad ad sitia a hægra Veg Gudi, samt erum vier þess fullvisser, ad hver og einn af oss hefur sijna Deild i Christi Lijkama, 1. Cor. 12. Hvar fyrer, þar sem mitt Holld rijker, þar kalla eg mig rijkia, þar sem mitt Hofud drottnar, þar drottna eg, sem er Limur þess sama Lijkama. Þad er einn undrunarlegur Hlutur, og ein stoor Dypt Aüdæfanna og Guds Speke, ad Manneskiañ, gietiñ og fædd i Syndinni, ia, su ed alldrei kann Syndlaust ad lifa hier i Lijkamanum, ia, margur sa ed vellter sier i Endemi Syndanna, hinn mesta Hluta Æfi sinnar, hun skal þo, ef hun ydrast og trwer a Christum, verda Englunum jofn, seger Postuleñ, þeim himnesku Aundunum, er sinu Skapara ecki hafa i hinu minnsta stygdañ, og sia hanns Auglit aan Aflaats, Matth. 18. Ja, hvad meira er, ad vier skulum samlijker verda Christi dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. sem aan Efa ber langt af Englanna Dijrd. Hveriu sætir þetta, Br. M.? Hver fær þad skiled? D Rottningin stendur þier til hægri Handar, skrijdd hinu besta Gulli, seger David i Brwdkaups-Vijsunni, Ps. 45. Christur epter Manndoominum situr a hægra Veg Gude, þad merkir, ad hann sie honum nærstur ad Tign og Heidre, enn honum til hægri Handar stendur, og ecke situr, Brwdurinn, Christileg Kyrkia; So miklu er hun O-ædre, sem Von er til, og þo nærst honum ad Tign og Heidri; So ad hier maa sia ad Manneskiañ i Dijrdinni verdur Englunum jofn ad vijsu. Hvad ætte Christenn Madur uñ þetta ad hugleida? Mætti ecki Hiartad braadna af Audmykt, so sem annad Vax, nær hann þetta heyrir? Mun honum ecke til Hugar koma med Abraham, þad hann sie Dupt og Aska, Gen. 18. og ecki þess verdur, ad sia inn fyrir Himnarijkis Dyr, auk helldur ad standa a hægra Veg Guds Syne i hanns Dijrd. Eñ hvar fyrer er syndugum Jardar-Leyr þvilijkur Soomi veittur? Fyrir D Rottiñs Uppstigningu til Himins, fyrer þa dijrmætu Foornina, er hañ hefur Einusiñi iñborid i þad Allra-Helgasta. Brædur mijner, kollum vier ecke eiñ Hlut so mikils verdañ, sem hann kostad hefur? Nu er Guds Blood, med hveriu Syndariñ er endurkeyptur, P.G. 20. þess miklu ædra og kostulegra Englunum, sem hann hefur þeim ædra Nafn, þad er Heidur og Virdingu odlast, sem Paulus avijkur, Hebr. 1. Eñ nu hefur hañ ecke Englana, helldur Abrahams Sæde upp a sig tekid, i þvi hefur hañ lidid, i þvi er hann upprisinn, uppstijginn og setstur til hægri Handar Gudi Fodur. Er þa ad undra, Born mijn, þoott hann giore oss Englunum jafna, þar hañ hefur oss med sijnu eigiñ Bloodi endurleyst? P.G. 20. hverium hañ og giefur sitt Holld og Blood ad eta og drecka, Joh. 6. hvert nu sitr a hægra Veg Gudi i Dijrdiñi. Plaga ecki Konungarner ad hefia Ættmeñ sijna til Virdinga, alla þa sem i Hlijd-

ne

ne vid þa standa, og siaa ei giarnañ adrer sieu þeim fremre? Þvi mun ei Drotteñ Jesus, hverium allt Valld er giefed bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. vera eins lyndur vid oss, sem erum Limer hañs Lijkama, 1. Cor. 12. hvoria hann skamast sijn ecke Brædur ad kalla, Ebr. 2. Þañeg hefur nu Gud upploked oss Himnenum i sijns Sonar Uppstigningu, og giefed oss ad sitia aasamt med Christo aa honum, segier Paulus, Eph. 2. O hversu eru allar Heimsins Virdingar, Audur og Epterlæte, Hiegoome ad reikna hiaa þessare Tign, þessare Sælu, þessum Himneska Fiesiood! Og þo er Manneskiann so dæarleg, ad hun tekur allt þetta fram fyrer þessa Dijrdar-Vist med Gude og hanns Utvolldum.

Þar er i flestra Maña Nææturu nockurskonar Hugprijde, ef eg maa so kalla, jafnvel þoott flester hana vanbrwke, þad er ad komast sem hæerst, og eru þad sierdeilis Tvo Fioll, sem Menn eru ad klifrast uppaa alla sijna Æfe, þad er Maktareñar og Vitskuñar, eñ þar eru so faaer sem leitast vid ad komast uppaa Zions Fiall, Ebr. 12. og naa Þienustu hiaa hinum alvallda Konunge, sem Gud hefur þar yfir sett, Ps. 2. Hversu Andhæles geingur þetta, Br. M. Jafnvel fyrer þeim, sem eru Kongborner i Skijrnenne! Þeir taka ecke betur Vara aa Tign sinne eñ so, ad þeir selia hana fyrer Glis Veralldareñar eins og Børn þau, er kaupa vilia þad er þeim vænt um þyker fyrer dijra Dooma. O! hversu Vijsare og Volldugre munu þa hiñs eilijfa Konungs Syner og Brædur verda i hañs Rijke, þvi þeir munu Englana dæma, segier Paulus, 1. Cor. 6. Þad er Dioflana, þeir munu Gud þeckia so sem þeir verda af honum þeckter, og siaa hann og hanns Dijrd, ecke so sem i Spegle edur Rædgaatu eins og hier, helldur Auglite til Auglitis, 1. Cor. 13. og er þo hin minsta Þecking, sem einn einfalldur Guds Dijrkare hefur aa Christo hier i Lijfe, miklu vijsare enn allt Mañ-Vit Heims Spekinganna; þvi Paulus segier, 1. Cor. 1. Ad Gud hafe giort Speke Veralldar þessarar ad Heimsku, og ad Heimska Guds sie Moñum hyggnare, og Veikleike Guds Monnum oflugre. Þegar Makt Heideña Maña gieck sem hæerst, og Vijsdoomur Gydinga stood i Blooma sijnum, ad þeirra Hyggiu, þa voru hiner so vollduger, og þesser so vijser, ad þeir heingdu Konung Dijrdareñar uppaa Gaalgañ, hveriertveggiu sier til Skamar og sijns Hofdingia Fiandans Rijketil Nidurdreps, so hañ hefur alldrei vidriett sijdañ. Þañig er Makt Myrkranna og Skynseme Holldsins! Þau eru Volæde hiaa Guds Barna Veikleika, og Heimska hiaa þeirra Einfelldne i Guds Augum, sem einn er Vijs og allein a Volldugur, Rom. 16. og þoott nockur være Einvallds Drottenn yfir ollum Heime þessum, og visse alla Nææturu Hlutanna, hvad munde þad vera hiaa þeirre Dijrd, þeirre Speke og þeirre Sælu, sem hiñ minnste i Himnarijke er prijddur med? Þvi ef hañ er m eire enn Johannes Baptista, hvors Lijke ei var af Konu fæddur, Matth. 11. Þa munu hiner naa skamt til þess, jafnvel i Haadeige Maktar sinnar. Og hefe eg nu so talad fyrer ydur, Br. M. uñ hina sierlegustu Averte DRottenns Uppstigningar, hverrar hiñ Fr[y]ste heyrer honum sialfum til, sem er, ad hañ er iñgeingeñ i sijna Dijrd: Og eigum vier ad glediast þar af, ad hañ er fareñ i burtu hiedañ, ef vier elskum hañ, so sem hañ sagde Fr[y]rdum vid Læresveinana, sierdeil-

is þar vier erum ecke Hlutlauſer þeſſarar Dijrdar: Hañ, ſo ſem Frumgieteñ og Eingieteñ Sonur hiñs Hærſta, hefur teked hinn meſta Arf; mꝏ oſs ei nægia þad Ættleidingunum, ad vier erum Samarfar Chriſti og Erfingiar eilijfs Lijfs, Rom. 8. Mꝏ þad ei duga oſs Lꝏndrꝏda Monnunum, ad vier hofum Arfs-Von i Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd? 2.Cor.4. Gud hefur giefed ſijnum Syne Endemork Veralldarennar til Arfleifdar, Pſ. 2. Ecke ſo Fioll og Dale, Jord og Skooga, Votn og Sioo og allt hvad þar innebygger, ſo ſem hanns Elſkulega Brwdur, ſem hañ hefur wtvaled af ollum Þioodum og Twngumꝏlum, ꝏdur enn Grundvollur Veralldarennar var lagdur, Eph.1. Þeſs hofum vier noted Aumingiarner, ſem liggium under hinu ytſta Heims Skaute þeſſu: Vier erum hanns Arfar, og hofum vier ſiꝏlfum oſs alldrei betur vared. Hiner adrer Avexterner heyra oſs Monnunum til, hann hefur rijkuglega wthellt yfir oſs Heilogum Anda, ſo vier riettlætter fyrer hanns Nꝏd yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs. Tit. 3. Hann ſitur til Guds hægre Handar, og bidur fyrer oſs, Rom.8. So ad allar vorar Bæner eru Jꝏ og Amen. Hann hefur opnad oſs Himenenn og tilbwed oſs þa Sælu-Viſt, er eg fyrer ſkomu umtalade.

Nu þar Gud Fader i ſijnum Syne, Guds Sonur af Fodurnum ſendur, og Heilagur Ande, ſem af bꝏdum þeim framgeingur, þad er, oll Heilog Guddoomſins Þreñing, hefur audſijnt oſs þvilijkañ Kiærleika, ſem ꝏdur er ſagt, i DRottenns Uppſtigningu, þa ſtijgum nu upp aptur ꝏ moote honum i vorum Hugſkotum. Hañ hefur vort Holld upphafed; Lꝏtum hann ecke forgiefens hafa ſendt ofann ſinn Anda til vor aptur: Ef vier erum uppriſner med Chriſto, þa leitum þeſs ſem þar uppe er, hvar Chriſtur ſitur til hægre Handar Fodurſins, Col. 3. Þar ſem ydar Fieſioodur er, þar er ydar Hiarta, ſagde Endurlauſnarenn, Matth. 6. Ef vier hofum medteked Heilagann Anda, ſem hann hefur rijkuglega wthellt yfir oſs i Endurgietningar Vatns-Sꝏnum, hvar ſkyllde þa vor Fieſioodur vera nema i honum, i hverium ad byggia aller Fieſiooder Vitſkunnar? Col.2. Poſtular DRotteñs horfdu upp i Himeneñ epter honum, P.G.1. Lyptum og Augum vorum upp frꝏ þeſſum Jardneſka Hiegooma, og ſkynium þad ſem þar uppe er, lyptum þeim til Hædaña, hvadañ oſs kiemur Hiꝏlpenn, forſmꝏum Heim þenna med ollu þvi ſem i honum er, þvi hann mun fyrerfaraſt; Gaungum þvi wt af Heimenum, ad ecke tortijnunſt vier med honum. DRottenn hafde Læreſveinana wt til Bethania, þegar hann ſtie til Himens, Luc. 24. Hvert hañ er fareñ, þad vited þier og Veigeñ þecked þier, Joh. 14. Bethania merker Fꝏtæks Mañs Hws; Ef þier vilied epter honum uppſtijga, þa gioreſt Andlega volader, þviad ſlijkra er Himnarijke, Matth.5. Falle ydur Rijkdoomur til, þa feſted ei Hiarta ydar vid hañ; Giored fꝏtækum gott, ſo þier ſieud i Gude rijker, og þeir medtake ydur i eilijfar Tialldbwder, Luc.16. Elias foor nakeñ til Himna. 2.Kon. 2. So meiged þier og ſlijta frꝏ Hiarta ydar allt Veralldlegt Yfirlæte, ef þier vilied honum fylgia. DRotteñ var nakenn kroſsfeſtur, nakeñ var hañ i Lijkblæuñe vafenn, hann kilde hañ epter i Grofeñe; Nakenn hefur hañ uppriſed, nakeñ uppſtijged, jafnvel þott

hann

hann hafe klæddur ſijnſt fyrer Læreſveinunum ; Þu ꝏtt og ad kroſsfeſta hinn Gamla Mannenn, þu ꝏtt ad greftraſt med Chriſto, og upprijſa med hønum, Rom. 6. ꝏdur enn þu fær uppſtijged. Aſklæd þig og ſo med hønum ; Lꝏt ecke eina Flijk Veralldlegra Muna þijngia Hiarta þitt, ſo þu meiger flwga upp i Hædernar eins og annar Ern epter þijnum Frelſara ; Brwka ſo Heimenn, ad þu ecke vanbrwker hann ; Slijt frꝏ þier alla Elſku til Veralldarennar ; Lꝏt ecke hennar Þwnga-Voru draga þig nidur, þegar þu ꝏtt ad ſtijga til Himens, hvar vor Borgar-Riettur er, hvadann vier og væntum DRottenns JEſu Chriſti, Phil. 3. Hønum med Fødurnum og H. Anda ſie Lof, Prijs og Heidur um̃ Allder Allda, AMEN.

# Siøtta Sunnudag epter Pꝏſka.

Gudſpialled, Joh. 15. og 16. Cap.

JEſus ſagde til ſiña Læreſveina. Eñ þa ed ſꝏ Huggareñ kiemur, hvern eg mun ſenda ydur af mijnum Fødur, ſem ad er Sañleikſins Ande, hver af Fødurnum frꝏm̃geingur, hañ mun bera Vitne af mier, og þier munud mier Vitne bera, þviad þier hafed i frꝏ Upphafe hiꝏ mier vered. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, ſo ad þier hneixleſt ecke. Þviad þeir munu ſorboda ydur, og ſꝏ Tijme kiemur, ad hver hañ lijflætur ydur, ſꝏ meinar ſig ad giøra Gude þægt Verk. Og þetta giøra þeir ydur, af þvi þeir þeckia hverke Fødureñ nie mig. Eñ þetta tala eg þvi til ydar, ad nær ſw Stund kiemur, ad þier miñeſt þeſs, ad eg ſagde ydur þad. Eñ þetta ſagde eg ydur eige i Upphafe, þvi eg var hiꝏ ydur.

## Exordium.

INgeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona, þvi añadhvert hatar hañ þann Eina, og elſkar hiñ Añañ, edur ad hann adhylleſt þann Eina, og forſmꝏer hiñ Añañ ; Þier gieted ecke under eins Gude þioonad og Mam̃ona, ſegier Endurlauſnareñ, Matth. 6. Enn þad ſem hann hier ſegier um̃ Mam̃on, hver ad er Gud þeſſa Heims og hanns Barna, þad vill hann ſagt hafa um̃ ſiꝏlfann Heimenn. Omøgulegt er under eins Gude ad þioona og ſo Heime þeſſum, þad eru Tveir ſo Olijker Hwſs-Bændur, ad hvor þeirra rekur annars Þienara i burtu frꝏ ſier, og þad þeſs vegna, ad þeir ſo Olijker eru ; þar fyrer ꝏvarpar St. Jacob Poſtule Veralldareñar Pꝏſugla þanneg : 4. Cap. Þier Hoor-Kallar og Hoor-Konur, vited þier ecke, ad Heimſins Vinꝏtta er Guds Ovinꝏtta ? Fyrer þvi, ſꝏ ſem vill vera Vinur Heimſins, hann gioreſt Guds Ovinur. Og fyrer þvi, ad þeſſu er nu ſo vared, þa hliota Guds Børn adſkiliannleg Mootlæte og Hørmungar ad lijda, um̃ hvort Efne eg heſe nockud fyrer ſkomu

 talad

talad, er eg Oſka ad goodañ Stad funded hafe i ydar Hiörtum. Enn ſökum þeſs, ad margur ſia ed vill Gude þocknaſt, hann þoler liwflega þad ſem Gud leggur ſialfur a, ſo ſem eru Siwkdoomar, Fatækt, Aſtvina Miſſer og annad þvilijkt; Enn þad ſem af Mannanna Hende kiemur, þad er oſs bagara ad þola, og optlega upptendraſt vort Hiarta af Reide og Hatre til þeirra, af hveriuni vier meigum nockurn Ojöfnud lijda, ſierdeilis nær þad fram̃ vid oſs kiemur fyrer Sakleyſe, edur og i Stadenn þeſs, er vier gott hugdunſt giora; ſlijkt er ad ſönnu mannlegt, og engenn lær þad ödrum, Maña a medal, þviad fleſter eru ſo lynder. Enn ef vier adgiætum, ad þad kiemur eckert fram̃ vid Guds Börn, ſem ad ecke ſie epter hanns Forſiaa og Tilllatſeme, þa eigum vier þvi eins vel ad taka ſem kiemur af Mannanna Hende, ſo ſem hinu, er hann ſialfur a oſs leggur, þvi ecke einn Titlingur fellur a Jordu aan vors Himneſka Fodurs Vilia, Matth. 10. Hvi mun oſs þa nockurt þad henda, ſem ad hann ecke vill ad vid oſs fram̃kome? Og þetta er þad ſem ad DRottenn JEſus fyrer-ſegier ſijnum Læreſveinum i þeſſu heilaga Evangelio um̃ Offoookner vondra Manna, og ſegieſt þeſs vegna tala þad til þeirra, ad þeir hneixleſt ecke, og ad nær ſw Stund kiæme, ad þeir þa minntuſt þeſs, ad hann ſegde þeim þad; Og vill hañ þad ſama ſagt hafa öllum ſijnum Börnum um̃ allann Heimeñ. Þvi vil eg wt af þeſſum Spaadoome DRottenns, ſierdeilis Tvennt hugleida i þetta Siñ, ſem er. 1. Ad vier ſieum ſkylldu zer til ad giegna þvi med Þolenmæde, er vier lijdum af vondum Mönnum Sakleyſeſins og Guds vegna. 2. Ad vier eckert rangt giörum, til ad um̃flija þeirra Ofbellde.

Hier til hialpe oſs goodur Gud, fyrer ſinn Son JESUM Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HEr Munu Forboda Ydur (ſegier DRotteñ,) Og Sa Tijme Kiemr, Ad Hver Hañ Lijflætur Ydur, Hañ Meinar Sig Ad Giora GUDE Þægt VERK. Vid hveria ſagde Frelſarenn þetta? Vid ſijna elſkulega Læreſveina, hvorier honum aan Efa hafa af Mönum kiæraſter vered, hverier-ad höfdu hanns Vitne um̃ þad, ad Fadereñ elſkade þa, af þvi þeir elſkudu ſig, og allt þetta rætteſt a þeim, ſem vonlegt var. Hver ſem athugar Hwdſtrokur St. Paals, 2. Cor. 11, Fangelſe Peturs, P. G. 12. Lijflaat hiñs Elldra Jacobi, P. G. 12. og Beinbrot hiñs Yngra; Ja, hverſu ad aller Guds Heilager Meñ og Vottar JEſu Pijſlar eru herfelega wtleikner, ſo ſem liooſt er af Chriſteñdooms Sögunum: Hañ mun þad jaata, ad eckert Ord DRotteñs ſie a Jordu falled. Nu fyrſt honum þocknaſt hefur, ad laata ſijna kiæruſtu Vine þetta lijda af vondum Mönnum, þvi ſkyllder þu og ecke fyrer Guds ſaker lijda vilia, þad ſem einhver Ohlutvandur vid þig aflaga giörer? og taka þvi ſo ſem ödrum Kroſſe af DRotteñs Hende? Ad ſönnu reiner ecke a þad fyrer oſs i þeſſu fatæka Lande ad þola Offoookner edur Lijflaat fyrer Evangelii Lærdoom edur Chriſti Vidurkienningu, ſamt eiga Meñ þo Gud ad dijrka med goodum Verkum, med þvi ad hialpa hinum̃ ſaklauſa, og þeim ſem Orietteñ lijdur til Riettarens, mootſtanda þeim ſem illa giöra og margur lijdr Oriett fyrer Sakleyſe,

se, og fyrer þad sem hann med soddann Hætte Gott giorir, enn aller þeir ed þannveg lijda, þeir lijda fyrer Guds Saker. Gud hefur boded ad hiaalpa þeim sem Naaungenn lijda og underþryckter eru af Ofrijkis Monnum. Villt þu ecki frelsa hinn Faangada, sem til Dauda er dæmdur, og þann sem ad liggur vid Lijflaate, þar þu seger: Siaa, vier þeckium ecke þeña; Meinar þu ecke, ad hann sem rannsakar Hiartad, hann merke þad? Og hann sem tekur Vara aa Saalu þinne, hann þecke þad? Mun hann ecki giallda hverium Manni epter Verkum sijnum? Seger Salomon, Ordsk. 24. Þetta vill nu hinn ædste Doomare hafa sagt þeim, sem meire Maattar eru og kunna ad hiaalpa þeim sem Oriett lijda. Seged mier: Mun hann sykn Saka vera ef hann giorir þad ecke? Nei, litlu betre enn hinn sem Oriettinn giorde; Enn þoott hann mege Armæsum mæta þar fyrer, þo aa hann þad ad lijda med Þolinnmæde, fyrer Guds Saker. Gud hefur bodid ad elska Naaungann, og þad ecke einasta med Orde og Tungu, seger Postulinn, helldur med Verki og Sannleika, 1. Joh. 3. Eñ hvad er tijdara i Heiminum, helldur enn Vanþacklæte fyrer Goodgiordernar. Drambsemi Ohlutvandra Manna er so haavor og rijklunduð, ad hun þykest eingvum vera uñ neitt skylldug, hversu miklar Velgiorder sem hun þiggur, og alla Hlute vill hun med Sialfs-Skylldu hafa, enn gielldur hin verstu Laun fyrer allt undañfared, ef ecke er Grædge heñar fullnægt i hverium þeim Hlut er hun hafa vill. Full er Verolldinn af slijkum Sialfs-Byrgingum: Þeir sem nu fyrer slijku verda, sem margur er, þeir lijda Guds vegna, þvi þeir lijda fyrer þad sem Gud hefur boded, hvert þeir meiga ecke Ogiort laata, ef þeir vilia Christner Menn heita, og Guds Vinir, þvi hver sem sier sinn Broodur Naud lijda og apturlykur sitt Hiarta fyrer honum, hvernig maa Guds Kiærleike i honum vera? seger Johannes, 1. Pist. 3. Og meiga þeir þad ecke reikna, þoott ad Heimureñ gialde Illu aa moote Goodu, þvi Paulus seger, Rom. 12. Ef Ovin þinn hungrar, þa gief honum ad eta, og þyrste hann, þa gief honum ad drecka: Og meigum vier ecke vera vandare hier um, enn Fadir Myskunsemdanna, hver ad i giegn sinni Owtsegiannlegre Goodgyrne þoler hina mestu Opock af syndugum Monnum, og lætur þo rigna yfer Vonda og Gooda, og sijna Sool uppreña yfer Naanglaata og Riettlaata, Matth. 5. Þvi skulum vier ecki meina, Br.M. ad þetta sie alleina sagt til Postulanna, edur þeirra sem lifdu aa þeim Dogum, þvi einginn er svo Stiett sem ad nockur Madur lifer i, ad eige mæte hañ Andstreyme og Adkaste Veralldar, ef hañ leggur Kapp aa ad giora Verk DRottiñs Guds sijns trwlega. Þvi er æ verr og midur, ad þeir eru flester sem skioota þessu Omakinu hiaa sier, uppaa þad þeir mege i Fride vera. Hvad er ecke eiñ Guds Ords Þienare, ef hañ er Vandlætingasamur i sijnu Embætte? Mun honum ecke Ovilld og Mañ-Hatur bwed vera? Eñ seged mier: Mun hañ þar fyrer meiga laata af ad straffa, Ogna og aaminña? edur elska þaa og þeirra Velferd, er honum so illa launa hiñ mesta Velgiorning, er af syndugum Mañe kañ vid añañ giordur ad vera? Mun hañ ecke meiga þenkia hid sama og Paulus? Er hañ sagde, Gal. 1. Hefde eg hijngad til Monnum þocknast, þa

være

væri eg ecke Christs Þienare. Og þetta er riett ad taka sinn Kross uppa sig og fylgia JEsu epter, Matth. 10. Sa giorer vel sem lijdur med Þolinnmæde þad Gud a hañ leggur, og hañ gietur ecke af sier kastad; Eñ sa giorer eñ þa betur, sem med fwsum Huga geingur i Bardagañ a mooti Fiandanum og hanns Verkfærum, þar hañ kynni þo ad skioota sier undann, sem marger giora: Hañ er eiñ Guds Kappe, og maa vænta sier þeirrar Kvediu, sem Gedeon fieck af Englenum Fordum: DRottenn er med þier, þu Hetia, Dom. 6. Hvad skulu Meñ tala um eiñ riettvijsañ Doomara, ef Meñ eiga þo fyrer morgum þvilijkum Raad ad giora i hreckvijsre og skynlausre Olld þessare? Enn ef nockur er sa, er vanda vill sitt Embætte med Roggsemd og Stioornseme nockurre, og hallda uppe Christilegum Riettindum, þa er honum ecke einasta a Haalse leged af þeim er þvi mæta, sem ecke er so ad undra, þvi blindur er hver i siaalfs sijns Sok, helldur og af þeim er þad eckert vidkiemur og eige skynia hvar um þeir dæma; ja, mæter Araasum af þeim, er siaalfer ættu hvad mest Riettinum frañ ad fylgia, hverier ad brwka Logeñ eins og Reikne-Peninga, þaa er Menn laata merkia so mikla edur litla Tolu, sem Meñ siaalfer vilia. Aller þeir, ed nockrum Oskunda fyrer verda af so hreckvijsum og heimskum Moñum, þeir lijda fyrer Guds Saker, þvi hañ er sa ed sagt hefur fyrer Muñ hiñs Vijsasta Konungs; Sa sem riettlæter hinn Ogudlega og sakfeller hinn Riettlaata, þeir eru bader eins Svijvirding fyrer Gude, Ordsk. 17. Og eru ecke alleina þeir, ed i Guds Stad vandlæta eiga med Ordum, edur þeir sem yfer Riettenn skipader eru, þessum Mootgaangevondra Maña undervorpner, helldur hefur Diofullenn sijn Verkfære nærre þvi i hveriu Hwse, til ad spilla Christninne og goodum Sidum. Eiñ vandlaatur Hwsbonde maa slijku mæta af sijnum Hiwum, af sijnum Bornum a Stundum, ja, af odrum wt i fraa, sem ecke hyrda um ad vanda Raad sitt, og amæla þeim, er adra vilia hafa aptur af Illu, giefa þeim stijfenn Ord, og kalla ad þeir eige eckert med sig, þeir mune brwka sijna Sidu þeim ad Packarlausu. Þetta er ecke lijtil Skap-Raun, Born M. fyrer þaa sem Ottast DRottenn, og angrast af ad sia Ogudlegt Framferde, og sia fyrer þeirra Tijmañlegar og eilijfar O-farer, enn fa þo eige vid þeim giort, sokum Þvermoodsku og Straakskapar hinna, er þeir villdu leidriett hafa; Ja, þad er þeim meira Angur, helldur enn margt þad er a siaalfum þeim liggur. Eñ aller þeir ed fyrer þvilijkt lijda meiga nockurt Adkast, Illyrde edur añad verra, þeir lijda fyrer Christi Saker, þvi Gud hefur skipad ad uppala sijn Born i Lærdoome og Umvondun DRottiñs, Eph. 6. Hañ hefur boded ad vier skulum leidrietta þaa, er viller fara, med hoogværum Anda, Gal. 6. Ja, sa ed þad ecke giorer, nær hañ sier siñ Brooder villt fara, hañ samþyckest honum, og giorer sig Hluttakara i añarlegum Syndum, 1. Tim. 5. Og hefi eg nu þañig sijnt, Br. M. ad sierhver eiñ af oss gietur att Hlut i þessum alvijsa Spaadoomi DRottiñs, ef vier vilium þyckia fyrer Gud edur vandlæta i hañs Stad: Þvi alldrei þrijtur þar Andskotans Born, þau er giefe þeim Ordsok þar til er DRottiñ Ottast, og eyra þvi illa ad hañs dijrdarfulla Nafn sie vanvirdt, hañs Ord forsmaad og hañs Setningar
vijs-

vijsvitande undir Footum trodnir: Og þoott ad Moñum sie Ohætt uppaa Lijf og Lands Vist, þa er þad ecke þeirra Giædsku ad þacka, sem allt gudlegt Skick og Riettinde forsmaa, þvi hann sem ad hatar eiñ Guds Ords Þienara fyrer heilsusamlega Kienningu, edur einn Yfervallds-Mann fyrer riettann Doom, jaa, hann sem bølvar Fødur og Moodur, Hwsbændum edur ødrum þeim, sem hann leidrietta vill, hañ er ei laangt fraa þvi ad taka Lijfid af hønum, edur reka hñ wr Landi, ef hañ þad þyrdi vegna Hefndariñar.

Nu er þessu so varid, sem eg sagt hefi, Brædur mijner, og þvi verdur eige mootsagt, eñ allt þetta eigum vier þoliñmoodlega ad lijda fyrer Guds Saker, og ecke hatast vid þaa er vier meigum þola þad af, helldur giøra Skylldu vora med Þolinnmæde. Giætum þess er Frelsarenn seger hier i Gudspiallinu: Ad þeir, ed giøre þetta, meine sig ad giøra Gudi þægt Verk; So kunna og hinir Skynlauser ad vera, ad þeir ætli sier sie Oriettur giør, og þeir ed þeim vel vilia, giøri þetta af Offsa og Illgyrne. Laat þier þo til Hugar koma, syndugur Madur, ad þad er Oriett fyrer Gude þijnum, hverium þu þioonar, ad hatast vid so skaaradar Manneskiur, þvi þeir eru ecke Haturs, helldur Medaumkunar verder, hversu Vollduger edur Vijser, hversu Rijker edur Sterker sem þeir eru; þa eru þeir allra Skiepna Vesælaster, er so hafa gleymt Gude og sinne Velferd, ad þeir skynia ecke hvad þeim er til Gagns edur Ogagns. Þetta giøra þeir, seger Frelsarinn, af þvi ad þeir þeckia hvørke Fødurinn nie mig. Ef ad Hundur bijtur nockurn, edur Hestur slær hann, hønum kann Madur ecke so ad reidast, so sem einum Manne, sem Gud hefur Vit og Skyn giefid; Enn hinn Ogudlege, saa ed seger i sijnu Hiarta, þar er eingenn Gud, Ps. 14. hann er argare enn Hestar og Mwlar, hverium Menn hlioota Beitsle og Bitil i Munn ad leggia, Ps. 32. Og þvi skylldi eg þa vilia hefna mijns Vansa aa soddann Andskotans Vinnu-Dijre, sem ei veit hvad þad giører? Menn laata Oods-Manns Verk vera saklaust vid Konginn epter Løgunum; Og þvi skylldu Meñ þa ecke hafa vidlijka Myskun vid hann, sem so er yfirgiefinn i fraaleitt Sinni, ad hann hverki þeckir Gud nie hanns Christ? Og ecki miklu helldur leitast vid ad leidrietta hann, helldur enn vilia hanns Olucku. Lijt til þijns Endurlausnara, þar ed hann hieck aa Krossenum, og beidde fyrer Yfertrodslu-Moñunum, jaa, þeim er giørdu aa moote hønum þaa allra stærstu Svijvirding, sem nockurn Tijma hefur framinn verid aa milli Himins og Jardar, og þo villde Brunnur Giædskunnar laata þetta fyrer Afbøtun gyllda; Þeir vita eige hvad þeir giøra, Matth. 27. Og hversu lijted er þad nu, sem þu maatt lijda af þeim, sem ecke eru kannskie ollu syndugre enn þu, fyrer hanns Skulld, hiaa þvi sem hañ leid saklaus þinna vegna! Þar fyrer, nær sem einhver Veralldarinnar Sonur mootmæler oss, þegar vier giørum Guds Verk, þa hugleidum hvilijk Vegsemd þad er ad lijkiast hanns Eingietnum Syne i þvilijku, og spillum ecki þeim Heidre med Oþolinnmædiñi, þvi ef vier giørum þad viliuger, þa høfum vier Laun, eñ giørum vier þad nauduger, þa er oss þad þo uppaalagt, seger Paulus uñ sig, 1. Cor. 9. Og þenkium ecki ad Lærisveinninn sie yfer Meistaranum; hafi þeir Hwss-Fødurinn Beelzebub kallad, hv-

 ad

ad munu þeir giora vid hanns Heima-Meñ? Matth. 10. Og þessa Jhugan munum vier læta spekia Hiarta vort, ef vier meir ængrunst af þvi sem Gudi er i þessu æ moote giort, helldur enn sicalfum oss, og blondudum ecke hverutveggiu þessu samañ. Og mæ þad ecke letia oss, þoott ad lijted vilie ærorkast vid vora Tilhlutan i Guds Stad. Heyrum hvad sialfur Christur seger, Es. 49. Enn eg sagda, eg erfidade forgiefins, og fyrirkiæmi so mijnum Styrkleika fyrer eckert og til Onijtis, þo ad mitt Mælefni sie Drottinns, og mitt Embætte mijns Guds; eñ þar uñ ber Raun Vitni, hvernig hañ blessadur Holldinu Jklæddur lagdi allann Hug æ Guds Eyrinde. Hver hefur þvilijk Mootmæle, Hædungar, Brijxlaner, og allra-handa Ovirdingar þolad fyrir Guds Verk, sem hann? Eckert er tijdara i Heiminum, enn þad, ad hann skipast ecke vid þeirra Adgiorder, sem Guds Eyrende reka; Samt vill Gud þad þo giora lata, sijnu Nafni til Dijrdar, og þeim til Nota er þad medtaka, eñ hinum til þess stærre Fordæmingar; og mæ þig einu gyllda syndugann Mann, med hveriu Moote þu Gud dijrkar. DRottiñ JEsus visse, ad Judas var Glotunarennar Sonur, samt talade hañ Guds Eyrende fyrir honum, advarade hann þad sama Kvolld og hann sveik hañ uñ Noottina, Joh. 13. Amiñti hann i þvi hann sveik hañ, Matth. 26. Þu verdur fyrer Ovirdingu af Heiminum: Eñ seig mier; Er nockur Virding stærre? Nockur Nafnboot so fogur, so sem Guds Barn ad heita? Nu seger Endurlausnareñ, Matth. 5. Blessed þeim er ydur bolva, giorid þeim gott sem ydur offækia, so ad þier sieud Born ydar Fodur, sem æ Himnum er: Þar fyrer, hver sem hugleider eilijfa Himnarijkis Glede og Fognud Guds Barna, og ecki reingir Sannsogli Christi, honum mun lijtid þykia fyrir, ad lijda nockur Hallmæle og Aræser af vitlausum Monnum hier i Heime, fyrer þad dijrdlega Verdkauped, sem er nooglegt æ Himnum, Matth. 5. Hier til lijtur David, er hañ seger, Ps. 27. Eg munde snart hafa yfergiefed mig, ef eg eigi trydi ad eg sicæ mundi Giædsku DRottinns æ Lande lifande Manna. Og vilium vier þeirra Dæme fylgia, er JEsus talade þetta vid, og þeirra Samþioona, þa skulum vier ecke finna, ad þeir hafi stoorum Oþolinnmooder edur reider vorded, nær þeir voru falsklega æklagader fyrer Herrum og Landsdoomurum. Hvad skal eg tala uñ hid saklausa Lambed, Guds Eingietiñ Son? Þegar þeir sogdu hann Samverskur være og hefde Diofulenn, Joh. 8. svarade hann alleina þessu: Ecki hefi eg Dioful, helldur vegsama eg minn Fodur. Þegar Judas sveik hann: Vinur, hvar til komst þu hijngad? Matth. 26. Þvodi Svikarans Fætur, Joh. 14. Skomu ædur enn Diofullenn foor i hann; Þegar Biskups Þienarinn sloo hann, Joh. 18. Hafi eg illa talad, þa bevijsa þad, og hafi eg satt sagt, hvar fyrer slær þu mig? O þier aller hanns Viner, oll hañs Born, aller hanns Lærisveinar, aller sem vilied honum i Dijrdinni epterfylgia! Komid hijngad og lærid af honum, þvi hañ er hoogvær og af Hiarta lijtilæatur, Matth. 11. So var hann þolinnmoodur, sem ecki vissi af Synd, 2. Cor. 5. og ætti þo alls Valld, bædi æ Himni og Jordu, Matth. 28. Enn þu sem daglega syndgar og ecke forþienar annad enn Straff, munt þu

ecke

ecke jaata ad Gud hafe allann Riett til ad straffa þig? Jaa, þad munt þu ad vijsu jaata; Eñ seig mier: Mun hañ þa ecke frijalst eiga, med hvoriu Moote ad hañ typtar þig? Mun Barned nockud sijsla um vid Fodurenn, hvert helldur ad hann straffar þad med Hende edur Vende? Þad heyrdest ecke aa Job, Cap. 1. Hver oss er settur fyrer Þolennmæden̄ar Epterdæme, hvert helldur ad Gud liet Elldenn falla af Himne og brenna hañs Eigur ellegar ad þeir af Chaldea og Saba ræntu hanns Gotze: J ollu þessu syndgade ecke Job, segier Ritningenn, helldur sagde hann: Gud gaf og Gud aftook; Sie Nafned D Rottenns lofad ad eilijfu. Þad er ein Hræsnisfull Þolennmæde, ad segiast vilia þola allt þad sem Gud leggur aa, eñ vilia eckert Monnunum lijda, eins og þeir giore nockurt þad er hañ leifer þeim ecke. Saa sem lijflaataſt aa, hann fyrergiefur Bodlenum, eñ slær allre Skulldenne uppaa Doomarann; Nu gietum vier ecke giefed Gude Skulldena, þvi vier jaatum ad vier hofum til þessa unned sem hann aa oss leggur, og þvi skylldum vier þa reidast hanns Bodlum, sem eru vonder Menn? Þoott hann leyfe ad þad aa oss framkome, sem hañ visse ad þeir af sialfs Daadum mundu Oriett giora, sierdeilis þar vier erum sialfer vonder. Þar fyrer, hversu sem þad er Oriettvijst af þeirra Hende, þa er þad af Guds Alfu riett, og eckert annad enn vor forþient Laun; Og vilie einhvor þvi ecke trwa, ad Gud stioorne i þañ Maata Verkum Omilldra Mañа, sijnu Nafne til Dijrdar, enn sijnum Bornum til Leidriettingar (þvi allt verdur þeim til Gooda er Gud elska, Rom. 8.) hann lese þad er stendur i Bæn Postulanna, P. G. 4. J Sannleika komu þeir samañ yfir þinn H. Son JEsum, hvorn þu smurt hefur, Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Israels Foolke, til ad giora allt þad er þiin Hond og þitt Raad hafde aasett ad skie skyllde. Hafe nu Guds Vollduga Hond, epter sijnu alvijsa Raade, stioornad Ogudlegra Manna Verknade og Athofnum i Fordæmingu sijns Eingietens Sonar, þier til Saaluhialpar og Myskunar, christenn Madur! Þa laat þig ecke undra, þoott hann stijre þeim til ad aga þitt lauslaata og drambsama Holld, til ad temia þig lijsadann Kaalf, eins og Ephraim, Jer. 31. þier til Andlegrar Heilsubootar; Helldur minnst þess, nær ed vonder Menn þier raangt tilgiora, ad þu hafer þad med þijnum Syndum forskulldad, og munt þu braa dlega snwa þvi Hatrenu, er þu fær til hanns, er vid þig afgiorde, aa þijna eigenn Synd, med Harmþrwngnum og sundurknosudum Anda; Þad er þad Offred sem Gude lijkar, Ps. 51. So giorde David Konungur, 2. Sam. 16. er Simei bolvade honum, og kastade Steinum aa hann, enn Abisai sagde: Þvi skyllde þesse daude Hundur bolva mijnum Herra Konungenum? Eg vil fara og taka hanns Hofud af; Enn Konungurenn svarade; Hvad hefe eg med ydur, þier Born Zeru Ja, hafe D Rottenn skipad honum: Bolva þu David; hver vill segia? Þvi giorer þu þanneg? Og er nu so wttalad um hinn Fyrra Partenn.

Hvad hinum Sijdare Partenum vidvijkur, þa aa oss þad sagt ad vera, ad vier eigum fyrer engum Manne soddann Virdingu ad bera, edur ad nockurs Manns Elsku edur Otta so miked ad laata, ad vier þess vegna styggium vorn Gud aa moote Samvitskuñe.

Þad er oss vitanlegt, Br. M. ad noogu eru margar Synder vorar, sem oss henda af vorri eigenn Hollds og Bloods Tilteigingu til ad fordæma oss, þoott ad ecke styggium vier hinn gooda Gud med þvi ad taka synduga Menn fram fyrer hann. Gud bijdur i sijnu H. Logmaale: Þu skallt ecke hafa annarlega Gude fyrer mier; Þad er hid fyrsta og hid æðsta Bodord, Matth. 22. og þegar þad er broted, þa eru øll brotenn. Enn hvad giora Menn þegar þeir giora alla Hlute ad Mannanna Villd, hvorsu Ogudleger sem þeir eru, enn kasta Guds Bodordum aa Bak sier aptur? Er þad ecke ad dyrdka eitt lifande Skwrgod? Jaa, þann sem er verre enn eitt Skwrgod, þvi einn Tre-Stobbe er saklaus, þoott hann sie dijrdkadur: Hiaa-Trw Mannanna giorer hann ad Svijvirdingu, enn saa sem Ottar ødrum til ad giora Odygder og sierhvad þad sem Gud hefur bannad, hann er Diøfull, og saa ed hann dyrdkar, hann dyrdkar Diøfulenn: Þu segiest ecke dyrdka hann, þoott þu giører þad sem hann bijdur, þu viter ad Gud sie ædre og ollu betre, og hann eige ad dyrdka: Þad er illt ad þu veitst þad, þad vill fordæma þig enn þa meir, helldur enn ef þu þad ecke visser. Enn seig mier! J hvøriu er nu Guds Dyrdkun innefalenn? J þvi ad trwa aa hann, elska hann og Ottast, og giøra epter hanns Bodordum. Enn seig mier aptur: Hvern Ottast þu meir, Gud edur Mannenn, nær þu hræðest hann, sem ecke kann ad deyda nema Lijkamann, enn forsmaaer Gud, sem Lijfe og Saalu gietur kastad i eilijfann Elld? Matth. 10. A hvern trwer þu meir, nær þu þykist einkis Þurfe, er þu hefur Mannsins Vinaattu, aa medan þu hræsnar fyrer hanns Borde, enn so lijted reider þu þig uppaa Gud, sem þig skapad hefur, fædt og forsorgad, ad þu vinnur þad til ad missa hana ecke, ad þu giører alla Hlute, sem Gud bannad hefur? Hvern elskar þu meir? Er þu villt jafnvel fara til Helvijtis fyrer Mannenn, enn fyrer Guds Saker stendst þu ecke ad sia hanns Reide Svip, er þu meinar ad hafa nockud af þinne Tijmanlegre Velferd i Hende sier. O Vei! O Vei! Er ecke þvilijkt ein hræðeleg Afguda-Dijrdkun, og miklu verre enn øll Svijvirding Heidingianna, þeirra er af Gude eckert vissu? Paulus segier, 1. Cor. 8. Ad Skwrgoded sie eckert, og hrædduft þeir þo Skwrgodenn, er þau dijrdkudu; enn christner Menn, hverium Gud er i Holldenu Openberadur, þeir Ottast Mennena meir enn Gud, jafnvel þoott hann sie allt i ollu, og þykiast vel hafa komed Kaupi sijnu, ef þeir faa sellt Guds Vinaattu fyrer Mannsins Kiærleika, edur til ad umflija hanns Oblijdu. DRottenn segier fyrer Munn Oseæ Spaamanns, Cap. 2. um Gydinganna Samkundu; Hun þecker ecke, ad eg er saa sem gief henne Korned og Mustina og Oliuna, og eg fæ þeim aanægianlega Sylfrid og Gulled, af hveriu þeir giora Baal. Hvørsu vel aa þetta heima hiaa þeim, er hinn goode Gud veiter alla Hlute yfirfliootanlega til Notkunar, enn þeir ecke einasta wtsiwga Hws Ecknа og Fødurlausra, Matth. 23. Og selia hinn Volada fyrer einn Skoo, Amos 2. Helldur og giøra sier einn Afgud af þessu i Hiarta sijnu, hvert ed vera ætte Mustere H. Anda? 1. Cor. 6. Þad er Svijvirding Foreydslunnar i Helgum Stad: Og þad er þeim ecke noog ad þeir dijrdki hann einsamler, helldur, eins og Nebucadnezar liet wthroopa, ad hver Madur under Lijfs-Straff skyllde dyrka Bel, so vilia þeir fyrer þessa Svijvirdingu af øllum

heid-

heidrader verda, og ad aller hlijde þeirra Bode og Bañe, hverſu ſem þad er Oriett og Oguđlegt, og þeſſe Varmeñe Ottaſt Meñ framar eñ Gud og hañs Sañleika. Edur hvad er tijdara eñ þad? Ad nær einn Lijtelmagne aa vid eiñ Maktar-Mañ, þorer engeñ Muñenum upp ad liwka, engeñ Sañleikañ ad vitna, þeir hlaupa i Felur, og hafa adſkiliañleg Undañbrogd, til þeſs ad Odygdeñ verde ecke ſtroffud, nie Sañleikureñ i Lioos leiddur, Jaa, giefa ſig helldur Fiandanum, ſijnum Fodur, helldur eñ ad þeir ſtygge hinn Volldugа, og jafnvel aa ſtundum þañ ſem þeim kañ eckert Mein ad viña; Ecke er þetta Chriſtiñdoomur; Bærelegra mun einum Ærlegum Heidingia verda aa Doomſins Deige, Matth. 11. helldur enn þvilijkum Diofulſins Hamhleypum. Hvad kunna Menn þo ad ſiaa þad aa einum daudlegum Manne, hverſu Volldugur ſem hañ er, ad Menn Otteſt hann meir enn Gud? Hann kann ad fyrra þig allre þinne Aleigu, þad gietur og Gud aa Auga-Bragde; Hann kann ad ſteipa þier wr Heidre þijnum, mun Gude nockud bægt um þad vera? Hañ gietur ſett þig i Fiotur og Jaarn, Gud gietr ſleiged þig med ſkiædum Siwkdoome; Hañ gietur teked Lijfed af þier, og er þo ecke hætt vid þvi i Lande voru, enn Gud kann ad deyda eilijfum Dauda, og ſetia þa, er hann forſmaa, i þad Faangelſe, hvadann engenn Endurlauſn er, Matth. 18. Hvert er nu meira? Eg vil taka til þeſs meſta Skadrædis, er Meñerner kuña ad giora, þad er Daudeñ, eñ hvad er hañ hiaa Helvijte? Þad er ſo Ognarlegt, ad eg er viſs um, ad ef nockur mætte ſiaa Pijſler fordæmdra, munde hañ hlaupa wt i Þuſund Daudans Hættur, til þeſs hañ ſæe þær alldrei optar: og þo flya Meñ med Seglum og Arum undann eiñe Vatns-Booln, ſem þo kañ ecke ad ſkada oſs, nema aa Lijkamlegre Velferd, og þad þo ecke framar enn Gud leifer honum. Nu ef þu ætter allt þad er þu kiæraſt hefur ad miſſa, fyrer hvern er þier ſkylldara ad miſſa þad? Fyrer Gud edur hinn Ogudlega? Mun Madureñ hafa ſkapad þig? Hefur hann giefed þier Lijfed? Hefur hann forſorgad þig fraa Moodur-Lijfe? Hefur hann giefed þier Gootz og Peninga? Hefur hann upphafed þig til Heidurs? Hefur hann verndad þig og allt þad þier vidkienur? Mun eige lijkara ad þu miſſer þad hanns vegna, ef miſſaſt ſkal, ſem gaf þier þad i Fyrſtunne, og þvi hefur øllu vid Makt hallded, allt til þeſſa Dags, helldur enn hiñs, ſem þier gaf eckert af þeſſu? Þvi þad hann kañ-ſkie gaf þier, þad took hañ af Guds, og jafnvel þoott hañ hafe ſtoled þvi fraa Naunganum, og er hañ vijſaſtur til ad taka þad fraa þier aptur og laangtum meira, þad fyrſta honum rennur i Skap vid þig, þvi ſo er Vinaatta Heimſins. Eg vil eige þar um tala, ad ſaa ſem hræder einn til ad giora Oriett Einuſiñe, hañ hefur hann fyrer Skulldbundenn Þræl i ollum Skomum og Odigdum ſijdann, og vilie hann ecke, þa er honum Oluckañ bwenn, þvi ſo plagar Heimur þeſſe ad launa ſijnum Þienurum; Jaa, hann ſkal ecke vinna ſier hinn miñſta Ohagnad, til ad forſvara hañ, ef hañ yrde af odrum þar um ſooktur, helldur mun hañ ſvara eins og Gydingar Judæ: Hvad kiemur þad vid oſs? Siaa þu fyrer þvi, Matth. 17. Og kuña þeir ſier ecke betre Side, helldur eñ þeirra Foringe Diofulleñ, þvi ſo breiter hañ vid þa er honum liaaſt til Þioonuſtu; Hañ teiger þa fyrſt til Syndareñar, og launar þe-

im sijdañ med eilijfu Helvijtes Boale, og þañeg er þad ad ottast Meñena framar eñ Gud. Enn hvernig launar nu Gud aptur þeim er stodugèr standa i hanns Þioonustu, og ecke ottast Meñena? Þad moa oss af Dæmunum kunnugt vera? Hann launar øllum goodum Launum, bæde hier og eilijflega; satt er þad, ad mørg eru til þess Dæme, ad hañ hefur giefed sijna Astvine i Mañaña Valld, þo alldrei so ad hañ ecke hafe vered þeim til añarar Handar. Eg er viss um, ad St. Paall, er hann stood fyrer Festo og Agrippa, P.G.26. hefur unad miklu betur Hag sijnum helldur eñ hver af hañs Aklagendum, hver ia Reideñ og Hatred so plaagade, ad þeir eyrdu eingu nema þeir seingiu hønum i Hel komed, añars hefde hañ ecke Oskad þeim, ad þeir væru þvilijker sem hañ. Þegar hann hafde i 14. Daga hrakest i Sioafar-Olgunne, og aller orvæntu sier Lijfs, sende DRotteñ siñ Engel til hañs, P.G.27. Og liet segia hønum: Ottast ecke Paall, þier byriar ad koma fyrer Keysarañ. Og hversu ad hiñ moattuge Gud hafe moattugur i hønum vered fyrer Keysarans Doome, þvi lijser hañ, 2. Tim. 4. segiande: J mijnu Fyrsta Forsvare var engeñ hioa mier, helldur yfirgoafu mig aller, eg Oska ad þad verde þeim ecke tilreiknad, enn DRotteñ var hioa mier og styrkte mig, so ad Evangelii Bodskapur yrde fullkomnadur fyrer mig, og þad heyrdu allar Þiooder, og eg vard frelsadur af Muñe Leonsins. Og þoott ad Gud tale ecke so bersynelega vid oss oa þessum Døgum, so sem hañ þa talade vid Paal, þa talar hañ samt i sijnu H. Orde, og dregur allañ Efa af þvi, ad soa sem hønum treyster i øllu ærlegu, øllu riettvijsu, øllu Guds Eyrende, hañ mun alldrei til Skamar verda, þoott hañ sijnest ad hafa oss i Mañaña Valld giefed um Stundarsaker; Þvi þad Ord stendur stødugt: Gud þecker þa sem hanns eru, segier Postuleñ, 2. Tim. 2. DRotteñ er miñ Styrkur, eg Ottast ecke, hvad mun mier Madureñ giora? segier David, Ps. 117. Einn goodur Fader, þegar hañ hefur strijkt Barned, þa kastar hañ oa Stundum Vendenum i Ellden og breñer hañ; Og so breiter Gud vid Skoalkana, hveria hañ brwkar optlega til ad hyrta sijn Børn med: Þvi skylldu Meñ þa Ottast þa, nær Meñ hafa so sterkann, so riettvijsañ og so Giædskurijkañ Forsvars Mann sem Gud er? Þad mun goanga þeim, eins og St. Paall spoaer, 1. Tim. 3. um Villu-Meñena oa sijnum Døgum, hverneg hañ samlijker þeim Jañes og Jambres er mootstoodu Moysi, so standa þesser i giegn Sañleikanum (segier hañ) fordiarfader Meñ i Hugskotum, froahverfer Trwñe; Enn þeir nunu eige meiru framkoma, þviad þeirra Foasiña mun øllum opeñber verda, so sem og hiña vard. Og þoott ad Guds Astviner ecke eige ad fagna yfir Olucku Fiandmaña sinna, miklu helldur bidia Gud ad giefa þeim Leidrietting til Ydranar, sem Paulus bijdur, 2. Tim. 2. og segia: Verde þiñ Vilie; þa samt er þetta ein Obrygdul Huggun fyrer þoa, sem reka Guds Eyrende, nær þeim mootmælt verdur, ad hañ er þeirra Styrkur, sem ad jafnvel segier til Sioafar-Hafsins: Hijngad skallt þu komast og ecke leingra, hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. nær vier erum i Vinoattu vid hañ, þa kañ engeñ Ovinur ad granda oss, og nær hañ er Ovinur, kañ engenn Vinur ad hioalpa oss; Þvi skyllde engeñ voga hid miñsta moote Gude ad giora fyrer Otta edur

Elsku

Elsku Saker vid hañs Ovine, þeir vega aller miña eñ eckert, Ps. 39. J mier hafed þier Frid, enn i Heiminum hafid þier Angist, vered Otrauder, eg hefe Heimeñ yferunned, seger Frelsarenn, Joh. 16. Hvad kunna oss Mennerner ad giora? Offæria oss, Fie-fletta, hallmæla, bryxla og vanvirda; Eg vil þad allt þusundsiñum helldur lijda, enn ad vita mier i miñsta Maata Von hañs Oblijdu, þvi ad flija undañ Mañsins Valldi undir Guds Reide, þad er ad hlaupa undañ Snæ-Liooseuu til ad verda fyrer Reidar-slaginu. Hversu miklu betra er, jaa, miklu gledilegra alla Hlute ad þola fyrer Christi Nafns Saker, epter þeirre Mælingu sem hann veit ad sierhver eiñ bored getur, og oss mun þarflegast, jaa, dijrdarsamlegast og fagnadarsælast verda, þa vier munum i hanns Rijke med honum eilijfum Sigre hroosa! Þvi hver sem hitt wtvelur, hañ maa ad þessu Tveñu vijsu gaanga, añadhvert eilijflega ad fyrerfarast med Heiminum, edur ad taka so mikla Ydran fyrir þad sem hañ liet epter Heiminum aa mooti Guds Vilia, sem kañ ad sambiooda þeirre Ohamingiu, er hañ hugdest ad uñflija. Þad sie fiærre, ad eg selie þier mijna Fodurleifd, sagde Naboth vid Achab Fordum, 1. K. B. 21. er hañ falade hanns Vijn-Gard til Kaups; Þad forbioode Gud, miñ HErra JEsu, ad eg selie þañ himn-eska Arf, sem þu hefur mier afrekad med þijnu Allra-helgasta Bloode, fyrer Veralldar-eñar Frid, hver ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude! Hvad er eiñ Vatns-Dro-pe hiaa Siaafar Hafinu? Hvad er eitt Sand-Korn hiaa allre Heims Bygdeñe? Hv-ad eru Mootlætingar þessara Tijma hiaa þeirre Dijrd, sem vid Guds Born mun opiñ-ber verda? Rom. 8. Hvad er hin lietta Byrde þessarar stundlegu Armædu hiaa eilijfri Þijngd Dijrdariñar? Gud giæfi Meñ villdu hier uñ þenkia! þa mundi þeim sijdur of-biooda allt Yfirlæte og Skarkale Veralldariñar Sona, hverier ad eru ein Gufa, er siest uñ Stundarsaker, seger Jacob, Cap. 4. og hverfur sijdañ, eñ sa eiñ er stadfastur, sem varpar allri sinni Ahyggiu uppaa hañ, sem alltijd er hiñ sami, og hvers Ar ad þrotna ecki, Ps. 102. Þar fyrer vil eg segia med Postulanum: Eg em vel til Frids i Veikleikanum, i Forsmaanenne, i Naudunum, i Offooknunum, i Angistenne fyrer Christum, þvi þa eg em veikur, þa em eg maattugur. Þetta Siñi og Hiartalag virdst þu, O! Gud, ad veita ollum þijnum Bornum sem aa þig vona, og beriast under Merkium þijns Sonar i Utlegd þessare, þar til þu innleider oss i eilijfa Himnarijkis Vist til ad medtaka þijn Naadar Fyrerheit med ollum Guds Bornum. Veit oss þad og gief, himneske Fad-er, fyrer Arnan og Forþienustu þijns Eingietins Sonar JEsu Christi, Amen.

# A Hvijtasunnu Haatijd.

Gudspialled, Joh. 14. Cap.

OG JEsus sagde til siña Lærisveina: Hver hann elskar mig sa mun vardveita mijn Ord, og Fader miñ mun elska hann, og til hanns munum vid koma, og hiaa honum Vistarveru giora. Eñ hver hañ elskar mig eige, sa vardveiter ecke mijn Ord,

Ord. Og þad Orded sem þier heyrdud, er ecke mitt, helldur Fodursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur, a medañ eg var hia ydur. Eñ Huggareñ, sem er hiñ heilage Ande, þañ er miñ Fader mun senda ydur i mijnu Nafne, hañ sialfur mun kieña ydur alla Hlute, og minna ydur a allt þad sem eg sagda ydur. Minn Frid læt eg hia ydur, miñ Frid gief eg ydur, eige so sem Heimureñ giefur, þa gief eg ydur. Ydvart Hiarta hryggest ei nie skielfist. Þier heyrdud þad eg sagda ydur, eg fer burt og kiem aptur til ydar; ef þier elskudud mig, þa gleddust þier vid þad, ad eg sagda ydur, ad eg fer til Fodursins, þviad Fadirinn er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad, adur fyrre eñ þad skiedur, so ad þier trydud þvi, þa ed þad være skied. Hiedañ i fra mun eg ecke tala margt vid ydur; Þviad þessa Heims Höfdinge kiemur, og med mig hefur hañ eckert. Helldur so ad Heimureñ þecke þad eg elska Fodureñ, og þad eg giore so sem Fadiriñ hefur mier boded.

## Exordium.

Exodi Bookar 25. Cap. talar DRottenn þañeg uñ sijna Vist medal Israels Sona; Þeir skulu giora mier eiñ Helgidoom, og eg skal bwa a medal þeirra. O miñ Gud! Hvijlijker eru þesser þijner Velgiorningar? Þad mætte noog þykia ad oll Natturann ber Vitne uñ Guds O-wtsegiañlega Giædsku, ad Himnarner framtelia hañs Dijrd, og ad Festingenn kuñgiorer hañs Vegsemd, Ps. 19. So ad Meñ kynnu ad leita ad honum af hanns Skiepnum, og ad hann hefur ecki læted sig vera aan sijns Vitnisburdar, þar hann veiter oss gooda Hlute, giefande oss Regn af Himne ofañ, og hagkvæma Tijma til ad bera Avoxt, uppfyllande Hiortu vor med Fædslu og Fognude, sem Paulus seger, P. G. 14. Noog mætte allt þetta þykia, sege eg, þoott ecke hefde hin Ogrijpannlega Hatign sett Boolfestu sijna medal syndugra Jardar-Madka, sem eru Dupt og Aska. Nu þyker oss þesse Vegsemd Israels Sona Forkunar væn og vegleg, Br. M. so sem hun og i Raun og Sannleika er; Enn vier hofum þo i Christo ollu meira þeged, þvi Dijrd hinns sijdara Musterisins, sem er hanns Christne hier a Jordunne, hun er vordinn miklu meire enn hinns Fyrra, so sem DRottinn spaade fyrer Munn sijns Þienara Haggæi, Cap. 2. Edur hver Hlutur maa þar vid jafnast, ad Orded vard Holld og byggde med oss, Joh. 1. ad i einum Adams Syne bijr oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. Ad Guds Eingietinn Sonur er Hluttakande vordenn Hollds og Bloods, eins og Smaa-Bornenn, Ebr. 2. Enn þoott ad þetta sie Upphaf og Grundvollur Heilsugiafareñar, þa munde oss ecke ad fullu stoda Holldtekia DRottinns, nema hañs Fodurleg Giædska hefde giort eñ framar

vid

vid oss, og efnt þad er hann lofade hiaa Zach. Cap. 6. segiande: Siaa einn Mann, hvers Heite ad er grænn Kvistur, hañ mun bloomgast i sijnum Stad og uppbyggia DRottni eitt Musteri, þad er Guds Kyrkia i Mañaña Hiortum, 1. Cor. 3. i hverium Christur bijr fyrer Trwna, Eph. 3. og hann er þar sialfur Kiennimadur i sijnu Haasæte og Raad Fridarins aa mille beggia, Zach. 6. Nu þoott ad þesse Naavist Guds sie øllum Monnum frambodinn, þa nade þad DRottinn, ad so faaer verda hennar Hluttakande! Eñ hvad velldur þvi? Nema ad Menn leggia ei miøg Kapp þar aa, ad innbiooda þessum Gieste. Vier høfum hañs Ovine iñe hiaa oss, med hverium hann vill ecki SamSæte eiga, þeim vilia Menn ecke wthijsa, og þvi missa þeir hanns Naalægdar og Velgiorninga, er so lyndir eru: Enn so ad aller þeir, ed leggia nockurn Hug aa þetta, megi vita med hverium Kostum hønum mege innbiooda, þa hefur JEsus þad sagt med berum Ordum i upplesnu Gudspialle, þar hañ seger: HVer Hañ Elskar Mig, Saa Mun Vardveita Mijn ORd, Og Fader Minn Mun Elska Hann, Og Til Hañs Munum Vid Koma, Og Hiaa Hønum Vistarveru Giøra. Þesse dijrmætu Ord vil eg nockud framar yfervega fyrer ydrum Kiærleika, og af þeim framtelia þaa hellstu Hlute, er eiga ad locka Hiortu vor til ad elska Gud, hinn ypparsta Gooda, fram yfer allt annad. Hann virdest ad kveikia i oss sijna Elsku, so vier þetta Eyrende so framkvæmt gietum, ad hønum sialfum lijki, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

TVær eru Verallder, Br. M. Onnur sijnileg, i hverre vier lifum, Oñur er þar uppi, hvadañ vier væntum Frelsarans JEsu Christi, um hveria St. Petur talar, ad i henni muni Riettlætid byggia, 2. Pist. 3. Hina siaaum vier med Lijkamlegum Augum, þessa med Trwarinnar; Þvi Trwinn er Vera þeirra Hluta sem koma munu, Hebr. 11. og hun sijnir þad sem ecke er sijnilegt. Hvert sem vier nu helldur reñum Saalarinnar edur Lijkamans Augum og lijtum i krijng oss med Athygle nockurri, og Gaumgiæfne þeirra Hluta er fyrer oss bera, þa gietur Christenn Madur ecki hiaa þvi sneidt ad elska Gud, allra Hluta Skapara, fram yfer alla Hlute. Lijt, Christiñ Madur, aa hiñ fagra Skapnad Heims þessa, hversu kostulegur hañ er; hañ hafa Heidner Meñ aa Latinu kallad Mundum, fyrer hañs Fegurdar Saker, og Grisker i sama Maata Cosmon, sokum hañs Prijdi. Athuga hin føgru Himinsins Lioos, hversu þeim er vijslega nidur skipad, þau hafa siñ asmarkadañ Gaang allt fraa Veralldariñar Upphafi, allt til þessa Dags, so alldrei hefur enn nu þroted Noott nie Dag, Vetur nie Sumar, Hita edur Kullda i hagkvæmann Tijma, Gen. 8. Vird fyrer þier Naatturu Dijranna, Fuglaña, Fiskaña, Grasanna, hvor so eru prijdileg, ad Salomon i allri siñi Dijrd var eigi so skrijddur sem eitt af þeim, Luc. 12. Enn segied mier: Fyrer hvern hefur Gud allt þetta skapad? Seger ecke David, Ps. 8. Þu hefur sett hann (Mañiñ meinar hañ) yfir þijn Handaverk, og lagt alla Hlute under hanns Fætur. Sagdi ei DRottinn Gud i Upphafe Skopunar? Drottnid yfer Fuglum Loptsins og Fiskum Siaafarins, Gen. 1

Itrekade hann ecke hid sama epter Flooded vid Noa og hanns Efterkomendur? Gen. 9. Sagde ei St. Paall, ad hann hefde af einu Bloode giort allt Mannkyn? P. G. 17. Ad þad byggde alla Jardar-Krijngluna, og hañ hafi afmarkad Tijmana med sijnu Bode, og sett Endimork Bygdum Manna? Seig mier, Christenn Madur! Hvern skylldir þu helldur elska enn þann, er so vel hefur til þijn giort wt af einskiærri Giædsku siñi, eñ eingri þiñi Forþienan? Þykir þier nu nockud Iñdælt edur Elskuverdt aa þessum Guds Skiepnum, sem hañ hefur lagt under þijna Fætur, þier til Nota og Eftirlætis; þa gleym ecki ad elska hann þo umfram alla Hlute, sem þetta hefur þier giefid: Þad heitir ad fara aptañ ad Sidunum, ad þacka Þienaranum, sem færir þad sem Hwsboondinn giefur, edur ad virda Ambaattina meir eñ Drottninguna. Enn stærre Oriettur er Gudi gior i þvi, ad elska hanns Skiepnur fyrer þad Gooda sem hann hefur sæmt þær med, fram yfer hann, sem er Bruñur og Uppspretta alls hiñs Gooda. Laat þvi siaa, Christiñ Madur, ad þu temier þier Lunderne St. Paals, er hann sagde, Phil. 3. Ad soñu reikna eg alla Hlute Skada ad vera, fyrir Yfirburde Þeckingariñar JEsu Christi mijns DRottiñs, vegna hvers eg hefi alls aa Mis farid, og reikna Þreck ad vera, so eg aviñi Christum. Þegar þu hefur nu þañeg hiñ meira Heim i giegnum skodad, og þu sier eckert i honum, þad er ei drage þig jafnvel naudugann til ad elska hiñ gooda Gud fram yfer alla Hlute, þa skoda og hiñ minna, sem er Madurinn, þad ert sialfur þu, hann er og med Tveñu Moote, Andlegur og Lijkamlegur. Lijt fyrst til þess Lijkamlega; Hver hefur myndad þig i Moodur-Lijfe? Hver hleipte þier þar samañ eins og odrum Oste? Job. 10. Þad giorder ecke sialfur þu, ecke Forelldrar þijner: Þijnar Hendur hafa giort mig og tilbwed mig, seger David, Ps. 119. Hver hefur leidt þig wt þadann so daasamlega i Lioos þessa Heims? Hver hefur giefid þier heilbrygda Saal i heilbrygdum Lijkama? Allijt hversu þiñ Skapnadur er vegsamlegre eñ allra añarra Dijra aa Jorduñe, hver þo ecki hafa Gud aa neinn Veg stygdañ, eñ þu reiter hañ til Reide daglega. Þocknist þier nu nockud aa sialfum þier, og þyki þad vænt og veglegt sem Gud hefur til þijn lagt, so sem þad og er i allann Maata, þa laat hañ þo fyrer gaanga, er giordi þig so veglegann, og sæmde Drottnara allra Hluta under Himninum, med sinni eigiñ Mynd i Fyrstu Skopun. Athuga hvad hañ hefur þier meira giort: hañ hefur ecke sleppt þier Forstodulausum iñ i Verolldina; J honum lifer þu, ert þu, og hrærist þu, P. G. 17. Hañ hefur giefid þier alla Hlute aanægiannlega til Notkunar, P. G. 14. Hañ lætur sijna H. Engla, Ps. 91. þaa himnesku Anda þioona þier og vardveita fraa ollu Vondu, ollum Slisum, allri Ogiæfu, jafnvel midt i Syndiñe, hveria þu gietur ecki vid þig skilid allt so lenge þu ert i Holldinu: Eru þeir ecki aller þioonustusamer Andar, seger Postulenn til Hebr. 1. wtsender þeim til Þioonustu er Saaluhialpina erfa skulu? Jaa, Andskotinn sialfur sagde epter Davids Munni vid vorn Frelsara, Matth. 4. þad sem satt var, og þo i illre Meiningu: Skrifad er, sagde hann, ad hann muni biooda Englum sijnum um þig, ad þeir bere þig aa Hondum sier, ad ecke steyter þu Foot þinn vid Steine:

Seig

Seig mier: Hver þiña Vina edur Vandamaña tekur so Vara æ þier, hvorium er so miøg um þig hugad? Skyllder þu ecke hata Fødur og Moodur, Syne og Dætur fyrer hañs Skulld, Luc. 14. ad þu mætter verda hañs verdugur? Elska þvi ecke jafnvel þitt Lijf allt i Daudann hañs vegna, sem þier hefur Lijf og Lijkama giefed, og vert minnugur þess, er Christur segier, Matth. 10. Sa sem finnur sijna Saalu, hañ mun tapa heñe, og sa sem tapar Saalu sinne miña vegna, hañ mun finna hana. Eg vil ei margt tala um Saalena, sem er hinn ædre Partur vors Skapnadar. Minnst æ, Christenn Madur, hvadañ þu ert; Lijkamenn er ad sonnu af Leyr Jardar, eñ Saalenn af Gude (med hverju Moote veit hann best sialfur) og mest fyrer þa Skulld, segier Lucas, 3. Cap. ad Adam hafe Guds Sonur vered, þvi sialfur Gud blies lifande Anda i Mañsins Naser, Gen. 2. Ef vier erum nu skyllduger ad elska Fødur og Moodur, af þvi þau hafa oss gieted og fædt i Heim þenna; Hvad miklu framar er þad skylldugt, ad vier leggium alla Ast æ hann, af hvers Dijrdar-Lioma vier og vor Ande i Fyrstuñe kveiktur er! Vel talar St. Paall hijer um, P.G. 17. segiande; Nu, þar vier erum Guds Afspreinge, þa byriar ad vier ei þeinkium, ad Gud lijkur sie Gulle og Sylfre edur Steinum, nie vel smijdadre Lijkneskiu edur Maña Þaunkum. Enn so sem þad er Ovidurkvæmelegt, sem Postulenn hier um talar, so er þad og Afgudadijrdkun stoor og merkeleg Gudlostun, ad elska nockud af þessu jafnframt honum, og mæ þad øllum heilvita Mønnum sialfsagt vera, hvijlijkur Glæpur þad sie ad lia so gøfugann Hlut, sem Saalenn er, til Þrælkunar Syndenne, edur Veralldareñar Munum, hver ed mun fyrerfarast med øllu þvi sem i heñe er: Þar fyrer aaminner Johañes nærsta heilnæmlega, seglande; Elsked ecke Heimenn, nie þad sem i Heimenum er; Ef nockur Heimeñ elskar, þa er ecke Kiærleike Fødursins i honum, 1. Joh. 2. Eñ Gud, af hverium Saala vor innblaaseñ er, hann blijfur og hañs Ar þrotna ecke, Ebr. 1. Athuga hin skynlausu Dijrenn, þoott þau sieu daasamlega skopud, þa hafa þau ecke Skin æ þeim Hlutum, er fyrer þau bera; Ei rannsaka þau sitt Edle, ecke er Framsijne hiaa þeim mikel, engeñ Hæverska, Sidseme, Adgreining goods edur ills, og allra sijdst Þecking Skaparans. Skyllder þu nu ecke, syndugur Madur, elska hann fram yfir allar Skiepnur? Er so miked meira hefur lagt til þijn helldur eñ añara Skiepna, sem ad Sooleñ er Saurnum biartare; Þar Madureñ er eitt Dijr fullt af Raade og Skilninge, hann kann Grein æ Illu og Goodu, hañ gietur wtvaled hvert hañ vill, hañ veit hvad soomer edur ei, hañ eiñ kann ad læra ad þeckia Vilia sijns HErra, hann hefur uppfunded allañ Hagleika, allar Kunster og Lister i Heimenum, hann hefur wtreiknad Himensins Hlaup, og veit Tijma og Stunder fyrerfram, hann skygnest inn i Leyndar-Dooma Naatturuñar, so ad Guds O-wtsegianleg Vitska, sem Naatturuna hefur skapad, wtbrijtur sig i Skynseme Mañsins um allt Naatturuñar Rijke, epter þeim Maata sem hun fær vidteked i þessum daudlegum Lijkama; Eñ þo er þad fyrer øllu, ad hun þecker Gud siñ Skapara, og æ þañ Kost ad trwa æ hañ sier til Mykunar og Saaluhialpar, i hvoriu ad er iñefaleñ Endurskopun hiñs Iñra edur Andlega Mañsins. Þeink til þess,

 christeñ

christeñ Madur, ad þu fædest i þeña Heim Reidennar Barn, og daudur i Syndunum, Eph.2. Þvi hvad sem af Hollde er fædt þad er Hollд, Joh.3. Enn Holld og Blood erfa ecke Guds Rijke, 1.Cor. 15. Eñ Gud hefur af Oumrædelegre Elsku til þijn, endurgieted þig til eiñar lifande Vonar, 1. Pet. 1. og sett þig i sijns Sonar Rijke, Col. 1. so þu meiger Guds Barn kalladur verda, og Samarfe JEsu Christi; Og til þessa hefur hañ ecke vared Gulle nie Silfre, helldur sijns Eingietens Sonar dijrmæta Bloode; þvi so segier Paulus, P.G.20. Ad Gud hafe med sijnu eigeñ Bloode Søfnudeñ endurleyst, og þetta giørde hañ þegar þu enn varst hanns Ovinur, Rom. 5. Madurenn mætte segiast ꝏn Guds i Heimenum epter Falled, so sem Paall uñ Heidingiana talar, Eph.2. Madur enn Gud took Adam i Saatt aptur: Allt hanns Hyske mætte kvijda vid ad deya, enn skamast sijn ad lifa, enn hanns Owtsegiañlegu Giædsku og hinum diwpu Myskunar Ydrum (I hverium hann vitiade vor upprunnenn af Hædum, Luc. 2.) þeim er ad þacka, ad vier høfum frijañ Tilgang til Hꝏ-Stools Myskunareñar, P.G.5. Og skomunst vor ecke; þvi hann skamast sijn ecke ad kalla oss sijna Brædur, Ebr.2. Vier kvijdum ecke vid Daudanum, þvi hvert sem vier lifum eda deyum, þa erum vier DRottenns, Rom.14. Og þoott vier deyum, sem ꝏ hanns Nafn trwum, þa skulum vier samt lifa, so vier erum þess fullørugger, ad hverke Daude nie Lijf, hverke Englar nie Høfdingia-Stiett, nie Vellde, hverke Hæd nie Dypt, eda nockur oñur skopud Skiepna, fær oss skilэd vid þañ Kiærleika, sem er i Christo JEsu DRottne vorum, Rom.8. Hvad sijnist ydur, Br.M. Skylldum vier ei biooda hønum allar Aster, er vier høfum so Oteliande Velgiørder þeiged af? Hañ ed fyrergiefur oss daglega so margar Synder, hann ed ecke vill gleyma oss, þoott ad Moodurenn gleyme sijnu einasta Barne, Es.49. Hvers Hiarta ad brestur, so hañ hlijtur oss myskunsamur ad vera, Jerem. 31. þad fyrsta vier snwum oss til hanns af øllu Hiarta. Þañeg breiter hañ vid vorn innra Mann: Og so sem hañ forsorgar þañ ytra, edur Lijkamañ, so lætur hañ ecke helldur hiñ ꝏn Forsorgunar. Þad kienner JEsus oss i Textanum, er hann segier: Hvor Sem Elskar Mig, Hann Vardveiter Mijn Ord. Matur er Mañsins Meigeñ, segier Ordtæke gamallt; eñ so sem Lijkameñ ecke þrijfast kañ ꝏn Fædsluñar, so kann og ecke Saaleñ ꝏn Guds Orda, þvi þau eru heñar Foodur; Þar fyrer segier Endurlausnarenn, ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Er sꝏ nockur er elskar einhvern, ad hann hate hanns Mꝏl? Fiærre er þvi, helldur kieppunst vier vid ad eiga sem optast Tal vid þa er vier uñum vel; þar fyrer, ef vier segiunst Gud elska, þa afrækium ecke hañs Ord. Meñ hallda ad sꝏ Lijkame sie ecke heilbrigdur, sem velger vid Matnum, og hverium hañ verdur ecke til Notkunar; dylst og ecke þar vid, christeñ Madur, ad þijn Saala er ecke heilbrigd, og ecke elskar þu Gud, so sem byriar, ef þu hefur Leida ꝏ hañs Orde, og þykia þeir Tijmar leingster er þu ꝏtt ad hlijda þvi. Eñ hvad segier Paulus hier uñ 1.Cor.16.? Bølvadur vere sꝏ sem ecke elskar DRotteñ vorn JEsum Christum; þad er, hann mun eilijflega fyrerfarast: Og ecke einasta er þad Merke þeirra er Gud elska, ad þeir vardveita hañs Ord, helldur er þad Avoxtur hñs

Elsku

Elsku. Enn hvad er ad vardveita hanns Ord? Þad er ad giora epter þeim, ef ecke ad fullu, þvi þad er syndugum Mañe Omøgulegt, samt eigum vier ad leggia allt Kapp þar a, enn Elskann til Guds er ecke Ydiulaus, hun orkar þvi, ad Guds Bodord verda ecke þwng, so sem Johannes segier, 1. Pist. 5. So ad hver sem Gud elskar, hann hefur sijna Lysting i Løgmaale DRottens, og talar um̃ hañs Vegu Daga og Nætur, Ps. 1. Verde so Ydkaneñ ad Naatturu fyrer þeim sama Mañe, og hañ um̃ sijder eiñ Ande med Gude, 1. Cor. 6. Endurnijadur epter Mynd þess, er hann skapad hefur, Col. 3. Enn þvi velldur Elskañ til Guds, ad oss þyker Fæda þesse sætare eñ Hunang og Hunangs Seimur, Ps. 19. sem von er til, þar vier fiñum i þvi Krapt epterkomande Alldar, Hebr. 6. nær vier tijnum þa Molana, er detta af þvi Himneska Borde, med Trwareñar Muñe. Þvi skylldum vier þa ecke um̃ alla Hlute fram̃ stunda Elskuna til Guds er so margt gott med sier færer?

Eg vil ei tala um̃ þad, er hier stendur i Gudspiallenu: Og Fader Minn Mun Elska Hann. Engenn kann ad segia þad, hvad gott þad sie ad vera elskadur af Gude, nema hann, sem Gud elskar: Þvi ef nockur elskar Gud, hann er fæddur af honum, segier Paall, 1. Cor. 8. Og þegar riett-trwud Manneskia hefur sijna Unadsemd i DRottne, og gledur sig i hanns Elsku meir enn i nockru Giestabode, þa finnur hun hversu gott er ad vera af Gude elskadur; Þviad vor Elska a Gude er Avøxtur hanns Elsku til vor: Þær kuña ecke ad skilia helldur enn Sooleñ og Byrtañ; Þad vottar sa Læresveiñ sem JEsus elskade, 1. Pist. 4. Vier elskum hann þess vegna, ad hann elskade oss fyrre. Hver sem þeinker med sier, hversu vijs, hve maattugur, hve giædskufullur, hvad Obrigdull, hversu trwr, ad Gud er, hann mun segia, ad Abraham hafe goodur Hlutur i Skaut falled, þegar hann var Guds Vinur kalladur, Jac. 2. Enn ecke atte Abraham, ecke Lazarus, Joh. 11. Ecke Postular Christi, Joh. 15. alleiner þetta Nafn, helldur aller Abrahams Syner epter Andanum, Rom. 4. Þad eru aller riett-trwader, sem elska Gud, þeir eru eins vel til þess borner, þeim tilheyrer um̃ Alldur og Æfe þad Fyrerheit er Gud gaf Abraham, Gen. 17. Ad hann villde vera hanns Gud og hanns Sædis epter hann. Þann vantar fatt sem Konungureñ elskar, hann gietur sæmt hann med Tign og Heidre, hann gietur veitt honum Fullsælu Fiaar, hann gietur laated hann lifa ad Munudum sijnum, epter þvi sem hann er lyndur til, enn þo gietur hann ecke giört hann fullsælann, ei megnar hañ ad faa honum alltijd Heilsuna aptur ef hun missest, ei gietur hañ giefed honum Samvitskunnar Frid, og allra sijdst maa hann honum Himnarijked veita. Eñ hvad vill þañ vanta, sem Gud hefur til Vinar? Hañ rædur einn fyrer øllu þessu. Jeg veit Menn segia, ad Guds Viner sieu optlega vesæler, siwker, saarer, Offsookter, underþrickter, og a alla Vegu adþreingder; Enn þad er eckert Stoormerke fyrer Gud, ad hañ laate Vine sijna una vel Hag sijnum, nær þeim ad Oskum geingur, eins og Abraham, Isaac, Jacob, David, Salomon og adra fleyre; eñ þegar hann lætur Postulana gaanga glada wt fra Raadenu nær þeir hwdstrykter voru, P. G. 5. Þa Daniel syngur Gude Lof i Leona Grøfenne, Dan. 7. Þa Paulus og Silas eru kaater i Myrkva-Stofunne, P. G. 16. Þa

sia Meñ hversu goodur hañ er, hversu hañs Elska viñur alla Hlute, hvilijkur sia Fridur-enn er, sem Veröllden̄ maa ei giefa, og hvad maattugur hanns Kraptur er i Breiskleik-anum. Gud naade oss auma synduga Meñ? Hvad vinnum vær ecke fyrer Hiegoomañ, i Verolldenne, sem oss lyster til? Hvad sparar hinn stoorlaate fyrer Metord? Hinn A-giarne fyrer Aud? Hinn heiptrækne fyrer Töpun Ovina sinna? Og sinn er vid hveria Heimskuna bundenn, og þegar Menn eru so med miklu Erfide komner til añars meira, þa gieta þeir þo ecke sagt: et og dreck Saala mijn, Luc. 12. Og Dijred a Mörkenne, sem hefur sitt Fooстur, er sællra enn þeir, þvi þad ber ei Ahyggiu fyrer Morgun-Deigen-um: Enn ad naa Guds Vinaattu hyrda so saaer um̄, jafnvel þoott þa sie allt feinged, þa hun er feingenn, þvi hann elur Onn fyrer sijnum, og veit hvers ad þeir vidþurfa. Allt þetta færer Guds Elska med sier.

Enn uppaa þad ad Frelsarenn laate oss vita, hversu heitt hann elskar þa ed hann elska og vardveita hanns Ord, þa segier hann hier: Og Til Hanns Munum Vid Koma Og Vistarveru Hiaa Honum Giora. Er ei so, Br. M. ad vier heimsækium þa giarnañ, er vier kiæra hofum? Epter þessum mannlega Plagsid talar Christur: Hann þarf ecke ad ferdast laanga Vegu til ad heimsækia oss, þvi hann er Gud, hann er allstadar, hañ er ecke laangt fraa sierhverium einum af oss. Enn Frelsarenn kallar hier ad koma til vor, þegar hann kiemur med sinne Verkan og Astgiofum i Hiartad; Hañ hafde skom̄u adur sagt i þessum Capitula: Eg mun bidia minn Fodur ad hann sende ydur Anda Sannleiksins, saa ed blijfe hiaa ydur ad eilijfu, Joh. 14. Enn hier segiest hann aasamt Fodurnum vilia sialfur koma, so sem von er til, þvi hvar Fader og Sonur er, af hver-ium Andenn fram̄geingur, þar er og sialfur Andenn. Christur segiest vilia sijna sig þeim ed sig elska, enn hann sijner sig ecke nema fyrer H. Anda, þvi hann er þad, er vitnar um̄ hann og leider oss i allann Sañleika. Þegar þu nu, christenn Madur, situr under Heyrn Guds Orda, og þu fellst aa þad sem þar er af Guds Alfu talad; Þegar þu ydr-ast þinna Synda, sem þier verda þar fyrer Augun leiddar; Þegar þu trwer þo, ad hvar sem Syndenn yfirgnæfer, þa mune Naadenn yfirgnæfa miklu framar; Rom. 5. Þegar þu fær Leida aa Syndenne og kappkostar ad lifa nyum Lifnade; Þegar þu i Mañraun-unum fær Huggun nockra af þeirre Sælu-Von, sem þeim er heitenn er bera Krossenn epter Christo; Þegar þu hrærest til Medaumkunar yfir hinum volada, og Vandlæting-ar moote hinum Ogudlega; Nær þitt Hiarta brennur i þier, Luc. 24. er hann talar vid þig i sijnu Orde, og þu vid hann i þijnum Bænum; Þegar þu wteys þijnu Hiarta fyrer honum, og hann eys þar inn aptur Hugsvölun sijns Anda; Og i einu Orde ad segia: Þegar þu fiñur i Hiarta þijnu Elskuna til Guds og Naungans, sem alldrei kuña ad skil-ia, þegar þu allt þetta fiñur, þa maatt þu fullviss um̄ þad vera, ad öll Heilog Guddoom-sins Þrenning er ad Vistum med þier, og þu kañt ecke ad fara aa mis vid þad, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Ecke einasta segiest Endurlausnareñ aasamt sijnum Fodur vilia koma til vor, helldur Vistarveru hiaa oss giora. O! hvilijkt er þetta, Br. M. Hvadañ

kiemur

kiemur mier þad ad Mooder O Rottiñs mijns kiemur til mijn? sagdi Elizabeth Fordum vid Mariam, Luc. 1. Eñ meir er þad, ad sialfur O Rotteñ Drottnaña vill til vor koma; Ecki so sem hañ kom i Holldeð med Þræls Mynd, helldur med sijnum Guddooms Krapte i vor Hiortu; Eñ þad er eñ þa mest ad hañ vill Vistarveru hiaa oss giora. Þegar vorer Viner heimsækia oss, þa tefia þeir siallðañ lenge, og þess kiærare sm þeir eru oss, þess meira Angur laata þeir oss epter ad Skilnade; Eñ Christur hefur lofad, ad hañ vilie ecke laata oss epter eina, helldur vera hia oss allt til Veralldareñar Enda, Matth. 28. Ef vier yfergiefum hañ ecki, þa mun hañ oss alldrei yfergiefa, nema vier slockvum Andañ, 1. Thess. 5. þa mun hañs Lioos i oss æfiñlega breña, og vier i vorum Anda glooandi verda. Vorer Viner giora oss Kostnad, þa þeir vitia vor, jafnvel þott þad telie eingenn epter þeim sem hañ elskar; Eñ hiñ Almaattuge og alleina rijke Kongungur Dijrdariñar er ecki Kostnadarsamur, þar sem hañ er ad Heimbode; Hañ færer alls Nægter med sier, þvi allt Silfur og Gull er hañs, og oll Dijreñ aa Mörkinne, Ps. 50. Ecki vill hañ neinum tilsegia ef hañ hwngrar; Eñ ef hañ lætur sijna Elskendur vanta þetta, so sem hañ opt giorer, þa giefur hañ þeim i Stadeñ Allsnægta, þad Siñe, er lætur sier sijna Lucku nægia, hvad St. Paall kallar Aviñing Gudhrædslunnar, 1. Tim. 6. og þau þyggia eins vel af honum eiñ Bita Brauds, so sem full Hws Audæfa. Þegar Christur umgieckst hier aa Jordunne, kom hañ alldrei so i nockurs Riett-trwads Mañs Hws, ad hañ ei kiæme med Blessan. Hañ var eñ ecke i Heimiñ boriñ, þa hañ kom i Hus Zachariæ og Elizabethar, og þau aasamt Barninu i Moodurkvide fylltust af heilogum Anda, Luc. 1. Hañ kom i Hws Peturs og færde Moodur hañs Heilsu sijna, Matth. 8. Hañ kom i Capernaum og gaf hinum Limafallssiwka sijnar Synder kvittar, so hañ spratt upp og gieck, Matth. 9. Hañ kom i Jairi Hws, og færde hañs Dootter Lijfed aptur. Hann kom i Landsaalfur Tyri og Sidonis og rak Diofulenn wt af Doottur hinnar Cananisku, Matth. 15 Hañ kom i Hws Zachæi, og gaf þvi Hwsi Velferd aa þeim sama Degi, Luc. 19. So þad maa satt uñ hañ jaata, sem Petur sagde, ad hañ hafe geinged uñ krijng, giort Gott, og grædt alla, sem underþryckter voru af Dioflinum, P. G. 10. Eñ ef hañ þvilijkt giorde þegar hañ bar vorar Synder og erfidade i þeim, Es. 43. Hvad miklu stærre Hlute mun hann nu giora, þar hañ situr til Kraptarins hægre Handar, og er þo ad Vistum med oss aasamt Fodur sijnum og H. Anda? Hier uñ maa eg segia eins og Paall, Rom. 5. Ef vier erum sætter vid Gud, þegar vier vorum hañs Oviner, fyrer Dauda hanns Sonar, þa munum vier enn framar nu i Saatt komner hoolpner verda fyrer hanns Lijf. Gud blessade Obed Edom medañ Ork O Rotteñs var i hanns Hwse, 2. Sam. 6. Hier er Ork Saattmaalans aa millum Guds og Maña, JEsus Christus, sem er Naadar-Stooll fyrer hañs Blood, Rom. 3. Hvada Blessan mun honum ecki fylgia? Mig skal þad ecke undra þoott ad Guds Bornum, i hverjum hañ bygger, þyke lijted koma til Yferlætis Veralldariñar; Þar hañ, sem bijr i Himninum, hverium ad þioona Þusund og Tiusiñum Hundrad Þusund H. Engla, hañ hefur bwed sier Vist

i þeir-

i þeirra Hiarta hier a Jordunne, sem hann elska og hañs Ord vardveita. Þesse er sw Hĳñr Verolld, er eg i Upphafe talade uñ, hver ed uppbyriast hier i Nadiñi eñ fullkomnast sijdar i Dijrdeñe, þa Gud verdur allt i ollu, uñ hveria Esajas Spamadur, Cap. 64. og Paall Postule Samsaga verda, 1. Cor. 2. Ad þad hafi ecki Auga sied og ecke Eyra heyrt, og ei hafi þad i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komid, hvad Gud hafe þeim fyrerbwed er hann elska. Hana ad byggia, hennar niootande ad verda, og i henni eilijft Lof ad sijngia vorum Gudi, sem oss hefur Sigureñ giefid, unni oss sialfur hann, fyrer Son sinn JEsum, Amen.

# Annann Dag Hvijtasunnu.

Gudspialled, Joh. 3. Cap.

JEsus sagde til Nicodemum: So elskade Gud Heimiñ, ad hañ gaf wt siñ Eingietiñ Son, til þess, ad aller þeir, sem a hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf. Þvi eige sende Gud Son siñ i Heimiñ, ad hañ fyrerdæmde Heimiñ, helldur ad Heimureñ frelsest fyrer hañ. Hver a hañ trwir, fyrerdæmest eige. Eñ hver hañ trwer eige, hañ er nu þegar dæmdur, þvi hañ trwdi ecki a Nafn Eingietins Guds Sonar. Eñ þesse er Doomureñ; Ad Liooſed kom i Heimiñ, og Meñerner elskudu meir Myrkred eñ Liooſed, þviad þeirra Verk voru vond. Hver sem illa giorer, hañ hatar Liooſed, hañ kiemur og eige til Liooſsins, ad eige straffist hañs Verk. Eñ hver sem Sañleikañ giorer, hañ kiemur til Liooſsins, so hañs Giorder verde kuñar, þvi þær eru i Gude giordar.

Exordium.

ORwudum er allt mogulegt, seger Ritningeñ, Marc. 9. Þad hefur Christinndoomuriñ fram yfer adra Speke, ad hann verkar alla Hlute med Guds Krafte. Sijnast mætti ad Abraham, Fader Trwadra, hafe vered nockud holldlega Sinnadur, þegar hañ sagde vid Gud, er hañ hiet honum siñi Giædsku: Hvad villt þu giefa mier? Eg em Barnlaus, Gen. 15. Þviad i þad Sinn hefur Guds Vinur ecke lited nema epter Tijmañlegre Farsælld, enn Gud giorde betur vid hañ, þvi hañ þeckte hañs Hiarta, og gaf honum ecki einasta eiñ Son vid einni aldradre Kvinnu, Gen 21. helldur og þar ad auke einn Son af hañs Lendum, i hverium ad Blessadar eru allar Þiooder, Gen. 22. Þad er JEsus Christus, Matth. 1. Gud blessadur uñ Allder, enn þo fæddur af Fedrunum epter Holldinu, Rom. 9. Sa sem hann a, hann er alldrei Barnlaus, alldrei Arflaus, alldrei Hiaalparlaus; Þvi hann a þann, hver ad er DRottenn, sem er Maattugur til ad hiaalpa, hverium Gud hefur giefid Endimork Veralldariñar til Arfleifdar, Ps. 2. Þad Barn, sem oss er fædt, og þann Son, sem oss er giefiñ,

giefinn, a hvers Herdum ad er Hofdingia-Doomurinn, hvers Nafn hañ kallar, Undarlegur, Raad, Hetia, Styrkur, Fadir Eilijfdariñar, Fridar-Hofdinge, Es. 9 Peña sinn Eingietinn Son segier sialfur Sonurenn ad Fadirinn hafi wtgiefid fyrir Heimiñ i þessa Dags Evangelio, til þess ad aller þeir sem a hann trwa, skuli ei fyrirfarast, helldur hafa eilijft Lijf; Af hverium dijrmætu Ordum eg vil Tvennt hugleida.
1. Hversu vegleg ad sie þesse Gaafa. 2. Hvar til hun gagni oss.

Þu goode Gud, sem oss hefur hann sialfur Overdugum giefid, styrk oss med Raad þijns Anda, ad vier mættum þetta dijrmæta Eyrende so framkvæma, ad þier lijki, fyrir JEsu Christi Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

MEñ plaga ecke alleina ad virda eina Gaafu af þvi, hversu dijrmæt hun er i sialfri sier, helldur og hinu, af hverium hun er giefiñ, og med hveriu Giedi ad hun er wtilaatinn: Eg virdi meir þann Skeink, sem giefinn er af Konginum, helldur eñ af mijnum Lijka, og so er mier hvad kiærastur, er eg þigg af Fodur mijnum edur Vin þeim, sem er eins og sialfur eg. Nu heyrum vier i Textanum, ad þesse Astgiof sie fraa Gudi kominn. Eckert kañ þvilijkt ad segiast edur nefnast; So miklu ædri sem Gud er øllum sijnum Skepnum, so miklu er þesse Skeinkur dijrdlegri øllu þvi er adrer giefa, eigi sijdst fyrer hañs Skulld, sem giefid hefur. Land-Stioornariñ i Epheso, er hañ villdi stilla til Fridar Borgar-Mwgiñ, sem Demetrius hafdi uppæst a mooti þeim St. Paale, P.G. 19. Hañ fañ eckert gylldara til ad sefa þaa med, eñ þad, ad hañ sagde, ad Bijlæti hiñar miklu Dianæ i Epheso væri af Himnum ofañfallid. So var nu Andskotinn kroftugur i Bornum Vantrwariñar, ad Heidingiar skipudust alleina vid þad, sem adur voru so Olmir, ad Ærslum giegnde, af þvi þeim þootti þad Soomi so mikill, ad þeirra Fulltrwi skylldi fraa Himnum komiñ vera. Ættum vier þa ecki, Christner Meñ, ad leggia hina mestu Virdingu, Ast og Elsku a þad, sem vier vitum komid vera fraa hinum saña Gude, hver ed øllu stioornar bæde a Himne og Jordu, og jafnvel þad sem vier kollum hañs miñstu Gaafur, sem þo eingvar litlar eru, aukhelldur þad, ad hañ hefur giefid oss sinn Son? Jacob seger, ad øll good Giof og øll fullkominn Giof komi ad ofann fraa Fodur Liooſaña, Jac. 1. Enn af hveriu Giede, ad Fadir Liooſanna hafi oss giefid þessa Giof, sem er øllum meire, þad segier hann oss sialfur i Gudspiallinu, med þessum Ordum: So Elskade Gud Heiminn. Laangt vorum vier fraa þvi, synduger Ormar, Utlæger fraa Gude og hañs Helgidome, ad þad være nockurt hia oss, nema Eymdinn ein, er mætti hræra Gud til Medaumkunar, auk helldur hañ kyñe ad elska oss fyrir nockra vora Verdskulldan og Agiæte. Mañeskiañ var so a sig komiñ efter Synda-Fallid, ad Ritningiñ talar þar so um, efter mannlegum Plagsid, Gen. 6. Gud ydrade þess ad hañ hafde Mañiñ skapad; Og samt elskade hann oss þo so, ad hann gaf oss ecki nockra almeñilega Gaafu, so sem þegar hañ lætur rigna yfer Vonda og Gooda, og Soolina uppreña yfir Raanglaata og Riettlaata, Matth. 5. helldur sinn Eingietinn Son, og þad ad

 fyrra

fyrra Bragde, edur eñ vier hofdum Vit æ, edur nockra Atburde til ad elska hann. J þvi er Kiærleikurenn, seger Johañes, 1. Pist. 4. Cap. Ecki ad vier elskudum Gud, helldur ad hañ elskade oss, og wtsende sinn Son til Forlijkunar fyrer Synder vorar. Eg ætla ad vorum fyrstu Forelldrum yrdi nærsta Raadfaatt i Paradijs, þegar þau hofdu Gud styggdann. Mundu þau hafa nockra Vidleitni ad blijdka hann? Mundu þau gieta hitt uppæ þetta guddoomlega Vijsdooms Rææd? Ad Gud skyllde Madur verda til þess, ad forliika Heiminn vid sialfann sig. Fæævijs voru þau til þess, Atburdirner voru þeir einer ad fela sig, þvi þau voru nakiñ, Gen. 3. og ad bera Skulldina af sier hvert um sig: Þesse voru Urrædenn einasta. O hvilijk Dypt Audæfanna og Guds Speke! Rom. 11. Sneña brautst wt hin guddoomlega Elska af hañs Hiarta. Strax er hann hafdi lagt hinn riettvijsa Doom æ Manninn, ad hann skylldi deya, lagde hañ þæ lyknarfullu Boot med, ad Kvinnunnar Sæde skylldi i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Þetta sitt Myskunar-rijka Fyrerheit hefur hañ efnt i Sendingu sijns Eingietins Sonar hijngad i vort auma Holld fæddann af Kvinnunne, enn þa þegar vier vorum hañs Ovin-er, Rom. 5. Þegar vier enn þa vorum dauder i vorum Syndum. Þessi er hin guddoomlega Elska, er DRottinn prijsar hier i Gudspiallinu, og þad ecke um Skor fram, þvi Paulus talar hier um, Rom. 8. ad Gud hafi ecki þyrmt sijnum Eingietnum Syne helldur giefid hañ wt fyrer oss alla; Hann sparade hann ecki til ad fædast i Armood, ecki til ad verda Land-Flootta, ecki til ad þola Skamir og Hæædungar af þeim, sem hann took undann eilijfre Skoñ og Hæædung, ecki til ad lijda Krossins Dauda fyrir þæ, er hann deyddu, og ecki til ad þola Helvijtis Pijsler fyrer þæ, sem hofdu giort Samband vid Dauðañ og Saattmææla vid Helvijte, Esa. 28. Hañ sparade hañ ecki fyrir Syndina, sem Gudi alleina illa lijkar, Ps. 5. helldur giorde hann, i hverium honum alleina velþocknast, ad Synd, jafnvel þoott ecki vissi hann af Synd, 2. Cor. 5. Einginn elskar nockurn meir eñ þad, ad hañ giefur sitt Lijf wt fyrir hañ, seger Lausnareñ: Eñ Gud elskar siñ Son eins og sitt eiged Lijf, þviad hañ er Lioomi hañs Dijrdar, Hebr. 1. Hann er sææ sem er i hanns Skaute; Enn fyrer þvi, ad Gud kunni ecke einsamann ad deya, liet hañ siñ Son deya i mannlegu Hollde, i mannlegre Nææturu, er hann af Fedrunum hafde, hver, (fyrer þvi ad i honum bijr oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2.) þa heitir hañ sææ Madur, sem honum er nærstur, Zach. 13. Jææ, hanns Sonur, jafnvel epter Mañdoominum, ecki eiñ Sonur, er sie Ættleidingur, so sem vier erum fyrir hañs Skulld, helldur Guds himneska Fodur næætturlegur Sonur, fyrir Jbwd Guddoomsins, þvi Texteñ segier: Ad hañ hafi wtgiefid siñ Eingietiñ Son: Hvad ecke ææ ad skiliast efter Guddoominum alleina, helldur og efter Mañdoominum eingu sijdur, þviad i honum hefur hañ Kvol og Dauda lided, og allt þad er hann vann til Arnadar og Myskunar syndugu Mañkyni. Eingiñ vill missa siñ Son; Jakob villdi ei voga sijnum yngsta Syne i þææ Hættu, ad lææta hann fara med sijnum Brædrum ofann til Ægyptalands, þoott þeir neiddu hann þar um, Gen. 42. og þeim læge Lijfed ææ. Enn Gud gaf oss siñ Son

O-hediñ,

O=bedeñ,og ofurselldе hann i Daudans Kvøl fyrer oss, sem ecke vorum Syner, helldur Reidennar Born,og, af Natturunne til, Satans Prælar,Eph.2. Kvinnann sw sem umgietur 1. Kong. 3. hun villde helldur, ad sw sem ecke var Mooder skyllde eignast siñ Son, helldur enn Lijfed være af honum teked; so miog elskade hun sitt Lijfs Afkvæme: Hun villde viña þad til, ad Ovina siin mætte hafa Glede af Barnenu,so þad mætte þo Lijfe hallda,þvi heñar Ydur tendrudust upp sijns Sonar vegna, segier Ritningeñ. Enn hiñ eilijfe Bruñur Giædskuñar vitiade vor fyrer sijn Myskunar Ydur, og elskade so Heimeñ ad hañ wtgaf siñ Eingieteñ Son i Daudañ, uppa þad,ad aller þeir sem a hann trwa,hefdu eilijft Lijf. Þegar DRotteñ spaer um Giædsku sijna, er hañ vilie audsijna sijnu Foolke fyrer Christum og i Christo, þa tekur hañ so til Orda, Malach.3. Eg skal tiaa þeim Myskunseme,so sem eiñ tiaer Myskun sijnum Syne,þeim er stundar hann. Miñ HErra og minn Gud! Vier meigum þad med Kinn=Roda medkienna,ad þu hefur sijnt oss meire Myskun enn þijnum Eingietna Syne a hañs Dauda Deige: Hañ vard ecke bænheyrdur, er hann beidde, ad Reidennar Kaleikur mætte fra sier takast, Matth.26. Ja,ecke þott hann beidde i heilar Þriar Reisur: Enn hvers vier bidium þig i hanns Nafne,þad villt þu veita oss,Joh. 16. Þad skal skie (þad eru þijn eigenn Ord),ad adur eñ vier bidium,þa villt þu bænheyra,Esa.65. Þiñ Eingietenn Sonur fieck einga Vægd, jafnvel þott engenn kynne ad straffa hann um nockra Synd, Joh. 8. Enn vier høfum Myskun odlast,sem til alls ills høfum uñed. Þinn Sonur fieck eckert ad svala sier med i hinne bitru Þijnu,nema Gall og Edik,Matth. 27. Laater þu oss nockud til Handa bera til þess ad lijkiast honum; Laater þu oss drecka hanns Kaleik, Ps.116. hier i Nadeñe,þa kriddar þu hañ med Svølun þijns H. Anda. Þu dreiper a oss med Sætleik epterkomande Alldar, og leider oss fram ad ferskum Vøtnum; So miklu betre Koste høfum vier nu Prælarner ad bwa vid,enn þinn Eingietenn Sonur! Hver er sa af oss,ad hañ ecke hafe þar hañ meige Høfde sijnu adhalla? Matth.8. Hver er so ofsooktur,pijndur og kvalenn,sem hann var? A hverium hefur þvilijk Hegning leiged? Satt er þad,ad hann er iñgeingeñ i sijna Dijrd,Luc.24. ad øllu þessu afloknu: Eñ vier, sem ad varla drepum hinu minnsta vors Fingurs i þiñar Reide=Flood,Luc.16. sem gieck yfir Høfud honum; Vier skulum og inngaanga i hañs Dijrd,ef vier trwum a hann; Og er þad Maala sannast ad vier viñum so lijted sem eckert til þeirrar Dijrdar,sem hann hefur oss med sinne Kvøl afrekad (Þott vier bærum Jobs Kaun,Job. 2. og Gihezi Lijkþra allt fra Vøgguñe til Grafareñar)hia þvi sem hañ þolad hefur fyrer vorar Synder. Honum sie Lof,Dijrd og Heidur um Allder, Amen. So hefe eg nu allt hijngad til nockud talad um Agiæte þessarar Himnesku Gaafu; Epterfylger ad tala um hennar Gagnseme.

Nytseme eins Hlutar metum vier af Tveñu; Añadhvert, ad hañ gagnar oss til ad umflija hid Vonda,edur til ad odlast hid Gooda. Hverutveggia finnum vier i Utsendingu Guds Eingietens Sonar.: Þad fyrra kienner hann oss i Gudspiallenu, med þessum Ordum: Ad Aller Þeir Sem A Hann Trwa Fyrerfarest Ecke. Tveñt hefur og Drotteñ

enn til þess giort, ad þeir skule ecke fyrerfaraſt sem aa hann trwa. Fyrst þad, ad hañ hefur lided þeim til Epterdæmis; Þad Annad, ad hañ hefur lided þeim til Forlijkunar. Um þid Fyrra talar St. Petur, 1. Pist. 2. segiande: Christur er dæeñ fyrer oss, og hefur oss epterlaated þad Dæme, ad þier gaanged i hanns Footspor. Þegar hinn gamle Adam, sem bijr i oss, aa ad leggia wt þau dijrmætu Ord, sem Paulus skrifar, Rom. 8. Ad sa sem ecke þyrmde sijnum eigenn Syne, helldur gaf hañ wt fyrer oss alla, hvar fyrer skyllde hañ ecke giefens veita oss alla Hlute med honum? Þa skilur hann þau um̃ þad, sem honum lijkar; Honum þyker ecke miked koma til þess Lijffins Brauds, sem af Himnum er ofañkomed, Joh. 6. Hann vill Kiøt hafa, Num. 11. Og er ecke til Frids ella; Þad er Sælgiæte Holldsins og þess Munadur, hann etur sig fullann þar af, þar til þad geingur wt um̃ hañs Naser og sealgar þeim, er ala hañ so kappsamlega, so þeir drepaſt Þusundum samañ, og verda Helvijtis Ellds-Matur ad sijdurstuñe. Enn þegar Paulus nefner hier alla Hlute, þa meinar hann þa ed Saalunne gagna; Þad er audsært af øllum þessum sama Capitula, hvadann Ordeñ tekenn eru: Hvar af vier siaaum, Br. M. ad ecke er Guds Sonur oss til þess sendur, ad vier skulum laata epter Holldenu þess Gyrnder ad rækia, Rom. 13 ef vier vilium aa Guds Son trwa, so vier fyrerforunst ecke; Helldur, so sem hann er einusinne dæenn Syndenne, segier Paulus, Rom. 6. Þad er, fyrer Syndena, og deyr ecke framar, so eigum vier henne daglega ad deya, og med honum daglega ad upprijsa, ad vier ei framar lifum i henne: So sem hann hefur sigrad Heimeñ, so eigum vier ad forsmaa Heimeñ, og so sem hañ hefur wtsnarad Dioflenum og troded hann under sinna Barna Fætur, Rom. 16. So eigum vier ad reka hann wt wr Hiarta voru, med øllu hanns Hyske. Vier eigum ecke ad hafa eina Klauf epter aa Ægyptalande, Exod. 10. helldur brenna upp þann Amalechita med øllu hanns Gotze, kviku og daudu, 1. Sam. 15. med sanñre Ydran og Aflaate Syndanna, so ei verde Israels Rijke fraa oss teked. Þad kienner oss Paulus, 1. Cor. 11. Ef vier dæmdum sialfa oss, þa yrdum vier ecke dæmder, enn þegar vier dæmunst af DRottne, þa verdum vier leidrietter, so ad vier ecke fordæmunst med Heimenum. Þannig er oss nu Christur sendur til Epterdæmis, bæde i Lifnadenum og so i Krossburdenum: Hverutveggia er Omissande til þess ad um̃flija Topunena: Enn forgiefens hefde hann lided oss til Epterdæmes nema hann og hefde lided oss til Forlijkunar. Hvar fyrer, til Forlijkunar? Þvi vier vorum missaatter vid Gud. Hvers vegna? Fyrer Syndena; Hvad hafde Syndeñ forþienad? Eilijfañ Elld med Dioflenum og øllum hañs Arum. Hver hefur Syndena burtteked? Þad hefur Guds Sonur giort, er hañ bar hana uppaa Tried, segier Petur, 1. Pet. 2. Þvi sagde Johannes Skijrare, er hann leit Christum koma til sijn; Siaaed þad Guds Lamb, sem i burtu ber Heimsins Synder, Joh. 1.

Til þessa þyker Heimenum lijted koma; Eg trwe hann dylieſt vid, ad þar mune so heitt i Satans Badstofu, sem Prestarner segia, añars mundu Meñ ecke bidia sier og ødrum so optlega Helvijtes, sem Menn giora; Enn vilied þier ecke trwa þeim, þa trwed Guds

Orde

Orde, trwed Ritningunne. Eg veit ad ydur þyker þad lijted, Heimsins Børnum, ad þier skulud alldrei um̃ Æfe Gud sia i Dijrdenne, þvi þier hafed alldrei sied hann nie hyrdt um̃ ad sia i Nadenne; Enn so þyker Paale þad miked, ad hann segier: Ogudleger munu straffast med eilijfre Glotun, fiarlæger Auglite Guds og Mætte hans Dijrdar, 2.Theff.1. Enn hlusted til hinns, ad þar mun verda Op og Tanna-Gnijstran, Luc. 13. Þeir munu eta sijnar Twngur wt af Pijnu, Openb.16. Þessar Pijsler eru Vægdarlausar, Jac. 2. Og ecke so sem þessa Heims Mootlæte, hvar Menn sia nockra Linun a Stundum; Þeirra Ormur mun ecke deya, og þeirra Elldur ecke wtslockna, Es. 66. Þad er eilijf Smaan, Dan.12. Eilijf Hegning, Matth.25. Og Þoka Myrkranna, Jud.v.13. Sem um̃ Eilijfd er tilbwenn hinum Ogudlegu, 2. Pet. 2. Ef þier nu hafed nockra Lijkamlega Tilfinning, ef þier varla lifad gieted, þa ydur vantar Sælgiæte ydar og veniulegañ Adbwnad, ef þier gieted ecke af ydur bored nær þier sæked Hofudverk edur Sijdu-Stijng, hvad mun þa verda i Ellds-Dijkenu, sem vellur af Ellde og Brennesteine, Openb.21. Ef ein lijtel Vanvirda, er þier so kalled i þessu Lijfe, kvelur so ydar Hiarta, ad þier svijfist einkis til ad hefna ydar, hvad mun þa verda hin eilijfa Skom̃? Þier munud þeinkia, ad engenn hafe yfir ødrum ad stæra sig a þessu Forsmaanarennar Lande; enn giæted þess, ad þier munud kveliast i Augsijn H. Engla, Op. 14. hvorra Lagsmeñ ad eru Guds Utvallder, er þier foot-troded hafed i ydar Velmagt. Þier munud sia alla Heilaga i Guds Rijke, Luc. 13. Enn ydur wtkastad, ia, margann þañ, sem þier Oriett giort og uppsvelgt hafed, og ecke reiknad verdugañ ad þurka ydar Skoo, þa munud þier sia til Bords sitia med Abraham, Isaac og Jacob i Rijke Himnanna; Þegar hiner fordæmdu Glotunarennar Syner sia þetta fyrst, þa mun Ofundar-Ormureñ taka til ad bijta af Alvøru, þa mun ecke duga ad sefa hann med Lijflæte Abels, Gen.4. nie Mansale Josephs, Gen. 37. edur Drape Naboths, 1.Kong.B.21. Þvi hañ mun alldrei deya, Es. 66. Og vilied þier ecke ødrum Guds Moñum trwa hier til, og segied: Ad hverke Esaias, Jacob, Petur nie Judas hafe vered i Helvijte, ad þeir kune þar fra ad segia, (so sem margur Gloopur lætur sier um̃ Munn fara) þa trwed þo Guds Syne. O þu hin vantrwada Kynslood! Hañ var i Helvijte, þegar hañ kvaldest fyrer ydar Synder, so þier skylldud ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf. Engenn kann betur ad segia oss, hvernig þar er hattad, helldur enn hann, sem þad hefur tilbwed handa Dioflenum, hann ed sialfur hefur þolad Helvijtis Pijsler, hann ed sialfur er þangad ofannfarenn til ad predika Ondunum i Fangelsenu, 1.Pet.3. Þad er, til ad straffa þa. Hann er Guds Sonur, hann ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr.1. Allt Valld er honum giefed bæde a Himne og Jordu, Matt.28. Og vard Helvijte honum þo so heitt, ad hann sveittest Bloodenu, Luc. 22. Og hroopade a Krossenum: Gud Minn, Gud Minn, Þvi Hefur Þu Yfergiefed Mig? Matth. 27. O! Vatns Boola, O! Hey-Strá, munt þu þa gieta bwed vid þennann fortærande Elld? Og þu skallt þar þo eilijflega bwa, nema þu ydrest og trwer a Sonenn, Joh. 3.

Vilied þier nu ecke Guds Syne trwa, þvi þad er so gamallt, ad hønum er lijtt-trwad af Heimenum, þa trwed þo Diøflunum; Þier erud vaner þeim ad trwa, þoott þeir liwge, giøred þeim ecke þann Oriett ad trwa þeim ecke, nær þeir satt segia. Þegar DRottenn rak hina mørgu Diøfla wt af hinum Ooda Gadareno, Matth. 5. þa bœdu þeir hañ ad skipa sier ecke i Underdiwpeñ, Luc. 8. þad er i Helvijte (þvi so kallast þad Openb. 9. og vijdar); So kvidu þeir vid þeim Loga, sem alvaner voru Kvølunum. Seig mier, mun þier ecke bregda vid, ef þier yrde ad Skyndingu burt kyppt wr øllu þijnu Sælgiœte og steypt i Helvijte og Kvalernar, eins og hinum Rijka? Luc. 16. J þetta Sinn tøludu Diøflarner Alvøru, þvi þeir rœku sitt eiged Eyrende, enn ad þier liwga þeir, syndugur Madur, og mœla upp fyrer þier Helvijte eins og adra Konungs-Høll; trw þeim ecke, þvi Fader þeirra er Ligare frœ Upphafe, hann stood ecke i Sannleikanum, ei helldur þeir, þar fyrer eru þeir i Helvijte ofann steipter, og bundner Myrkraña-Hleckium, 2. Pet. 2.

Til ad frelsa oss frœ þessum Oskopum er nu Guds Sonur wtgiefinn, til þess er hann fœddur, hwdstryktur og œ Krossenn negldur; Eñ Gudspialled segier oss enn nu meira: Helldur Ad Hañ Hefde Eilijft Lijf; stendur hier. Þad er vitannlegt af St. Pœls Ordum, Eph. 2. Ad vier fœdunst dauder i Syndenne; Þad nœtturleaa Lijffærer med sier andlegañ Dauda. Nær tokum vier til ad deya Syndiñi? Þœ vier lifnum i Skijrneñe, fiñ Mooder vor, christeleg Kyrkia, med oss fyrst eitt andlegt Lijfs-Mark. Fyrer hvern? Fyrer hañ, sem af Gude er wtgiefeñ, til þess ad Heimureñ skyllde hafa eilijft Lijf; so segier Pœll, Tit. 3. Ad Gud hafe rijkuglega wthellt yfir oss Heiløgum Anda fyrer JEsum Christum vorn Heilsugiafara, so ad vier riettlœter fyrer hanns Nœd yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs; Eñ sœ sem skal eilijfs Lijfs nioota, hañ verdur hier i Lijfe fyrst ad lifa Andlegu Lijfe; þad hliootum vier i Skijrnenne, sem sagt er. Þess gietur St. Petur, er hañ segier; Ad Gud hafe endurgieted oss til lifande Vonar, 1. Pet. 2. Enn þad kañ audvelldlega aptur ad missast, so vel sem þad Lijkamlega, nema hiñ iñre Madureñ, sem i fyrstuñe er eins og Brioostmylkingur œ sig komenn, nema hañ sie daglega nærdur og endurnijadur: Þvi lætur Paulus þetta fylgia hvert ødru, segiande: Tit. 3. Ad Gud hafe oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena og Endurnijungar Heilags Anda. Þennann Andlega Voxt og Proska ødlunst vier eins vel fyrer Christum so vel sem hid Andlega Lijf i Fyrstunne; Þad kienner oss Paulus, Eph. 2. segiande: Vier erum Guds Verk, skapader i JEsu Christo til goodra Verka, hvør Gud hefur tilbwed, ad vier gaungum i þeim. Sœleñ yelldur þvi ad Lijkamenn vex; Ecke giører þad Fœdslañ alleina, helldur er hun so sem nockurskonar Medal, i hvøriu ad verkar Mañsins Ande hønum til Proska, þar til hañ fullvaxenn er. Christur er vort Andlegt Lijf, hañ er Lijf hiñs iñra Mañsins. Fœdañ er Guds Ord, i þvi verkar hann med sijnum Anda, þar til vier nœum ad vaxa epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 4. Og þetta Andlega Lijf er nu foolged i Deydingu Holldsins: Þau Tvø eru hvort œ moote ødru; Eins Lijf er añars Daude; Hiñ gamle Madureñ og hiñ nije, sem epter Gude er

skap-

skapadur, þeir berast Bana-Spioot epter, eñ so er Munurenñ, ad hiñ Gamle fær saalg-
ad hinum Nija i einu, so hañ a Stundum alldrei vidraknar aptur, eñ hiñ Nye fær alld-
rei so drepid hiñ Gamla, ad hañ ecke aptur gange. Til Fanga verdur hañ tekeñ fyrer
Guds Krapt, eñ alldrei verdur honum so fyrerkomed, ad ei briooteſt hañ uñ so lenge vier
erum i Holldinu. Vel sie þeim, er gieta lagt hin sterkustu Fiotur a hañ! Og þvi kallast
hañ daudur, þegar hañ næer ecke ad framkvæma sijnar Gyrnder: Þegar Meñ hepta
Reidina og Gyrndina, og adrar Tilhneigingar, sem af þeim vaxa, med Christi Anda, þa
heitir hiñ gamle Adam daudur; Þvi lijser Paulus, er hañ seger, Col. 3. Þier erud da-
uder og ydar Lijf er foolged med Christo i Gude. Hver hefur nu afrekad oss þetta Lijf?
Þad hefur Christur, sem ad er vort Lijf, eñ var wtgiefiñ i Daudañ fyrer oss, so vier hefd-
um eilijft Lijf, Þad vottar Paall eñ aptur, Gal. 2. segiande: Eg em Krossfestur med
Christo, eñ life þo samt; Ecke eg nu, helldur lifer Christur i mier, eñ þad eg life i Holldinu,
þad life eg fyrir Trw Guds Sonar, er mig elskad hefur og wtgiefid sialfañ sig fyrer mig.
Af þessu Lijfe framkiemur hid eilijfa Lijf, sem adur er sagt. Menn biooda ecke daudum
Moñum til Bords, helldur lifande; So mun og eingenn Bordsettur verda med Abra-
ham Isaac og Jacob, nema Daudeñ, hver ad er Sendebode, hitti hañ lifande i Christo.

Hier seger i Gudspiallinu, ad Gud hafi so elskad HEIMinn: Þad er alla Menn,
þvi aller vill hann ad hoolpner verde, og komest til Sannleiksins Vidurkienningar; 1.
Tim. 2. Enn þvi velldur Fiandmadurenn, sem er Mordinge Saalnaña, ad hanns gud-
doomlege Kiærleike fær þvi ei til Vegar komid, ad aller hoolpner verde. Þvi stendur
hier, ad þetta eilijfa Lijf hlotnist þeim alleina, sem a Guds Son trwa: Eñ hvilijk Saa-
sa er þetta Lijf, Born mijn? Vier kunnum ecke ad leida oss i Hug nie Hiarta hvilijkt
þad sie, nema hvad vier af Guds Orde heyrum, nema hvad Guds Ande sijner oss so
sem fyrer Spegil og i Raadgaatu, 1. Cor. 13. Þegar hañ lætur oss þad smacka, og
vekur i oss Sætleik epterkomande Alldar; Þad er Gnoogt Fagnadarins og gledilegt
Lijferni til Fodursins hægri Handar, Ps. 16. Vorer Lijkamir verda Englunum jafn-
er, Luc. 20. Ja, samlijker Christi dijrdlegum Lijkamg, Phil. 3. Þeir munu einkis vid-
þurfa, ei Fædslu nie Fatnadar, þvi Guds Rijki er ecki Matur nie Dryckur, helldur
Fridur og Fognudur i H. Anda, Rom. 14. Þeir munu Dijrdinne Iklædder verda,
og skijna eins og Sool i Rijke sijns Fodur, Matth. 13. Vorar Saaler munu i Oum-
rædilegum Fognude lifa, 1. Pet. 1. Dijrdleger Hluter verda i þier talader, þu Borg
DRottens, seger David, Ps. 87. er hann spaaer uñ Christnena; Eñ Paulus segest
hafa heyrt i hinum Þridia Himne Oumrædileg Ord, sem einginn fær wt-talad, 2. Cor.
12. Veralldarinnar Sælgiæte er alldrei so mikid, alldrei so margvijslegt, ad ei faae
Meñ Leida a þvi; Þeir sem hafa sijna Unadsemd þar i, verda þo ad kridda þad med Af-
laate nockru. Eiñ skal hungra adur eñ Matureñ smackar vel, hañ skal þyrsta adur enn
Dryckureñ þyker honum goodur; Eñ i Sælu-Himnaña er eckert Aflaat, einguñ Bid ept-
er nockru, þvi so sem Englarner sia jafnañ Guds Fodur Andlit, Matth. 18. So mun-

um

um vier og giora, þar vier erum Englunum jafner, i hveriu øll Sæla er fooleginn. Job i øllum siinum Mann-raunum huggar sig þar vid einasta, ad hann muni siñ Endurlausnara sia med þessum Augum (seger hañ) Job. 19. þad er med siinum Liikamlegum Augum. Þegar Paulus hafde eitt Sinn vered i Himninum og sied Guds Dijrd, þad var hønum so Minnisstædt, ad hann wr þvi villde alla Hlute lijda fyrer Christi Saker; Og þañeg eru þeir lynder, sem Gud opiñberar siina Dijrd i Hiartanu, med Von epterkomande Dijrdar. Eñ ef þañeg er vort Fœngelse, Br. M. hvilijkt mun þa Kongs Riiked verda? Þad er ecke ad undra, þoott hin saña Guds Kyrkia stynie og andvarpe i Himniñ epter Guds Barna Sælu, Rom. 8. þar Guds Andlit lijser yfer heñe, þoott ei siaum vier hañ hier Auglite til Auglitis, helldur so sem i Speigle og i Raad-Gaatu, 1. Cor. 13. Aristoteles var eitt Siñ spurdur ad, hvad Friidleikureñ være? Eñ hañ svarade ad þad væri fyrir blindañ Mann ad spyria ad. O oss auma! Þoott oss af øllu Hiarta længe epter ad sia hiñ lifanda Gud, þa sia Menn þad ecke fyrer Blindu Holldsins, og er þo Efterlaungun þesse miklu iñdælle, eñ allur Fognudur Veralldarinnar. Gud hafde lagt miked til Moysen, og priidt hann med kostulegum Gaafum fram yfer adra Meñ, og þo var hann ecke ænægdur, nema hann mætte sia Gud; Þad var hønum ecke noog ad tala vid hann, eins og Madur vid Mann, Exod. 33. helldur villde hann og sia hañs Dijrdar-Lioома, hefde hann þad mætt, og lifa. Hvilijk er nu Guds Barna Sæla i eilijfu Lijfe, og miklu meire, ædre og dijrdlegre, enn ad nockur syndug Tunga fæe wt-talad. Hugleided nu, Christner Menn, hvilijka Astgiof Menn þeged hafa i Utsendingu Guds Eingietins Sonar. Hann er wtgiefinn til þess ad ei skylldud þier fyrerfarast, ecki brenna i hinum gloandе Helvijtis Ofne, ecki verda Lagsmenn Dioflanna i Myrkrañа Fœngelse, ecke bera eilijfa Skøm og Forsmaan, sem þier med ydar Syndum hafed forþienad; Hann er wtgiefiñ til þess, ad þier hafid eilijft Lijf, eilijfa Sælu, eilijfann Fognud og Unadsemd um Allder Allda, hvar þier sia munud, so sem þier erud siener, og þeckia so sem þier þeckter verded, 1. Cor. 13. Þier munud sia Guds Hatign, er ydur hefur skapad, gledia ydur i hanns Elsku, er knwde hann til ad giefa ydur þenna siñ Son; Þier munud sia ydar Frelsara, er ydur hefur leyst med siinum Dauda wr eilijfu Bañe, þier munud sia ydar Holld og Blood upphafed a Guds Tignar-Stool hønum til hægri Handar; Þier munud sia H. Anda framgaangande af Fodur og Syne, þann gooda Anda Guds, sem ydur hefur endurgietid, endurnijad, leidt i allann Sannleika, straffad i ydur Syndena, huggad ydur aptur, styrkt ydur i Mootgaanginum: Og þa munud þier fyrst sia, ad Harmkvæle þessara Tijma voru ecki verd þeirrar Dijrdar, sem ydur er þa auglijst, Rom. 8. Børn mijn, hveriu vilied þier nu giallda fyrer þessa stooru Elsku? Hvers krefur hañ af ydur? Einkis nema ad þier elsked hañ aptur i moot. Hvar mz verdur þad giort? Ecke med Orde og Tungu, helldur enn Naaungañ, helldur med Verki og Sannleika, 1. Joh. 3. Gudi var Alvara ad giefa oss sinn Son. Laatum oss vera þad Alvoru ad elska hañ aptur. Ef þier elsked mig, þa vardveited mijn Bodord, seger Christ

Christur, Joh. 14. Giorum so, þa lœtum vier hann siœ, ad vier elskum hann, edur, ef riett skal segia, vier siœum þad sialfer og finnum þad, þvi ecki þarf hann ad leitast epter hvert vier elskum hann, sem rannsakar Hiortunn og Nijrunn; Eñ ef vier vilium vita sialfer hvert vier elskum Gud edur ei, þa sporum eckert fyrer hañs Skulld, eins og hañ þyrmdi ecki sijnum Eingietnum Syni fyrir vora Skulld; Þviad i þvi auglijsti hañ sijna Ellsku. Brennum upp allar vorar Tilhneigingar med Elskuñe til hañs, hun er einn Elldur; Ef vier erum Abrahams Syner, Joh. 8. Ef vier hofum Trw Abrahams, þa giorum Abrahams Verk, Jac. 2. Hañ villdi foornfæra sijnum eigiñ Syni, og trwde Gude ad hañ munde kuña ad giora hañ lifande af Daudum, Rom. 4. Giorum eins! Offrum Gude þvi sem oss kiærast er, þad er Vilieñ vor; Lœtum ecke epter honum, eins og David Syne sijnum Adoniœ, þegar hañ sœ ad hañ villde rijkia; Hañ var so Barnsœr, ad hañ neñti ecki ad œngra hañ; Breytum i odru epter David, eñ ecki i þessu: Helldur drepum vorn Vilia þegar hañ vill giora Uppreist œ mooti Guds Vilia, og segium: Verdi þiñ Vilie! Þa mun Gud hañ aptur lifande giora med sijnum Vilia, so ad vier vilium þad sem hann vill, og ad hañs Vilie framkvœmist œ oss, sem er sœ, ad vier eignunst eilijft Lijf. Þad veite oss Gud Fader af Nœd sinni og Myskun, J JEsu Nafne, Amen.

# Þridia Dag Hvijtasunnu.

Gudspialled, Joh. 10. Cap.

JEsus sagde til Phariseaña: Sañlega, Sañlega sege eg ydur: Hver hañ geingur ei iñ um Dyrnar i Sauda-Hwsed, helldur stijgur hañ iñ med odrum Hætti, sœ er Þioofur og Spillvyrki: Enn sœ sem geingur iñ um Dyrnar, hañ er Hyrdir Saudanna, fyrir honum lijkur Dyra-Vordurinn upp, og Saudirnir heyra hañs Rodd. Og hann kallar sijna Saude med Nafni, og leider þœ wt, og þa hann hefur sijna Saude wtlœtid, geingur hann frañi fyrer þeim, og Saudirner fylgia honum epter, þviad þeir heyra hanns Rodd. Enn odrum annarlegum fylgia þeir ecke epter, helldur flya þeir frœ honum, þviad þeir kienna ei añarlega Rodd. Þessa Mœls Grein talade JEsus til þeirra: eñ þeir vissu eige hvad hañ sagde þeim. Þa sagde JEsus enn aptur til þeirra; Sannlega, sannlega, sege eg ydur, ad eg em Dyr Saudanna; Og aller, hverier hellst sem fyrer mig komu, þeir voru Þioofar og Spillvirkiar, og Saudirnir hlijddu þeim eige. Eg em Dyrnar: Ef nockur geingur inn um mig, sœ mun frelsast, hann mun og gœnga wt og inn, hañ skal og finna sitt

Foodur. Eñ Þioofuriñ kiemur ei til añars eñ hañsteli, drepi, og fordiarfi, Enn eg er komiñ til þess, ad þeir hafi Lijf og fulla Nægd.

## Exordium.

ERt þu sa sem koma munt, edur eigum vier ad vænta eins annars? Sogdu Johannis Lærisveinar vid Christum, Matth. 11. er þeir voru sender fra sijnum Meistara til ad spyria ad, hver hann være. J hverium Ordum þad er ad athuga, ad Messias hefur nefndur vered a þeim Dogum, SA SEM KOMA MUN, annars hefdi þessi Spurning verid nockud myrk og Oskiliannleg. Þu ert Christur Sonur Guds, hann sem koma skal i Heiminn, sagde Martha Fordum vid Lausnarann, Joh. 11. Og mundi hun ecki hafa avarpad hañ þanneg, hvern hun þeckti kominn ad vera, nema Messias hefdi so almeñilega kalladur verid. Þetta ma vijdar sia i Nija Testamentisins Bookum, og hafa vijser Menn Gydinga i þessu litid til Spadoomanna i Gamla Testamentinu, hvar ed so adkvedur um Messiam, ad hann muni koma; So seger Esajas: Sia, ad Gud, ydar Hofud, kiemur, ydar Endurgialld, hañ kiemur til ad frelsa ydur, þa munu Augu hiña Blindu upplukast, og Eyru hinna Daufu opnast, þa mun hinn Hallti dansa so sem Hiortur, og Tunga hinns Mallausa sijngia, Esa: 35. Til hvers Spadooms, medal annarra, Frelsarenn bender Johannis Lærisveinum, er þeir friettu hann ad, hvert hann være sa sem koma munde. Þetta upplijser þau Ord, er vor Endurlausnare talar i þessa Dags Evangelio, er hañ seger: Ad aller þeir sem fyrer hann komu, hafi verid Þioofar og Spillvirkiar; Hvar hann meinar, efter mijnum faafroodum Skilninge, þa sem fyrer hañ komu, og eignudu sier Nafn hinns mikla Hyrdirs og villdu frelsa Gydinga af Vallde Romveria, eñ boñudu ad giefa Keysaranum Skatt; Þvilijker voru Tevdas og Judas Galilæus, uñ hveria Gamaliel talar i Postulanna Giorninga Book, 5. Cap. Eñ hvernig sem þvi er varid, þa talar DRottinn hier ecki uñ Spamennina, er voru Riettlætisins Predikarar og spadu uñ hanns Tilkomu, og toludu af hañs Anda, helldur añadhvert uñ þessa, sem nu hefi eg nefnt, edur einhveria þeirra Lijka, þoott Sogurnar greini ecki uñ þa: Enn fyrer þvi ad DRottenn vissi fyrir, ad eptir sijna Hiervist a Jordunne mundu upprijsa Fals Christar og Fals Spamenn, ecke sijdur enn fyrer sijna Tilkomu i Heiminn, þeir ed koma mundu til Guds Barna i Sauda Klædum, enn Jnnra voru þeir gleypande Vargar, Matth. 7. Þa segier hann hier i Gudspiallinu, hvert ad sie Merke hinns saña og mikla Hyrdirs Saudanna, epter hverium adrer Hyrdarar eiga ad breita, er hann sett hefur yfir Hiardirnar, P. G. 20. So og a sijna Saude, er hanns Raust alleina efterfylgia. Vier vilium af Gudspiallinu þetta Tvennt hugleida: 1. Hvernig Kienneydlinum elge haattad ad vera. 2. Hvernig Tilheyrendurner eige ad skicka sier.

O þu sem ert hinn mikle Hyrder Saudanna, fyrer Blood þess eilijfa Testamentis HErra JEsu Christe! Styrk oss hier til med Fulltijnge þijns gooda Anda; Bænheyr oss fyrer þijna Forþienustu, Amen.

Utleggs

## Utleggingen̄.

Hvar vor Endurlausnare nefner HYRDER i Gudspiallenu, þa meinar hann i Fyrstu sialfan̄ sig, þvi han̄ er Hofdinge Hyrdaran̄a, sem Petur vottar, 1. Pet. 2. Aller adrer Hyrdarar hafa sitt Embætte af honum, þeir sem ad hanns Vilia eru setter yfir Hiordena; Þvi byriar ollum þeim han̄s blessudu Dæme ad fylgia, og er þad fierdeilis Preñt sem þetta Heilaga Gudspiall vijsar oss til, sem er. 1. Ad þeir sieu in̄ um̄ Dyrnar geingner, þad er, riettelega kallader. 2. Ad þeir lꝍte Saudena heyra sijna Raust. 3. Ad þeir gange undann þeim. Hvad hinu Fyrsta vidvijkur, þa segier Paulus ad sønnu, Hebr. 5. Eingenn take sier þennann Heidur til, helldur sꝍ sem kalladur verdur af Gude so sem Aaron. Þvilijk Kallan brwkast ad søn̄u ecke nu, og jafnvel ecke i gamla Testamentenu, epter þad Gud skipade Konungana yfir sitt Foolk. Spamen̄ena kallade hann ad sønnu, enn Kiennemen̄erner voru af Konungenum setter. So skickade Salomon Kongur Zadoch Kien̄eman̄ i Stad Abiathars, 1. Kong. 2. Og Josaphat tilsette Prestana i Hwse DRottens, 2. Chron. 17. Olle þad þvi, ad ꝍ medann Gud hafde sialfur Stioornena i Israel, þa skipade han̄ ollum Hlutum fyrer Medalgaungu Moysis og an̄arra sin̄a Þienara, sijdan̄ hefur han̄ feinged Konungunum þvilijkt i Hendur, og odrum Valldstiettum, epter þvi sem hveriu Lande hagar. So var og Aaron bæde kalladur og vijgdur fyrer Medalgaungu Moysis, Exod. 28. DRottenn JEsus kallade ad sønnu sijna Postula sialfur, Matth. 10. Enn epter hanns Dijrdarfullu Himnafør voru hanns Kyrkiu Þienarar af Mon̄um kallader, þvi Matthiam og Barnabam wtvølldu Postularner, jafnvel þoott Hluturen̄, ad Guds Vilia, fielle yfir Matthiam, P. G. 1. Biskuparner i Epheso voru af Mon̄um kallader, ecke sijdur en̄ þeir sem Titus Critar Biskup nidurskipade um̄ Borgernar, Tit. 1. Og kallar St. Pall, ad þeir sieu af H. Anda setter yfir Hiardernar, P. G. 20. So skickudu þeir Paulus og Barnabas Ølldungana i Lystris og Iconio, P. G. 14. Og þesse Skickan hellst allt þangad til Gud gaf sijnum Sofnudum christenn Yfirvølld. Þetta segie eg til þess, ad engenn Guds Þienare efest um̄ sijna Kallan, þegar hann er af christelegu Yfirvallde kalladar, sem Gud hefur þetta um̄boded, nema hann hafe med Svikum og Prettum, Gꝍfum og Mwtum stolest in̄ i Sauda Hwsed; Þa er hann eingu betre enn Þioofur og Spillvyrke, og hefur sier eingrar Guds Adstodar ad vænta i sijnu Kalle og Embætte, hversu vel sem hann þykest ad sier vera. So eru þeir nu af Gude kallader, sem eru af Konungenum kalladar, edur þeim sem hann hefur þad Valld i Hendur fenged, þvi han̄ er Guds Um̄bodsmadur a Jordunne, enn þeir hanns, sem af honum setter eru, þo med þvi Moote, ad þeir brwke ecke nein Oleifeleg Medol hier til, og er þad ecke lijtil Huggun fyrer þann, sem ꝍ daglega Mootstodu ad veita Satan og vondum Mon̄um, hanns Þienurum, ad han̄ er af Gude kalladur i þa H. Stiett; þvi mꝍttugur er Gud ad vardveita sijna Þienara er honum treista, og ei brestur han̄ Viliann til þess; Þeir eru skrifader i hanns Hondum, Es. 49. Hver vill þeim granda, fram̄ yfir þad hann leifer? Eg vil um̄ þa segia eins og

Bileam sagde um̃ Jsrael Fordum: Þvi skyllda eg bolva honum? Hinn sterke Gud bolvar honum ecke; Þvi skyllda eg stugga vid honum? Jehova stuggar ecke vid honum, Num.23. Enn hann leiser eckert, nema þad sem er til hanns mikla Nafns Dijrdar, og þeim fyrer bestu, er honum af Trw og Dygd þioona, og er Sæmd ad taka þvi af hañs Hende, hverium sem honum lijkar þvi ad skipta; Þeir meiga ad vijsu tilreikna sier þad sem Paulus um̃ sig skrifar, er hann segier: Eg veit hverium eg hefe trwad, og eg em fulltrwa, ad hann er mættugur ad vardveita þad sem eg hefe honum tiltrwad, 2. Tim.1. Nu er þad ecke noog, Br.M. ad Menn sieu kallader, nema Menn giøre og Guds Verk med allre Athygle. Judas var kalladur, Matth. 10. og gieck i fyrstu inn um̃ Dyrnar, þvi hañ hafde medteked þetta Embætte med þeim, sagde Petur, P.G.1. Enn hanns Setur vard i Eyde, og hanns Biskups Doom medtook einn annar. Og þvi vil eg tala um̃ i ødru lage, hvernig oss byrie ad foostra Guds Saude.

SAUderner Heyra Hanns RODD, segier i Textanum. DRotteñ talar hier epter Sidveniu Gydinga-Lands og añara Landa, þar ed Hyrdararner brwkudu, og eñ nu brwka i Dag, eina Hliood-Pijpu til ad kalla samañ Saudena, so ad þoott margar Hiarder sieu æ Beit i einu Haglende, samt þecker hver ein Hiord sijns Hyrders Must, og skilur sig wr ødrum Sauda-Flock nær hun lætur. Ef Roddeñ skal heyrast, þa skulu Meñ hroopa. Þetta Ord, RODD, þijder optlega, Kieñingu, i Ritningunñe. Þar er Rodd eins Hroopanda i Eydemørku, segier Esaias, C. 40. Hvad Johañes Baptista þijder uppæ sig og sijna Kieñingu, Joh.1. Þvi skipar og Gud Kieñemoñunum ad upphefia sijnar Radder, so sem adrar Bæsunr, Esa.58. Þad er hin andlega Hyrders Pijpa, hveria ad hañ, sem er hiñ mikle Hyrder Saudaña, Hebr.13. hefur oss, sijnum Smala-Moñum, i Hendur fenged, hvers Eign ad Sauderner eru; Eñ til þessa heyrer mikel Kostgiæfne og Astundan, Br.M. Ætled ecke, ad þad mune einu gyllda, hvad þier hrooped; noog Hæreyste meiga Meñ heyra stundum, þad þijtur um̃ Eyruñ eins og añad Stoorvidre; Eñ þvi er ecke so hættad sem Þytnum, er kom yfir Postulana, P.G.2. i hverium ad bioo H. Ande, þvi þad er ecke Guds Ord, sem sumer Meñ tala i helgum Stad, eñ hañ bygger alltijd i sijnu Orde, er hañ i fyrstu iñblies i Hiørtu Postulaña og añarra Guds Manna: Þad er eins og Sterkvidred, sem Elias fañ i Hellrenum æ Guds Fialle Horeb, 1. Kong. 19. Þad klauf i sundur Fiølleñ og braut Klettana, eñ Gud var þo ecke i Vedrenu; So eru Kieñingar sumra Maña; Þær skafa iñañ Eyrun æ Foolkenu, eñ eckert kiemst i Hiartad, þvi þar er eckert af Skynseme, eckert af Raade, og eckert af Guds Orde, þad er Skij fyrer utañ Regn, so sem Judas Postule talar um̃ Guds Dijrdkun sumra Maña. Hvad mun vallda þessu, Br.M.? Þvi Meñ hyrda so lijted um̃ ad safna þvi i Korn-Hlødu Hiarta sijns, er Guds Hiwam byriar ad giefa. DRotteñ kallar þañ Þioon sælañ, Luc. 12. er giefur þeim siñ Verd i riettañ Tijma. Hier af mæ siæ, hvad stoor Frañsijne og Arvekne ad heimtest af einum Guds Ords Þienara, sæ sem æ ad giefa hverium einum i riettañ Tijma þad honum ber: Hañ mæ adgiæteñ og ecke toomlætur vera; Sie nock-

ur

ur Sturladur, sie hann Ofroodur, sie hann Hyrdulaus, sie hann Þverbrotenn, sie hann Efasamur; Ad ollu þessu a eiñ Guds Þioon ad giæta, og lата eckert Verk, einga Sysl-an edur Umsvif tijmanlegra Hluta sig hindra fraa, ad giefa sierhverium af þessum i riett-añ Tijma þad sem þeim ber, ef hann vill giora Verk DRottens Guds sijns trwlega. Og nema vier so giorum, þa er ecke ad dyliast þar vid, ad vier munum ecke einasta Launeñ missa, helldur og þar a ofañ straffader verda, so sem hiñ vonde Þioon, er groof sitt Pund i Jordu, Matth. 25. Vered þvi kostgiæfner, og ætled ecke ad þad sie noog, ad vier hof-um Hroos af Monnum, þvi ef vier leitum epter þvi, þa erum vier ecke Christi Þienarar, Gal. 1. Og uñ allt fram, þa lærum sialfer Guds Vilia ad þeckia, af hanns Orde; Þar i a eins Guds Þienara Kieñing foolgenn ad vera, ad kienna Monnunum ad þeckia Syndena, ad fa hana kvitta og fordast hana. Holldum vier ecke so i Bwskap vorum, ad þoott Foodred sie gott, þa varde miked uñ hvernig þvi sie hagtært; Ætlum ecke ad þad mune vera odruvijs i andlegum Hlutum. Menn segia, ad Foolked skule ecke synd-ga, eñ þo giora Meñ a stundum ecke so skilmerkelega Grein a millum Goods og Ills, so hiñ faafroode lære ad þeckia Syndena, og þad velldur þvi, ad margt þad sem lioott er verdur Dygd hallded, edur, ad miñsta koste, engenn Okostur. Menn segia þeir skule ecke syndga, eñ ei segia Meñ so gloggt, hvornig þeir skule varast Syndena, edur leggia þeim Raad af Guds Orde, hvernig þeir skule sia sig vid þeirre edur þeirre Synd, er ein-hver kañ ad vera hneigdur til. Meñ segia ad þeir skule ecke syndga, eñ tala nærsta dauf-lega þar uñ, hvad hver Synd epter sig leider. Guds Reide nefna Meñ ad sonnu, enn ræda ecke so skilmerkelega uñ þad, fyrer hver Verk hun opeñberast af Himnum ofann yfir Mañana Born, jafnvel þoott Meñ siae þau daglega fyrer Augum sier: Og nær Meñ þañig breita, ætla sumer ad vel sie predikad Guds Ord, og ad þeir sieu gooder Verka-Meñ i Christi Akre, eins og hañ hafe ecke sialfur Merke sett uppa sijn Ord, þar ed hañ segier, ad þau sieu Lijf og Ande, Joh. 6. Eun sumra Maña Kieñingar eru daudt Hiegooma-Rugl, og aflar meir Bana eñ Lijfs. Þegar St. Paall er ad tala Maale voru, 1. Cor. 9. Ad Menn skule hafa Upphellde af Þioonustuñe, þa færer hañ til sijns Maals þa Logmaals-Grein, er stendur Devt. 25. Þu skallt ecke mwlbinda þad Naut sem þresker: Eñ eg ætla ad ei þurfe ad mwlbinda oss suma, þegar Guds Eyr-ende a ad tala: Vær giorum þad sialfer a stundum, edur og Otteñ edur Fie-Gyrnd-eñ, eñ þegar eta skal rijsum vier Mwleñ af, og uppfyllum so þad sem DRotteñ segier fyrer Muñ Ezechielis uñ Voku-Meñena i Juda: Aller eru þeir maallauser Hundar og kuña ecke ad giellta, Ezech. 56. Eñ þesser graadugu Hundar verda þo alldrei sadder. Þetta vil eg hafa sagt þeim, ed brwka Nafn Evangelii til Abata alleina, og þad er þo allt añad eñ Evangelum er þeir tala. Ecke þañig, Brædur mijner! Helldur filged Bode Peturs, er hañ segier, 1. Pist. 5. Foostred Guds Hiord, sem ydur er a Hendur faleñ, og giefed Giætur ad heñe, ecke af Naudung helldur fwslega, verande ecke skiemelegs Aviñings gyrugur, helldur med fwsum Huga, og ecke so sem drottnande yfir Sofnudun-
 um,

um, helldur so sem þeir, ed sieu Fyrermyndan Hiardarennar. Gud hefur sett oss yfer Hiord sijna; Þvi eigum vier Hyrdarar ad vera og ecke Drottnar, þvi eiñ er vor Drottẽn JEsus Christus, hiñ mikle Hyrder Saudaña; Þad ma engeñ Assokun vera þoott sumer hafe lijtel Laun: Hvad hafde Paulus og Barnabas, og hiner Postularner? Sa sem þioonar Christo fyrer lijted, hañ hefur stærra Lien af Gude þeiged eñ hiñ, sem hefur yfirfliootanlegt, so eg þore ad segia, ad hañ mun fegur skijna i Dijrd sijns HErra enn hinn, þoott bader giore þeir eins vel Skylldu sijna.

Giætum og i Þridia Maata þess, sem Petur miñer oss a, ad vier sieum Fyrermyndan Hiardaña. Þad er almeñelega hallded, ad af oheilum Forelldrum kuñe ecke heilbrygdt Afkvæme gieted ad verda; Nu eru Kieñemeñerner andleger Fedur allra þeirra sem þeim tiltrwad er; Eñ ef þeir eru lijtt vander ad Hlut sijnum, og hyrda ecke um hverneg þeir lifa, og eru i þann Maata andlega vanheiler, hvernig meiga þeir Gude andleg Born fæda? Sonakorn mijn, segier Paulus vid þa i Galatia, med hveria eg aptur ad nyu þwngbwẽn er, þar til Christur myndast i ydur, Gal. 4. Eñ hvernig gietur Christur vorded i þeim myndadur, hverra Mooder, þad er Kieñemañsins Saal, afneitar ollu christelegu Athæfe, eñ hlijder Dioflenum i Ogudlegu Framferde? Og þoott ad Gud kuñe ad framkvæma sitt Verk i sumra Tilheyrenda Hiortum, fyrer Naad sijns Anda, sem ad verkar i Ordenu, þa er þad ecke hinum rangsnwna Kieñe-Fodur ad þacka; Ad soñu hefur hañ med siñe Þioonustu vered Medal til, ad hun er i Skijrneñe endurfædd; verda ma og, ad hañ tale þad eitthvad af Predikunar-Stoolnum, er heyrer til Saaluhialpar og Lifnadarens Betrunar, eñ hvad gagnar þad? Þegar hañ hvad mest aminer og eggiar a hinar andlegu Dygder, Kiærleikañ, Myskunsemena, Hoogværdena, og, i einu Orde ad segia, a Deydingu sijns Holldsog Bloods; þa sijner hañ þo i Verkunum, ad þeim Hlutum sie Omogulegt af Stad ad koma, er hañ bijdur af Predikunarstoolnum, leggiande so þad Ok a Herdar Læresveinaña, er hañ ecke snerter med hinum miñsta Fijngre, Matth. 23. O vei! O vei! hvilijk Gudlostun er þad, nær Embætte Forlijkunarennar er þannig brwkad Andskotanum til Þioonustu! Þetta er hin mesta Landraada Sok i giegn Gude, þvi þad er ecke einasta hanns Þegna undañ honum ad raada, helldur brwka þa a moote honum, enn giefa sig i Lid med Satan, hver ad er svarenn Ovinur hins alvallda Kongs. O! hversu skielfeleg mun þeirra Pijna verda um alla Eilijfd, er þannveg vanbrwkad hafa Myndugleika sijns Embættis! So eg er viss um, ad hver sem kyñe ad leggia Eyrad vid Helvijtis Muña, og mætte heyra Oop og Taña-Gnijstran þeirra fordæmdu, þa mundu þo Kieñemañaña Hliood yfirtaka, og meina þeirra, sem hafa leidt hanns Hiord, sem med Guds eigeñ Bloode er endurkeypt, P. G. 20, a Veg Glotunarennar, bannande so Moñum iñ i Himnarijke, og sialfer koma þeir þar ecke iñ, Matth. 23. Fyrer þvi, O Notteñs Kiennemeñ, verum ecke eins og Vordur þær, er standa a Heidum uppe, og vijsa ad soñu Veigenn, enn ecke fara þær wr Stad, so þær leide hiñ vegfarande til Hybijla; ecke eins og Klucka, sw er hanger fyrer Kyrkiu-Dyrum, hun kallar Foolked

ed til samans til Guds Orda Heyrnar, enn sialf heyrer hun eckert. Treyste og einginn þar uppaa, ad hanns Embætte sie heidarlegt, edur ad hann hafe Guds Umbod aa Hendi, nema hann gange verduglega þeirre Kallan, hvar inne hann er kalladur, Eph. 4. Maalmurenn i einni brotinni Klucku kann goodur ad vera, enn samt er hun ecke miog hæf til Þioonustugiordarinnar; So er og Embættid jafnann heidarlegt, enn þad lijdur Vanvirdu aa Stundum, fyrer Ofkickun og illa Breitne þess, sem þad Starf er aa Hendur er falid. Edur seged mier! Hvad kunna Tilheyrendurner ad þenkia ann ad um hann, sem ei giorir nema bendir med Fingrinum til Guds Vegar, enn sialfur gengur hann ecke, helldur enn þad, ad annadhvert meine þesse Madur eckert af þvi hann talar, edur og ad saa Gud, er hann kiennir, muni ei vera so miog vandur ad Lijfernis Hættum syndugra Manna, sem hann seger? Laate Menn sier þvi ecki nægia þar med, ad þeirra Kienningu er hroosad, jaa, ecki þoott hun sie mikillrar Hroosunar verd i sialfre sier, nema Menn framkvæmi þad i Verkunum, er Menn tala med Munninum. Eg vil hier um vidlijkt segia, og Endurlausnarenn sagde Fordum vid Lærisveinana, Luc. 10. Fagned ecke af þvi ad Andarner eru ydur undergiefner; helldur af þvi ad ydar Nofn eru skrifud aa Himnum. So vil eg segia: Glediest ecke so þar af, ad þier hafed af Gude þeged goodar Gaafur til ad kienna, helldur meir af þvi, ad ydar Sofnudur leidrietteft, geingur aa Guds Vege, elskar Gud og hanns Ord, ef hanns Rijke uppbyggest aa medal ydar, enn Andskotans verdur niderdrepid. Gledieft af þessu, Br. M. og legged allt Kapp aa, hvad ydur audvelldlega takast mun, ef þier fylged Bode St. Paals, er hann skrifar til Timotheum; Vert Fyrermyndan hinna Trwudu i Ordinu, i Umgeingninne, i Kiærleikanum, i Andanum, i Hreinlijfinu, Tim. 4. Og hefi eg nu nockud talad um Skylldu Kiennimannanna. Epterfylger med faaum Ordum ad segia um Tilheyrendanna Skylldu; Hun er Tvøfolld: Ein vid Gud, og Onnur vid hanns Þienara; Hin Sijdare hanger af hinni Fyrre; Og þvi vil eg fyrst þar um tala.

Hier stendur i Gudspiallinu: Sauderner Fylgia Honum Epter; Þvi Þeir Þeckia hanns Raust. Eg hefi nockrum Sinnum þar um talad i Book þessare, mijner Elskanleger hvad oss eige ad knya til þess ad heyra Rodd DRottinns, sem er hanns Ord, þvi vil eg þess færra þar um tala i þessum Stad, jafnvel þoott alldrei sie good Vijsa of opt kvedinn. Hier stendur: Ad Sauderner Fylge Hyrdernum Epter, Af Þvi Ad Þeir Heyra Hanns Raust: Hvad er þad; Honum epter ad fylgia? Hyrdirenn er Christur, þad er ad fylgia honum epter, ad lifa christilega. Hvad er ad lifa christilega? Þad er ad hallda Guds Bodord, ef ecki fullkomlega, sem Omogulegt er, þa þo ad þvi Leite, sem oss er mogulegt. Hanns Matur og Dryckur var ad giora hanns Vilia sem hann sende; so aa oss eckert so kiært ad vera, sem ad giora hanns Vilia, Joh. 4. Elska skallt þu DRottinn Gud þinn, þad er hid ædsta og mesta Bodord, Matth. 22. Enn hvad seger Christur? Joh. 14. Ef þier elsked mig, þa vardveited mijn Bodord. Hann vegsamade Guds H. Nafn fyrer Monnunum: Ef vier viljum honum epter fylgia, þa laatum oss þad fiær-

lægt

lægt vera, ad misbrwka hanns Nafn til ad leggia þad vid Hiegooma, enn þo miklu sijdur ad liwga vid þad, ſveria edur Fiolkyngi fremia. I einu Orde ad ſegia: Chriſtur ſiñ ecki var Løgmaalinu undergiefinn, hann uppfyller allt Løgmaaled; So eigum vier af fremſta Megne ad æfa oſs i Hlijdne allra Guds Bodorda, og ecki ſkamta oſs ſiaalfer hvad miked edur lijted vier vilium hallda þar af. Ecke ad elſka alleinaſta Fodur og Moodur, enn hata alla adra; Ecki ad vera einaſta meinlaus i Umgeingne, og goodvikiñ vid Naaungann, eñ kreinkia hañs Hwsfrw edur Frænd-Konur; Ecki alleina ad vakta ſijn Augu fyrir Lauslæte, eñ ſtela þo Naaungans Gotze og ſvijkia hañ i Kaupum og Solum; Ecke er þad noog, ad laata hañs Femune kyrra, eñ baktala hañ þo og Ofrægia, Jaa, liwga uppaa hañ Lijtum og Skomum, bera Fals-Vitne aa moote honum, edur neita honum Sañleikans Vitnes, ſem er allt hid ſama. Ecke duger þetta, Br. M. Ecki er þad Chriſto epter ad fylgia, þvi ſaa ſem er ſekur i einu af Bodordunum, hann er brotlegur i ollum, Jac. 2. Þar fyrer er ad þvi vijſu ad gaanga, ad ſaa ſem lætur epter ſier nockud af þeſſu, og dryger þad vijsvitande aa moote Samvitſkunne, hañ er ecke af Chriſti Sauda-Hwſe. Hvad er hann þa? Hann er Braad Ulffins, ſem er Andſkotañ, og mun honum ad eilijfu Herfaange verda, nema hañ ſnwe aptur. Eñ hvernig vill hañ ſaa þad giort? nema hañ heyre Rauſt hiñs gooda Hyrders, nær hañ kallar: Þvoed ydur, hreinſed ydur, taked ydar Illſku-Breitne fraa mijnu Auglite, laated af Illu og lærid Gott ad giora, Eſ. 1. Þeſſe er hanns Rauſt, og ef þier af Hiarta ydreſt ydar daudra Verka, og laated ydur aangra ad þier hafed Gud ſtygdann, þa lætur hun enn þa hærra, er hann ſeger: Komed til mijn aller þier ſem erfided og Þwnga erud þiaader, eg vil endurnæra ydur: Taked aa ydur mitt Ok og læred af mier, þviad eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtillaatur, og munud þier finna Hvijld Saalum ydrum, Matth. 11. Þeſſe er Rauſt hiuns gooda Hyrders i allre Ritningunne, i ollu Guds Ordi, og þañeg aa eins Hroopanda, eins Predikara Rauſt ad vera i Eydemorku Veralldarar þeſſarar. Þier vited, Br. M. ad vier daglega ſyndgunſt; Laſtaña Greiner ſpretta yduglega wt wr þeirre Molld ſem vier erum giorder af, ſijdann Fiandmadureñ ſaade þar Illſkunnar Sæde, þær verdur afad hoggva, ſo opt ſem þær vaxa. Med hveriu þa? Med Guds Orde, ſem er eitt Tvieggiad Sverd, og framgieck af hañs Munne, er Johañes ſaa gaanga aa mille Liooſaſtiakaña, Op. B. 1. Guds Ord er eiñ Elldur, ſaa ed breñer upp oll Saurende Gyrnda og Laſta, ſem oſs eru medfædd: Þad er einn Hamar, er ſundurmer Hiortu vor, ſo þau verde Bwſtadur Guds, og ſundurknoſar vorn Anda, ſo hañ verde þad Offred ſem DRottne lijkar, Pſ. 51. Hier uñ talar hañ hia Jeremiam, Cap. 23. Er ecki mitt Ord ſo ſem Elldur, ſeger DRotteñ, og ſo ſem eiñ Hamar, ſaa ed Klettiñ i ſundur molar? Guds Ord er eiñ Elldur, ſem ſagt er. Aaron ſagde Fordum ſier til Afgotunar: Miñ Herra, eg kaſtade Gullinu i Elldiñ, og þar vard af þeſſe Kaalfur, Exod. 32. Riett-trwads Mañs Hiarta er hveriu Gulle dyrmætara: Koſtum þvi i þennann Elld, þar af mun ſiaalfkrafa vaxa eiñ Kaalfur, ecke Svijvirding Egyptalands, ſo ſem

Aarons

Aarons Kalfur, helldur ein lifande Foorn og Gudi þacknæmileg, sem eru Kaalfar Vara vorra, Os. 14. Þesse er sw Skylldañ, er vier eigum Gudi ad giallda, og giolldum vier, ef satt skal segia, Br. M. ecki j hañs, helldur i vorar Þarfer. Jardneske Hyrdarar fæda Saudena fyrer Ullina og Mioolkina, eñ DRotteñ fædir sijna Saude fyrer alls eckert; Einkis krefur hann af þeim, nema ad þeir skule Ottast sig og elska, og ætte þad ecki ad vanta, Christner Menn; Þvi ef vier elskum vora Laanar-Drottna fyrer þad þeir giefa oss Føt og Fæde, og vinnum þeim alltijd þo nockud til Þarfa: O! þvi skylldum vier þa ecki elska hinn gooda Allsheriar DRottinn, er ecki einasta fæder og foostrar Lijkami vora, helldur og elur Saaler vorar a þessu himneska Mañа, jaa, a sijns Eingietins Sonar Holldi og Bloodi, sem er Lijfsins Braud af Himnum ofañ komid, Joh. 6. Verum þvi ecki so Jllgiarner a mooti sialfum oss, ad vier daufheyrunst vid þessa gooda Hyrdirs-Raust, hver ed foostrar oss i lystelegum Gras-Haga, og leider oss ad ferskum Vøtnum, Ps. 23. Øll syndugs Mañs Olucka kiemur þar af, ad hañ liær ecke Guds Raustu Eyruñ: Hverneg meiga þeir trwa nema þeim sie predikad? seger Paall, Rom. 10. Enn eg maa spyria: Til hvers skulu þeir predika, nær eingiñ vill heyra? Og hverneg a Guds Ord ad verka i Hiartanu, nær þad kiemst ecke i giegnum Eyrun, sem eru Dyr Hiartans? Lamparner voru fyrst kveikter i gamla Testamentinu aadur enn Reykelsed var tendrad, Exod. 27. og so verdur Skilningurenn fyrst ad upplijsast, ad Manneskiañ þecke Gud og sialfa sig aadur enn Gyrndeñ kviknar, og Audmykteñ lifnar til ad afneita sialfum sier, eñ elska Gud. Enn hvar er slijka Guds Giof ad faa, nema i hanns H. Orde, þau eru Lampar þeir, Ps. 119. sem Reykelse vorrar Ydranar, vorrar Trwar, vorrar Bænar, Reykelse Elskuñar til Guds og Naungans skal tendrast med, so þeirra Jlmur stijge upp fyrer Guds Haasæte og samteingest þar DRottenns Forþienustu oss til Forlijkunar. Og er nu so wt-talad uñ Skylldu vora a moote Gude vorum i þessu.

Enn hvad vora Skylldu aahrærer vid Kieñendurnar sem oss eru i Guds Stad setter, þa er hun nærsta mikel. Eg mun þykia bermælltur vered hafa uñ þeirra Skylldu i hinum fyrra Parte Rædu miñar, og vil eg þvi viked hafa til þeirra sem ecke taka Vara a sijnu Embætte, og lijted hyrda uñ hverneg þeir kieña edur lifa; Enn Gude eru Packer ad kunna, ad hann hefur giefed oss marga sijns Ords Kiennendur, þaa ed bæde predika þad hreint og klaart, og so prijda Kieñinguna med Lastvoru Frañferde. Þesser hafa stoorann Myndugleika af Gude, Børn mijn. Hiaa þeim a þad heima sem DRotteñ seger, Luc. 10. Hver hañ forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig. Ecki er oss ad þeim ad leita, sem ecki fiñist mañlegur Breiskleike hiaa: Gud hefur nærsta Vægdarsamlega høndlad vid oss i þvi, so sem øllu odru, ad hann hefur ecki sendt oss Engla af Himnum til ad kienna oss, þvi vier mundum ecke standast þeirra Naalægd, helldur synduga Meñ eins og vier erum, og hefur prijdt þaa med Englanna Nafne, Malach. 2. til ad laata oss vita, ad þeir sieu hañs Sendebodar til vor, hveria hann vill laata medtaka i sijnu Nafne

Hverke Petur nie Paall, edur nockur añar af Postulunum, voru œn mannlegs Veikleika. O hvad munum vier þa vera, sem eingañ veginn erum þeirra Lijkar! Kiennimennirner i gamla Testamentinu œttu ad forlijka fyrer sijnar eigenn, œdur eñ þeir Offrudu fyrer Foolksins Synder, Hebr. 7. Enn ei ad sijdur villde DRotteñ ad Foolked skyllde þeim hlijded og undergiefed vera, so ad hann seger: Hver sem ecke vill Kieñimañinum hlijda, hañ skal deya, Devt. 16. Nu þoott ad þetta Løgmœl sie afteked, ad so miklu Leite sem Lijkamans Straffe vidvijkur, þa er þad samt og œdur vijst, ad hver sem ecki hlijdir einum DRottinns Kiennimañe i ollu þvi, sem hann honum i Guds Nafne riettilega bijdur, hañ deyr andlegum Dauda, hann er ecke Christilegrar Kyrkiu lifande Limur, hañ er daudur i Synd þeirre er hañ vill ecki rœda Boot œ, og nema hann hlijdnest DRottiñs Þienara og ydrest af Hiarta œdur eñ hañ deyr, mun hañ eilijfum Dauda deya. Þier vited hvad DRotteñ sagde Fordum Daga uñ Phariseos og Skriftlærda, Matth. 23. Ad Menn skylldu giora epter þvi sem þeir segdu, enn ecke epter þvi sem þeir giordu, af þvi þeir sœte œ Moysis Stooli. Hversu miklu framar byriar oss þa ad hlijda rœdvøndum Kieñimoñum er undañ oss gœnga i Otta Drottins, og eru Ostraffanleger, sem Paulus ad Orde kiemst, 1. Tim. 3. Þad er, hveria Meñ ei kunna ad straffa fyrer nockurn Glœp edur Hneixlissama Umgeingne, þoott ei sieu þeir fyrir Gude Syndlauser. So eigum vier nu vorum Kienni-Fedrum ad hlijda, i þvi þeir oss biooda, Guds og sijns Embœttis vegna, eins og sialfum Gude, þvi þeir eru Verkanautar Christi, og Rœdsmenn hañs Leindardooma, sem Paulus vottar, 1. Cor. 4. Þar fyrir seger og sialfur Christur, Luc. 10. Hver ydur heyrer, hann heyrer mier.

J audru Lage eigum vier ad heidra og elska vora Kienni-Fedur. Þvi bijdur Paulus oss, 1. Tim. 5. segiande: Þeir Olldungar, sem vel forstanda, halldest Tvofalldligs (þad er, mikils) Heidurs verduger, allra hellst þeir sem erfida i Ordinu og Lærdoominum, so sem eru Trwlyuder Kienni-Fedur medal vor, Br. M. Og þvi skylldum vier ecki heidra Guds Sendiboda, ef vier hann heidrum? Hvilijkt er þa Rœnuleyse sumra Manna, er þeir harast vid sijna Kieñi-Fedur, af þvi þeir straffa hiœ þeim Synder og Leste, og vilia hafa Sœlum þeirra hoolpid wr Glotuniñe? Þar finnast Ogudleger Skaalkar, er ecki svijfast ad leggia Heudur œ siñ Sœlusorgara, þeir ed skiema hann wt i Ordum sijnum Leynt og Lioost. Hvad er ad giallda Illu Gott ef þvilijkt er ecki? Hvad er ad giora Uppreist œ mooti Gudi, ef ecki er þetta? Og eru þeir engu betre sem Maktina hafa, og soddann Glœpe ecke einasta Ohegnda lœta, helldur og taka slijka Ohœfu i Forsvar, sem Dœme munu tilgiefast. Vel er þad satt, ad Guds Þienare œ alla Hlute ad lijda fyrir hañs Saker, eñ þo mœ hann beidast Riettar sijns, nær so vid ber, þvi ecki einasta hañ helldur og hanns Herra er i slijku vanvirdtur. O hvilijkt Nidurdrep er þad Christ: Rijki, þegar soddañ Gudleyse er ecke straffad af þeim, sem þar til Valld hafa af Gude og Konunginum! Egyptsker stroffudu þann œ Lijfenu, sem ecke hiœlpade einum Ferdamanne wr Rœningians Hondum ef hann kynne; Giœte þeir ad þvi, sem Makt

hafa

hafa til ad straffa þa sem Guds Þienurum ofbiooda med Orde edur Verke, hvilijk Gu- ds Reide yfir þeim hanger, i hveriu Faare þeirra Lijf og Saal vera mune, þegar hanns Hefnd vaknar einhvern Tijma, nær þeir ecke hiaalpa þeim i riettre Sok, sem af Gude eru setter til ad hiaalpa Saalum Ohlutvandra Mañawr Kverkum Satans, sem er Ræn- inge Saalnanna. So eru þeir og nockrer, sem Andskoteñ hefur so blindad med Foolsk- uñe, ad nær einn Christi Þienare segier þeim til Syndanna, vilia þeir ecke þiggia Guds Lijkama af hanns Hende; Þeir giora sier Þusund Mein fyrr eñ þad skule aa þa ganga, og sæta giarnañ þeim Tijma, nær einhver añar flytur Guds Þioonustu i Kyrkiunne. Þessa erü morg Dæme, þvi verr! Og þetta giora sumer af þeim, ed segiast vera nockud, þoott ei kunne þeir Prestenn um̄ nockra Sok ad klaga, og nefna þetta Samvitsku Vei- ke sijna; Hvar i þeir fara ei miog villt, þvi Dioflullenn plaagar Saaler þeirra med Heiptenne, sem þeir leggia aa þann, er þeir ættu, næst Gude og Konungenum ad elska. Segied mier! Mun ecke Satan hlæa ad slijkum Daarastap? Og mun ecke DRottens Lijkame fordæma þa merkelega, nær þeir stelast til ad medtaka hañ, med soddann Hiar- talage moote sijnum Kienne-Fodur? Mun ecke hanns dijra Blood, med hveriu Syn- darenn er endurkeiptur, hroopa Bolvan i Himenenn yfer þeim? Þad Auga sem spot- tar sinn Fodur, edur forsmaaer Hlijdne Moodur sinnar, þad munu Hrafnarner wt- kroppa, segier Salomon. Eñ segied mier; Eru ecke riettsinnader Kieñendur Fedur vorer? Ordsk. 30. Segier ecke Paulus, 1. Cor. 4. Eg hefe gieted ydur i JEsu Christo fyrer Evangelium: Þeir eru og riett-kallader þessu Nafne, sem gooda Forstodu veita, þvi so sem vorer lijkamleger Forelldrar eru Medal til ad framkvæma Naatturuñar Ve- rk, so eru og hiner andlegu, sem eru riettsinnader Ordsins Þienarar, Medal til þess, ad framkvæma Guds Verk i oss, sem er ollu ædra, þvi aa þa eingu sijdur ad elska og virda. Eñ þad kalla eg, ad hiñ graaduge Hrafn Dioflulleñ hafe alla reidu þeirra Saalar-Augu wtkroppad, sem hata so nockurn Guds Ords Þienara, sem er hanns Fader, ad hann vill ecke þiggia af honum þa Guds Þioonustu, er hann aa ollum Christi Limum ad veita, og giorer sig þannig Guds Rijkis Overdugann. Heyred þvi St. Paals Ord, af Pistl- enum til Hebr. Cap. 13. Hlijded ydar Leidtogurum og heyred þeim, þeir ed vaka yfir ydar Saalum, so sem þeir ed þar fyrer eiga Reikningskap ad giora, so þeir giore þad med Fognude og ecke med Andvarpan, þvi þad er ydur Oþarflegt. Þad er hinn ædste Fognudur Guds Ords Þienara, sem vilia trwer finnast, ad þeir sie nockud aavorkad med sijnu Erfide, og þvi kallar Paulus þa i Philippis sinn Fognud og sijna Coronu, Phil. 4. Þvi segiest hañ ecke þurfa Hools-Briefanna vid, er hann skrifar Corinthiis til, þviad þeir sieu sitt Brief skrifad i Hiarta sijnu, sem skiled og lesed verde af ollum Monn- um, 2. Cor. 3. Aptur er þad hin mesta Sorg, nær þeir faa eingu til Leidar komed vid suma Meñ, nær þeir sia fyrerfram̄, ad þeirra Sauder, vegna Þvermoodsku sinnar, deya wt af fraa þvi heilnæma Foodre Guds Orda, ecke tijmannlegum, helldur eilijfum Dauda. Augustus Keysare sagde um̄ Born sijn, er skickudu sier illa, og midur eñ hañs

Tign ſoomde, ad þau være ſijnar Þriaar Akomur. So meiga trwer Guds Þienarar ſegia um̃ þad Illgreſed, er Dioſullenn ſaer nidur i Guds Akre, ſem þeir eru yfirſetter: Þad eru þeirra Akomur, þeirra Meinſemder, þad eru Illſku-Kijle og Graftrar Mein, ſem eta i kriingum ſig med vondum Dæmum, og eitt Swrdeig, ſem ſpiller ollu Deigenu, ef til vill, nema þau læknud ſieu.

I Þridia Maata eigum vier Saaluſorgurum vorum ærlegt Upphellde ad veita; Þad baud ſialfur DRotten̄ hia Matth. Cap. 10. er hann ſende þaa wt ad predika; Verdur er Verka-Madureñ ſinna Launa, ſagde hann. Þad hefur hann itrekad fyrer Muñ St. Paals, hver þo erfidade ſialfur med ſijnum eigenn Hondum, ſo hann ecke legde Þijngſle aa Sofnudenn i Corintho: Hann ſegier i hinu Fyrra Sende-Brieſi til þeirra, Cap. 9. Hvor fer nockurn Tijma i Hernad uppaa ſinn eigenn Koſtnad? Hvor plantar Vijngard og etur ecke af hanns Avexte? Hvor fæder Hiordena og etur ecke af Miolk Hiardarennar? Þier ſegied vel, Br. M. vier giorum ſvo, vier giolldum Kiennefedrunum þad Logenn oſs tilſegia; Þad er ſatt, morgum fer vel i þvi, þeir eru og ſumer er meira giora enn Log-Skylldann bijdur, og hafa þeir hiaa Gude Launa ad vænta, ſem ecke vill laata einn Vatns-Dryck Olaunadann vera ſem giefenn er i Læreſveins Nafne, Matth. 10. Þad er, jafnvel hid minnſta, ſem hanns Þienurum er til gooda giort, um̃ hveria hann ſier i lage talar i þeſſum Stad, þoott þad og meige til ſaatækra heimfæraſt. Enn ſo munu aptur aa moot finnaſt þeir, ſem ecke eru ſo miog adgiætner i ſlijku, þeir ed greida þad þeim greida byriar med illu, med Eptertolum, med Raangſleitne i þvi er ſijſt hagar, og aa hinum Oheutugaſta Tijma, og þyker þad nærre þvi verſt allra Skullda loked, ſem gollded er DRottens Þienurum, og kalla ad Preſtar hafe ecke miked fyrer ſijnu Braude. Ecke giet eg ſagt ad þvilijkar Manneſkiur elſke miog Saaler ſijnar, þvi annars mundu þeir hyrda meir um̃ ſinn Saaluſorgara. Lijted vita þeir af, hvad Kiennemannlegu Embætte fylger, hvor Mæda, hvor Um̃hyggia, hvor Aſtundan, ef þad af Alvoru nockurre giort er. Segied mier; Mun þad lijtel Mæda ad þeir vaka yfir ydar Saalum med Bænenne til Guds? Med Koſtgiæfne i hanns heilogu Orde, ſem ydur ſkal predikaſt? Munu þeir hriſta þad Foodur wt af Ermenne, er ſierhverium ydar giefa ſkal i riettann Tijma? Mun ei þurfa Omak og Adgiætne til ad þeckia ſo hvern einn af þeim ſem Guds Þienara er tiltrwad, ad hann giæte boded þad hvorium einum ſem honum er hagannlegaſt? Leggia ydar Kiennefedur ecke optlega ſitt Lijf i Hættu fyrer ydar Velferdar Skulld? Meiga þeir ecke taka aa ſig þa Þyckiu og Ovilld vondra Manna, nær þeir ſegia þeim til Syndanna? Byriar þeim ecke ad þvijnga ſinn eigenn Lijkama, ad ecke predike þeir odrum, og verde ſialfer ræker? 1. Cor. 9. Og hvad allra þijngſt er, ad þeir ſkulu giora hinum Alvallda Doomara Himens og Jardar Reikningſkap fyrer Saaler ydar aa Deige alls Hollds, og ſvara til ef nockur tapaſt, hvert þad er af hanns ſialfs Vijtum edur Kiennemannſins Vanrækt. Vilied þier ſegia mier þa, ad einn Preſtur vinne ecke fyrer ſijnu Braude, edur honum ſie

af-

ofgiefed, þad hann nijtur? Þier segiest giallda, þad þier erud skylduger: so er þad fyrer Monnum; Engenn kann meira wt ad heimta. Eg segie ecke helldur ad þier skulud giefa þeim fram yfir Skylldurnar, sem noog Upphellde hafa, og siaalfer ættu helldur ad leggia af vid adra enn taka fraa þeim. Enn hina, er vinna þurfa Bake brotnu, þeir og þeirra Born og Kvinnur fyrer Lijfs-Næringu sinne, sokum lijtels Upphelldis, sem vijda er, þa ættu Menn ad þeckia framar odrum, so sem Paulus bijdur, 1. Thess. 5. segiande: Eg bid ad þier þecked þa sem erfida aa medal ydar, og ydur Forstodu veita, og kienna ydur og ad þier hafed þaa somu yfirmaata kiæra, fyrer þeirra Verks-Skulld. Ad þeckia, merker hier ad elska, (so sem Postulenn leggur þad siaalfur wt) ecke einasta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sannleika, 1. Joh. 3. Eg þecke mijna Saude, og eg þeckest af mijnum, segier JEsus, Joh. 10. So sem Gud þecker oss, þad er elskar, So eigum vier ad þeckia vora Kienne-Fedur: Enn hvornig þecker Gud oss? Þannig, ad hann giefur oss alla Hlute ananægiannlega til Notkunar, 1. Tim. 6. So eigum vier ad meddeila þeim ollum Giædum sem oss uppfrædda i Ordenu, Gal. 6. Hvad medtokum vier af Guds Hende fyrer þeirra Medalgaungu? Andlegt Foodur Saalna vorra. Heyred þa hvad Paulus segier hier um, 1. Cor. 9. Ef vier hofum saad ydur hid andlega, er þad þa miked, ad vier uppskierum ydvart hid lijkamlega? Þu gielldur allar Skylldur Prestenum, þad er gott; Hann kann ei meira ad heimta; Enn ef þu sier þinn Saalusorgara Naud lijda, hungra, þyrsta, edur Klædlijtenn vera, og þu hiaalpar honum ecke, ef þu hefur Raad þar til, þa hefur þu eingannveigenn loked þijna Skylldu Gude, sem er bæde þinn og hanns DRottenn; Þvi ef Postulenn segier, ad Guds Kiærleiki sie ecke i þeim ed so breyter vid einhvern annann, sem naudstaddur er, 1. Joh. 3. Hvernig maa hann vera i þeim, er so giorer vid sinn Kienne-Fodur, sem honum er framar odrum Vandabundenn? Hugsa þvi ecke med þier, ef þu aatt faatækann Saalusorgara, þann er ræker sitt Embætte: Hvad er mier vandara enn þeim, sem lifa i odrum Sofnudum? Þegar eg gielld og gief eins og þeir, þa hefe eg afloked Skylldu minne: Þvi Gud hefur giort betur til þijn enn hanns, sem eckert þarf af ad leggia vid sinn Kienne-Fodur, þar hann hefur giefid þier Ordsok til ad leggia Skulld inn hiaa siaalfum sier, ecke þess vegna, ad hann kunni nockrum skylldugur ad verda, helldur Saker sinna Fyrerheita. Eg Paall hefi skrifad med minni eiginn Hendi, eg skal betala; Sagdi hann Fordum i Sende-Briefenu til Philemonem; Enn eg er Gud alleina rijkur; Eg hefe talad fyrer Munn mijns Eingietens Sonar, ad einn Vatns-Dryckur i Læresveins Nafne skule ei Olaunadur vera, segier DRottenn, Matth. 10. Sem sem vill siaalfunn sier vel, hann giore vel vid sinn Kienne-Fodur; Saa sem siaalfann sig elskar, hann elskar Saalu sijna; Hver ed sijna Saalu elskar, hann elskar Gud, sem hana skapad og frelsad hefur; Saa ed Gud elskar, hann elskar hanns Þienara; saa ed hanns Þienara elskar, hann sier Ogiarnann ad þeir Naud lijde, ef hann fær vid þvi giort: Þar fyrer, saa sem vill siaa-

lsum sier vel, hann vilie under eins sijnum Sælusorgara, sem hønum er i Guds Stad settur. Enn Gud Allsheriar, sa ad er Fader vor allra, hann stioorne oss so hier i Naadenne, bæde Yfirbodnum og Undergiefnum, ad vier þeckium so hver annann, ad vier um̃ sijder af hinum ædsta Biskupe og Hyrder Sælna vorra, mættum þeckter verda, og innleidder a Land lifande Manna, so þar verde eitt Sauda-Hws og einn Hyrder. Þad bænheyre hinn Naaduge Gud, fyrer JEsum Christum, AMEN.

